# FLATEYJARBOK.

## EN SAMLING AF NORSKE KONGE-SAGAER

MED INDSKUDTE

MINDRE FORTÆLLINGER

OM

BEGIVENHEDER I OG UDENFOR NORGE

SAMT

ANNALÈR.

UDGIVEN

EFTER OFFENTLIG FORANSTALTNING.

FÖRSTE BIND.

CHRISTIANIA.

P. T. MALLINGS FORLAGSBOGHANDEL.

1860.



# INDHOLD.

Þessa bok aa Jonn Hakonar sun. er her fyrst aa kuædi. þa huersu Noreghr bygdizst. þa fra Eireki vidforla. þar næst fra Olaafi konungi Tryggua syni medr ollum sinum þaattum. þui næst er sagha Olafs konungs hins helga Haralldz sunar med ollum sinum þaattum ok þar medr sögur Orkneyia jarla. þa er Suerris sagha. þar eftir Hakonar saga gamla med soghu Magnusar konungs sunar hans. þa er þaattr Einars Sokkasunar af Grænlandi. þar næst fra Helgha ok Vlfui hinum illa. þa hefr vpp annaal þegar heimrenn er skaptr. tekr hann allt til þess er nu er komit heimstodunni. hefir skrifat Jonn prestr þordar son fra Eireki vijdforla ok Olaafs sogurnar baadar. enn Magnus prestr Thorhallz sun hefir skrifat vpp þadan ok sua þat er fyrr er skrifat. ok lyst alla. Gledi gud allzualldandi þaa er skrifadu ok þann er fyrir sagdi ok iumfru sancta Maria.

# GEISLI

## ER EINAR SKULASON QUAD VM OLAF HARALLDZSON.

Eins ma ord ok bænir
allz raadanda hins snialla
vel er frodr sa er getr goda
guds þrenning mer kenna.
gofugt lios bodar geisli
gunnoflugr miskunnar
agætan byd ek itrum
Olaafi brag solar.
2. þeirrar er heims i heimi
heims myrkrum bra þeima
ok lios medan var visi
vedr kalladizst hallar.
sa leet bert fra biartri
berazst madr vnd skyiadri
frægr stod af þui flædar
faurnudr raudull stiornu.
3. Sidar heilags bra solar
setrs var þat fyrir betra
audfinnendum annars
omiors roduls liorsi.
æzstr þrifnudr reed efnazst
oss þa er lif a krossi
iardar allra fyrda
onaudigr tok dauda.
4. Upp rann allrar skepnu
iduandr a dag þridia
Cristr med krapti hæstum
kunnr rettlætis sunnu.
veit ek at milldr fra molldu
meginfioldi reis holda
iflaust ma þat efla
ossa vaan med baanum.
5. Sonr ste upp med yndi
audar milldr fra haudri
iofra bezstr til æzstrar
allz raadanda hallar.
lofadr sitr englum efri
audlinga hnigr þingat
dǫglings hird a dyran
dagbols konungr stoli.
6. Veitti dyrdar drottinn
daaduandr giafir anda
maal kynnazst þau monnum
mattigs framir vaatta.
þa reis vpp su er einum
alþyd gudi hlydir
hæstr skiolldungr bydr haulldum
himinvistar til kristni.

7. Nu skulum gofgann geisla
guds hallar ver allir
itr þann er Olafr heitir
alstyrkann vel dyrka.
þiod veit hann vnd heida
hridblaasnum sal vida
menn nemi maal sem ek inni
min iarteignum skina.
8. Heyrdu til afreks orda
Eysteinn konungr beinna
Sigurdr hygg at þui snoggum
soknsterkr hue ek fer verka.
dreingr berr od fyrir Jnga
yduart bid ek magnit styrkua
mærd þa er myklu vardar
maattig hofud aattar.
9. Yfirmanni byd ek vnnin
vpp er mærd borin lærdra
Jon kollum sua allrar
alþydu brag hlyda.
hefium hendr enn leyfa
hygg ek vin roduls tiggia
stols vex hæd þar er huilir
heilagr konungr fagran.
10. Aulld samir Olafs gillda
ordgnottar bid ek drottinn
oss at odgerd þessi
itrgeds lofi kuedia.
fann ek alldri ual villdra
vallriodanda allra
raun samir rett i einu
ranni fremdar manna.
11. þreklyndz skulu þrændir
þegns prydibrag hlyda
Kristz lifir hann i hæstri
hall ok Nordmenn allir.
dyrd er aagæt ordin
elianhress i þessum
þiod ne þeingill fædizst
þuilikr i konungs riki.

12. Sighuatr fra ek at segdi
soknbradr konungs daadir
spurt hefir aulld at orti
Ottar vm gram drottar.
þeir hafa þeingil Mæra
þui er syst frama lystann
helgum lyt ek er hetu
hofudskaalld fira jofri.
13. Módr vann margar daadir
munnriodr hugins gunna
satt var at siklingr bætti
sin mein gudi einum.
leyndi lofdungr þrænda
lidgegn snara þegna
faar gramr hefir frægri
fæz haaleitri gæzsku.
14. Red vm tolf sa er trudi
tijrbraadr a gud laadi
þiod muna þegnar fæda
þria vetr konung betra.
aadr fullhugadr felli
folkualldr i dyn skiallda
hann speni oss fyrir innan
Aulfis haug fra baulfi.
15. Fregit hefek satt at sagdi
sniallri ferd aadr berdizst
drott nytr doglings maattar
draum sinn konungr Rauma.
stiga sa standa fagran
stiornar fimr til himna
rausn dugir hans at hrosa
Haurda gramr af iordu.
16. Ok huerlofadr hugdiz
hrokkinseids hins dockua
lyngs i lopt vpp ganga
laatrs stridandi siþan.
leit sa er landzfolk gætir
liknframr himinriki
vm geypnandi opnaz
allz heims fyrir gram sniallum.

17. Vakit fra ek vig a Stikla
vidlendr stodum siþan
Jnnþrændum leet vndir
almreyr litudr dreyra.
heims þessa fra ek huassann
huatir felldu gram skatnar
þeir drygdu bǫl brigdu
branddrif numinn lifi.
18. Fuss er ek þat er vann visir
var hann mestr konungr flestra
drott nemi mærd ef ek mætta
manndyrdir stef vanda.
greitt ma gumnum letta
guds ridadri(!) stridum
rauskr þiggr allt sem æskir
Olafr af gram solar.
19. Nadiz biartr þa er beidir
baugskiallda lauk alldri
syndi saluordr grundar
sin takn rodull skina.
fyrr var hitt at harra
haudr tiallda bar dauda
happ nytaz mer mættu
maaltol skinu solar.
20. Gerdiz bratt þa er bardiz
broddriodr vid kyn þiodar
gramr vandiz saa syndum
sik iarteignir miklar.
lios brann liki visa
log skids yfir siþan
þa er aund med ser sendiz
samdægrs gud framdi.
21. Dyrd lætr drottin Horda
dragizst mærd þannig hrærda
itr munat odlingr betri
allz grædari fædaz. Greitt.
22. Drott þo dyrann sueita
doglings riks af liki
vǫn gledr hug med hreinu
hans batnadar vatni.
satt var at Sygna drottins
særendr gudi kærann
hrings megu heyra dreingir
hans brogd i grof logdu.
23. Kom þar blindr enn ek byria
blid verk mune sidar
audar niotr er ytar
iofurs bein þuegit hofdu.
sionbrautir þo sinar
seggium kunnz i brunni
aar þeim er Olafs dreyra
orms landa var blandinn.
24. Sion feck seggr af hreinu
su dyrd munat fyrdum
fǫrnudr mun þat fyrnaz
fiolgodr konungs blodi. Greitt.
25. Tolf maanudr var tynir
tandraudr hulidr sandi
fremdar lystr ok fasta
fimm nætr vala strætis.
aadr enn vpp or vidu
vlfs nistanda kistu
dyrr lætr drottinn harra
daadmilldz koma laadi.
26. Maal feck madr þar er huiliz
margfridr iofurr sidan
adr sa er orda hlyru
afskurdr fariz hafdi.
frægd ridr fylkis Egda
folksterks af þui verki
iofrs snilli fremz alla
vngs a danska tungu.
27. Faudr skulum fulltings bidia
fremdar þiod ens goda
mædir mart aa laadi
Magnus huatir bragnar. Gr.
28. Geck sinum bur sueckuir
solar straums i drauma
valld letz fylgia folldar
framlyndum gram myndu.

adr a Hlyrskogs heidi
hardgedr konungr bardiz
gods eldis naut gyldir
gnott vid heidnar drottir.
29. Let iarplidr aatu
arnar iods enn godi
munn raud maalmþings kennir
Magnus hugins fagna.
hrætt vard folk a flotta
fran beit egg at leggia
sorg bidu vif en vargar
vindversk of hræ gindu.
30. Raun er at sigr gaf sinum
sniallr lausnara spialli
hrosa ek verkum visa
vigdiarfs fromum arfa.
greitt ma gumnum letta
guds ridari i stridum
rauskr þiggr allt þat er æskir
Olafr af gram solar.
[2] 31. Satt var at silfri skreytta
seggium hollr ok gulli
her let Guthormr gerfa
grams hrodr var þat rodu.
þat hafa menn at minnum
meirr iarteigna þeirra
mark stendr Cristz i kirkiu
konungs vidr gaf þat midri.
32. Menn hafa sagt at suanni
sunnr Skanungum kunnir
oss vm Olafs messo
almilldz baka villdi.
enn þa er brudr at braudi
brennheitu tok leita
þa vard grion at granu
grioti danskrar snotar.
33. Hilldings hefir halldin
haatid verit siþan
sannspurt er þat sunnan
sniallz vm Danmork alla. Greitt.
34. Gaufug red horn or hof(d)i
hvitings vm sok litla
audar aumum beidi
vngs mannz skera tungu.
þann saam ver er uorum
vaalaust numinn maali
hodda niot þar er heitir
Hlid faam vikum sidan.
35. Frett hefek at saa sotti
sidan maalma stridir
heim þann er hialp gefr aumum
har skerdandi ferdum.
her feck hann enn byria
haatt kuædi skal ek bædi
snaaka vangs of slongui
slungin mál ok tungu.
36. Dyrd er agæt ordin
audlings riks af sliku
mærd ridr milldings Horda
mest vm heimsbygd flesta. Gr.
37. Veit ek at Vindr fyrir skauti
verdr bragr enn þeir skerdu
gialfrs nidranda grundar
greiddr sarliga meiddu.
ok endr fyrir tru tyndri
tirar sterks vr kuerkum
audskyfanda odar
aar grimliga skaaru.
38. Sotti skrin et skreytta
skidrennandi siþan
ord finnaz mer vnnar
Olaafs dreka boli.
ok þeim er vel vakti
veit ek saunn hugins teiti
maals feck hilmir heilsu
heilagr a þui deili.
39. Haars lætr helgann ræsi
heims domara soma
fyllir framlyndr stillir
ferd himneska verda. Gre.

40. Hneitir fra ek at heti
hialldrs at vopna galldri
Olafs hiorr þess er orra
ilbleikum gaf st(e)ikar.
þeim klauf þengill Rauma
þunnvaxin sky gunnar
rekin bitu staal a Stik(l)a
staudum valbastar raudli.
41. Tok þa er fell enn frækni
fylkis kundr til grundar
suerd er sokn var ordin
suænskr madr af gram þrænskum.
sa hefir hiorr ens hafa
hrings stridandi siþan
gulli merktr i Gerkia
gunndiarfs lidi fundiz.
42. Nv finnr sa er gaf gumnum
gaufug dyrd iofur fyrda
slaung Eindridi vngi
armglædr i brag rædu. Gr.
43. Mer er þui mærd skal skyra
milldings þess er gaf ringa
styriar sniallz of stilli
styrkann vant at yrkia.
þuiat takn þess er lid læknar
lofdungs himintungla
lios kemr raun vm ræsi
rannz ferr huert a annat.
44. Gerdiz haala herdum
helldr sidalla a kuelldi
glaum kennandi gunnar
gladr velþryma nadri.
dreingr red dyrr a vangi
dagr rofnadiz sofna
itrs landreka vndir
ormfimr berum himni.
45. Misti madr er lysti
morginn var þa borgar
styrks mundrida steindra
styrs bradr regins vaada.
nytr gat sed a slettri
seim þiggiandi liggia
grundu gylldis kindar
gomsparra ser fiarri.
46. þriar grimur vann þeima
þiodnytr Haralldz brodur
rauck stefnanda reifnis
rikr bendingar slikar.
aadr þrifhuassir þessir
þingdiarfs firar Jnga
biort eru bauga snyrtis
brogd iarteignir sogdu.
47. Maas let iardar eisu
allvalldr fyrir hior giallda
slettig od þann er aatti
Olaafr bragar tolum.
yfirskiolldungr let iofra
oddhridar þar siþan
gardz af gulli vordu
grand alltari standa.
48. Taakn eru biort þau er birtazst
brandel a Griklandi
maal finnz vm þat monnum
margþarfr Haralldz arfi.
fregn ek at allt ne aungir
innenndr megud finna
dyrd Olafs ridr daala
dagræfrs konung hæfra.
49. Haadiz hialldr a vidum
hungr slǫkte vel þungan
gunnar maar j geira
gaull Pecinavǫllum.
þar er suo ath þiod fyrir hiorfue
þushunndum fell vnndan
hrid ox Hamdis klęda
hialmskęd Grikkir flędu.
50. Munndi mest vnnd fiǫnndum
Miklagardr ok iardir
hrygs dugde lid liggia
lagar elldbrota vellde.

nema raunnd j byr brannda
barraugn faait harda
rauduls bliku vopn j vedre
Vęrinngiar fram bęre.
51. Hetu hart a itran
hraustir menn af trausti
strid stall ognar eydis
Olaafr i gny staala.
þar er of einum iorfa
vndbaar(u) aa flug vaaru
rofin klofnadi reifnis
rann .lx. manna.
52. þa er rauk af riki
regn dreif staal aa þegna
hialmniordungum harda
heidingia lid gengi.
haalft fimta vann heimtann
c. brimils sunda
nyzstan tir þar er nærri
Nordmanna val þordu.
53. Ruddu gumnar gladdir
gaufugr þeingill barg dreingium
vagna borg þar er vargar
vopnsundrat hræ fundu.
nennir aulld at inna
vngr brimloga slungins
doglings verk þau er dyrka
daadsniallz verolld alla.
54. Nu er þau er vann visir
verk fyrir þiod at merkia
naudr i nyium odi
næst ridr at þat smæstu.
krapt skulum guds þess er giftu
gunnstyrks lofi dyrka
ler halldfromum harar
heims læknis gram þeima.
55. Angrs fylldr vard alldar
illr geriz hugr af villu
milldings þionn fyrir manna
margfalldr ofund kalldri.
lygi hefir bragna brugdit
brytr stundum frid nytra
hermdar kraptr til heiftar
hialldrstrid skapi blidu.
56. Lustu i sundr i sande
segx marglitudr eggia
hord greri fion med fyrda
fot alldrtrega rotum.
ok prest þeir er lim leystu
feyfdar(!) krofd or hofdi
hætt maal var þat heila
himintungl firar stungu.
57. Tungan var med tangar
tirkunnz lokin munni
vara sem vænst ok þrysuar
vidr lif skorin knifi.
audskiptir laa eftir
aund lætr madr a strondu
margr of minni sorgir
meinsamliga hamladr.
58. Leyfdr er sa er let of styfdar
lamins fotar gram niota
itran þegn til augna
utstunginna ok tungu.
hond Olafs vann heilann
hreins giorfallra meina
ger munu giolld þeim er byriar
guds þræl ofugmæli.
59. Bidr allzkonar ædri
orugt mæl ek þat sælu
dyrdar vottr med drottni
dyggri enn þiod of hyggi.
þuiat lausnara leysi
lids valldr numinn alldri
langvinr firdi sik syndum
slik verk a iardriki.
[3] 60. Hedan var vngr fra angri
allz mest vinir flestir
gud reynir sua sina
siklingr numinn miklu.

nu lifir hraustr af hæstri
himna valldz þar er alldri
faarskerdandi fyrda
fridarsyn gledi tyniz.
61. Huerr er sua hoskr at hyriar
hans veg megi of segia
lioss i lifi þessu
lofdungs giafar tunga.
þar er hreggsalar hyggium
heitfastr iofra veitir
skreytt megu skatnar lita
skrin dyrdar vin sinum.
62. Heims hygg ek hingat kuomu
hofudmannz i stad þenna
snarr tiggi bergr seggium
solar erchistolar.
her er af himna geruis
heilagr vidr sem bidium
yfirskiolldungr biarg þu alldar
oss piningar crossi.
63. Aulld nytr Olafs milldi
iofurs dyrd hofum skyrda
þrotnar hars fra þessum
þingsniallz verolld alla.
luti landzfolk itrum
limsalms konungi himna
sæll er huerr er hollann
hann gerir ser manna.
64. Talda ek faatt i fiolda
fridgegns af iartegnum
her koma ord af orum
Olaafs bragar stoli.
baals fai seggr huerr er solar
siklings hefir mikla
hilmis aast ens hæsta
heidbiartr er lof reidir.
65. Sua at lausnara leysi
langvin fra kuol strangri
nyta þiod er naudum
nafnkudr vid tru iafnan.
viga skys þeir er visa
velendr framan telia
auflugs Cristz af astum
almennins brag þenna.
66. Olafs hofum iofri
ordhags kyni sagdar
fylgir hugr ens helga-
haps daadir þui raadi.
laun faaum holl af haanum
hresiks þrimu likar
gofugs odar hialp gædum
guds blezon lof þessa.
67. Mundi bragr ens brenda
baug huers vera þessi
kann ek rausnarskap ræsis
raun dyrliga launadr.
ef lofda gramr lifdi
leikmilldr Sigurdr hilldar
þess lysek veg visa
vellum grimr enn ellri.
68. Bæn hef ek þengill þina
þrekrammr stodat framla
iflaust hafum iofri
vnnit mærd sem kunnum.
agætr segir (ytum)
æzstann hue ek brag leysta
haas elskig veg visa
vagnræfrs enn ek þagna.

---

# OLAFSRIMA HARALLDZSONAR

## ER EINAR GILSSON QUAD.

Olafr kongr aurr ok fridr
aatti Noregi at raada.
gramr var æ vid bragna blidr
borinn til sigrs ok naada.
2. Daugling hellt sua dyrann heidr
drottni himna hallar.
eingi sky(r)ir aurfa meidr
audlings frægdir allar.
3. Millding hafdi mentir þær
er mestar voru i heime.
huergi frægra hilmi fær
huorki af gledi ne seime.
4. Fimm hefir kongr cristnat laund
kann ek oll at nefna.
gramr vill iafnan rioda raund
ok rangan vsid hefna.
5. Raan ok stuldi refsti hann
ok ræktar stiorn i landi.
hilmir lagdi a heidni bann
ok hefndi stort med brandi.
6. Gramr nam laugmaal setia sua
at seggir þoll(d)u valla.
daligan let hann dauda faa
drottins suikara alla.
7. Reckar yfduz ræsi aa mot
ok retti hardla saunnum.
voru kongi heimsklig hot
hafuin af sialfs sins monnum.
8. Haarekr var fyrir brognum bystr
buinn at strida stilli.
þorir hundr er þann veg lystr
þridi var Kaalfr enn illi.
9. Kalfr var fyrr med kongi saa
kærr i ollum raadum.
nu er hann horfinn hilmi fra
heidri suipptr ok daadum.
10. þrændir gengu þori aa haund
þeim var liuft at heria.
haaleysk þiod vill rioda raund
ok rikit kongi veria.
11. Fylkir rikr frægr ok milldr
frettir safnat þenna.
þa vill hilmir hraustr ok gilldr
huergi vndan renna.
12. Bragning lætr byria ferd
bonda múg i moti.
hann vill iafnan hræra suerd
ok herda skot med spioti.
13. Sikling hafdi safnat þa
sinum gaurpum sniollum.
lofdungs kann ek lydi at tia
langt bar gramr af aullum.
14. Hlyri kongs var hardla iungr
hann vil ek fystann nefna.
vist nam Haralldr þyckiu þungr
þrændum strid at hefna.
15. Get ek ei hrotta hauggit raund
Haralldr talar vid garpa.
bindi menn vid mina haund
mæki þann enn snarpa.
16. Raugnualldr var milldr ok merkr
med þeim kongi goda.
Brusa sun nam brigda sterkr
brand i dreyra at rioda.
17. Finnr Arnasun frækn ok hraustr
fylgir iofri sterkum.
Biorn stallari tryggr ok traustr
trur vel ræsi merkum.
18. Sa var annar Aarna maugr
ytar þorberg kalla.
hann leet staalin stinn ok faugr
i sterkum hlifum gialla.

19. þormodr var vid Kolbrun kendr
kongsins skaalldit dyra.
sa bar huassar hyggiu strendr
huar sem garpar strida.
20. Naaduz menn i niflungs flock
nær sem risar at lita.
þeir hafa bragnar bryniu rock
brandi skorit enn huita.
21. Gengu fram fyrir kongsins kne
ok kuoddu stilli enn teita.
budu þeir bædi fylgd ok fee
frægum siola at veita.
22. Grams reed spyria garpa þa
gerit mer heiti at inna.
tru skulu greina seggir sua
at satt megi til þess finna.
23. Opt hafa þegnar þriozsku hefnt
þat mun eingi lasta.
Gaukaþori hafa gumnar nefnt
gladann ok Hafrafasta.
24. Treystum ver aa maatt ok megn
er margann riddara prydir.
aungua hafa af aasum fregn
ockrir sterkir lydir.
25. Taki þer helldr helga tru
himna kongs med bloma.
virdar kastid villu nu
ok verit med oss i soma.
26. Lydir gerdu lykt aa þij
at leysa þenna vanda.
skirnar brunn fara skatnar i
ok skynda gudi til handa.
27. þrekstorr kom til þeingils madr
þann fra ek Arnliot heita.
tok hann skirn ok geck þo gladr
grams i flockinn teita.
28. Garpar fleiri at fylki renn
[4] enn fyrdar mega þat telia.
siklingr nam sæmdar menn
ser til lids at velia.
29. Kaalfr hafdi muga mannz
merkta vaullu vida.
nidingligt var nærsta hans
niflung þeim at strida.
30. Biaalfua klæddiz haurdum Hundr
ok hans sueitungar margir.
þat hafua geysi grimligt vndr
gert bufinnar argir.
31. Ræsir talar vid þorgils þa
þat var mest af prydi.
þer vil ek silfr i siodi faa
þu sed med auma lydi.
32. þorgils hugsar þeingils maal
þer innit framar hoti.
gef fyrir þeirra garpa saal
er ganga oss i moti.
33. Herrinn drifr aa hilmis fund
at heyia imðn stranga.
sua var þrutin þeirra lund
at þraut vard fram at ganga.
34. Muginn þessi geysiz gegn
gram med saarum vilia.
laugdu aa orku ok allt sitt megn
iofur vid land at skilia.
35. A Stiklastaudum var roman remd
rikum kongi i moti.
þar voru skaupt med haundum hremd
ok haurdu kastad grioti.
36. Haarekr eggiar herlid sitt
heitr mðrgum soma.
luki garpar geysi strit
gram fyrir harda doma.
37. Goda suerdit Hneitir het
hafdi gramr til viga.
þar fyrir margan þeingill let
þegn at iordu hniga.
38. Gumnar hlaupa geystir fram
grams fyrir merkit væna.
reisa þanneg randa glam
ok rista skiolldu græna.

39. Gellini tok at geysaz hart
ok gerdi romu stranga.
sannliga let hann seggia mart
saarann dauda fanga.
40. Arna synir sinn vnda nadr
einart drogu af magni.
kendiz ei sua klokr madr
kæmi hlif at gagni.
41. þormodr nam brytia braad
bleikum faalu hesti.
vardi kong med dygd ok daad
darra eel hann huesti.
42. þorir hundr þrautar gilldr
þreif sitt spiotid snarpa.
laga var hann ok hauggua milldr
vid harda kongsins garpa.
43. þorsteinn het sa er þori vidr
þar nam fram at ganga.
sa var kendr knarrarsmidr
kominn i villu stranga.
44. Kongrin hio til þoris þa
þat fra ek vndrum sætti.
ecki beit hans biaalfann aa
bratt sem grioti mætti.
45. Biorn stallari bystr ok reidr
bardi Hund i moti.
siþan hne vid sannan heidr
seggr a þoris spioti.
46. þorgeirr vod i randa regn
ræsi naadi at finna.
snarr reed kongr þriozskum þegn
þessi ord at inna.
47. þeygi gerir þu þorgeir reet
at þreyngir monnum minum.
lypta ek þer af laagri stett
lokit mun sigri þinum.
48. Kongrin hio med Hneiti þaa
sua hraud af eggium baadum.
þorgeir daudr a lyngi laa
lifui suiptr ok daadum.

49. þorsteinn reed a þeingils kne
þunnri auxi at snida.
siþan leet hann lif(!) fior med fee
ok fell i anaud strida.
50. Biortum varp ser brandi fra
budlungs haundin mæta.
sioli bad med saunnu þa
sialfann gud sin giæta.
51. þorir lagdi i kongsins kuid
kaulldum snotar raadum.
hilmis saal tok hæstann frid
himna grams med naadum.
52. Kaalfr hio til bragnings bystr
batt ser þungan vanda.
ramliga var hann aa reidi lystr
ræsi þeim at granda.
53. Myrkri slo yfir menn ok hiord
vid milldings dyran dauda.
litu þa huarki laug ne iord
lyd aflar þat nauda.
54. þa kom Dagr med dreingi sin
darra þing at heyia.
margr hlaut vid mikla pin
madr af sut at deyia.
55. Æsilig var odda hrid
vndrum fra ek þat gegna.
maatti ecki meira strid
af maalma leiki fregna.
56. Hrædilig var hiorfa gnaud
hardar bryniur sprungu.
dreingir fengu dapra naud
daurr aa hlifum sungu.
57. Stort var þetta manna mot
mest kom hialp til bragna.
daufir fengu ok blindir bot
biugir heilsu fagna.
58. þorgils geymdi þeingils lik
þat for helldr af bliodi.
madr tok syn fyrir merkin slik
af mætu kongsins blodi.

59. Froni er huldr fylkir mætr
firdr naud ok grandi.
likami kongs var milldr ok mætr
manudr .xij. i sandi.
60. þeim kom virdum vondzlig þraut
at visis fengu reidi.
geislar skinu vm grund aa braut
grams af dyru leidi.
61. Lydir toku vpp likama hans
lutu þa kongi sniollum
haar ok negl var heilags mannz
haatt at vexti ollum.
62. Hilldings taka þa helgann dom
halir i skrin at leggia.
nu er Kristz et biarta blom
ok bliduz miskunn seggia.
63. Drottni færdi audlingr ǫnd
ytum likam selldi.
nu er hann guds aa hægri hǫnd
himens i æzsta velldi.
64. Budlungs heidr er biartr ok rikr
bædi vm laund ok geima.
fæddiz engi fylkir slikr
fyrri nordr i heima.
65. Reidz þu ei þo þeingill þer
þyrda ek visu at bioda.
bidr ek Olaaf biarga mer
vid bragning allra þioda.

---

HER HEFR VPP

# HYNDLUHLJOD

QUEDIT VM OTTAR HEIMSKA.

---

Vaki mær meyia
vaki min vina
Hyndla systir
er i helli byr.
nu er rauckr rauckra
rida vit skulum
til Valhallar
ok til vess heilags.
2. Bidium herians faudur
i hugum sitia
hann gelldr ok gefr
gull verdugum.
gaf hann Hermodi
hialm ok bryniu
enn Sigmundi
suerd at þiggia.
3. Gefr hann sigr sonum
enn suinnum aura
mælsku morgum
ok mannvit firum.
byri gefr hann braugnum
enn brag skaalldum
gefr hann mansémi
morgum recki.
4. þor mun hon blota
þess mun hon bidia
at hann æ vid þik
einart laati.
þo er honum otijtt
vid iotuns brudir.
5. Nu taktu vlf þinn
ein af stalli

laat hann renna
med runa minum.
seinn er gaulltr þinn
godveg troda
vil ek ei mar minn
mætann hleda.
6. Fla ertu Freyia
er þu freistar min
visar þu augum
aa oss þannig.
er þu hefir ver þinn
i valsinne
Ottar iunga
Jnnsteins bur.
7. Dulin ertu Hyndla
draums ætlig þer
er þu kuedr ver minn
i valsinni.
þar er gaulltr gloar
Gullinbusti
Hilldesuine
er mer hagir giordu
duergar .ij.
Daainn ok Nabbi.
8. Sennum vit or sodlum
sitia vit skulum
ok vm iofra
ættir dæma
gumna þeirra
er fra godum kuomu.
þeir hafa vediat
vala maalmi
Ottar iungi
ok Angantyr.
9. Skyllt er at veita
sua at skati enn vngi
faudurleifd hafui
eftir frændr sina.
10. Haurg hann mer gerdi
hladinn steinum
nu er griot þat
at gleri vordit.
Raud hann i nyiu
nauta blodi
æ trudi Ottar
aa asyniur.
11. Nu laattu forna
nidia talda
ok vpp bornar
ættir manna.
huat er [5] Skiolldunga
huat er Skilfinga
(huat er Audlinga)
huat er Ylfinga
huat er haulldborit
huat er hersborit
mest manna val
vnd Midgardi.
12. þu ert Ottar
borinn Jnnsteini
enn Jnnsteinn var
Aalf enum gamla.
Aalfr var Vlfui
Vlfr Sæfara
enn Sæfari
Suan enum rauda.
13. Modur aatti fadir þinn
menium gaufga
hygg ek at hon heti
Hledis gydia.
Frodi var fadir þeirrar
enn Friaut modir
aull þotti ætt su
med yfirmonnum.
14. Aali var aadr
auflgazstr manna
Halfdan fyrri
hæstr Skiolldunga.
fræg voru folkvig
þau er framir gerdu

huarfla þottu hans verk
med himins skautum.
15. Efldiz hann vid Eymund
æzstann manna
enn hann (va) Sigtrygg
med suolum eggium.
eiga geck Aalmueig
æzsta quinnu
olu þau ok aattu
aatian sonu.
16. þadan eru Skiolldungar
þadan eru Skilfingar
þadan Audlingar
þadan Ynglingar
þadan haulldborit
þadan hersborit
mest manna val
vnd Midgardi.
allt er þat ætt þin
Ottar heimski.
17. Var Hilldigunn
hennar modir
Suofu barn
ok sækonungs.
allt er þat ætt þin
Ottar heimski.
vardi at viti sua
villtu enn leingra.
18. Dagr aatti þoru
dreingia modur
oluzst i ætt þar
æzstir kappar
Fradmar ok Gyrdr
ok Frekar baadir
Amr ok Josurmar
Aalfr enn gamli.
vardar at viti sua
villtu enn leingra.

19. Ketill het vinr þeirra
Klyps arfþegi
var hann modurfadir
modur þinnar.
þar var Frodi
fyrr enn Kaari
hinn elldri var
Aalfr vm getinn.
20. Nanna[1]) var næst þar
Nauckua dottir
var maugr hennar
maagr þins faudr.
fyrnd er su mægd
fram tel ek leingra
kunna ek baada
Brodd ok Haurfi.
allt er þat ætt þin
Ottar heimski.
21. Jsolfr ok Aasolfr
Aulmods synir
ok Skurhilldar
Skeckils dottur.
skaltu til telia
skatna margra
allt (er þat ætt þin
Ottar heimski.)
22. Gunnar baalkr
Grimr ardskafui
Jarnskiolldr þorir
Vlfr ginandi
Bui ok Brami
Barri ok Reifnir
Tindr ok Tyrfingr
ok tueir Haddingiar.
allt er þat (ætt þin
Ottar heimski.)
23. Ani Omi
voru bornir

[1]) Manna *Cd.*

Arngrims synir
ok Eyfuru
braukun berserkia
bauls margskonar
vm laund ok vm laug
sem logi færi.
allt er þat (ætt þin
Ottar heimski.)
24. Kunna ek baada
Brodd ok Haurfi
voru þeir i hird
Hrolfs ens gamla.
allir bornir
fra Jormunreki
Sigurdar maagi
hlyd þu saugu minni
folkum grims
þess er Fafni vð.
25. Sa var visir
fra Vaulsungi
ok Hiordis
fra Hraudungi
enn Eylimi
fra Audlingum.
allt er þat (ætt þin
Ottar heimski.)
26. Gunnar ok Haugni
Giuka arfar
ok id sama Gudrun
systir þeirra.
eigi var Guthormr
Giuka ættar
þo var hann brodir
beggia þeirra.
allt er þat (ætt þin
Ottar heimski.)
27. Haralldr hillditaunn
borinn Hræreki
slaunguanbauga
sonr[1]) var hann Audar.
Audr diupaudga
Jfuars dottir
enn Radbardr
var Randuers fadir
þeir voru gumnar
godum signadir.
allt (er þat ætt þin
Ottar heimski.)
28. Voru ellifu
æsir taldir
Balldr er hne
vid bana þufu
þess letz Vali
verdr at hefna
sins brodur
slo hann handbana.
allt er þat (ætt þin
Ottar heimski.)
29. Var Balldrs fadir
Burs arfþegi
Freyr atti Gerdi
hon var Geymis dottir
iotna ættar
ok Aurbodu.
þo var þiassi
þeirra frændi
skautgiarn iotun
hans var Skadi dottir.
30. Mart segium þer
ok munum fleira
vðrumz at viti sua
villtu enn fleira.
31. Hakí var Huædnu
boti bezstr sona
enn Huędnu var
Hiorfuardr fadir

[1]) sonar *Cd.*

Heidr ok Hrossþiofr
Hrimnis kindar.
32. Eru vaulfur allar
fra Vidolfui
vitkar allir
fra Vilmeidi
skilberendr
fra Suarthofda
iotnar allir
fra Ymi komnir.
33. Mart segium þer
ok munum fleira
vðrumzst at viti sua
villtu enn leingra.
34. Vard einn borin
i aardaga
rammaukin miok
raugna kindar.
niu baaru þann
nadbaufgann mann
iotna meyiar
vid iardar þraum.
35. Mart segium þer
(ok munum fleira
vðrumz at viti sua
villtu enn leingra.)
36. Hann Gialp vm bar
hann Greip vm bar.
bar hann Eistla
ok Eyrgiafa
hann bar Vlfrun
ok Angeyia
Jmdr ok Atla
ok Jarnsaxa.
37. Sa var aukinn
iardar megni
sualkaulldum sæ
ok sonar dreyra.
38. Mart (segium þer
ok munum fleira
vðrumz at viti sua
villtu enn leingra.)
39. Ol vlf Loki
vid Angrbodu
enn Sleipni gat
vid Suadilfara.
eitt þotti skars
allra feiknazst
þat var brodur fra
Byleistz komit.
40. Loki af hiarta
lindi brendu
fann hann haalfsuidinn
hugstein komu(!)
vard Loptr kuidugr
af konu illri
þadan er aa folldu
flagd huert komit.
41. Haf gengr hridum
vid himin sialfann
lidr lond yfir
enn lopt bilar.
þadan koma sniofar
ok snarir vindar
þa er i raadi
at regn vm þrioti.
42. Vard einn borinn
aullum meiri
sa var aukinn
iardar megni.
þann kueda stilli
storaudgazstann
sif sifiadann
siotum giorfaullum.
43. þa kemr annar
enn maatkari
þo þori ek eigi
þann at nefna.
faair sia nu
fram vm leingra

enn Odinn man
vlfui mæta.
44. Ber þu minnis aul
minum gesti
sua hann aull mune
ord at tina
þersa rædu
aa þridia morni
þa er þeir Angantyr
ættir reikna.
45. Snudu burt hedan
sofua lystir mik
fær þu faatt af mer
fridra kosta.
hleypr þu edlvina
vti aa naattum
sem med haufrum
Heidrun fari.
46. Rant at ædi
ey þreyiandi
skutuzst þer fleiri
vnd fyrir skyrtu.
hleypr þu edlvina
vti aa naattum
(sem med haufrum
Heidrun fari.)
47. Ek slæ elldi
af ividiu
sua at þu ei kemz
aa burt hedan.
hleypr þu edlvina
(vti a naattum
sem med haufrum
Heidrun fari.)
48. Hyr se ek brenna
enn haudr loga
verda flestir
fiorlausn þola.
ber þu Ottari
bior at hendi
eitri blandinn miok
illu heilli. h. þu
49. Ordheill þin
skal engu raada
þottu brudr iotuns
baulfui heitir.
hann skal drecka
dyrar veigar
bid ek Ottari
aull god duga.

---

# [OR HAMBORGAR HISTORIU.]

## Capitulum.

Sva segir i Hamborgar ystoria. ok kallaz sa meistari er gert hefir bokina[1] flest hafa ritad eftir fyrirsaugn Sueins konungs Vlfssonar af tidendum Dana ok Suia. at Otto keisari hinn raudi enn fyrsti med þij nafni þa er hann hafdi aptr vnnit aull þau riki vndir keisaradominn sem vndan hofdu gengit siþan Karlamagnus keisari andadizst. þa for hann med her vpp aa Dani a tolfta aari rikis sins. ok þegar hann kom nordr vm Slesvik þar sem Danmork tok til eftir þui sem þeir hofdu [6] laundum skipt Heinrekr keisari fadir hans ok Gormr konungr gamli i sætt sinni. eyddi hann landit med elldi ok iarnum huar sem hann kom allt þar til er hann kom þar sem siþan heita Ottusund. Siþan sneriz hann sudr aptr. ok þa er hann kom til Slesvikr kom i mot honum Haralldr Gormsson ok hellt orrostu vid hann ok vard sigradr ok flydi til skipa. Eptir þat gaf hann sik i keisara valld ok feck keisarinn honum aptr riki sitt ok het Haralldr at laata skirazst ok at cristna alla Danmork. var þa Haralldr konungr skirdr ok kona hans Gunnhilldr drottning ok son hennar vngr er keisari veitti gudssifiar ok let kalla Suein Otto. þa var skipt Jotlandi i þriu byskups riki ok vigdi Adaldagr erchibyskup or Brimum þria byskupa. Haralld i Slesvik. Leifdag til Ripa. Reginbrand til Aarós. Haralldr konungr blatonn hellt vel tru sina medan hann lifdi. Hann sendi son sinn til Englandz þann er Ringr het med her. þui at Danir hofdu hafdt þar valld hundrat vetra siþan Gudraudr vann England. ok er Ringr hafdi vnnit landit var hann suikinn af Nordimbrum. Haralldr konungr kom ok Hakoni blotiarli til Noregs rikis er aadr var burt rekinn ok gerdi hann saattan vid cristna menn. Enn þa er Haralldr konungr elldiz villdi Sueinn son hans taka riki af honum. styrktu hann til þess þeir hofdingiar er Haralldr konungr hafdi naudgat til cristni. toku þeir Suein til konungs enn kaustudu cristni. þeir laugdu bardaga vid Haralld konung. konungr for til orrostu naudigr i mot syni sinum. sua sem David i mot Absaloni. Or þessi orrostu flydi Haralldr konungr miok

[1]) ok *tilf. Cd.*

saarr til Vindlandz ok andadiz i Jomsborg aa allra heilagra messudag. lik hans var flutt til Roiskelldu ok iardadr(!) i Cristz kirkiu þeirri er hann let sialfr gera. hann var konungr fim tigi aara. Eptir Harralld konung blataunn tok riki Sueinn son hans ok hellt illa cristni. hann var hertekinn tuo tima af Vindum ok leystr vt siþan med miklu fe. Eirekr hinn sigrsæli Suiakonungr kom i Danmork med allmikinn her ok bardiz vid Suein konung margar orrostur aa skipum þar til er minkadi styrk Dana. sua at Sueinn vard landflotti ok flydi fyst til Noregs ok villdu Nordmenn ecki vid honum taka. for hann þadan til Englandz ok villdi Adalradr konungr ecki vid honum taka sakir ofridar þess er Danir hofdu þar iafnan gert. eptir þat for hann til Skotlandz ok tok Skotakonungr vel vid honum. var hann þar til dauda Eireks konungs. Sua hefir Sueinn konungr Vlfsson sagt at Sueinn konungr modurfadir hans tæki makliga hefnd fyrir þat er hann hafnadi rettum gudi er fadir hans (hafdi) tignat. Eirekr konungr red bædi Suium ok Daunum ok var heidinn ok vvin cristinna manna. þa heriadi Otto keisari hinn þridi med þij nafni i Danmork ok sigradi Eirek konung.

Keisarinn hafdi sent þangat Poppo byskup af Slesvik at boda Eireki konungi cristni. enn konungr bad byskup syna ser nockurn maatt guds sins. þa bar byskup gloanda iarn i hendi ser ok syndi konungi vbrunna haund sina. ok aadr allan grun tæki af heidnum monnum let byskup vexa kyrtil sinn ok for i. let siþan sla i elldi. stod hann heill þa er kyrtillinn var brunninn. eftir þat let Eirekr skirazst ok morg þushundrat manna. þa voru sendir menn til Suiþiodar at boda cristni. enn Sueinn konungr Vlfs son segir suo. at Eirekr konungr hafi kastad cristni ok dait heidinn. J þessum vfridi hefir verit Hakon iarl sem segir i Vellheklu ok veitt lid Eireki konungi magi sinum. Eptir Eirek konung tok riki i Suiþiod Olafr son hans. Sueinn for þa aptr i Danmork. hann skildi þa at gud var honum reidr ok het at snuaz til cristni ok boda retta tru. Eptir þat sættuz þeir Olafr konungr ok Sueinn konungr sua at Sueinn konungr skylldi hafa riki sitt ok fa Sigridar ennar storraadu modur Olafs konungs. siþan skylldu þeir baadir laata cristna laund sin. siþan eggiadi Sigridr en storraada at þeir skylldi raada fra londum Olaaf Trygguason er Danir kaulludu krakalegg edr krakabein sem þeir gerdu siþan. skiptu þeir þa Noregi med ser þrir hofþingiar Olafr suæinski(!) Sueinn konungr ok Eirekr iarl Hakonar son.

---

## ÞAATTR FRA
# SIGURDI KONUNGI SLEFU SYNI GUNHILLDAR.

---

Þat[1] er sagt þa er Gunnhilldar synir redu Noregi sat Sigurdr konungr slefua a Haurdalandi. hann var fiareydzslumadr mikill. hann var lidmannligr madr at sia. marglyndr ok quensamr ok helldr ohlutvandr vm þat efni. Þorkell klyppr het madr hersir rikr a Haurdalandi. hann var son Þordar Haurdakaara sunar. hann var garpmenni mikit ok enn mesti agætismadr. Olof het kona hans. væn ok kurteis. þat er sagt einn tima at Sigurdr konungr slefua sendi honum ord at hann kæmi aa sinn fund. ok hann gerdi sua. Siþan mællti konungr. Sua er med vexti at ferd liggr fyrir haundum vestr til Englandz. er ek vil senda þik aa fund Adalraads konungs ok heimta skatt at honum ok eru slikir menn bezst til fallnir rikra manna erendi at bera. Þorkell suarar. hafi þer eigi adr sent ydra menn slikra erenda ok hafa þeir eigi tuivegis farit. Satt er þat segir konungr. enn ecki hygg ek lika framkuæmd þina ok þeirra er litid kemr til. Þorkell suarar. þat mun ydr skyllt þickia at ek fari ok mun ek eigi vndan teliazst. þo hinir fær(i) stophallt er fyrr [?] komu aa þ[a leid.] Siþan for Þorkell ok kom vestr til Englandz med godu foruneyti ok kom a fund Adalraads konungs ok kuaddi hann. konungr tok vel maali hans ok fretti huerr sa madr var er fyrir þeim var. Þorkell sagdi til sin. Konungr mællti. Spurt hefir ek til þess at þu hefir þer aflath gods ordroms ok ver velkominn her med oss. Siþan var Þorkell med konungi vm vetrinn ok (eitt) huert sinn mællti hann til konungs. Sua er haattad herra vm ferd mina at Sigurdr konungr slefua sendir mik eptir ska..ttum til yduar ok væntir ek af ydr godra orlausna. Konungr mællti. Komit hafa menn til vor fyrr eftir slikum erendum ok virdiz mer akall þetta Sigurdar konungs meirr kenna ranglætis enn rettvisi. þuiat ek veit eigi vonir i a(t) mik reki nockura skylldu til honum fe ath giallda. var þeim ok hordu golldit er med slikum erendum foru fyrr. er ok audsætt at konungr var samr vm ydra ferd huersu sem tækizst enn þo[2] mun mer synazst at gera til þin Þorkell iafnt sem aadr ok hafa af þer þauck ok vinaattu ok greida þer fee nockut. enn vinfeingi sona Gunnhilldar vil ek ecki kaupa. Vm vorit bio Þorkell ferd sīna vestan vm haf med mikit fe. ok skildu þeir konungr med hinni mestu blidu ok bundu sitt vinfeingi adr med fastmælum. Enn er Þorkell var farinn or Noregi. þa sendi Sigurdr kon-

[1]) Sat *Cd.* [2]) þu *Cd.*

ungr slefa sina menn til bua þorkels ok let flytia þadan i burt Olofu konu hans ok heim til sin ok lagdi hana i reckiu hia ser. Hon mællti þa. herra sagdi hon. rangt geri þer ok vmakliga vid þann mann er ydr vel truir ok mun her nockut mikit illt eptir koma. enn þer munut nu raada verda þo sua se verr. Konungr mællti. Bu nu vid slikt fyst sem þer er bodit um. kenn mer engann sann Siþan laa Olof hia konungi hueria natt. Ollum monnum þotti þessi tiltekia konungs bædi ill ok vradlig ok sogdu hann sialfann giallda mundu. Enn vm vorit er frettiz heimkuoma þorkels. þa sendi konungr Olofu heim. Enn er þorkell klyppr fretti þetta allt saman. þa bra honum miok vid ok for þo heim a sinn bugard ok var allfamalugr ok helldr stirdr. enn er hann kom heim var Olof þar fyrir ok geck þegar aa mot þorkeli med fagnadi ok mællti. Vel kominn þorkell bondi ok gack til herbergis ok huil þik ok muntu frett hafa minar tiltekiur þo ei se godar. vil ek giarna allt þat bæta er ek hefir med þik brotid ok siþan med sætt ok samhuga hia þer huila. þa suarar þorkell ok kuad visu.

| | |
|---|---|
| Hygg ek eigi bed byggua | ok dauds vallar daada |
| biorrannz hia þer nanna | dreck eigi mer þeckia |
| ek em af angri miklu | aadr i bragnings blodi |
| ofrynn ne sua dynu. | bengiodi nef riodum. |

Hon suarar þa. Bædi er nu at mikit er af gert enda ætlaz þu nu mikit fyrir. ok er þat illa at sua mikit illt skal af mer hliotaz. Siþan var þings kuatt ok kom þar Sigurdr konungr ok mikit fiolmenne. Sa madr het Augmundr ok var Haurdakara son er i faur var med konunginum. hann stod hia honum ok hafdi mikit spiot i hendi. Siþan geck þorkell at stolinum ok mællti. Herra. nu er at sia fiarhlut þann er ek hefir flutt af Englandi ok litid nu a konungr huersu þetta er af hondum greitt. Konungr leit aa ok sa marga goda gripi ok mællti. Hui mun þetta eigi skauruliga leyst ok vel greitt. þorkell suarar. Leyst er þa sumt vandkuædit. Hann var sua buinn at hann hafdi mottul yfir ser med tyglum buinn miok i skart. siþan bra hann auxi vndan skickiunni ok hio til konungs ok veitti honum bana. Enn er þorkell sneri fra verkinu þa hleypr Ögmundr Kaara sonr at honum ok lagdi i gegnum hann spioti þij er hann hellt aa. enn[1] frændr þorkels kunnu þui sua illa at þeir gerdu til Ogmundar ok brendu hann inni. þuiat þeim þotti mikill maalaefna munr vera med þeim konungi ok þorkeli. Enn er Gunnhilldr vissi andlaat sonar sins þa þottiz hon storum illt hafa

[1]) er *tilf. Cd.*

hlotid af Olofu ok ætladi at gera til hennar[1] vsæmiliga. Hon vard þess vaur ok frettir at Jslandzfar var buit ok kom aa fund þess mannz er aatti. sa het Bauduar ok var þorsteins (son) brodur[2] Hallz aa Sidu. hon tekr sua til orda. Ek hefir sagdi hon i vandrædi hitt. ok vil ek bidia þik at þu flytir mik til þins landz vndan aanaud Gunnhilldar. Hann suarar. Ek ætla at þer beri ærin naudsyn til ok skal sua vera. enn þickia ok at skylldra at þu gerir eptir minum mun. Hon quad sua vera skylldu. Siþan for hon til skips ok Gudrun dottir hennar. eftir þat for hon ok koma þau til Jslandz ok koma austr i Alftafiord. þar aatti Bauduar bu miok virduligt. Enn er þau komu heim er þess getid at Bauduar mællti. Nu mun ek til þeirra maala taka er ek skildi i Noregi ok mæli ek til raadahags vid þik. Hon suarar. Veit ek þat at þat mun mællt at ek taka minna giaford nu enn fyrr. enn makligr ertu til at niota þessa raads. Ok siþan for þat raad fram ok feck Bauduar Olofar. en samfaur þeirra var eigi laung ok andadiz hann aa þeim misserum. Siþan fretti Einar Eyiolfsson norþan fra þueraa at sa raadakostr var virduligr at eiga Gudrunu Klyppsdottur ok feck hann hennar ok atti vid henne maurg baurn. þorkell klyppr het son þeirra Einars ok Gudrunar ok var hann heitinn eptir modurfedr sinum ok var enn efniligzsti madr ok kemr vida vid saugur. Nockurum vetrum siþar for Olof vtan til Noregs til frænda sinna ok þotti enn mesti kuenskaurungr.

---

## [8] HUERSU NOREGR BYGDIZ.

Nv skal segia dęmi til huersu Noregr bygdiz i fystu edr huersu konunga ættir hofuz þar edr i odrum londum. edr hui þeir heita Skiolldungar Budlungar Bragningar Odlingar Vaulsungar edr Niflungar sem konunga ættirnar eru af komnar. Forniotr het madr hann aatti .iij. sonu. var einn Hler. annar Logi. þridi Kari. hann reed fyrir vindum enn Logi fyrir elldi. Hlier fyrir sio. Kaari var fadir Jokuls faudur Snærs konungs. enn baurn Snærs konungs voru þau þorri Faunn Drifa ok Mioll. þorri var konungr agætr. hann reed fyrir Gottlandi Kǫnlandi ok Finnlandi. hann blotudu Kǫnir til þess at sniofa gerdi ok væri skidfæri gott. þat er aar þeirra. þat blot skylldi vera at

[1]) ok gera til hennar *tilf. Cd.* [2]) *r.* brodir

midium vetri. ok var þadan af kalladr þorra manadr. þorri konungr aatti .iij. born. synir hans hetu Nðrr ok Gorr enn Gði dottir. Goi huarf a brot ok gerdi þorri blot maanadi sidarr enn hann var vanr at blota. ok kaulludu þeir sidan þann maanad er þa hofzst Gði. þeir Norr ok Gorr leitudu systur sinnar. Norr atti bardaga stora fyrir vestan Kiolu ok fellu fyrir honum þeir konungar er sua heita. Vee ok Vei Hundingr ok Hemingr. ok lagdi Norr þat land vndir sik allt til siofar. þeir brædr funduz i þeim firdi er nu er kalladr Norafiordr. Norr for þadan vpp a Kiolu ok kom þar sem heita Vlfamoar. þadan for hann vm Eystridali ok siþan i Vermaland ok med vatni þui er Vænir heitir ok sua til siofar. þetta land allt lagdi Norr vndir sik allt fyrir vestan þessi takmork. þetta land er nu kalladr Noregr. At midium vetri komu þeir i Heidmork. þar var sa konungr fyrir er Rolfr i Bergi het. hann var sun Suada ioluns nordan af Dðfrum ok Aashilldar dottur Eysteins konungs er leingi hafdi raadit fyrir He[idmork]. Rolfr i Bergi hafdi tekit Goi ok geingit at eiga hana. enn er hon spurdi til Nors brodur sins. þa for hon i mot honum ok þau Rolfr. ok gaf hann sik vpp i valld Nors ok gerdizst hans madr. eptir þat for Norr til veizslu til maags sins ok feck Norr Hoddu dottur Suada ioluns systur Rolfs. Eptir þat for Norr konungr vestr aftr til siofar ok þa hitti hann Gor brodur sinn. hann var þa kominn nordan or [Dumbs]hafi ok hafdi eignaz eyiar allar aa þeirri leid bædi bygdar ok vbygdar. þa skiptu þeir brædr rikinu med ser sua at Norr skylldi hafa meginland allt nordan fra Jotunheimum ok sudr til Aalfheima. þat heitir nu Noregr. enn Gorr skylldi hafa eyiar allar þær er laagu a bakborda ellida h[ans] er hann færdi nordan med landi. þeir voru synir Gors sækonungs Beiti ok Heiti. Meitir ok Geitir. Beitir sækonungr for med ellida inn i þrðndheim ok inn i Beitsio. hann let gera skipsleda vndir ellidann. enn sniór var mikill ok sledfæri gott. þa settiz Beitir i lypting ok lagdi styri i lag ok let draga vpp segl ok let menn sina draga ellidann nordr vm Ellidaeid til Naumudals ok eignadi ser land allt þat er laa a bakborda. Beiti sækonungr var fadir Heita sækonungs faudur Suada. enn Geitir var fadir Glamma ok Gylfa. Meiti sækonungr var fadir Męfils ok Myndils. Myndill var fadir Eckils ok Skeckils. Norr var fadir þessarra manna enn Hodd dottir Suada modir þraandar ok Gardz er kalladr var agde. enn er þeir skiptu arfi þa hlaut þrandr þrandheim ok heitir þui sua. Gardr agde var fadir þeirra er sua heita. Hordr Rugalfr þrymr Vegardr Freygardr þorgardr ok Griotgardr. Hðrdr laut Hordaland or skipti. hans son var Jofurr edr Josurr fadir Hiors konungs fodur Hiorleifs hins kuensama.

Rugalfr aatti Rogaland. hans son var Rögnualldr fadir Augualldz konungs. þrymr aatti Agdir. hans son var Agdi ok Agnar fadir Ketils þryms er bu aatti i þrumu. Vegardr aatti Sygnafylki. hann var fadir Vedrorms faudur Vemundar hins gamla er Sygnatrauste kalladiz. Freygardr aatte Fiordu ok Fialer. hans synir voru þeir Freysteinn gamli er bu aatti aa Gaulum ok Freybiorn fadir Audbiarnar faudur Arinbiarnar Fyrda(!) jarls. þorgardr aatti Sundmæri(!) hans son var þoruidr fadir Arnuidar treserkiabana faudur þeirra Slæuidar ok Braauidar. Griotgardr aatti Nordmæri hans son var Salgardr fadir Griotgardz fodur Solfa fodur Hogna i Niardey fodur Solfa vikings ok Hilldar hinnar miofu er atti Hiorleifr hinn kuensami. Haalfr berserkr var þeirra son. annar[1] son Griotgardz var Sigarr fadir Sygnyiar(!) er aatti Haralldr Naumdæla jarl fadir Herlaugs faudur Griotgardz faudur Hakonar jarls faudur Sigurdar jarls faudur Hakonar Hladajarls. Raumr son Nors konungs tok riki eptir fedr sinn. hann aatti Aalfheima ok sua vitt riki sem aar þær falla er þar spretta vpp. þadan fellr Logrinn austan vm dal i Miors. enn þadan Vermaa i Raumelfui enn hon til siofar. af Vermaa fellr Raumaa ofan eftir Raumsdal. af Vermaa fellr Eystrielfr vm Eystridali ok i Vęni enn þadan Gautelfr til siofar. Raumr konungr aatti samdryckiu vm jol vid Bergfinn son þryms iotuns af Vermaa ok geck þa i reckiu Bergdisar systur hans. ok eftir þat gat hon .iij. sonu Biorn[2] Brand ok Aalf. hann fostradi Bergfinnr ok var kalladr Finnaalfr. Biorn var med modur sinni ok var kalladr Jotunbiorn. Brand sendi hon Rauma faudur hans enn hann gaf hann gudunum ok var hann kalladr Gudbrandr. honum gaf Raumr konungr dali þa er Gudbrandzdalir heita. Jotunbirni gaf hann Raumsdal enn Aalfi Eystridali ok allt fyrir nordan Vęni ok fra Gautelfui ok nordr til Raumelfar. þat voru þa kalladir Alfheimar. Gudbrandr Dalakonungr var fadir Audleifs fodur Gudmundar konungs. hans son var Gudbrandr er ei villdi laata kalla sik konung ok let gefa ser jarls nafn fyrir þui at hann villdi vera rikazstr jarl a Nordrlondum. hans son var Geirmundr jarl fadir Rodgeirs jarls faudur Gudbrandz er ei villdi vera konungr ne jarl ok let gefa ser hersis nafn ok reed þo londum sem konungr [?] ok at engu var hann vrikari. hans allir ættmenn voru siþan hersar. Jotunbiorn hinn gamli var fadir Raums konungs fodur Hrossbiarnar faudur Orms skeliamola faudur Knattar fodur þeirra þorolfs haalma ok Ketils raums. Synir þorolfs voru þeir Helgi fadir Bersa fodur þormods faudur þorlaugar modur Tunguoddz. Finnaalfr hinn gamli feck Suanhilldar er kollut var

[1]) þeirra *tilf. Cd.* [2]) Aalfbiorn *Cd.*

gullfiðdr. hon var dottir Dags Dellings sunar ok Solar dottur Mundilfara. sonr þeirra var Suanr hinn raudi fadir Sæfara faudur Vlfs faudur Aalfs faudur þeirra Jngimundar ok Eysteins. Raumr hinn gamli feck sidar Hilldar dottur Gudraudar hins gamla sonar Solua konungs er fystr ruddi þar sem nu heita Soleyiar. enn synir hans voru þeir Gudrøðr Haukr Haddingr ok Hringr. Gudrøðr var konungr eftir fedr sinn ok konungar voru allir hans ættmenn. Eysteinn illraadi var hans son. hann setti Jnnþrændum hund sinn fyrir konung er Saurr het fyrir þat er þeir hofdu drepit Aunund son hans er hann hafdi þar sett til landzgæzslu.

---

# [ÆTTARTÖLUR.]

## Ættartala fra Haud.

Haudr aatti þar riki er kallat er Hadaland. hans son var Hoddbroddr fadir Rolfs faudur Romundar berserks faudur þeirra Hamundar Haka ok Gunnhladar modur þeirra Vtsteins ok Jnnsteins. Hamundr var Hørda jarl hann var fadir Hroks hins suarta ok Hroks hins huita. Haki var fadir Hrodgeirs faudur Hrodmars faudur Haka berserks. Gunnlaud var dottir Hroks hins suarta enn modir Hromundar Gripssunar. Haddingr son Rauma aatti Haddingiadal ok þelamork. hans son var Haddingr fadir Haddings faudur Høgna ens rauda. eftir hann toku riki Haddingiar .iij. ok var huerr þeirra eftir annann. Helgi Haddingiaskati var med einum þeirra. Hringr konungr son Rauma aatti Hringariki ok Valldres. hann feck dottur Vifils sækonungs. þeirra son var Haalfdan gamli. ok þa er hann tok konungdom gerdi hann blot mikit at midium vetri ok blotadi til þess at hann skylldi mega lifa .ccc. vetra i konungdomi sinum sem sagt var at lifat hefdi Snærr hinn gamli. enn frettin sagdi honum sua at hann mundi lifa ecki meirr enn einn mannzalldr. enn þat mundi vera .ccc. vetra[1] at eingi mundi vera vtiginn madr i hans ætt ok engi kona. hann var hermadr mikill ok heriadi vida vm Austrveg. þar drap hann þann konung er Sigtryggr het i einvigi. hann geck at eiga Alfnyiu dottur Eymundar konungs or Holmgardi. þau attu ix sonu. het einn þeingill. er kalladr var mannaþeingill. Ræsir Gramr Gylfi

[1]) ok *tilf. Cod.*

Hilmir Jofurr Tiggi Skyli ok Harri. þessir .ix. er sagt at allir væri iafngamlir ok vrdu sua agætir at i ollum frædum eru þeirra nofn hofd fyrir tignar naufn ok konunga nofn. sua er sagt at engi þeirra ætti born ok fellu allir senn i orrosto. Enn attu þau adra .ix. sonu. hetu þeir Hilldir Næfill Audi Skelfir Dagr Bragi Budli Lofdi Sigarr. Hilldir Sigarr ok Lofdi voru allir herkonungar. Audi Budli ok Næfill voru sækonungar. Dagr Skelfir ok Bragi saatu at londum. Dagr aatti þoru dreingiamodur ok aattu þau .ix. sonu. het einn Oli annarr Ámr .iij. Jofurr fiordi Arngrimr. Oli var fadir Dags faudur Oleifs faudur Hrings faudur Olaafs faudur Helga faudur Sigurdar hiartar faudur Ragnhilldar modur Haralldz hins haarfagra. su ætt Haralldz var kollud Döglingar. Arngrimr aatti Eyfuru þeirra son var Angantyr berserkr. Bragi gamli var konungr a Valldresi. hann var fadir Agnars faudur Aalfs faudur Eireks faudur Hilldar modur Halfdanar ens millda faudur Gudraudar faudur Halfdanar suarta faudur Haralldz hins haarfagra. þessi ætt Haralldz heita Bragningar. Skelfir var konungr a Vaurs. hans son var Skiolldr fadir Eireks faudur Alreks faudur Eireks hins maalspaka faudur Alreks hins frækna faudur Vikars faudur Vatnars faudur þeirra Jmalldz ok Eireks faudur Gydu er aatti Haralldr hinn haarfagri. þat heitir Skilfinga ætt edr Skiolldunga ætt. Hilldir var enn .v. sun Dags. hann var fadir Hilldibrandz faudur Vigbrandz faudur Hilldis ok Herbrandz faudur Haralldz ens gręnska faudur Asu hinnar storraadu modur Halfdanar suarta faudur Haralldz hins haarfagra. Sigarr var fadir Siggeirs er atti Signyiu dottur Vaulsungs konungs. Sigarr var ok fadir Sigmundar er atti Hilldi dottur Griotgardz konungs af Mæri. hans son het Sigarr fadir Signyiar. hann let heingia Hagbard. þat heitir Siklinga ætt. Lofdi var konungr mikill þat herlid er honum fylgdi eru Lofdar kalladir. hann heriadi a Reidgotaland ok vard þar konungr. hans synir voru þeir Skeckill sækonungr ok Skyli fadir Egdis faudur Hialmþiers faudur Eylima faudur Hiordisar modur Sigurdar fafnisbana faudur Aaslaugar modur Sigurdar orms i auga faudur Aaslaugar modur Sigurdar hiartar faudur Ragnhilldar modur Haralldz hins haarfagra. þessir ættmenn Haralldz eru kalladir Lofdungar. Audi ok Budli voru sækonungar ok foru baadir saman med her sinn. þeir komu med lidi sinu til Saxlandz ok heriudu þar vida. logdu vndir sik Valland ok Saxland settuz þar at londum. Audi hafdi Valland ok var fadir Froda faudur Kiars faudur Aulrunar. þat eru kalladir Audlingar. Budli hafdi Saxland. hann var fadir Attils faudur Vifils faudur [Læ]fua faudur Budla faudur Saurla edr Serla ok Atla ok Brynhilldar modur Aaslaugar. ok er su ætt Haralldz

med nytsemd landzmanna. hans menn vnnu honum þo mikit þuiat hann var þeim godr þo at hann væri bændunum hardr.

## Fæddr Olafr Trygguason(!).

45. Astridr het kona su er att hafde Tryggui konungr Olafsson sem fyrr segir. hon var dottir Æircks biodaskalla riks mannz er bio a Offrustodum. en eftir fall Tryggua konungs flyde Astridr drottning af eignum sinum med leynd ok hafde med ser nokkut lausafe. þuiat hon hugde at vvinir hennar munde vndir sig draga allar æignir þær er þau Tryggui konungr hofdu att ok at þeir mundu þar koma ræna hana riki ok suipta hana allri sæmd ef hon hefdizst þar vid heima. henni fylgde j brot fostrfadir hennar ok tryggr trunad(a)rmadr er þorolfr het ok var kalladr lusarskegg. hann skilde alldri vid hana medan þau mattu saman vera. en adra trunadarmenn sina hafde hon a niosnn at vita huat vvinir hennar hofduzst at. þuiat hon hræddizst hardla miog ef þeir yrde vid varir huersu henni var tilfarit at þeir munde hana hart taka ok færa Gunnhilldi konungamodur. en hon villdi þat varazst. en su var hin hæsta sok til hennar brottferdar ok flotta fra sinu riki at j þenna tima var Astridr med barnne þeirra Tryggua konungs ok þui uillde hon fordazst fund þeirra Gunnhilldar ok sona hennar. let hon flytia sig vt a eitt vatnn. j vatninu var æinn holmi þar leyndizst Astridr ok þorolfr med henni. þorgils son hans .vi. vetra gamall var þa hia þeim ok nokkurir menn adrir.

---

## HER ER FEDDR OLAFR KONUNGR TRYGGUASUN I HOLMINUM.

46. A þvi ari er lidit var fra hegatburd vars herra Jesu Cristi niu hundrat ok sextigir ok niu ar ok a audru are hins fiorda tigar Ottonis hins mykla keisara ok a fyrsta are rikis Jatvardar Eingla konungs fædde Astridr fagran suæin j holmanum a vatne þui er Rond hæitir. þann suæin jos þorolfr uattnne at þeim sid at þa gek yfir. þorolfr gaf sueininum nafnn ok kallade hann Olaf eftir fodurfaudur sinum. af þui vard drottningu modur sueinsins hin(n) mesti fagnadr ok ollum þeim er þar voru vid staddir. Huildizst Astridr þar j holmanum sua leinge sem sængarkonum hæfir huilu at byggia eftir barnnburd. en er nott dimmadizst en dagr skemdizst byriadi Astridr brottferd sina þadan ok þorolfr en fatt annara manna. foru þa at eins [32]

med bygdum er þau leynduzst vm daga ok mattu ǫngua menn finna. þau komu æinn dag at kuellde til Eireks a Offrustodum faudr Astridar. sende hon þa menn heim j bæinn at segia fodur sinum þeirra þarkuomu en hann let fylgia þeim j eina skemmu ok setia þeim bord med hinum bezstum fǫngum. var Astridr þar litla hrid adr foruneyti þeirra for brott en hon var eftir ok .ij. þionostukonur med henni ok son hennar Olafr þorolfr lusaskegg ok þorgils son hans. voru þau þar vm uetrinn uel halldin.

Af raadagiordum Gunnhilldar vid Aastridi ok Olaf.

47. Haralldr konungr ok Gudrǫdr brodir hans eptir drap Tryggua konungs Olafssonar foru til bua þeirra er hann hafde att. en þa var Astridr j brottu þadan ok spurdu ekki til hennar. sa kuittr kom firir þa at hon munde vera med barnne Tryg(g)va konungs. þeir foru vm haustit nordr j land sua sem fyrr er ritat. en er þeir fundu Gunnhilldi modr sina sǫgdu þeir henni alla atburde vm þau tidendi er þa hǫfdu georzst j for þeirra. hon spurde vendiliga at þui at þar sem Astridr var. þeir sogdu af þui slikan kuitt sem þeir hǫfdu heyrt. Gunnhilldr suarar. þat mun vera satt at hon mun fæda upp son Tryggva ef ǫngra rada er j leitat. En firir þa sǫk at þat sama haust attu Gunnhilldar synir deilu vid Hakon jarl ok sua vm uetrinn eftir sem fyrr er ritad. þa vard einge eftirleitan hǫfd um Astridi ok son hennar a þeim uetri en eftir vm uarit sendi Gunnhilldr menn til Upplanda ok allt j Uikina at niosna huat hennar haga munde vera. en er þeir niosnarmenn kuomu aftr til Gunnhilldar kunnu þeir þat hellzst at segia til Astridar at hon mun vera a Offrustodum med fodur sinum ok þess meire uon at hon fædde þar upp son Tryggva konungs en sogdu sig huorki þeirra set hafa.

Fer(d) Hakonar sendimanz Gun(n)hilldar eftir Olafi.

48. Hakon het æinn rikr madr hinn kærazste vin Gunnhilldar. sagde hon Hakoni at hann skyllde fara a Offrustadi til Æireks ok hafa þadan son Tryggua konungs ok færa ser. fek hon Hakoni til fylgdar .xxx. manna alla uel buna at uopnum ok hestum. Hakon for ueg sinn ok fyrst þar til er þeir komu at Offrustodum. verda þa menn Æireks varir uid ferd þeirra ok eyrende ok bera honum n(i)osnn vm sendimenn Gunnhilldar. þat var sid dags. en þegar vm nottina bio Eirekr brottferd Astridar dottur sinnar. fek hann henni goda leidtoga. foru þau brott er mikit lifde nætr. Æirekr leidde þau ór garde ok mællti til

Astridar. þui fari þit sua fliotliga j burt hedan[1] at ek ma æigi leingr hallda ykkr her. þuiat Gunnhilldr leitar (at) Olafui syne þinum ok[2] uill taka hann af lifue. en ek uil senda ydr austr til Suiþiodar a fund eins hins kærsta vinar mins er nu er kalladr Hakon gamli. vit uorum badir samt langa æfui j uiking ok uar med okkr hinn kærazste felagskapr. uænte ek at (firir) mina skylld mun hann ydr uel hallda þuiat ek hefir hann reyndan hinn dygdugazsta dreing j ǫllum hlutum. Sidan minnizst hann vid dottur sina ok vid sueininn Olaf ok skildu med hrygd ok harm. sidan foru þau ueginn en Æirekr huarf aftr til bæiarins. þau komu at kuellde dags j þat herat er Skaun het þau sa þar bæ mikinn ok foru þangat ok badu ser þar nætrvistar. þau dualduzst þar ok hofdu fatækligan bunat. sa madr er þar bio het Beornn eitrkuæisa. hann var audigr madr ok illr buþegnn hann rak þau burt. foru þau vm kuelldit j annat þorp skamt þadan er het j Vittlum. þar bio sa madr er þorsteinn het hann herbergde þau vm*nottina ok veitte þeim godan beina. þa nott suofu þau j godum vmbunade. Hakon ok sendimenn Gunnhilldar kuomu a Offrustadi snemma vm morgininn þa er þau hofdu brott farit vm nottina. hann spurde at Astride ok syni hennar. Æirekr sagde at hon væri ekki þar. Hakon trude ekki sognn hans ok ransakade bæinn læitade inne ok vte. duolduzst þar leinge vm daginn ok fengu nokkura niosn af ferd Astridar. toku þa hesta sina ok ridu j brott þa somu leid sem þau hofdu adr farit. kuomu þar vm kuelldit til Bearnar æitrkueisu j Skaun. toku þar gisting ok spurde Hakon Beorn ef hann kynne honum nokkut at segia til Astridar. Beorn suarar. kom(u) her j dag nokkurir menn j uondum klǫdum er ek hugda fatæka vera ok badu mig nætrvistar en ek rak þa j burt þuiat mer eru allir stafkallar leidir. en þo kemr mer nu j hug at j þeirra lide var ein kona forkunnar væn þo at fatækliga være buin med jungu suæinbarne miog fridu ok æinn alldradr madr ok pilltr nokkurra uetra gamall. nu munu þau herbergiut her nokkur j þorpunum. A þui sama kuellde for verkmadr þorstæins ór skogi ok kom til bæiar Biarnar þuiat þat var a leid hans. hann vard varr vid at þar voru gestir margir ok suo huert eyrende þeirra var. sagde hann þetta allt þorsteine bonda þa er (hann) kom heim. en er þridiungr lifde nætr vakte þorsteinn upp gesti sina ok bad [53] þau skiott brott fara ok mællti vid þau hardliga ok leit til þeirra vfrynliga. en er þau kuomu af gardinum vt a veginn hæilsar þorsteinn þeim blidliga. þat vil ek at þu vitir Astridr at ek hefir þetta æigi firir grimdar sakir geort at kuedia þig ok þitt foruneyte sua hard-

[1]) aburt *tilf. Cd.* [2]) þuiat gk(!) *Cd.*

liga hedan j brott af minum herbergium. helldr firir þa sauk at sendimenn Gunnhilldar konungamodr eru komnir til bua mins Bearnar æitrkueisu ok ætla med ser at hafa son Tryggua konungs ef þeir mega nokkurs kostar na honum. ek vænti at sa se mikils hattar er sueininn uill hefia huerr edr huerrar tignar hann er sua at med hans forsio ok fulltinge fai Gunnhilldr ok hennar menn æigi fullgort sitt eyrende. nu skulu þer fara eftir visan minne þar til sem vatnn er firir ydr. j vatninu er æinn holmr reyruaxinn. þangat megu þer fara ok þar felazst j reyrinum ok bida sua minnar tilkuomu. en ek verd nu fystr at fara huatliga heim aftr þuiat mig varir at sendimenn Gunnhilldar komi her skiotliga ok leite yduar. ok ef ek fer j leitina med þeim sem ek trui at þeir vile skal ek þa allan hug a leggia sua firir at sea at þer finnizst æigi þuiat ek hygg þann betr hafa er ydr healpar vid. þau gengu þa fram a skoginn sem hann hafde firir mællt ok kuomu at vatninu. Sua er sagt at þorolfr bar bada suæinana a baki ser Olaf ok þorgils. en þuiat honum vard byrdrin þung signade hon nidr a bakit þa er hann od yfir uatnnit sua at nidr j toku fætr Olafs. hann gret þo æigi. þorolfr vard þa varr vid ok letti hann upp a sig læingra byrdinne. foru þau vt j holmann ok faluzst þar. Snemma vm daginn reid Hakon fra Bearnar j bygdina ok huar sem Hakon kom spurde hann at Astride ok syne hennar. en er hann fann þorstein spurde hann ef þau hefde þar komit. þorsteinn suarar. voru her nokkurir fatækir menn j nott ok mote degi foru þau hedan fram a skoginn. Hann mællti vid þorstein. þu munt vilea fara med oss at leita þeirra þuiat ek vil finna þau en þu munt uel kunna uegu ok fylsne öll a skoginum. þorsteinn iattade ferdinne ok bio sig fliotliga. en er þeir kuomu a skoginn þa mællti þorsteinn. foru uær dreift. vid er læitin. geymit uel til ef þer verdit vid nokkut uarir þuiat æigi er ulikligt ef þau heyra manna malit þuiat þau vitu ser otta uon at þau fele barnnit en fordi sealfum ser. rannsaki þer ok æinuirduliga aull fylsne þau er ek visa ydr til. Hann visade nu aullum þeim þuert fra þui sem þau eru folgin ok þa er þeir mattu (eigi) sia hann[1] rann hann j þorp æitt ok fek þar ambattar barnn bar hann þat a skoginn þar sem þykkuazstr var ok fal þat sidan j fylsnne nokkuru. en bratt eftir þat tok barnnit at grata. En er þeir heyrdu þat er j leitinne voru runnu þeir allir þangat til ok vard þorsteinn sæinazstr. en er þeir litu þetta barnn ok hugdu at vandliga þa kom þorsteinn þar ok sagde sua. brögdum eru ver nu bæittir þuiat þat megu ver allir sia at þetta er æigi kurtæisligt konungs barnn er ver höfum med hondum

[1]) þau *Cd.*

helldr synizst mer sem þetta se illiligt ok vræstiligt ambattar barnn. ok hefir sa madr miog grimliga gabbat er þat hefir her folgit. ok þess varir mik ef Gunnhilldr visse þessa suivirding er hann hefir hennar sendimonnum[1] geort at hon munde uilia at honum væri grimu golldit. Eftir þat foru sendimenn Gunnhilldar aftr ok sogdu henni sitt eyrendi. Astridr ok hennar foruneyti voru j holmanum þenna dag er þeir leitudu hennar vm skoginn. en vm nottina eftir kom þorsteinn þar sem (hann) hafde heitit. fek hann þeim uistir nogar ok adra þa hlute er þau þurftu at hafa sua ok mann til fylgdar þann er uel kunne uegu alla austr j Suiþiod. skilduzst þau Astridr ok þorsteinn godir vinir. lette Astridr eigi ferd sinne fyrr en hon kom med sinu foruneyti a fund Hakonar gamla. dualdizst hon þar ok son hennar langa hrid j godum fagnade.

Hakon hinn norræni for til Suiþiodar at leita Olafs.

49. Nv helldr Gunnhilldr konungamodir frettum til Astridar ok Olafs sonar hennar. en er hon spurde at þau voru j Suiþiod þa sendir hon hinn sama mann Hakon vin sinn med godu foruneyte til Æireks Suiakonungs med vinmælum ok fegiofum. Æirekr Suiakonungr tok uel vid sendemonnum Gunnhilldar. voru þeir med honum j godu yfirlæti. litlu sidarr bar Hakon upp sitt eyrendi vid Æirek konung sagde at Gunnhilldr hafde honum til þess ord sent at hann fengi honum styrk til at na[2] sueininum Olafui Trygguasyni. ok færa henni. Æirikr konungr suarar. þat ma ek geora at fa þer lid slikt er þu þikizst þurfa en þo ueit ek at þu hefir þat æitt eyrende til Hakonar gamla sem honum er vel uiliat. Hakon gamle atte son er Rognualldr het hann var þa med Æireki konungi j myklum kærleikum. Rognualldr [34] var vid tal þeirra konungs ok Hakonar noręna. bio hann sig sem skiotazst ok reid med nokkura menn til fodrs sins. sagde Rognualldr honum at þeir munde skiott koma sendemenn Gunnhilldar konungamodr med myklu lide. suo huert eyrende þeir hofdu. Hakon gamli suarar. uel gerdir þu frende. en æigi er ek uppgefinn firir Hakoni þott mer kæmi eingi niosn ok hefda ek at æins mina huskalla. Litlu sidar kom þar Hakon norręni med mykla sueit manna er Æirekr konungr hafdi fæingit honum. Hakon gamli fagnar honum uel. þa segir Hakon norræni. Gunnhilldr drottning allz Noregs uelldis sendi mig hingat þess eyrendis at bioda med goduilia fostr Olafui Trygguasyne. þikizst hon sua hellzst mega bæta suæininum ok frendum hans ok sletta sua yfir skiotręde sona sinna. þat er þeir drapu Tryggua konung frenda sinn. at fæda upp sueininn[3]

[1]) sendim *Cd.* [2]) gna *Cd.* [3]) minn *tilf. Cd.*

med sæmd ok hallda hann til rikis þess er hann var borinn til þegar hann hefir alldr til. Hakon gamli suarar. diarfliga ok aheyriliga hefir þu framflutt þitt eyrendi. en þuiat Gunnhilldr er reynd at þui at hon er full af flærdum ok suiksamligum vndirbyggium þa truir modir sueinsins æigi hennar glæsiligum ordum edr fagrmælum ok þui þikir henni æigi likligt þar til uppreistar sinum syne er Gunnhilldr er ok ualla uill hon þui trua at þat se astudar bod ok ekki þotti mer sem þau fære hingat fyrr en þrotin væri su hialpar uon. ok grunr er modr sueinsins at hon muni gera uid hann sem fodr hans. ok ætlar ek at ekki verdi þitt eyrende þar vm þuiat huorke truum vær Gunnhillde ne þer. ok þui þarf ekki þetta mal at leingia firir þer at Olafr ferr alldri hedan burt at vvilea Astridar modr sinnar ok æigi fæzst hann med þui hedan at hann komi a ualld Gunnhilldar medan þau uilea her dueliazst hia mer. Skildu þeir sua sina rædu foru sendi(menn) burt ok sogdu Æireki konungi allt sem farit hafde med þeim nǒfnnum. Konungr suarar. sliks er þar at von þuiat þat er satt at Hakon gamli hefir æigi latit sinn hlut her j Suiauellde þo at nokkuru rikare menn hafui hlut j att en þu ert. þuiat ek fek uarlla halldit firir honum minne sæmd þa er vit attum mal saman. þui næst biugguz sendimenn Gunnhilldar heim at fara hæim aftr nordr i Noreg. beiddu þa enn konung fa ser styrk til at hafua sueininn burt or Suiauellde huort Hakon villde edr æigi. Konungr gerde sua ok fek þeim þa .ccc. manna ok kemr a vvart nafna sinum. ok þa er hann kemr til bæiar hans kom Hakon gamli j mot honum med myklu lide ok var at ǒngu vanbuin(n). ok er þeir funduzst krafde Hakon norræni at suæinninn fære med honum. Hakon gamli tok þui seinliga ok segir. sua sagda ek þer nafnni fyrr sua sem enn skal ganga at Astridr skal rada będe ser ok sinum ferdum ok sua Olafui syni sinum. ok sua er hon komin a mitt ualld at þau skulu j ǒngu þinir naudungarmenn vera. Hakon hinn norræni reiddiz miog ordum nafna sins hafde hann þa fram heitan ok hardyrde ok het honum afarkostum ef hann fengi æigi sligt eyrende sem hann uillde. Hakon gamli suarar. æigi þarftu nafni at uera sua styggr ok storordr þuiat satt segi ek þer þat at ekki skortir mig afla til at hallda æinord minni firir rikara manni en þu ert þo at þu hafir nu mikinn styrk fiolmennis. Hakon gamli atti þræl æinn er Busti het. hann var mikill ok sterkr vdęll ok akaflyndr ok æfr j skapi. þo var hann tryggr ok trur sinum lanardrottni ok miog motstadligr ollum hans vvinum. en er hann heyrde ordalag þeirra nafna ok fann at Hakoni gamla mislikade hliop hann fram hart ok akafliga med mykla mykikuisl ok miog saurga ræidande

hana hatt at Hakoni hinum norræna ok mællti til hans miog ræiduliga. huerr ertu sua diarfr ok dularfullr kækinn ok kyndugr sem æingin vard fyrr sa er her kom at þu þorir at beriazst vid hofdingia varnn. nu skaltu kiosa vm .ij. koste ok er þer huorrtueggi hellzti godr. at þu hinn drambuise dragzst j burt þegar j stad med þina menn alla. ella skal ek sla þig sua mikit hðgg med þesse saurkuisl. ok bidr þu af þui hðggi botlausa skam sua at þar firir strykr þu alldri frialst hofud medan þu lifir. Sa þa Hakon ok hans menn sinn kost þann uenstan at fara burt sem skiotaz. sidan var þrællinn sua odr a þeirra skada at þeir kuomuzst æigi obardir[1] vndan honum. foru þeir þa fyrst til Æireks konungs ok sidan nordr j Noreg ok sogdu Gunnhilldi æigi sinar (farar) slettar ok þat med at þeir hofdu set Olaf [35] Trygguason. Gunnhilldr let illa yfir þeirra ferd.

### Spaamæli modur Gardakonungs.

50. J þann tima er Gunnhilldar synir gengu til rikis j Noregi red firir Holmgarde. þat kollum ver Gardariki. einn agætr konungr sa het Ualldimar. hann atti dyra drottning er Arllogia het. hon var vitr ok vinsæl ok uel skapi farin miog godgiaurnn ok godrar natturu þo at hon uæri þa heidin. Sua er sagt at þa uære enn heidit allt Gardariki. konungrinn sialfr blotade skurgod en drottningu mislikade þat miog er hon fek honum æigi fra þui komit. Valldimar konungr atti modr miog gamla ok af elli ðruasa ok matti æigi or rekkiu risa. þessi kelling var miog mikillar natturu ok framsyn af fitons anda sem heidnir menn margir þeir er synduzst segia firir ouordna hluti ok ouisa. En firir þui at konungs modr malsemdum var miog a loft halldit ok haft firir speki ok spadom flest þat er hon fram sagde af fornnum rokum. var sa sidr med Valldimar konungi at jafnan jolakuelldit hit fyrsta þa er adrir menn voru j sess komnir var kelling konungs modir firir hans hasæti borin ok skyllde hon þa segia ef hon sæi edr visse at nokkurr nalægr haski nalgadizst hans riki edr at komanda vfridar være uon. sagde hon þa sligt ok annat þat er hon var spurd. Sua bar enn til a æinum uetre jolakuelld þa er kelling var komin inn j hollina firir konunginn son sinn fagnade hann modr sinne miog blidliga ok bad hana segia ser ef hon sæi edr uisse af sinum spakligum spadome nokkura vtlenda hermenn edr hofdingia a ganga edr girnazst hans riki. Kelling suarar. æigi væit ek son minn nokkurnn skadsamligan hernad ne hamingiuleyse þig nalgazst edr þitt riki. en þo se ek merkiliga syn ok mikils uerda.

[1]) ganga *tilf. Cd.*

at nu er fæddr nordr j Noregi firir skommu æinn kynstorr konungsson sa er her mun agætliga upp fædazst ok fostradr vera j Gardariki þar til sem hann verdr agætr hofdinge. æige mun hann uera agangssamr ne vfridarmadr edr nokkurnn skada gera þinu riki helldr mun hann þat stydia ok styrkia frida ok frelsa ok margfalliga mun hann efla ok auka þina sæmd. hann mun koma aftr um sidir þa er hann er j bloma alldrs sins ok eignazst þat riki sem hann er borinn til þo at hann se nu þadan vtlægdr. hann mun ok skǫruliga skina med mikille tign ok margfolldum sigri ok verda morgum þiodum halæitr hialpare j nord(r)-halfu hæimsins. þo mun þesse hinn agæti konungr æigi leingi riki rada j Noregi. beri þer mig j burt sagde hon þo hefui ek nu hellzsti mart talat vm þenna mann. Var hon þa j brott borin.

### Er menn stucku brott or Noregi firir ofriki.

Margir ungir menn ok rikra manna synir flydu or Noregi firir ofriki ok vfride Gunnhilldar sona. lǫgduzst sumir j hernat til ymissra landa en sumir læitudu ser sęmdar til utlendra hofdingia. sem adr er sagt at Haralldr grenski var j Suiþiod med Skǫglartosta.

### Astridr ok Olafr brutu skip sitt vid Eistland ok sellduz þar.

51. Sigurdr het son Æireks biodaskalla a Offrustodum brod(i)r Astridar er att hafde Tryggui konungr Olafsson sem fyrr er sagt. enn voru þrir adrir brædr Astridar þeir er suo hetu Jostæinn ok Kallhǫfud ok þorkell dyrdill. þeir voru all(ir) algioruimenn ok koma sidar vid soguna. þat er æigi uisliga uitat huort þeir hafa uerit oftnefnndri Astride sambornir j badar ættir edr æigi. Sigurdr Æireksson stok or Noregi undan vfride austr j Gardariki ok var þar leinge med Ualldimar konungi j mykln(m) metnade. en er þat frette Astridr sy(s)tir hans fystizst hon at fara austr þangat til motz vid hann. þa hafde hon verit tuo vetr j Suiauellde med Hakoni gamla. var Olafr son hennar þa þreuetr at alldri. Hakon gamli fek Astridi foruneyti med kaupmonnum nǫkkurum ok gaf henni nogliga ok hennar monnum uist ok klæde ok alla þa hlute er þau þurftu naudsynliga at hafa. en er þau helldu austr j haf komu at þeim Eistir. toku uikingar þar at herfange bæde fe ok menn drapu þeir suma en sumum skiptu þeir med ser til anaudar. þar skilde Olafr Trygguason vid Astridi modr sina. Tok þa sa madr vid Olafi ok þorolfui fostra hans ok þorgilsi syne hans er Klerkon het. Klerkoni þotti þorolfr of gamall ok ekki til þionustu fallinn ok þui drap hann þorolf en hafde sueinana med ser til Eis(t)landz. þa sellde hann þa þeim manni er Klerkr het ok tok firir hafr æinn godan. hinn þride madr

keypte sueinana litlu sidarr ok tok firir þa uesl gott ok slagning. sa madr er þa key(p)ti sueinana het Reas en kona hans Rekon en son þeirra Rekoni. var Olafr med þessum husbonda leingi sidan ok vel halldinn þuiat Reas vnne honum ǫngum mun minna en sinum syne Rekoni. Reas bondi þiade ok þrękkade þorgils til vinnu sem adra þræla sina. Olafr var .vj. vetr j vtlegd a Eistlandi. A einu are hans þarvistar var konunga skipte j Einglande fell þar fra riki Ethuardr konungr en eptir tok konungdom [36] Adalradr brodir hans. hann rikti þrea tigi ara ok atta ár ok vard hinn mesti astuinr Olafs konungs Trygguasonar.

Sigurdr Eireksson keypti Olaf Trygguason.

52. þa uillde gud lata synazst firir monnum þat er adr var leynt hans afreksuerka er sua miog uoru ætlut a loft at koma sem tiad mun verda j þesse frasognn. Sigurdr Æireksson modrbrod(i)r Olafs konungs var j þann tima sendr af Valldimar Gardakonungi til Eistlandz at heimta þadan honum til handa skatta ok skylldr. for Sigurdr rikmannliga med myklu fiolmenni. Sua bar at æinn dag þa er Sigurdr reid fram at garde Reas bonda at ‚suæinninn Olafr var vti a leiki med odrum vngmennum. þuiat Reas uillde firir astar sakir ekki þia hann helldr hafa hann vid hæuersku ok jþrottir ok hallda hann kurtæisliga at klædum sua sem sinn eigin son. en Olafr er hann sa menn rida j gardinn for hann mote flokkinum ok heilsade hofdingia kustæisliga ok alla þa kuadde hann hæuerskliga. Sigurdr tok uel kuediu suæinsins ok mællti. þat se ek a þer godr sueinn at þu munt vera af godu kyne ok her vtlendr þuiat tal þitt ok yfirbragd þitt er ekki likt herlenzsku folki. seg mer nafnn þitt ok sua kyn þitt ok a hueriu landi þu hefir fæddr verit. Olafr suarar. nafnn mitt er vuant ek hæitir Olafr. ætt min er j Noregi ok þat er mitt fostrland fadir minn het Tryggui. j Noregi var ek fæddr en modr mina nefni ek Astridi Æireks dottur af Offrustodum. Sigurdr kendizst þa vid at þessi sueinn var systrson hans. hann mællti. huersu komtu her edr huat er nu hags þins. Olafr sagde honum þa fra ferdum sinum allt þat er yfir hann hafdi gengit sua framt sem hann visse ok munde. Sigurdr spurde. uilltu nu uera leystr or anaud þesse er þu ert j kominn. Olafs suarar. myklu er ek nu betr kominn ok frialsligar en fyr þuiat Reas fostri minn ueitir mer flest þat er ek kann bidia. en þo uillda ek giarnna verda j burtu hedan ef þorgils fostbrodir minn være frelstr af þręldomi ok færi hann med mer. Sigurdr bad hann fylgia ser til Reas husbonda sins ok sua gerde hann. Reas fagnade uel Sigurde ok foruneyti hans. en er þeir toku tal med ser þa mællti Sigurdr. sueina tua

vtlenda sa ek her j dag. en ef þeir eru j þinu uallde uit firir vist at ek uil hafa þa. Reas suarar. kostr skal þer at hafua hinn ellra sueininn med sliku verde sem vit verdum vel asattir. en hinn yngri suæinninn er myklu vitrari ok at ollu fridari ok fegri en hinn. en þess get ek at þer þiki mikit kosta at kaupa þann. ok þat er þer sannazst fra at segia at su(a) mikit ann ek sueini þeim at hann skal ek alldri j þrældom selia ok þui er mer hann allz ekki falr. en med þui at þu ert reyndr at godum dreing þa ma vera at þu nair at leysa hann hedan med hardla myklum peningum ok þo þui at æins at þu hæitir þui upp a þina dygd ok dreingskap at selia hann alldri vid verde ok at gefa honum fullt frelsi ok fari lidugr huert hann uilldi edr uera hea þer uel haldinn ok at ǫngu uframarr virdr eda minna metinn en hann hefir adr her verit. Sigurdr suarar. ger hann sua dyran sem þu uill ek skal kaupa hann med ollum þeim skilmala sem þu sagdir firir. er mer nu ok eingi hugr a at selia hann fra þui er hann kemr j mitt ualld þuiat hann er minn frændsuæinn. En huort er þeir tǫludu her til fleira edr færra ok keypte hann þorgils firir mork gullz en Olaf firir .xj. merkr gullz. flutte Sigurdr sueinana brott med ser til Holmgardz ok gerde ekki upp-uist huerrar ættar hann var en þo hellt hann þa sua sæmiliga sem hinn bezsta mann at ollum hlutum. þa var oftnefnndr Olafr .ix. uetra gamall.

## Olafr Trygguason drap Klerkon.

53. Sva bar at æinn dag at Olafr Trygguason var a torge staddr. þar kende hann Klerkon þann mann er drepit hafdi þorolf lusakegg fostrfodur[1] hans. Olafr hafde litla ǫxe j hende hann gek at Klerkon ok keyrde ǫxina j hǫfut honum sua at hon stod j hæila. tok hann þegar hlaup heim til herbergis ok sagde Sigurde frenda sinum sua gert. en Sigurdr kemr sueininum til drottningar j hennar herberge ok sagde henni tidendin ok bad hana firir huernn mun healpa suei(ni)num. hon[2] sagdi þa ok læit a sueininn. æigi hæfir at drepa sua fagran suein. bad hon þa alla sina menn uopnnaz. J Holmgarde var sua mikil vardhelge at drepa skyllde huernn mann er udǫmdan uo. nu þusti fram allr lydr eftir sid þeirra ok lǫgum at leita eftir Olafi huar hann væri nidr kom-inn. uilldu þeir hann af life taka sem lǫg budu. þa var sagt at hann væri a garde drottningar ok þar her manna med aluæpni bunir til at veria hann. þui næst kom þetta firir konung. gek hann þa til skiott med hird sina þuiat hann uillde æigi at þeir berdizst. konungr sætti

[1]) fostrfadir *Cd.* [2]) ok *Cd.*

menn ok dǫmdi febætr firir uig Klerkons en drottning hellt giolldum upp. sidan var Olafr med drottningu. hann var henni hardla elskuligr ok miog astudligr ollu folki. þau uoru laug j Gardariki at þar skillde ðngir konungbornir menn upp fædazst edr languistum uera vtan konungs leyfui þess er [37] þar rede riki. þa sagde Sigurdr drottningu huerrar ættar Olafr var edr firir hueria sok hann kom þar. þviat hann matti æigi vera j sinu landi firir vfridi ok vmsatum sinna vvina. bad Sigurdr hana segia þetta konungi. hon gerdi sua. ok bad konunginn healpa vid med sinum herradome konungs syne þessum sua hardliga sem hann var þa vid kominn. kom hon suo vid sinum fortolum at konungrinn jattade ollu þui er hon bæiddi þar vm. tok hann þa Olaf a sinn faurnnud ok hellt hann sua uegliga sem burdugu konungs barnni hæfde at vera hia hæuerskum hofdingia halldinn. Dualdizst Olafr þar j Gardariki .ix. uetr med Valldimar konungi uel virdr af honum ok allri alþydu. þokkadizst hann ollum uitrum monnum ok godgiornnum þui betr sem hann hafde þar leingr verit. Olafr var allra manna fridazstr synum mestr ok sterkazstr ok bezst buinn at jþrottum vmfram alla norrena menn þa sem j þann tima lifdu.

### Drepinn Erlendr konungr.

54. Hakon jarll Sigurdarson var med Haralldi Gormssyni Danakonungi vm uetrinn er hann hafdi stokkit ór Noregi firir Gunnhilldar sonum. hann hafdi sua myklar ahyggiur um uetrinn at hann lagdizst j rekkiu. hann hafdi anduokur myklar ok drak æigi mæira en hann matti hallda vid styrk sinum. hann sende menn vm haustit leyniliga nordr j þrandheim til vina sinna ok lagdi þat rad firir þa at þeir skyllde drepa Erllend konung ef þeir mætti. hann sagde sig mundu aftr huerfa til rikis sins þa er sumrade. þann uetr drapu þrændir Erllend konung sem fyrr er ritat. Med þeim Hakoni ok Gullharalldi var vingott. bar Gullharalldr firir Hakon radagerdir sinar. sagde Gullharalldr at hann uillde þa setiazst at landi ok letta hernade. hann spurde Hakon huat hann ætlade huort Haralldr konungr mundi vilea skipta riki vid hann ef hann krefde. Hakon suarar. þat hygg ek at Danakonungr mune ðngra skipta vnna þer. en þo ueiz þu giorr þetta mal ef þu rædir vid konunginn. en uæit ek ef þu krefr æigi þa færr þu æigi rikit.

### Gullharalldr[1] beiddi skiptis a Danmork.

55. Litlu sidarr talade Gullharalldr vid Haralld konung frǫnda sinn sua at nærr uoru margir rikir menn beggia vinir. krafde þa Gull-

[1]) gunh' *d. e.* Gunnhilldr *Cd.*

haralldr konunginn at skipta riki vid sig j helminga sua sem [brodir hans hafdi att[1] j Dana uelldi. Vid þetta akall vard Haralldr konungr ræidr miog ok suarar sua. eingi madr dirfdizst at krefia þess Gorm konung fódr minn at hann skyllde gerazst halfr konungr yfir Dana uellde. æigi helldr hans fadir Hórdaknutr ne Sigurdr ormr j auga edr Ragnar lodbrok. Hann georde sig þa sua reidan ok odan at ekki matti ordum vid hann koma.

Vidrtal Gullharalldz ok Hakonar iarls. capitulum.

56. Gullharalldr vndi þa illa vid sig hafdi nu ræidi konungs en riki ekki helldr en fyrr. kom hann þa til Hakonar vinar sins ok kærde firir honum vandrǫde sin ok bad hann heilla rada ef til uære þau er hann mætti na rikinu. sagdi at hann hefde þat hellzst hugsat at hann mundi sækia rikit med styrk ok uopnnum. Hakon suarar. þetta skaltu firir ongum manni mæla sua at konungr spyri þat. liggr uid lif þitt. hugsa þat med sialfum þer til huers þu munt færr uerda. þarf til slikra storreda at madr se diarfr ok óruggr. spari huarki til goda hlute ne illa at fram megi ganga þat er upp er tekit. en hitt er ufært at hefia upp storrǫdi ok leggia sidan nidr med vsǫmd. Gullharalldr suarar. sua hefi ek þetta upptekit at ek skal æigi minar hendr til spara at drepa sialfan konunginn ef hann uill synia mer þess rikis er ek a at hafa at rettu. Skilia þeir þa rædu sina. Litlu sidarr gek Haralldr konungr til fundar vid Hakon ok toku þeir tal sitt. sagdi konungr Hakoni huat akall Gullharalldr hafdi haft til rikis vid hann ok suor þau er hann uæitte. segir hann sua at hann uillde firir onguann mun[2] minka riki sitt. en ef Gullharalldr uillde nokkut hallda a þessu tilkalle þa er mer litit firir at lata drepa hann þuiat ek trui honum illa ef hann uill æigi af þessu lata. (Jarl suarar. þat hygg ek at Gullharalldr hafi þetta sua fremi upp hafit at hann muni þetta eigi nidrfalla lata.) er mer þat uon ef hann ræisir her ufrid j lande at honum verde gott til lids mest firir uinsælda sakir fódr hans. en þat er ydr hin mesta uhæfa at drepa frenda yduarnn þuiat allir munu (kalla) hann saklausan at sua bunu. æigi uil ek ok þat mitt rad kalla at þu georir þig minna mann en fadir þinn var Gormr konungr. iok hann mikit sitt riki en minkadi j ónguan stad. þa spurde konungr. huert er þa þitt rad Hakon. skal ek æigi midla rikit ok rada af hendi mer þenna ugg. Jarll suarar. kom til min nokkurum dógum sidar þuiat ek vil hugsa [38] þetta uandamal ok mun ek þa væita nokkurn orskurd. Gek þa konungr burt ok hans menn.

[1]) r. burdir hans voru til ok ætt [2]) mann *Cd.*

Raadagerdir Hakonar jarls.

57. Hakon jarl hafde nu hinar mestu ahyggiur ok radagerdir. let hann fa menn vera j husinu hea ser. fam doghum sidar kom Hakon til tals vid hann. spurde konungr ef jarl hefde hugsat þa rędu er (þeir) kuomu a hinn fysta dag. Jarl suarar. þar hefi ek uakat vm nott ok dag sidan ok finnzst mer þat rad hellzst til at þu hafir ok halldir riki þat allt er þinn fadir atti ok þu tokt eftir hann. en þu faer Haralldi frenda þinum j hendr annat konungs riki þat er hann megi sæmdarmadr af vera. Huar er þat riki sagdi konungr er ek ma hæimoliga fa Haralldi ef ek hefui uskipt Dana uelldi. þat er Noregr herra. konungar þeir er þar eru eru læidír ollu landzfolki. uill huerr madr þeim illt sem vert er. Konungr suarar. Noregr er sua land mikit ok illt ok folk hardfeingt at sækia med vtlendan her. gafz oss ok sua þa er Hakon Adalstæinsfostri vardi landit. letum lid mikit en vard æingi sigr unninn. en Haralldr Æireksson er fostrson minn ok knesetningr. Jarl suarar. lǒngu uissa ek þat at þer hafit oft uæitt gnogan styrk Gunnhilldar sonum en þeir hafua ydr ǒngu launat nema illu. nu skulum uær myklu letligar komazst at Noregi en beriazst med allan Danaher. sentu bod Haralldi fostrsyni þinum. biod honum at taka af þer land j len þar er þeir brædr hofdu fyrr her j Danmork. stefnn honum a þinn fund. ma Gullharalldr þa a litille stundu afla rikis j Noregi af Haralldi grafelld. Konungr mællti. þetta mun mer allillt verk vera at suikia fostrson minn. Hakon suarar. þat munu Danir kalla betra skipte at drepa helldr uiking norrænan en brodurson sinn danskan. Tala þeir konungr ok jarl her langa hrid vm med ser þar til er þetta semz med þeim. Gullharalldr kom enn til Hakonar jarls ok tala þeir. segir jarl at hann hefir nu fylgt hans malum sua at mæire uon er at rikit j Noregi liggi laust firir honum. skulu vit þa hallda felagsskap okkarnn. mun ek mega ueita þer mikit traust j Noregi. haf þu fyst þat riki (en sidan þat) er Haralldr konungr frendi þinn a. þui hann er gamall en a þann einn son er hann ann litit ok þo ekki arfborinn. Talar Hakon firir Gullharalldi þar til hann lætr ser þetta lika. Sidan tala þeir oftliga allir samt konungr ok jarl ok Gullharalldr. Litlu sidar sendi Danakonungr menn sina nordr til Noregs a fund Haralldz grafelldz. var su ferd buin alluegliga. tok Haralldr grafelldr alluel vid sendimonnum. segia þeir þau tidendi at Hakon jarl var j Danmork ok liggr banuænn ok nærr oruite. þar med segia þeir at Haralldr Danakonungr baut til sin Haralldi grafelld fostrsyni sinum at taka af ser ueizslur sua sem þeir brędr hofdu adr haft þar i Danmork ok bad hann finna sig a Jotlandi. Haralldr grafelldr bar þetta

mal firir Gunnhilldi ok adra vine sina. logdu menn þar allmisiafnnt til. sumum þotte þeirra ferd ekki trulig sua sem þar var monnum skipat. en fleire fystu at fara skyllde þuiat þa var sulltr mikill j Noregi at konungar fengu lid sitt trautt fætt edr æigi. af þui fek fiordrinn þat nafnn þar sem konungarnir satu oftazst at hann het Hardangr. arferd var þa j Danmork til nokkurrar hlitar. hugduzst menn þadan mundu faung fa er Haralldr hefdi þar len ok yfirsoknn. Var þat radit adr sendimenn foru brott at Haralldr Gunnhilldar son mundi koma til Danmerkr vm sumarit a fund Danakonungs ok taka af honum þenna kost sem hann baud.

### Hakon jarl bioz til bardaga.

58. Haralldr grafelldr for vm sumarit til Danmerkr ok hafde med ser .vj. langskip ok styrde einu Arnnbiornn hersir or Fiordum. Haralldr konungr siglde vt ór Uikinne upp til Limafiardar ok lagdizst þar at Halse. var honum sagt at Danakonungr munde þar skiott koma. Enn er þetta spurde Gullharalldr hellt hann þangat .ix. skipum. Haralldr hafdi adr buit lid þat at fara j uiking. Hakon jarl hafde buit ok sitt lid ok ætlade j hernat. hafde hann .xij. skip ok oll stor. En er Gullharalldr var j brottu farinn þa kom Hakon jarll til konungs ok sagde sua. nu uæit ek æigi nema ver roim læidina ok gialldim leidvitit. mun Gullharalldr drepa Haralld grafelld. sidan mun hann taka konungdom j Noregi. ætlar þu konungr þer hann þa trygguan er þu færr honum sua mikinn styrk. en hann mællti þat j uetr firir mer at hann munde drepa þig ef hann kemizst j færi vm. Nu mun ek vinna firir þig allan Noreg ok drepa Gullharalld ef þu uill hæita mer at ek skuli auduelliga na sættum vid ydr. þa uil ek ok gerazst yduar jarl ok binda þat med suardogum at vinna Noreg undir ydr med styrk. hallda sidan rikinu undir yduart riki ok giallda ydr skatta. ertu þa meire konungr en þinn fadir er þu rædr tueimr þiodlondum. þetta semzst med þeim konungi ok jarli. ferr þa Hakon med lide sinu at læita Gullharalldz.

### Drapp Gullharalldz.

59. þa er Gullharalldr kom til Hals j Limafiord baud hann þegar Haralldi til orrostu. [39] en þo at hann hafui lid minna en Gullharalldr þa gek hann þegar a land ok biozst til orrostu ok fylkte lide sinu. en adr fylkingar gengu saman eggiade Haralldr grafelldr miog lid sitt bad þa bregda suerdunum ok beriazst uaskliga. gek hann þegar fram j onduerda fylking ok hio til beggia handa. Ok er Haralldr grafelldr var j

þessum mannhaska ok hann sa at æigi var suikalaust þa þottizst hann sia huersu fara mundi bardaginn. þa mællti Haralldr. þat hlegir mig nu segir hann at ek se nu nafni at sigr þinn mun uera skammr þott þu fellir mig. firir þui at ek uæit at þetta munu vera rad Hakonar frenda mins er her fara fram. ok kemr hann a hendr þer þegar ek er fallinn ok drepr þig a fætr oss ok hefnir vor sua. Ok nu er sua sagt at Haralldr berzst nu frækliga ok gengr uel fram. Sua segir Glumr Geirason j Grafelldar drapu.

Mællti motra hiallta
malmodinn sa blodi
þrottar ord en þordi
þiodum uoll at rioda.

vidlendr of bad uinda
verdung Haralldr suerdum
frekt þotti þat flotnum
fylkis ord at mordi.

þar fell Haralldr konungr grafelldr. Sua segir Glumr.

Vard a breidu borde
uiggium hollr at liggia
gætir gamla sota
gard Eilimafiardar.

sendir fell a sandi
sæuar bals at Halsi
olli iofra spialli
ordheppinn þui mordi.

þar fell lid Haralldz. þar fell Arnnbiornn hessir. þa voru fra falli Hakonar Adalsteinsfostra .xij.[1] uetr at sognn Ara prestz þorgilssonar en fra falli Sigurdar Hladaiarls .xiij. ar. þa var Olafr Trygguason atta uetra ok hafde hann þa verit j vtlegd a Eistlandi fiora uetr en tua j Suiþiod med Hakoni gamla. Sua segir Ari prestr þorgilsson. at Hakon Sigurdarson væri .xiij. uetr jarl yfir þrandheimi adr hann var felldr. en .vj. hina sidazstu er Haralldr grafelldr lifde segir Ari prestr at Gunnhilldar synir ok Hakon jarl borduzst vm Noreg ok stukku ymsir ór lande.

## Landaskipti j Noregi.

60. Hakon jarl ok Gullharalldr funduzst litlu sidarr en Haralldr grafelldr fell. lagde Hakon jarl þegar til orrostu vid Gullharalld. fek Hakon jarl sigr en Gullharalldr var handtekinn ok let Hakon hann festa (a) galga. Sidan for Hakon a fund Haralldz Gormssonar ok sættizst vid hann auduelliga vm drap Gullharalldz frænda hans. þui næst baud Haralldr konungr her vt vm allt sitt riki. þar var þa med konungi Hakon jarl. ok þa var til hans kominn Haralldr grenski son Gudrødar konungs Biarnnarsonar. for hann med Danakonungi ok mart annarra rikra manna þeirra er flyit høfdu odul sin or Noregi firir Gunnhilldar

[1]) *r.* .xv.

sonum. hellt Danakonungr þeim her sunnan j Vikina. hann hafde .vj. hundrut skipa. gek þa landzfolkit allt vndir. hann. En er Haralldr kom til Tunsbergs dreif til hans mikit fiolmenni. fek hann lid þat allt Hakoni jarli j hendr er til hans hafdi komit j Noregi. Gaf Haralldr Hakoni til forrada Rogaland Hordaland Sognn Firdafylki Sunnmære Raumsdali Nordmære. þessi .vij. fylki gaf Haralldr konungr jarli oll til forrada med þuilikum formala sem Haralldr konungr harfagri gaf sonum sinum nema þat skilde at Hakon skyllde eignazst oll konungs bu ok landskylldir j þrandheimi. hann skyllde ok hafa konungs fe sem hann þyrfti ef herr væri j landi. Haralldr konungr gaf Haralldi grænska Vingulmork ok Vestfolld ok Agdir til Lidandisnes ok konungs nafnn ok let hann hafa sidan slikt riki sem at fornnu hôfdu haft frænndr hans ok Haralldr hinn harfagri gaf sonum sinum. Haralldr grenski var þa atian uetra gamall. For þa Haralldr Gormsson hæim til Danmerkr med sinn her.

### Gunnhilldr ok synir hennar stucku or landi.

61. Nu er Gunnhilldr ok synir hennar spurdu þat sôfnudu þau her ok vard illt til lids. toku þau enn þat hit sama rad sem fyrr at þau sigldu sudr vm haf med þat lid er þeim uillde fylgia. foru þau fyrst til Orknneyia ok duôlduzst þar vm hrid. þar uoru adr iallar synir þorfinnz hausakliufs Hloduerr Arnnfinnr Liotr ok Skule. Hakon jarl lagde þa land allt undir sig ok sat j þrandheimi þann uetr. þess getr Æinar skalaglam j Vellheklu.

Sio fylkium kom silkis
suarr madr var þat barma
geymir grundar sima
granduarr undir sig landi.

Nu liggr allt vndir ialli
imon bordz firir nordan
uordr gędis stendr uida
Uik Hakonar riki.

Hakon jarl for sunnan med land(i) vm sumarit en landzfolkit gek vndir hann allt. baud hann vm allt sitt riki at menn skylldu hallda upp hôfum(!) ok efla blot. ok sua var geort.

### Bardagi Hakonar jarls ok Ragnfredar konungs.

62. þa voru tueir einir eptir Gunnhilldar synir a lifue ok Æireks konungs Ragnnfredr ok Gudrôdr. Sua segir Glumr Geirason j Grafelldar drapu.

Fellu hialms þa er hilmis
hiordrifua bra lifue
verdugt oss til audar
auduan Haralldz dauda.

en ek ueit hefir heitit
hans brodir mer godu
sia getr ser [40] til sælu
seggfiold huortueggi.

Ragnnfredr konungr Gunnhilldar son byriade ferd sina uestan vm haf þa hafde hann uerit æinn uetr j Orkneyium. hann hafdi fritt lid ok skip stor. en er hann kom nordr spurde hann at Hakon jall var nordr j þrandheimi. hellt Ragnnfredr konungr nordr med lande ok heriade vm sumarit. þa gek mart folk undir hann sem oft kann verda þa er herflokkar fara yfir herut at þeir er firir eru læita ser hialpar þangat huerr sem vænst þiker. Hakon jall spurde þesse tidende at vfridr være sudr vm Mære. skar hann þa vpp heror ok skynde til skipa. biozst hann sem huatligazst ok hellt vt eftir firde. honum vard gott til lids. fundr þeirra Ragnnfredar konungs uard a Sunnmære nordarliga. Hakon hellt þegar til orrostu hann hafde lid mæira ok skip smærre. þar uard hardr bardagi ueitte Hakoni þyngra. þeir borduzst vm stafnna sem þa var sidr til. straumr uar j sundinu ok hof skipin oll saman jnn at landi. Hakon jarl let þa hamla at landinu þa(r) sem honum þotti bezst til uppgongu. en er skipin kendu nidr drogu jalls menn þau upp suo langt at þeir hugdu sina (v)vine þar æigi mega upp[1] draga. sidan fylkte jarl a uelle einum ok eggiade Ragnnfred til uppgongu. þeir skutuzst a langa hrid uillde Ragnnfredr ekki a land ganga. skildu þeir vid þat. hellt Hakon[2] þa sudr um Stad þuiat hann ottadizst at landherrinn munde dragazst til Ragnnfredar[3]. Hakon lagde æigi optar til orrostu vid Ragnnfred þuiat Hakon visse at lidsmunr var mikill. for hann þui vm haustit sudr[4] til þrandheims ok sat þar vm uetrinn. en Ragnnfredr konungr hafde allt firir sunnan Stad Firdafylke Sognn Havrdaland Rogaland. hann hafde fiolmenni vm vetrinn ok er uorade baud hann vt leidangri ok fek lid mikit. for hann þa vm oll þau riki at afla lids ok skipa ok annara fanga þeirra er hann þurfte.

### Hakon jarl bardizst i Noregi ok haf(d)i sigr.

63. Hakon jarll baud lide vt nordan ór lande. hann hafde mikit (lid) nordan af Halogalande ok ór Naumudal ok sua fra Byrdu ok allt til Stadar. honum droz herr or aullum þrendalogum ok Raumsdal. suo er ok sagt at hann hefde lid af fiorum folklondum. honum fylgdu .vij. jallar ok hǫfdu allir ogrynne hers. Sua segir Æinar.

Hitt var mæirr at Mæra
mordrikinn let nordan
folkueriande fiorua
fǫr til Sogns um georua.

veit ek at freyr af fiorum
folklondum sa brǫndum
ullr stod af þui allri
yrþiod Hedins byriar.

Hakon jarl hellt her þeim ollum nordan firir Stad. hann fretti at Ragnn-

[1]) r. ut [2]) r. Ragnfredr [3]) r. Hakonar [4]) r. nordr

fredr var firir j Sognne. sneri hann þa þangat lide sinu. var þar þa fundr þeirra Ragnnfredar. Hakon jarll lagde at lande ok gek upp þui hann hafde Ragnnfrede uoll haslat ok orrostu stad. þar var allhardr bardage. Hakon hafde myklo meira lid ok fek hann þvi sigr. þesse fundr var þar er hæitir Dinganes. þar mætizst Sognn ok Hǫrdaland. Ragnnfredr konungr flyde til skipa sinna fellu af lide hans .ccc. manna. Eptir orrostu þessa flyde Ragnnfredr or Noregi. en Hakon jarl fridade land ok let fara aftr her þann er hann hafde nordan haft. hann duald-izst sudr j landi vm haustit ok vetrinn eftir. A þessu sumre for Olafr Trygguason austr j Gardariki. þa var hann .ix. vetra gamall.

þesse frasognn er nu hefuir fram gengit vm hrid af hernade ok hardrędum Hakonar jarls afsannar þat er sumir menn segia at hann hafui sendr verit af Gunnhilldi konungamodr til Suiþiodar a fund Hakonar gamla at leita sueinsins Olafs Tryggvasonar. helldr var hitt at Gunnhilldr sentti(!) vndir sama nafni sem fyrr segir Hakon norręna. en Hakon jarl hafdizst þa vid j Danmork ok Noregi ok framdi þar mikinn hernat. Ok eitt sumar for Hakon til Suiþiodar ok for med honum dottir hans er Audr het ok var allra kuenna uænst. Hakon kom a fund Æireks kon-ungs at Uppsolum ok tok hann uel vid honum ok dottur hans. en þa hafde skilit vid Æirek konung samfarar Sigridr hin storrada. ok var þat ord a af alþydu at hann þęttizst æigi mega sęma vid skap hennar. en þat var þo raunar at þat voru log Suia ef konungs miste vid at drottningu skylde setia j haug hea honum. en hon visse at konungr hafde heitizst Odne til sigrs þa er hann bardizst vid Styrbiornn frenda sinn ok atte fa uetr olifat. En er Hakon kom austr syndizst Æireki konungi hon Audr fǫgr ok bad hennar ok fek hennar med soma. ok sat Hakon þar med sęmd nokkura stund ok for sidan aftr til Danmerkr ok var þar sem fyrr segir.

Spaasogur þeirra j Gardariki vm Olaf Trygguason.

64. J þann tima er Olafr Trygguason kom j Gardariki voru þar þeir menn er spadu firir ouordna hluti. sogdu allir af sinum visdome at fylgiur æins vtlendz mannz vkvnnigs harrar ættar (se komnar j landit) ok væri sua myklar ok hamingiusamligar at þeir hofdu onguar slikar seth. en æigi vissu þeir huerr hann var. en þat sonnudu þeir med morgum ordum ok frodum [41] forspam at þat hit biarta lios er yfir honum skein mundi dyrliga dreifazst yfir allt Gardariki ok vida ann-arsstadar vm heiminn. En sem þessi hin agęta drottning Arllogia er allra kuenna var vitrǫzst j þui lande leit Olaf j fysta sinn skilde hon

at hann var þeirrar gǒfugrąr giftu sem frædemenn visudu til at hann munde vinna mikinn sigr ok soma Gardariki. þar firir fek hann hit fegursta yfirlæti af konungi ok drottningu ok hinu mestu virding ok vinsęld af ollum hinum uitrazstum monnum ok hæstum hofdingium. Ox Olafr upp j Gardariki med gofugligum metordum. var hann fyrr algiorr at vite ok afle ok ollum þroska en aratale. Ualldimar Gardakonungr elskade Olaf sem sinn eigin son ok lęrde hann at list ok kurteise ok herskrude uopnnaburd ok uigfime ok allz hattar jþrott med hofdingligre hęuersku. Olafr fek skiotare skilning a allzkonar atgeorui en flestir menn adrir. en einn var sa hlutr at konungi misþokkadizst miog vid hann at hann uillde alldri j hof koma heidnum godum luta ne þeim nokkura virding at væita. helldr selti hann mikilliga hug sinn mote ollum blotskap ok aullum illum atrunade. jafnan for Olafr til hofs med konungi en alldri gek hann inn. helldr stod hann vti firir hofsdyrum ok horfdi fra a medan konungrinn fórnfærde godunum. Konungr talade oft vid Olaf ok bad hann æigi a sig fella grimma reide godanna sua at hann tynde þar firir þeirra trunade ok uegsamligre vinattu ok hinum biartazsta bloma sinnar essku. helldr at hann mykti sinn hug med hinu mesta litilæte til þeirra þionustu. ella er ek hardla hręddr um sagde konungr ef þu setr þig sua margfalliga mote gudunum at þau steypi yfir þig hrædiligri grimd ogurligrar reide. ok þo uggį ek at þu glatir þinne gæfu ok gofugligre hialp þeirre er þau megi þer veita ok ollum odrum þeim er a þau trua. en er þann ueg berr til þiki mer harmanda vm þinn hag sua mikit sem þu hefir j hęttu. Olafr suarar ordum konungsins. alldri hrædumzst ek þau god er þu gofgar þuiat þeirra mattr er allz eingi. huorke heyra þau ne sia ok ekki mega þau mela. ongua skynsemd ne skilningar græin kunna þau. ok af þui þikiumzst ek hellzst mega skilia huerrar natturu þau munu vera. at mer synizst minn herra jafnan þin konunglig asiona med blidu ok biortu yfirbragde vtan þa er þu gengr j hofit ok færir fornn godunum þa synizst mer þu med dǒkku yfirbragde ok ohamingiusamligu. ok þadan af væit ek at þesse gud er þu þionar mune eiga myrkrum at styra. ok þui skal ek þau alldri tignna. en ek giori þeim firir þat ongua vsęmd at ek uil æigi þig styggia. en þo virdizst mer at þau se þess verd at vera suiuirdiliga sneypande helldr en sæmiliga styrkiande. En eftir þessa þeirra vidrædu fann Olafr at konungr var færre vid hann en fyrr en þo med godu stille gat hann þat j lag fært sua at aftr kom astud ok jofnn vinatta ok aluara af konungi til hans sem adr hafdi haft. (kom) honum j hug

at herraligt mundi uera at ǫmbuna godu sua mikinn soma sem konungr ueitti honum.

## Herferd Olafs konungs hin fysta. capitulum.

65. Sva er sagt þa er Olafr Trygguason var .xij. uetra bad hann konung Ualldimar fa ser herskip ok lidsmenn. konungr let þat til ræidu. uoru þa skiotliga skip buin. Sidan spurde Olafr ef nǫkkurar borgir edr herut væri þau er at fornnu hefdi undir legit Gardariki ok þa hefdi vndan gengit hans riki. Konungr sagde þat satt vera at þau uoru morg herut ok riki borgir ok bygdir at fyrr hǫfdu frialsliga farit med riki Gardakonungs en nu hofdu adrir konungar til sin tekit ok med ofriki ok viafnade undir sig dregit ok kolludu sidan sina eignn. þui næst sem konungr hafdi þetta sagt Olafui hellt hann herskipum fysta sinn brott af Gardariki. hann hafde fritt lid ok ekki mikit. þat var sidr uikinga at þeir hofdingiar er lide styrdu ok uoru konunga synir ok menn kolludu þa konunga þo at þeir redi æigi lǫndum ok firir þui gafu lidsmenn Olafui konungs nafnn. syndizst þa ok þegar huersu goda stilling hann kunne a herstiorninne þo at hann være ungr at alldri. þuiat hann drap ok deydde suma hershofdingia en sumum stǫkte hann ster(k)liga a burt þeim er med uallde ok uikingskap hefdi setz j skattlond Ualldimars konungs ok ræntan hann ramliga riki sinu. atte hann þa a þui sumre margar orrostur ok storar ok hafdi jafnan sigr aftr vinnandi oll þau riki skylldur ok skatta er adr hofdu undan geingit Ualldimar Gardakonungi. kom aftr til Holmgardz vm haustit ok hafde margar [42] orrostur ok storar ok hafde jafnnan sigr aftr uinnande oll þau riki skylldur ok skatta er adr hǫfdu undan gengit riki konungs. kom hann aftr j[1] haustit ok hafdi margar fagrar ok fagætar gessimar j gulle ok gimsteinum ok godum klędum ok allzkonar godum gripum at færa konungi ok drottningu. tok konungr ok drottning ok aull alþyda med glede ok godum fagnnade. Leid þa sua fram langa hrid at Olafr var j hernade ok varde Gardariki uel firir uikingum med hreyste ok hardfeinge. þeim er þar hǫfdu med ofsa ok viafnade adr a gengit. en vann vndir Valdimar konung uid herut borgir ok bygdir þær sem fyrr hǫfdu undan honum gengit j Austruegi. Var hann a uetrum j Holmgarde ok sat vm kyrt med sęmd ok godu yfirlæti af sealfum konungi en j myklum ok mætum kærlæikum drottningar. hellt hann nu hardliga mykla hermanna sueit med sæmiligum kosti þeim er konungr væitti honum. Olafr var orr af fe uit sina menn þui vard hann vinsæll. þa vard þat

[1]) *r.* vm

þar sem vida annars stadar kann til at bera at þar er hôfdingiar vtlendir hefiaz miog til rikis edr sua mikillar fregdar at þat uerde umfram jnnlenzska at morgum uex ôfund a þi þeim er æigi eru godgiarnnir. ok sua for þar at margir menn osannordir ofundudu þat huersu Olafr var kærr konungi ok æigi sidr dyrt metinn af drottningu. mælltu þui þat menn firir konungi at hann skyllde varazst at geora Olaf æigi of storan. firir þui sôgdu þeir at slikir menn eru þer hættazstir ok skiotazstir til skada ok hardręda sem Olafr er ef hann uill þer mæin geora ok þinu riki er hann er vmfram adra menn buinn at iþrottum uinsælld ok atgerui. vitum uer ok æigi huat þau drottning tala sin a millum. þat var mikill sidr hinna riku konunga at drottning skyllde eiga hird ok hallda med sinum kostnade ok hafua þar til skatta ok skylldur sem þurfti. nu var þar suo med þeim Ualldimar konungi at drottning hafde æigi minne hird en konungr ok keptuzst þau miog vm agæta menn. huort uillde til sin hafua. Nu gerdizst sua at konungr festi trunad a þeirra manna rædum er ręgdu Olaf. geordizst konungr nôkkut farr ok styggr til Olafs. en er hann fann þat sagde hann drottningu at hann fysizst at fara j Nordrlond [1] sagde at frendr hans hefde þar riki haft. þiki mer þat likazst at þar verde þroski minn mestr. Drottning bad hann uel fara. sagde at hann munde þar þikia gôfugr sem hann væri. þessa getr j Rekstefiu er ort er vm Olaf konung Trygguason at hann fæddizst upp j Gordum.

Vegmilldr uigdrar folldar
uôrdr þa fostr j Gordum
uellbiodr uisar dadir
uann sa er hæst gek manna.

blikraudr brigda myklum
bratt red fiogur ok atta
allrigt ela þrotta
Olafr skipa stoli.

Sidan bio Olafr skip sin ok lid ok hellt austan or Gaurdum. skipin uoru ôrskreid ok toldu uel firir vindinum skorut skiolldum a bæde bord. En er Olafr kom austan siglde hann at Borgundarholmi ok uæitti þar uppras ok heriade. Sua segir Hallfredr Uandrædaskalld j drapu þeirre er hann orte vm Olaf konung.

Hilmir let at Holmi
herskod rodin blode

huatt vm dylde þess hôlda
haurd ok austr j Gaurdum.

Eftir orrostuna la Olafr konungr med lidi sinu vid Borgundarholm. fengu þeir þar storm uedrs ok storan sia sua at þeir mattu æigi uid halldazst. sigldu þeir þa sudr vndir Uindland fengu þeir hofnn goda foru allt fride ok duolduzst þar um hrid. Burizlafr het konungr j Vindlande hann atte þriar dætr het æin Geira aunnur Gunnhilldr þridia

[1]) nordr j I'd *Cd.*

Astridr. Geira konungsdottir hafdi verit gift hon hafdi mist bonda sinn. Geira var kuenna friduzst ok hinn mesti kuenskorungr. Geira red þar firir med drottningar nafne eftir bonda sinn sem Olafr hafde hofnn tekit. hennar rædismadr het Dixin hann var uitr ok vinsæll hofdinge mikill. hðfudborg su er Geira sat j var skamt a land upp fra herbudum Olafs.

## Vetrvist Olafs konungs hia Geiru.

66. þat var æinn dag at Dixin rædismadr kom j herberge til drottningar. hon fretti tidenda en hann suarar. ek kann eingi tidende at segia nema þau sem þu hefir spurt at vkunnir menn med morgum skipum eru her vid land komnir. rædr þar firir lide æinn agætr madr będe at ætt ok asyndum er nefnnizst Olafr girzski ok kuetzst vera æinn kaupmadr. en ek segi þat med skynsemd at mer synizst hann hraustligr herkonungr þuiat jafnnfridan mann sa ek alldri at asionu ok yfirbragde. hann hefuir fðgur augu ok snarlig. mikill er hann uexte ok allr hans likami er[1] sua fagr ok natturuliga skapadr sem huerr kall(m)adr mætti sig kiosa. Drottning tok þui aullu uel sem Dixin sagde. sendir hon hann þa til skipa med sinum eyrendum. Dixin kom til skipa en er hann fann Olaf sagde hann sua. þat mun þer vera kunnigt at her sem þer erut vid land komnir rædr riki æin agæt drottning er hæitir Geira dottir Buritzlafs konungs. nu firir þui at þer farit her med fride sem hon hefir spurt ok georit ðngar [43] vnadir hennar riki þa er þat hennar ordsendingar at hon bydr þer ok ollu lide þinu til uetrvistar j þa hofudborg sins rikis sem hon sealf sitr j med sinum hðfdingium ok hirdsueitum. þuiat nu er alidit miog ok vedratta hðrd ok straumar myklir. Olafr þa þetta bod gladliga. setr þa upp skip sin ok bua vm uel en skipræida ok annan varnnat fa þeir til varduæizslu Dixin radzmanni. foru sidan til borgarinnar. tok drottning med þeim med hinum mesta blidskap ok georde ueizslu. satu þeir þar vm vetrinn med mikille sæmd ok virding. attu þau laungum tal saman ok þokkadizst huort ðdru uel. ok a þeim uetri bad Olafr konungr Geiru drottningar ser til eiginkonu. hon bar þetta mal firir rædismann sinn ok adra frendr sina ok vine. allir ræddu æitt vm at henni væri þetta hit bezsta rad. sagdi Dixin ok[2] oll hennar rad at[3] þat mundi verda henni til hins mesta styrks ef sua agætr konungr sem Olafr uar uillde þar stadfestazst ok nema ynde. Var þat þa bratt ad radum geort at Olafr fek Geiru drottningar ok var su ueitzsla hin virduligsta. tok hann þa rad ok rikisstiornn med henni.

[1]) ok *Cd.* [2]) at *Cd.* [3]) ok *Cd.*

Vard honum bratt heyrinnkunnikt at margar borgir ok herut þar a Uindlande hofdu legit vndir riki Geiru drottningar er þa hofdu undan horfit ollum skattgiolldum vid hana. for Olafr konungr um vetrinn med her sinn til þeirra borga. hann settizst vm æina borg rika ok fiolmenna. hann baud borgarmonnum grid ef þeir uillde giallda skatt sem þeir voru skylldir. borgarmenn eptu j mot honum ok sogduzst alldri upp gefazst ne honum skatt giallda. sidan bardizst hann vid borgarmenn ok georde til morg uiguel ok gat unnit vm sidir þa borg sua at þeir æiner þagu lifit er med miuklæti badu ser grida. fengu þeir ser þar mikit herfang.

Olafr konungr vann borgir med sinni hreysti. capitulum.

67. Olafr konungr settizst nu um adra borg fiolmenna ok miog sterka. borgarmenn gengu vt a ueggina sögdu sua til konungs. spurt hofum ver huersu mikinn styrk þer hafit ok sua huersu herfiliga þeim hefir tekizst er med ofrkappi ok illzsku risu j mot ydr. ok vilium ver taka annat rad þat er oss synizst sniallara ok vitrligra at gefazst upp sialfir a yduart ualld ok miskunn helldr en strida med fauitzsku mote yduarre haleitre hamingiu er ydr stydr ok styrkir alla uega. þuiat þat georir oss samuitzskan at skilia at þoat eftir bodi natturunnar hafui farsælan oss fylgiusöm verit þa er med öngu mote treystanda a hennar huerfanda huel þuiat þat kann oft vndan uellta þa er minnzst varir. ok til marks at syna uornn goduilia gefum uer upp uornn stad lukum upp hlidum ok leyfum ydr inngaungu. Olafr konungr vard gladr vid þeirra rędu ok het þeim makligri ok mikille ömbun. ok eftir gridin bidr hann nu lid sitt jnn ganga j borgina. En er konungr var inn kominn med fa menn þa var hleyft firir hlidit morgum ok sterkum jarnnhurdum ok slam ramligum. þustu þa borgarmenn huadan æfua at þeim med aluepni or husum ok herbergium ok eggiudu at eingi konungs manna skyllde med fiorui vndan komaz. Konungr ok hans menn toku vid uel ok uorduzst med dreingskap. þeir stodu allir samt vid murinn. konungr sa at æigi mundi sua buit hlyda. hann mællti til sinna manna. gere þer allir sem ek geore. Hann hliop þa upp a murinn þuiat lagt var jnnan at. hliop hann þa vt af murinum. var þat furdu hatt hlaup en þo sakade hann ekki þuiat blautt var vndir. sidan hlupu hans menn til hans. tok hann vid þeim sua at allir kuomuzst heilir a jord. þui næst uæitte hann borginne sua harda atsoknn at a skamre stundu brutu þeir stor hlid a uegginum borgarinnar. gengu þeir þa upp en borgarmenn væittu vidnam. tokzst þar hinn hardazsti bardagi ok lauk sua at

huert manzbarnn var drepit þat er j borginne hafde verit. þeir toku þar at herfangi þat er femętt var en brendu borgina at ôsku. Lette Olafr konungr æigi fyrr en hann hafdi allar borgir ok herut lagt vndir sig þau sem vndan hôfdu gengit ualldi Geiru drottningar. Sidan for hann aftr til sinnar borgar ok sat þar vm vetrinn þat er eftir var. þessa hernadar getr j Rekstefiu.

Olafr allra iofra
alfliott ok red briota
varghollr Vinda borgar
vestr hernat rak mestan.

hręnadrs hueriu sinne
hliom uottande matte
sannfrodr sigri rada
Suolnis doms j romu.

Her segir at Olafr konungr rak mæira hernat a Vindlande en nokkurr konungr annarrr fyrre ok hafde j huerre orrostu sigr.

## Kris(t)ni logtekin i Danmork.

68. Nv er at segia huersu Danmarkar lydr var kristinn ok huern lut Olafr Trygguason atte þar at j sinum radum þeim er hann lagde til med Ottoni vnga. Margir Dana konungar urdu kristnir af keisaranna ualldi ok kôstudu sidan trunne. en med þui at keisarar letu alldri [÷] af at koma þeim til kristni þoat konungar være oauduelldir þa vard þo sua vm sidir med guds miskunn ok oruggre astundan Ottonis kæisara med framkuęmd ok forsia ok fullkomnum goduilia Olafs konungs Trygguasonar. at kristni gekzst vid ok vard lôgtekin yfir alla Danmôrk a þeim dôgum er Haralldr konungr Gormsson atti þar riki at rada sem sidar mun sagt verda.

## Ættartôlur konunga ok keisara.

69. þat er upphaf þessarra frasagna at Arnulfus het madr heilagr ok agætr. hann var j Saxlandi en sidan erkibyskup j Motzconcioborg. hans son het Argisel hertogi a Fraklandi. hann atti Begam Pippins dottur þeirra son var Pippin fadir Kalls fôdur Pippins fôdr Kallamagnus keisara. Karllamagnus var konungr yfir Fraklandi fiortan ár ok .xx. sidan var hann kæisare yfir Romuerium .xij. (ar). a hans dogum voru þessir stolkonungar j Myklagarde Michael Niciforius ok Leo. Karlamagnus hann atti Hilldegardis drottning þeirra son var Hlaudverr. hann tok kæisaradom eftir fôdur sinn ok rikti .xij. ar ok .xx. hann sa menn huorke hlęia ne hrækia[1]. A þeim tima er Kallamagnus var konungr red sa konungr Jotlande er Gudefridus het. hann drap Hrærek Frisa

[1]) r. leika

hðfdingia ok skattgillde Frise. sidan for Kallamagnus konungr med mikinn her mote Guthefrido. þa var Gudefridus drepinn af sinum monnum en Hemingr brodurson hans tekinn til konungs. hann for med her mote Kallamagnusi konungi. þeir funduzst vid a þa er Egdrera heitir. þar settuzst þeir. Uetri sidarr andadizst Hemingr konungr. þa georduzst konungar yfir Jotlandi Sigfrode frendi Gutefridi en annar het Hergeirr[1] anulli. þeir deilldu vm rikit ok attu margar orrostu(r). lauk þui sua at huorrtueggi fell. j þeim bardaga fellu tiu þusundir ok niu hundrut ok .lx. manna. þa tok konungdom sa madr er Herdr het. hann var fim uetr konungr ad(r) hann bardizst vid Renfridum son Gudefridi. j þeirre orrostu het Herdr til sigrs ser ef hann kæmizst hæill þadan at taka retta tru ok lata skirazst med ollum sinum rikismonnum. en j þeim bardaga fek hann sigr ok for sidan med konu sina ok brodrson sinn er Harekr het til fundar vid Laud(uer) son Kallamagnus. hann var þa kæisare. Hann var þa skirdr j Meginzsoborg ok hans menn a dogum Paskalis pafa hins fysta med þui nafni j postuligu sæti. for Herdr þa heim j Danmork ok med honum byskup sa er Ansgarius het ok skirde hann þar mart folk. Herdr var sottdaudr. litlu sidar tok konungdom Harekr brodurson hans a Jotlandi þar til er Gutthormr brodir hans bardizst vid hann. j þeirre soknn fellu þeir badir ok allt konungakyn Jota nema æinn smasueinn er Harekr het. hann vard sidan konungr. þa var lidit fra hegatburd vors herra Jesu Cristi niu hundrut ok .lx. ara ok eitt ár. Ansgarius byskup for þa en(n) til fundar vid Harek ok skirde hann. Harekr let kirkiu geora j Ripum[2] en Herdr hafde geora latit j Heidabę. Ansgarius byskup andadizst þremr uetrum eftir bardagann þeirra Hareks ok Guthorms. þa er sagt at Harekr kastade kristnne ok do litlu sidarr. Eftir þat voru konungar heidnir Sigrfrode ok Halfdan. Rimbertus uar erkibyskup eftir An(s)garium. a .xij. áre hans byskupsdoms andadizst Hlauduerr keisari son Karllamagnus. hann atte fiora sonu er sua hetu Lotarius[3] ok Hlauduerr[4] ok Karll ok Pippin. þeir skiptu riki med ser sua at Lotarius hafde Romariki Borgun(d)iam ok Lotuinguam(!) en Hlauduerr hafdi Frakland ok keisara nafnn. Karll Valland [son Pippins konungs[5]. þa er Rimbertus hafde verit byskup .xij. ar heriudu Danir ok Nordmenn a land þat er Nordmenn kalla Borgund. en a mote[6] þeim georde Hlauduer for sina hann drap af herinum .iiij. þusundir. en vetri sidarr andadizst Hlauduerr. A þui are leitudu Danir ok Nordmenn at hefnaz. ok foru

[1]) *r.* Hringr [2]) Rifum *Cd.* [3]) Botartos *Cd.* [4]) Doda *Cd.* [5]) *r.* en Pippin Aquitaniam [6]) mate *Cd.*

þeir med myklu lide vt eftir Rin ok brendu þar allar borgir ok kirkiur ok hǫfdu hinu ezstu kirkiur firir hrosshus j borg þeirre er Aquisgranum hæitir. þeir brendu Kolni[1] ok allar borgir upp med Rin. þa georde Kall brodir Hlauduers lid a mote þeim. þeir funduzst vid a þa er Mosa heitir. j Dana lide voru þeir konungar Sigfrode ok Gudfrode ok synir Ragnnars lodbrokar. þeir sættuzst vid kæisarann ok letu skirazst. Ok litlu sidarr rufu þeir allt sattmalit ok heriudu uestr a Frakland allt til Parisborgar ok brendu hana. þa kom j mot þeim med mikinn her Arnnaldr er þa var kæisare ok drap af þeim .viij. hundrut manna. eftir þat stoduadizst Danaherr. þa var lidit fra hingatburd vors herra Jesu Cristi niu hundrut ara edr nærr þui. en .xvij. uetrum sidar var vigdr Humo[2] byskup j Brimum a Saxlande. A .xij. are þadan fra for Heinrekr er fyrstr var keisare med þui naffnne til Danmerkr ok færde Dane þa j kristne bæde med blidmælum ǫgnum(!) ok orrostu ok leitti(!) æigi fyrr en þeir hetu at taka tru retta. [45] Sidan for Humo byskup til fundar vid konunginn Froda er þa red j Jotlandi ok skirde hann ok alþydu. þa voru georuar upp kirkiur þær sem eydzst hǫfdu j Heidabæ ok Ripum[3]. þa var ok kirkia geor j Arose. Eftir þat sende Frode menn til Romaborgar ok let uigea þrea byskupa til Jotlandz at rade Aganippus[4] pafa. var Heridus byskup uigdr til Heidabęiar en Libidagr til Ripa[5] en Rimbertus til Áros. ok uar þat niu hundradum .xl. ok .viij. arum eftir holldgan vors herra Jesu Cristi a .xij. are konungdoms Ottonis hins mykla.

---

### HER HEFR VPP JOMSVIKINGA ÞAATT.

70. Þar var fra horfit konunga tali er þeir redu firir Danmork Sigrfrode ok Halfdan. eftir þa red sa konungr firir Danmork er Helgi het. hann atti bardaga vid Olaf Suiakonung ok fell Helgi þar en Olafr red leinge sidan firir Danmork ok Suiþiod ok vard sottdaudr. eftir hann tok riki j Danmork Gyrdr ok Knutr. en eftir þa Siggæirr. en eftir hann tok Olafr Kynriksson. sa var brodurson Moalldar digru modur Juars vidfamna(!) hann var læinge konungr yfir Jotlande. hann var kalladr Olafr enski. hans son var Grimr gaue er konungdom tok eftir fǫdur sinn. Grimr gaue var fadir Audulfs audga er skattkonungr var a Jotlande Ragnars sona lodbrokar. son Audulfs var Gormr er enn var skattkonungr a Jotlande hann var kalladr Gorms^r hinn barnnlause.

[1]) Holm *Cd.* [2]) *r.* Huno [3]) Rifum *Cd.* [4]) *r.* Agapetus [5]) Rifia *Cd.*

hann var rikr konungr ok vinsæll vid sina menn. hann hafdi þa leingi firir landinu radit er þetta var tidinda. tuæir menn eru nefnndir þeir er voru j hird konungsins het annarr Hallvardr en annarr Hauardr.

Capitulum.

Arnnfinnr het jarll er þa var j Saxlande ok riki hellt af Karllamagnusi konungi. þeir uoru godir vinir ok Gormr konungr. hofdu verit fyrr j vikingu badir samt. jallinn atti systur frida. ok sua berr til at hann lagde a hana þydu meire en skyllde. sidan gek hon med barne en þat var þo miog leynt. Hann sende hana j burt med trunadarmonnum ok bat þa æigi fyrr vid skiliazst en þeir uisse huat af yrde barnnenu. sua gera þeir. koma fram þar sem konungrinn Gormr red firir nema stad vid skog þann er Myrkvidr hæitir ok letu barnnit koma vndir vidar rætr. en þeir fordudu ser j skoginn ok duolduzst þar. þess er vid getit at þat berr saman þetta sama haust at Gormr konungr for a skog ok hird hans oll j allgodu uedri ok foru at dyrum alldine ok fuglum allan þann dag ok skemtu ser sua. en vm kuelldit þa ferr konungr hæim ok oll hirdin nema þeir tueir brædr Hallvardr ok Hauardr þeir duolduzst eftir a skoginum ok gengu sidan uida vm merkr at skemta ser. en firir myrkurs sakir þa fatu þæir æigi heim ok sneru þa leid sinne til siofar ok þottuzst vita at þeir mundu feta heim ef þeir fylgde siofarstraundu þuiat borg konungsins var skamt fra sio er mȯrkin gek fram allt at sio. Ok þa er þeir gengu vm siouar sanda ok at melum nokkurum þa heyra þeir barnns grat ok gengu þagat ok uissu æigi hui sæta mundi. þeir fundu þar sueinbarnn. þat var lagt vndir uidar rætr ok knyttr knutr mykill j enninu a silkidregli er þat hafde vm hofudit. þar var j ȯrtugar gull. barnnit var uafit j guduefiar pelle. þeir taka upp barnit ok hafa hæim med ser ok koma sua hæim er konungr sat yfir drykkiubordum ok hirdin ok saka sig vm þat er þeir hofdu æigi gad at fylgia konungi heim. en konungr kuazst æigi firir þetta mundu ræidr uera. ok nu sogdu þeir konunginum huat georzst hafde j forum þeirra. en hann beiddizst at sia suæininn ok let ser færa ok læitzst uel a sueininn ok mællti. sueinn sia mun vera storra manna ok betri fundinn en æigi. ok let sidan vatnne ausa ok nafnn gefa ok kallade Knut. en þat var firir þa sok at fingrgull hafde knytt verit j enne sueininum þa er hann fanzst. ok tok hann þar nafnn af þat er hann let sueininn hafa. hann fek honum fostr gott ok kallade sinn son ok vnne mikit ok georde uel vid. Knutr fæddizst þar upp var hann vitr ok uel at iþrottum buinn. En er a leid æfui Gorms konungs ok hann var

gamall þa tok hann sott þa er honum vann at fullu. ok adr hann anndadizst þa baud hann til sin mörgum vinum sinum ok frændum er hann þottizst sia huersu fara munde. hann bæidde þa þess at hann munde rada huerium hann munde sueria land ok þegnna eftir hans dag ok uillde til þess fa þeirra leyfui. en kuezst Knuti gefua vilea allt sitt riki ok alla þa hluti er hann uæri þa mæire madr en adr eftir sinn dag. ok nu firir sakir vinsælda konungs at hann var monnum astfolginn þa jattudu þeir honum þessu at hann skyllde rada ok for þetta fram. ok eftir þat lætr hann lif sitt.

## Knutr hinn fundni reed landi.

71. Nu tekr Knutr vid lande ok þegnnum ok öllu riki þui sem Gormr konungr hafde adr haft. ok er hann vinsæll vid menn ok rædr æigi læingi firir lande adr hann a ser son þann er Gormr [46] het. hann var heitinn eftir Gorm hinum barnnlausa. þesse Knutr var ymizst kalladr þrælaknutr edr Knutr hinn fundni. þui var hann þrælaknutr (kalladr) at hann gaf frelsi huorumtueggium þrælum þeim er hann höfdu folgit ok fundit ok jalldoma. þrælaknutr var skamma stund konungr ok þo hardla frægr. eftir hann uar til konungs tekinn Gormr son hans. hann var kalladr j æsku sinne Gormr hinn heimski. en er alldr færdizst yfir hann var hann kalladr Gormr hinn riki. hann hellt riki af Ragnars sonum lodbrokar ok var mest j kærleikum vid Sigurd orm j auga. Sigurdr atti Helunu dottur Ella konungs. ok þa er Ragnars synir raku hernat vm þesse lönd Eingland Ualland Frakland Saxland ok allt vt vm Lungbardi Suiþiod Danmörk Vindland ok er þeir kuomu heim skiptu þeir med ser þeim londum er þeir höfdu unnit. Beornn jarnnsida hlaut Suiþiod Gautland huorttueggia. Sigurdr ormr j auga Eygotaland Halland ok Skaney. Huitserkr hafde Ræidgotaland ok Uindland. Ok er Sigurdr ormr j auga sat j Danmork fædde kona hans son sa het Knutr. hann var fæddr a Hörd a Jotlande ok þadan af kalladr Hördaknutr. hann fostrade Gormr konungr. Gormr vard sottdaudr en Haurdaknutr var konungr j Danmorku yfir Eygotalande ok Skaney [ok Hallande þuiat[1] þat var hlutskipte Sigurdar orms j auga födr hans. Knutr konungr kuæntizst ok gat son. þann let hann hæita eftir Gorm fostra sinum syne Knutz hins fundna. hann var konungr eftir födur sinn manna mestr ok fridazstr. hann var kalladr Gormr hinn gamli þa er hann elldiz.

[1]) þuiat þat var Hallland *Cd.*

## Fra Klacharalldi jarli.

72. Haralldr er nefnndr jarll æinn er red firir Hollsetulande hann var kalladr Klakharalldr. hann var vitr madr. hann atti ser dottur æina er þyry er nefnnd ok var allra kuenna vitruzst ok red ḑrauma betr en adrir menn. hon var ok frid synum. þar þottizst jall eiga ǫll landrad er dottir hans var. let hann hana ollum hlutum rada med ser ok vnni henni mikit. Ok nu er Gormr var frumuaxsta ordinn ok hann hafde tekit vid konungdomi þa for hann or landi ok ȩtlade þat rad firir ser at bidea dottur Haralldz jalls. en ef hann uillde æigi gipta honum konuna þa hugde hann at jarll munde þola her. Ok nu er[1] þau Haralldr jarll ok dottir hans spyria til fara Gorms konungs ok hans firirætlanar þa senda þau menn j moti honum ok bioda honum heim til hinnar bezstu ueizslu. ok þektizst hann þat ok sitr þar at uæizslu med sæmd ok allri ǫlud. sidan berr hann upp sin eyrende[2] firir jalli. en hann uæitir þau suðr at hon skyllde sealf firir rada. firir þui segir hann at hon er myklu uitrari en ek. Ok nu er þetta mal borit firir hana sialfa. hon segir þa. eigi mun þetta radazst þessu sinne ok skaltu heim fara at sinne med godum giofum ok uirduligum. En ef þer er mikit um radahag vid mig þa skaltu er þu kemr heim lata geora bradliga hus sua mikit at þer se skapligt at huila j. þar skal husit setia er æigi hefir fyrr hus stadit. en þar skaltu æinn sofa j uetra(r)nott hina fyrstu ok þriar nætr j samt ok mun þu glǫgt ef þig dreymir nokkut. ok sent sidan menn a minn fund at segia mer drauma þina ef nokkurir eru ok mun ek þa upp kueda firir þeim huort þu skalt fa þetta rad edr æigi. en æigi þarftu þa at senda menn at vitea þessa radahags ef þig dreymir ekki. Eftir þetta uidrtal þa er Gormr konungr skamma stund at þesse ueitzslu ok byzst heim ok er ant til at reyna þessa hennar vitru ok tilskipun ok ferr nu hæim med mikille sæmd ok virduligum giofum. Ok er hann er hæim kominn þa ferr hann sua med þessu ǫllu sem hon hafde honum rad til kent. let nu geora husit ok gengu sidan j þetta hus sua sem firir var mællt. hann let vera hea husinu vti .ccc. manna aluopnnadra ok bad þa uaka ok hallda uord. ok kom þat j hug at vera mune suik. ok legzst hann nidr j rekkiu þa er þar var geor j husinu ok sofnnar ok eptir þat dreymir hann. ok þar sefr hann þriar netr j þui huse. ok nu eftir þetta georir hann rit ok sendemenn til Hollsetulandz til jalls.

[1]) eru *Cd.* [2]) sin *tilf. Cd.*

## Sagdir draumar Gorms konungs.

73. Nv fara sendimenn ok koma a fund Haralldz jarlls ok þyry dottur hans ok segia þeim drauma Gorms konungs ok bera upp sin eyrendi firir þyry. Ok er hon hafde heyrt draumana þa mællti hon. nu skulu þer her vera suo leinge sem þer vilit en þer megit sua segia konungi ydrum at ek mun ganga med honum. Ok er þeir koma heim þa segia þeir konungi þesse tidendi ok verdr hann gladr[1] vid þessa sǫgu.

## Sagdir draumar Haralldz(!) jarls(!)

Konungr byr nu ferd sina med myklu lide ok skrautligu at uitea þessa radahags. ok ferst honum uel þar til sem hann kemr til Hollsetulandz. Haralldr jarll frettir til ferda hans ok lætr geora dyrdliga ueitzslu ok mikinn fognut j mote honum. ok tekzst nu radahagr þeirra a millum ok myklar astir. en þat var haft at skemtan at ueitzslunne at Gormr [47] konungr segir drauma sina. en hon rædr þa eftir. Konungr segir sua at hann dreymde vetrarnott hina fyrstu ok þrear nætr er hann suaf j husinu. at hann þottizst vti staddr uera ok sea yfir allt riki sitt. hann sa at siorrinn fell af lande ok sua langt at hann matti huergi auga yfir reka. sua vard mikil fiaran at þurr uoru oll eyiasund[2] ok firdir. en eftir þau tidende þa sa hann at yxnn þriu gengu ór sionum ok runnu a land upp þar nær sem hann var ok bitu þar af allt gras at snǫggu er þeir kuomu at. ok eftir þat gengu þeir a brott. Sa var annar draumr er þessum er miog aþekkr. at honum þykir enn sem þriu yxnn gengi upp ór sionum ok rynne allir a land upp. þeir uoru allir raudir at lit ok hyrnndir miog. þeir bitu enn gras af jǫrdunne jafnnt sem hinir fyrre. ok er þeir hǫfdu verit nǫkkura hrid þa gengu þau enn aftr j sioinn. Hinn þride draumr var enn þessum likr. þa þottizst Gormr konungr enn sia þriu yxnn ganga upp ór sionum. þeir voru alsuartir at lit ok myklu mest hyrnndir ok voru enn nokkura hrid ok foru hina somu leid a brott at þeir gengu j sioinn. ok eftir þat þottizst hann heyra brest sua mikinn at hann hugde at heyra munde vm alla Danmork. ok sa hann at þat vard af siofar ganginum er hann gek at landinu. En nu uil ek segir hann at þu drottning radir draumana til skemtanar monnum ok lysir sua yfir þinum vitrleik. Hon mællti sig æigi vndan þessu ok red draumana ok skipade þeim fyst sem fyrst var sagdr ok dreymdr ok sagde sua. at þar (er) yxnn gengu ór sio a land upp huitir at lit at þat mune vera uetr þrir myklir ok

[1]) hann *tilf. Cd.* [2]) eyialond *Cd.*

munde falla sniorr sua mykill at ár munde af taka j Danmǫrku. en þar er þer syndizst ganga or sionum aunnur þriu yxnn ok voru þeir raudir. þar munu koma adrir þrir vetr sniolausir ok þo æigi godir. firir þui at þer þotte þeir bita gras af jordunne. en þar sem hinir þridiu yxnn gengu upp þar munu koma hinir þridiu þrir uetr. þeir munu vera sua illir at þat munu allir menn tala at ǫngua mune þeir slika. ok þat suarta uaran man koma ok naud yfir landit at trautt munu dęmi til finnazst. en þar er þer þotti yxnin vera miog hyrnd þar munu margir verda hornnungar allz þess er eigu. en þar er þau gengu aftr j sæinn þar kuad hon varan mundu huerfa af landinu ok aftr j sæinn sem at komu uxarnir. ok þa heyrþir þu brest mikinn er siorrinn fell at landi. þat mun vera firir ofride storeflismanna. ok finnazst her j Danmork ok eiga her bardaga ok orrostur storar. þess er mer ok uon at þeir menn sumir se þer nanir at frendsemi er vid uerda staddir vid nokkurnn vfridinn. ok ef þig hefde þetta fyrr dreymt er nu var sidarr j drauminum þa munde vfridrinn verda a þinum dogum. en nv mun þetta ekki saka. ok æigi hefda ek þa med þer gengit ef þig hefde sua dreymt sem adr gat ek. en vid mun ek geort geta ǫllum draumum þessum er þig hefir dreymt firir hallærinu. Ok eftir þessa veitzslu foru þau Gormr konungr ok þyry drottning heim til Danmerkr ok letu hlada mǫrg skip af kornne ok annare gæzsku. ok flutti sua ár j Danmǫrk. ok a huerium missarum þadan j fra allt til þess hallæris er hon hafde firir sagt. ok þa er hallærit kemr þa sakar þau allz ekki firir vidbuninge sinum ok þa menn er j nand voru j Danmork þuiat þau midludu þadan mikil gæde ǫllum landzmonnum sinum. ok þotti þyry uitrǫzst kona komit hafua j Danmǫrk ok var kollut þyry Danmarkar bot.

## Send(ir) menn til jarls.

74. þau Gormr ok þyry attu sonu tuo ok het Knutr hinn ellri en Haralldr enn yngri. þeir voru badir efnniligir menn ok þotti Knutr enn vitrari j æsku þeirra. hann var firir flestum monnum vm vænleik ok alla atgerui þeim er þa voru j Danmorku. hann er huitr a hárs lit ok huerium manni vænni. konungr vnni honum vm alla menn fram ok þar med ǫll alþyda þui var hann kalladr Knutr Dana ast. Haralldr var likr modrfręndum sinum. þyry vnne honum æigi minna en Knuti. Knutr var fostradr med Klakharalldi afa sinum ok fostrade hann Knut ok honum vnni hann mikit enda var hann hinn vinsælsti j sinum uppruna. en Haralldr var fæddr hæima med hird fǫdur sins. hann var þeirra brædra miog myklu yngri ok var snemmendis æfr ok udęll uidrskiptis

ok vard hann firir þui ouinsæll j sinum uppruna. þat er sagt eitthuert sinn at Gormr konungr sendi menn til fundar vit Haralld jall mag sinn (þeirra) eyrenda at bioda honum til iolauæitzslu med ser. en hann tok þui uel ok het at fara vm uetrinn til bodsins. Nu foru þeir aftr konungs menn ok sogdu sua at jallsins var uon til jolaueitzslunnar. Ok er at þui kom at jall skyllde heiman buazst þa ualdi hann ser foruneyti sligt sem hann uilldi hafa til bodsins. Knutr for med honum en æigi er þat sagt huersu fiolmennr hann for. þeir fara nu ferdar sinnar þar til er þeir koma at Limafirde. ok er þeir voru þar komnir ok ætludu yfir fiordinn þa sa þeir þar standa æik æina þa er þeim þotti nòkkut [48] med kynligu mote. þar voru uaxin a epli helldr sma en þau voru grȩn ok blomgut. en undir æikinne lagu ònnur epli þau voru bȩde fornn ok stor. þeir vndraz þat miog ok segir jall at honum þikir þetta vera vndr mikil er græn uoru eplin j þann tima arsins sem þa var. þuiat þau eplin lagu hia æikinne er vm sumarit hòfdu uaxit. ok munu ver huerfa aftr sagde jarll ok fara æigi leingra. Huerfr hann nu aftr ok fara vnz þeir koma heim. sat jall heima þau missare med hird sinne. Konungi þotti kynligt er jall kom æigi ok ætlade þo at nokkurar naudsyniar munde firir standa. Nu er kyrt þetta sumar. ok er vetr kemr sendir konungr menn til jalls at bioda honum til jolaueizslu sem j fyrra sinn. jarll heitr forinne ok fara aftr ok segia sua konungi. Ok nu kemr þar missarum at jall for heiman med sinu foruneyti ok fara nu unnz þeir koma at Limafirde. ok voru nu a skip komnir ok ætludu yfir fiordinn. En þat er sagt at j fòr voru med þeim hundar blaudir ok lagu huelpar j hundunum. en er þeir voru a skip komnir þa þotti jallinum sem gæi huelparnir j greyhundunum en hundarnir sealfir þogdu. þetta þotti jallinum hin mestu bysnn ok ollum þeim. ok hurfu aftr þadan ok voru heima þau jol. Nu ferr sua fram unz kemr hinn þride vetr. sendir konungr menn sina at bioda jalle ok hæitr jarll forinne. fara sendimenn aftr ok segia konungi. En jall byzst heiman þa er at þui kemr med foruneyti sitt ok fara vnnz þeir koma at Limafirde ok ætludu at vera þar vid fiordinn vm nattina. Sidan bar syn firir þa þa er þeim þotti mikils vm vert. þeir sa boda risa a jnnanverdum firdinum en annan j utanverdum. ok gek huorr j mote audrum. en bodarnir voru myklir ok georde af okyrlæik mikinn er þeir fellu saman ok mættuzst. ok þat fylgde þui at þeim þotte at blode gera sioinn af. þa mællti jallinn. þetta eru stor bysn segir hann ok skulu ver aftr huerfa ok uil ek æigi fara til bodsins. Nu gera þeir sua fara heim ok sat jallinn heima þau jol.

Haralldr jarl kom til konungs ok reed synir.

75. Konungrinn Gormr vard ræidr miog er jallinn hafde ðngu sinne þekzst heimbod at honum. en hann uisse æigi huat til hafde halldit er hann kom æigi. Ok nu vm uetrinn eftir jol þa ætlade Gormr konungr at heria a hendr jallinum Haralldi magi sinum. ok þotti hann hafua drambat miog vid bodum sinum er[1] hann hafde ekki sinn komit þa er a var kuedit ok þotti jall hafa suiuirt sig j þessu. ok þessarrar firirætlanar konungs vard þyry drottning uðr ok taldi ofallit þetta rad firir konungi. samir þer æigi segir hon at geora jallinum vfrid firir ðngar[2] sakir ok liggia her til morg betri rad vm þetta mal. ok af fortðlum hennar sæfadizst konungr nokkut sua ad eyddizst herforin. var þat rads tekit at konungr sendi menn sina eftir jallinum ok uillde uita hueriu sætti. ok hafdi drottning þetta rad til gefit at þeir skyllde finnazst fyst magarnnir ok talazst vid ok sea þa huat vid sig væri. Ok nu koma sendimenn konungs a fund jallsins ok segia honum eyrendin. ok bregz hann nu uit skiott ok ferr a fund konungs med fðgru foruneyti. Konungr tekr at hofui vid mage sinum. ok er sua sagt at konungr gengr a malstefnnu uonu bradara ok lætr jall þangat kalla. ok er þeir voru þar komnir þa spurde konungrinn. hui sętti þat sagdi hann at þu komt ðngu sinne er ek baud þer til min ok suiuirdir sua mig ok mitt bod. Jallinn suarar ok letzst æigi til suiuirdingar þat gort hafa vid hann þo at hann kæmi ekki sinn til uæitzslunnar helldr kuat hann þar adra hlute til hallda. segir nu þau bysnn er þeir hofdu set ok adr var sagt. kuezst jall skyra mundu firir konunginum ef hann villde vita huat hann ætlade at taknna mundi huert vndrit. en konungrinn jattade þui. Jarll mællti þa. þar mun ek þa til taka er ver sam æikina med grænum eplum ok smam en fornn epli ok stor lagu nidre hea. en þat hygg ek vera munv firir sidaskipte þui er koma mun a þesse lond. ok man sa sidrinn uera med mæira bloma ok jartæignna þau eplin hinu foghru. en sa sem nu er mun merkia þau hinu fornnu eplin er þa lagu a jordu ok munu þau funa ok verda at dupte einu. mun sea sidr ok nidr leggiazst þa er hinn gengr yfir ok er þa sem sia verdi at ðngv. Annat vndr uar þat er ver heyrdum huelpana geyia j greyhundunum. þat hygg ek firir þui uera munu at þeir menn er ungir eru at alldri munu taka mal firir munn hinum ellru(m) monnum ok georazst sua huatuiser at mikil von er at þeir hafui æigi minna hlut radanna þo at hinir ellri se optar radgari. ok hygg ek at þeir muni enn æigi vera komnir j heiminn er ek mæli þetta til. þuiat huelparnir

[1]) ok *Cd.* [2]) r. vanda

go er æigi voru lagdir en greyhundarnir sialfir þogdu. Hit þridia undrit er ver sam bodana gangazst a mote. annar j jnnanverdum firde enn [49] annarr (j) vtanverdum ok mætluzst midfirdis ok fell huorr j kuerk audrum en siorinn vard af blodugr af okyrlæik þeim er þar geordizst af. þat hygg ek vera munu firir missætti nokkurra storeflismanna her innanlandz ok munu þar georazst af bardagar ok mikil styriolld. ok er mikil von at þar verde nǫkkut afspringe af þessum ofride a Limafirde sem þesse bysn bar firir oss er nu hefui ek sagt. Gormi konungi skilduzst uel ord jallsins ok þotte spaklig vera ok gaf honum þa frid ok rann af konungi þa ræide su er hann hafdi haft a jallinum. en suo er sagt ad adr þeir gengi j malstofuna þa hafde konungr setta menn til at bera uopnn a jallinn ef honum þetti sem vrækt ein hefde til gengit ok ofmetnadr er hann hafde æigi farit til bodsins næinu sinne er hann baud honum. ok þotti konungi nu sakir til þo at hann hefdi æigi farit. gengu þeir nu burt af malstefnu þesse ok var jall þar med konungi nokkura stund. Sidan skildu þeir magar sattir ok þa jall af konungi godar giafir adr hann for j burt. ok ferr hann nu med foruneyti sitt ok ferst uel vnnz hann kemr heim. Nu lida skammar stundir adr Haralldr gefr fostra sinum Knuti ok frænda allt riki sitt. ok tok nu Knutr vid Hollsetulandi ok ollu þui riki er att hafde Klakharalldr jall. en hann sialfr redst j fra ok byriade hann nu ferd sina sudr j Ualland ok tok þar vid kristne ok kom alldri sidan j Danmork.

Drepinn Knutr Dana aast af Haralldi brodur sinum.

76. Sva er sagt at þeir Gormr konungr ok Haralldr son hans urdu osamþykkir þegar er Haralldr hafde styrk alldrs sins. tok Gormr konungr þat rad at fa honum skip nǫkkur ok leysti hann sua a burt. ok ferr hann uida ok leggzst j viking huert sumar en a uetrum er hann j Danmork ok hafde þar fridland. Ok er þui hafde fram farit vm hrid þa er þat sagt at Haralldr beiddi fǫdur sinn at hann skyllde fa honum þuilikar æ(i)gnir sem Klakharalldr jall hafde gefit Knuti. en hann fek þat æigi af fǫdr sinum. þat er sagt at eftir þetta geordizst vþokki mikill medal þeirra brǫdra Knutz ok Haralldz. ok þotti Haralldi uera mikill munr georr þeirra brǫdranna j huiuetlnna ok grunade at æigi mundi sidarr minne. þess (er) vid getit at æitt haust kemr Haralldr til Danmerkr sem hann atti vanda til at hafua þar vetrsetu. hann hafdi heriat vm sumarit j Austrueg. en j annan stad er þat at segia at Gormr konungr sendi menn til Holltzsetulandz at bioda Knuti syne sinum til jolaueitzslu. ok er at þui kom ferr Knutr heiman med foruneyti sinu

ok hafde þriu skip. ok sua hafde hann til ætlat at hann kom j Limafiord atfangadag jola sid dags. ok þat sama kuelld kemr Haralldr brodir hans j Limafiord ok hefir niu skip edr tiu. hann var kominn ór Eystrasalti ok hafdi þar heriat vm sumarit. Nu verdr Haralldr þess varr at Knutr brodir hans er þar firir med þrem skipum. minnizst nu a oþokka þann allan er georzst hafdi mille þeirra brǫdra ok bidr menn sina briota upp uopnn sin. buazst nu til atgaungu vid Knut. þessa verdr Knutr varr ok uill veria sig ok þui æigi upp gefaz þott hann hefde lid minna. en Haralldr kuedr nu skulu skrida til skarar med þeim brǫdrum ok leggr at skip sin ǫllu megin ok slærr þa þegar j bardaga þann sama jola aftan. en þar lykr sua at þar fell Knutr Dana ast ok allt lid hans edr þui nærr. þuiat Haralldr neytti þess at hann hafde lid meira.

## Vidtal konungs ok drottningar.

77. Eftir þetta fara þeir Haralldr þar til er þeir koma firir bæ Gorms konungs sid vm aptaninn ok gengu þar a land upp aluopnadir til bæiarins. ok er þat sumra manna sognn þeirra er frodir eru at Haralldr leitade ser rads ok þottizst æigi uita algeorlla huersu hann skyllde segia fǫdr sinum. en þat var firir þa skylld at Gormr hafde þess heit stræingt at hann skyllde deyia ef hann spyrde frafall Knutz sonar sins ok sua sa er honum segde dauda hans. Haralldr sendi fostbrodur sinn er Haukr het a fund þyry drottningar modr sinnar ok bar henni ord til at hon fengi rad til at segia tidendin. en hon gaf þau rad til at hann fære sialfr a fund faudr sins ok segde. at haukar tueir hefde barizst ok være annar alhuitr en annarr grarr ok uære badir godir. en suo lyki med þeim at hinn huite haukrinn hefde bana ok þetti þat almikill skade. sidan for Haukr til Haralldz ok sagde huat modir hans hafdi til rads gefit. For Haralldr þa til hallar þar er Gormr konungr drak jnne med hird sina. Haralldr gek nu j hallina firir fodur sinn ok segir honum fra haukunum sua sem modir hans hafdi rad til kent ok lauk sua sinu mali at nu er daudr hinn huite haukrinn. ok er hann hafde þetta mællt þa kuad hann annat ord uti. Æigi er þess getit huar Haralldr hafdi herbergi þa nott edr lid hans. en Gormr konungr rædr ekki j þetta sua at menn fyndi. drekka menn vm nattina sem likade ok foru sidan at sofa. En vm nattina er menn voru gengnir or hollinne þa ferr [50] þyry drottning til ok let ofan taka hallarbuninginn ok sidan let hon tiallda j stadinn suǫrtum tiolldum ok gram uefium þar til sem altialldat er. firir þui let hon sua gera at þat var þa hygg-

inna manna rad j þann tima ef harmtidende kuomu til eyrna monnum at geora þann ueg sem drottning georde.

### Konungr fretti fall sunar sins.

78. Gormr konungr hinn gamli ræis upp þann morginn ok gek j hasęti sitt ok ætlade at taka til drykkiu. þa leit hann a hallarueggina. þyry drottning sat j hasæti hea konungi. Nu tok konungr til orda. þu munt hafa þessu radit þyry drottning sagdi konungr er hǫllin er þann ueg buinn. Firir hui þikir þer a þui likende segir hon. þui sagde konungr at þu uill sua segia mer fall Knutz sonar mins. þu segir mer nu sagdi drottning. Gormr konungr hafde stadit upp firir hasætinu er þau ręddu vm þetta. en nu settizst hann nidr hart ok suarade ǫngu ok hneig þa upp at hallaruegginum ok gek þa ór honum ondin. Sidan var konungrinn j brott borinn andadr ok til graftrar færdr ok var haugr orpinn eftir hann at rade þyry drottningar. Ok nu sendir hon eftir Haralldi syni sinum at hann skylldi heim koma med ollu lide sinu ok drekka erfui eftir faudr sinn. ok sua gerde hann ok var þat hit virduligzsta erfui. Eftir þat tekr Haralldr vid landi ok þegnum ok ǫllu þui riki er fadir hans hafde att ok hafde þing vid landzmenn ok toku Danir hann til konungs a þinginu vm allt Danariki. ok sitr hann nu nǫkkura uetr j fride eftir þetta ok styrir riki sinu med uegsemd ok myklum soma.

### Fra Jvari beinlausa.

79. Jvarr hinn beinlause var konungr j Æinglande langa ęfui. hann atti ekki barnn þuiat þat segizst at hann hefde aungua girnnd. en æigi skorti hann spekt ne grimd. hann vard ellidaudr a Æinglande ok heygdr þar. þa voru daudir allir Lodbrokar synir. Eftir þat tok konungdom j Einglande Adalmundr Jatgeirsson brodurson Jatmundar hins helga ok kristnade hann vida Eingland ok tok skatt af Nordimbralande er heidit var. Eftir hann var konungr Adalbrikt hann var godr konungr ok vard gamall. a hans dǫgum ofarliga[1] kom Danaherr ok voru þeir brędr firir lidinu synir Gorms hins gamla Knutr ok Haralldr. ok þat er sumra manna sǫgnn at sua bærizst at vm liflat Knutz Dana astar at Gorms synir fengi mikit ualld a Einglandi ok Nordimbralande ok þa er þeir ugdu ekki at ser æinn dag er skin var heitt at þeir fære a sund milli skipanna. en er Knutr var a sundinu kom af landi ofridr. þa var Knutr lostinn ǫru til bana ok væri sua fluttr hæim til Danmerkr.

[1]) vardfarliga *Cd.*

## Hakon jarl lukti skattinn.

80. Hlôduerr konungr sonarson Kallamagnus rikti med brędrum sinum. sem fyrr var ritat .xxx. ok .vi. ar. ok eftir þat rikti Karll brodir hans .xij. ar med brędrum sinum. het annar Kallamagnus en annar Hlôduerr. J þann tima bygdizst landit. þa red firir Danmork Gormr hinn gamli en Haralldr hinn harfagri firir Noregi. Eftir Kall Hlauduersson rikti Arnnmolldus son hans .xij. ar. þa Hlôduerr son Arnnmolldi .xij. ar. þa Konrad .vij. ar hann var fystr keisare þeirra manna er [eigi voru[1] af langfedga tolu fra Kallamagnusi komnir. Eptir þat rikti Heinrekr .xvij. ar. þa Otto hinn mykli .xxx. ok atta ar. þa Otto hinn raude son hans .ix. ár. þa [Otto hinn[2] ungi son Ottonis rauda .x. ar. Ok var j þann tima Haralldr konungr Gormsson konungr at Danmork ok Noregi en Hakon Hladajarll hellt af honum riki sem fyrr er sagt. var þa vinatta þeirra god. sendir Hakon jarll Haralldi konungi a einu sumri fimtige hauka. engan skatt gallt hann annan firir þui at Danakonungr væitte honum skatta alla þa er hann atti j Noregi til starfs ok kostnadar er jall hafdi til at veria landit firir Gunnhilldar sonum. en þat hafde verit sattmal þeirra Haralldz konungs Gormssonar ok Hakonar jarls eftir drap Gullhaharalldz. at jarl skyllde fara til Danmerkr vm sinn ok bioda vt leidangri vm allan Noreg til lids vid Haralld konung Gormsson þa er honum er mest lids þaurf en fara ofuallt sialfr er konungr sende honum ord ok hann uill hans raduneyti hafua. hann skylldi giallda skatta þa alla er fyrr uar sagt. en þat var hundrat marka gullz ok .lx. hauka. Eptir þat tok Hakon jarl gull þat allt er att hafde Gullharalldr ok hann hafde nafnn af tekit. þat gull hafde hann haft af sudrlôndum. þat var sua mikit fe at tuær kistur voru fullar af gulle sua at æigi mattu tueir karllar meira lyfta af golfui. tok Hakon fe þat allt at ser at herfangi ok gelldr nu Haralldi þriggia uetra skatt firir fram ok kuetzst æigi mundu j annat sinn betr vidlatinn. Haralldr konungr tok þat ok skilduzst at þui.

## þaattr Otto keisara ok Gorms(!) konungs.

81. Otto keisari er hinn vngi var kalladr streingdi þess heit at hann skylldi snua Dônum til rettrar truar ef hann mætti. ella skylldi hann med ollum sinum styrk heria a Dani .vj. sumur j samt ef hann fengi æigi fyrr kristnat þa. Eftir þa heitstreinging sendir keisarinn [51] bod Haralldi Danakonungi med þeim ordum at hann skyllde trua a sannan gud ok allt þat folk er hann atte at rada edr at (odrum) koste sagde kæisarinn at hann munde fara med her a hendr honum. En er Danakonungi kuomu

[1]) enn var *Cd.* [2]) Ottoni *Cd.*

þesse bod lætr konungr bua landuarnir sinar ok hallda uel upp Danavirke. hann sende bod nordr j Noreg Hakoni jarli at hann skyllde koma til hans snemma vm vorit med allan sinn her þann er hann fengi. baud Hakon jarl her vt vm uorit af ollu riki sinu ok vard allfiolmennr. helt hann lide þui ǫllu til Danmerkr ok for til fundar vid Haralld Danakonung. tok konungr allþaksamliga vid honum. margir adrir hǫfdingiar voru þa med konungi þeir sem honum veittu lid. georir konungr þat bert at hann ætlar at hallda her þeim ollum til motz vid Ottonem keisara.

## Bardagi Otto keisara vid Dani.

82. Otto keisari dro her saman vm vorit a Saxlande. hann hafde mikit lid ok fritt hellt hann þui til Danmerkr. Vm sumarit funduzst þeir Haralldr konungr. þeir lǫgdu þegar til orrostu ok bǫrduzst allan daginn til nætr. þar fell fioldi lids af huorumtueggium en þo fleira af keisaranum. en er natta tok settu þeir med ser .iij. natta grid til radagerdar ok vidrbunadar huorumtueggium. En er .iij. nætr voru lidnar gengu a land huorirtueggiu ok biugguzst til bardaga. gengu sidan saman fylkingar ok vard hin hardazsta atsoknn. ueitte keisara þa allþungt ok fell myklu fleira hans lid. ok er a læid daginn brast flotte j lide hans ok flyde sidan til skipa sinna. Sua er sagt at Otto keisari sat a hesti vm daginn ok bardizst frækiliga. ok er meginherrinn tok at flyia ræid hann vndan til skipanna. hann hafde j hende mikit spiot gullrekit ok var alblodugt upp at hǫndum. hann setti spiotit j sioinn firir sig ok mællti hatt. þui skyt ek til allzualldanda guds at annan tima er ek kemr til Danmerkr skal ek geta kristnat landit edr lata lifit ok liggia her daudr j Danauelldi. Otto keisari steig þa a skip sin med lid sitt ok for heim til Saxlandz ok sat þar vm vetrinn. en Hakon jarl var eftir med Danakonungi ok hofdu þeir myklar radagerdir ok letu þa af nyiu ræisa Danavirke er vidfręgt er ordit. þat var geort mille Ægisdyra ok Slessmunna allt vm þuert landit ꝭ mille siofua. sidan fór Hakon hæim til Noregs.

## Vidrtal konungs ok Hakonar jarls.

83. Vm vorit eftir dro Otto keisari her saman ovigan. hann hafde her af Saxlande ok Fraklande Frislande ok Vindlande. fylgde honum Burizlafr konungr med mikit lid. hann hafde ok mikit lid af Hollsetulande. flutti keisari allan þann her til Danmerkr. Ok þegar er Haralldr konungr spyrr þesse tidendi þa sendi hann menn a fund Hakonar jarls at hann skyllde koma a hans fund ok hann þikizst alldri mæirr þurft

hafua[1] hans liduæitzslu ok fiolmennis en þa. Hakon jarl skipaz skiott vid ordsendingar konungs ok þikir naudsynia mal ok ferr þegar hann er buinn ok hefir hundrat skipa ok kom vid Danmork ok ferr þegar vit .xij. mann a fund konungs. konungr verdr honum feginn ok segir hann uel hafua undir vikizst sina naudsyn. ok skal nu fara j mote lide þinu ǫllu ok kann ek huerium manni þǫk er hingat kemr. Vit skulum rædazst vid nokkut adr sagdi jarl. mig attu til radagerdar ok þessa .xij. menn til fulltings en æigi meira lid nema ek vile. þuiat ek hefir komit adr vm sinn at væita þer lid sua sem vit hǫfum mællt med okkr firir ǫnduerdu. Satt er þat segir konungr en þess vænta (ek) at þer at þu mundir mer at lide verda firir sakir vinattu okkarrar. Jarl suarar. þess er ek æigi radande vid menn mina segir hann. þeir þikiaz skylldir at veria land mitt ok riki en æigi þikiazst þeir skylldir at veria annarra konunga riki eda Danmork firir þer ok leggia sidur sinar vid spiotzodda ok taka ekki j mot j gędum edr virdingum. Huat skal ek til vinna segir konungr vid þig ok þina menn at þer komit mer at lide þuiat ek hefu(i) þat sannspurt at ek mun uid ofrefli eiga at skipta firir sakir fiolmennis konungs. Jarl suarar. einn hlutr er sa er skoradr er til þessa at þui sem ver verdum asattir ek ok minir menn. ef þu uill gefa upp skattana alla af Noregi þa er vgolldnir eru. ok sua skal vandliga upp gefua at alldregi sidan skal Noregr skattgilldr vndir Danmork. en ef þu uill æigi þenna kost er ek hefir nu bodit þa mun lid þetta fara heim allt til Noregs er mer hefir hingat fylgt nema ek sialfr skal her vera med þessa .xij. menn ok væita þer sligt lid sem vit verdum asattir. þat er satt segir konungr at alla menn byrgir þu vti firir uitzmuna sakir ok rada. ok eru mer nu georuir tueir kostir ok er huorrtueggi hinn vesti ok vandreda leitar þu mer nu. Hygg þu nu at segir jarl. en sua synizst mer segir hann sem þer muni at litlu hallde koma skattarnir [or Noregi[2] ef þu lætr lifuit her j Danmork. Skiott skal ok kiosa segir konungr at þui sem nu er komit. at þu ueit mer med allt lid þitt sem þu færr oft til ok munt þu þa ǫdlazst þat er þu beidir. [52] Ok eftir þat sendir konungr j mote ollu lide Hakonar at þangat kome a eina stefnu. ok eiga þeir at þessu handsal ok binda þeir sua fast sina maldaga. ok nu taka þeir þar dyrdliga væizslu at konungs ok fara sidan mote keisara med allann her sinn þann er þeir fengu til. Konungr ferr med skipalid sitt til Ægisdyra. en Hakon jarl til Slessmunna odrum megin landzsins. En þa er keisarinn spurde at Hakon jarl var j Danmork ok ætlar at beriaz vid hann med Haralldi konungi

[1]) mæirr *tilf. Cd.* [2]) edr nor̄ *Cd.*

sendir hann fra ser jalla sina tua. het annarr Urguþriotr en annarr Brimilskærr. þeir skulldu(!) fara j Noreg ok kristna þar land medan jall væri j brottu.

### Bardagi keisara vid Hakon jarl.

84. Nv sendir Haralldr konungr Hakon jarl med Nordmanna her allan þann sem honum hafde fylgt sudr j Danavirke at veria þar landit. en Haralldr konungr sialfr dro saman her sinn a Jotlande. þess er getit at Hakon jall for med her sinn til Danavirkis at veria þat at Otto keisari kom med her sinn sunnan at Danavirke. Danavirke er sua hattat at firdir .ij. ganga jnn j landit sinum megin landzsins huorr. en j mille fiardarbottnanna hofdu Danir gert borgaruegg będe hafan ok sterkan af grioti ok torfui ok uidum en grafit diki breitt ok diuft firir utan. borgarhlid var a hueriu hundrat(!) fadma ok var þar kastale til varnar a dikinu. voru þriar bruar firir hueriu borgarhlide. Otto keisari sotti med her sinn sunnan at Danavirke en Hakon jarl varde borgarueggina med sinu lide. Hakon jarl setti fylkingar yfir ǫll borgarhlid. en hitt var þo fleira lid hans er hann let fara med borgarueggiunum ok veria þar sem mest var at sott. fell þa mart af kæisarans monnum en þeir fengu ekki at geort at vinna borgina. sneri þa kæisarinn fra at sinne ok for med her sinn til skipa sinna. Eptir orrostu þessa for Hakon jarl aftr til skipa sinna ok ætlade þa at sigla nordr til Noregs. en honum gaf ekki byr ok la hann læinge vt j Limafirde.

### Wnnit Danavirke af raadum Olafs.

85. Olafr konungr Trygguason hafde verit æinn vetr a Vindlande sem adr er ritat þa er þessir hlutir foru fram med kæisara Ottoni ok Daunum sem nu hefuir tiad verit vm hrid. Olafr bio skip sin snemma vm uorit ok siglde a haf. hann siglde skipum sinum yfir undir Skaney uæitte hann þar uppgǫngu. en landzmenn sǫfnuduzst saman ok helldu til orrostu vid hann. þar hafde Olafr sigr ok fek herfang mikit. sidan siglde hann austr til Gotlandz. þar tok hann kaupskip er Jamtar attu. þeir uæittu uornn mykla af skipinu. en sua lauk at Olafr uann skipit ok drap mart manna en tok fe allt. þridiu orrostu atti hann a Gotlandi sialfu. hafdi hann þar sigr ok fek þar herfang mikit. Sua segir Hallfredr Uandrædaskalld.

Endr til Jamta kindir
alluandliga falla
vandiz hann at vinnda
ueggrimmr a þat snimma.

hęttr var hessa drottinn
hiordiarfr Gota fiorui
gullskeyde fra ek geordu
gæir þey a Skaneyre.

Eptir þat hellt Olafr konungr skipum sinum sudr til Danmerkr ok allt sudr til Sless. þuiat hann spurde at þar var firir Otto keisari ok med honum Burizlafr Vindakonungr magr Olafs ok þat med at þeir þurftu lids vid. En er Olafr fann kæisara baud hann at uæita honum lid med alla sina suæit. kæisari læit vid honum ok spurde huerr hann væri. hann suarar. ouant er nafnn mitt herra ek hæiti Olafr. Kæisari mællti. þu ert madr mikill ok hamingiusamligr ok allir þinir menn synazst mer fræknnligir ok uil ek sannliga ydra liduæitzslu þiggia. Kæisarinn atti þa husþing vid radgiafa sina ok hofdingia sina. hann sagde sua. litit a vitrir hǫfdingiar ok gefit rad til hueriar framferdir uer skulum hafa þuiat oss er mikill vande at hǫndum kominn. þuiat allr þessi herr hinn mykli er her er saman kominn er vistalauss. en Danir hafua kuikfe sitt ok annat godz þat er þeir eiga flutt undan oss þangat j landit sem þeir þikiazst ǫruggir vm vera firir uorum hernade. sua at þessum megin Danauirkis ma ekki finnaz þeirra godz þat er til mannfædis megi hafa. ver hofum att her nǫkkurar orrostur ok uæitir oss erfuitt at vinna land þetta. nu gefit til rad huersu ver skulum med fara sua at ver halldim sęmd uorri. En er kæisarinn hætti at tala þǫgdu flestir. en þeir sem suorudu sogdu at .ij. voru kostir til annarr sa at leita fra ok fara heim j riki sitt eda drepa faraskiota sina til matar ser ok uidrlifnadar folkinu. Kæisarinn suarar. a þeim radum liggia stormæinbugir. þuiat þat er næsta kristnispell skirdum monnum at eta hross þeim er odruvisu megu leingia lif sitt. en ef ver gefum upp styrk uornn ok forum heim j riki uort þa kann ek þat sia at alldri fam ver annan tima mæira lid edr fridara at vinna Danauelldi. en mer sialfum þo hin mesta vhæfa ok vsæmd at nidaz a tru minne. þuiat ek skal annathuort þessu [53] sinne fa kristnat Danmork edr deyia her ella. en heyra vilium ver huat hinn nykomni hofdinge Oli leggr til med oss. Oli suarar kæisaranum. herra þat ferr saman um hagi mina sem æigi er hentazst at ek er litill radagerdamadr. en ek hefui þo sua mikinn mettnnat a minum radum at ek uil her med ǫngu moti til leggia nema þer herra ok allir ydr(ir) hofdingiar heiti mer þui at hafa (þat) ok hallda sem ek segi her um. en þat er mer þo æigi heyriligt at tala sua mikiliga af minne personu upp a yduarnn herradom sakir þess at ek er æinn sem allir adrir[1] skylldr at tala ok geora huat er þer uilit. Kæisari þakkade Ola ord sin ok iattade honum firir sig ok sina hǫfdingia at hafa þau god rad er hann gæfui honum. ok allir þeir hetu sua at geora sem kæisari mællti. Þa mællti Oli. þat er mitt hitt fyrsta rad at þer læitit þangat hialpar

[1]) Her er et lidet ubeskrevet Rum i Codex.

sem nog er til. at þer hæitit a þann gud er þer truit a. þuiat þat heyri ek sagt vera ok sua hygg ek ok satt vera at hann hafui alla hlute j sinu uallde ok se mestr ok mattugazstr allra konunga ok gefui ǫmbun huerium manni firir huert gott uerk er geort er honum til uegs ok uirdingar. ok þat at ek hefui heyrt at hann uill bedinn uera miskunnar med marghattadre bindende matar ok drykkiar ok margra annarra likamligra girnn(d)a. ok þui er su ein min tillaga enn med ydr at þer ok allr herrinn vatnnfasti .vj. dęgr til þess at sa hinn sami gud er alla hluti skapade gefui oss at vinna sigr a Dǫnum ok lata ydr fram koma sinu eyrendi ser til dyrdar þui at þer farit med. þui næst vil ek at allr herrinn fari j skog þann er næstr er Danauirke. ok skal huerr madr hǫggua ser limbyrde ok bera vndir virkit ok sia sidan huat tiltækiligazst þikir. Nu er godr romr georr at þui sem Oli mællti ok lofade allr herrinn þessa radageord. ok vm morgininn snemma foru þeir j skog ok baru sidan vidinn at virkinu sid vm kuelldit. Hinn næsta dag eftir georde Oli þau rad at þeir toku uatzkerolld ǫll þau er þeir fengu ok fylldu upp af sponum ok baru j teoru ok geordu ualslǫngur. en huat er þeir hǫfduzst annat at þa let Oli suman herinn sækia at virkinu med skotum ok griote. en þeir mattu æigi ganga at virkinu vm daga þuiat Hakon jarl hafde fiolda manna sett j alla kastala ad veria virkit adr hann for fra ef enn kynne herr at at koma. Vm kuelldit sid slogu kæisara menn elldi j uatzkerolldin ok eptir tilskipan Ola ok slǫngdu at virkinu. lek elldrinn skiott teorgada sponu jnnan j kerǫlldunum. en er loganum slo upp or kerulldunum festi bratt j liminu er þeir hǫfdu breitt undir virkit. vedrit hafdi verit kyrt ok biart vm daginn. en vm kuelldit geordi sunnanvind huassan ok þurran ok tok at styrma sua sem nattade. ok sem limit tok at loga en stormrinn stod at virkinu þa festi elldinn skiott j kastulunum er af tre voru georuir ok sua var ok uida virkissueggrinn af uidum. var þa elldz gangr sua mikill at huat logade af ǫdru sua at morguninn eptir sa einge likendi Danauirkiss utan griotit. Sua er sagt þa er huortueggia var brunnit lægde stormінn en geordi regnn sua mikit at varlla matti vte vera. sloknnade elldrinn a einne stundu ok jordin blottnade. sua (at) þar sem loginn hafdi mest gengit matti(!) menn yfir ganga sem þar er alldri hafde adr komit. þotti monnum vm þetta mikils vert allt saman. Sneri kæisari med allt sitt folk til Slessmunna til skipa sinna ok fluttizst þar med her sinn yfir fiordinn til Jotlandz. uar herinum þa æigi læinge vistaskortr þuiat þar var nǫkkut bufe Dana til strandhǫggua. En er Haralldr konungr spurde at Danauirke var brent ok Otto kæisari kominn a Jotland med

her mikinn þa for hann j mot med her sinn. vard þar er þeir funduzst allmikil orrosta ok lỏng. ok lyktadizst med þui at kæisari hafdi sigr en Haralldr konungr flyde undan til Limafiardar fek ser þar skip ok for vt j Marey. foru þa menn j mille þeirra kæisara ok vard komit a stefnulagi. funduzst þeir þa sealfir Haralldr konungr ok Otto keisare ok sætluzst.

## Hakon Hladajarl var skirdr naudigr.

86. Sva segir saga Jomsvikinga at Poppo het byskup sa er for med Ottoni keisara til Danmerkr. ok sa var þar þa er þessir hlutir georduzst er nu voru tiadir. en Cronica Bremensium[1] uisar sua til at j þann tima hefde Atþalgagus[2] af Brimum uigt þrea byskupa j Danmork. en þo þikir þat ulikara at þat hafi sua verit þa er þesse Otto kæisari kristnade Dane. en þat er sannliga sagt at sa byskup er þar var þa med honum væri hæilagr ok miog [54] malsniallr. hann tald(i) tru firir Haralldi konungi ok sagdi morg stortaknn almattigs guds. en er byskup hafde talat guds eyrende bæde langt ok sniallt. þa suarar Haralldr konungr sua. traudr er ek at firirlata þann atrunat er ek hefui haft ok halldit alla æfui ok minir frendr ok forelldrar firir mer. ok ekki læt ek hann firir ord ydr ein saman þo at þer talit fagurt ok miukliga vtan þer synit þat med opinberum taknum at æigi megi vid dyliazst at ydr trua se betri ok rettari en vor trua. Poppo byskup let leggia gloande jarnnsla j hỏnd ser ok bar niu fet sua at allr lydr sa. sidan synde hann Haralldi konungi hỏnd sina obrunna. En Haralldi konungi þotti mikils vm vert ok ollum ỏdrum þeim er sa. lofudu gud sem verdugt var firir þetta hit halæita taknn. tok Haralldr konungr þa tru ok var skirdr ok allr hans herr. Haralldr konungr hafdi sent ord Hakoni jarli þa er hann sat j Marey adr en þeir kæisari funduzst at jall skyllde koma til liduæizslu vid konung. var jall þa kominn til eyiarinnar er konungr hafde skirazst latit. Sende konungr þa ord at hann skal koma a hans fund. ok er þeir hittuzst þa naudgade hann jalli til at taka tru ok lata skirazst. var Hakon jall þa skirdr ok allir þeir er med honum uoru. fek konungr þa jalli (j) hendr presta ok adra lærda menn ok sagde at jall skyllde lata skira allt folk j Noregi. skilduzst þeir at þui. for jall vt til Hals j Limafiord ok bæid þar byriar. Kæisara þotti uel hafa gefiz radin Ola ok spurde enn Ola huar hann væri fæddr edr huar. ætt hans væri. Oli suarar. ekki skal nu herra læingr ydr dylia. ek hæiti Olafr. er ek norrænn at ętt Tryggui konungr het fadir minn Olafsson.

[1]) bermensium *Cd.* [2]) *r.* Adaldagus

Kæisari suarar. heyrt hefui ek getit fødur þins en þin minnr. nu uil ek at þu farir med mer til Saxlandz ok skal ek geora þig mikinn hofdingia j minu riki. Olafr suarar. hafui þer þokk firir bod yduart. en ek hefir rike nokkut j Vindlande ok verd ek þess at geyma en giarnna uil ek vera vin yduarr. Kæisari segir at sua skyllde vera. Eftir þetta for Otto kæisari hæim til Saxlandz j riki sitt ok skilduzst þeir Haralldr konungr vinir. Haralldr konungr hellt uel kristne til daudadags. Burizlafr konungr for til Uindlandz ok med honum Olafr konungr Trygguason magr hans. þessa strids er þeir attu j Danmork getr Hallfredr vandrædaskalld j Olafsdrapu.

Baudserkiar let birki
barklaust til Danmarkar
hleypimæidr firir Heida
hlunnuiggia bæ sunnan.

## Hakon jarl kastadi tru sinni ok niddiz a gudi.

87. Nv er þar til mals at taka at Hakon jall bæid byriar a Halse j Limafirde þar til at uedr þat kom er honum þotti sem hann munde j haf bera. þa skaut hann a land hinum uigdum monnum en hann siglde þa vt a haf. vedrit gek til vtsudurs ok þadan til vestrs. siglde jall þa j gegnnum Eyrarsund ok heriade a huortueggia land. sidan siglde hann austr firir Skaneyiar sidu ok heriade huar sem hann kom vid land. þa er Hakon jall for austan vm Gautland herskillde spurdu þeir Urguþriotr ok Brimilskerr til ferda hans ok allar tiltekiur. þeir uoru j Uikinne ok hofdu kristnat alla Vikina nordr til Lidandisness. þeim þotti ekki friduænligt at bida. flydu þeir þa burt med øll skip sin þau er þeir hofdu þangat haft ok .ix. .onnur. þa er Hakon jall kom j Vikina vard hann bratt viss huat jallar høfdu at geort at þeir høfdu brotit hof en kristnat folk allt þat er þeir mattu vid komazst. let Hakon jall þa gera upp hof øll þau er nidr voru brotin ok sende bod vm alla Vikina. at øngum manni skyllde hlyda at hallda þeim atrunade sem jallar høfdu bodit. þa for hann til þrandheims landueg. sitr hann þa fyst vm kyrt. Red Hakon nu ollum Noregi ok gallt alldregi sidan skatt Danakonungi. var hann þa at øllu verri ok hæidnare en adr en hann var skirdr.

## Olafr Trygguason þa skiolld af þangbrandi.

88. Sua er sagt at Olafr Trygguason hafde alldri blotat skurgod ok allr þeirra atrunadr var hønum miog læidr. en allt þat er hann heyrde sagt af himna gude ok hans stormerkium fell honum hardla

vel j skap. en þo stadfesti hann firir ser at æinna mest þær jartæignir guds er hann hafdi seth j Danmork. ok hinn næsta uetr eftir þat er þeir Otto keisari skildu sat Olafr Trygguason j Uindlande. ok um uorit bio hann skip sin ok for j hernat. heriadi[1] hann fyst vm Frisland þar næst vm Frakland[2] ok allt (j) Flæmingialand. Sua segir Hallfredr.

Tidhogguit let tiggi
Trygguasonr firir skryggian
leiknar hest a lesti
liotuaxin hram uaxa.
vinhrodigr gaf uida
uise margan Frisa
blǫkku bratt at drekka
blod kuelldridu stodi.
Rogs [55] bra rekka lægir
rikr valskeriar riki
herstefnir let hrǫfnum
holld Flęmingia golldit.

J þann tima var Albertus byskup j Brimum a Saxlande. hans læresuæinn var þangbrandr son Vilballdi greifua af Brimaborg. hann var þa roskinn at alldri er Hugbertus af Kanterabyrge baud Adalbert brodur sinum til sin ok gaf honum godar giafir ok forunautum hans ollum. At þessu heimbode var þangbrandr med byskupi. ok þa er giafirnar voru fram greiddar mællti Hugbertus byskup til þangbranz. med þui at þu ert lytzskadr sem riddarar þo at þu ser klerkr þui gef ek þer skiolld. þar er markadr a kross med likneskiu drottins uors þat merkir lærdom þinn. þangbrandr tok vid giofinne. Sidan for Albertus þadan fra uæizslunne. en er hann kom hæim fra uæitzslunne j Saxland þa var Olafr Trygguason þar firir. funduzst þeir þangbrandr þar. hann bar þa skiolld þann er Hugbertus hafde gefit honum. en er Olafr sa skiolldinn hugde hann vandliga at honum huat þar var a markat ok fannz mikit um hann. mællti þa til þangbrandz. huern dyrki þer kristnir menn a krossi pindan. þangbrandr suarade. drottin Jesum Cristum dyrkum ver. Konungr suarar. huat hafde hann misgort er hann var a krosse pindr. þangbrandr sagde honum þa innelega fra pijsl drottins ok taknum krossins. þa falade Olafr konungr skiolldinn. en þangbrandr gaf honum. Konungr mællti. þesse giof likar mer uel. en ef þer berr þat til handa at þu þikizst af nokkurum manni þurfa lids ok traustz kom þu til min ok mun ek þa launa þer skiolldinn. en þo uil ek at þu þiggir at mer litit silfr. þangbrandr jattade þui. þa let konungr græida honum verd skialldarins ok skildu þeir med vinattu. Sidan siglde Olafr hæim at hauste til Vindlandz ok sat þar vm vetrinn.

### Olafr konungr merkti sik med krossi.

89. þa er Olafr Trygguason hafde þria vetr verit a Vindlande georduzst þau tidende at honum ok morgum ǫdrum þar j landi fengu

[1]) heriat *Cd.* [2]) r. Saxland

mikillar hrygdar ok hormungar at Gæira drottning kona hans tok sott þa er hana læidde til bana. Olafi konungi þotti þat sua mikill skadi at hann festi ekki yndi a Vindlande sidan. reid hann til skipa ok siglde fyst til Danmerkr ok ætlade þadan austr j Gardariki. ma þat ok likligt þikkia at vid sua storann harm sem hann hafdi þa bedit mundi hann þa þangat venda fyst sem hann hafdi adr læingzst verit ok sinu rade bezst vnat. En er þeir lagu til byriar vid Danmork gek Olafr konungr vid nǒkkura menn a land upp nǒkkurnn dag ok toku þeir strandhǒgg sem hermanna sidr er til. vid þat urdu landzmenn uarir. sofnuduzst þeir þa saman ok foru eftir þeim med myklu lide. Konungr ok hans menn fundu æigi fyrr en fiolmenni dreif at þeim huadan æfua. þeir uilldu þa forda ser ok hittu æigi skiotan ueg til undankuomu. þuiat þar var skogr smarr ok þykkr sem þeir uoru staddir en æinge ǒnnur fylsnne. Olafr rædde þa til sinna manna med myklu trausti guds miskunnar. ek væit sagdi hann at sa gud (er mattigr) er firir himnum rædr ok allrar skepnu er skapari ok hefui ek þat heyrt at hann a þat sigrmark er mikill kraftr fylgir. þat er kross sa er hann var pindr a. bidium nu aller litilatliga þann sama gud at hann skyle oss firir sitt krossmark. leggiumzst nu nidr a jordina ok tǒkum .ij. kuistu ok leggium a oss j mynnd krossins. Geordu allir sem hann baud. Sidan kuomu at þeim ouinir þeirra med myklum gny ok uopnnabraki. þeir ætludu at gripa skiotliga til þeirra þuiat þeir hofdu firir litlu seth þa skamt fra ser en þeir mistu þeirra. hlupu þa her ok huar vm skoginn þuiat þeir fundu þa æigi þoat þeir lægi vnndir þeim. ok hlifde þeim sua hinn helgi kross med guds fulltinge. Menn gafu upp leitina. en Olafr ok hans forunautar stodu þa upp ok foru alæidiss til skipa sinna. hinir sa þat ok sottu hart eftir þeim. uard þa ekki vnndanbragd konungsins ok hans manna annat en leggiazst nidr þar sem þeir uoru komnir. uænti Olafr ser guds miskunnar. en Danir fundu þa æigi helldr en fyrr þar sem þeir lagu a slettum uelli. Eftir þenna atburd hellt konungr skipum sinum austr (j) Gardariki. fek hann þar godar vidtokur af Valldamar konungi ok Arllogia drottningu. hann var j Holmgarde vm uetrinn med sina menn. Æina nott bar firir hann j suefni mykla syn ok merkiliga. honum syndizst æinn mikill steinstolpi j loft upp hatt sua at hann matte sia. þesse steinn var vtan sem klappadr uæri grofum[1] edr pǒllum. hann þottizst ganga upp eftir stæininum sua langt at hann var kominn upp yfir sky. þar kendi hann sua sætan ilm at hann hafde [55] alldri adr slikann kennt. hann litadizst þa vm ok sa ollu megin hia ser fagra

[1]) r. gradum

stade blomgada med allri unadsemd. þar sa hann biarta menn skrydda huitum klædum ok prydda allri skinandi dyrd fullra fagnada mæiri en fra megi segia. þui næst heyrde hann raudd upp yfir sig sua segiande. heyr þu Olafr efni gods mannz. margfalldazst munu verk þin til godra hluta ok agætliga auaxstazst gude til dyrdar en þer til sæmdar bæde j brad ok leingdar. þuiat þu tignadir alldri skurgod bǫluðd ok uæittir þeim ǫngua heidingliga þionkan þu(i) man nafnn þitt uidfrægiazst vm verolldina. en þo skortir þig enn mikit at þu ser algeorr guds þionostumadr. þuiat þu hefir enn æigi fulla uissu af gudligum hlutum ok þu ert æigi hræinsadr j hæilagre skirnn. þa hręddizst Olafr ok mællti med mikille ahyggiu. huerr ertu drottinn at ek megi a þig trua. Drottinn suarar honum. far þu til Griklandz þar mun þer kunnikt geort nafnn ok dyrd drottins guds þins. ok ef þu truir a hann retliga ok varduæitir dyrdliga hans bodord þa munt þu morgum audrum uisa af uilluuegum heidins atrunadar a biartar gǫtur rettrar truar. þuiat gud hefir þig til ualit at leida margan lyd honum til handa ok þar fyrir muntu ǫdlazst eilifua sælu ok meire dyrd en nu hefir (þu) set.

### Fra Olafvi konungi.

90. Sidan sem hann hafde þessa hluti heyrt ok set ætlade hann at stiga nidr af stæininum. þa sa hann nidr firir sig marga hrædiliga stade fulla af loga ok kuolum. þar heyrde hann ylyngar(!) ok aumligan grat uesęlla salna þeirra er þar uoru kualdir. þar þottizst hann kenna marga hofdingia ok vine þeirra þa er truad hofdu a god. þar sa hann ogurliga kuol firir buna Valldamar konungi ok Arllogie drottningu. Vit þessa syn alla saman vard hann miog ottafullur. ok sua fek honum mikils at hans augu voru aull full af tarum er hann uaknnade. ok þeghar hinn sama morgin er hann var klæddr bad hann lid sitt buazst þadan a brott. hellt hann sem skiotazst skipum sinum til Griklandz. þar fann hann marga agæta kennimenn ad honum geordi kunnikt nafnn drottins. ok segizst at þa væri Olafr primsignadr. Sidan bad (hann) byskup þann er Pall het at hann fære j Gardariki. ef hann fære firir ok tulkade hans eyrende sua at hofdingiar stæde æigi j mote at hann mætte grundualla þar gud(s) kristnne. For Olafr konungr þa aftr til Gardarikis ok bodade þar tru fyrst einkanliga konungi ok drottningu. ok stod konungr fyst fast j moti en drottning var aftakaminne. en þo kom sua vm sidir med eggian drottningar at konungr let stefna þing fiolment. En er þar var samankomit mart stormenni ok þing var sett. þa stod Olafr konungr upp ok segir sua. ek uænti herra konungr at þer munit

skilia med vitru yduarre at ydr ok ollum ődrum rikum sem vrikum sem ek hefi adr nokkut orde akomit (er) morgum hlutum betra at trua a æinn sannan gud þann (er) georde himin ok iord ok alla hlute syniliga ok usyniliga ok ollum gefr eilifua sælu vtan enda a sig truandum ok rettliga þionandum helldr en uillazst j sua myklum afallzdomi at trua a skurgod þau at þui sidr megu nokkura hialp odrum (uæita) at þau sealf mega huergi or stad hrærazst nema þau se af odrum borin edr dregin. sem ek sagde ydr fyrre þa er ek visse ekki til guds at mer syndizst allt at æinu vuitrligt þeim at þiona. en þar skal ek allan minn starfa a leggia ok alldri af leggia at boda ydr guds nafnn fyrr en ek hefui ydr konungr ok allan þenna lyd sett af þeim dimma uillustig sem þer hafit allz of leinge geingit a biartar vonar gautur eilifrar hialpar. Valldimar konungr suarar rædu hans ok sagde sua. af þeim gæislum er skina af þinum fagrligum fortaulum hyggzst mer sua at sidferde kristinna manna se betra en uort. en langr vani fornns atrunadar helldr mig aftr sua at ek hugfesti litt þat er þar til heyrir. ok þat annat at mitt hugskot segir ualla hæfua minne fauitzsku at kasta þeim atrunade er minir frendr ok langfedgar hafua halldit æfuinliga alla sina daga huerr eftir annan. þui uil ek um þetta mal heyra tillőgur Arlogie drottningar er myklu er vitrare en ek. sidan allra annarra uorra hofdingia ok radgiafua. Var þa mikill romr at mali konungs. en er hliod fekz þa tok drottning til orda. þessi madr kom til þin konungr þa er hann var barnn at alldri nykominn ór vtlegd ok mikille vtlegd[1]. toku þer hann vtlendan ok vkunnan a þinar nadir sua at þu fęddir hann ok fostradir sua elskuliga sem þinn eiginn son. kunne hann ser þat sua j nyt at færa at hann efldi ok styrkti yduart riki med fullum goduilia þegar hann matti nokkut at færazst firir alldrs sakir ok þroska. þadan af vard hann hu(g)þekkr őllum godum monnum. nu var hann a brott vm hrid ok geordizst hollr [57] ok hæilradr þeim hofdingium er hann atti æigi sua mikit upp at giallda sem ydr. synizst mer hann ok ahyggiusamliga fram flytia þat eyrendi sem hann ferr med er ollum vitrum monnum mun synazst heilsamligt. firir þui gefr mer min samuitzska uel at skilia at modir ydr konungr mun þenna mann hafua firir sel fordum daga. ok margir adrir spekingar ok visendamenn þessa rikis firir sogdu at æinn vtlendr madr mundi her upp fædazst sa er æigi at æins munde þetta riki (pryda) med biortu liose sinnar vitzsku ok visdoms helldr ok vida annarstadar munde hans godleikr fagurliga blomgazst. sa ek þetta firir lőngu a hans yfirbragde ok fannzst mer þa þegar ok sua enn

[1]) *r.* anaud

sidann fleira til hans en annarra jungra manna. nu er þetta sannarra en þat er uondir menn bruggudu at vdygd munde undir bua okkrum kærlæikum. Lauk drottning sua sinne tolu at allir lofudu hennar snilld ok uitrlæik. lyktadizst med þui þingit at med guds miskunn ok eggian drottningar hetu allir at taka skirnn. J þann tima kom Pall byskup af Griklande j trauste Olafs konungs ok [skirdi Ualldemar konung ok Arllogiam[1] drottning ok allan þeirra lyd ok styrkte þau j heilagre tru ok kende þeim heilog fræde med trulynde. Færde sua þionustumadr himnakonungsins hinn fysta auoxt sins erfuidis sinum herra at eptirdǫmi hins heilaga Basilij. sem skrifuat er af honum at hann predikade opinberliga hæilaga tru fyrr en hann væri skirdr. Er þat ok æigi undarligt at allzualldande gud blæss sinum helgum anda j briost þeim manni primsigndum undir læring heilagrar truar at hann mætte þar firir niota eilifliga guds uelgeorda ok firirheitz. huernn hann hafde til þess ualdan at predika sitt eyrende firir heidnum þiodum. sa er med sinne forsio ualdi til erchibyskups yfir sina kristne Ambrosium þa enn æigi skirdan. ok hann sende sinn æingil audsyniliga at snua Cornelio hundradshofdingia fra heidni a hialpar gǫtu til eilifrar truar at hann mætti þar firir niota eilifliga godgeorninga er hann hafde adr geort. Sa hinn sami herra Jesus Cristus birtizst optliga heidnum Placido riddarahofdingia ok kallade til sinnar miskunnar sem hann uisse ekki adr til gudligra hluta þo at hann georde marga goda hluti.

### Her er getid at Olafr konungr færi med Otto keisara.

Þessir hlutir sem nu voru sagdir vm kristnibod Olafs j Gardariki eru æigi otruanligir. þuiat agætar frǫdebækr af æfui kæisara skrifadar segia sua. at þessar þiodir er sua heita Rucii Polamii Vngarii kristnoduzst vm daga Ottonis kæisara þess er hinn þride var med þi nafnne. sumar bækr segia at Otto keisari hafui farit j Austrueg med her sinn ok bryte þat folk uida til kristne ok med honum Olafr Trygguason.

### Vm hernat Olafs konungs Trygguasvnar.

91. Þessu næst bio Olafr skip sin ok lid austan or Gardariki. hann siglde fyst til Danmerkr ok þadan uestr vm haf. Sua segir Markuss logmadr Skeggiason j Rekstefiu.

Senn ǫll sidan runnu
snekkiu baurd or Gaurdum
hergin hala urgut
hilldings vm gram milldum.

uestrlond uirda kindir
verfakum red heriat
aldyggr arfui Tryggua
Olafr klauf stalum.

[1]) skirdizst Ualldemar konungr ok Arllogia *Cd.*

Olafr hellt fyst til Æinglandz ok heriade vm landit vida. Sua segir Markus.

Blodugr bragnings þiodar
brandr gall a Æinglande
od medal enskra lyda
alldr spelle fra ek uallda.

Hann for ok allt nordr til Nordimbralandz ok bardizst þar. þa hellt hann nordr til Skotlandz ok heriade þar vida. þess getr Markus.

Skothland skommum brande
skiotfrodr nam rioda
oddr bæit ulfar saudduzst
odæigr Skota fæiga.

Fra Skotlande siglde Olafr Trygguason til Sudreyia ok atte þar margar orrostur. sidan hellt hann sudr til Manar ok heriade þar. hann heriade vm Jrland ok brende þar vida bygdina. Sua segir Markus.

Ugglaust Jra bygdir
okuidinn red vida
elþreyrr ullar kiola
endr rikula brendir.

þa heriade hann til Bretlandz ok eydde uida landit. þadan siglde hann væstr til Uallandz ok heriade þar. Vm þenna hernat allan saman kuat Hallfredr uandrædaskalld.

Georde ungr vid Æingla
ofuægr konungr bægia
naddskarr hlod nærre
Nordimbra þar timbre.

eydde ulfa bræddir
ognnblidr skipum uida
georde sæims med suerde
sundleik muna grundar.

## Fra vidrtali Olafs konungs ok visendamannz.

92. Olafr Trygguason siglde uestan af Æinglande ok ætlade til Jrlandz. honum bægde vedr ok bar hann til eyia þeirra er Sylingar hæita. þær liggia uestr j haf fra Æinglande. hann lagde til hafnar ok la þar vm hrid. þa voru lidnir fiorir uetr fra þui er Olafr konungr siglde af Vindlande. þa er Olafr konungr la j Sylyngum [53] spurde hann at þar j eyiunum var spamadr nôkkurr sa er sagde vuordna hluti firir ok þotti môrgum þat eptir ganga. konungi geordizst foruitnne a at reyna spadom þessa mannz. hann sende þangat af monnum sinum þann er mestr var uexsti ok fridazstr synum ok bio hann sem uegligazst ok bad hann fara til æinsetumannz ok segia sig uera konung. en Olafr

var þa frægr ordinn at þui (um) ǫll lond at hann var fridari ok meire en adrir menn. ekki hafde hann meira af nafni sinu fra þui er hann siglde ór Gardariki j fyrra sinn en hann kallade sig Ola ok sagdizst vera girzskr. Sendemadr kom til spamannz ok sagdizst uera konungr. Spamadrinn [suarar. ekki[1] ertu konungr. en þat er ætlan min at þu ser trur konungi[2]. Ekki sagde hann honum flæira. For hann aftr til konungs ok sagde honum allt sem farit hafde med þeim. en þa tok ef allt af Olafui at hann uæri æigi sannliga spamadr. fystizst konungr þa mæirr en fyrr at finna hann. For Olafr þa a fund hans ok atti tal vid hann. spurde konungr eftir huat madrinn sagde til huersu honum munde ganga til rikis edr annarrar hamingiu. Einsetumadrinn suarar med helgum spadoms anda. þu munt verda agætr konungr ok vinna morg frægdarverk. þu munt morgum manni koma til rettrar truar ok sannrar idranar. muntu bæde þer ok mǫrgum ǫdrum hialpa. en til þess at þu vitir min ansuor sonn mattu þat til marks hafua. er þu kemr til skipa þa munt þu þar hermonnum mæta ok vvina flokkum. muntu þar eiga bardaga ok tyna nǫkkuru lide þinu en sialfr þu fa mikit sar sua at (af) þui sare munt þu banuænn verda ok a skillde til skips borinn. en þo munt þu af þesso sare hæill verda jnnan .vi. natta ok sidan vid skirnn taka. En eftir þetta for Olafr til skipa sinna. þar mætti hann vfridarmonnum þeim sem hann uilldu drepa ok lid hans. for allt vm þeirra vidskipte sem æinsetumadrinn sagde. at konungr var sarr borinn vt a skip ok var groinn a .vi. natta fresti. þottizst hann þa vita fullkomliga at þesse madr munde sanna hluti honum sagt hafa ok þat at hann var sannr spamadr huadan sem hann hefde þann spadom. For Olafr konungr þa j annan tima til spamanzsins. talade hann mart vid hann spurde þa vandliga huadan honum kom su speki er hann sagde firir ouordna hluti. Æinsetumadr suarar. sialfr gud kristinna manna lætr mig vita þat er mig fo(r)uitnar. þa sagde hann Olafi morg stormerki guds ok af hans fortaulum het Olafr konungr at lata skirazst. for hann vit þat til skipa sinna.

## Olafr Trygguason skirdr. capitulum.

93. Einn aboti red firir æinu klaustri þar j eyiunum hardla agætr. hellt Olafr konungr skipum sinum ok ollu lide þangat til klaustursins. en sa guds madr sem þar red firir visse af spalæiks anda þangatkuomu konungs. hann kallade þa saman alla brædr þa er hann atti at stiornna ok bat þa skrydazst sem uirduligazst. þuiat ver skulum gera proces-

[1]) spurde *Cd.* [2]) konungr *Cd.*

sionem til strandar ok taka sem sęmiligazst vid skipalyd þeim er koma mun til uor. En er aboti var buinn ok allir voru skryddir gek aboti til strandar med alla brædr sina ok marga klerka ok þionustumenn hæilagrar kirkiu þeir er hann ualld yfir hafdi. þat var snemma dags. Olafr konungr var a land kominn med alla sina menn. þeir sa þa langt fram firir sig birtu mykla sua at þeir uissu ner uarlla j fyrstu huat vera munde. þuiat vida liomade af er morginsolin skæin a þau hinu agætu klæde er abote var skryddr med ok hans klerka folk. en er þeir fundtuzst læidde aboti hann til klausturs sins. ok er þeir hǫfdu sungit fǫgnudu huarir ǫdrum med blidskaupum. Olafr konungr knefallade firir honum med ollu litilæte. aboti ræiste hann upp ok kysti ok talade sua til hans. firir skommu var mer sagt ok synt huerr þu vart edr huerr þu munt verda. þuiat drottinn Jesus Cristus sende þig firir þui hingat til eyianna at oss hæfir at boda ydr heilsamliga kenning ok væita þer ok þinu lide hæilagt skirnar embætti er þu ok allir adrir þeir er taka med rettri tru munu eilifa hialp ok hæilsu af hliota. Slikum ok morgum ǫdrum fǫgrum fortǫlum talade aboti firir þeim miog fagurligum langt eyrende ok sniallt. en þui næst met guds lofui skirde hann Olaf konung ok alla hans suæit. Dualldizst Olafr þar læingi ok hans suæit ok þa nam hann hæilug fræde ok goda sidu at þeim guds manne ok klaustra brædrum. aboti sagde Olafi at hann munde verda konungr yfir Noregi ok til þess ualdr af gude at lysa mǫrgum salum rettan veg til sins skapara. þa var Olafr konungr halfþritǫgr at alldri er hann var skirdr. þa voru lidnir fra holldgan vors herra Jesu Cristi fim[1] hundrat vetra ok fiorir[2] tigir ok þriu ar. þat var a tiunda ari rikis Ottonis keisara hins unga en a fysta are ok .xx. rikis Adalsteins Eingla [59] konungs er fostrade Hakon.

---

## ÞAATTR ÞRAANDAR OK SIGMUNDAR.

94. Madr er nefnndr Grimr kamban hann bygde fystr Færeyiar a dǫgum Haralldz hins harfagra. þa flydu firir hans ofriki fiolde manna. settuzst sumir j Færeyium ok bygdu þar en sumir leitudu til annarra eydelanda. Audr hin diupaudga for til Jslandz ok kom vid Færeyiar ok gipti þar Olofu dottur þorstæins rauds. ok er þadan kominn hinn mesti kynþattr Færeyinga er þeir kalla Gǫtuskeggia er bygdu j Austrey-

[1]) r. niu [2]) r. niu

### Þraandr for til Danmerkr.

95. Ðorbeornn het madr hann var kalladr Gðtuskegg. hann bio j Austrey j Færeyium. Gudrun het kona hans. þau attu .ij. sonu het Þorlakr hinn ellri en Þrandr hinn yngri. þeir uoru efnniliger menn. Þorlakr uar będi mikill ok sterkr. Þrandr var ok med þui mote þa er hann þroskadizst en miselldri[1] þeirra brędra var mikit. Þrandr var raudr a hár ok freknnottr j andlite fridr synum. Þorbeornn var audigr madr ok var þa gamall er þetta var tidenda. Þorlakr kuændizst þar j eyiunum ok var þo heima med fodr sinum j Gðtu. ok bradliga er Þorlakr uar kuęntr andadizst Þorbiornn gautuskegg ok var hann heygdr ok vtborinn at fornnum sid. þuiat þa voru heidnar allar Færeyiar. Syner hans skiptu arfui med ser ok uillde huorrtueggi hafua hæimabolit j Gautu þuiat þat var hin mesta gessime. þeir logdu hluti a ok hlaut Þrandr. Þorlakr bæidde Þrand eftir skiptit at hann munde hafua heimabolit en hann lausafe meira. en Þrandr uillde þat æigi. for Þorlakr þa j burt ok fek ser annan bustad þar j eyiunum. Þrandr sellde a læigu landit j Gðtu mðrgum monnum ok tok læigu sem mesta. en hann redst til skips vm sumarit ok hafde litinn kaupeyre ok for til Noregs ok hafdi bæiarsetu um uetrinn ok þotte jafnna(n) myrkr j skapi. þa red firir Noregi Haralldr grafelldr. Um sumarit eftir for Þrandr med byrdingsmonnum sudr til Danmerkr ok kom a Haleyre vm sumarit. þar var þa fiolmenni sem mest. ok sua er sagt at þar kemr mest fiolmenni hingat a Nordrlðnd medan stendr markadrinn. þa red firir Danmork Haralldr konungr Gormsson er kalladr var blatðnn. Haralldr konungr var a Haleyri vm sumarit ok fiolmenni mikit med honum. .ij. hirdmenn konungsins eru nefnndir er þar voru þa med honum het annarr Sigurdr en annar Harekr. þessir brędr gengu vm kaupstadinn jafnan ok uillde(!) kaupa ser gullhring þann er bezstan fengu þeir ok mestan. þeir kuomu j eina bud þar er hardla vel var vmbuizst. þar sat madr firir ok fagnade þeim vel ok spurde huat þeir uillde kaupa. þeir sðgduzst uilea kaupa gullhring mikinn ok godan. hann kuat ok gott ual mundu a uera. þeir spyria hann at nafnne. en hann nefnndizst Holmgeirr audgi. brytr hann nu upp gessimar sinar ok synir þeim einn digrann gullhring ok var þat gessime sem mest ok mat sua dyrt at þeir þottuzst æigi sia huort þeir munu allt þat silfr fa er hann mællti firir þegar j stad ok bæiddu hann fresta til morgins. en hann jattade þui. Nu gengu þeir j burt vid sua buit ok læid af su nott. En vm morguninn gengr Sigurdr j brott ór budinne en Harekr var eftir. ok litlu sidar kemr Sigurdr vtan at

[1]) mishelldri *Cd.*

tialldskǫrum ok mællti. Harekr frende sagde hann selldu mer siodinn skiott þann er silfrit er j þat er vit ætlǫdum til hrings kaupsins þuiat nu er samit kaupit. en þu bid her medan ok gęt her budarinnar. Nu færr hann honum silfrit vt j gegnum tialldskarinnar(!).

## Radagiord þrandar.

96. Nv litlu sidar kemr Sigurdr j budina til brodur sins ok mællti. tak þu nu silfrit nu er samit kaupit. Hann suarar. ek fek þer silfrit skommu. Nei segir Sigurdr ek hefui ekki a þui tekit. Nu þræta þeir vm þetta. eftir þat segia þeir konungi til. konungr skilr nu ok adrir menn at þeir eru stolnir fenu. Nu leggr konungr farbann sua at æingi skip skulu sigla burt sua buit. þetta þotti morgum manni vanhagr mikill sem var at sitia vm þat fram er markadrinn stod. þa attu Nordmenn stefnnu sin a mille vm radageordir. þrandr var a þeirre stefnnu ok mællti sua. her eru menn miog radlausir. þeir spyria hann. kantu her rad til. Sua er vist segir hann. Lat fram þa þina radageord sogdu þeir. Æigi mun þat kauplaust segir hann. þeir spyria huat er hann mælir til. Hann suarar. huerr yduarr skal fa mer eyre silfrs segir hann. þeir kuodu þat mikit. en þat uard kaup þeirra at huerr madr fek honum halfan eyre þa j hond en [61] annan halfan eyre ef þetta yrde framgeingt. Ok hinn næsta dag eftir atte konungr þing ok talade sua. at menn skylldu alldri þadan lausir medan æigi yrde uist vm toku þessa. þa tekr til orda æinn ungr madr uaxit har af kolli raudr a hars lit ok freknottr ok helldr greppligr j asionu ok mællti sua. her eru menn helldr radlausir miog segir hann. Radgiafar konungsins spyria huert rad hann sæi til. Hann suarar. þat er mitt rad at huerr madr sa er her er kominn leggi fram silfr sligt sem konungr kuedr a. ok er þat fe kemr saman j æinn stad þa bęti þeim er firir skadanum er ordinn en konungr hafui þat ser til sæmdar er af fram geingr. væit ek at hann mun uel firir sia þui er hann hlytr. en menn liggi her æigi uedrfastir mugr mannz sem her er saman komit til sua mikils vanhags. Her var skiott vndir tekit af alþydu ok sogduzst giarnna uilea fe fram leggia konungi til sæmdar helldr en sitia þar ser j vanhag. Ok þetta var rads tekit ok var þessu fe saman komit var þat of fiar. ok þegar eptir þetta siglde j brottu mikill fiolde skipa. Konungr atte þa þing ok var þa litit a hit mykla fe ok var þa brędrum bættr skade sinn af þessu fe. þa talade konungr vm vid menn sina huat af skyllde geora þessu hinu mykla fe. þa tekr til orda æinn madr ok mællti. herra minn sagde hann. huers þikir ydr sa verdr er þetta rad gaf til segir hann. þeir sia nu

at sia hinn vngi madr hafde þetta rad til gefit er þa var þar firir konungi. þa mællti Haralldr konungr. þessu fe skal ollu skipta j helminga. skulu minir menn hafa helming annan. en þa skal enn skipta ỏdrum helminge j tua stade. ok skal þesse vngi madr hafa annan hlut þessa helmings en ek skal enn sia firir ỏdrum. þrandr þakkade þetta konunginum med fỏgrum ordum ok blidum. vard þat sua mikit ofa fe er þrandr hl(a)ut er trautt kom marka tale a. Siglde Haralldr konungr j brott ok allr saman mugr er þar hafde verit. þrandr for til Noregs med kaupmonnum þeim hinum norrænum er hann hafde þangat med farit ok greiddu þeir honum þat fe er hann hafde mællt. ok keypti hann ser þar æinn byrding mikinn ok godann. leggr þar a hit mykla fe er hann hafde feingit j þessi[1] ferd. helldr nu þessu skipe til Færeyia kemr þar med hæilu ok hỏlldnu aullu fe sinu ok setr nu bu saman j Gautu vm uorit ok skortir nu æigi fe. þrandr var mikill madr uexsti raudr a har ok raudskeggiadr freknottr grepligr j asionu myrkr j skape slægr ok radugr til allra uela udæll ok illgiarnn vid alþydu blidmælltr vid hina meire menn en hugde jafnan flatt.

## Fæddr Sigmundr Brestisson ok þorir.

97. Hafgrimr[2] het madr hann bio j Sudrey j Færeyium. hann var rikr madr ok hardfeingr audigr at fe. Gudridr het kona hans ok var Snæulfs dottir. Hafgrimr[2] var hỏfdinge yfir helming eyianna ok hellt þeim helminge j len af Haralldi konungi grafelld er þa red firir Noregi. Hafgrimr var akafamadr mikill j skaplynde ok ekki kalladr vitr madr. Æinar het hæimamadr hans ok var kalladr sudreyingr. annarr madr het Elldiarnn kambhauttr er þar var enn med Hafgrimi. hann var margordr ok illordr heimskr ok illgiarnn dadlaus ok tillæitinn lyginn ok rogsamr. brædr tuæir eru nefnndir til sỏgunnar ok biuggu j Sudrey[3]. het annar Brestir en annarr Bæinir þeir voru Sigmundar synir. Sigmundr fadir þeirra ok þorbeornn gautuskeggr fadir þrandar voru brædr. þeir Brestir ok Bæinir voru agætir menn ok voru hofdingiar yfir helminge eyianna ok helldu þann j len af Hakoni jarlli Sigurdarsyni er þa hafde riki nokkut jnn j þrandheimi ok voru þeir Brestir hirdmenn Hakonar jarls ok hinir kærstu vinir. Brestir var allra manna mestr ok sterkazstr ok huerium manni betr uigr er þa var yfir eyiunum. hann var sialigr madr fimr vid alla læika. Bæinir var ok likr brodur sinum vm marga hlute ok komzst þo æigi til jafnns vid hann. fatt var med þeim þrandi þoat frendsemi væri mikil. æigi voru þeir kuongadir brædr.

[1]) þessu *Cd.* [2]) Hafrgrimr *Cd.* [3]) *r.* Skufey

fridlur attu þeir Cecilia het fridla Brestis en hin het þora er fylgde Bæine. Sigmundr het son Brestis ok var snemma mannuęnligr. þorir het son Bæinis ok var tueim uetrum ellri en Sigmundr. annat bu attu þeir brædr j Dimun ok var þat minna buit. synir þeirra brędra voru þa ungir miog er þetta var. Snæulfr magr Hafgrims bio j Sandey ok var sudreyskr madr at ætt ok flyde ór Sudreyium firir uiga sakir ok vdęlldar ok til Færeyiar(!). hann hafde verit j uikingu hinn fyrra hluta ęfui sinnar. hann var þa enn vdęll ok hardr uidræignar.

## Auerkar j Færeyium.

98. Bearne het madr er bio j Suiney ok var kalladr Suineyiar Bearnne. hann var æinn gilldr bonde ok hafde mikit fe undirhyggiumadr mikill hann var modurbrodir þrandar ór Gautu. þingstaud þeirra Færeyinga var j Straumsey ok þar er hofnn su er þeir kalla þorshôfnn. Hafgrimr er bio j [61] Sudrey enn a þeim bę er hæitir at Hofui hann var blotmadr mikill þuiat þa voru heidnar allar Færeyiar. þat var æitt haust at Hafgrims bonda j Sudrey at þeir satu vid suidellda Æinar sudreyingr ok Elldiarnn kambhôttur. þeir foru j mannjofnnut. fylgde Æinar þeim fręndum sinum Bresti ok Bæine en Elldiarnn fylgde Hafgrime ok kallade Hafgrim framar. þessu kom sua at Elldiarnn hliop upp ok laust til Æinars med tre þui er hann hellt a. kom þat a auxl Æinare ok vard honum illt vid. Æinarr fek æina ôxe ok laust j hofut Kambhôtt sua at hann la j vvite ok sprak firir. en er Hafgrimr uard þessa varr rak hann Æinar a brott ok bad hann nu fara til Skufeyinga frenda sinna er þo hafde hann þeim fylgt. ok suo mun fara segir Hafgrimr huart sem er fyrr edr sidarr at ver munum til krækiazst ok þeir Skufeyingar. Æinar for j brott ok kom til þeirra brædra ok segir þeim til huersu farit hafde. þeir toku vid honum uel ok var hann þar vm vetrinn uel halldinn. Æinar bidr Bresti frenda sinn taka vid mali sinu ok sua georir hann. Brestir var vitr madr ok lôgkęnn. Ok vm uetrinn ferr Hafgrimr a skipe til Skufeyiar ok finnr þa brædr ok spurde hueriu þeir villde vm suara vansa þann er Æinar hafde veitt Elldiarnne kambhôtt. Brestir suarar at þeir skulu leggia þat mal j hinna bezstu manna dom sua at þat se jafnsætti. Hafgrimr suarar. ekki mun af sættum uorum verda nema ek rada einn. Brestir suarar. ekki er þat jafnsętti ok mun ekki af þui verda. þa stefndi Hafgrimr Æinari til Straumseyiar þings ok skildu vid sua buit. Brestir hafdi lyst þegar frumhlaupi þui er Kambhôttr hafde ueitt Æinare þa er nyuordit var. Nu koma huorirtueggiu til þings ok fiolmenna. en er Hafgrimr gek at domum ok ætlade at hafa

fram malit a hendr Æinare þa gengu þeir brædr at ódrum megin Brestir ok Bæinir med myklum flokki ok vnytti Brestir malit firir Hafgrimi ok ohelgade Kambhótt at fornnum landzlógum er hann barde saklausann mann ok hleypti upp dominum firir Hafgrimi en þeir sottu Elldiarnn til vtlegdar ok fullra sekta. Hafgrimr sagde at þessa munde hefnt uerda. Brestir kuetzst þess mundu buinn bida ok kuida ekki hotum hans. skildu nu vid sua buit.

## Raad þraandar vid Bresti ok Beini.

99. Litlu eftir þetta ferr Hafgrimr heiman ok sex menn med honum[1] ok Gudridr kona hans med honum ok hafa æitt skip foru til Sandeyiar.[2] þar bio Snæulfr magr hans fadir Gudridar konu hans. ok er þeir kuomu at eyiunne sa þeir ekki manna vte a bęnum ok ekki vti a eyiunne. ganga nu upp til bęiarins ok inn j husin ok verda ekki vid menn varir. til stofu ganga þau ok er þar sett upp bord ok bæde a matr ok drykkr en vid menn uerda þau ekki uaur. þetta þotti þeim undarligt ok eru þar vm nottina. En vm morgininn eptir buazst þeir j brott ok foru med eyiunne. þa reri skip j mote þeim annan ueg med eyiunne hladit af monnum ok kendu þar Snæulf bonda ok hion hans óll. Hafgrimr reri þa firir þa ok hæilsade Snæulfui magi sinum en hann þagde vid. þa spurde Hafgrimr huer rad hann legde til med honum vm mal þeirra Brestis at hann mætti fa sęmd sina. Snæulfr suarar. illa er þer farit segir hann. læitar a þer betri menn vm sakleysi en berr þo ofuallt lægra hlut. Annars þottumz ek meirr þurfui en auita af þer segir hann ok uil ek æigi heyra þig. Snæulfr þreif upp spiot ok skaut til Hafgrims. Hafgrimr kom firir sig skillde ok stod þar fast j spiotit en hann vard ekki sarr. skilia þeir vid sua buit ok ferr Hafgrimr heim j Sudrey ok vnir illa sinum hluta. þau Hafgrimr ok Gudridr kona hans attu son er Ózsorr het. hann var þa .ix. uetra er þetta var tijdenda ok hinn efniligste madr. Ok nu lida stundir. ferr Hafgrimr heiman ok j Austrey til þrandar ok fagnar þrandr honum uel. ok nu leitar Hafgrimr rada vid þrand huat hann legde til med honum um mal þeirra Skufeyinga Brestis ok Beinis. kuat hann mann vitrazstan j eyiunum ok kuetzt gearnna uilea vid hann nokkut til vinna. þrandr kuat sliks undarliga leitat at hann munde vilea uèra j nokkurum ueilręđum vit frendr sina. enda mun þer æigi aluara uera. skil ek ok at þer er sua hattat at þu uilldir adra menn hafa j radum med þer en timir ekki til at uinna at þu fair nokkura[3] framkuæmd. Sua er æigi sagdi Hafgrimr

[1]) hann *Cd.* [2]) sandreyiar *Cd.* [3]) nokkurar *Cd.*

ok uil ek þar mikit til uinna at þu ser j radum med mer at ek næda lifui þeirra brędra. þrandr suarar. koma man ek þer j fære uid þa brędr sagdi hann. en þu skallt þat til vinna uid mig at fa mer tuau kugillde huert uor ok tuau hundrat huert haust. ok skal sia skylld vera efinlig ok sua æigi sidr eptir þinn dag. ok er ek þo æigi þessa buinn nema fleire bindizst j. vil (ek) [62] at þu finnir Bearnna modurbrodur minn j Suiney ok haf hann j radum med þer. Hafgrimr jattar þessu ok ferr þadan til Suineyiar ok finnr Biarnna ok beidir hann þessa hins sama sem þrandr hafde tillagt med honum. Biarnne suarar sua. at hann mun ekki j þat ganga nema hann hafui nokkur gæde j adra hǫnd. Hafgrimr bat hann segia ser sitt skaplynde. Biarni mællti. þu skallt fa mer huert uor .iij. kugillde ok huert haust .iij. hundrat j slatrum. Hafgrimr jattar þessu ok ferr nu heim vid sua buit.

## Bardagi.

100. Nu er at segia fra þeim brædrum Bresti ok Bæine. þeir attu tuau bu annat j Skufey en annat (j) Dimun. Brestir atti konu þa er Cecilia het hon var norræn (at) ætt. son attu þau er Sigmundr het ok var þa .ix. uetra gamall er þetta var ok var bæde mikill ok skǫruligr. Beinir atti fridllu er þora het ok son vid henni er þorir het. hann var þa .xj. uetra gamall ok hinn efniligzste. þat er at segia æitthuert sinn þa er þeir brædr voru at bui sinu Brestir ok Bæinir j Dimun at þeir foru j eyna Dimun hina litlu. hon er ubygd. þar letu þeir ganga saudfe sitt ok naut þau er þeir ætludu til slatrs. suæinarnir bæiddu at fara med þeim Sigmundr (ok) þorir. þeir brædr letu þat eftir þeim ok fara nu til eyiarinnar. þeir brædr hofdu nu ǫll uopnn sin. Sua er fra Bresti sagt at hann var bæde mikill ok sterkr ok huerium manne betr uopnnfærr vitr madr ok vinsæll vid alla sina vine. Bæinir brodir hans var ok vel at ser georr ok komzst þo æigi til jafnns vid brodr sinn. Nu foru þeir fra eyiunne Dimun hinne litlu ok er þeir sottu miog at eyiunne Dimun hinne bygdu þa sa þeir .iij skip fara j mot ser hladin af monnum ok uopnum ok voru .xij. menn a hueriu skipe. þeir kendu þessa menn ok var þar Hafgrimr ór Sudrey en þrandr ór Gautu aa odru skipe. Biarnne ór Suiney a hinu þridia skipe. þeir kuomuzst a mille þeirra brædra ok eyiarinńar ok nadu þeir æigi lendingu sinne ok kuomu upp skipe sinu j fioruna æinshuers stadar. en þar var hamarklettr æinn upp fra þeim brædrum ok hlupu þeir upp a med uopnum sinum ok suæinana settu þeir þar nidr hea ser a klettinn. klettrinn var vidr ofan ok vige gott. Nu koma þeir Hafgrimr at ok þesse þriu skip

ok hlaupa þegar af skipunum ok upp j fioruna at klettinum. ok uæita þeir Hafgrimr ok Suineyiar Biarnne þegar atsoknn at þeim brædrum en þeir veriazst vel ok dreingiliga. þrandr reikade eftir fiorunne ok skipveriar hans ok uoru æigi j atsoknn. Brestir varde þar klettinn er hægra var til atsoknar en verra til uarnar. Nu attuzst þeir vid vm stund ok vanzst æigi skiott med þeim. þa mællti Hafgrimr. þat atta ek skilit vid þig þrandr at þu uæittir mer lid ok til þess gaf ek þer fe mitt sagde hann. þrandr suarar. þu ert skaud at meire at þu getr æigi sott .ij. menn vid tuennar tylftir manna. ok er þat hattr þinn at hafua jafnan adra a skotspæni firir þer ok þorir litt j nand at koma þegar nokkur er mannraun j. væri þat rad. ef nokkur dad er j þer. at radazst fystr upp at Bresti en adrir fylgde þer eftir. ella se ek þat at þu ert ǫngu nytr. Ok eggiar nu sem akafligazst. Ok eftir þetta hleypr Hafgrimr upp j klettinn at Bresti ok leggr til hans med spioti ok rekr a honum midium ok j gegnum hann. ok er Brestir skilr at þetta er hans banasar þa gengr hann a lagit ok at honum Hafgrimi ok hoggr til hans med suerde ok kemr hǫggit a vinstri ǫxl Hafgrimi ok klauf ofan ǫxllina ok siduna sua at hondin fell fra j burt. ok fell Hafgrimr daudr ofan firir klettinn ok þar Brestir a hann ofan. ok let þar huortueggi lif sitt. Nu sækia þeir at Bæine j annan stad ok verst hann uel ok lauk sua at Bæinir let þar lif sitt. Sua segia menn at Brestir yrde .iij. manna bani adr hann drap Hafgrim en Bæinir .ij. manna bani. Ok eftir þessi tidendi þa mællti þrandr at drepa skyllde suæinana Sigmund ok þori. Biarni suarar. æigi skal þa drepa sagdi (hann). þrandr suarar. þui er at skipta þo sagdi hann at þeir verda banar þeirra manna flestra er her eru ef þeir ganga undan. Biarnni suarar. æigi skal þa helldr drepa en mig sagde hann. Æigi uar mer ok þetta aluara sagde þrandr. uillda ek geora tilraun uid ydr huersu þer tækit vndir þetta. skal ek nu bæta þetta suæinunum er ek hefui uerit staddr a funde þessum ok bioda þeim til fostrs. Suæinarnir satu a klettinum ok sa upp a þessi tidende ok gret þorir en Sigmundr mællti. gratum æigi frændi en munum læingr. Ok eftir þat foru þeir j burt ok let þrandr sueinana fara hæim j Gǫtu. en lik Hafgrims var flutt til Sudreyiar ok þar jardat at fornum sid. en vinir þeirra Brestis ok Bæinis fluttu lik þeirra hæim til Skufeyiar ok grofu þar enn at fornnum sid. Nu spurduz þessi tidendi vm allar Færeyiar ok harmade huerr madr þa bredur.

### [63] Rafn tok vid Sigmundi ok (þori).

101. Þetta sumar kom skip af Noregi til Færeyia ok het Rafnn styrimadr uikueskr at ætt ok atti gard j Tunsbergi. hann siglde jafnan til Holmgardz ok var hann kalladr Holmgardzfare. skip þat kom j þorshöfnn. En er þeir voru bunir kaupmennirnir þa er þat at segia einn morgin at þar kemr þrandr or Gautu a skutu æinne ok leidir Rafnn styremann a æintal ok kuetzst hafua at selia honum þrælaefni tuau. hann kuetzst æigi kaupa vilia fyrr en hann sęi. þrandr leidir þar fram sueina tua kollotta j huitum kuflum. þeir voru fridir sionum en þrutnir j andlite af harmi. Hrafnn mællti þa er hann sa sueinana. er æigi þat þrandr at suæinar þessir se synir þeirra Brestis ok Bæinis er þer draput firir skommu. Ek hygg uist sua uera sagdi þrandr. Æigi koma þeir j mitt ualld sagde Hrafnn. sua at ek gefa fe firir þa. Uit skulum þa sueigia til sua sagdi þrandr. ok eig her .ij. merkr silfurs er ek uil gefa þer til at þu flytir þa j brott med þer sua at alldri komi þeir sidan til Færeyia. Hellir nu silfrinu j kne honum styrimanninum telr nu ok tiar firir honum. litzst Rafnni fagurt silfrit ok verdr þetta af at hann tekr vid sueinunum. Ok siglir hann nu a haf þegar honum gefr byr ok kemr þar at Noregi sem hann mundi kiosa austr vid Tunsberg. ok er hann þar vm vetrinn ok suæinarnir med honum ok eru uel halldnir.

### Fra Sigmundi ok Rafni ok þraandi.

102. Um uorit bio hann skip sitt til austrferdar ok spyrr þa suæinina hversu þeir þættizst þa komnir. Sigmundr suarar. vel hia þui sem þa er vit uorum j ualldi þrandar. Rafnn spyrr. vite þer sammæle okkur þrandar sagdi hann. Vitu vit vist sagde hann. Ek ætla þat rad sagde Rafnn at þit farit huert er þit uilit firir mer. ok sua silfr þat er þrandr fek mer j hendr med ykkr þa ętla ek sua bezst komit at þit hafit þat til atuinnu ykkr ok eru þit þo hellzsti faradir j vkunnu lande. Sigmundr þakkade honum ok kuat honum uel fara þar sem þa var komit þeirra mali. Nu er at segia fra þrandi at hann tekr undir sig riki allt j Færeyium ok allt fe þat ok eignir er þeir hafua att brędr[1] Bæinir ok Brestir frendr hans ok hann tekr til sin suæininn Ozsör Hafgrimsson ok fostrade hann. Ozsorr var þa tiu uetra gamall. Red nu þrandr einn öllu j Færeyium ok treystizst æingi honum þa j moti at mæla.

[1]) ok *tilf. Cd.*

Fra Sigmundi.

103. þat sumar er þeir brædr Brestir ok Bœinir voru drepnir vard hofdingiaskipti j Noregi. uar felldr fra landi Haralldr grafelldr en Hakon jarll kom j stadinn ok var þa fyst skattjall Haralldz konungs Gormssonar ok hellt rike af honum. var þa eytt ollu riki þeirra Gunnhilldar sona sumir voru drepnir en sumir flydu ór landi. Nu er at segia fra þeim Sigmundi ok þori at þeir eru tuo uetr sidan j Uikinne er Rafnn let þa lausa ok er þa upp gengit fet þat er Rafnn fek þeim. ok er Sigmundr þa .xij. uetra gamall en þorir .xiiij. vetra. spyria til rikis Hakonar jalls ok gera nu þat rad firir ser at vitea hans ef þeir mætti þui vid koma. þikia(!) þeim ser þat likligazst til nokkurs gods er fedr þeirra hofdu honum þionat. ganga nu or Uikinne til Upplanda ok þann ueg austr eftir Heidmork ok nordr til Dofrafiallz. ok koma þar vid uetr sialfan ok sniofar þa a firir þeim ok uetrar. rada þeir þo a fiallit med litlu rade. fara uillt ok liggia vti sua at morgum dęgrum skipti matarlausir. ok þa lagdizst þorir firir ok bidr Sigmund þa hialpa ser ok læita af fiallinu. hann kuat at þeir skylldu badir af koma edr huorgi þeirra ella. en sa var munr krafta þeirra at Sigmundr leggr þori a bak ser ok væit þa helldr firir ofan. dasadizst(!) nu miog badir finna nu eitt kuelld daluerpi nǿkkut a fiallinu ok foru nu eftir þui ok vm sidir kenna þeir reykiarþef ok þui næst finna þeir bæ ok ganga jnn ok finna stofu. þar satu konur .ij. ǫnnur uid alldr en (ǫnnur) vng stulka. badar uoru þær fridar sionum. þær hæilsudu uel sueinum þessum ok drogu af þeim klędin en fa þeim þurr kledi j stadinn ok bratt gefa þær þeim mat at eta. ok sidan fylgia þær þeim til svefnns ok bva vm þa uel ok segia at þær uilia at þeir yrde æigi firir bonda er hann kemr heim. kuat hann vera stygglyndan. Nu uaknar Sigmundr vid þat at madr kemr jnn mikill uexsti ok j hreinbialba ok hafde hreindyre a baki. hann hafde uppi nasarnar ok var yggldr ok spurde hua(t) komi(t) væri. Husfreyia sagde at þar uoru komnir sueinar .ij. ueslingar kalnir ok matldregnir miog sua at komnir eru at bana. Hann suarar. sua mattu oss [64] skiotazst uppe hafa at þit takit mennina j uor hus. ok hefui ek þat oft sagt þer. Æige nenta ek sagde husfreyia at sua vænligir menn dęi her hia husum vorum. Bondi let þa vera kyrt ok foru þau til matar ok sidan til suefns. .ij. uoru rekkiur j suefnhuse lagu þau bonde ok husfreyia j ǫdru(!) en dottir bonda j annare huilu en buit var vm sueinana þar j husinu. En vm morgininn var bonde snemma a fotum ok mællti til sueinanna. þat þiki mer sem þær vile konunnar(!) at þit huiliz her j dag ef ykkr þikir sua henta. þeir kuoduzst þat giarnna vilia.

### Sigmundr var med Vlfe.

104. Nu var bondi j brott vm daginn ok kom heim at kuellde ok var uel katr uid þa Sigmund. En annan morgin kom bondi til suæinanna ok mællti. audit vard þess at ykkr bæri hingat at husum minum. nu þiki mer þat rad at þit duelizst her j uetr ef ykkr þikir sua betr gegnna. uirdizst þeim konum uel til ykkar. en þit hafit farit þuert af uegnum ok er langt til bygda alla uega hedan þeir Sigmundr þakka bonda bod sitt ok sögduzst þat gearnna vilea at vera þar. bondi mællti at þeir skyllde þiggia vel at þeim husfreyiu ok taka höndum til þess er þær þyrfti. en ek mun j brottu vera huernn dag at læita oss at föngum ef sua vill verda. Nu eru þeir þar sueinarnir ok er þeim uel uæitt ok eru þær uel uid þa ok þikir þeim þar gott. en bondi er a burtu huern dag. þar uoru hus god ok ramlig ok buizst vm vel. Bondi nefnndizst Ulfr en Ragnnhilldr kona hans en þurid dottir þeirra. hon var hin fridazsta kona synum ok mikiludlig. godr þokki var med Sigmundi ok þuride ok töludu oftliga ok lagdi bondi ok husfreyia ekki ord j þat. Lidr nu uetr ok kemr sumarmaladagrinn hinn fyste. þa kemr Ulfr bonde at mali vid Sigmund ok mællti. sua er hattat sagde hann at þit hafuit her verit j uetr med mer. nu ef ykkr þikir æigi annat synna firirliggia en vera her þa skal ykkr þat heimillt ok vita at þit þroskizst her. ma vera at oss se nokkurir fleire hlutir saman ætladir. en æinn er sa hlutr at ek vil vara ykkr vid. at þit farit æigi j skog þann er nordr er fra bænum. þeir jattudu þessu ok þokkudu Vlfui bonda bod sitt ok þektuzst þetta bod giarna.

### Sigmundr vann dyrit. capitulum.

105. Tiornn[1] æin var þadan skamt fra bænum ok for bondi þangat til ok vandi þa vid sund. þa foru þeir j skotbakka ok vaunduzst vit skot ok vard Sigmundr skiott askynia allra jþrotta Vlfs. sua at hann vard hinn mesti jþrottamadr ok badir þeir þorir ok komzst hann þo æigi til jafns vid Sigmund. Ulfr var mikill madr ok sterkr ok þat skildu þeir brædr at hann var hinn mesti jþrottamadr. þeir voru þar nu þria uetr ok var Sigmundr þa .xv. uetra en þorir .xvij. uetra. Sigmundr var þa gilldr madr firir þroska sakir ok badir þeir. ok var Sigmundr þo ollum hlutum fremri þoat hann væri .ij uetrum yngri. Ok nu er þat æitthuert sinn vm sumarit at Sigmundr mællti til þoris. huat mun verda þoat vit farim j skog þenna er her er nordr fra garde. þorir suarar. a þui er mer æingi forvitne segir hann. Ekki er mer sua

[1]) Biornn *Cd.*

gefit segir Sigmundr ok þangat skal ek fara. þu munt rada hliota segir þorir en briotum vit þa bodord fostra mins. Nu foru þeir ok hafde Sigmundr vidaroxi eina j hendi ser. koma j skoginn ok j riodr eitt fagurt. ok er þeir hafa þar æigi læingi verit þa heyra þeir brak j skoginn ok bratt sa þeir beornn mikinn hardla ok grimligan. þat var vidbeornn mikill ulfgrar at lit. þeir hlaupa nu aftr a stiginn þann er þeir hðfdu þangat farit. stigrinn var miorr ok þraungr ok hleypr þorir firir en Sigmundr sidarr. dyrit hleypr nu eftir þeim a stiginn ok verdr þui þraungr stigrinn ok brotna æikrnar firir þui. Sigmundr snyr þa skiott ut af stignum millum treanna ok bidr þar til er dyrit kemr jafnnfram honum. þa hðggr hann jafnnt medal hlusta a dyrinu med tueim hondum sua at exin sokkr en dyrit fellr afram ok er dautt þuiat þat hefir æinge fiorbrot. þorir vard nu þessa uarr ok mællti sua. þer uard þessa þrekuirkis audit frendi sagde þorir en æigi mer. ok er þat ok likligazst at ek se um mart þinn eftirbatr. Sigmundr mællti. nu skulu vid freista at vid getim ræist upp dyrit. Sua gera þeir ok geta upp ræist. suæigia sua at tren at eigi ma falla. reka kefli j munninn ok þikir dyrit þa gapa munninum. fara nu heim eftir þetta. Ok er þeir koma heim þa er Ulfr fostri þeirra heima j tune firir ok var þa a ferd kominn at leita þeirra. hann er þa vfrynligr ok spurde huert þeir hefde farit. Sigmundr suarar. nu er illa ordit fostri minn sagde hann. vit hðfum nu brugdit af radum þinum ok hefir beorninn ellt okkr. Vlfr suarar. sliks var at von at sua munde fara. en þat munda ek vilea at hann ellti ykkr æigi oftar. en þo er þetta dyr sua at ek hefir æigi traust a borit at glettazst vid en þo skulum nu freista sagdi hann. Snyrr Ulfr [65] nu jnn ok tekr æitt spiot j hond ser ok hleypr nu til skogarins ok þeir Sigmundr med honum. Ulfr ser nu biornninn ok hleypr at þegar ok rekr a spiotit ok fellr biorninn vid. Ulfr ser at dyrit er dautt adr ok mællti. hædi þit nu at mer edr huorr ykkar hefir drepit dyrit. þorir suarar. ekki er (mer) at æigna af þessu fostri segir hann ok hefir Sigmundr drepit dyrit. þetta er hit mesta þrekuirke segir hann ok munu her morg eftir fara þin afreksverk Sigmundr sagdi hann. Nu fara þeir heim eftir þetta ok hefir Ulfr en meire mæti a Sigmundi þadan fra en adr.

## Brottferd þeirra brædra fra Vlfue.

106. Nv eru þeir brædr med Ulfui þar til at Sigmundr er .xviij. uetra en þorir .xx. Sigmundr var þa fragiordamadr a uðxt ok afl ok alla atgeorui. þa er þat skiotazst af honum at segia at hann hefir næst gengit Olafui Trygguasyne vm allar jþrottir. Ok nu er suo er

komit þa segir Sigmundr Ulfui fostra sinum at hann uill a brott læita. ok þikir mer litil okkr afdrif verda munu ef uit foruitnumzst æigi til annarra manna. þat skal ok vera sem þit uilit segir Ulfr. En þat hōfdu þeir fundit at huert haust ok huert vor medan þeir voru þar at Vlfr var j brottu .vij. nætr edr þui nærr ok hafde þa heim mart j birgdum lereft ok klæde edr þa hluti adra er þau þurftu at hafa. Nu lætr Ulfr gera þeim klæde ok byr þa vel j brott. þat finnzst a konunum at þeim þikir mikit firir skilnadinum ok þo meira hinne yngri. Skilia nu ok fara þeir brott ok ferr Ulfr a leid med ok fylgir þeim vm Dofrafiall þar til er þeir sia nordr af til Orkadals. þa setz Ulfr nidr ok segir at hann uill huilazst. nu setiaz þeir nidr allir. þa mællti Ulfr. nu foruitnar mik at vita hueria ek hefir her fostrat edr huerrar ættar þit eru(t) edr huar ykkart fostrland er. þeir segia nu allt fra sinne ęfui þat er lidit var. Ulfr harmar þa miog. þa mællti Sigmundr. nu vil ek fostri segir hann at þu segir okkr fra ęfui þinne huat þar hefir vm lidit. Sua skal nu ok vera segir Ulfr.

### þorkell segir æfuisogu sina þeim brædrum.

107. þar tek ek þa til sōgu minnar at þoralfr het bonde er bio a Heidmork a Upplōndum. hann var rikr madr ok syslumadr Upplendinga konunga. hann var kuongadr madr ok het Jdunn kona hans en Ragnhilldr dottir hans ok uar nærr allra kuenna friduzst synum. Sa bonde bio æigi langt þadan er Stæingrimr het godr bonde ok uel fiaræigande. þora het kona hans. son attu þau er þorkell het. hann var efniligr madr mikill ok sterkr þat var idn þor(k)els er hann var heima med fedr sinum. at huert haust er frosta tok ok isa lagde a uōtnn þa lagdizst hann vt a merkr ok nokkurir felagar hans med honum ok ueidde dyr ok var hinn mesti bogmadr. var þessi hans idnn þa er þurrafrost tekr til ok af þessu var hann kalladr þurrafrost. Eitthuert sinn kom þorkell at mali vid fōdr sinn ok sagdi at hann vill at hann fai honum kuonfang ok bide til handa honum Ragnhilldar dottur þoralfs bonda. Fadir hans suarar at hann uill hatt stokka. en þetta verdr þo at þeir fedgar fara til þoralfs bonda ok bera upp eyrendi sin vm bonord þorkels vid dottur hans Ragnhilldi. þoralfr suarar seinliga ok kuetzst hafa hærra hugat henni en þar er þorkell er. en kuezst ollu uilldu uel suara firir vingan þeirra Stæingrims. en kuat þo ekki mundu af þessu verda. Skilia vid sua buit ok fara heim.

## Fra þorkeli ok Sigmundi.

Litlu eftir þetta ferr þorkell heiman vid annan mann vm nott þa er hann frettir at þoralfr er æigi hæima ok farinn j syslu sina. þeir þorkell ganga jnn vm nottina ok at huilu Ragnnhilldar ok tekr hana upp j fang ser ok berr hana vt ok flytr hana heim med ser. Fadir hans vard illa vid þetta ok kuat hann taka stein vm megnn ser ok bad hann flytia hana heim skiott. Hann suarar. æigi mun ek þat georа. Steingrimr fadir hans bad hann þa j brottu verda. þo(r)kell gerde þa sua. for j burt med Ragnnhilldi ok lagdizst a skoga vt. þar voru j ferd med honum .xij. menn þeir voru felagar hans ok læikbrædr. Nu kemr þoralfr bondi heim ok verdr varr þessarra tidenda ok safnar þegar monnum at ser ok hafde hundrat manna ok ferr til Steingrims bonda ok bidr hann selia fram son (sinn) ok fa honum j hendr dottur sina. Steingrimr kuat þau æigi þar vera. þeir þoralfr rannsokudu þar ok fundu æigi þat er þeir uilldu. Eftir þat foru þeir a skoginn ok læitudu þeirra ok skiptu med ser leitinne ok voru þa .xxx. manna med þoralfui. Nu er þat æinn dag at þoralfr ser .xij. menn j skoginum ok konu hit .xiij. ok þikiazst nu vita ok hallda þangat til. Nu tala forunautar þorkels til at menn drifui at þeim. spyria nu þorkel huat rads skal taka. Hann suarar. holl einn er her skamt fra oss ok munu ver þangat fara allir. er þat vigi gott. skulu ver briota þar vpp griot ok uæita kallmannliga uðrnn. Ok nu fara þeir a holinn ok buazst þar [65] vid. Bratt koma þeir þoralfr at ok lata þegar drifa vopnn a þa. en þeir þorkell ueriazst uel ok dreingiliga. sua lykr þeirra fundi at .xij. menn falla af þoralfui en .vij. af þorkeli. en sarir .v. þeir er eftir voru. þoralfr bondi var sarr til olifuis. Nu flyrr þorkell j skoginn ok felagar hans med honum ok skilr þar med þeim. ok er Ragnnhilldr nu þar eftir ok er hon flutt til bygda med fðdr sinum. Ok er þoralfr kemr j bygd deyrr hann ór sarum þessum. ok er þat sognn manna at þorkell yrde banamadr hans. þessi tidendi spurduzst nu. Ferr þorkell heim til fðdr sins ok er hann litt sarr en flestir forunautar hans meirr. eru þeir nu græddir.

## Sogn þorkels.

Eftir þetta stefnna þing Vpplendingar ok er þorkell þurrafrost gerr utlagi a þinginu. Ok er þeir fedgar fretta þetta þa segir Steingrimr at þorkell ma æigi heima þar vera medan þeir læita mest eftir honum. skaltu fara frendi til ar þeirrar er her fellr skamt fra bænum. en þar eru gliufr mikil upp med anne ok j argliufrunum er

hellir æinn. ok uæit þat fylsne æinge nema ek. þangat skaltu fara ok hafa mat med þer. Sua georir þorkell at hann er j hellinum medan mest er leitin ok verdr æigi fundinn. Daufligt þikir honum þar ok er stund lidr ferr hann burt or hellinum ok til bæiar þess er þoralfr bondi hafdi att ok tekr nu Ragnhilldi j burt j annan tima ok rædzst nu a fioll ok eydimerkr. Ok her nem ek stadar sagdi hann sem nu hefui ek bygd mina setta ok her hefui ek verit sidan ok vit Ragnhilldr .xviij. vetr ok er þat alldr þuridar dottur minnar. Nu hefui ek sagt ykkr ęfuisǫgu mina segir hann. Mikil þiki mer saga þin fostri segir Sigmundr. en nu vil ek segia þer at ek hefui æigi uel launat þer þinn velgeorning ok fostr. þuiat dottir þin sagde mer þa er vit skild m at hon væri med barnne ok er þar æinge madr j tige til nema ek. ok þui for ek mest j brott at ek hugde at okkr munde þat a skilia. þorkell suarar. lǫngu vissa ek þat at med ykkr var astarþokki ok uillda ek þat ekki meina ykkr. Sigmundr mællti. þess vil ek bæida ykkr fostri minn at þu giftir æigi þuride dottur þina þuiat hana skal ek æiga edr ǫngua konu ella. þorkell suarar. æigi mun dottir min betra manni giptaz. en þess uil ek bidia þig Sigmundr at ef þu færr framkuæmd med hǫfdingium at þu munir nafnn mitt ok komir mer j þrift ok j sætt vid suæitunga mina. þuiat miog leidizst mer nu j obygdum þessum. Sigmundr jattade þui ef hann mætti sua vid komaz. Ok nu skilia þeir ok foru þeir frendr til þess er þeir koma a Hladir til Hakonar jalls. þar hafde hann adsetu. Nu ganga þeir firir jall ok kuedia hann. en hann tok þui vel ok spyrr huat monnum þeir se. Sigmundr kuezst vera Brestis son þess er var syslumadr yduar of hrid j Færeyium ok þar drepinn. hefui ek þui herra yduarn fund sott at ek vænti mer af ydr godrar framkvæmdar. ok uillda ek ydr herra a hendi bindazst ok vit badir frendr. Hakon jall sagdizst vita giorla huerr madr hann var. en æigi ertu olikr Bresti. en sialfr verdr þu þig j ætt at færa. en æigi spari ek mat vid þig. Ok visade þeim til sætis hia gestum sinum. ok var Suæinn Hakonarson vngr ok med hird faudr sins j þenna tima.

## Sigmundr hitti Hakon jarl ok Suein.

108. Sigmundr kom ser j tal vid Suein jalls son ok lek firir honum marga fimlæika ok hendi jalls son mikit gaman at honum. Sigmundr flutti mal sitt firir Sueini ok bad hann leggia til med ser at hann fengi nokkura framkuæmd af fǫdr sinum. Suæinn spyrr huers hann beiddizst. J hernat villda ek hellzst sagde Sigmundr ef fadir þinn uill

efla mik. Slikt er vel hugsat sagde Suæinn. Lidr nu uetrinn framan til jola. ok at jolum kemr þar Æirekr jall Hakonarson austan or Vikinne. hann hafdi þar atsetu. Sigmundr kemr ser j tal vid Æirek jall ok kærir firir honum sinn vanda. hæitr Æirekr jall honum sinne vmsyslu vid Hakon fôdr sinn ok kuezst æigi skulu minna til leggia med honum en Hakon jall. Ok eftir jolin uekr Sigmundr til vid Hakon jall at hann munde efla hann med nokkuru moti ok lata hann niota fodrs sins Brestis. er hann var hans þionustumadr. Hakon jall suarar. vist fek ek þar tion godrar fylgdar er Brestir var drepinn hirdmadr minn hinn vaskazsti madr ok illz væri þeir fra mer verdir er hann drapu. edr til huers mælir þu. Sigmundr kuetzst hellzst vilea fara j viking ok fa þa annathuort nokkurnn frama edr bana. Jarl kuat þat uel mællt. ok munt þu vita j vor er menn buazst ferda sinna huersu ek vil þa vera lata. Lidr nu af uetrinn ok þa hæimtir Sigmundr fram vinmæli Hakonar jarls. en jarl suarar. langskip æitt vil ek fa þer ok þar a .xl. manna med uopnum. ok mun þat lid litt vandat þuiat flestir munu ekki fusir at fylgia þer vtlendum manni ok vkunnum. Sigmundr þakkade jarli ok segir Æireki tillag fodr sins. Jarl suarar. litit framlag en þo ma þer gagnn at verda. en annat skip vil ek fa [67] þer ok a .xl. manna. Ok var þat skip at ôllu uel buit er Æirekr fek honum. Nu segir hann Sueine huert tillag þeirra var fedga. Suæinn suarar. mer er sua buit æigi iafnnhægt vm framlôgin vid vine mina sem þeim fedgum. en þo skal ek fa þer hit þridia skip ok a .xl. manna ok skulu þat vera þionustumenn minir. ok væntir ek at þeir fylgi þer bezst af þeim monnum er þer eru fæingnir til fylgdar.

## Sigmundr bardiz vid Randue.

109. Sigmundr byzst nu til fylgdar vid menn sina ok siglir þegar hann er buinn austr til Uikr ok sua til Danmerkr ok j gegnum Eyrarsund ok allt j hit Eystra sallt. ferr hann vm sumarit ok verdr litit til fæingiar. treystizst hann huergi til at hallda þar er mikit er firir vid þenna lidskost. hann lætr þo fara kaupmenn j fride. Siglir þo austan er a leid sumarit þar til er hann kemr vndir Elfarsker. þar er jafnnan vikingabæli mikit. ok er þeir hafua lagt j lægi vndir æinn holma þa gengr Sigmundr upp j skerit ok vill litazst vm. hann serr at ôdrum megin vndir holmanum liggia .v. skip ok var dreki hit v[ta]. Hann ferr þa til manna sinna ok segir þeim at .v. vikingaskip liggia odrum megin vndir skerinu. nu vil ek þat segia ydr at mer er litit vm at flyia þeirra fund at ôll(u) vreyndu. munu ver ok alldri fra(m)a fa nema ver leggim

vart rad j hættu. þeir badu hann firir sia. Nu skulu ver bera griot a skipin sagde Sigmundr ok buazst vid sem oss þikir likazst. ver skulum leggia skipum vorum j vtanverdan þenna vog er nu eru ver komnir þuiat uogrinn er þar miostr. ok saa leitzst mer j kuelld er ver sigldum jnn at æigi mundu skipin fa jnn lagt hia oss ef ver leggium þriu skip vor jafnnfram ok ma oss þat duga (at) þeir leggi æigi ðllu megin at oss. þetta gera þeir. En vm morgininn er þeir hafa lagt skip sin j vtanverdan uoginn þa roa þeir at þeim a fim skipum vikingar. ok stendr madr j stafnne a drekanum mikill ok sterkligr ok spyrr þegar huerr firir skipunum rede. Sigmundr nefndi sig ok spyr hann at nafni. Hann kuetzt Randuerr heita ok ættadr austan or Holmgarde ok kuat þeim .ij. kosti til vera. at þeir gæfui upp skip sin ok sealfua sig j hans valld edr veria sig ella. Sigmundr kuat þa kosti viafnna ok sagde at þeir munde fræista hliota fyst uopnna sinna. Randuerr bad sina menn at leggia a þrem skipum er æigi matti ollum at koma. en hann uillde sia fyst huersu fære. Sigmundr styrde skipe þui er Sueinn jalls son hafde fæingit honum. en þorir þui er Æirekr jall hafde att. Nu leggiazst þeir at ok beriazst. lata þeir Sigmundr ganga griot sua akaft j fystu at hinir megu ekki annat en hlifua ser. ok er farit er griotit gera þeir skothrid harda ok fellr lid mart af vikingum en fiolde sarr. Nu taka þeir Sigmundr til hðgguopnna sinna. tekr nu at halla bardaganum a lid Randuers. En er hann ser ufarar sinna manna kuat hann þa vera auuirdismenn mykla er þeir sigradu æigi þa menn er hann kuat ekki at monnum vera mundu. þeir kuodu hann oft eggia sig en hlifa ser. badu hann nu radazst j mote. hann kuad sua vera skylldu. Leggr hann nu ad drekanum ok annat skip er menn voru huilldir a en skipar hit þridia osarum monnum. leggiazst nu at j annat sinn ok beriazst ok er nu myklu stridare orrosta en fyrr. Sigmundr var fremzstr sinna manna a sinu skipe ok hoggr bæde hart ok tijtt. þorir frendi hans gengr uel fram. beriazst nu læinge sua at æigi ma j millum sia huorir driugare verda. þa mællti Sigmundr til sinna manna. æigi munu ver sigrazst a þeim til þrautar nema ver reynim oss framar. nu vil ek rada til uppgongu a drekann ok fylgit mer dræingiliga. Nu kemzst Sigmundr upp a drekann ok þeir .xij. saman ok drepr mann ok bratt annan en þeir fylgia honum vel. þorir kemzst ok a drekann vid fimta mann. hrðkkur nu allt vndan þeim. ok er Randuerr serr þetta hleypr hann fram ok j mot Sigmunde ok mætazst þeir ok beriazst miog leingi. Nu synir Sigmundr jþrott sina ok kastar suerde sinu ok fleygde j loft upp ok tekr vinstri hendi suerdit en skiolldinn hægre hendi ok hðggr med

suerdinu til Randuers ok tekr vndan honum fotinn hægra firir nedan kne. Randuerr fellr þa. Sigmundr uæitir honum halshôgg þat er af tok hôfudit. Þa æpa Sigmundar menn herop. ok eftir þat flyia vikingar a .iij. skipum. en þeir Sigmundr rydia drekann sua at þeir drepa huert manzbarnn er a var. Nu kanna þeir lid sitt ok eru fallnir .xxx. manna af lide Sigmundar. leggia nu skipin j lægi ok binda sar sin ok huila sig þar nokkurar nætr. Nu tekr Sigmundr drekann til sin ok annat skip er eftir vard. Þeir taka þar mikit fe bæde j uopnum ok audrum gripum. sigla nu j burt ok til Danmerkr ok sua nordr til Vikrinnar ok finna Æirek jall ok fagnar hann uel Sigmundi ok bydr honum med ser at vera. Sigmundr þakkar jalli bodit en kuezst nordr mundu fara fyst til Hakonar jalls. en let þar eftir .ij. skip sin j varduæizslu jalls er þeir hôfdu litt skipat. Nu koma þeir til Hakonar jalls ok faggnar [68] hann vel Sigmundi ok hans felôgum. ok er Sigmundr med jalli vm uetrinn ok georizst frægr madr miog. En at jolum vm uetrinn geordizst Sigmundr hirdmadr Hakonar jalls ok þeir Þorir badir ok satu nu vm kyrt j godum fagnade.

## Sigmundr drap Biorn.

110. Þenna tima red firir Suiþiodu Æirekr konungr hinn sigrsæli Bearnar son Æireks sonar Eyuindar sonar. hann var rikr konungr. Æinn uetr hôfdu kaupmenn .xij. saman norænir farit austan vm Kiol til Suiþiodar. ok er þeir kuomu j Suiariki attu þeir kaupstefnu vid landzmenn ok skilde þa a j kaupstefnunni ok drap norrænn madr æinn suænskann mann. ok er Æirekr konungr spyrr þetta sendir hann til gesti sina ok lætr drepa þessa .xij. menn. Ok nu vm varit spyrr Hakon jall huert Sigmundr ætlade at hallda vm sumarit. Sigmundr sagde at þat skyllde a hans forsio. Hakon jall mællti. þat villda ek at þu færir nôkkuat nærre riki Suiakonungs ok minntizst þess aa Suium er þeir drapu .xij menn mina vm uetrinn firir litlu ok hefir æingi hefnnd firir komit. Sigmundr kuetzst sua gera mundu ef sua villde til takazst. Hakon jall færr þa æinuala lid Sigmundi af hird sinne sumt læidangurslid. voru nu allir fusir til Sigmundar. Hallda nu austr til Vikr ok finna Æirek jall ok færr hann Sigmundi enn fritt lid. ok hefir Sigmundr nu uel þriu hundrut manna ok .v. skip uel skiput. sigla þadan sudr til Danmerkr ok sua austr firir Suiauellde. þar leggia þeir skipum sinum at Suiþiod austan at landinu. Sigmundr segir þa sinum monnum. her munu ver uæita uppgôngu. ok skulum fara hermannliga. þeir ganga nu a land upp ok koma j bygdina med .iij. hundrut manna ok drepa menn en

taka fe brenna bæi. stökr nu landzfolkit undan a merkr ok skoga sem undan kuomuzst. þadan æigi langt j brott er þeir raku flottann red firir syslumadr Æireks konungs er Beornn het. safnnar lide at ser er hann frettir hernadinn ok verdr fiolmennr ok kemz a mille þeirra ok skipanna. Ok æinn dag sia þeir landherinn. þa tala menn Sigmundar vm huat rads skal taka. Morg eru enn god til sagde Sigmundr ok oftar sigrazst þeim æigi uel er fleire eru saman ef menn eru skeleggir til motz. nu skulu uer þat rad taka at fylkia lide voru ok gera a suinfylking. skulu vit þorir frendr vera fremzstir en þa .iij. ok .v. en skialldddadir menn skulu vera vt j arma tueim megum. ok ætla ek þat rad vort at ver skulum hlaupa at fylkingu þeirra ok vita at ver komimzst sua j gegnum. en Suiar munu ekki fastir a uelli. þetta gera þeir hlaupa nu at fylkingu Suia ok komazst j gegnum. verdr nu orrosta mikil ok fellr mart manna af Suium. gengr Sigmundr nu uel fram ok höggr nu a .ij. hendr ok kemr at merkismanni Bearnar ok höggr hann banahogg. þa eggiar hann menn sina at þeir skylldu briota skialldborgina er skotin var vm Beornn. ok sua gera þeir. Sigmundr kemzst at Birnne ok eigazst vid uopnnaskipte ok vinnr Sigmundr hann skiott ok verdr banamadr hans. ęþa vikingar nu sigrop ok flyia þa landzmenn. Sigmundr segir at þeir skulu æigi reka flottann. sagde at þeir hefde ekki afla til þess j vkunnu lande. Sua gera þeir. taka þar mikit fe ok foru vid þat til skipa sinna. sigla nu burt af Suiþiodu ok austr til Holmgardz ok heria þadra vm eyiar ok annes. Brædr .ij. eru nefnndir j riki Suiakonungs het annar Vandill en annar Adill. þeir voru landuarnarmenn Suiakonungs ok höfdu alldri minnr en .viij. skip ok dreka .ij. Suiakonungr spyrr þesse tidende er hernadr var giorr j landi hans. ok sendir ord þeim brædrum ok bidr þa taka Sigmund af lifui ok hans felaga. þeir jattudu þessu. En vm haustit sigla þeir Sigmundr austan ok koma undir æina ey er liggr firir Suiþiod. þa segir Sigmundr til sinna manna. nu erum ver ekki med vinum komnir þar er þeir eru Suiar. skulu ver vera uarir vm oss ok mun ek ganga upp a eyna ok siazst vm. Ok sua georir hann ok ser at ödrum megin eyiarinnar liggia .x. skip drekaskip .ij. ok onnur .viij. Sigmundr sagdi nu sinum monnum ok at þeir skulu væita vitbunat ok bera fiarhlut sinn af skipum en griot j stadinn. ok buazst nu vid vm nottina.

## Bardagi Sigmundar ok Vandils.

111. Ok vm morgininn snemma roa þeir at þeim .x. skipum. ok kalla þeir þegar formennirnir huerir firir skipunum rede. Sigmundr

sagde til sin. ok er þeir vitu hverir þessir menn eru þa þurfti æigi at sȯkum at spyria. briota upp uopnn sin ok beriazst ok ekki hafua þeir Sigmundr þar komit at þeir hefdi slika raun haft. Vandill leggr nu dreka sinum at dreka Sigmundar vard þar hart mottak. ok er þeir hȯfdu barizst vm hrid þa mællti Sigmundr til sinna manna. enn er sem fyrr at ver munum æigi sigr fa nema ver gangimzst nærr. nu uil ek hlaupa upp a drekann en þer fylgit mer uel. Ok nu hleypr Sigmundr a drekann ok fylgir honum mikil sueit. verdr hann skiott mannz bani ok annars. hraukkr nu lidit vndan þeim. Vandill sækir nu j mot Sigmundi ok eigazst nu vid uopnaskipte miog læinge. Sigmundr hefir id sama bragd sem fyrr. skiptir vm [55] uopnn j hondum ser ok hȯggr hinne vinstri hende til Vandils ok af honum hondina hęgri. ok fell nidr suerdit þat er hann (hafdi) vegit med. Sigmundr georir þa skeott vm vid hann ok drepr hann. þa ępa menn Sigmundar sigrop. Adill mællti þa. vmskipte hafua nu ordit ok mun Vandill drepinn ok leggium a flotta. verdr nu huerr at leita firir ser. Nu flyia þeir Adill a fim skipum. en fiogur eru eftir ok dreki hit .v[ta]. ok drepa þeir huert mannzbarnn er eftir var. en hann hafdi drekann med ser ok aunnur skip. fara nu þar til er þeir koma j riki Danakonungs. þikiaz nu hirdir ok halldnir. huila sig nu ok binda sar sin. En er þeir eru vel færir sigla þeir til þess er þeir koma j Vikina ok finna Æirek jall. ok er þeim þar vel fagnnat. dueliazst þar litla hrid ok fara nordr til þrandheims ok koma a fund Hakonar jalls. Hann fagnar vel Sigmundi ok hans monnum ok þakkar honum þessi verk er hann hafde vnnit vm sumarith. Eru þeir frendr med jalli vm vetrinn Sigmundr ok þorir ok nokkur suæit med þeim. en lid þeirra vistadizst annarstadar. skortir nu æigi fe.

## Vidreign Sigmundar ok Harallz.

112. En er uorade frettir Hakon jall Sigmund huert hann ætlade at heria vm sumarit. Sigmundr kuat þat skylldu a hans forsio vera. Ekki mun ek eggia þig at fara j glett vid þa Suia. vil ek nu at þu farir vestr vm haf j nand Orkneyium. þar er von þess mannz er Haralldr jarnnhauss heitir. hann er vtlagi minn ok vvinr sem mestr ok hefuir marga vspekt geort j Noregi. hann er mikill madr firir ser. hann vil ek at þu drepir ef þu matt sua vit komazst. Sigmundr kuezst mundu finna hann ef hann fretti til hans. Nu siglir Sigmundr af Noregi .viij. skipum. ok styrir þorir nu drekanum Vandils naut. en Sigmundr Randuers naut. þeir sigla nu vestr vm haf ok verdr illt til fæingiar vm sumarit. ok at alidnu sumre koma þeir skipum sinum vndir Ǫngulsey.

hon liggr j Æinglandz hafui. þar sia þeir liggia firir ser .x. skip ok var þar med æitt drekaskip mikit. Sigmundr verdr þess skiott viss at firir þeim skipum rædr Haralldr jarnhauss. þeir mæla til bardaga med ser vm morgininn. Lidr nu af nottin ok vm morgininn j solarrod briota þeir upp uopnn sin ok beriazst þann dag allan til nætr. skilia vid myrkr ok męla til bardaga med ser vm morgininn. Ok annan morgin eftir kallar Haralldr a skip Sigmundar ok spurde huort hann uillde enn beriazst. Hann kuezst æigi annat ętla. þat mun ek nu mæla segir hann er ek hefir æigi fyrr mællt. at ek villda at vit gerdimzst felagar en beriumzst æigi læingr. Her lögdu menn huorstueggia uel til ok kuodu naudsyn a vera at þeir sættizst ok væri allir æins ok mundi fatt vid þeim standa. Sigmundr kuat æinn hlut firirstanda at þeir munde æigi sættazst. Huat er þat segir Haralldr. Sigmundr suarar. Hakon jall sendi mik eftir höfde þinu. Jllz var mer at honum von segir Haralldr ok eru þit olikir menn. þuiat þu ert hinn vaskazste madr en Hakon er æinn hinn vesti madr. Ekki mun okr þetta æinn ueg þikia segir Sigmundr. Nu attu menn þeirra hlut at med þeim til sættar. ok verdr þat at þeir sættazst ok leggia allt herfang sitt saman ok heria nu uida vm sumarit. ok stenndr nu fatt vid þeim. En er haustar sagde Sigmundr at hann uill hallda til Noregs. Haralldr suarar. þa mun skilia med okkr. Æigi skal þat sagdi Sigmundr. vil ek nu at vit farim badir til Noregs. hefui ek þa nökkut af þui sem ek het Hakoni jalli ef ek kem þer a hans fund. Hui munda ek fara aa fund hins mesta vvinar mins. Lat mig þessu rada segir Sigmundr. Będe er at ek trvi þer vel sagde Haralldr enda er þer þa vant vm ok skaltu þessu rada. Sigla nu sidan nordr til Noregs ok koma at Hördalande. þa er þeim sagt at Hakon jall væri a Nordmære ok væri j Bergund[1]. hallda þeir þangat ok leggia skipum sinum j Steinauogi. þa ferr Sigmundr jnn til Bergundar med .xij. menn a einne rodrarskutu ok uill finna Hakon jall fyst. en Haralldr liggr j Steinauogi medan. Nu kemr Sigmundr a fund Hakon jalls ok sitr hann vid drykkiubord. Sigmundr gengr þegar jnn firir jallinn ok kuedr hann uel. Jall tok honum blidliga ok spyrr hann tidenda ok bidr setia undir hann stol. ok sua var gert. Tala vm hrid ok segir Sigmundr honum af ferdum sinum en ekki getr hann at (hann) hafui Jarnnhaus fundit. En er Hakoni þikir frestazst frasögnn. þa spyr jall huort hann fynde Haralld. Sua var vist sagde Sigmundr. ok sagde honum sem farit hafde at þeir sęttuzst. Jall þagnar þa ok rodnade a at sia ok mællti er stund leid. optar hefir þu Sigmundr mitt eyrende betr rekit en nu. Her er

[1]) r. Borgund

nu kominn madrinn herra segir Sigmundr a yduart ualld. ok ætla ek at þer munit taka sættum af Haralldi firir min ord sua at hann fai lifs grid ok lima ok landzuist sina. Æigi mun sua fara sagdi jallinn ek skal lata þegar drepa hann at ek nai honum. Ek vil bioda handsôl min herra firir hann sagde Sigmundr ok fe sua mikit sem þer vilit mest gera. Eingua [7)] sætt mun hann af mer fa sagde jall. Sigmundr suarar. til litils hefui ek þer þionat ok æigi gods er ek skal æigi einum manni fa grid ok sætt. skal ek j burt ór landi þessu ok þiona þer æigi leingr. ok munda ek þat vilea at þer yrdit til hans at vinna nôkkut adr en hann væri drepinn. Sprettr Sigmundr upp ok gengr vt af stofunne. en jall sitr eftir ok þegir ok æinge þorir at bidia firir Sigmund. þa tekr jall til orda. reidr var Sigmundr nu sagde hann. ok skade er þat riki minu ef hann rædzst j brott ok æigi mun honum þat aluara. þat mun honum vist aluara sogdu menn hans. Fari nu eftir honum sagde jall ok skulu vit sættazst at þessu sem hann baud. Nu ganga jallsmenn til Sigmundar ok segia honum þetta. ok nu gengr Sigmundr til jalls ok fagnar jall honum nu fyrre ok sagde at þeir skulu at þessu sættazst sem hann baud fyrre. uil ek þig æigi brottu fra mer. Tok Sigmundr þa grid ok sætt þessa af Hakoni jalli til handa Haralldi. ok ferr Sigmundr nu at finna Harалld ok segir honum nu sua buit at sættin er radin. Haralldr kuat illt mundu at trua honum. en þo foru þeir a fund jalls ok sættuzst at þessu. For þa Haralldr eftir þat nordr a Halogaland. en Sigmundr var med jalli vm uetrinn j myklum kærlæikum ok þeir þorir frendr ok mikil suæit manna med þeim. Sigmundr helldr uel menn sina bæde at klædum ok vopnum.

## Fra Eygiarskeggium ok Sigmundi.

113. Nv er at segia fra þeim Færeyingum at Özsorr Hafgrimsson uex upp (med) þrandi j Gautu þar til sem hann er fullþroskadr madr ok er fræknnligr madr at sia ok skoruligr. þrandr fęr honum kuonfang þar j eyiunum hinnar bezstu bondadottur. ok þa sagde þrandr at þeir munde skipta eyium j helminga til ualldz ok stiornar. ok skal Özsorr hafva þann helming sem fadir hans hafde att en þrandr þann helming er þeir brædr Brestir ok Bæinir hôfdu att. þrandr sagde ok Ozsure at honum þiki þat makligazst at hann taki fe þau ôll land ok lausafe er þeir brædr hofdu att ok hafui þat j fôdur bætr. Ferr þat nu allt sua sem þrandr lagdi rad til. atti Ozsorr nu .ij. bu edr .iij. æitt at Hôfui(!) a fôdurleifd sinne j Sudrey annat j Skufey .iij. j Dimun a fôdrleifdum þeirra Sigmundar ok þoris. Frett hôfdu þeir Færeyingar til

Sigmundar at hann er frægr madr ok hôfdu vidbunat mikinn. Ozorr let gera virke vm bæinn j Skufey ok var þar læingzstum. Skufey er sua hattat at hon er suo bra(u)tt at þar er hitt bezsta uige. er þar ein uppganga. ok sua segia þeir at æigi mun eyin sott verda ef firir eru .xx. kallar edr .xxx. at alldri komi sua margr til at sott verde. Ozsorr for mille bua sinna med .xx. menn. en heima uoru med honum jafnan .xxx. manna med verkmonnum. eingi madr var jafnrikr j Færeyium þegar þrand leit(!). Silfr þat hit mykla er þrandr fek a Haleyre gek alldri a grunn. ok var hann audgazstr allra ok stiornnade nu ôllu æinn j Færeyium þuiat þeir Ozsorr voru æigi jafnslægir.

## Fra Hakoni jarli ok Sigmundi.

114. þat er nu at segia fra Sigmundi at hann talade vid Hakon jall at hann uill letta þessum hernade ok uill læita vt til Færeyia. kuetzst æigi læingr uilea heyra þat at hann hefnde eigi fôdur sins ok honum se þui brigslat. ok bæidir jall efla sig til þessa ok gefua sier rad til huersu hann skal til hatta. Hakon suarar ok segir at hafit er torsottligt til eyianna ok brim mikit ok þangat ma æigi langskipum hallda. ok skal ek lata gera þer knorru .ij. ok menn fa til med þer sua at okkr þiki uel skipat. Sigmundr þakkar honum sinn velgerning. Er nu buin ferd hans vm uetrinn ok skip þessi algeor vm uorit ok menn til fengnir. Haralldr kom til motz vid hann vm vorit ok redzst til ferdar med honum. ok er hann er miog buinn þa mællti Hakon jall. þann skal vt leida at madr vill at aptr komi. Gek jall vt med Sigmundi. þa mællti Hakon. huat segir þu mer til þess huern hefir þu atrunat. Sigmundr suarar. ek trui a matt minn ok megin. Jall suarar. ekki ma sua vera segir hann. ok verdr þu þangat traustz at leita er ek hefui allan atrunat a þar sem er þorgerdr Hôrdabrudr. skulum vit nu fara at finna hana ok læita þer þangat heilla. Sigmundr bad hann firir sea. ok nu ganga þeir til skogar akbraut æina ok afstig litinn j skoginn. ok verdr þar riodr firir þeim ok þar stendr hus ok skijdgardr vm. þat hus var hardla fagurt ok gulle ok silfri var rent j skurdina. jnn ganga þeir j husit Hakon ok Sigmundr ok fair menn med þeim. þar var fiolde goda. glergluggar voru margir a husinu. sua at huergi bar skugga a. Kona var þar jnnar (j) husit vm þuert ok var hon uegliga buin. jall kastade ser nidr firir fætr henni ok la læingi. ok sidan stendr hann upp ok segir Sigmundi at þeir skulu færa henni fornn nokkura ok koma silfri þui a stolinn firir hana. en þat skulum vit at marki hafua segir Hakon huort hon uill þiggia at ek villde at hon leti lausan hring þann er hon hefir a hendi ser.

allu Sigmundr af þeim hring heillir at taka. En nu tekr jall til hringsins ok þikir Sigmundi hon beygia at hnefann ok nadi jall æigi hringnum. jall kastar ser nidr j annan tima firir hana. ok þat finnr Sigmundr at jall tarazst ok stendr upp eftir þat ok tekr til hringsins ok [71] er þa lauss. ok færr jall Sigmundi hringinn ok mællti sua at þessum hring skyllde Sigmundr æigi loga. ok þui het hann. Skilia nu vid sua buit ok ferr Sigmundr til skipa sinna. ok er sua sagt at fimtigir manna voru a huoru skipinu. letu nu j haf ok gaf þeim uel byri þar til er þeir hǫfdu fugl af eyium ok helldu samflota. Haralldr jarnnhauss var a skipi med Sigmundi en þorir styrde odru skipe. Nu rak a storm firir þeim ok skilduzst þa skipin ok hafua nu rekit mikit sua at dęgrum skiptir.

## Sigmundr hitti þraand.

115. Nv er at segia fra þeim Sigmundi at byrr kemr a firir þeim ok sigla nu at eyiunne. ok sia þa ad þeir eru komnir austan at eyium. ok eru þeir menn a med Sigmundi at kenna landzleg ok eru þeir miog komnir at Austrey. Sigmundr sagdi at hann munde þat hellzt kiosa at fa ualld a þrandi. Ok er þa berr at eyiunne kemr a mot þeim bæde vindr ok stormr sua at ekki er nalęgt vm at þeir næde eyiunne. fa tekit j Suiney med þui at menn voru kænir ok lidgodir. koma þar j nætrellding ok hlaupa upp þegar til beiarins .xl. manna en .x. gættu skips. þeir taka bæinn ok briota upp bæinn taka Biarna bonda j rekkiu sinne ok leida hann vt. Biarnne spyrr huerr foringe uæri þeirrar ferdar. Sigmundr sagde til sin. þa muntu grimr þeim at þer synde ekki nema illt a þeim fundi er fadir þinn var drepinn. en æigi mun ek dylia þess at ek var þar. edr mantu nokkut til huat ek lagde til vm mal þitt þa er þat var mællt at þu mundir drepinn vera ok þit þorir frendi þinn. en ek sagde sua at ykkr skyllde æigi helldr drepa en mig. Man ek vist sagde Sigmundr. Nærr skal mer þat ǫmbuna sagde Biarni. Nu sagde Sigmundr. þu skalt hafua grid en ek vil æinn rada ǫdru. Sua skal vist sagde Biarnne. þu skalt fara med oss sagde Sigmundr til Austreyiar. þangat kemzst þu æigi helldr j himinenn upp sagde Biarni at þessi uedrstǫdu. þa skaltu fara til Skufeyiar ef Ǫzsorr er heima. þu skalt þui rada segir Biarnni ok þar ætla ek Ozsor vera. Adra nott fara þeir til Skufeyiar ok koma enn j nętrellding vid eyna. gefr Sigmundi sua timasamliga at ǫngir menn voru a verde j æinstiginu þar a Skufeyiu. þeir ganga upp þegar (ok) fimtigir manna med þeim er Biarnne fek þeim. koma at virkinu. ok er(u) þeir Ozsorr þa komnir upp a uirkit ok spyr Ozsorr huerir þeir menn eru er þar eru komnir. Sigmundr sagde til

sin. þu munt þikiazst æiga hingat eyrende til uor. uil ek bioda þer sættir sagde Ozsorr. at hinir bezstu menn j Færeyium dǫmi vm mal okkr. Ekki mun af sættum okkrum verda sagde Sigmundr nema ek rade æinn. Æigi mun ek at þui sættazst segir Ozsorr at selia þer sialfdǫme. ueit ek ekki þann manna mun okkarnn ok malaferlla mun at ek þurfui þess. Sigmundr suarar ok sagde sinum monnum. at þeir skulu sækia at virkinu gletting þann. en ek mun leita mer rads huat er ek tek til. Haralldr jarnnhaus uar hardr (j) tillogum ok latti allra setta. Ozsorr hafde .xxx. manna j virkinu ok var virkit torsott. Ozsorr atte son er Læifr het ok var þa ungt barnn. Nu sækia menn Sigmundar at virkinu en hinir veria. Sigmundr gengr hia virkinu ok litr a. hann var sua buinn at hann hafdi hialm a hofde ok gyrdr suerde. ǫx j hendi silfrrekin ok snaghyrnnd ok hit bestzta uopnn ok uafit skaftit. hann var j raudum kyrtle ok brynstakkr lettr vm vtan. ok var þat mal vina ok vvina at æigi hefde slikr madr komit j Færeyiar sem hann var. Ok Sigmundr ser j æinum stad at virkisueggrinn var hruninn ok var þar nokkuru aud-uelldra en annarstadar. Sigmundr opar fra virkinu ok rennr at skeid ok sua langt upp j at hann færr krækt ǫxinne a virkisuegginn. ok þa las hann sig skiott upp eftir ǫxarskaftinu. ok þui næst kemr hann upp a virkit. Madr einn kom skiott a mot honum ok hǫggr til hans med suerdi. Sigmundr lystr af ser hoggit med ǫxinne ok leggr skiott med ǫxarhyrnnunne sua at ǫxin stendr a kafui j fange honum. ok er sa skiott daudr. þetta ser Ozsorr skiott ok hleypr j mot Sigmundi ok hoggr til hans. en Sigmundr lystr enn af ser hǫggit en hǫggr til Ǫzsorar ǫxinne ok tekr af honum hondina hǫgre ok fellr nidr suerdit. þa hoggr Sigmundr annat sinn til Ozsorar j fangit sua at ǫxin gek a hol ok fell Ǫzsorr þa. Drifua menn at Sigmundi. en hann stokkr ut af uirkisuegginum ofugr ok kemr standande nidr. Nu styrma þeir yfir Ozsure þar til er hann er daudr. Nu segir Sigmundr þeim monnum er eftir uoru j uirkinu at .ij. eru kostir firir hondum. at hann mun sitia þeim mat j virkinu edr brenna. ella gangi þeir til sætta ok lati hann æinn rada. þeir selia honum nu sealfdǫmi ok gefazst upp. þat er at segia fra þori at hann berr at Sudrey ok kemr nu til motz vid Sigmund er þessi vmskipti eru adr ordin. Nu fara ord mille þeirra Sigmundar ok þrandar til sættar ok [72] verdr gridum a komit ok fundr stefnndr med þeim j Straumsey j þorshǫfnn. þar er þingstǫd þeirra var Færeyinga. þar koma þeir Sigmundr ok þrandr ok fiolmenni mikit ok er þrandr hinn katazsti. er nu talat vm sættir. sagde þrandr at hann var vsæmiligr a þeim funde er fadir þinn var drepinn Sigmundr frende

sagde þrandr. uil ek unna þer þeirra sętta er þer væri mest sęmd at ok þu mættir bezst vid vna. uil ek at þu georir okkar j millum allar sættir. þat uil ek æigi sagde Sigmundr. uil ek at geri Hakon jall allar sættir. ella se vit vsattir ok ætla ek þat makligra. en vit skulu(m) fara badir a fund fund Hakonar jalls ef vit sættumzst. þess er ek fusazstr frendi sagdi þrandr at þu dęmir. ok uil ek þat til skilia at ek hafui landzuist mina ok manna forrad þat er ek a. Eingi uerdr sættin segir Sigmundr nema su at ek byd. Ok er þrandr sa at annar mun hardare þa sættazst þeir at þessu. ok skulu fara badir til Noregs at sumri. Skip þetta annat ferr til Noregs vm haustit ok mart manna a er Sigmundi hafde vt fylgt. Er Sigmundr j Skufey vm uetrinn ok þorir med honum frende hans ok Haralldr jarnhaus ok mart manna med þeim. hafde Sigmundr rausn mykla ok atfaung mikil j bu sitt. Nu lidr af uetrinn ok byrr Sigmundr skip sitt. þrandr byrr byrding æinn er hann atte. vita nu huorir til annarra. Siglir Sigmundr þegar er hann er buinn. er þar j ferd med honum þorir ok Haralldr jarnhaus ok nærr .xx. manna a skipe. þeir taka Noreg vid Sunnmæri. fretta til Hakonar jalls at hann er æigi langt þadan ok finna hann bradliga. Hakon jall fagnar uel Sigmunde ok hans felǫgum. Sigmundr segir honum vm sęttir þeirra þrandar. Jall suarar. æigi hafui þit ordit jafnnslægir þit þrandr. þǫtti mer ugguist at hann kemi skiott a minn fund. Lidr a sumarit ok kemr þrandr æigi. koma nu skip af Færeyium ok sǫgdu at þrandr hefdi ordit aftrreka ok lest sua skip hans at æigi væri fært.

## Giord Hakonar jarls a milli Sigmundar ok þraandar.

116. Nv segir Sigmundr jalli at hann vill at hann luki upp gerd med þeim þrandi þo at hann se æigi kominn. Jall sagde at sua skal vera. þar geri ek manngiolld tuenn firir huornn þeirra brędra. hinu þrid(i)u firir fiorrad vid ykkr er þrandr uillde at þit uærut(!) drepnir þa er hann let drepa fedr ykkra. hinu fiordu manngiolld skulu koma firir þat er þrandr selldi ykkr mansali. en þann fiordung er þu att j mannaforęde j Færeyium þar skal af taka huornntueggia hlut þrandar ok arfua Ozsorar sua at þin eignn skal nu uera helmingr eyianna. en helmingr skal falla j minn gard firir þat er Hafgrimr ok þrandr drapu hirdmenn mina Bresti ok Beine. Hafgrimr skal vera ugilldr firir uig Brestis ok atfor vid saklausa menn. Ozsor skal æigi fe bæta firir þann viafnnat er hann settizst j eignir þinar ok var þar drepinn. en þu skalt skipta febotum med ykkr þori frenda þinum sem þer likar. þrandr hafui landzuist sina ef hann helldr sęttir þessar. eyiar allar

skaltu hafua j len af mer segir jall ok giallda mer skatta af minum hluta. Sigmundr þakkade jalli geord þessa ok var med honum vm uetrinn. At vori ferr hann vt til Færeyia ok med honum þorir frendi hans. en Haralldr jarnnhaus var þa eftir. Sigmundi ferst uel ok kemr til Færeyia ok stefnir þing vid þrand j Straumsey j þorshofnn. kemr þrandr þar ok mart manna. Sigmundr sagde at þrandr helldi enn litt sættina ok segir nu upp geordina jalls. bidr hann nu gera annathuort at hallda sęttina edr riufua. þrandr bidr Sigmund gera ok kuetzst þui bezst vna at hann yrde sem mestr madr af. Sigmundr kuat nu ekki gera at huika vm þetta. bad hann skiott gera annat(huort) jatta edr neita. kuetzst enn æigi sidr kiosa at þeir væri vsattir. þrandr keori helldr at hallda sætt ok bad ser fresta a vm giolld fiarins. en jall hafde akuedit at þetta fe skillde hafua golldizst a einum missarum. en vid bæn manna þa let Sigmundr þat gangazst at þetta fe skyllde gialldazst a .iij. arum. þrandr sagde at honum þôtti alluel at Sigmundr frendi hans færi nu med mannaforrad jafnnleingi sem hann hefdi adr med farit. ok er þat nu jafnnadr at sua se. Sigmundr sagde at hann þyrfti ekki at fara med gyllingar slikar. sagde at hann munde alldri a taka. skilia nu vid þetta at menn uoru sattir allir. þrandr baud Leifui Özsorar syni nu til fostrs heim j Gautu. ok þar ox hann upp. Sigmundr bio skip sitt vm sumarit til Noregs. ok þa gelldr þrandr upp æinn þridiung fiarins ok stankade þo miog vid. Sigmundr heimti saman skatta Hakonar jalls adr hann siglde af eyiunum. Sigmunde ferst uel ok kemr vid Noreg skipi sinu. ok bratt ferr hann a fund Hakonar jalls ok færir honum skatta sina. jall fagnar uel Sigmundi ok þeim þore fręndum ok ollum forunautum þeirra. eru nu med jalli vm uetrinn.

## Fra Sigmundi Brestissyni. capitulum.

117. þat sumar er Sigmundr hafde georzst hirdmadr Hakonar jalls adr vm vetrinn at [73] jolum for hann med jalli inn til Frostaþings. ok þa flutti Sigmundr mal þorkels mags sins at Hakon jarl georde hann syknann ok gæfui honum landzvist sina at frealsu. ok Hakon jall jattade Sigmundi þui skiott. Let jarl þa senda eftir þorkeli ok lide hans. ok var þorkell þann vetr med Hakoni jarli ok kona hans ok þuridr dottir þeirra. hon hafde fętt meybarnn þat sama sumar er þeir Sigmundr hôfdu j brott farit ok het su mær þora. Vm uorit eftir fek Hakon jarl þorkeli þurrafrost syslu vt j Orkadal. ok setti þorkell þar bu saman ok var þar alla stund þar til er nu er komit sôgunne. Nu ridr Sigmundr vt j Orkadal ok finnr þorkel ok er vit honum vel tekit ok

nu hefr Sigmundr bonord sitt ok bidr þuridar. þorkell tekr þessu vel ok þikir ser ok dottur sinne ok ollum þeim læitat j þessu sæmdar ok virdingar. drekkr Sigmundr nu brudhlaup sitt a Hlǫdum med Hakoni jarli ok lætr jarl þa uæizslu standa .vij. nætr. Geordizst þa þorkell þurrafrost hirdmadr Hakonar jarls ok hinn kærazste vinr. fara nu heim eftir þetta. En Sigmundr var (med) jarli ok kona hans þar til er hann ferr vt til Færeyia vm haustit ok þuridr kona hans med honum ok þora dottir hans. Er nu kyrt j eyiunum vm vetrinn. At uore fara menn til þings j Straumsey. kemr þar fiolment. Sigmundr ok suæit manna med honum. þrandr kemr þar ok hæimtir Sigmundr fe sitt at þrandi þridiung annan. en kuezst þo allt eiga at hafua nema hann georde firir bæn manna. þrandr suarar. sua er hattat frende sagde hann at sa madr er (er) Leifr hæitir ok er Ǫzsurar son ok baud ek honum heim er vid uorum sattir. nu uil ek bidia þig frendi sagde þrandr at þu vnnir Leifui nǫkkurra sæmda eftir fǫdur sinn Ǫzsur er þu draft. ok mætta ek giallda honum þat fe er þu att hia mer. þat georir ek æigi sagde Sigmundr ok skaltu giallda mer fe mitt. þetta mun þer synazst sannligt segir þrandr. Sigmundr suarar. giallt þu fet sagde hann annarr mun uerri. þrandr græidde nu helming af þeim þridiunge ok kuezst þa æigi vidlatinn at greida þa mæira. Sigmundr gek þa at þrandi ok hafde ǫxi j hende þa hina silfrreknnu er hann vo Ǫzsur med. hann setti ǫxarhyrnuna firir briost þrandi ok kuetzst mundu þrysta sua at hann kende vlæpiliga nema greidde hann þegar fet. þrandr sagde þa. vandrædamadr ertu segir hann. ok bad mann sinn ganga jnn j bud eftir fesiod er þar la ok vita huart nokkut væri eftir af silfri. Sa for ok retti siodinn at Sigmundi. ok var þa uegit fet ok stodzst þat a endum ok þat er Sigmundr atti. skilia nu vid sua buit. þetta sumar for Sigmundr til Noregs med skatta Hakonar jalls. ok er þar vid honum uel tekit. duelzst nu skamma hrid med jalle ok ferr vt til Færeyia ok sitr þar vm vetrinn. þorir frendi hans er jafnnan med honum. Sigmundr var vinsæll þar j eyiunum. þeir Suineyiar-Biarnne helldu uel sætt sina ok kom Biarnne jafnnan sama a med þeim þrandi ok Sigmundi. ella munde verr farit hafa. Vm varit fara menn til Straumseyiar þings. kemr þar fiolment. heimti Sigmundr fe sitt at þrandi en þrandr bæidir fǫdrbota firir hond Læifs Ozsurarsonar. ok margir menn leggia nu ord til at þeir skuli vel semia. Sigmundr suarar. æigi gelldr þrandr helldr Læifui fet en mer. en firir ord godra manna skal fe þetta standa. en æigi gef ek þat upp ok æigi gelld ek þat sua buit. Ok skilia nu vit þetta ok fara heim af þinge. Sigmundr biozst enn at fara til Noregs

vm sumarit med skatta Hakonar jalls ok verdr sidbuinn. siglir j haf er hann er buinn. þurid kona hans er eftir en þorir frendi hans ferr med honum. Ferst þeim vel koma nordr vid þrandheim sid vm haustit. for Sigmundr þa til Hakonar jalls ok er honum þar vel fagnnat. Sigmundr hefir þa .vij. uetr ok .xx. er þetta var ok var sidan med Hakoni jalli.

---

## Bonord Olafs konungs vid Gydu.

118. Olafr Trygguason siglde vm haustit ór Kolni til Æinglandz. hafde hann med ser or eyiunum Sylingum presta ok adra lærda menn. la hann vid Eingland j hofnn nǒkkurre. ok for hann þa med fride þuiat landit var kristit ok sua hann scalfr. en þar vm landit var þingbod nǒkkut at allir menn skylldu til þings koma. En er þingit var sett kom þar æin drottning er het Gyda systir Olafs kuorans(!) er var konungr a Jrlandi at Dyflinne. hon hafde gift verit æinum jalli a Æinglandi rikum. hann var þa andadr en hon hellt eftir rikinu. en sa madr var j riki hennar er het Alfuine kappi michill ok holmgongumadr. hann hafdi bedit Gydu drottningar. en hon suaradi sua. at hon uillde kior af hafa huernn hon skyllde æiga af þeim monnum er þa voru j hennar riki. ok var firir þa sok þingsins kuatt at Gyda skyllde kiosa ser mann. þar var kominn Alfvine[1] skreyttr hinum bezstum klædum ok margir adrir hofdingiar ok rikismenn vel bunir. Olafr konungr var ok þar kominn ok hafde vosklæde sin ok lodkapu yzsta ok steypt hettinum. stod hann vt j fra odrum monnum med sina suæit. Gyda gek ok leit a huernn mann þann er henni þotti mannz mot at. en er hon kom þar er Olafr konungr var læit hon a hann ǒllu megin ok lyfte hon kapuhetti hans ok sa j andlit honum ok mællti. huerr er þessi madr. Ek hæiti Oli er ek vtlendr madr. Ef þu uill mig eiga þa kys ek þig mer til bonda. Hann suarar. æigi uil ek þui næita. huert er nafnn þitt ætt edr edli. Ek er sagde hon konungs dottir af Jrlande. var ek gift hingat til landz jalli þeim er her red firir. nu hefui ek styrt rikinu sidan hann andadizst. menn hafa [74] bedit min ok uillda ek ǒngum giptazst en ek heiti Gyda. Hon var vng ok frid synum. toludu þau sidan tal sitt ok sǒmdu þetta a mille sin at Olafr festi Gydu. en Alfuina æirir illa. J þann tima var sa sidr a Æinglande ef .ij. menn keptu vm æinn

[1]) Alfvere *Cd.*

hlut at þeir skylldu leggia holmgongu. ok skyllde sa hafa sinn hlut er sigr fengi. firir þui baud Alfvini holmgongu Olafi Trygguasyni um þetta mal. logdu þeir þa stefnulag med ser til bardaga sua at .xij. skylldu vera huorir. En er þeir biugguzst til holmgongu fek Olafr sinum monnum þeim er beriazst skylldu ǫxar ok bad þa breyta sem hann geordi firir þa er þeir kæmi til motz vid bersserkina. hafde hann ok sialfr mykla ǫxi. En er þeir kuomu saman j akuednum holmgongustad uillde Alfvine hoggua til Olafs. en hann slo vid ǫxinne ok hraut suerdit or hendi honum. ok þegar slo Olafr hann annat hǫgg sua Alfvine la j suima. sidan batt Olafr hann ramliga. foru þeir suo vid alla menn Alfvina at[1] þeir voru bundnir ok læiddir til herbergia. Olafr let sidan Alfvina fara j brott af Æinglande ok bad hann alldri aftr koma. en Olafr tok allar æignir hennar[2]. þui næst georde hann brudkaup sitt til Gydu. þau attu son saman het sa Tryggui ok var hinn vænligzsti.

### Einvigi þangbrandz vid konungs mann.

119. Nv er þar til mals at taka er þeir Olafr ok þangbrandr skildu met vinattu sem fyrr er ritat. en med fe þui er konungr gaf þangbrande firir skiolldinn keyfti hann mey eina vnga ok fagra jrska at kyne. for þa heim j Brimaborg med Alberto byskupi ok hafde med ser meyna. Uillde æinn gisle keisarans taka meyna irsku en þangbrandr uillde æigi rænazst lata. gisle var hinn meste kappe ok holmgongumadr mikill. baud hann þangbrande til æinuigis. þangbrandr jatlar. þeir bordusst. fek þangbrandr sigr ok fellde gisla ok vard hann flotte af Saxlande. for þangbrandr þa til Æinglandz a fund Olafs konungs. konungr tok uel vid honum ok let vigia hann til hirdprestz ser ok var hann med honum sidan.

### Her þiggr Olafr konungr hundinn Viga at karli.

120. þa er Olafr konungr hafde fæingit Gydu drottningar dualdizst hann a Æinglande en stundum a Jrlande. þa er Olafr konungr var j Einglande bar sua til æinn tima at hann var staddr j herfǫr nǫkkurre med myklu skipalide. en er menn þurftu strandhoggua gengu menn a land upp ok raku ofan fiolda busmala. þa kom eptir honum bondi æinn. hann bad Olaf gefua ser .ij. kyr er hann atti þar med hiordinne er þeir raku. Olafr konungr suarar. haf þu kyr þinar madr. ef þu kennir þær ok getr fra skilit nautaflokkinum sua at þu

[1]) en er *Cd.* [2]) *r.* hans

duelir æigi ferd uora. en ek hygg at þu ok æinge annar fai þat læikit med sua mǫrg hundrut nauta sem her eru nu ok ver rekum. Bondi hafde þar mikinn hiardhund. hann visade hundinum j nautaflokkana er saman voru reknir. hundrinn hliop um alla nautaflokkana. hann kende skiott fra kyrnar ok rak j burt jafnnmorg naut sem bondi sagde at hann atte þar von. þau naut voru æinnueg maurkut. þottuz þeir þadan af vita at hundrinn munde hafua rett kent. þa mællti konungr. furdu uitr er hundr þinn bonde. villtu gefua mer hundinn. Hann suarar. giarna uil ek gefa þer hundinn. Konungr gaf honum þegar j stad gullhring mikinn ok het honum þar met sinne vinattu. Sa hundr het Vige ok var allra hunda spakazstr ok uitrazstr. atti Olafr þann hund leingi sidan.

## Hernadr Haralldz konungs Gormssunar.

121. Haralldr Gormsson Danakonungr spurde at Hakon jall hafnnade kristni en heriade vijda a land hans sem fyrr var sagt. þa baud Haralldr konungr her vt ok for nordr j Noreg ok heriade huar sem hann kom. Sua segizst at hann hefde æigi færre skip en .xij. hundrut ok ætlade Haralldr konungr at heria a Jslendinga. en bok Noregs konunga segir þar sǫk til. radgiafar konungs lǫttu Jslandzfarar. ok haf var lang(t) ok herrinn vard af þui dreiſt at fara en æigi med samfloti en folk hardfeingt j landinu. lattizst konungr þa þeirrar ferdar. siglde hann þa hæim til Danmerkr. En Hakon jall let byggia landit þat sem Haralldr konungr hafde ræna latit. red hann þa æinn ǫllum Noregi ok gallt alldri sidan Danakonungi skatt.

## Brefagerd til Gunnhilldar.

122. Nv er fra þui at segia er fyrr vard. þa er vinskapr þeirra Danakonungs ok Hakonar jalls var sem kærazstr eftir drap Haralldz grafelldz ok Gullharalldz ok Hakon hellt Noreg af Haralldi konungi Gormssyni. þa hafa sua skrifuat sumir frodir menn. at med þeim Hakoni jalli ok Gunnhilldi konungamodur væri stundum kær vinatta en annat skeid beittuzst þau brǫgdum ok uillde huort ǫdru firir koma. En med þui at Hakon uillde komazst j Noreg at rada þar æinn en j annan stad styrkte Gunnhilldr sonu sina huat er hon matte þa sem lifdu ok baru konunganǫfnn Gudrǫd ok Ragnfred. en Hakon uillde þau fyst af rada en þo Gunnhillde fyst. bio[1] hann vm ueilrǫde vid hana med þeim hætti at hann georde ordsendingar med vinattumalum Haralldi konungi ok

[1]) bia *Cd.*

bad hann skrifa bref til Gunnhilldar a þann hatt sem konungr vile fa hennar ok at hon skuli hans drottning vera med honum rikia ok rada [75] ollu þui er hon uill. Sendimenn Hakonar kuomu til Haralldz konungs ok baru firir hann þau eyrendi er þeir foru med. Var þetta efnni sua upp hafuit at huorrtueggi samþykti konungr ok jall ok vissi uelina þa er j var. Sidan sende Haralldr konungr Gunnhilldi bref sua skrifat sem Hakon jall hafdi firir mællt. at konungr bidr hennar ser til eiginkonu. ok segir hann sæla vera Danmork ef hon næde at hafua slika drottning yfir ser. sua vitra ok vel fallna sem Gunnhilldr var. en ef hon uill nokkut alita þetta mal þa bidr konungr hana sem skiotazst þar koma aa sinn fund. ok at henni þar komande sagdizst hann mundu sitt brudkaup til hennar gera med allri virdingu sem hann hefir nægzst faung a j sinu riki. þessi bref erv Gunnhilldi borin ok er hon heyrde likade henni hardla vel þessi radagerd. ok þui uæikzst hon vid uegsamliga ok ferr til Danmerkr med fridu foruneyti. ok er Haralldr konungr frettir hennar þarkuomu sende hann til hennar sina þræla ok gesti. þrifu þeir Gunnhilldi med myklum þys ok haduligu harke ok drektu þeirre daligu drottningu j æitt ferlliga diuft fen. for þar sem von er at illth upphaf fek illan enda. þuiat Gunnhilldr hafde grimliga sem fyr var sagt Finnana suikit sina mæistara. Lyktazst þar nu frasognn grimlæiks ok glæpa Gunnhilldar konungamodr. ok ma nu æigi hennar illzska læingr vm spilla edr yfirganga þessa sǫgu.

## Atburdir ok æuentyr fra Olafi konungi ok Hakoni jarli.

Þessir atburdir sem nu eru næst ritadir rydia til rausnar ok rikis sigurs ok sæmdar þeim agæta konungi Olafi Trygguasyni er sia saga er mest af sǫgd en Hakoni jalli til hatrs ok hermdar ok allzskonar vuinsælda er honum aflade sitt lastafullt lif ok suiksamligt framferde.

---

## Fæddr Palnir.

123. Madr er nefnndr Toki hann var j Danmǫrku j herade þui er a Fioni heitir. þoruðr er nefnnd kona hans. hann hefir att .iij. sonu barnna er nefndir eru til sogunnar. Aki hefir hæitit hinn ellzsti son hans en Palnir sa er þar er næst at alldri en hinn yngsti het Fiolnir. hann var fridluson. Toki fadir þeirra hefir þa verit gamall at alldri er

þetta var. ok æitthuert haust vm uetrnatta skæid þa tok hann sott ok andadizst. Æigi lidr langar stundir adr þoruor tekr sott kona Toka ok andadizst ok berr þa fiarhluti alla vndir þa Aka ok Palna(!) þuiat þeir attu arf at taka eftir fǫdr sinn ok modr. ok er sua var komit þa spurde Fiolnir brædr sina hvat er þeir ætlade honum af arfuinum. þeir suorudu ok kuoduzst honum midla mundu þridiung af lausafe ǫllu en ekki af londum. þottuzst þeir þo gera hluta hans godann. en hann mællti til þridiungs allz fiar sua sem hann væri arfgengr. ok er fra honum sua sagt at hann væri madr vitr ok radugr ok illgiarnn. En er þeir brædr Fiolnis kuodu hann æigi mundu hafua mæira fe en þeir hefde bodit honum likar Fiolni þat illa ok ferr a brott vid sua buit med þenna fearhlut ok ferr til Haralldz konungs Gormssonar ok georizst hans hirdmadr ok radunautr. ok er þat frasagt at hann rægde þa brædr sina vid konunginn Haralld. Æinge madr uar sa j Danmork at mæiri væri en Aki Tokason sa er æigi hafde tignar(nafn). hann la huert sumar j hernade ok hafde jafnnan sigr þar sem hann hellt til. Fiolnir segir sua Haralldi konungi at hann munde æigi þikkia æinn konungr vera medan Aki brodir hans væri uppi. ok sua gat hann vm talat firir konunginum at æigi geordizst vhætt milli þeirra Aka ok Haralldz konungs. En Aki atti fridland ok gott vinfæinge vid Ottar jall af Gautlandi. ok for hann þangat æitthuert sinn at hæimbode til Ottars jalls ok hafdi .ij. skip. annat var dreki godr en annat snekkia. hann hafdi hundrat manna ok voru allir uel bunir at klædum ok uopnum. Ekki er getit at þar geordizst nætt til tidenda vm farar þeirra. ok fek Aki godar giafir af jalli adr þeir skilduzst ok for til Danmerkr. þat er sagt fra Haralldi konungi er hann fregnnade at Aki var farinn til bodsins let hann setia fram skip ok let þar a ganga .v. hundrut manna ok bat þa fara ok sæta þui er Aki færi aftr fra bodinu ok taka hann af lifue ok allt hans foruneyti ef sua uilldi til takazst. þeir foru sidan ok helldu niosnir til vm farir þeirra Aka. ok var þat hægt þuiat hann uisse ser æinkis otta uonir. Ok er nu sua fra sagt þa er Aki kemr vid Sialand j Danmǫrk. ok hafua tiolld a landi ok ugga þa ekki at ser. en þar komu þeir konungs menn at þeim a vvart med her þann er adr var getit ok letu þegar drifua uopnn a þa ok felldu a þa tiolldin. en þeir voru ekki vidbunir. lykr þar sua med þeim at Aki fellr þar ok allt lid hans. Ok eftir þat fara þeir aftr a fund Haralldz konungs ok segia honum þat er vnnit var. at Aki var fallinn ok allt lid hans. ok let konungr uel yfir þui ok letz nu mundu vera mega æinn konungr j Danmork. þeir konungsmenn er drapu Aka toku vopnn þeirra ǫll ok fearhlut ok hofdu med ser [75] at her-

fange ok færdu þat fe allt Haralldi konungi ok þar med skip þau er Aki hafdi att drekann ok snekkiuna. ok leggr konungr nu sina eign a allan þenna fearhlut.

### Kuongaz Palnir ok fær dottur Ottars jarls.

124. þat er sagt at Fiolnir brodir Aka þotti nu uel vm stillt ok þottizst nu golldit hafua honum þat er hann hafde æigi fenu nad sem hann kallade til af þeim brædrum sinum. Ok nu spyriazst uonu bradara þessi tidende a Fion ok spyrr Palnir brodir hans ok þikir honum sua mikit at hann legzst j rekkiu af. ok var þat mest firir þui at honum þotti osynar hefnndirnar vid þann sem vm var at eiga er konungrinn var sialfr. Sa madr er nefnndr til sögunnar er Sigurdr het. hann var fostbrodir þeirra brædra uitr madr ok audigr at fe. Palnir læitade nu rada undir hann huernn ueg hann skylldi hellzst med fara. Sigurdr suarar. kuezst þat mundu til leggia med Palni at hann munde bidia honum konu þeirrar er þer se radabot at. Palnir spyrr huer su kona væri. Sigurdr suarar. ek mun fara til Gautlandz ok bidia dottur Ottars jalls til handa þer er Jngibiorg hæitir. Palnir suarar. þat uggi ek segir hann at þenna kost muna ek æigi fa. en uist mundi þetta nænst til bota of min mæin ef ek fengi þenna kost. Nu slitr þessa rædu ok byzst Sigurdr hæiman ok hefir eitt skip ok a .lx. manna ok ferr sidan til Gautlandz ok tekr Ottarr jall agæta uel vid honum. Sigurdr berr upp eyrende sin ok bidr dottur jalls til handa Palni Tokasyni ok kuedr hann huergi oframar en Aka brodur hans. segir hann æigi skorta fearhlut a Fioni. en sagde bana Palnis vid mundu liggia firir harms sökum. kuat þetta mundu hellzst til bota vm hans harm ef hann fengi þenna kost. Jall suarar þessu at hofui uel ok kuetzst mundu lita a slik mal en rasa æigi firir rad fram. ok kuat Palni vera likligr til at vera vaskr madr sakir Aka vinar mins. En æigi kunnu ver at segia huersu læinge þeir ræddu þetta mal. en þar kemr at Ottarr jall hæitr konunne. Sigurdr mællti vid jall. nu er sua til fallit herra segir hann. at Palnir mun æigi þikiazst til færr firir vanmætti at sækia hingat uæizsluna til yduar. en hann skortir æigi fe til edr storlynde at gera væizslu þar a Fioni. ok uilium ver af þui bæida at þer sækit þangat ueizsluna med sua marga menn sem þer uilit. ok þessu hæitr jall. Eptir þetta ferr Sigurdr heim ok segir Palni sua skipat sem þa var komit. ok lettizst honum mikit vid þetta ok lætr nu buazst vid uæizslu j mot jalli göfugliga sem tignn þeirra somde. Palnir sparde ok ekki til. skorti ok æigi fong. At nefndum degi kemr Ottarr jall med dottur sina a Fion ok med myklu lide. er

þar nu drukkit uegligt brudhlaup ok þau læidd j æina sæng bæde Palnir ok Jngibiorg. Ok sua er sagt at hon sofnnar bratt er hon kemr j rekkiuna ok dreymir hana. ok er (hon) uaknar þa segir hon Palni drauminn.

## Draumr Jngibiargar.

125. þat dreymde mig segir Jngibiorg at ek þottumzst her staudd vera a þessum bæ sem nu er ek. ek þottumzst uppi æiga uef. þat var linuefr ok var grarr at lit. mer þotti kleadr uefrinn ok var ek at ok vaf ek ok var litit a ofuit. at þui at mer þotti. ok þa er ek slo vefinn þa fell af klearinn æinn af midium uefnum a bak. ok tok ek upp ok sa ek at klearnir voru ekki annat en mannahofut æin. ok er ek hafda upp tekit hofudit þetta er af hafde fallit þottumzst ek kenna þat hôfudit er ek tok upp huert var. Nu spyrr Palnir huert hôfudit væri. Hon kuat þat vera af Haralldi konungi Gormssyni. Betra er þetta dreymt en æigi sagde Palnir. Ok sua þiki mer ok segir hon. Nu sitia þau slika stund at bodinu sem þeim likar. ok eptir þat ferr Ottarr jall heim til Gautlandz med virduligum giofum. En samfarar þeirra Palnis voru godar. Ok er þau hôfdu þa stund saman verit at þat matti uel vera eiga þau son. þeim suæini er nafnn gefit ok kalladr Palnatoki. hann uex þar upp heima a Fioni ok var snemmendis uitr ok uinsæll. ôngum manni var hann jafnlikr j sinne lytzsku sem Aka fôdrbrodur sinum. Ok er skammar stundir lida fra þui er Palnatoki var nærr roskinn tekr Palnir fadir hans sott ok andazst. ok er hann er daudr tekr Palnir vid ôllum fearhlut ok riki eptir fôdr sinn. fer at rada med modr sinne. þat er fra sagt at hann liggr j hernade a sumrum ok heriar vida a lônd þegar hann ma firir alldrs sokum. Eitthuert sumar er þess vid getit at hann liggr enn j uikingu ok hefir þa .xij. skip þau er uel uoru skiput.

## Palnatoki fær Olofar.

126. J þenna tima red firir Bretlande jall sa er Stefnir het. hann atti ser dottur þa er Olof het. hon var uitr kona ok vinsæl ok var sa kostr bezstr j ollu Bretlande. Ok þetta sumar helldr Palnatoki til Bretlandz. ok ætlar at heria j riki Stefnis jalls. Ok er jall spurde þetta ok Olof dottir hans þa taka þau þat rad med vitra manna vmradum. at jall sendir Biornn hinn bretzska. hann var fostbrodir jalls ok var æinn manna mest j radagerdum med honum. hann for a fund Palnatoka at bioda honum til uæizslu ok mikillar uegsemdar ok ætti hann þar frid-

land ok heriade [78] æigi. ok þetta þekkizst Palnatoki ok allt lid hans ok fara til uæitzslu. Ok æigi hefir þesse[1] veitzsla læinge stadit adr en hann bidr dottur jalls ser til handa. ok verdr þat autsott ok er honum heitit konunne ok þa fôstnut. ok sitr þesse kona j festum ekki alleinge þuiat nu at þesse uæizslu drekkr Palnatoki brudhlaup til hennar. ok þar var honum gefit jalls nafnn ok halft riki Stefnis jalls ef hann uillde þar stadfestaz. en hann atti at taka arf ef(tir) Stefni jall þuiat Olof uar erfinge hans. Palnatoki er þar a Bretlande þat sem eftir var sumarsins ok sua vm uetrinn. en vm uorit lysir hann þui at hann mun fara hæim til Danmerkr. Ok adr hann færi burt vm sumarit þa mællti hann vid Biornn hinn bretzska. nu uil ek segir hann at þu Biornn ser her eftir med Stefni magi minum ok hafir landrat med honum firir mina hond þuiat hann tekr nu at elldazst. en æigi oruænt at ek koma æigi allbratt aftr. en ef þat duelst at ek koma aftr enda misse jalls uit þa uil ek at þu varduæitir til þess er ek kemr til. Ok eftir þetta ferr Palnatoki brott ok Olof kona hans med honum. ok ferst honum uel ok kemr heim j Danmork ok sitr nu heima vm kyrt. ok þikir hann nu æinn mestr madr j Danmork firir ser ok bezst at vite buinn þegar konunginn lidr Haralld Gormsson.

Fæddr Sueinn Saumæsu sun. capitulum.

127. þat er nu sagt at konungr ferr at ueizslum. Palnatoki georir ueizslu moti konungi ok sidan bydr hann konungi til uæitzslunnar. konungr þektizst þat ok er þar læinge at uæitzslu. Ok þar var kona su firir er Æsa het. hon var kollut Saumæsa ok er hon snaut kona at fe en kunnande uel þat er hon skal geora. Hon uar til þess feingin at þiona konungi medan hann væri a ueitzslunne. ok þat georde hon. ok nu kemr þar at konungr ferr burt af uæitzslunne med virduligum giofum. En vm uetrinn eftir edr vm sumarit finna menn at Saumæsa digrazst ok mundi vera olett. ok ræddi Palnatoki uid hana æina saman ok spurdi huerr ætti med henni. Hon sagde at þar var eingi madr j tigi til nema Haralldr konungr. en þo hefui ek ôngum manni þorat at segia nema þer æinum sagde hon. Palnatoki mællti. þat skal ek þa til leggia vid þig at taka þig af uolade þangat til fyst er þu ert hæill madr ok þinn hagr lettizst. Ok nu lida stundir þar til er hon fædir sueinbarnn. ok er honum nafnn gefit ok kalladr Sueinn Saumæsuson. hann uex þar upp hæima a Fioni med Palnatoka. ok gerde hann sua uel vid sueininn sem hann uæri hans son ok vnne mikit. þar var ok

[1]) þessa *Cd.*

modir hans ok uæ(i)tti Palnatoki henni. Ok er sueinninn er þreuetr at alldri þa berr sua til at Haralldr konungr skyllde þiggia ueitzslu þar a Fioni. ok er konungr kemr til uæizslunnar þa rædir Palnatoki vid Saumæsu. þu skalt segir hann ganga a konungs fund þa er (hann) sitr yfir drykkiubordum ok vertu diarfmællt. þu skalt læida Suein eftir þer ok mæla þessum ordum vid konung. ek læide suein æinn eftir mer ok kalla ek þar ônguan mann annan likligan til at æiga þenna suein vid mer en þig. en huersu sem hann tekr þinu male þa vertu diorf en ek mun stydia nokkut sua þitt mal. Ok nu georir hon sua. gengr nu firir konunginn ok ferr þann ueg med sinu male sem Palnatoki hafdi mællt. Konungr spurde huer þessi kona væri er slik vdemi mællti. Hon sagde til nafnns sins. Konungr mællti. firna diorf kona ertu sagde hann. ok dirf þig æigi at mæla slikt oftar ef þu uillt omeidd vera. Palnatoki mællti þa. þui mun hon þetta mæla herra segir hann at henni mun naudsyn a þikia vera. ok ekki er hon huers dags puta þoat hon se snaud helldr er hon god kona ok hofum ver geort firir þinar sakir at ver hofum skotit skiole yfir hana ok hyggium ver at hon sege satt. Æigi uarde mig segir konungr at þu mundir flyt(i)a þetta mer a hendr. Æigi skal ek þat gera sagde Palnatoki. en sua mun ek sueininum ad duga sem hann se þinn son. Nu fell nidr sia rędа. ok bratt eftir þetta ferr konungr af uæizslunne med ôngum giofum. ok er nu fatt med þeim Palnatoka. þess er getit at Palnatoki a son vid konu sinne ok er hann nefnndr Aki. hann uar þar upp fęddr med fôdr sinum ok voru þeir Sueinn fostbrędr. ok þar fæddizst Sueinn upp þa(r) til er hann var .xv. uetra gamall.

## Sueinn hitti fôdur sinn.

128. Nv er at segia fra þui er Palnatoki sendir Suein a fund fôdrs sins med .xx. menn ok rædr honum þat at hann skal ganga firir fôdr sinn Haralld konung. ok segiazst hans son. huort er honum þikir betr edr uerr. ok bæida at hann gangi vid frendsemi þinne. Ok sua georir Sueinn sem firir hann (var) lagt. ok ekki er nu sagt fra ferdum hans fyrr en hann kemr j hôllina firir konung ok mællti þeim ordum er firir hann voru lôgd. Ok er þui var lokit þa suarar konungr. þat þikkiumzst ek skilia segir hann at æigi mun logit til modernis þins at þui er mer er sagt ok þikir mer sem þu munir vera afglapi einn ok likr modur þinne. þa mællti Sueinn. ef þu uillt æigi ganga vid frændsemi minne þa uil ek bæida þig at þu fair mer .iij. skip or lande ok þar lid med. ok er þat æigi ofmikit tillag þuiat ek væit at

þu ert fadir minn. en Palnatoki fostri minn mun fa mer æigi minna lid ok æigi smęrre skip en þau er þu færr [79] mer. Konungr suarar. þess varir mig segir hann at þu ser þui uel brott kaupande ok komir þu alldri j augsyn mer. Ok þat er sagt at Haralldr konungr færr Sueini .iij. skip ok hundrat manna ok safnar saman æinhleypingum honum til ferdar. Sueinn byzst nu a brott ok a fund fostra sins ok sagde honum huersu farit hafdi med þeim fǫdr hans. Sliks var mer þar at von segir Palnatoki. ok sidan færr Palnatoki Sueini .iij. skip god ok hundrat manna uelbunir(!). Rędr Palnatoki honum rad ok mællti sua. nu muntu reyna at leggiazst j hernat med lide þinu. en þat uil ek rada þer at þu farir æigi læingra a brott en þu herir her j Danmork a riki fǫdur þins þat er honum er nǫkkut sua fiarlęgt. ok vinn þar sligt sem þu matt. far herskillde yfir brenn allt ok bæl sua sem þu matt vid komazst. ok lat sua ganga j allt sumar. en kom til min at vetri ok haf þa her vist. Ok sidan skilia þeir ok ferr j brott Sueinn ok hans menn. ok for suo med ǫllu sem firir hann var lagt. hann georir morg ill verk j riki fǫdr sins. Ok kemr þetta nu til eyrna konungi ok þikir honum lide illa varit er hann hafde honum fæingit ok kuat honum bregda til modur sinnar slik endime sem hann tok til. En er at vetri kom ferr Sueinn a Fion til fostra sins ok hefir fæingit mikit fe vm sumarit. ok er þeir foru þangat þa fengu þeir mikit ofuidri ok storm ok braut skipin ǫll j span þau sem fadir hans hafde gefuit honum ok tyndizst allt fe af þeim skipum. en Sueinn for a fund Palnatoka med þat lid er hann hafde fengit honum ok var med honum vm uetrinn. En er uora tok þa mællti Palnatoki at hann skyllde fara a fund fodur sins ok beida at hann fai þer nu .vj. skip ok þar lid med sua at þav se skiput. ok hygg þu at þi at þu mæl til allz illa þess er þu bæidir. Eftir þetta ferr Sueinn a fund fǫdur sins ok mællti til allz illa sem Palnatoki hafdi mællt. en konungr suarar sua. til illz eins segir hann þotti mer þu hafua þat lid er ek fek þer j fyrra sumar. ok ertu firnna diarfr madr er þu þorir en til lids at mæla vid mig. sua illt sem þu geordir j fyrra sumar a minu riki. Sueinn suarar. æigi mun ek hedan fara fyrr en þu færr mer þat er ek bæide. en ef þu uill æigi fa mer þat er ek bæide þa mun Palnatoki fostri minn fa mer lid ok mun ek þa heria a menn þina sialfs. ok skal ek þa ekki af spara at geora þa allt þat illt er ek ma j þinu riki. Far þu j brott ok haf .vj. skip ok .ij. hundrut manna ok kom alldri j augsyn mer sidan. Nu ferr Sueinn a brott vid sua buit a fund Palnatoka. hann færr honum ok iafnnmǫrg skip ok iafnnmikit lid. ok hefir Sueinn nu .iiij. hundrut manna. Ok er þeir skilduzst

þa mællti Palnatoki at hann skyllde heria j Danmork. ok geor nu þi uerra en fyrr sem þu hefir nu meira lid ok ver æigi firr en j fyrra sumar. gak nu alldregi af bondum þeim en kom til min at hauste. Ok nu skiliazst þeir ok ferr nu Sueinn heiman ok lid hans ok heria nu uida um sumarit bæde um Halland ok Sealand. ok sua er hann nu akafr at hann gengr alldri af hendi þeim. ok sua ma at kueda at[1] naliga heriar hann nu będe nætr ok daga ok hefzst nu alldri ór Danariki vm sumarit. ok þat sumar drepr hann margan mann ok morg hus ok herut brennir hann. þessi tidende spyriazst vida vm landit er vfridr er mikill. en þo lætr hann[2] nu æigi sem hann heyre þott vm se rætt ok lætr fara sem audnar. Ok nu vm haustit ferr Sueinn heim a Fion a fund Palnatoka ok tynir nu óngu j heimforinne ok er med Palnatoka vm uetrinn. Vm uorit er þat sagt at Palnatoki kemr at male vid Suein ok rædr honum rad. nu skaltu fara med óllu lide þinu a fund fódr þins ok ganga firir hann ok mæla sua. at nu leggi hann til vit þig .xij. skip ok óll uel skiput at monnum. en ef hann uill æigi þat þa biod þu honum bardaga þegar j stad med þui lide er þu hefir þar. ok haf alldri grimmare verit j ordum en nu. Sua gerir Sueinn nu sem Palnatoki hafde mællt. Sueinn ferr nu med óllu lide sinu a fund fódur sins ok krefr hann allz þess er Palnatoki hafde firir hann lagt. Ok er hann hafdi þetta mællt þa suarar konungr. þu ert madr sua diarfr sagdi hann at ek væit ónguan þinn maka at þu þorir at koma a minn fund. þuiat þu ert bæde vikingr ok þiofr. ok þat hygg ek at þu ser hinn uesti madr at óllu þui sem þu matt rada. ok æigi þarftu til þess at mæla at ek muna þer lid fa ne ganga vid frendsemi þinne þuiat ek væit at þu ert ekki minnar ættar. Sueinn suarar. uist er ek þinn son ok saunn er frendsemi okkr. en ekki skal ek þyrma þer. ef þu uill æigi gera þat er ek bæide þig þa skulu vit nu reyna med okkr ok skulu vit nu beriazst þegar j stad ok skaltu nu huergi vndan hokra. Konungr suarar. vandrædamadr ertu segir hann. ok þann ueg hefir þu skaplynde sem þu sert nokkurra manna þeirra at æigi se allsmarra. ok muntu verda at hafua þat er þu beidizst. ok far sidan a brott ór Danmork ok kom her æigi vm alldr. Ok nu ferr Sueinn a brott [ó]l ok hefir fiogur skip ok .xx. hann ferr nu til Palnatoka ok er honum þar uel fagnnat ok þikir hann nu uel hafua med farit þui sem hann red honum. ok skulu vit nu rada vm badir saman huat til skal taka. ok sidan mællti Palnatoki. nu skaltu fara enn j sumar ok heria ok skal þer nu frials óll Danmork til hernadar nema her a Fione her skaltu

[1]) hann *tilf. Cd.* [2]) r. konungr

hafua fridland. Ok nu er þetta er tijdenda þa er Sueinn .xviij. uetra gamall. Palnatoki lysir yfir þui at hann mun fara ór lande um sumarit ok fara til Bretlandz a fund Stefnis jalls ok kuetzst hafua mundu .xij. skip. en þu Sueinn far sem ek hefui rad til lagt. en ek mun vitea þin þegar a lidr sumarit med mitt lid. þuiat mig grunar at nu mune gerr herr a hendr þer ok mun konungr æigi þola þer læingr at þu ganger a riki hans ok mun ek veita þer lid. en þu hygg at þui at þu fly æigi þo at lid komi at þer ok hallt bardaga vid þa þo at lidsmunr se. Ok skilia þeir Palnatoki ok fara þeir badir senn or lande sina leid huarr. ok nu tekr Sueinn þetta rad sem Palnatoki hefir kent honum her(iar) j Danmork będe nætr ok daga ok ferr vida vm landit. ok flyia vndan landzmennirnir til konungs ok þikiazst illa læiknir. bidia konung nu taka skiott til rads. Ok nu þiker konungi æigi læingr sua buit vera mega. þikizst þo leinge hafua setit Sueini þau firnn er hann munde æigi ǫdrum þola. Konungr lætr nu bua .xl. skipa ok ferr sealfr med þui lide ok ætlar nu at drepa Suein ok allt lid hans. Ok er a leid haustit þa hittazst þeir Haralldr konungr ok Sueinn sid vm kuelld vid Borgundarholm sua at huarir sa adra. en þo var þa sua hattat at æigi var uigliost. ok leggia þeir j lægi vm aptaninn skip sin. en þegar vigliost er vm morgininn leggia þeir saman skip sin ok beriazst þann dag allan vnzst æigi var vigliost ok erv hrodin skip Haralldz konungs .x. en .xij. firir Sueini. ok leggr Sueinn skip sin j uogsbotnninn vm kuelldit. en þeir Haralldr konungr tæingia saman skip sin vm þueran uoginn ok leggia stafnn vid stafn ok bua sua vm at æigi megi Sueinn j brott komazst þo at hann uillde undan komasst. en vm morgininn þegar ætla þeir at leggia at þeim ok drepa Suein ok allt lid hans.

## Skotinn Gormr(!) konungr.

129. Ok þat sama kuelld kemr Palnatoki uit land ok hefir fiogur skip ok .xx. hann leggr undir nesit odrum megin ok tialldar þar yfir lide sinu. ok er þi var lokit geingr Palnatoki a land upp æinn saman ok hefuir boga sinn ok ǫruar ok gyrdr suerde. þat er nu at segia fra Haralldi konungi at hann gengr a land upp med .xi. menn. þeir gengu j skog ok geordu þar elld firir ser ok bakaz vid elldinn. þeir sitia a lág einne ok var þa myrkt ordit af nott. Palnatoki gengr til skogarins gegnt þui er konungr sat ok stendr þar. konungrinn bakazst vid elldinn ok fęrir at bringspalirnnar ok er kastat undir hann klædum ok stendr a knianum ok lytr miog er hann bakar bringspalirnar ok axslirnar ok for(!) upp þioin miog. Palnatoki heyrir mal konungs ok þar kennir

hann mal Fiolnis fǫdurbrodur sins. ok leggr hann nu or a streing ok skytr til konungs. ok er sua frasagt at ǫrin flygi bæint j raz konunginum ok sua vt um munninn. ok fellr konungr daudr nidr sem uon uar at. Ok er forunautar konungs sa huat j hefir georzst þa tekr Fiolnir til orda ok kuat þann mann mikit uhapp hent hafua er þetta uerk hefir unnit edr firir radit. fylgia þessu verki mikil bysnn þann ueg sem ordit hefir. ok spurde nu huat til rada skal taka. þeir matu nu vid Fiolni þuiat hann var þeirra uitrazstr. þat er sagt at Fiolnir tok ǫrina ór munne konungi ok hirdir hana sua buna. ok var hon audkend þuiat hon (var) reyrd gulli. Fiolnir mællti vid þa menn er þar eru. þat synizst mer rad segir hann at ver segim allir eina frasogn um þenna atburd. ok þiki mer æigi annat segianda en hann hafui skotinn verit j bardaganum j dag. er þetta frasǫguligra en þau bysnn er her hafua til borit. Ok nu binda þeir þetta fastmælum med ser at þeir segia allir eitt til. En Palnatoki ferr nu aftr til skipa sinna eftir verkit ok kallar hann med ser .xx. menn ok letzst hann uilca ganga a land upp ok hitta Suein fostra sinn ok fara sidan yfir nesit þuert. ok er þeir finnazst þa ræda þeir huat til rads skal taka. ok letz Palnatoki þat spurt hafua at Haralldr konungr þikizst ydr j uoge roit hafua ok ætlar at gera til yduar þegar at liost er. en þo mun ek enda þat er ek het þer at nu skal æitt ganga yfir okkr bada. Einge madr uisse j lide Sueins at konungr uære liflatinn nema Palnatoki æinn ok sagde hann ǫngum manni. Sueinn mællti. þess uil (ek) bæida þig fostri minn at þu læitir þess rads er oss megi hlyda sua sem nu er komit. Palnatoki suarar. ekki skulum uit seint til rads taka sagde hann. uer skulum ganga her a skip med ydr ok sidan skulum ver leggia skip or teingslum ok binda akkeri firir bard a skipi hueriu. uer skulum ok hafua skridlios a skipi hueriu þuiat nu er a nattmyrkr mikit. sidan skulu ver roa vt at flotanum konungs sem skiotazst. Nu taka þeir þetta rad sem Palnatoki [31] hafdi mællt. roa nu vt at skipunum sem hardazst megu þeir at flotanum konungs þuerum. en sa atrodr var a þa læid at .iij. snekkium huelfir firir konungi ok komazst þeir æinir a land er syndir eru. En þeir Sueinn ok Palnatoki reru vt hia þeim ollum sinum skipum ok til flota Palnatoka. Ok vm morgininn er ualla er alliost þa leggia konungsmenn þegar at þeim ok segia at konungr er daudr. ok nu mællti Palnatoki. þa munu vit Sueinn gera ydr tua kosti. sa er kostr at beriazst vid oss. en sa annarr at um þa menn alla er verit hafua med Haralldi konungi at þeir sueri Sueini allir land ok þegna ok taka hann til konungs yfir sig. Ok nu bera þeir rad sin saman ok verda a þat sattir at taka Suein til konungs en beriazst æigi. ok þetta ferr fram

at þeir sueria land ok þegnna Sueini konungi. Eftir þat fara þeir Palnatoki ok Sueinn vm landit badir saman. ok huar sem þeir koma þa lætr[1] Palnatoki þings kuedia ok er Sueinn til konungs tekinn um alla Danmork adr en þeir letti stride ok hernade.

## Sueinn Saumæsusun konungr vordinn.

130. Eptir þat er Sueinn er konungr ordinn þa þotti honum sem ǫllum audrum ser skyllt at erfua fǫdur sinn firir hinar þridiu uetrnętr. hann ætlar at hafua þessa uæizslu nu þegar ok fresta þui æigi læingr. Hann baud fystum til þessarrar uæizslu Palnatoka fostra sinum ok þeim Fionbyggium vinum sinum ok frendum. En Palnatoki suarar sua at hann mun æigi lagi a koma at fara firir hinar fystu uetrnætr til uæitzslunnar. en þat er komit til eyrna mer at mer þikia stortidendi at Stefnir jall magr minn er daudr ok verd ek þangat at fara naudsynliga þuiat ek a rikit allt eftir hans dag. Ok er Palnatoki þottizst æigi koma mega þa eyddizst erfisgeordin at simle þuiat Sueinn konungr uillde firir huernn mun at fostri hans væri at ueitzslunne, Palnatoki ferr ór lande um haustit med skipalide sinu. hann setr eptir Aka son sinn at rada firir buum sinum a Fioni ok ǫllu þui er hann atti. ok bad hann vinræda vid Suein konung. ok þui het hann ok þat ende hann uel. Ok nu ferr Palnatoki til Bretlandz ok tekr vid ǫllu riki þui sem Stefnir hafde att. ok lidu nu af hinu fystu missare. Ok vm sumarit eftir sendir Sueinn konungr menn a fund Palnatoka at bioda honum til erfuis med sua mikit lid sem hann uill sialfr haft hafua þuiat konungr uill nu erfa fǫdur sinn. þeir voru .xij. saman sendimennirnir. var þa nærr at þui komit at Palnatoki skyllde heiman fara. Hann bad konung hafua þǫk firir bodit. en þann ueg er til fallit at a mer er þungi nokkurr ok ma ek æigi til koma þesse missare. a ek ok margar fiolskylldir. Ok tellzst hann undan fǫrinne ok fara sendimenn konungs aftr ok segia konungi sua buit. Ok er þeir eru a brottu konungsmenn þa huerfr af Palnatoka allr þunge. En konungr lætr enn eydazst uæizsluna ok lidr af sa uetr. Ok nu er sua komit at Sueinn ma æigi hæita gilldr konungr firir ser at lǫgum þeirra Dana edr annarra manna ef hann uill æigi erfua fǫdr sinn þat haustit er þa ferr ok uetrnætr eru lidnar. ok uill konungr nu æigi lata undan bera. Hann sendir nu hina sǫmu .xij. menn a fund Palnatoka at bioda honum til uæitzslu ok letzst nu mundu leggia a hann reide mykla ef hann uillde enn æigi fara. En Palnatoki suarar sendimonnum hans. bidr hann [þa fara[2] heim ok segia Sueini konungi at

[1]) tekr *Cd.* [2]) fara þa *Cd.*

hann buizst vid ueitzslu sem hann hefir framazst fông a ok hon mætti uera sem sæmiliguzst. en ek mun koma til bodsins. Nu fara sendimenn aftr ok segia at Palnatoka er þangat uon. ok nu byzst konungr vid uæizslunne at þat erfui yrde sem sæmiligazst at ôllu firir tilfanga sakir ok fiolmennis. Ok þa er allt er til buit erfinu ok bodsmenn eru komnir þa er Palnatoki okominn ok læid a kuelldit. ok þar kom at menn gengu til drykkiu ok var monnum skipat j hollina. ok let konungr liggia rum j ônduegi ok hundrat manna utar j fra ok uæntir þangat Palnatoka fostra sins ok hans foruneytis. en er sæinkazst kuoma Palnatoka taka menn til drykkiu ok eru katir.

## Her sękir Biorn hinn brezsk(i) mannin.

131. Nv er at segia fra Palnatoka at hann byzst heiman ok þeir Biornn hinn bretzski. þeir hafua .iij. skip ok a hundrat manna ok er þat lid halft huort Danir ok Bretar. þeir fara til Danmerkr ok koma þat sama kuelld til stodua Sueins konungs ok leggia sidan j lægi skipin þar at lande sem þeim þotti at diupazst. þa var gott uedr um kuelldit. Nu letr Palnatoki þann ueg bua vm skip sin at þeir snua fram stofnum fra lande en leggia arar j hareidar sua at þeim þiki ser sem fliotazst til at taka ef þeir þurfu nokkurs uit. sidan gengu þeir a land upp til bæiar konungs ok sitea menn þar vid drykkiu. Nu gengr Palnatoki j hollina ok kuedr konunginn uel. konungr tekr uel kuediu hans ok visar honum til sætis j ônduegi ok sueit hans utar j fra. ok sitia nu uid drykkiu ok eru uel katir. Ok nu er minnzst uarir lytr Fiolnir at konungi ok talar vid hann nôkkur ord sua at konungr bra lit vid ok georde raudan sem blod. Madr het Arnnoddr hann var kertasuæinn konungs ok stod firir borde hans. honum selr Fiolnir [:] j hendr æitt skeyti ok mællti at hann skyllde bera vm hollina ok firir huern mann ok vita ef nokkurr madr kendizst vid at þat skeyti æigi. Ok sua gerir Arnnoddr at hann gengr innar fyst eftir hôllinne fra hasæti konungs ok berr or þessa firir huern mann ok gengr æinge vid. ok þar kemr enn at hann ferr utar hinum oædra megin. hann kemr nu firir Palnatoka ok spyrr ef hann kendi orina. Palnatoki suarar. hui mun ek æigi kenna skeyti mitt. ok sel mer þuiat ek a. Æigi skortir þa hliod j hollinne þegar nôkkurr gek vid orinne. ok nu tekr konungr til orda ok mællti sua. þu Palnatoki huar skildizst þu vid þetta skeyte hit næsta sinne. Oft hefui ek þer eftirlatr verit fostri minn ok ef þer þikir þat þinn uegr meire at ek segi þer þat j allmyklu fiolmenni helldr en færri se hea þa skal ek þat uæita þer. ek skildumzst vid hana a boga-

streingnum konungr segir hann þa er ek skaut j raz fôdur þinum ok eftir honum endilôngum sua at vt kom j munninn. Standi menn upp segir konungr ok hafui hendr a þeim ok drepi þa alla þuiat nidr er nu slegit allre vinga(n) ok goda þeim er verit hefuir med okkr. Eftir þetta standa menn upp allir ok er nu okyrt j hollinne. Palnatoki gat brugdit suerde ok getr þat fyst unnit at hann klyfr Fiolni fôdurbrodur sinn j herdar nidr. en sua atti Palnatoki uingat j hollinne at æinge madr uill uopnn a hann bera. ok kuomuzst þeir allir vt ór hollinne nema æinn madr af monnum Biarnar. þa mællti Palnatoki er þeir kuomu ut ok saknnat var mannzins. æigi var minna at uon segir hann ok fôrum nu skiott til skipa uorra firir þui at einge er annar a georr. Biornn suarar. æigi mundir þu sua skilia vid þinn mann sagde hann ef þu ættir minn hlut ok æigi skal ek helldr segir hann. Snyr nu inn j hôllina. ok er hann kemr inn þa ser hann at þeir konungsmenn hafua þa mann hans a oddum yfir hôfde ser ok var þa miog sua rifinn j sundr. Ok nu fær Beornn hann hondum tekit ok kastar a bak ser ok gengr vt sidan ok uegr mann. sidan ferr hann til skipa sinna. ok georde Beornn þetta til agætis ser en uita þottizst hann at madrinn uar daudr. ok hafua þeir hann med ser. Nu hlaupa þeir a skip sin ok taka rodr. en þa var a nidmyrkr ok lognn ok kuomuzst þeir Palnatoki ok Beornn undan ok urdu huergi stadnir adr en þeir komu heim til Bretlandz. En Sueinn konungr ferr heim til hallar sinnar ok lidit med honum ok fa nu ekki at georl ok vndu hit uesta vid. taka nu at drekka erfui en eftir þat ferr huerr til sins heima.

## Sætt konungs ok Palnatoka.

132. þat er sagt at hit sama haust eftir þetta tekr Olof sott kona Palnatoka. ok þesse sott leidir hana til bana. Eftir andlat hennar unir Palnatoki æigi j Bretlande ok setr hann til þess rikis Beorn hinn bretzska at uarduæita þat. enn hann byrr ór lande .xxx. skipa ok uill nu leggiazst j hernat. hann ferr ór lande þegar hann er buinn ok heriar þat sumar vida będe til Skotlandz ok Jrlandz ok uill heria þar ok hefuir nu .lx. skipa. J þenna tima red firir Vindlande konungr sa er Burizlafr het ok hugde hann illt til hernadar Palnatoka þuiat einge uikingr uar þa jafnnfrægr sem Palnatoki at hardfæinge ok uitrlæik. hafde hann jafnan sigr þar sem hann hellt til. ok uonu bradara er hann kemr vid land ok konungr spurde til hans sende hann menn a fund hans ok baud honum til sin ok letzst uilea eiga uid hann frid ok vinattu. konungr let þat ok fylgia þessu heimbode at hann baud at

gefa honum æitt fylki edr riki af lande sinu þat er a Jome heitir. til þess at hann stadfestizst her i lande ok uæri skylldr til at veria land ok riki mitt. Ok þetta þiggr Palnatoki at þui er sagt er ok allir menn hans. ok þa lętr Palnatoki gera æina borg mikla. þat var sæborg ok hardla uid ok ramgeor su var kollut Jomsborg. þar let hann gera hofnn upp j borgina þa er leggia matti .iij. hundrut langskipa ok voru þar dyrr a. en yfir dyrunum var stæinb(o)ge en jarnnhurd firir dyrunum ok matti þar draga upp ok ofan. en yfir steinboganum var kastale ok þar j ualslôngur ok matti þar læsa jnne oll skip. su borg uar gior a sæ vt ok var hon af þui kollut sæborg ok þui var hofnnin jnnan borgar. Ok eftir þetta setr Palnatoki laug uid rad manna sinna þar j Jomsborg til þess at styrkr þeirra se sem mestr ok þeirra frami fære sem uidazst. þar skyllde ein(gi) yngri vera e(n) .xviij. uetra ok eingi elldri en fimtôgr. Einge skal þar sa vera at rennr undan einum jafnnbunum ser ok iafnnuigligum. þui skyllde ok huerr madr heita til fasta sa er þangat redzst j þeirra foruneyti at hefnna huerr annars sem burr edr brodir uæri. Æinge skyllde þar rog kuæikia mille manna. Ok þo at vid þeim manni væri tekit er uegit hefde fôdr eda brodr þess mannz er þar var adr firir edr nôkkurnn hans frænda ok kęmi þat sidan upp en vid honum var tekit þa skyllde þar Palnatoki vm dęma. Ok þo at þangat spyrdizst tidende þa skyllde eingi [83] sua diarfr eda huatuis at þau skyllde segia. þuiat Palnatoki skal þar ôll tidendi fyst segia. Ok sa er fundinn yrde at þui er nu var tint þa skyllde sa rækr ok rekinn or lôgum þeirra. Einge madr skyllde þar konu hafua j borgina. Einge skyllde j brottu vera .iij. nottum læingr nema Palnatoki leyfde. Allt þat er þeir fengi j hernade þa skyllde allt til stanga bera meira hlut ok minna þat er femætt var. en ef þat reyndizst af nôkkurum at æigi gerde sua þa skyllde sa a brott or lôgum þeirra huort sem til hans kæme meira edr minna. Einge madr skyllde þar ædru mæla edr kuida nôkkurum hlut huersu ouent sem hôrfa þætti. Ônguan hlut skyllde þann at bera med þeim innan borgar at þa skyllde a skilia. Palnatoki skyllde þar æinn skipa sem hann uillde. Ekki skyllde þar rada frendsemi ne vinfeingi þott menn redizst þangat þeir er æigi voru j (lôgum) þeirra. ok þo at þeir menn er þar væri bæde þeim þangatferdar er æigi uæri til þess færir þa skyllde þat ekki stoda. Nu sitia þeir vid þetta j borginne j godum fride ok helldu uel lôg sin. þeir foru huert sumar brott ór borginne at heria a ymsi lônd ok fa ser fear ok agætis ok þikia vera hinir mestu agetismenn ok hermenn. ok æigi þottu naliga þeirra jafnningiar j þenna tima ok eru þeir nu kalladir Jomsuikingar hedan fra.

## Aaki feck Hilldigunni(!).

133. Nv er at segia fra Sueini konungi at hann lætr ser verda vid Aka Palnatokason alla uega sem betzst sem þeirra vinfeinge hefde ofallt verit. ok þo at þar hefde nokkut a ordit med þeim Palnatoka ok Sueini konungi þa lætr hann Aka þess ekki giallda ok virdir konungr mikils þeirra fostbrędralag. ok rædr Aki firir a Fioni. Sa madr er nefndr til sögunnar er Ueseti hefir hæitit hann red firir fylke þui er Borgundarholmr heitir. kona hans het Hilldigunn. þau attu .iij. börnn þau er getit er vid söguna. son þeirra het Bui hinn digri annarr Sigurdr kapa dottir þeirra het þorgunna. hon hafde gift verit adr firir nokkurum uetrum. Sueinn konungr hafde (bedit) hennar til handa Aka syni Palnatoka ok var hon honum gift. ok höfdu skamma stund asamt verit adr þau attu son er Uagnn het ok var mikill madr snemma ok uænligr.

## Fæddr Vagn Aakasun(!).

J þenna tima red firir Sealandi jarll sa er Haralldr het ok var kalladr Strutharalldr. en þat var til þess fundit at hann atti hött þann er strutr var a mikill. sa strutr er af gulli georr ok var þar j .x. merkr gullz ok fek hann af þui Strutharalldz nafnn. Jngigerdr het kona hans. þau attu .iij. börnn er nefnnd eru til sögunnar. son þeirra het Siguallde annarr þorkell hafui en dottir þeirra het Tofua. Aki son Palnatoka byrr a Fioni med myklum ueg. Uagnn uex þar upp heima med födr sinum. ok er þat fra sagt at þegar nokkut matti marka hans skaplynde at hann uar meire uandrędamadr j sinu skapi en huerr annara þeirra er þa uoru uppuaxande. sua er hann ok j öllu sinu athæfui at trautt megu menn um hann fæta. Ok þat er sagt at Vagnn er stundum j Borgundarholmi med Veseta afua sinum. ok var þat af þui at huorki þikizst rade vid hann koma fadir ne modir sua er hann vdęll. Vid Bua er hann bezst allra frenda sinna. ok þat hefir hann hellzst er Bui mællti firir honum þuiat honum var hann skaplikazstr. en at öngu hafde hann þat er adrir frendr hans mællttu þegar honum syndizst annan ueg. hann var allra manna uænstr ok hinn mesti atgeoruimadr ok hinn bradgeruazsti um huetuettna. Bui modurbrodir Vagns var oordasamr helldr hliodr oftazst (ok) skapmikill. hann var sterkr madr sua at menn uissu ogeorla afl hans. Bui var ekki vænn madr en þo var hann lidligr ok hinn hermannligste undir uopnnum. Sigurdr kapa var uænn madr ok sidlatr þögull ok þykkiumikill. En fra Siguallda syne Strutharalldz er þat sagt at hann var nefliotr ok follæitr. hann var eygdr manna bezst

mikill uexsti ok allhardmannligr. þorkell brodir hans var allra manna hæstr. ok hann var ok sterkr madr ok foruitri ok bader þeir brædr.

### Samtal Jomsvikinga. capitulum.

134. Sva er frasagt at þeir Siguallde brædurnir bua .ij. skip or lande ok ætla til Jomsborgar ok vita ef þeir vile vid þeim taka. ok spyria Haralld fődur sinn huersu radligt honum þotti þat er þeir redizst til lids vid þa Jomsvikinga. Hann kallar þat radligt at auka agęti sitt. ok er nu mal segir hann at þit reynit ykkr huort þit erut nokkut manna. þeir badu hann nokkut leggia til uista þeim til fararinnar. en hann suarar. kuat þa annattueggia gera skylldu at fa ser uistir sealfir edr fara huerge ella. ok sua annat þat er þeir þyrfti at hafa. [34] Nu fara þeir æigi at sidr þo at Haralldr uillde ekki til leggia. þeir hafua .ij. skip or lande ok hundrat manna. þeir uoldu lid þat miog sem þeir hofdu főng a ok foru sidan til Borgundarholms ok þottuzst þurfua at afla ser uista ok fearhlutar nőkkurs kostar. þeir taka þat rads at þeir runnu þar a land upp ok ræntu þar. toku upp bu Ueseta þat er audgazst var ok ræntu ollu fe ok hofdu til skipa sinna ok fara a burt sidan. Ok er nu ekki fra þeim at segia fyrr en þeir koma til Jomsborgar ok leggia utan j borgina. en Palnatoki gek jafnan j kastala þann med myklu lide er gerr var yfir steinboga þann er var yfir sundit. ok var hann þadan vanr at tala uid þa menn er kuomu til borgarinnar. Ok nu uerdr Palnatoki uarr vid at menn eru komnir. þa gengr hann j kastalann vid marga menn ok spyrr þadan huerir komnir væri edr firir rede lidinu. Sigualldi suarar. her rada firir .ij. bręđr synir Strutharalldz jalls ok hæiti ek Sigualldi en þorkell hæitir brodir minn. en þat er eyrendi mitt hingat ok okkar brædra at vit uilldum biodazst til lids vid ydr med þeim monnum er ydr þikia nytande af ydru lide. Palnatoki rædzst um vid Jomsuikinga huort vit þeim skyllde taka. kuat ser kunnikt til kynferdis þeirra at þeir voru uel bornir. þeir vrdu allir a æitt sattir at Palnatoki skyllde firir rada sem hann uillde ok kalla þat sitt rad sem hann uill firir sea. Ok nu er upp lokin borgin ok roa þeir Sigualldi j borgina. ok er þeir eru þar komnir þa skal reyna lid þeirra eftir þui sem þeir voru vanir. ok er nu reynt huort þeir þikir(!) þeim til fallnir at ganga j lőg þeirra. ok verdr su raun a at helmingr lids þeirra þikir nytr vera en annarr helmingr var aftr sendr. Nu er tekit vid þeim Sigualda brædrunum ok þorkeli ok .lx. manna med þeim ok eru nu j log teknir at rade Palnatoka.

### Vidreignir þeirra Strutharalldz ok Veseta.

135. Nv er at segia fra Veseta at hann var ræntr bui sinu þui sem audgazst var. ok nu tekr hann þat rad at hann setr aftr sonu sina at ǫllum geysinge. hann ferr sealfr a konungs fund ok segir honum huat titt er. Konungr rædr honum þat at hann lati vera kyrt fyst en ek mun senda eftir Strutharalldi ok uita ef hann uill bæta fe firir sonu sina sua at þu ser halldinn af. ok uillda ek at þu letir þer þat lika. Nu ferr Veseti heim. en Suæinn konungr sendir menn eftir Strutharalldi ok bad hann koma a sinn fund. jall letzst at visu fara mundu. Ok ferr hann a konungs fund. ok nu rædir konungr þetta uit Haralld huernn skada synir hans hofdu geort Ueseta. ok bidr at hann skuli bæta firir þa fiarhlut ok væri þeir sattir. En jall letzst hafua ofæingit þess fear at hann munde bæta firir þat þo at bǫrnn edr ungmenni tæki naut edr saude til matar ser. Konungr mællti. þa muntu fara heim segir hann ok hefui ek sagt huersu ek uilldi at væri. en sua mun ek firir mæla at þu abyrgizst þig sealfr firir Ueseta ok sonum hans. ok mun ek ǫngan hlut j eiga huernn ueg sem ydr ferr ef þu uill at ǫngu hafua þat er ek mæle. en þat hygg ek at þer þiki þessu uerr radit. þa suarar jall. sealfr mun ek abyrgiazst mik en ekki er ek hræddr vid Veseta ne sonu hans. Ok nu ferr Haralldr jall heim ok er nu kyrt vm hrid. þat er sagt at Veseti ok synir hans spyria vidrædu þeirra konungs ok jalls ok sua huerr endir a vard þeirra vidtale. ok þat vard nu þeirra tiltekia at þeir bua .iiij. skip ok ǫll stor ok þar med .ij. hundrud manna ok bua sem bezst. þeir fara sidan til Sealandz ok taka þar upp þau .iij. bu sem audguzst eru firir Strutharalldi ok fara heim aftr med fæinge þetta. Ok nu spyrr Haralldr jall þetta at hann er ræntr ok kemr nu j hug huat konungr hafde spat honum. sendir nu menn a fund Sueins konungs ef hann uillde sætta þa. letzst hann nu giarna vilia þat er hann næitte. En konungr suarar. nu skal Haralldr jall hafua rad sin hinu godu þui at hann uillde ekki hafua min rad þa er vit ræddum þetta rad ok var þa vm minna at dęma en nu. vil ek ok ekki lata þetta mal til min taka. Ok nu foru sendimenn aftr ok segia nu jalli konungs ord. ver munum þa verda at taka til uorra rada segir jall ef konungr uill ǫnguan hlut eiga j voru male. Haralldr jall færr ser nu lid ok hefir .x. skip. byrr þau sem bezst ath monnum ok uopnnum ok ferr sidan j Borgundarholm med þui lide ok rænir þar. tekr upp .iij. bu firir Ueseta þau er æigi uoru uerri en þau at Veseti hafde tekit firir Haralldi jalli. Nu ferr hann heim j Sealand med þetta fe ok þikizst nu hafua hefnnt sin. Ok er æigi langt at bida adr Uesetí spyrr skada

sinn. tekr hann þat rads at hann ferr a konungs fund ok tekr hann uel vid honum. þa mællti Veseti vid konung. þann ueg ferr vm stund med okkr Strutharalldi at ek hygg at vfridr mune af georazst medal sealfra landzmanna ef þu alt ǫnguan hlut j. ok kann vera at þa se vm mæira at dęma en nu þuiat þeirra manna erv uer huorirtueggiu. [85] Konungr suarar. ek mun bradliga til þess þings fara er Seyrarþing heitir ok mun ek boda Strutharalldi þangat ok mun hann sia at rade at sættazst. ok mun ek þa sætta ykkr hæilum sattum þuiat mer þikir þu uel fara med þinu male. Ok eptir þetta ferr Ueseti heim ok lida nu stundir þar til er þeir fara til þingsins.

## Sætt Bua ok Haralldz jarls.

136. Nv ferr konungr til þings ok hefir mikit lid þuiat hann uill ganga milli þeirra Strutharalldz ok Ueseta. konungr hefir .lx. skipa. Haralldr jall a skamt til þings ok hefir .xx. skip. Ueseti ferr ok til þings ok hefir .iij. skip. Ok er konungr kemr a þing ok Haralldr jall ok Ueseti ok tialldar Veseti ner sionum en Haralldr jall tialldar langa snertu upp fra sionum. en konungr lætr setia budir sinar þar j mille þeirra. Ok er a leid kuelldit þa sa menn fara .x. skip fra heimile Haralldz jalls. ok er þau nalgazst þangat þa leggia þeir at j lægi ok ganga sidan til þings. eru þar kendir synir Ueseta Bui ok Sigurdr. Bui digri uar þa uel buinn at klædum ok var hann j ǫllum alklædnade þeim er att hafde Haralldr jall. ok voru þat tignarklæde hans ok sa klædnadr var sua femikill at til kuomu .x. merkr gullz. hann hafde ok hǫtt jalls þann er til kom(u) .x. merkr gullz. þeir ganga nu a þingit aluopnadir ok med fylktu lide. ok er þeir kuomu a þingit þa mællti Bui til Haralldz. þat er nu rad segir hann ef þu berr nǫkkur kennzsl a gripe þessa er ek hefui a mer at þu sækir til þeirra nu ef þu þorir enda ser þu nokkut at manna ok se nǫkkur dad j þer. þuiat ek er nu buinn at beriazst vid þig ef þu bilar æigi. Suæinn konungr heyrir ord Bua ok þikizst þat sea at hann mun æigi hallda ueg sinum ef hann lætr þa beriazst ok gengr j mille þeirra. en hann hafde adr sua mikit vm męllt at sætta þa þar a þinginu. ok gengr nu a mille þeirra ok lætr þa æigi na at beriazst. Ok nu kemr þar male at huorirtueggiu verda þui at jatta sem konungr uill ok skipe hann einn j mille þeirra. en þat skorar Bui j sattina at hann letzst alldri mundu lausar lata gullkisturnar Haralldz jalls þær er hann hafde tekit ok ǫngua hans gripe þa er hann hafde. en kuat konung skylldu rada ǫdru sem hann uillde. þu Bui segir konungr skalt hafua þitt mal j þui at þu skalt hafua gullkistur

ok sua mikit fe at þer frændr þikizst sæmdir af vera þessu male. en lausa verdr þu at lata gripe jalls þa er þu hefir tekuna ok gera honum æigi þa suiuirding at hann nai æigi tignarklædum sinum Nu verdr konungr at rada ok lætr Bui lausa gripe jalls. ok hellt konungr þui sua fast at hann uisse þat at jalli þotti ser j þui mest suiuirding ef hann næde æigi gripum sinum. ok nu verda þeir a þat sattir at konungr skal æinn skipa sem hann uill. Ok sidan lykr konungr upp sættinne ok ferr þadan at male sem hann hafdi adr sagt at Bui skal þa þegar lausa lata gripe jalls. en hann skal þat til vinna til sæmdar ydr at gipta Tofuu dottur[1] sina Sigurde kapu. þeir skulu æigi aftr giallda bu þau er þeir toku firir Haralldi jalli þuiat þat skal vera heimanferd Tofu þesse fe. ok skal æigi ǒdruvisu giallda upptǒku buanna en þeir taki undir sealfuum ser j kuonar mund. þui georde konungr þann ueg sęttina at honum þotti þetta næst til at sęttin munde halldaz med þeim ef męgdir tækizst j mille. þeir taka ok þessu uel fedgar ok leggr Ueseti til vid Sigurd þridiung allz fear ok þikir Sigurdi hit vænsta vm kuonfangit. ok sættazst þeir nu at þessu ok fara nu af þinginu til Strutharalldz jalls. ok skal þar vera brudkaup þeirra Sigurdar ok Tofuu med mikille tignn. Ok eftir uæizsluna ferr konungr heim ok adrir bodsmenn. Veseti ferr ok heim ok synir hans til Borgundarholms ok er Tofua j fǒr med þeim ok skiliazst nu godir vinir.

## (Veseta synir fara til Jomsborgar.)

137. Sva er sagt at þess er æigi langt j mille at Bui hinn digri fysizst at fara til Jomsborgar ok auka þar agæti sitt. Sigurdr uill ok fara þoat hann se kuongadr. ok buazst þeir nu heiman ok hafua .ij. skip ok vilea geora sem likazst þui sem geordu synir Strutharalldz. þeir hofdu hundrat manna ok fara nu til Jomsborgar ok leggia vtan at steinboganum ok hafnardyrunum. Ok er hǒfdingiar j borginne verda varir uid kuomu þeirra þa ganga þeir Palnatoki ok adrir hofdingiar j kastalann ok kenna þeir Sigualldi mennina þa er redu firir skipunum. Nu tekr Bui til orda ok segir at hann vill þangat radazst til Palnatoka ok badir þeir brędr ok med allt lid sitt ef hann uill vid þeim taka. Sigualldi suarar þa ok spyrr huersu at þeir Strutharalldr setti malum sinum ad(r) þeir fære ór landinu. Bui suarar. þat er lǒng frasognn at segia fra vidskiptum vórum en þau fellu lok a at Sueinn konungr gerde j millum uor. ok ma ek þat æigi tina skommu male er ver hǒfum saman att en sattir eru ver nu. þa mællti Palnatoki. vili þer til hętta

[1]) ydra *tilf. Cd.*

huort þessir menn segia satt edr æigi. en allfuss væra ek til þeirra foruneytis þuiat þess varir mig at fair mune her slikir firir vera sem þeir eru. þeir badu hann taka þessa menn j lôg med ser ef hann uillde. en ef nokkurir [36] hlutir koma þeir upp sidan um hagi þeirra er uer uitum nu æigi þa skal þat sem allt annat a þinum dome. Ok nu er upplokit borginne ok leggia þeir Bui j hôfnnina. ok er sidan reynt lid þeirra ok eru .lxxx. manna j lôg teknir en .xl. fara burt. Ok nu er þat sagt at þeir eru allir samt j borginne ok eru godir vinir. þeir heria huert sumar a ymse lond ok afla ser fiar ok mikillar frægdar. en þo at her se æigi sagt fra storvirkium þeirra þeim er þeir vnnu þa vita menn þo at valla fenguzst þeirra jafningiar. huert haust fara þeir aftr til borgarinnar ok hafua þar uetrsetu.

## Vagn kom til Jomsvikinga.

138. þar er nu til mals at taka er Vagnn uex upp heima a Fione med fedr sinum en stundum var hann j Borgundarholmi med Veseta afua sinum. hann var suo oeirinn madr j uppruna sinum at þat er sagt til marka vm hans skaplynde at þa er hann var .ix. vetra gamall hefde hann drepit þrea menn. Hann er nu heima þar til at hann er .xij. vetra at alldri. þa þikiazst menn trautt mega vit hann sæma sua georizst hann vspakr. ok æigi þikiaz frendr hans vita huat ór skal rada. ok nu fær Aki fadir hans honum .lx. manna ok þar med æitt langskip. annat lid jafnnmikit færr honum Veseti afui hans ok annat langskip. ok er æinge madr elldri sa (er) honum fylgir en .xx. ok einge yngri en atian vetra vtan Vagnn sealfr hann er .xij. uetra. Hann bidr ser ekki annat fa hann letzst sealfr mundu fa ser vofnna(!) ok vista ok þat annat at hann þyrfti at hafua. Hann ferr nu heiman med þetta lid ok þarf nu bratt at afla ser vista. Vagnn verdr æigi ôrþrifrada. hann ferr þa fyst yfir endilanga Danmôrk ok hôggr ser strandhôgg sua sem þeir þurftu ok rænir bæde uopnum ok herklædum. ok sua lykr at hann skortir huorki uopnn ne vistir adr hann skildizst vid. hann siglde sidan ór lande ok til Jomsborgar. Hann kemr þar j solarrod ok leggr vtan at steinboganum. en borgarmenn ok hôfdingiar lidsins ganga þegar j kastalann ok spyria huerir komnir uæri. Vagnn sagde til sin ok spurde huort Palnatoki væri j kastalanum. Ja segir hann her er sa madr. edr huerir eru þer at sua latit rikmannliga. Ekki skal þig leyna nafne minu segir hann. ek hæiti Uagnn ok er ek þui her kominn at ek uillde radazst til lids vit ydr. þuiat ek þotta æigi alldgll hæima ok þotti frendum minum nu uel at ek fære j brott. Palnatoki suarar. þikir þer þat radit

frende segir hann at þu munir her þikia hægr vidskiptis er menn megu trautt hæima vm þig fæta. Vagnn mællti. litils virdir þu frendsemi vid mik j fysta sinn er ek kemr a þinn fund. Palnatoki suarar. huort þikir ydr rad at vid þeim se tekit. þat er mitt rad at æigi se vit þeim tekit segir Bui ok er hann þo vid mik bezst sinna frenda. þa mællti Palnatoki til Vagnns. vid þer uilia menn risa segir hann ok jafnnt frendr þinir þeir er ǫll deili vitu a þer. Ja segir Vagnn. huort verda þeir menn berir j þui er þar standa hea þer at æigi uilea vit mer taka. en uæri mer æigi þess von at þer Bui frendi at þu mundir berr j þui verda. þar er ek þo sannr at þui segir Bui at ek let þess at vit þer se tekit. en þo uil ek at Palnatoki rade. Huat leggia þeir til synir Strutharalldz segir Vagnn. þuiat þat villda ek vita. Sigualldi suarar. hafa munu ver æinord til þess at ver uilldum at alldri kæmir þu j uornn flok. Huersu gamall madr ertu frende segir Palnatoki. Ekki skal liuga at þer segir Vagn. ek er .xij. uetra gamall. þa mælir þu olaug vid oss segir Palnatoki ok mun þat firir standa at þu matt æigi med oss vera. Ekki mun ek hallda til þess at þu briotir laug þin. enda eru þau þa ekki brotin ef ek er sem æinnhuerr .xviij. uetra j framgongu þott ek se yngri at alldri. ok synizst mer þat þa æigi lagabrot þo at vit mer se tekit þuiat ekki ætla ek mer at renna vndan æinhuerium ydrum þott hann se roskinn at alldri. Halltu ekki læingr a þessu segir Palnatoki ek mun senda þig til Bretlandz a fund Bearnar hins bretzska ok firir uora frendsemi þa gef ek þer halft rikit þat er ek a j Bretlande. Uel þike mer þetta bodit segir Uagnn en eigi uil ek þetta þiggia. Huat uilltu þa segir Palnatoki ef þu uill æigi þetta er ek byd þer þuiat ek þottumzst nu uel bioda. Uagnn mællti. æigi uil ek þetta at helldr þo at vel se bodit. Palnatoki mællti. huar ætlar þu til er þu uill æigi þetta bod. þui skal nu lysa firir ydr sagde Vagnn huat er ek vil. ek byd Sigualldа syne Strutharalldz at leggia at oss med .ij. skip ok a hundrat manna ok reynum ver þa med oss huorir vndan letti(!) edr huorir meira hlut hafui. ok skal þat mark til geort at þer takit vid oss ef þeir lata vndan med sitt lid. en ef ver latum vndan þa skulu ver j brott fara. ok æigi byd ek honum þetta med minna kappe en sua at Sigualldе berizst vid oss ef hann er vragr kallmadr ok hafui helldr mannz hug en berkuikuendiss. Palnatoki mællti nu. [57] muntu heyra Sigualldi huat þesse madr mælir edr huersu miog hann uandar bod at þer. en þess uæntir mig at þu komir j nokkura raun ok gilldan haska[1] af þessum hinum vnga manni. en vit þat at sua mikit er vm mǫllt vit

[1]) haskan *Cd.*

þig ok kallmannliga þa kann ek æigi at letia at þer leggit at þeim ok georit þeim slikt illt sem þer megit. en berit at Uagnne skiolldu en drepit hann æigi þuiat þat mun oss æigi lika. ok æigi megu ver þat vita at honum se mein geort þott hann se æigi aldęli. en þess get ek at þer verdit reyndir. En eftir þat buazst þeir Siguallde ór borginne ok lid hans ok leggr nu vt .ij. skipum til motz vid Uagnn. ok er þeir hittazst þa leggia þeir saman randir ok beriazst. ok er þat frasagt at Vagnn ok felagar hans gerdu þeim Siguallda harda hrid sua at þeir megu ekki annat en blifua ser ok hafua þo ærit at vinna. sua eru þeir akafuir. ok er griotit ferst þa lata þeir litt þurfua at bida hògguanna ok hafua þa hòggorrostu ok beriazst hit hardazsta. ok sua kemr vm sidir at þeir Siguallde hallda undan jnn til landz ok villde fa ser griot. en þeir Uagnn hallda þegar eftir þeim ok finnazst nu a lande ok verdr nu Siguallde vid at hròkkua. ok verdr nu ònnur atlaga ok er þeirra bardage sea miklu meire en fyrr ok ueitir þeim Siguallda þungt. þeir Palnatoki eru uppi a kastalanum vm bardagann ok sea þadan til at þeim Siguallda mun æigi duga sua buit ok bidr Palnatoki at þeir hætti nu bardaganum. ok er þat mitt rad at vit þeim Vagnne se tekit þott hann se yngri en mællt se j lògum uorum ok er god uon a vm mann þenna at hann verde hinn mesti kappi at þui er mer synizst. Nu gera þeir Vagnn sua sem Palnatoki mællti at þeir hætta bardaganum. en sidan taka þæir vid Vagnne ok eru nu j samlage ok lògum met þeim ok allir hans menn. J bardaganum letuzst af þeim Siguallda .xxx. manna en .xx. af Uagnni en margir voru sarir af huorumtueggium. þat lofua nu allir Jomsuikingar at Vagnn se j lògum med þeim. ok sua er hann spakr madr at æinge fęzst hans jafnninge j Jomsborg. hann ferr huert sumar j viking ok ferr ór lande ok þikir einge madr hans jafninge til hardfeinge sa er j hernade er sem Vagnn Akason. þessu ferr nu fram vm hrid hinu næstu .iij. sumur fra þui er hann kom j borgina at hann liggr j uikingu en hann er [innan borgar[1] a uetrum sem adrir Jomsvikingar.

## Andlaat Palnatoka.

139. þat er nu sagt at hit þridia haust er Uagnn er hæim kominn þa tekr Palnatoki sott ok er Uagnn fimtan vetra. ok bioda þeir nu Burizlaf konungi þangat ok segia at Palnatoki hefir sott tekit. þuiat honum segir sua hugr vm at sea sott mune hann til bana leida. Ok er konungr kemr a fund Palnatoka þa mællti hann. þat er hugbod mitt segir hann at ek mune æigi taka fleire sottir en þessa ok mun þat

[1]) borginnar *Cd.*

þikia æigi olikligt firir alldrs sokum. en þat er mitt rad herra segir hann at madr se tekinn j stad minn ok se sa hôfdinge j borginne at skipa þeim malum er ek hefui adr firir set. ok hafuizst þeir her vit j borginne Jomsvikingar ok hafi enn landuornn firir þer. ok þiki mer Siguallda minzst til skorta at koma j minn stad vm radageordir ok at dęma vm mal manna będe sakir hardfeinge ok vitzsku. ok mun ydr þikia nôkkur uáttuisi j þui sem ek mun mæla at ek get þess at alla þa skorti þo nôkkut a þat er ek hefui verit Konungr suarar. uel hafua oss gefuizst þin rad ok skal enn þau hafua er þu hefir til lagt segir konungr ok mun oss þat ôllum bezst gegnna. en þat er oss uggànda at ver munum nu skamma stund niota þinna rada ok er oss at skylldara at hafua hit sidazsta. ok enn skulu ôll standa þin lôg hinu fôgru j borginne þau er þer hafuit sett. Ekki er sagt at Siguallldi uære traudr at ganga j stad Palnatoka. en þat er sagt at Palnatoki gefr Uagnne halft riki j Bretlandi til eignar ok forrada med Birnne hinum bretzska. ok nu bidr Palnatoki Uagne virkta ok mællti þar vm morgum fôgrum ordum ok synir j þui at honum þotti mikit undir um Uagnn at þeir georde uel til Uagnns. ok litlu sidarr andazst Palnatoki ok þikir þat ôllum Jomsuikingum hinn mesti skade.

## Bonord Siguallda. capitulum.

140. Litla stund hefuir Siguallldi styrt lôgum adr en nôkkut sneri hætti a j borginne. þa eru þar konur .ij. nattum ok .iij nattum. nu eru menn a brottu ór borginne leingr en þa er Palnatoki lifde ok nu uerda auerkar med monnum ok einstaka uig. Ok nu er þetta (er) tidenda þa ferr Siguallldi ór borginne til fundar vid Burizlaf konung. Konungr atti .iij. dętr þær er nefnndar eru til sôgunnar ok het Astridr hin ellzsta ok var hon hin fridazsta kona ok hin vitrazsta. ônnur het Gunnhilldr. en Geira hin yngsta hennar fek Olafr Trygguason. Ok nu er Siguallldi kom a fund konungs þa bydr hann konungi .ij. kosti. annan þann at hann kuetzst æigi leingr munu vera j borginne eda hann skuli gifta honum Astride dottur sina. Konungr suarar. þat hafda ek [88] ætlat at ek munda þeim manni gifta dottur mina er tignari væri firir nafnns sôkum en þu ert. en þo væri mer naudsyn a at þu værir j borginne ok skulu ver rada um ôll saman huat oss synizst radligt af at gera. Sidan hittir konungr dottur sina ok spyrr hana huersu henni liki sea radahagr at hon se gift Siguallda. ok uil ek at vid setim rad sem vitrliguzst at Siguallldi fære æigi ór borginne edr adrir Jomsuikingar þuiat ek þarf þeirra miog til landuarnar med mer. Hon suarar. þat er þer

satt at segia fadir segir hon at ek uillda alldri Siguallda æiga. enn þo skaltu honum æigi fra visa ok þo a þa leid sem ek segi firir. hann skal þat vinna til radhags vid mig at koma af landinu öllum sköttum þeim er þu hefir adr golldit Danakonungi adr hann komi mer j sama sæng. sa er annar kostr at hann fai komit Suæine konungi hingat sua at þu æigir ualld a honum. þetta mal berr konungr upp firir Siguallda. en hann letzst fuss til radhagsins vid konungs dottur. ok jattar hann þui sem þau hafua til mællt ok binda þetta fastmælum med ser ok skal fram koma firir hinu þridiu jol. enn ef þat er æigi þa skulu öll mal þeirra laus.

### Sigualldi sueik Suein konung.

141. Siguallde ferr nu heim til Jomsborgar eftir þetta. en hit sama uor ferr hann til Sealandz ok hefir .iij. skip ok hundrat manna ok hittir þar menn at male ok spyrr at Sueinn konungr er þar skamt a burt a uæizslu. ok er hann þikizst gloggliga spurt hafua huar Sueinn konungr er þa leggr hann skipum sinum at nesi nokkuru þar e. huergi voru aunnur skip j nand. þat var skamt fra bæ þeim er konungr var a uæitzslu ok hafde æigi minna lid en .viij. hundrut manna. þeir Siguallde snua skipum sinum ok lata fram horfua stafnna fra lande ok tæingia saman öll skip huert at stafni annars ok leggia allar arar j haræidar. Sidan sende Siguallde .xx. menn a fund konungs ok mællti at þeir skillde sua segia konungi at Sigualldi uillde naudsynliga hitta hann sem fyst ok hann væri sua siukr at hann væri at bana kominn. þat skulu þer ok segia honum at þar liggr honum ok sua stort vid sealfuum at vit finnumzst adr ek öndumz at naliga liggr vid öll sæmd hans ok lif. Ok nu fara sendimenn Siguallda a fund Sueins konungs ok ganga firir konung ok bera upp eyrendi sin. Ok er konungr heyrde þesse tijdendi þa ferr hann þegar til strandar ofuan med allt lid sitt. ok er Sigualldi verdr þess varr at konungr er þangat a læid þa ferr hann a þat skip er firrst er landinu ok liggr j rekkiu ok georizst allmattlitill. Hann mællti nu vid menn sina. þa er .xxx. manna eru komnir a þat skip er næst er lande þa skulu þer kippa af bryggiunni ok mæla sua at menn sökkui æigi skipunum undir ydr. ok get ek þess at konungr gangi j fyrra lagi. en þa er .xx. menn eru komnir a midskipit þa skulu þer kippa bryggiunne þeirre er mille skipanna er. Nu er fra þui at segia at konungr kemr þar ok spyrr at Siguallde er maattlitill ok liggr a þui skipi er yzst er. sidan gengr konungr a þat skip er næst er landi ok þar til er hann kemr a þat skip er yzst er. voru ok nokkurir menn med honum. en menn Siguallda fara nu med öllu sem

hann hafdi rad til gefuit. Ok nu er konungr kemr a þat skip er Siguallde liggr a med .xx. menn þa spurde konungr ef Siguallde heyrde[1] mal sitt. honum var sagt at hann hefde mal ok væri þo litit ok sem minnzstr mattrinn. Sidan gengr konungr at þar sem Siguallde la ok laut nidr at honum ok spurde huort hann munde nema mal hans edr huat tidenda hann kynne honum at segia þau er honum lægi sua stort vid at þeir fyndizst. Luttu at mer herra segir hann þa muntu helldr nema þat er ek segi þer þuiat ek gerumzst nu lagmælltr. Ok nu lytr konungr at honum. þa tekr Siguallde annarre hendi vm hals konungi en annarre vndir hondina. ok er hann nu æigi allmattlitill. Hann helldr nu konunginum fast ok sidan kallar hann at allir hans skiparar falli vid arar sem akafuazst. ok þeir geora suo roa j brott sem skiotazst. en lid konungs stendr nu eptir a ströndinne nema .xxx. manna foru med honum. Nu tekr konungr til orda ok spyrr Sigualldа huat firir var ætlat. ek þikiumzst þat sea segir hann at stortidendum mun sæta en þat ueit ek æigi til huers koma mun sea tiltekia. Sigualldi suarar. þu skalt fara til Jomsborgar herra med oss ok skal ek allt væita þer til virdingar þat er ek ma en menn ydrir skulu vera uelkomnir med oss. ok munu þer þa vita huat til huerskis kemr er þer komit til þeirrar uæitzslu er ver hofum þar til efnat. ok skulu þer öllu rada sem vera (a) ok allir til yduarr þiona sem verdugt er. ok þer skulu ver alla sæmd uæita þa er ver megum. þat munu ver nu þekiazst segir konungr or þui sem at rada er. þeir fara nu sidan til Jomsborgar ok þionar Siguallde nu konungi j ollu sem vera atti.

## Vidrtal konungs ok Siguallda.

142. Ok er þeir koma til borgarinnar þa geora Jomsuikingar j mote konungi [89] hina dyrligzstu ueitzslu ok kallazst allir hans menn vera. Sidan segir Siguallldi konungi huer sok til þess var at hann flutti konung ór landi. at hann letzst hafua bedit til handa honum dottur Burizlafs konungs. þeirrar meyiar er ek væit vænsta ok bezst at ser um huetuetnna. ok tökumzst ek þetta a hendr firir öngar sakir vid þig at þui at mer þikir ok uillda ek at þu mistir æigi þess kuonfangs er bezst er. þui gat Siguallde vid komit at allir Jomsvikingar sönnudu þetta med honum. Konungr spurde huat mærin het. Hon heitir Gunnhilldr segir Siguallde. en mer er föstnut onnur dottir konungs er Astridr heitir. ok er þo Gunnhilldr firir þeim sem vera a. en þer konungr skulut vera her j Jomsborg at ueitzslu en ek skal fara a fund konungs

[1]) r. hefde

ok vitea mala firir huornntueggia okkarn. ok munu þer nu verda at trua mer uel. skal ek ok uel gefuazst ydr. Ok eftir þetta ferr Siguallde a fund Burizlafs konungs med hundrat manna ok er honum þar uel fagnat.

### Sueinn konungr feck Gunnhilldar.

143. Nv lætr konungr gera agæta væitzslu j mot Siguallda. ok er þeir rædazst vid þa letz Sigualldi kominn til radahags vid Astride. letzst þui nu hafua til leidar komit sem til var mællt at Sueinn konungr var kominn j Jomsborg. ok mattu nu gera af honum huat er þu uill. En þau konungr ok Astridr radazst um vid Siguallda huat honum þætti tiltækiligazst vm þat mal er til konungs tok. Siguallde suarar. hugsat hefui ek æitt rad segir hann. ek uil at þer gefit honum Gunnhilldi dottur ydra ok gerit hans fôr sem virduligazsta hingat til landz. en hann vinne þat til radahags vid hana at hann gefui upp skatta alla þa er þer hafuit aatt at geallda her til. ok mun ek ganga med þeim ordum mille yduar ok mun ek sua fa flutt at þetta mun framgeingt verda sem ek hefui firir ydr rætt. Sidan ferr Sigualldi aftr med lid sitt ok hitti Suein konung. ok spyrr konungr huersu malin hafui gengit. Sigualldi suarar. þat er nu a ydru vallde herra. Huernn ueg er þess sagde konungr. Siguallde suarar. þat þa herra ef þer vilit gefua upp skatta þa alla er Burizlafr konungr hefir att at geallda Dana konungi en hann gifti ydr dottur sina. ok þikir honum þat ykkr vera mæire some at hann se æigi skattgilldr undir næinn konung þa er þer gangit at æiga dottur hans. megu þer a þat lita er allt er yduart eftir hans dag. ok er þetta ydr sæmd meire at þer æigit þann mag at æigi se skattgilldr þuiat þeir þikkia iafnnan minne konungar er skatt æiga at giallda. Talar Sigualldi vm þetta marga uega firir konungi ok skortir hann huorki til vit ne ordfære. ok sua kemr þessu mali at Sueini konungi þikir nu radligt med fortaulum Siguallda. ok er akuedin brudhlaupsstefnna ok skulu bæde senn brudkaupin. Ok er at þeirre stefnnu er komit þa fara allir Jomsvikingar til bodsins en Suæinn konungr er nu firir lidinu ollu. þat er hin virduligazsta uæitzsla at huiuetnna sua at þeir menn eru æigi j Uindlande at slika ueitzslu hefde set. þat er nu frasagt at hinn fysta aftan væitzslunnar at brudirnar fallda ser sitt sua at ogerlla matti sea þeirra yfirlit. en um morgininn eftir eru þær katar miog uel ok skuppla ekki. ok hyggr Sueinn konungr nu uandliga at þeirra yfirlitum þuiat hann hafde huoriga adr set ok hafde þat æina til er Sigualldi hafde sagt honum fra þeirra yfirlitum ok vænleik.

Ok sua er sagt at Sueini konungi litz allra betzst a þa brudina er Sigualldi a ok þikir su uera uænne en sin kona. ok þikir Sigualldi til lykta æigi hafua satt frasagt ok þikir hann nu hafua brugdizst ser vm vinfæingit ok ser nu allar hans radagerdir. ok færir ser nu j nyt allt þat er honum matti til virdingar verda j þesse ferd. ok hann a nu at taka Uindland at þridiunge eftir Burizlaf konung. Ok eftir þessa ueitzslu ferr Sueinn konungr j brott med Gunnhilldi konu sina ok hefir nu .xxx. skipa ok mikit lid ok margar gerssimar. en Sigualldi ferr til Jomsborgar med konu sina. ok fellr(!) nu mikit af login þeirra at þui sem verit hafde. ok finna nu allir Jomsvikingar at Palnatoki er daudr ok eru þar þo allir vm stundar sakir med litlu samþykki.

## Druckit erfi eftir Strutharalld.

144. Eige myklu sidarr spyriazst þau tidende ór Danmork at Strutharalldr er andadr fadir þeirra Sigualld a ok þorkels. en Hemingr brodir þeirra var a ungum alldri þa er þessi tidendi georduzst. ok þikizst Sueinn konungr skylldr til at lata gera erfui eftir Strutharalld jall ef synir hans hinir ellri kęmi æigi til þuiat Hemingr þotti ungr til þess at vera firir ueitzslunne. Nu sendir konungr ord til Jomsborgar Sigualld a ok þorkatle at þeir kæme til at drekka erfuit ok hittizst þeir þar allir saman ok hefde tilskipan at væitzslan yrde sem virduliguzst eftir þuilikann hofdingia sem var Strutharalldr. En þeir brædr senda þau ord j moti Sueini konungi at þeir munu koma til erfuis ok mælltu at konungr [90] skyllde til bua lata þat er þeir þyrfte til ueitzslunnar. en þeir kuoduzst allt til mundu fa ok badu hann taka af æignum þeim er þeir ætti eftir Strutharalld fǫdur þeirra. þetta synizst flestum monnum vradligt at þeir brædr fari þangat ok grunar at vinatta þeirra Sueins konungs ok Siguallda mune vera helldr grunn ok annarra Jomsvikinga þeirra sem þar voru med honum þo at þa leti huorir likuliga vid adra. en Sigualldi ok þeir brædr uilldu ekki annat en fara sem þeir hǫfdu heitit. en Jomsvikingar uilea ok æigi eftir vera ok vilia firir huernn mun fara ok fylgia þeim Siguallda til bodsins. Ok er at þui kemr þa fara þeir or borginne med myklu lide. þeir hafua .lxx. skipa annars hundrads ok þeir fara til þess er þeir koma til Sealandz þar sem Haralldr jall hafde firir radit. ok var Sueinn konungr þar firir ok hafde bua latit veitzslu sua at hon var þa albuin at ǫllu er þeir finnazst um uetrnatta skeid. þar er allmikill mannfiolde ok hin bezsta ueitzsla ok drekka þeir Jomsvikingar akafliga hit fysta kuelld ok færr a þa miog. ok þat sama finnr Sueinn konungr at þeir georazst nærr allir olódir

med þeim hætti at þeir voru allir sua malgir ok katir ok þikir litit firir at mæla þat er þeir uilldu giarna omællt hafua ef þeir uæri odruknir. Ok er konungr ser þetta þa tok hann til orda ok mællti sua. her er nu glaumr mikill ok fiolmenni segir hann ok uil ek til þess mæla at þer takit upp nokkura nyia glede til skemtonar monnum þat er leingi se uppi haft sidan ok mikils se vert. Sigualldi suarar. þat þikir oss vera upphafligt herra ok von at bezst verde firir set vm gledina at þu hefir fyst þuiat ver æigum allir til þin at luta. vilium ver ok allir þat samþykkia sem þer uilit vera lata til skemtunar monnum. Konungr suarar. þat væit ek menn geort hafua iafnan segir hann at godum ueizslum ok þar er manna ual er gott saman komit at menn hafua streingt hæit sier til skemtanar ok til agætis ok er ek þess fuuss at ver fræistum þess gamans. þuiat ek þikiumzst þat sea. sua myklu sem þer erut nu agætari Jomsvikingar vm alla nordrhalfu heims en allir menn adrir. þa er þat audsynt at at þat mun med meira moti vera er þer vilit upptaka vm heitstreingingar en adrir menn. ok mun þat fara eftir ödru at þer erut nu vmfram alla menn adra ok þat likligt at menn mune þat leinge at agętum hafua. enda skal ek þat ekki undan draga at hefia þetta gaman upp.

## Heitstreingingar.

145. Konungr steig þa fram ór sætinu ok mællti. þess streingi ek hæit at ek skal elltan hafua Adalrad Einglakonung af riki sinu adr lidnar se hinar þridiu uetrnætr edr felldan ella ok na sua riki hans. en nu attu Sigualldi segir konungr ok mælltu æigi minna vm en ek. Sigualldi suarar. þat skal vera herra segir hann at vm skal mæla nokkut. þess stræingi ek heit segir hann at ek skal heria j Noreg firir hinar þridiu uetrnætr med þui lide sem ek fæ til ok hafua ellt Hakon jall af riki sinu edr drepit hann ella. þridia kosti skal ek þar eftir liggia. Sueinn konungr suarar. nu ferr uel at segir hann ok er þessa uel hæittstreingt ef þu efnir þetta uel ok æigi er þetta litit. ok ver halfu hæilli er þu hefir þetta vm mællt ok efnn uel ok drek uel. Nu er þar til at taka þorkell hinn hafui er þu ert segir konungr. huers uilltu hæitstræingia. er þer ok æinsætt at lata þer verda stormannliga. þorkell suarar. hugsat hefui ek mina heitstræinging herra segir hann. fylgia Sigualida brodur minum ok flyia æigi fyrr en ek se a skipstafnn skutar hans. en ef hann berst a lande þa skal ek æigi flyia fyrr en ek se hann or fylkingu ok ek se merki hans firir mer. Uel er þetta mællt þorkell segir konungr ok at visu muntu þetta uel efnna ertu sua godr

dreingr. þu Bui hinn digri segir konungr nu attu ok vitum ver at þu munt stormannliga vm mæla. þess stræingi ek hæit segir Bui at ek skal fylgia Siguallda j þessa ferd sua sem mer endizst kallmenzska til ok flyia æigi fyr en færri standa upp en fallnir se af voru foruneyti ok hallda þo vid medan Sigualldi uill. Sua for sem ver gatum Bui segir konungr at mikilmannliga munde verda vm mællt af þinne hende. Nu attu Sigurdr kapa segir konungr at mæla vm eftir Bua brodur þinn. Skiot er min heitstreinging segir hann at fylgia Bua brodur minum ok flyia æigi fyrr en hann er liflatinn ef þess er audit. Sliks er uon segir konungr at þu mundir þui fylgia sem Bui brodir þinn. Nu attu Uagnn Akason segir konungr ok er oss þar mikit vm at heyra þin vmmæli þuiat þer langfedgar erut garpar myklir. Vagnn suarar. þat er min hæitstreinging segir hann at ek skal fylgia Siguallda j þessa ferd ok Bua frænda minum ok hallda vid medan Bui uill ef hann er lifs ok nokkur færr. ok þat læt ek fylgia minne heitstreinging ef ek kem j Noreg at ek skal koma j sæng Jngibiargar dottur þorkels leiru j Uik austr an hans vilia ok frenda hennar. þat er sagt at Biornn hinn bretzske uar j fôr med Jomsvikingum ok var æinkum felagi Uagnns Akasonar. þuiat þeir attu Bretland badir saman sidan Palnatoki anndadizst. Konungr mællti til Bearnar. huers stræingir þu heit segir hann. Beornn suarar. (at) fylgia [9l] Uagnne fostra minum sua sem mer endizst dreingskapr til ok vit. Ok nu eftir þetta slitr tali þeirra ok fara menn at sofua uonu bradara. Sigualldi ferr ok at sofua ok sofnar fast ok læinge ok vaknar sidan.

## Vidrtal konungs(!) ok Aastridar.

146. Nv talazst þau Astridr vid ok spyrr hon huort hann minntizst nokkut huers hann hefde heitstreingt vm kuelldit. En hann suarar ok letzst æigi muna at hann hefde neins heitstreingt. Æigi mun þer at þui verda sagde Astridr at þui at ek get til ok muntu þurfua vid bæde vitz ok hardfæinge. Huat skal nu til rada taka segir hann. þu ert vitr ok munt vilia god rad til leggia segir hann. Hon suarar. æigi væit ek huat til godra rada uerdr en til skal þo nôkkut leggia. þa er þu kemr til drykkiu a morgin þa vertu gladr ok katr þuiat Sueinn konungr mun muna allar hæitstreingingar ydrar at þui sem ek get til. ok þa er konungr rædir vid þig þa skaltu þessu suara at ôl se annar madr ok ek munda synu minna af hafua tekit ef ek væri vdrukkinn. en sidan skaltu spyria konung huat hann uill til leggia at efnd verde heitstreingingin. ok grip nu gulli a vit konunginn ok lat sem þu þykk-

izst þar oll rad eiga sem hann er þuiat hann þikizst þig miog stilltan hafua. ok spyr hue mǫrg skip hann vill fa þer til fararinnar. ok ef hann tekr þui uænliga ok kuedr þo ekki a huerssu morg skip hann uill fa þer. þa skaltu skora fast a hann sua at hann kuede þa þegar a huat hann mun til leggia skipanna. ok seg at þu munt morg vid þurfua þuiat Hakon jall hefir mikinn afla. firir þui skaltu sua skiott at gala vm þetta vid konung at ek hygg at nu mun honum minnzst firir þikia at hæita medan æigi er radin forin. en (er) forin er radin þa ętla ek at litit munir þu fa af honum vm lidit ef hann hefir adr ǫngu heitit þer. firir þui at huorngan ykkarnn sparir hann til ofara Hakon ne þig ok mundi honum þa betzst þikkia at huorrtueggi hlyti illt af.

## Raadagiord.

147. J þann tima vm morgininn er Sueinn konungr kemr til drykkiu ok Jomsvikingar var Sigualldi hinn katazsti ok færr mart til glede ok nu [minnizst Sueinn konungr allra heitstreinginga[1] þeirra upp þær er vm aftaninn hofdu verit ok þikir vm hit uænligsta ok þikizst nu hafua miog vm stillt ok komit upp j uadhornne vid Siguallda ok alla þa Jomsvikinga. Sigualldi suarar slikum ordum konungi sem Astridr hafde firir sagt ok frettir nu eftir huat konungr uill til leggia. þar kom vm sidir at konungr kuetz þat ætla þar er Sigualldi er buinn til þessarar ferdar at til munde .xx. skip. þa suarar Sigualldi. þetta væri gott tillag af æinum rikum bonda en ekki er þetta konungligt tillag. þa mællti konungr ok var nokkut sua brvnuolui ok spurde Siguallda. huersu mikils muntu vid þurfua þikiazst ef þu hefir lid eftir þui sem þu þikizst þurfua. Skiott er þat at segia .xl. skipa þeirra er oll se stór segir Sigualldi ok uel skiput. en ek mun fa þar ǫnnur j stadinn ok æigi verri þuiat æigi er uist huort oll koma hinu sǫmu aftr. Nu suarar konungr. buin skulu þessi þar er þu ert buinn til ferdarinnar Sigualldi ok radir þu til at helldr. Sigualldi suarar. þa er uel[2] ordit ok uegsamliga sem uon er at ydr. ok efnn þetta uel sem þer hafuit hæitit firir þui at nu skal þegar fara sem væitzsluna þrytr. ok fa þu nu ǫll skipin sua at æigi verde seinat[3]. en ek mun fa lid til ok badir vit saman. Ok nu þagnar konungr fyst ok verdr at stadr ok mællti þo. sua skal vera sem þu beidir en eige varde mig at sua skiott munde fǫrin radin. ok er þetta nokkuru fliotara at borit en ek hugda. þa mællti Astridr kona Siguallda. æigi er ydr þess uon segir hon at þer munit sigrazst a Hakoni jalli ef þer duelit forina sua at spyrizst j

[1]) *r.* innir Sueinn konungr allar heitstreingingar [2]) uil *Cd.* [3]) sein at *Cd.*

Noreg ok megi hann vid buazst ef nokkut er þess at þer farit þa osigr þo at æinge frett fari firir ydr. ok er þat æitt radit at bregda vit sem skiotazst ok koma jallinum sem mest a vuart. Ok nu lata þeir radna ferdina ok skipa nu til vm ferdina. Sua er sagt at Tofua dottir Strutharalldz jalls tekr til orda ok mællti vid Sigurd kapu bonda sinn. nu er suo sagde hon at þu munt fara j þessa fôr sem þu hefir ætlat. en þess uil ek bidia þig at (þu) efnn vel heit þin ok fylg sem bezst Bua brodur þinum ok læif eftir þig sem bezst ord. en ek skal bida þin sua at æinge madr skal koma j rekkiu mina medan ek spyr þig lifs. þa mællti hon til Bua. menn eru þeir .ij. sagde hon at ek uil þer gefua til þessarar farar þuiat þu hefir alla stund uel vid mig verit. ok hæitir annarr Hauordr hôgguande en annarr Astlakr holmskalli. en þui gef ek þer þessa menn at ek a þer gott at launa. en ekki skal oeinurd vid þat hafua at myklu helldr uillda ek þer gefuin hafua verit en þeim sem ek a nu. en þo verdr nu sua buit at verda. Bui þiggr nu menninа ok bad hana hafua þôk firir ok gefr hann þegar Astlak Vagnni frenda [92] sinum en Hauardr ferr med Bua.

## Hernadr Jomsvikinga til Noreghs.

148. Sva er sagt at þeir Jomsvikingar bua nu her sinn eftir ueitzsluna. þat var nærri uetrnattum. þa voru lidnir .v. vetr fra þui er Olafr Trygguason for af Vindlande. uar Olafr þa firir uestan haf er þetta var tidenda ok hafdi feingit Gydu ensku sem fyrr var ritat. Æinum uetri fyrr en Sueinn konungr ok Jomsuikingar erfdu fedr sina var Olafr Tryggvason skirdr j Sylingum. Ok þa er Jomsvikingar uoru albunir þa fara þeir or lande ok hafua hundrat storskipa. en þeir hôfdu allz halfan seaunda tôg annars hundrads ok voru j þui tale morg sma skip. Nu fara þeir ferdar sinnar ok gefr þeim uel byri ok toku Vikina j Noregi. þeir toku land sid vm aftaninn edr um nottina sua ok kuomu þar a vuart þuiat ekki hafde spurzst til fara þeirra adr þeir kuomu. Ok nu þegar er þeir kuomu vid land helldu þeir til bæiarins j Tunsbergi ok kuomu þar vm midnætti. Sa madr er nefndr til sôgunnar er Augmundr het ok var kalladr hinn huiti hann var lendr madr Hakonar jalls ok a ungum alldri ok virdr[1] mikils af jalli. hann hafde þa mest forrad firir bænum j Tunsbergi er þetta er tidenda. Ok nu er herrinn er kominn j bæinn þa taka þeir upp naliga allan bæinn ok drapu þar mart manna ok toku þar j fearhlutum allt þat er þeir mattu. foru æigi þornnsamliga[2] gerdu naliga allt þat er illt var. en þeir er firir voru

[1]) verdr *Cd.* [2]) *r.* þyrmsamliga

uðknudu vit þat at margir attu vid hðggum at taka ok uoppnnagang. Augmundr hinn huiti uaknar sem adrir menn vit þenna ufrid ok þeir er suofu næst j herbergium. hann tekr þat rad at þeir hlaupa j loft æitt þat er þeim þotti sem læingzst mundi mega veriazst j. þuiat æigi uoru faung a at þeir kæmizst til skogar. ok er þeir Jomsvikingar uerda varir vit þetta þa drifua þeir at loftinu alla uega ok hoggua j akafua. ok sia þeir Augmundr at þeir fa ekki varizst. myklu er herr sia hardfæingre ok akafare er þar er kominn. þat er sagt at Augmundr tekr þat rad at hann hleypr ór loftinu ofan ok a strætit ok kemr standande nidr. en Vagnn Akason var þar nærr staddr er hann kom nidr ok hoggr þegar til hans ok kemr a hondina firir ofan ulflid ok hefir Uagnn eftir hondina. en Augmundr kemzst a skog undan. en gullhringr hafde fylgt hendinne ok tekr Uagnn hringinn. Ok þegar er Augmundr kemr a skoginn þa nemr hann stadar þar sem hann heyrde mal þeirra j bænum ok vill vita huerir þar væri. þikizst hann vera ofhræddr ef hann visse æigi huerir þeir uæri ok kunni ekki fra at segia þa er hann hitti jarll slik meitzsl sem hann bæri a ser. ok verdr hann þess varr af þeirra akalle at þar eru komnir Jomsvikingar. sua nemr hann huerr a honum vann. Sidan ferr hann a merkr ok a skoga ok er þat fra sagt at hann liggr vti .vj. degr a skogum adr hann kemr til bygda. ok er hann kemr (til) manna þa hefir hann allan greida þann er hann þarf þuiat margir vissu skyniar a honum. Hann ferr nu þar til er hann kom a fund jarlls. en hann hefir þa verit a uæitzslu a bæ þeim er a Sola hæitir. Erlingr hellt væitzsluna hann var lendr madr jalls. þar var ok Æirekr son hans. Sua er sagt at Augmundr kemr þar sid vm kuelld ok gengr firir jall j hðllina ok kuedr hann virduliga. hann tekr þui uel. Augmundr var spurdr tidenda. hann segir. litil eru tidendi j fðrum uorum segir hann en georazst mætti at tidendum ekki allitlum. Huat þa segir jall. þat segir Augmundr at hersðgu kunnu ver at segia ydr at mikill herr er kominn j land austr j Uik ok ferr med hinum mesta ufride ok u(i)afnnade ok þat ætla ek þeim j skape at hallda sliku fram. Jall suarar. huat væit ek segir hann huort menn munu alldri hætta fyrr lygisogum j landinu en nokkurir hanga uppi firir þat. Æirekr mællti. æigi er a sliku sua at taka fadir segir hann ekki er þetta lygimadr er nu segir fra. Jall suarar. uæitzstu miog giorla huerr þessi madr er er þu fylgir hans mali sua miog. þat ætla ek segir Æirekr at ek vita nokkut til at þetta er Augmundr huiti lendr madr þinn ok oft hefir hann oss betr fagnnat en ver fðgnum honum nu. Æigi kenda ek hann segir jall. gangi hann hingat nu segir jall. Ok sua gerir hann. ok nu spyrr

jall. huerr Augmundr ertu segir hann. Hann segir nu til sin sua at jall kannazst vid hann. Uæit ek segir jall at þu munt satt[1] segia. edr huerr rædr firir lide þessu hinu mykla. Siguallde hæitir sa er firir rædr lidinu ok nefnndan heyrda ek Bua ok Uagnn j herinum. ok hefir ek þess nokkurar jartæignir at ek lyg æigi. ok bregdr nu upp handarstufnum. Jall suarar. hart ertu læikinn segir hann. edr huort vissir þu huerr þer veitti[2] þenna geig. Red ek at likendum herra segir hann. þeir mælltu þa er sa tok upp hringinn ok fylgde hondin. fenade þer nu Vagnn Akason sogdu þeir. ok þottumzst ek af þui vita at hann munde hafua særdan mik. ok þat kannadizst [93] mer af at sea herr munde kalladr vera Jomsvikingar. Sannfrodr muntu vm þat vera segir jall at þeim monnum sem þu hefir nefnnda. en þat er þo at segia at sonnu at þenna her munda ek sizst til uelia þo at ek skyllde vm alla kiosa. ok mun nu bæde þurfua vid vit ok hardfæingi segir jall.

## Tilbunadr orrostonnar.

149. Hakon jall sendir nu þegar menn nordr a Hladir til Sueins sonar sins at segia hersoguna. bidr hann safnna lide vm allan þrandheim ok bidr huernn fara er herfærr ma hæita ok skillde ma uallda ok bidr bua huert skip er nokkurr er uðxstr at. Gudbrandr hinn huiti var þa med jalli frendi hans ok vnni hann honum mikit. Ok eftir þetta ferr Hakon jall af uæitzslunne med þui lide sem hann fek þar. hann ferr ofan eftir Raumsdal ok safnnar lide. hann sendir Æirek son sinn þegar af uæitzslunne sudr vm Rogaland ok Sogn at safnna þar lide ok um Fialafylke ok vm Fiordu. ok sendir jall ord aullum monnum sinum þeim sem j uoru landinu. at þeir skylldu allir til hans koma med allt lid þat er þeir fengi til ok æigi þeir sidr er missattir voru vit hann. letzst hann nu uilia sættazst vit huernn þeirra er þa kæme a fund hans ok honum uillde lid uæita j þat sinn. Æirekr son Hakonar jalls ferr nordr j Naumudal ok safnar lide allt hit ytra vm eyiar. þat er sagt at Æirekr siglir eftir Hamrasunde at þar koma j mote honum herskip ok rædr þar sa madr firir er þorkell midlangr het. hann var vikingr ok j missætti vid Hakon jall. Æirekr tekr hann ordum er þeir finnazst. uilltu segir Æirekr koma a fund fǒdur mins þorkell med allt lid þitt ok uæita honum sligt sem þer megit þa munu þit sættazst ok auduellt mun þat firir hans hond. þorkell suarar. þenna kost uil ek ef þu bitzst j þui Æirekr at þetta uerde eftir þui sem þer segit. Ek skal þat annazst segir Æirekr. Ok nu rædz þorkell j suæit med Æireki ok

[1]) sagt *Cd.* [2]) vissi *Cd.*

kaupir sig sua j frid vid jall. Ok nu finnazst þeir Sueinn brædr ok fara til þess er þeir koma til þess stadar sem þeir Hakon jall ok Æirekr hỏfdu akuedit at þeir skylldu hittazst. ok þar finnazst þeir nu allir frendrnir Hakon jall Sueinn ok Æirekr sem herrinn skyllde allr saman koma. en þat er vijd[1] ey su er Hỏdd hæitir a Sunnmæri. þar kemr mart lendra manna. þeir hỏfdu mart skipa sua at menn segia at þeir hafui nær haft þremr hundrudum fedgarnir ok voru þa morg ekki stor. þeir liggia a Hiorungauoge ok bera nu rad sin saman ok liggia þar nu med allann flotann.

## Jomsvikingar komu a Hiorunga(uog).

150. Nv er at segia fra Jomsvikingum at þeir fara sunnan yfir landit oþornnsamliga[2]. heria þar sem þeir koma ok ræna. hỏggua strandhỏg stór ok drepa mart manna en brenna bęi ok fara herskillde yfir landit. ok flyr undan huetuetlnna þat er komazst ma. Nu koma þeir þar er Ulfuasund heita þat er nordr vit Stade ok spyria huoregir glỏgt til annara. ok sidan sigla þeir firir þat torlæide .vj. uikur sæfuar at æinguar eyiar eru firir vtan. þeir koma sidan j hỏfnn þa er j Hereyium hæitir ok liggia þar ollum flotanum. Ok er þeir eru þar komnir þa þikiazst þeir þurfua at afla ser slatra ok annara uista. ok er sagt at Uagnn Akason ferr med skæid sina til eyiar þeirrar er Hỏdd hæitir ok uæit Uagnn æigi at Hakon jall liggi a uǫginum(!) skamt fra honum. hann leggr uit eyna. ok ætla at fa ser strandhỏgg ok ganga upp a eyna. Nu berr sua til at þeir hitta einn mann at mali sa rekr firir ser kyr .iij. ok geitr .xij. Uagnn spyrr þenna mann at nafnne. hann nefnndizst Ulfr. þa mælir Uagnn vid sina menn at þeir take kyrnar ok gæitrnar ok hoggui a skip þeirra. ok sua ef þer finnit her flæira fe. Huerr er sia madr er firir skipunum rędr segir Ulfr. Uagnn hæitir sea ok er Akason. Sua þætti mer sem uera munde stærri slatra fỏngin segir Ulfr ok þo æigi allangt j brottu fra ydr Jomsuikingum. ok er ydr þat helldr frami at uænta þar til en hỏggua kyr firir mer edr gæitr minar. Segþu oss ef þu ueitzst nỏkkut til Hakonar jalls segir Vagnn ok muntu þa undan koma kum þinum ok geitum. edr huat ueitzstu tidenda at segia oss. Ulfr suarar. her la Hakon jall j gærkuelld firir jnnan eyna Hỏdd. ok munu þer þegar fa drepit hann er þer vilit þuiat hann bidr þar lids sins. þu skalt hafua keyft j frid allt fe þitt ok gak a skip med oss ok seg oss þangat leid. Sua hæfir æigi segir Ulfr. ek uil æigi beriazst segir hann j mot jalli þuiat þat samir æigi. en visa mun ek ydr læid

[1]) r. vid [2]) r. oþyrmsamliga

sua at þer hittit a uoginn ef þer uilit. Uagnn suarar. þu skalt fara ef þu uillt ok sua þo at þu vilir æigi. Vlfr suarar. ef ek gæing a skip med ydr þa uil ek æiga skilit at mer se fylgt til landz þa er þer siait at þer munit hitta uoginn. Nu gengr hann a skip med þeim Uagnne ok er þat sama dags. ok fara þegar j Hereyiar ok segia Siguallda ok ǫllum Jomsvikingum þessi tidende. ok taka nu vid at biazst sem þa er þeir munde til hins [94] hardazsta bardaga fara ok uilea vera vidbunir ǫllu þott Ulfr taki auduelliga aa. ok er þeir eru bunir þa taka þeir atrodr at uoginum. þat er sagt at Ulf grunar nokkut at þeim munde synazst flæire skipin a uoginum en æitt sua sem hann hafde sagt þeim. ok þegar er þeir sea fram koma skipaflota Hakonar jalls þa hleypr Ulfr utanbordz a sund ok uill leggiazst til landz ok uill æigi bida at þeir launade honum sitt starf. ok er Vagnn ser þetta þa uill hann at uisu launa honum ok sendir honum sending gripr upp spiot æitt ok skytr eptir honum ok rekr a honum midium ok lætr Ulfr þar lif sitt.

### Her buaz þeir til bardagha.

151. Sva er sagt at þeir Jomsvikingar roa nu a uoginn med allan her sinn ok sia nu at allr er uogrinn þakidr inn fra þeim af skipum. þeir fylkia nu lide sinu. En j odru (lagi) er þat at segia at Hakon jall ok synir hans sia nu huar þeir eru komnir Jomsvikingar ok buazst til orrostu. Fundr þessi var a Hiorungauogi vm uetrinn eftir jol. þat uar halfum þridea tige uetra eftir fall Haralldz grafelldz. sea orrosta hefir miog fræg verit. Nu leysa þeir skip sin or tæingslum ok ętludu til huerir er huerium skulu j moti beriazst. En suo er frasagt at austr horfui botninn a Heorungauoge en minnit j uestr. þar standa stæinar þrir er Hiorungar hæita ok er æinn nokkuru mestr ok er vid þa stæina uogrinn kendr. en sker liggr j uoginum midium ok er jafnnlangt alla uega til landz fra skerinu til botz ok tueim megin gegnnt. en ey su liggr firir uoginn nordr er Primsigd hæitir. en Harund liggr firir sunnan fiordinn en þar er Harundarfiordr inn fra.

### Skipan Siguallda til bardaga.

152. þeir Jomsuikingar skipa nu þann ueg j fylkingar skipum sinum at Sigualldi leggr skip sitt j midian flok. þorkell hinn hafui brodir hans er þar a odru skipi. en Bui ok Sigurdr kapa brodir hans uoru j hinum nyrdra fylkingararmi. en Uagnn Akason ok Beornn hinn bretzski uoru badir saman j hinum eystra fylkingararme. en þeir Hakon

jall ætlar(!) til j ôdrum stad huerir beriazst skulu j moti þessum kauppum af þeirra lide. ok skipar sua til j sumum stôdum at þrir se ætladir j moti einum Jomsuikinga. Ok munu ver þar fyst til taka fra at segia er þeir ætludu Suein Hakonarson j mot Siguallda. en þeir skipa .iij. monnum j mot þorkatle hinum hafua brodur hans. ok er æinn Yriarskeggi annar Sigurdr stæiklingr nordan af Halogalande þride þorir hiortr. ætladir uoru tuæir ok (j mot) Siguallda med Sueini. þar var Gudbrandr ór Daulum ok Styrkarr af Gimsum. j moti Bua var þorkell midlangr ok Hallsteinn kellingabani af Fliodum ok hinn þride þorkell læira hann uar lendr madr. en j mot Sigurde kapu var ætladr Arnnmodr ór Aunundarfirde ok Arnne son hans. j mote Uagnne Akasyni uar ætladr Æirekr Hakonarson ok Erlingr af Skugga ok Augmundr hinn huite. ok atti sa hinn same at giallda Uagne handarhôggit sem fyrr uar fra sagt. j mote Birnne hinum bretzska var ætladr Einarr hinn litle lendr madr ok Halluardr uppsia ok Hauardr brodir hans af Flydrunese. En Hakon jall skal uera laus vid læingstum ôngum j mote æinkum ok skal hann styrkia allar þeirra fylkingar ok rada firir lidenu. þat er sagt at fiorir islenzskir menn hafui verit med þeim fedgum Hakoni ok Æireki ok var þar æinn Æinarr er þa var kalladr Skialldmeyiar-Æinarr. hann var skalld jalls ok hafde þa litinn soma af jalli hea þui sem verit hafde. Æinarr hafde þat miog vit ord at hann munde hlaupa or lide Hakonar jalls ok til Siguallda. ok þa quad hann visu þessa.

Georda ek uig vm virda
uidis illrar tidar
þat vann ek medan adrir
orua uedurs of suofu.

katr er þrotz þar er þotti
þingsætis fe betra
meidr sparir hodd vid hrodri
huerr en skalldit verra.

Enda skal ek at visu fara til Siguallda sagde hann. æigi mun hann minna soma gera til min en Hakon jall. hleypr sidan af skipe jalls ok a bryggiurnar ok gerir a sig brottfysi sem mesta. En er hann hleypr j brott ferr hann þo æigi skeleggliga ok uill reyna jall. ok er hann kemr a bryggiurnar þa quad Æinarr adra visu.

Sækium jarll þannz auka
ulfs verdr þorir suerdum
hlôdum vid bord a barda
baugskiolldum Siguallda.

drepr æigi sa suæigir
sarlinnz er gram finnum
rand berum vt a andra
endils vid mer hendi.

Ok nu finnr Hakon jall at Skialldmeyiar-Æinarr er j brottbuningi ok kallar a hann at hann gangi til mals vid sig. ok hann gerir sua. Sidan tekr jall skalir godar er hann atti þær uoru geruar af brendu silfri

gylltar allar. þar fylgdu met tuau ok var annat af silfri en annat af gulli. þar var geort a huorutueggia metinu mannz likneskia. ok hetu þat hlutir sem fornnmonnum uar tijlt at hafua ok fylgde þessu nattura. ok til allz þess er jalli þotti myklu male skipta þa hafde hann þessa hluti. Ok þui var jall uanr at leggia þessa hluti j skalirnar ok kuat a huat huorr skillde merkia ok iafnan gengu æinn ueg hlutirnir at sa kom upp sem jall uillde ok var sa hlutrinn okyrr [95] j skalinne sua at glamrade vid. Ok þessa gripe gefr Hakon jall Æinare ok verdr hann vit þetta gladr ok katr ok setzst nu aftr af brotferdinne. ok af þessu færr hann nafnn ok er kalladr Æinarr skalaglam. Sa madr var þar annarr jslennzkr er Uigfuss het ok var son Uigaglums. þordr het hinn þride ok var kalladr auruaund. hinn fiorde var þorlleifr skuma hann var son þorkels hins audga uestan or Dyrafirde or Aluidru. þat er sagt fra þorlleifui skumu at hann ferr j skog ok hoggr ser kylfu mykla ok ferr sidan þar sem suæinar gera ellda. hann suidr kylfuna vtan ok hefir hann hana j hendi ser ok sidan gengr hann a fund Æireks. ok ganga nu ofan til skipanna ok þar er þa Æinarr skalaglam. Ok er Æirekr ser þetta þa spyrr hann. huat skal klumban þorleifr segir hann su hin mykla er þu hefir j hendi þer. þa suarar þorleifr a þa læid.

Hefuig j hende
til hǫfuds gerua
bæinbrot Bua
baul Sigvallda
vo vikinga
uǫrnn Hakonar.
sia skal verda
ef ver lifum
æikikylfua
oþaurf Dǫnum.

Nu fara þeir fiorir hinir islenzsku menn a skip med Æireki. þa tok Uigfuss Uigaglumsson ok huatti spiot er hann atti. ok adr þeir berdizst quad hann visu þessa.

Oss er læikr en lauka
liggr heima uinr fæimu
þraungr at Uidris uedri
uandar godr firir handum.
blyss kuet ek hel a bossa
hann ugntir ser annars
vifs vndum uǫrmum bęgi
ver skreytum spiorr neyta.

Uel er þetta kuedit segir jallinn.

## Orrosta Jomsuikinga ok Hakonar jarls.

153. Ok eftir þetta leggiazst at fylkingar þeirra at þeirre skipan sem nu var frasagt. ok er sagt at Hakon jall var j fylkingu med Sueine syni sinum j moti Siguallda. ok Sigmundr Brestisson var skipstiornnarmadr ok suæitarhofdinge j lide jalls. þar tekzst hinn hardazsti bardagi

ok er huorigum hugar at fryia ne soknar ok framgongu. ok suo er sagt at huorigir lata undan siga sin skip firir ødrum þeir fedgarnir ędr Sigualldi. Ok er þetta er tidenda þa sia þeir at Bui hefir gert mikinn bug a fylkingu þeirre er j mot honum var j hinn nyrdra fylkingararm. letu þeir undan siga skip sin er vid hann bǿrduzst ok þotti þeim betra mundu firr honum. en hann let þo hallda eftir þeim ok fa þeir illt af honum. þat sea þeir at jafnnlæikit er med þeim Vagnne ok Æireki ok eru þeir j hinn sydra fylkingararm. ok nu lætr Æirekr fara þadan æitt skip þat er hann er sialfr a ok Suæinn brodir hans annat skip ok nu fara þeir brædr badir ok leggia at Bua ok beriazst vid hann ok fa rett fylking sina ok æigi betr. En Hakon jall berst medan vid Sigualld a. Ok er Æirekr kemr aftr j fylking sina þa hefir Vagnn gert mikinn bug a lide Æireks. ok hafua þeir Uagnn gengit j gegnum fylkingar ok sua lagt fast at þeim at sundrskila hafua farit skip þeirra Æireks. ok verdr Æirekr nu ræidr miog er hann serr þetta ok leggr nu Jarnnbardanum hardfæingliga at skæidinne Vagnns. stinga þeir stǿfnum saman ok beriazst nu af nyiu ok er þat hinn hardazsti bardag(i). Ok er þat sagt at þeir Uagnn ok Astlakr holmskalli hlaupa a skip Æireks Jarnnbardann ok ganga sidan med sinu borde huorr. ok ma sua at kueda at þeir hǿggui a tuęr hendr. ok sua rydiazst þeir vm at lidit hrǿkkr undan þeim. Æirekr ser þetta at þessir menn eru sua akafir at æigi ma læingi sua buit hlyda ok þarf skiott til rada at taka. Astlakr var madr skǿllottr at þui er sagt er ok hefir hann þo æigi hialm a hǿfde um daginn ok etr hann fram berum skallanum. ok er heiduidre a ok gott uedr ok varmt ok fara margir menn af klædum ok hafua ekki nema herklæde æin firir hita sakir. Nu eggiar Æirekr lid sitt j moti þeim ok sidan hǿggua menn til Astlaks j hǿfut honum bæde med suerdum ok ǿxum ok rykr ór skallanum vid hoggin en ekki bitr a. ok þetta sia þeir nu at hann gengr hart fram huat sem firir er ok rydst vm hit sama sitt hoggr ofuallt til beggia handa. þat er sagt at Uigfuss Uigaglumsson tok þat rads at hann gripr upp nefstedia einn mikinn er þar la ok rekr nefit j hǿfut Astlaki. en uit þui atti hann ekki gert ok sǿkkr stedianefit j skallanum sua at j hæilanum nam stadar. ok fell hann þegar daudr nidr. En Uagnn gengr med ǿdru borde ok hǿggr a tuær hendr ok uæitir morgum manni bana. ok er þessu ferr fram þa hleypr þorleifr skuma at Vagnne j mot honum ok lystr til hans med æikikylfunne ok kemr a hialminn uppi ok springr undir. ok stakar Vagnn firir at honum þorleifi ok stak suerdinu til hans ok

stiklar Vagnn af Jarnnbardanum ok a skæid sina. ok nu berst hann akafazst ok menn hans eftir þetta Ok sua hôfdu þeir Holmskalli þo hrodit Jarnnbardan at Æirekr let þa þegar þangat fara menn af ôdrum skipum unnz hann er allskipadr. ok nu er hin hardazsta hrid med þeim Uagnne ok Æireki. Ok nu sia þeir Hakon ok Æirekr at fylkingar þeirra er(u) sumar at lande komnar. ok verdr nu huilld nôkkur a bardaganum. ok hittazst þeir nu allir saman fedgar. Ok nu mællti Hakon. [96] þat þikiumzst ek sea segir hann at bardaganum hefir miog hallat a oss. var þat ok satt segir hann at ek hugda til þess verst at beriazst vid þessa menn af ollum hermonnum þeim sem ek vissa til. enda reynizst mer sua at mer þikia þessir menn ôngum likir audrum monnum at æigi se þessir verri uidræignar. ok þat kann ek segia at æigi man oss sua buit hlyda ef æigi er rads læitat. ok skulu þer her vera eftir med herinum þuiat oradligt er at forystan fari ôll a brott ef þeir leggia at. en þess er alldri oruænt. en ek mun ganga a land upp med nokkura menn.

## Blotskapr Hakonar moti Jomsvikingum.

154. Nu gengr Hakon jall upp a eyna Primsigd. en þar var môrk mikil j eyiunne ok þar gæingr hann j riodr æitt. ok þar leggzst hann nidr ok horfir j nordr ok mælizst nu firir sem honum þotti uænligazst. ok þar kemr hans bænarordum at hann skorar a sinn fulltrua þorgerde Hôrdabrude. en hon daufheyrizst vid. þa þikizst hann vist uita at hon mon honum reid vera. Hann bydr henni at þiggia af ser j blotskap æina hluti ok ymsa. en hon uill ekki þiggia. þa bydr jall henni mannblot. ok nu þikir jalli uuænkazst taka vm sitt rad ef hann fær æigi órskurd um sitt mal. tekr nu ok eykr bodin vid hana. ok þar kemr at hann bydr henni alla menn til blota at hon skyllde um alla kiosa nema um sialfan hann ok Æirek son hans ok Suæin. En jall atti son þann er Erlingr het ok var .vij. uetra gamall ok hinn efniligzsti. ok nu verdr þat vmsidir at þorgerdr þa blotit at honum ok kyss Erling son hans. Ok er jalli þikia heyrdar vera bænir sinar ok heit þa þikir honum uænkaz taka vm. ok lætr sidan taka suæininn ok ferr j hond Skofta þræli sinum. ok uæitir hann honum bana med þeim hætti sem Hakon uar uanr ok hann kennir honum rad til. Ok eftir þetta ferr jall til skipa sinna ok eggiar allt lid sitt af nyiu. ok væit ek vist at oss mun sigurs audit verda segir hann. ok gangit fram at betr þuiat ek hefui hæitit a þorgerdi Hôrdabrude ok þær badar systr ok munu

þær æigi bregdazst nu helldr en[1] fyrr. Ok nu hefir huilld verit a bardaganum medan Hakon jall hafde farit at blota. hafua nu huorirtueggiu buizst vid bardaganum sem uænligazst þotti. Ok nu gengr jall a skip ok leggia þeir at i odru sinne. ok er Hakon þa j mot Sigvallda ok gengr nu fram hit hardazsta j trausti þorgerdar ok Jrpu. Ok þat er nu sagt at vedrit tekr at þykna ok dregr upp sky ok helldr skiott ór nordre. þa var sua komit deginum er þetta var tidenda at helldr tok vt eyktina. ok nu dregr skiott upp skyit sua at alskyiat var. ok þat þui næst at fylgir el. ok sua þotti þeim sem bæde fylgde elldingar ok ræidarþrymur. en allir Jomsvikingar attu at uega j mot elinu. En elit var med sua myklum bysnum ok vedrit þat er fylgde at ekki fengu menn betr en stadit. en menn hafua farit af klædum um daginn ok var monnum heitt. en nu var uedrit odruuiss ok tekr nu at kolna uedrit. ok sottu þeir þo fryiulaust bardagann. þat er nu sagt at Hauardr hȯgguande forunautr Bua ser fystr manna þorgerde Hordabrude huar hon er j lide Hakonar jalls ok sidan margir adrir. ok þat sia þeir med þa er linar nokkut elinu at ór flaug[2] at þui er þeim syndizst af hueriunı fingri flagdsins. ok vard madr firir j huert sinn sua at bana hafde. Ok þetta ser nu Sigualldi ok hans felagar ok tekr nu til orda þuiat Bui ok hans lid sękia nu bardagann j akafua er a laust elinu. æigi þiki mer nu sem uer æigim vid menn æina at beriazst helldr vid hit uersta trȯll. ok mun þat þikia nokkuru uerra ok mannuandara at ganga j mot hinum uestum traullum en þo er æinsætt at ver halldimzst vid sem bezst.

## Hakon jarl feck sigr.

155. þat er nu at segia fra Hakoni jalli þegar hann sa at elldi nokkut elit þa tekr hann ok hæitr a þorgerde Hordabrude ok Jrpu systr hennar. Nu tekr at nyiu at rokkua at elinu vit þetta ahæit. ok er þetta myklu meira ok hardara ef sua ma vera. ok j þessu elinu hinu sidarra ȯnduerdu þa ser Hauardr hogguande at .ij. konur eru komnar a skip Hakonar ok hȯfdu æitt atferlli badar sligt sem hann hafde fyrr set. Ok þa mællti Sigualldi. nu uil ek flyia segir hann ok geori sua allir minir menn firir þui at nu er vid traullin at beriazst en æigi uit mennina. er nu ok þui uerra en fyr at nu eru .ij. trȯllin en þa uar æitt enda skal nu æigi læingr uit halldazst. ok er þat til botar at eigi flyium uer firir monnum þo at ver halldim undan ok streingdum ver eigi þess heit at beriazst uit trȯllin her j Noregi. Ok eftir þetta snyrr

[1]) hin *Cd.* [2]) flaugt *Cd.*

Siguallde undan sinu skipe ok kallar a þa Vagnn ok Bua at þeir skyllde flyia sem skiotazst. Ok j þui bile er Siguallde hafde leyst skip sitt fra flotanum þa hleypr þorkell midlangr [97] af skipi sinu ok a skip Bua ok hǫggr til hans ok berr þetta allbradan at. hann hefir suerd j hende ok hǫggr af Bua hǫkuna ok uorrina alla nidr j gegnum sua at þat fell nidr j skipit ok ór honum hrutu tennurnar uid hǫggit. þa mællti Bui er hann fek sarit. uestnna mun nu þikia hinne dǫnsku at kyssa oss j Borgundarholmi þo at ver komim þangat. Bui hǫggr j mot til þorkels ok var hállt a skipinu af blode ok fell hann þorkell er hann uillde forda ser ok kemr hǫggit a hann midiann ok hio Bui hann j sundr j midiu j .ij. hlute uit skipsbordinu. Ok eftir þenna atburd þrifr Bui upp æitt bryntrǫll akafliga stortt ok eggiar nu sina menn til framgongu ok hǫggr nu til beggia[1] handa ok sua hart ok akaft at allt hrǫkkr undan þat er firir uerdr. Ok er Hakon jall ser þetta þa hæitr hann nu a alla suæitarhǫfdingia sina at þeir skylldu radazst j moti Bua ok reka þenna uiking af hondum ser. en þeir voru flestir at mæddir uǫru af langri soknn ok þotti betra firr Bua en nærr. þuiat þeim þotti ekki frynligt at eiga nattbol undir bryntrollinu þui er Bui for med. Nu ser Hakon jall at æingi uerdr til þessa þrekuirkis j moti Bua. en hann gengr af ser sem mest ok gerde stor slǫg a lide jallsins. þa heitr hann a Sigmund Brestisson at hann legde skipe sinu at Bua skipe ok drępi þenna spelluirkia. Sigmundr suarade. będe er nu jall at ek a ydr margan soma at launa er þer hafuit mer ueittan enda uili þer nu hafua mig j hina mestu hęttu er ek skal radazst j moti Bua. Hakon jall uelr nu hitt bezsta lid ok hit hardazsta a skip Sigmundar ok bidr hann nu uel framganga. sidan leggr hann skipe sinu at Bua skipe ok tokzst nu med þeim ok lide þeirra hin hardazsta soknn. Bui var stórhǫggr miog þuiat hann uar rammr at afli ok hne margr madr firir honum ok let sitt lif. Sigmundr eggiar nu miog sueitunga sina at uæita uppgongu a skip Bua .xxx. manna saman fram a saxit. Bui ok hans felagar redu snarpliga j moti ok tokzst þar hǫrd soknn ok snorp orrosta. þeir mætazst brátt Bui ok Sigmundr ok æigazst vid uǫpnaskipti. er Bui madr sterkari en Sigmundr fimari ok uigkęnni. Sigmundr skiptir enn uopnum j hondum ser þuiat hann gerir ser badar hendr iafnnfimar til uigs at hafua. en vid gatu fair menn geort edr ǫngir. ok j þessi suipan hǫggr Sigmundr hond af Bua j ulflid ok brátt adra. ok er Bui hefir hendr badar mist þa stingr hann handarstufunum j hringa a gullkistum sinum er fullar uoru af fe. hann mællti þa ok kallade þa hátt. firir

[1]) badra *Cd.*

bord allir Bua lidar. Nu hleypr Bui firir bord ok kom alldri upp sidan. ok uinnr Sigmundr þenna sigr til handa Hakoni jalli. þetta er sognn Hallbiarnar hala hins fyrra ok Steingrims þorarinssonar ok frasǫgnn Ara prestz froda þorgilssonar. Ok nu skilr þenna bardaga med þui sem nu var sagt. þakka þeir fedgar nu Sigmundi Brestissyni þenna sigr er nu uar unninn.

## Sigualldi flydi or orrostu.

156. Nv er þar til at taka at Sigualldi dregzst ut fra flotanum ok gade æigi þess at Bui uar firir bord stiginn ok kallar a þa Uagnn ok Bua at þeir skylldu flyia allir sem hann. En Uagnn suarar ok quad visu.

Sigualldе hefuir settda
sealfua oss vid kylfu
en fafrodigr flyde
for heim til Danmerkr.

hyggr j fadm at falla
fliott uinkonu sinni
en firir bord hit breida
Bui gek med hugrekki.

þat er sagt at Siguallda uar ordit kallt j elinu ok gripr til ara ok uill lata ornna ser en annarr madr settizst vid stiornn. ok er Uagnn hafde quedit uisuna ok suarat Siguallda þa fleygir hann spioti eftir Siguallda ok ætlade at hann munde vid stiornina. en sa hlaut sendingina er styrde ok kom a hann midiann ok j gegnum hann. þa mællti Uagnn til Siguallda at hann skyllde flyia manna armazstr. þorkell hinn hafui brodir Siguallda for j brott þegar Sigualldi uar farinn ok hafde .vj. skip. ok Sigurdr kapa þuiat Bui brodir hans var firir bord stiginn ok var ekki hans þa vid kostr ok þurfti ekki hans at bida. ok þikiazst þeir Sigurdr ok þorkell hafua þui ent sinar heitstreingingar. ok fara þeir nu allir sudr til Danmerkr ok hǫfdu þeir a brott med ser fiogur skip ok .xx.

## Fangadir Jomsvikingar.

157. Sva er sagt at allt þat er af komzst þeim skipum er eftir uoru hlaupa a skeidina til Uagnns ok uorduzst þeir allir saman hit hardazsta þar til er myrkt var. þa slæit bardagann ok stodu þa enn margir upp a skæidinne Uagns. ok vard þeim Hakoni jalli dagfatt til at leita um skipin huat lifuęnt væri ok letu hallda a uǫrd um nottina at æinge madr kæmizst j brott af skipunum þeirra Jomsvikinga. ok toku fra skipunum ǫll rædin. Ok er þetta var geort þa roa þeir til landz ok skiota yfuir sig tiolldum ok þikiazst nu eiga sigri at hrosa.

Ok [98] sidan uega þeir haglkornnit ok uilia reyna matt þeirra systra. ok er þat sagt at haglkornnit uegr huert eyre. ok eftir þetta eru bundin sar manna ok uaka þeir um nottina Hakon jall ok Gudbrandr ór Daulum.

## Drap Gudbrandz.

158. Nv er at segia fra þeim Uagnne ok Birnne hinum bretzska at þeir talazst vid huat þeir skulu rada taka. ok er annathuort segir Uagnn at uera her a skipunum til þess er dagar ok lata oss handtaka edr hinn annarr at leggia at lande ok gera nokkut illt a þeim ef ver megum ok leita sidan undan ok forda ser. ok þat taka þeir rads allir saman at þeir taka siglutred ok rana ok flytiazst a þui allir saman nærr .lxxx. manna. ok um sidir komazst þeir j skerit þat er a uoginum var ok þottuzst þa komnir a meginland. ok voru þa miog farnnir margir mennirnir ok þar letu .xx. menn lif sitt um nottina þeir er sarir uoru en allir uoru miog þrekadir. ok verdr af þessu ekki farit læingra. þat er sagt at þegar er Siguallde er undan flyinn at þa tok bratt af elit ok suo elldingar ok reidarþrumur. ok er þa uedrit kyrt ok þo kallt um nottina er þeir uoru j skerinu ok þar eru þeir til dags ok til þess er liost uar ordit. þat er sagt at þa er skamt var til dags at menn jarlls voru þa enn at binda sar sin ok hofdu at verit alla nottina ok hǫfdu þa miog lokit. ok nu heyra þeir at stræingr gall ok ǫr flygr af skipinu þui sem Bui hafde a uerit ok kemr ǫrin undir hǫnd Gudbrande frenda jalls ok var þegar daudr. ok þotti jalli þat hinn mesti skade ok sidan bua þeir um lik hans. Nu er þat sagt at einn madr stendr hea tialldskǫrum er Æirekr gengr j tialldit ok Eirekr spyrr hui hann stæde þar. edr hui ertu suo yfirlitz sem þu ser at bana kominn. ertu sárr. þar var þorleifr skuma. Æirekr mællti. þat kann ek sia segir hann at þu ert at bana kominn. þorleifr suarar. æigi munda ek vita segir hann nema blodrefill hans Uagnns kæmi vid mig littat þa er ek laust hann kylfuhǫggit. Jall mællti. illa hefir þinn fadir halldit a landinu vt ef þu skalt her deyia. Ok þetta heyrir Æinar skalaglam sem jall mællti. þa vard honum visa a munne.

| | |
|---|---|
| þat kuad ullr at æri | aullungis hefir illa |
| unduiggs firir haf sunnan | eybaugs ef skal deyia |
| þa er a sæima sǫre | uer hyggium þat uigea |
| sarellda spaur uoru. | ualldr þinn fadir halldit. |

Ok nu fellr þorleifr þegar daudr nidr. En þat er sumra manna sognn þeirra er frodir eru at þorleifr skuma hefde um daginn j bardaganum

lostit Hauard hôgguanda sua at badir fætr hans uoru lamdir þa er hann var adr sua illr uidreignnar at naliga hio hann allt þat er firir honum uard. Ok nu um morgininn er liost var þa fara þeir at kanna skipin menn jalls ok koma a þat skip er Bui hafdi att ok uilldu uita huerr skotit hafde ok þotti sa illz firir uerdr. Ok er þeir koma a skipit þa finna þeir þar æinn mann þann er lif hafde en þat var Hauardr hôgguande er uerit hafdi fylgdarmadr Bua. en hann uar sarr miog sua at lamdir uoru badir fætr hans firir nedan kne. en þeir Sueinn Hakonarson ok þorkell leira ganga þangat til hans. Hauardr spurde þa huor(t) nôkkur sending hefde komit j nott a landit. þeir suorudu. at visu kom sendingin eda huort sendir þu? Hann suarar. ekki skal þess dylia at ek senda eda huart uard nôkkurum manni mein at er ôrin nam stadar. Bana fek sa af segia þeir er a kom aurin. Ja segir hann minna uard þo at en uera skyllde. en huerr uard firir. Gudbrandr hinn huiti segia þeir. Ja segir Hauardr þess vard nu æigi audit er ok uillde hellzst. jallinum hafda ek ętlat. en þo skal nu uel yfir lata at sa vard nokkurr firir at ydr þotti skadi at. Æigi er a at lita segir þorkell. drepi hund þenna sem fyst. Ok hôggr sidan til hans ok eftir þat hlaupa menn at honum ok vinna a honum ok særa hann til þess er hann deyr. ok er þetta var unnit fara þeir til landz ok segia jalli huernn þeir hofdu drepit ok kuodu hann þo eigi medalfarbauta vera. sôgduzst þat æitt heyrt hafua af hans ordalage ok kuoduzst þat hyggia at eigi munde skaplynde vm bæta.

## Bundnir Jomsvikingar.

159. Fra þui er nu at segia at þeir Hakon jall sea menn j skerinu ok bidr jall nu roa eftir þeim ok taka þa hondum georualla ok færa ser ok letz uilia rada firir þeirra liflati. ok sidan ganga menn jalls a skip ok roa til skersins. ok var þa będe um þa menn er j skerinu (voru) firir at fair uoru lidfærir bæde sakir sara ok kulda enda er þess æigi getit at uôrnn þeirra yrde þa mikil. ok lykr nu sua at þeir er(u) þar nu handteknir allir af jalls monnum ok til landz fluttir ok voru þa saman .lx. manna. Ok eftir þetta er Uagnn læiddr a land upp ok hans felagar ok eru nu bundnar hendr þeirra a bak aftr ok sidan settr huerr hia ôdrum a einn streing ok æigi þyrnnsamliga[1]. En jall ok hans menn briota upp uistir sinar ok fara til matar ok ætlar vm daginn j ærnu tomi at hôggua skuli þessa menn alla Uagnn ok felaga hans. Ok adr þeir gengi til matar þa var flutt skip þeirra [93] Jomsuikinga til landz

[1]) *r.* þyrmsamliga

ok sua fiarhlutr ok fe til stanga borit. ok skipti Hakon ok hans menn med ser ollu fenu ok uopnum ok þikiazst nu hafua unnit mikinn sigr er þeir hafua fét allt en handteknna suma Jomsvikinga en ellta suma a brott en þat þo mestr hlutr er drepit var. ok gambra þeir nu hit mesta. Ok er þeir eru mettir þa ganga þeir vt ór herbudum sinum ok þangat til er bandingiarnir voru. ok er þorkell leira ætladr til at hǫggua þa alla. þeir hafua adr ord vid þa Jomsvikinga ok uilea vita huort þeir eru myklu hardare en adrir menn sem fra þeim var sagt. ok eru nu leystir nǫkkurir menn ór streinginum þeir er sarir uoru miog. en þeir Skopti ok Karkr ok adrir þrælarnir hafua varduæitta þa ok halldit streinginum. Ok er mennirnir voru leystir or streinginum ok ætladir til hǫgs þa vinna þeir þat vid þrælarnir at þeir snua uǫnd j har þeim Jomsvikingum. ok nu eru leiddir fram .iij. menn ok voru miog sarir ok geingr þorkell læira at þeim ok hǫggr hǫfut af þeim. sidan sagde þorkell til sinna felaga huort þeir sæi honum nokkut hafua brugdit vit þessa syslu. þuiat þat er mal manna segir hann at ollum muni bregda vid ef hann hǫggr .iij. menn huernn eftir annan. En Hakon jall suarar. ekki seam uer þer uit þetta bregda sagdi jall en þo synizst mer sem þer se miog brugdit huat sem eftir kemr.

## Hognir menn or streing.

160. Nv uar leiddr hinn fiorde madr or stræinginum ok var snuinn uondr j hár honum. ok þa mællti þorkell adr en hann uæitti honum tilræde. huersu gott hyggr þu til at deyia segir þorkell. Gott hygg ek til bana mins þuiat mer mun þat verda sem minum fǫdur at ek mun deyia. Ok eftir þetta hǫggr þorkell hǫfut af honum ok lauk sua hans æfui. Sidan var leystr hinn .v. madr or streinginum ok spyrr þorkell huersu gott hann hygde til daudans. Æigi man ek lǫg uor Jomsvikinga ef ek hygg illt til eda kuida ek vid bana minum eda mæla ek ędruord þuiat æitt sinn skal huerr deyia. Ok nu hǫggr þorkell þenna mann. ok nu ætla þeir Hakon jall ok þorkell at spyria huernn þeirra adr þeir se hǫgnir huernn ueg þeir hygde til banans ok reyna sua lidit huort sua hart uæri sem sagt var. ok þikir ræynt ef æingi þeirra mælir ędruord þegar þeir sea banann opinn firir ser. at sua mǫrgum monnum sem þar voru handteknir þa þotti þeim sem æigi munde mart slikt at hardfæinge ok munde þa vera sem sagt var. en j ǫdru lagi þa þotti þeim gaman at heyra a ord þeirra huort sem upp kæmi. Ok nu er hinn .vj. madr tekinn ór stræinginum ok snuinn uondr j hár honum ok buinn til hǫgs. Ok er sua uar komit þa spyrr þorkell huersu gott

hann hyggi (til) dauda. Hann suarar. mer þikir gott at deyia segir hann uit ordzstir godan en þer er skðm at lifue þinu þuiat þu munt lifua uit skom ok klæki medan þu lifir. Æigi lika þorkatli ord þessa mannz ok lætr honum skamt til þess at hann hðggr hðfut af honum ok er honum eigi foruitni a hans tali leingra. Sidan er leiddr til hðgs hinn .vij. madr ok spyrr þorkell hann huersu gott hann hygde til daudans. Ek hygg allgott sagdi hann ok þiki mer uel til bera. en þat uillda ek at þu ueitlir mer at þu hyggir sem skiotazst af mer hðfutit en ek hellda a æinum tygilknifui. þuiat ver Jomsvikingar hðfum oft rætt vm þat huort madr visse nokkut þa er af færi hðfudit ef madr væri sem skiotazst hðginn. ok nu skal þat til marks at ek mun fram visa knifinum ef ek veit nokkut fra mer elligar mun hann falla þegar nidr ór hendi mer. en þu lat þat æigi at skorta er þu skalt at vinna at þu hðgg hðfutit sua skiott af mer at þat megi reynt verda firir þa sðk. Ok nu hðgr þorkell sua at þegar fauk hðfudit af bolnum. en knifrinn fell a iord nidr sem likligt var. Sidan var þangat leiddr hinn .viij. madr ok spyrr þorkell hins sama. Gott hygg ek til sagde (hann). Ok nu snua þeir uond j hár honum. ok er honum þotti sem skamt munde at bida hðggsins þa mællti hann. hrutr sagde hann. þorkell stðduar hðggit ok spurde hui hann mællti sligt. þui segir hann at þo mun æigi ofskipat med anum þeim sem þer nefnndut j gær jalls menn þa er þer fengut sárin. Manna armazstr sagde þorkell sligt mælandi. ok hðggr hann þegar ok lætr hann lif sitt. Nu var leystr .ix. madr ór streingnum ok spyrr þorkell. huat er sannazst felagi segir hann huersu gott hyggr þu til at deyia. Gott hygg ek til at deyia sem allir uorir felagar þeir sem her lata nu lif sitt. en þat uillda ek at þu uæittir mer at ek se æigi þann ueg leiddr til hðggs sem saudr helldr uil ek sitia firir ok uil ek at þu gangir at mer framan ok hoggir j andlit mer ok hygg at uandliga huort ek blauskra nokkut vit. þuiat ver hðfum oft vm rætt Jomsuikingar huort madr munde nokkut bregda ser vit ef hðgit væri j andlit honum. þorkell gerir sem hann bat. hann sitr nu firir en þorkell hðggr [???] framan j andlit honum. Sua er sagt at þeir sęi hann ekki blðskra vid nema þa er daudi færdizst j ðgu honum þa dregr saman ðgun sem oft kann verda þa er menn andazst. Ok eftir þetta uar leystr hinn tiunde madr ór streingnum ok til hðggs leiddr. ok spyrr þorkell enn hins sama. Til þess hygg ek einkar gott segir hann. en þat uillda ek at þu uæitlir mer at þu latir duðl a at hðggua mik at ek nai adr at biarga brokum minum. þat skal uæita þer segir þorkell en þo se [ek] þer ekki þat skipta huort þu georir þetta en þo

skaltu rada. Sia madr var uænn yfirlitz ok mikill uexsti. ok er hann hafde þat geort sem hann uillde þa tek(r) hann til orda ok hefir æigi upp kift brokunum ok hellt a kumpan sinum. þat er þo satt segir hann at mart verdr annan ueg en madrinn ætlar firir ser. þuiat þat hafda ek ætlat at þessi kumpan minn skyllde nærr koma þoru Skagadottur konu jalls ok skyllde hon hann fostra ok j rekkiu hafua hea ser. ok hristir hann vid nǫkkut suo er hann mællti þetta ok kippir sidan upp brokunum. En jall tekr til orda. hǫggui þenna sem skiotazst segir hann þuiat sea madr hefir læinge illt haft j hug ser ok hefir nu sialfr bert geort. Ok nu hǫgg(r) þorkell af þessum manni hǫfut ok lauk sua hans ęfui.

## Gefit lif Sueini Buasyni.

161. þessu næst var madr leiddr ór streingnum ok til hǫgs. hann var ungr madr ok hærdr uel sua at þat la a herdum honum nidre ok gult sem silki. þorkell spyrr enn huern ueg hann hygde til at lata lifit. En hann suarar. lifuat hefui ek hit fegrsta segir hann ok þeir hafua nu latit lifuit firir skǫmmu at mer þikir litit j væitt at lifua læingr ok æiga þo æigi mæira kost en nu a ek. en þo uil ek at þu uæitir mer þat at æigi læide þrælar mik til hǫgs ok uillda ek at sa nokkurr leidde mik er æigi uære uerri madr en þu. ok hygg þo at at ouanfeinginn se þer j mot segir hann. þat er ok annat at ek er suo uandr at háre minu at ek uil at sa madr hallde harinu fram af hofdinu medan ek er hǫgginn ok hnykki skiott hofdinu af bolnum sua at harit verde eigi blodugt. en þu hǫgg af mer hǫfudit suo skiott at þetta megi sua uerda sem ek hefui til ætlat. Ok þat er sagt at æinn hirdmadr yrde til jalls at hallda honum ok þikir æigi þurfua at snua uond j hár honum er harit var suo mikit. ok tekr hann hirdmadrinn ok uefr um hond ser ok helldr sua badum hondum undir hoggit. en þorkell reidir at suerdit ok ætlar at uæita honum þat er hann bad at hǫggua hann hart ok skiott. En sia hinn ungi madr þa er hann heyrir huininn af hǫgginu þa hnykkir hann hart ok skiott hǫfdinu undan hǫgginu. ok berr sua til at sa hlaut hǫggit er honum hellt ok hǫggr þorkell af honum hirdmanninum badar hendr j ǫlbogabotum. en hinn sprettr upp ok bregdr a gaman vid ok mællti. huerr a suæina hendr j hare mer segir hann. ok hristir nokkut sua hǫfudit. þa tok jall til orda ok mællti sua. stor bysnn georazst nu j segir hann ok taki þenna mann ok drepi sem skiotazst ok hefir hann þo myklu bragdi a oss komit. ok þat atkuæde uil ek nu uæita at huerr se drepinn sem skiotazst a fætr

ðdrum þeirra er nu eru eftir þuiat myklu eru menn þeir verri uidfangs en ver faim vit þeim set ok æigi hefir ofsðgum fra þeim sagt verit ok þeirra hraustlæik. Æirekr suarar þa fðdur sinum ok mællti. vita vilium ver nu fadir huerir menn eru adr drepnir se. Sidan spurde Æirekr. huerr ertu hinn ungi madr segir hann. Sueinn heiti ek segir hann. Huers son ertu segir Æirekr edr huert er kyn þitt. Bui het fadir minn segir hann ok var Veseta son af Borgundarholme. danskr er ek at ollu kyne. Huersu gamall madr ertu Sueinn segir Æirekr. Ef ek lid yfir þenna uetrinn þa er ek atian uetra gamall ad alldri. En þu skalt at visu yfirlida uetrinn segir Æirekr ok skal þig æigi drepa. Æirekr tekr hann nu j frid ok lætr hann fara j suæit med monnum sinum. Ok er jall ser þetta þa tekr hann til orda. Æirekr sagde hann huersu ætlar þu til ef þu uillt þenna mann undan þiggia er oss hefir gert sua mikla skam sem sia madr hefuir gert. en þo kann ek æigi sia at ek muna sækia j hendr þer eftir manninum ok muntu rada verda at sinne ok verdr nu sua at vera sem þu uill. Æirekr mællti. æigi skal nu fyrr drepa mennina en ek hefui haft ord vid þa ok ek uæit huerir þeir se at ætt edr nafnni.

## Biorn þa lif af Eireki.

162. Ok eftir þetta þa uar madr leystr ór streinginum ok hafdi streingrinn uafuizst um fot honum sua at hann var fastr. þessi madr var mikill uexsti ok ungr at alldri allra manna uænstr. þorkell spurde þenna mann huersu gott hann hygde til daudans. Gott hygg ek til hans segir hann ef ek efnndi heitstreingin(g) mina. þa spyr Æirekr. huert er nafn þitt edr huer er heitstreingin(g) þin su er þer þætti sua myklu male skipta at þu efnndir [[illegible]] adr þu letir lifit. Hann suarar. ek heiti Uagnn Akason Palnatokasonar. suo er mer til ættar kent. Huers streingdir þu heit segir Æirekr þess er þer letzst þa gott þikia at deyia ef hon fære fram iafnt eftir þui sem þu uilldir. þess streingda ek heit segir Uagnn at ek skyllda koma j sæng Jngibiargar dottur þorkels leiru an hans rade ok allra frenda hennar ef ek kæma j Noreg en drepa hann sialfan. ok þiki mer mikit at skorta um mitt mal ef ek skal þessu æigi fram koma adr en ek deyia. Ek skal at þ[illegible]i geora segir þorkell at þu skalt þessu æigi fram koma adr. Ok hleypr at honum Uagnne ok hðggr til hans badum hondum. en Biornn hinn bretzski fostri hans spyrnnde til Uagns fæti sinum ok hratt honum hart undan hðgginu. þorkell hðggr yfir Uagnn. en suerdit kemr a streinginn er Uagnn er bundinn med ok gek hann j sundr. er Uagnn nu lauss en

ekki sarr. þorkell steyptizst vid er hann misti mannzsins ok fellr hann en suerdıt rauk ór hendi honum. Sua hafde Beornn hart spyrnnt til Uagnns at hann hafdi fallit vid. en æigi la hann læingi ok sprettr upp þegar skiott. hann tekr suerdit er þorkell hafde haft ok hôggr þorkel þegar banahôgg. Nu hefui ek efnnda adra heitstreinging mina segir Uagn ok uni ek nu þegar synu betr vid en adr. Hakon jall mællti. lati þer hann nu æigi lausann vid læika læinge ok drepi þer hann (sem) fyst þuiat hann hefir unnit oss mikinn skada. Æigi skal hann drepa segir Æirekr ef ek ma rada fyrr en oss ok skal ek Vagnn undan þiggia. Hakon jall mællti eigi þurfum ver nu til at hlutazst einn uilltu nu rada frende segir hann. Gott er mannkaup j Uagnne fadir segir Æirekr ok synizst mer þui uel keyft at vit takim hann j virdingar ok metnat sem haft hefuir þorkell. atti þorkell þessa af von sem nu hlaut hann þuiat nu kemr at þui sem oft er mællt at spa er spaks geta en þu satt þegar j dag feigdina a honum. Ok nu tekr Eirekr Uagnn a sitt ualld ok er honum nu vid ôngu hætt. ok þa mællti Uaggnn. þui at eins þiki mer betra at þiggia grid at þer Æirekr ef þeim ollum eru grid gefin er eftir eru uorra felaga. elligar munu ver fara allir saman fôrina felagar. Æirekr suarar. ek uil nu hafua ord uid þessa felaga þina en þo firirtek ek ekki þat er þu beidir. Ok nu gengr Æirekr til þangat sem uar Beornn inn bretzski ok spyr huerr hann væri edr huat er hann heti. Hann suarar ok letzst Biornn heita. Ertu sa Biornn er bezst sottir eftir manninum j hôll Sueins konungs. Æigi ueit ek þat segir Biornn at ek sækta bezst eftir en þo kom ek þadan manninum j brott. Huat attir þu at oss at sækia segir Æirekr gamall madr er þu hefir farit hingat eda huat rak þig til þessar ferdar skollottan mann ok huitr sem maskari. ok er þat satt segir Æirekr at oll stra uilldu oss stanga Noregsmenn sidan þer forut hingat jafnnuel þeir menn er komnir eru af fotum fram firir alldrs sokum at beriazst vid oss. edr huort uillt þu þiggia lif at mer segir Æirekr þuiat mer þikir æigi at þer uīgt su(a) gomlum manni. Biornn suarar. þiggia uil ek uist lif at þer Æirekr segir hann uit þann kost at Uagnn fostri minn hafui grid ok allir þeir uorir menn er eftir eru. þat skal ydr nu ôllum ueitt vera ef ek ma nu rada segir Æirekr en ek skal rada. Ok sidan gengr Æirekr firir fôdur sinn ok bidr hann þess at þeir hafui allir grid Jomsvikingar er eftir eru. ok þat uæitir jall honum. Ok nu eru þeir allir leystir Jomsuikingar ok þeim trygdir uæittar ok j frid teknir. ok nu er þannueg til skipat af þeim Hakoni jalli ok Æireki at Biornn hinn bretzski ferr til bus þess er att hefir Hallsteinn kellingarbani. þat er sagt at .v.

felli lendir menn adrir en Hallsteinn. Uagnn Akason for austr til Uikr at rade Æireks. ok mællti Æirekr uid Uagnn adr þeir skilduzst at hann skylldi suo breyta vm brudkaup vid Jngibiorgu þorkels dottur sem hans uære uile til sealfs. Ok er Uagnn kemr austr j Uik þa gengr hann j sæng hia Jngibiorgu hinn sama aftan dottur þorkels læiru ok er Uagnn þar um uetrinn. En um uorit eftir ferr Uaggn j brott ok hellt huernn hlut vel þann sem hann hafdi heitit Æireki. ok ferr Uagnn til Danmerkr heim a Fion til bua sinna ok red þar firir læinge sidan ok þotti vera hinn mesti afregsmadr ok er mart stormenni fra honum komit. þat er sagt at Uagnn hafdi Jngibiorgu heim med sier en Biornn hinn bretzski ferr heim til Bretlandz ok red þar firir medan þeir lifdu[1] ok þotti vera hinn uaskazsti dreingrinn. En af Sigmundi Brestissyni er þat at segia at hann var med Hakoni jalli eftir um uetrinn er þessir atburdir hofdu ordit. en um sumarit eftir ferr hann vt til Færeyia med godum giofum reyfdr af Hakoni jalli ok þeim badum fedgum ok sitr Sigmundr nu vm uetrinn um kyrt j Færeyium.

### Fra Siguallda capitulum.

163. Nu er at segia fra Siguallda at þa er hann flyde or bardaganum nam hann æigi fyrr stadar en hann kom heim j Danmork. ok var Astridr kona hans þar firir er þeir koma heim ok geordi hon ueitzslu j mot honum. þeir segia tidendin [102] fra bardaganum ok fra fórinne allri saman sidan er þeir Jomsvikingar foru heiman ór Danmórk ok þotti monnum þat mikil skemtan at heyra er þeir sógdu fra þeim tidendum. Ok þess er vid getit at Astridr uill fagna sem bezst Siguallda j huiuetna ok syna þat at hon er fegin ordin hans hæimkuomu. hon lætr geora honum laug bidr hann sidan fara j laugina. ok uæit ek segir Astridr at læid suo langri sem er or Noregi þa mun mal at fægia sarin þau er þer fengut j bardaganum. Sidan ferr Sigualldi j laugina ok blitir Astridr ekki ódrum konum at þui at þiona honum j lauginne ok mællti sidan. verit get ek hafua nókkura j bardaganum j lide Jomsvikinga er þadan munu hafua borit raufottara belginn en sua sem þu hefir borit þuiat mer þikir sea til þess bezst fallinn at uarduæita j hueitimiol. Sigualldi suarar. þat mætti verda minnar æfui at þu ættir æigi slikum sigri at hrosa sagdi hann ok hygg þu at þui at þer liki þa betr. Ok þa er ekki sagt fra þeirra vidrtali læingra at sinne. Sigualldе red firir Sealóndum nókkura stund sidan ok þotti uera hinn uitrazsti madr ok var eigi þar allr sem hann uar senn. ok er(u) mikil

[1]) lifdi *Cd.*

tidende fra honum sögd j odrum sögum. En Hakon jall red skamma stund Noregi sidan ok þotti hann verda hinn agætazsti allzskonar af þessu öllu saman ok suo synir hans. Ekki er her fra þui sagt huat Sueinn Buason lagde firir sig huort hann var med Æireki edr georde hann annat af ser. en Sigurdr kapa brodir Bua for til Danmerkr ok tok vid födurlæifd sinne eftir Veseta j Borgundarholmi ok bio þar langa æfui ok þotti vera hinn bezsti dreingr ok er[1] mart manna fra honum komit ok þeim Tofuu ok voru samfarar þeirra godar sidan. þorkell hinn hafui brodir Siguallda þotti hinn vitrazsti madr sem reyndizst sidan j mörgum hlutum. En Skialldmeyiar Æinar for til Jslandz ok druknnade a Breidafirde. ok hæita þar af þui Skaleyiar at þar rak skalirnar a land þær sem jall gaf honum. En þordr auruaund for hæim j Dyrafiord til þorkels födur sins j Aluidru. ok uerdr her sua sagt (at) þeir þorleifr skuma ok þordr öruaund hafui brædr verit ok bio þordr j Aluidru eftir födur sinn ok er mart manna fra honum komit j Fiordum uestr. ok sögdu þeir þeir Æinarr glögguazst fra þessum tidendum vt til Jslandz. En þat er sögnn manna sidan at Bui hafui at ormi ordit ok lagizst a gullkistur sinar. en ver hyggium þat til þess haft vera at þar hafui ormrinn setzst a Hiorungauogi ok kann vera at nökkur ill uættr hafui lagizst a fet ok synnzst þar sidan. en æigi kunnum uær at segia huort helldr er. ma ok vera at huorki se satt þuiat marga uega ma synazst.

## Lagasetning Sueins konungs.

164. Svæinn konungr Saumæsuson sat nu heima j Danmörk. Knutr óx upp son hans ok uar heima upp fæddr. þorkell hinn hafui fostrade hann. Suæinn konungr heriade a riki Adalrads konungs ok georir hann landflotta vm haf. Sueinn konungr setti þingamannalid j tueim stödum annat j Lundunaborg. þar red firir Æilijfr þorgilsson brodir Vlfs hann hafde .lx. skipa j Temps. annat þingamannalid var nordr j Slessvik. þar red firir Hemingr jall brodir þorkels hafua. þar voru enn .lx. skipa. þingamenn settu þau laug at æingi skyllde kuittr kuæikiazst ok æinge vera vm nott a brott. þeir hofdu kirkiusoknn til Burakirkiu. þar var ein stor klukka. henni skyllde hringia þar er þridiungr lifde nætr hueria nott. þa skylldu allir til kirkiu ganga ok æi med uoppnum. slik lög höfdu þeir j Slessuik. þordr het madr ok Audun j lidinu.

[1]) ert *Cd.*

### Fra andlaati Sueins konungs ok færdr i Danmork.

Sa madr hafde forrad j borginne er Alrekr striona het brodir Emmu Rikgardz dottur jalls fødur Uilhealms. hana atti Adalradr konungr. Nordr red firir Æinglande Vlfkell snillingr. hann atti Ulfhillde dottur Adalrads konungs. Sueinn konungr anndadizst j Einglande ok færdu Danir hann til Danmerkr ok grofu hann j Hroisskelldu hea fødur sinum. þa uar Knutr .x uetra. Mikit var riki þingamanna. markadr uar þar tuo tima a tolf manadum. j annat sinn vm midsumar en annan tima vm midsuetrar skæid. Æigi þikir enskum monnum synt at hægra se ødru sinne[1] at rada af þingamannalid er Knutr var vngr en Suæinn anndadr. Huernn vetr j mot jolum foru uagnar til borgarinnar. ok var þar fearhlutr sa er menn voru uanir at hafua til markadarins. sua var ok þenna uetr ok tialldat yfir øllum. þat var af radum suikum ok vilea Vlfkels snillings ok þeirra brædra Adalrads sona. Vij. dag jola gek þordr vtan borgar til husa konu þeirrar er honum fylgde. hon bad hann vera þar vm nottina. Hui bidr þu þess er vite liggr vid. þui bid ek þessa kuat hon at mer þikir mali skipta. Vit skulum kaupa saman kuat hann at ek mun her vera en þu seg mer huat til berr er þu bidr þessa. þat sætir segir hon um bæn þessa at ek væit radinn bana øllu þingamannalide. Hui mattu þat [103] vita kuat hann er ver vitum æigi. þat er sua vit latit segir hon at menn oku hingat vøgnnum j borgina ok letu sem þeir fære med fearhlut en þar var fiolmenni j huerium uagnne en æingi fearhlutr. ok sua hafua þeir geort ok nordr j Slessvik. en þa er þridiungr er af nott mun hringt j borginne. skulu þa hermenn buazst vm midnætti skulu menn buazst annann ueg j borginne. en þa er þridiungr lifir nætr mun hringt at Burakirkiu. þa munu þer ætla til kirkiu slyppir. en þa mun sleginn hringr vm kirkiu. Buit er vit kuat þordr at vinsældir þinar se myklar ok mun ek segia Eilifui þott kuiltr þiki vera. en bu þetta skaltu æiga. þordr gek j borgina. hann fann Audun felaga sinn ganga þeir ok segia Æilifui. hann georir menn uara vit. sumir trudu en sumir kuodu fælingar. Heyra þeir hringingar eftir uana ok hyggia margir at prestar mune hringia. þeir menn allir er ordum þordar trudu gengu med uopnum en hinir slyppir.

### Fra Eilifui ok hans monnum.

165. þa er þeir koma j kirkiugard var þar fiolde lids. þeir mattu þa æigi na uopnum þuiat þeir kuomuz æigi til husa sinna. Æilifr spyrr þa rada. en þeir latazst eingi kunna. Æigi þiki mer uel radit kuat

[1]) hægra *tilf. Cd.*

Æilifr at hlaupa j kirkiu ef þat verdr at ǫngu skiole en syna sig j hræzslu. þat kemr mer j hug at ver munum hlaupa a herdar þeim er firir vtan standa gardinn ok vita ef ver kæmi(m)zst med þui undan til skipa. Ok sua gera þeir. þat vard mannfall mest er vid skip vard. Æilifr komzst a burt med þriu skip en ǫngir ór Slessvik ok þar fell Hemingr. Æilifr ferr til Danmerkr. Nokkuru eftir þetta var Jatmundr til konungs tekinn j Einglande. hann var konungr .ix. manudu. a þeim tima hade hann .v. orrostur vid Knut Suæinsson. Alrekr striona er sumir kaulludu Æirek var fostri Jatmundar brodir Emmu er átt hafde Adalradr Æinglakonungr. þorkell hafui hafde þa mest forrad firir Danmork. þeir attu þing vm vorit eftir fall þingamanna. Æilif(r) eggiade at fara til hefnnda. en þorkell suarar. ver hǫfum konung ungan en æigi hæfir at heria sua at konungs se æigi vit getit. en a þriggia vetra fresti uæntir ek at æi mune konung skorta hardfæingi en lid ouarazst. Æilifr suarar. osynt er at þeim se minnesamt a þriggia vetra fresti er nu þikir æinkiss vm vert. Æilifr ferr vt j Myklagard ok geordizst hǫfdinge firir Uæringialide ok fell þar vm sidir. A þriggia vetra fresti for Knutr þorkell ok Æirekr met .viij. hundrat skipa til Æinglandz. þorkell hafde .xxx. skipa ok drap Vlfkel snilling ok hefnndi sua Hemings brodur sins ok gek at eigha Vlfhillde dottur Adalrads konungs er Ulfkell hafde atta. þar fell med Vlfkatle huert mannz barnn af .lx. skipa. en Knutr konungr uann Lundunaborg. þorkell for med landi fram ok fann Emmu drottning a æinu skipe. hann flytr hana heim j land med ser. Fysir Knut konung at bidia hennar ok gek Knutr konungr at eiga hana. hon ol son vm uetrinn er Haralldr het kenningarson Knutz. Hǫrdaknutr uar þeirra son. Suæinn uar enn son Knutz ok Alfifuu. Gunnhilldr het dottir Knutz hana atti Hæinrekr kæisare Konradsson. med honum for Knutr til Roms. þat var myklu sidarr er Knutr konungr var at bode hea þorkatle hafua þa sa konungr Ulfhillde ok þotte hann hafa suikit sig j kuennaskipte ok red þorkatle firir þessa sǫk bana. þeir Knutr konungr (ok) Jatmundr attu nokkura bardaga. eptir þat badu huorirtueggiu Danir ok Æinglismenn at þeir skylldu sættazst. ok þeir geordu sua ok skyllde huorr taka land eftir annan er læingr lifde. Manade sidarr var Jatmundr veginn af fostra sinum Alreki strionu. eftir þat ǫdladizst Knutr allt Æingland ok red þui fiora vetr ok .xx.

### Fra Olafi ok Birni.

166. Oláfr konungr Trygguason var firir vestan haf þa er þau tidendi (urdu) er fyrr segir. hann tok þa at fysazst at fara j Noreg ok

vitea frenda sinna ok fôdrleifdar þuiat þa litlu adr hafde latizst Gyda enska er Olafr hafde att. harmade hann hardla miog hennar dauda ok þuiat hann var þa vkuꝫntr elskade hann ekki miog þat riki er hann hafde a Æinglande feingit med fyrr sagdre Gydu. þa geordizst hann frettinn vm framferdir hofdingia j Noregi ok sua af flæirum londum firir austan hafuit. En þa er Beornn hinn bretzski kom a Æingland funnduzst þeir Olafr konungr. þar spurde hann þa margra hluta. en Beornn sagde honum fliotliga alla þa hlute er hann visse ok einkanliga teade hann honum tidende þau er at hôfdu borizst j Jomsvikinga bardaga sua ok þat at Hakon jall hafde blotat syni sinum til sigurs ser. þess vard Olafr ok uiss at jallarnir Hakon ok Æirekr uoru miog vinsælir vid almugann af sigri þeim er þeir hôfdu unnit a Jomsvikingum ok frelsat alla þarlenzska menn [114] af þeirra hernade. Olafr konungr sem adrir menn lofade hreysti Jomsvikinga en harmmade hardla miog er suo ogurlig ok vheyrilig illzska skyllde su(a) grimliga ok glꝫpiliga ganga yfir hans ættland ok þat folk er þar bygde. aukadizst miog hans fysi at fara austr j Noreg uit þau tidendi er hann hafde þadan nyspurt. hugsade Olafr konungr ef hann yrde med guds miskun æinualldzkonungr yfir Noregi at hann skyllde sem mest kostgꝫfua at koma til rettrar truar ollum þarlenzskum lyd ok sua þeim monnum æigi sidr er þau lônd bygdu sem þar voru næst. þui framarr sem fiandinn hafde þessar þiodir þreyngdar þungliga ok sarliga suikit firir sina vine ok eyrendreka ok glæpafullan gudniding Hakon jall. en j annan stad þotti Olafi æigi mikil uon at hann mætti vinna Noreg med sua litlu lide sem hann hafde til medan jallar hôfdu sua mikinn styrk ok storar uinsældir af allri alþydu þar j landi. sua erfuidliga sem Jomsvikingum hafde til tekizst at strida vid þa med stormyklum afla. visse Olafr konungr ôngra þeirra manna uon er honum mundu mega uæita suo mikinn styrk sem hann þyrfti at hafua til slikra storræda at ræna þa fedga lifui ok riki. þuiat frændr hans j Noregi gôfgir ok margir mattu æigi vita huort hann uar lifs edr latinn af þessi uerolld þo at hann fari þadan uetrgamall en þeir hôfdu sidan hann for þreuetr af Suiþiod[1] ekki nyliga til hans spurt þuiat fair menn vissu allt nafnn hans sidan hann fór ór Gardariki sem adr er sagt. Nu firir þessa hugsan alla jafnnsaman gaf Olafi konungi at skilia at hann matti af ôngum kosti audlazst riki j Noregi nema æin saman miskunn almattigs guds efldi hann þar til myklu framarr en efnni stod til. þadan af gaf

[1]) hôfdu þeir *tilf. Cd.*

hann sealfan sig ok allt sitt mal a ualld ok vilea frid ok forsia allzualldanda guds.

### Lodin enn vikveski feck Aastridar.

167. Nu skal segia þann atburd er myklu gerdizst fyrr. Madr er nefndr Lodinn hann var uikuerskr at kyne audigr ok ættadr vel. hann var optliga j kaupferdum en stundum j hernade. þat var a æinu sumre er Lodinn for kaupferd j Austrueg. atti hann æinn skipit þat allt er hann var a ok annan miog mikinn kaupeyre. hann hellt til Æistlandz ok var þar j kaupeyre[1] vm sumarit. en medan markadrinn stod þa var þangat fluttr margskonar kaupskapr. þar kuomu ok margir mansmenn falir. þar sa Lodinn konu nǫkkura er selld hafdi verit mansali. en er hann leit a konuna[2] kendi hann at þar uar Astridr Æireks dottir er att[3] hafdi Tryggui konungr Olafsson. hon uar þo olik þui sem fyrr hafde (hann) set hana. þuiat nu uar hon fǫl ok fatækliga klædd. Lodinn gek til Astridar ok spurde huert rad hennar væri. Hon suarar. þungt er fra þui at segia. ek hefui verit selld mansali ok nu er ek enn hingat til þess flutt at seliazst. Sidan konnuduzst þau vid. ok visse hon skyniar a honum ok ætt hans. bad Astridr þa at hann munde kaupa hana ok flytia hana hæim med ser til frenda sinna. Lodinn suarar. ek mun gera þer kost a þui at leysa þig ór anaud ok flytia þig heim til Noregs ef þu uillt giptazst mer. en med þui at Astridr uar naudugliga stǫdd ok uitkomin ok þat annat at hon visse at Lodinn uar madr storættadr uitr ok audigr þa hæitr hon honum þessu til frelsis ser. Sidan keyfti Lodinn Astride ok flutti hana med ser til Noregs. fek Lodinn hennar at frenda rade. voru þeirra bornn þorkell nefia Jngiridr ok Jngigerdr. dętr Tryggua konungs Olafssonar ok Astridar voru þær Jngibiorg ok þurid. Synir Æircks biodaskalla ok brædr Astridar voru þeir Sigurdr ok Josteinn Kallhǫfud ok þorkell dyrdill. þeir uoru allir gǫfgir menn ok attu bustade austr j lande.

---

## þAATTR þORLEIFS.

Nv skal segia þann æfuintyr er geordizst a ofanverdum dǫgum Hakonar Hladajalls. j huerium kynstrum gǫlldrum ok georningum hann

[1]) *r.* kaupstefnu [2]) ok *tilf. Cd.* [3]) atti *Cd.*

uard forsmadr ok miog at verdugu þuiat hans mannillzska ok gudnidingskapr uard mǫrgum manni til mikils þunga ok ubætiligs skada andar ok likama. vard honum þat sem margan timer at þa er hegningartiminn er kominn er æigi hægt undan at komazst. þuiat þat er vvinarins nattura at þann manninn sem hann þikizst fullkomit ualld a æiga ok ǫnga von aa til guds blekkir hann fyst ok blygdar med krokottum kyndugskap sinna bauluadra slęgda j framleitzslu hans liotu lifsdaga. en at þrotnum[1] hans stundligum lifstima verdr hann drektr j dǫkkri diflizsu[2] dalighra kuala med eymd ok anaud vtann ennda.

## Fra þorleifui.

168. þa bio Aasgeirr raudfelldr aa Brecku i Suarfadardal. hann var rikr madr ok storættadr. þorhilldr het kona hans hon [.55] uar uitr kona ok vinsæl ok skǫrungr mikill. þau attu .iij. syne ok voru allir efnniligir. Olafr het son þeirra hinn ellzsti ok var kalladr uaulubriotr annar Helgi hinn frækni ok koma þeir badir mæirr vid adrar sǫgur en þessa. þorlæifr het hinn yngzsti son þeirra hann var snemma gilldr ok georuilig(r) ok hinn mesti atgeoruimadr vm jþrottir. hann var skalld gott. hann uar a fostri med Midfiardar Skeggia modurbrodur sinum at Reykium j Midfirde þar til er hann var atian uetra gamall. Skeggi unne mikit þorleifi ok lagde vid hann astfostr. þat tǫludu menn a(t) Skeggi munde flæira kenna þorleifi j frædum fornnligum en adrir mundi vita. þa for þorleifr heim til faudur sins. hann vǫ Klaufa bauggua med fulltingi Olafs brodur sins. enn til eftirmaals eftir Klaufa var Karl hinn raudi ok geck sua fast at at þorleifr vard vtlægr ok giorr i burt or Suarfadardal. Liotolfr godi hafdi fylgt Ynghilldi fagurkinn systur þorleifs. hann kom þorleifi i skip aa Gaaseyri. þorleifr vard aftrreka. hann var vm vetrinn aa laun ymiz med Liotolfi goda edr Asgeiri faudur sinum. nam hann þa at fedr sinum marga fornfrædi. þuiat hann var sagdr margkunnandi. var þa þorleifr xix. vetra. Karl leitadi fast eptir vm þorleif. ok vrdu þar vm vetrinn margir atburdir þeir er frasagnar eru verdir sem segir i Suarfdæla sogu. Um vorit eptir for þorleifr vestr til Skeggia fostra sins ok frænda ok bidr hann aasia ok vmraada med ser vm þessi maal. ok med styrk ok raadum Midfiardar Skeggia ok Liotolfs goda ferr þorleifr ok kaupir ser skip at kaupmonnum er uppi stod j Blǫnduosi ok rædr haseta til ok for sidan heim aa Brecku ok hitti fǫdur sinn ok modur ok bæiddizst af þeim fararefnna ok fek sua mikinn fearhlut sem honum þotti ser þarfua. ok at vordǫgum let

[1]) þortnum *Cd.* [2]) diflizslu *Cd.*

hann varning sinn til skips binda ok for j brott af Brecku alfari ok bad vel firir fødur sinum ok modur ok Midfiardar Skeggia fóstra sinum.

## Hakon let heingia menn þorleifs.

169. Nv lætr þorleifr j haf ok byriar honum uel ok kemr skipi sinu j Vik austr. Hakon Hladajall var þa (j) Vikinne. þorleifr gek a land ok let rydia skip sitt hann hitti jallinn ok kuaddi hann. jall tok honum vel ok spurde hann at nafnne ætt ok kynferde en þorleifr sagde honum. jall spurde ok margra tijdenda af Jslande en þorleifr sagde honum ofletliga. þa sagde jall. suo er vordit þorleifr at ver vilium hafua sølur af þer ok hasetum þinum. þorleifr suarar. ver høfum litin varninginn herra. en oss eru þo adrir kaupunautar hentugre ok munu þer lata oss sealfrada vera at selia þeim goz uort ok peninga sem oss likar. Jalli þotti hann þykliga suara ok mislikade ord hans miog ok skildu vid sua buit. þorleifr for nu til manna sinna ok suaf af vm nottina ok vm morgininn riss hann upp ok ferr j kaupstadinn ok frettizst firir vm goda kaupunauta ok kaupslagar vid þa vm daginn. Ok er jall spurde þat for hann med fiolmenni til skips þorleifs ok let taka þar menn alla ok binda. sidan rænti hann þar fiarhlut øllum ok kastade a sinne æignn en let brenna skipit at kolldum kolum. ok eftir þetta let hann skiota asum mille budanna ok let þar heingia vid alla forunauta þorleifs. sidan for jall j brott ok hans menn ok tok at ser uarning þann er þorleifr hafdi att ok skifti upp med sinum monnum. En um kuelldit er þorleifr kom hæim ok ætlade at vitea manna sem hann georde sa hann uegs ummerki huersu vid hans felaga hafde farit verit ok þottizst vita at Hakon jall munde þessu uønda uerki uolldit hafua ok spyrr nu eftir þessum tidendum gloggliga. ok er hann hafde þessi tidende sannliga spurt þa quad hann visu.

| | |
|---|---|
| Hrollir hugr minn illa | hinn er upp red brenna |
| hefir dræingr skada feingit | ølldu fil firir skallde |
| ser ek a slettri eyre | huerr ueit nema kol knarrar |
| suarre batz ok knarrar. | kalld fyse mig giallda. |

## Fra þorleifui.

170. Sva er sagt at eftir þenna atburd kom þorleifr ser j skip med kaupmonnum ok sigldu sudr til Danmerkr ok for hann a fund Suæins konungs ok var med honum vm uetrinn. En er hann hafdi þar æigi læingi verit var þat æinn dag at þorleifr gek firir konung ok

bæidde hann hlyda kuæde þui er hann hafde ort vm hann. Konungr spurde huort hann væri skalld. þorleifr suarar. þat er eftir þui sem þer uilit dęmt hafua herra er þer heyrit. Konungr bad hann þa fram flytia. þorleifr kuat þa fertuga drapu ok er þetta stef j.

Oft med ærnnri giftu
ôdlings himins rôdla
Jotra(!) gramr hinn itri
Æinglande rodit brannda.

Konungr lofade miog kuædit ok allir þeir er heyrdu ok sogdu bæde uel kuedit ok skôruliga framflutt. Konungr gaf þorleifi at kuædislaunum hring þann er stod môrk ok þat suerd er til kom half mork gullz ok bad hann læinge med ser vera. þorleifr gek til sætis ok þakkade uel konungi. ok læit sua fram nokkura hrid ok ekki læingi adr en þorleifr ugladdizst sua miog at hann gade uarlla vndir drykkiubord at ganga edr samsætis vid sina bekkiunauta. finnr konungr þetta bradliga ok lætr kalla þorleif firir sig ok mællti. huat uelldr vgledi þinne er þu gair uarla at hallda hattum vid oss. þorleifr suarar. þat munu þer heyrt hafua herra at sa er skyldr at leysa annars uandræde er at spyrr. Segdu fyst segir konungr. þorleifr suarar. ek hefui kuedit visur nokkurar j uetr er ek kalla konuvisur[1] er ek [ek] hefui ort vm Hakon jall þuiat jall er kona kendr j skalldskap. nu vgledr mig þat herra ef ek fær æigi orlof of ydr[2] at fara til Noregs ok færa jalli kuædit. þu skalt at visu fa orlof segir konungr ok skaltu þo hæita oss adr at koma aftr til uor þat fliotazsta sem þu getr þuiat ver vilium þin ekki missa sakir jþrotta þinna. þorleifr het þui ok fek ser nu farning ok for nordr j Noreg ok linner æigi fyrr en hann kemr j þrandheim. þa sat Hakon jall a Hlôdum. þorleifr byr ser nu stafkallz georui ok bindr ser gæitarskegg ok tok ser æina stora hit ok let koma undir stafkallz georuina ok bio suo vm at ôllu(m) skylldi synazst sem hann æti þann kost er hann kastade j hijtina. þuiat giman hennar var uppi vid munn honum vndir gæitarskegginu. sidan tekr hann hækiur tuær ok uar broddr nid(r) or huorri. ferr nu þar til er hann kemr a Hladir. þat var atfangskuelld jola j þann tima er jall var kominn j sæti ok mart stormenni er jall hafdi at ser bodit til jolaväifzslunnar. Karll gengr græidliga jnn j hallina. en er hann kemr jnn stumrar hann geysi miog ok fellr fast a hækiunnar ok snyr til annarra stafkarlla ok setz nidr utarliga j halminn. hann uar nokkut bæginn vid stafkarlla ok helldr hardlæikinn. en þeir þolldu illa er hann let ganga (a) þeim stafina.

[1]) konurvisur *Cd.* [2]) at færa *tilf. Cd.*

hrukku þeir vndan ok vard af þessu hark ok hareysti sua at heyrde vm alla hallina. En er jall uerdr þessa uarr spyrr hann huat ualldi ohliode þessu. honum er sagt at stafkarll einn se sa þar kominn at sua se illr ok vrigr at ekki lati vgeort. Jall bad kalla hann firir sig ok sua var ok geort. en er kall kom firir jall hafde hann miog stutt vm kuadningar. Jall spurde hann at nafnne ætt ok odale. Vuant er nafnn mitt herra at ek hæiti Nidungr Geallandason ok kyniadr ór Syrgisdǫlum af Suiþiod hinne kǫlldu. er ek kalladr Nidungr hinn nakuæmi hefuir ek vida farit ok marga hǫfdingea heim sott. georumzst ek nu gamall miog sua at trautt ma ek alldr minn segia sakir elli ok vminnis. hefir ek mykla spurnn af hǫfdingskap ydrum ok har(d)fæingi vitzsku ok vinsęldum lagasetning ok litilæti ǫrlæik ok allre atgiorui. Hui ertu suo hardudigr ok illr vidskiptiss fra þui sem adrir stafkarllar. Hann suarar. huat er ǫrugnt um þann sem allz gengr anduana nema uils ok uesalldar ok ekki hefuir þat er þarf ok læingi legit vti a mǫrkum ok skogum þo at sa verde æfr vid ellina ok allt saman. en uanr adr sæmd ok sælifui af hinum dyrǫzstum hofdingium. en vera nu hatadr af huerium þorpara litils verdum. Jall mællti. ertu nǫkkurr jþrottamadr karll er þu segizst þo med hǫfdingium verit hafua. Karll suarar. þat megi vera þo at nokkut hafui til þess haft verit þa er ek var a ungum alldri komi at þui sem mællt er at huerium kalli kemr at ǫruerpi. er þat ok talat at seigt er suǫngum at skruma. mun ek ok ekki vid ydr skruma herra nema þer latit gefua mer at eta þuiat sua dregr at mer af elli suæingd ok þosta at vist æigi fær ek stadit uppi læingr. er sligt hardla ohaufdingligt[1] at spyria vkunna menn j huernn hæim en hugsa æigi hua(t) monnum hentar þuiat allir eru met þui edli skapadir at bæde þurfu át ok drykkiu. Jall skipade at honum skyllde gefua kost sæmiliga sem honum þarfade. var ok sua geort. En er kall kom undir bord tekr hann græidliga til matar ok rydr diska þa alla er næstir honum voru ok hann nade til sua a(t) þionostumenn urdu at sækia kost j annan tima. tok kall nu ǫngu ofrekligar til matar en fyrr. syndizst ǫllum sem hann æti en hann kastade reyndar j hijtina þa er fyrr var getit. hlogu menn nu fast at kalli þessum. þionustumenn tǫludu at bæde væri at hann væri mikill ok middigr enda gæti hann mikit etit. Kall gaf ser ekki at þui ok geordi sem adr.

[1]) ohaufdingling *Cd.*

### Kuedit iarls nijd.

171. En er ofan uoru drykkiubord gekk Nidungr kall firir jall ok mællti. hafui þer nu þȯkk firir herra. en þo æigi þer illa þionustumenn er allt geora verr en þer segit firir. en nu uillda ek at þer syndit mer litilæti herra ok hlyddit kuæde þui er ek hefui ort um ydr. Jall mællti. hefuir þu nokkut fyrr kuæde ort vm hofdingea. Satt er þat herra kuat hann. Jall mællti. bui[1] þar komi at gȯmlum ordzskuit at þat er oft gott er gamlir kueda. ok flyttu fram kuædit kall en ver munum til hlyda. þa hefr karll vpp kuædit ok kuedr framan til mids. ok þikir jalli lof j huerri visu ok finnr at þar er getit ok j framaverka Æireks sonar hans. en er a leid kuædit þa bregdr jalli nokkut vndarliga vid at ouæri ok kladi hleypr sua mikill um allan bukinn a honum ok æinna mest vm þioin at hann matti huergi kyrr þola. ok sua mikil bysnn fylgde þessum uuæra at hann [17] let hrifua ser med kombum þar sem þeim kom at. en þar sem þeim kom æigi at let hann taka strigaduk ok rida a þrea knuta ok draga .ij. menn mille þioanna a ser. Nu tok jalli illa at gediazst kuædit ok mællti. kann þinn heliarkall ekki betr at kueda þuiat mer þiker þetta æigi sidr heita mega nid en lof ok lat þu vm batna ella tekr þu giolld firir. Kall het godu vm ok hof þa upp visur ok hæita þokuvisur[2] ok standa j midiu jallz nide ok er þetta upphaf at.

þoku dregr upp hit ytra
el festizst hit vestra
mokkr mun nams af nȯkkui
nadrþings kominn hingat.

En er hann hafde vte þokuvisur þa var myrkt j hȯllinne. ok er myrkt er uordit j hallinne tekr hann aftr til jallz nids. ok er hann kuat hinn efzsta ok sidazsta þridiung þa uar huert jarnn a gangi þat er j var hallinne an manna uȯlldum ok vard þat margra manna bani. Jall fell þa j vvit en kall huarf þa j brott at luktum dyrum ok oloknum lasum. en eftir aflidit kuædit minkade myrkrit ok georde beart j hollinne Jall raknnade vid ok fann at honum hafde nær gengit nidit. sa þa ok vegs vmmerki at af var rottnnat skegg allt af jalli ok harit ȯdrum megin ræikar ok kom alldri upp sidan. Nu lætr jall ræsta hallina ok eru hinu daudu ut bornir. þikizst hann nu vita at þetta mun þorleifr verit hafua en kall eingi annar ok mun launat þikiazst hafua honum mannalat ok feartion. Liggr jall nu j þessum meinlætum allan þenna vetr ok mikit af sumrinu.

[1]) r. buit er at (?) [2]) þokurvisur *Cd.*

## Ferd þorleifs til Danmerkr.

172. þat er af þorleifi at segia at hann snyzst til ferdar sudr til Danmerkr ok hefir þat til læidarnestz ser sem hann ginti af þeim j hallinne. en huersu leinge sem hann hefuir a læid verit þa letti hann æigi sinne ferd fyrr en hann kom a fund Sueins konungs. ok tok hann vit honum fegins hende ok spurde hann at ferdum sinum. en þorleifr sagde allt sem farit hafde. Konungr suarar. nu mun ek læingia nafnn þitt ok kalla þik þorleif jallaskalld. þa quad konungr visu.

Græinde þorlæifr þrænda
þeingils brod fra dræingium
hafua olitit ytar
jallz nid borit vida.

niordr red uestan virdum
uellstære brag færa
brot landz gallt gæti
graliga leons baru.

þorleifr sagde konungi at hann fystizst vt til Jslandz ok bæiddi konung orlofs at fara þegar at vori. en konungr sagde sua vera skylldu. uil ek gefua þer skip j nafnnfest(i) med monnum ok ræida ok þuilikre ahöfn sem þer þarfazst. Nu er þorleifr þar um uetrinn j godu yfirlæti. en at uordaugum byrr hann skip sitt ok let j haf ok byriade uel ok kom skipi sinu vit Jsland j a þa er þiorsaa hæitir. þat segia menn at þorleifr kuæntizst vm haustit ok fengi þeirrar konu er Audr het ok væri þordar dottir er bio j Skogum vndir Eyiafiollum gilldz bonda ok storaudigs komin af ætt þrasa hins gamla. Audr uar kuennskörungr mikill. þorleifr sat vm vetrinn j Skogum en vm vorit eftir keyfti hann land at Höfdabrekku j Mydal ok bio þar sidan.

## Drap þorleifs.

173. En nu er þar til at taka er Hakon jall er at honum batnade hins mesta mæinlætis. en þat segia sumir menn at hann yrde alldri samr madr ok adr. ok villde jall nu giarnna hefnna þorleifi þessar smanar ef hann gæti. hæitr nu a fulltrua sina þorgerde Hörgabrude ok Jrpu systur hennar at reka þann galldr vt til Jslandz at þorleifi ynne at fullu ok færir þeim myklar fornir ok gek til frettar. en er hann fek þa frett er honum likade let hann taka æinn rekabut ok gera ór tremann. ok med fiolkynge ok atkuædum jalls en tröllskap ok fitons anda þeirra systra let hann drepa einn mann ok taka ór hiartat ok lata j þenna tremann. ok færdu sidan j föt ok gafu nafnn ok kölludu þorgard ok mögnudu hann med sua myklum fiandans krafti at hann gek ok mællti vid menn. kuomu honum sidan j skip ok sendu hann vt til Jslandz þess eyrendis at drepa þorleif jallaskalld. gyrde Hakon hann

atgeir þeim er (hann) hafde tekit or hofui þeirra systra ok Hörgi hafdi att. þorgardr kom vt til Jslandz j þann tima er menn voru (a) alþingi. þorleifr jallaskald uar a þinge. þat var æinn dag at þorleifr gek fra bud sinne er hann sa ad madr gek vestan yfuir Öxaraa. sa var mikill uexsti ok jllzligr j bragde. þorleifr spyrr þenna mann at hæiti. hann nefnndizst þorgardr ok kastade þegar kalldyrdum at þorleifi. en er þorleifr heyrde þat ætlade hann at bregda suerdinu konungsnaut er hann uar gyrdr med. en j þessu bile lagde þorgardr atgæirnum a þorleifi midium ok j gegnum hann. en er hann fek lagit hio hann til þorgarz en hann steyptizst j jordina nidr sua at j jliarnar uar at sia. þorleifr snarade at ser kyrtilinn ok kuat visu.

Huarf hinn billdar diarfui
huat uard af þorgarde
uillumadr a [108] uelli
uigdiarfr refilstiga.

farit hefir gautr at grioti
gunnelldz enn fiolkunni
sidan mun hann j heliu
huilazst stund ok milu.

þa gek þorleifr heim til budar sinnar ok sagdi monnum þenna atburd ok þotti öllum mikils vm vert vm þenna atburd. sidan uarpar þorleifr fra ser kyrtlinum ok fellu þa vt jdrin. ok let þorleifr þar lif sitt vit godan ordzstir ok þotti monnum þat allmikill skade. þottuzst nu allir vita at þorgardr þessi hafde æingi verit annarr en galldr ok fiolkynge Hakonar jalls. Sidan var þorleifr heygdr. haugr hans stendr nordr af logrettu ok setzst(!) hann enn. brædr hans uoru a þinge er þetta var tidenda ok geordu vtferd þorleifs sæmiliga ok erfdu hann at fornnum sid. en Asgeirr fadir þeirra uar þa litlu anndadr. Sidan foru menn heim af þinge ok frettuzst þessi tidende nu vida vm Jsland ok þottu mikils verd.

### Visa Hallbiarnar.

174. Sa madr bio þa a þingvelli er þorkell het. hann var audigr madr at ganganda fee ok hafdi jafnnan hęgt j bui. æinge var hann virdingamadr. Saudamadr hans het Hallbiornn ok var kalladr hali. hann vandizst oftliga til at koma a haug þorleifs ok suaf þar vm nætr ok hellt þar nalęgt fe sinu. kemr honum þat jafnnan j hug at hann uillde geta ort lofkuæde nokkurt vm haugbuann ok talar þat iafnan er hann liggr a hauginum. en sakir þess at hann var ekki skalld ok hann hafde þeirrar listar æigi feingit fek hann ekki kuedit ok komzst alldri leingra afram firir honum vm skalldskapinn en hann byriade sua.

Her liggr skalld.

en meira gat hann ekki kuedit. þat var æina natt sem oftar at hann liggr a hauginum ok hefir hina sômu idnn firir stafnne ef hann gæti aukit nôkkut lof vm haugbuann. sidan sofnar hann ok eftir þat serr hann at opnnazst haugrinn ok gengr þar vt madr mikill uexsti ok uel buinn. hann gek upp a hauginn at Hallbirnne ok mællti. þar liggr (þu) Hallbiornn ok uilldir þu fazst j þui sem þer er ekki lanat at yrkia lof vm mig. ok er þat annathuort at þer verdr lagit j þessi jþrott ok munt þu þat af mer faa mæira en uel flestum monnum ôdrum ok er þat uænna (at) sua verde ella þarftu ekki j þessu at briotazst læingr. skal ek nu kueda firir þer visu. ok ef þu getr numit visuna ok kant hana þa er þu uaknar þa munt þu verda þiodskalld ok yrkia lof um marga hôfdingia ok mun þer j þessi jþrott mikil lagit uerda. sidan togar hann a honum tunguna ok quad visu þessa.

Her liggr skalld þat er skallda
skôrungr uar mestr at flestu
nadduæiti fra ek nytan
nid Hakoni smida.
adr gat eingr ne sidan
annarra sua manna
frægt hefir ordit þat fyrdum
ferán lokit hanum.

Nu skaltu sua hefia skalldskapinn at þu skalt yrkia lofkuęde um mik þa er þu uaknar ok uanda sem mest bæde hatt ok ordfære ok æinna mest kenningar. Sidan huerfr hann aftr j hauginn ok lykzst hann aftr. en Hallbiornn uaknar ok þikizst sea a herdar honum. sidan kunne hann visuna. ok for sidan til bygda heim med fe sitt eftir tima ok sagde þenna atburd. Orti Hallbiornn sidan lofkuæde um haugbuann ok var hit mesta skalld ok for vtan fliotliga ok kuat quædi vm marga hofdingia ok fek af þeim myklar uirdingar ok godar giafir ok græddi af af þui storfe. ok gengr af honum mikil saga bæde her a lande ok vtlendiss þo at hon se her æigi ritut. En fra brædrum þorleifs er þat at segia at næsta sumar eftir andlat hans foru þeir vtan Olafr uôlubriotr ok Helgi hinn frækni ok ætludu til hefnnda eftir brodur sinn. en þeim uard æigi lagit þa enn at standa yfir hofutsuôrdum Hakonar jalls þuiat hann hafde þa enn æigi ollu illu þui framfarit sem honum vard lagit ser til skammar ok skada. en þo brendu þeir môrg hof firir jallinum ok geordu honum margann fearskada j ranum ok heruirke er þeir uæittu honum ok margri annare vspekt. ok lykr her fra þorleifi at segia.

## Raadagerdir Hakonar jarls vid Olaf.

175. Hakon jall red Noregi allt hit ytra med sionum hafde hann til forrada sextan fylki. en Haralldr konungr hinn harfagri hafdi sua skipat (at) jall skyllde vera j hueriu fylki ok hellzt þat leinge sidan. þuiat Hakon hafde vndir sig .xvj. jalla sem segir j Uelleklu.

Huar vite olld und æinum
jard(b)ygguis sua liggia
þar skuli herr vm hugsa
harli .xvj. jarlla.

Medan er Hakon jall red Noregi uar arferd god j lande ok fridr godr innanlandz med bondum. var jall læingzsta hrid allvinsæll vid bændr. en er a læid æfui Hakonar jalls þa gerdizst miog at vm hann at hann var vsuifinn ok ofirirlæitinn um kuennafar. geordizst at þui sua mikill usidr at jall let taka rikra manna dætr ok flytia heim til sin ok la hia viku edr .ij. sendi þær sidan hæim. jall fek af þessu mikinn oþokka af frendum kuennanna. toku bændr at kurra suo sem þrendir eru uanir um allt þat er þeim þikir j moti skapi. Hakon jall hafdi ok [illegible] fæingit afspurnn nokkura at sa madr var firir uestan haf er Oli nefndizst ok hallda menn hann firir konung en hann grunade at frasögnn nokkurra manna ath uera munde æinnhuerr af ætt norrænne. jalli uar sagt at hann var girzkr at ætt en j annarre græin hafde hann spurt at Tryggui Olafsson hafde att þann son er farit hafde austr j Gardariki ok þar verit uppfæddr med Ualldimar konungi ok het sa Olafr. hafde jall miog atspurningum læitt um þenna mann. grunade hann at sa hinn same munde nu vera firir uestan haf. Vm uorit eftir Jomsvikinga orrostu stefnnde Hakon jall til sin mörgum hofdingium austr j landi. þar kuomu ok ordsendingar jalls sem þeir voru brædr synir Æireks a Offrustodum Jostæinn ok Kallshöfut. þar var ok sa madr er nefndr er þorir klakka hann var mikill vin Hakonar jalls. hann var uanr at fara j uiking a sumrum en stundum rak hann kaupeyri til ymisra landa. var honum uida kunnikt firir. Hakon jall atti husþing vit hofdingia sina þa er hann hafde samankallat. hann sagde þa. þat höfum ver spurt at sa madr er firir uestan haf er kalladr er Oli hinn girzski. en ek hygg at þar se Olafr Trygguason. ok ef suo er þa munum uær æiga uon af honum hins mesta vfridar ef hann færr nokkurnn afla. nu uillda ek þeim radum til rada vid yduart samþykki at ver mættim allir samt hafua j ro riki uort þuiat mer læidizst at æiga slikan vfridar gang sem ver höfum firir skommu átt af hernade Jomsvikinga. hefui ek þat helldr

hugsat ef þer vilit sua at koma honum med nokkurum brôgdum uidr litinn styrk hingat a uort ualld. Hôfdingiar kolludu þetta hit bezsta rad sôgdu at þeir uilldu Hakon jall hafua yfir ser medan hann er til en ônguann vtlendan hofdingia. Let jall þa kalla til sin þori klokku vin sinn ok mællti til hans. þu skalt fara kaupferd j sumar sem nu er miog monnum tijtt uestr til Dyflinnar a Jrland en reyndar skaltu spyria huort sa madr er uestr þar er kallazst Oli hinn girzski. ok ef þu spyrr þat til sannz at þar se Olafr Trygguason edr nôkkurr annar af norrænne konunga ætt þa skaltu ef þu matt hafua vid hann suikræde nôkkur annathuort at koma honum a mitt ualld ella drepa hann sialfr. þessu jattar þorir. þeir Josteinn ok Kallshôfud uoru a tali vid jall. þa mællti jall. þit skulut fara vestr vm haf med þessum manni þori klokku ok sueria adr þann hinn sterkazsta æid at þit skulut ollu þui at fylgia sem þorir ferr fram ef þer finnit Olaf Trygguason ok allt skulu þit þat fylla sem þorir færr framkomit ok skulut Olaf med ôngu moti vita lata þa uel er þer georit honum fyrr en þer komit aftr til Noregs med Olaf ok (hann) stigr fotum a meginland. þa mun ek gera rad firir at ekki skade til þoat þit georit hann uarann uit uora radageord. ok þui skyllda ek ykkr til þessa helldr en adra at Olafr mun helldr trunat a leggia a ykkra soggnn nafrenda sinna helldr en annara ser uandalausra. en j annan stad eru þit sua godir dreingir at þit gangit ekki a þa æida er þit suerit mer ok ôllum þessum hofdingium sem her eru saman komnir. þeir brædr badir suorudu. alldri skal okkr su skaum henda at vit suikim suo omannliga okkarnn frenda. Jall suarar. þa er enn til annarr kostr ef þit vilit þenna æigi at þit skulut a þessum fundi vera kualdir sarum pijslum til bana en þiggia af oss ella godar giafir ok allra uorra hofdingia vinattu ef þer fullgeorit þenna vornn bodskap. Nu huort sem þeir tôludu j moti leingr eda skemr þa jattudu þeir at taka vit þessu uæilræde. bundu þeir þa suardôgum vid Hakon jall ok alla hofdingia er þar voru at hallda þetta allt sem Hakon jall mællti helldr en mæta sua hordum afarkostum sem þeim var heitit. biugguzst þeir þorir þa sem skiotazst ok sigldu uestr um haf. Haralldr grenski son Gudrôdar Biarnarsonar atti Astu dottur Gudbranz kulu gôfug(s) mannz. Haralldr konungr hafde a þessu sama uori farit austr til Suiþiodar ok var þar brendr inne sem segir j æfui Noregs konunga. hôfdu þeir þorir spurt tidendin adr þeir foru af Noregi. þa uar Asta kona hans med suæinbarnne ok fæddi barnn um sumarit eftir sa suæinn var uattnne ausinn at fornum sid ok nefnndr Olafr. þorir klakka kom til Dyflinnar a Jrlande ok fretti at Oli hinn girzski var þar med

Olafi kuoran magi sinum. þorir kom ser skiott j tal vid Ola þuiat þorir uar malspakr. en er þeir hǫfdu oft vid talaz þa tok Oli at spyria af Noregi fyst fra Upplendinga konungum[1] huort er þeir uoru a lifue. þorir sagde slikt er hann spurde. sua ok þat at Haralldr konungr grenski hafdi fallit vm uorit j Suiþiod. þui næst fretti Oli um Hakon jall huersu uinsæll hann væri j landinu. þorir suarar. Hakon jall er sua rikr at æinge madr þorir annat at gera edr mæla en hann uill. en þat uelldr þui at huergi annarstadar er til traustz at sia. en þer [[Ɂ]] satt at segia væit ek margra gǫfgra manna skaplynde ok sua alþydunnar þat vera at þess væri fusazstir at þar kuæm(i) nokkurr konungr mikill af ætt Haralldz hins harfagra. en ver siam ǫnguan þann þar til jnnanlandz ok þo mest firir þa skylld at þat þikir nu reynt at ǫngum dugir at beriazst vid hann sidan hann sigrade Jomsvikinga sua mikinn styrk sem þeir hofdu. En er þeir hofdu miog oft vm þetta at tala þa let Olafr j lios vid þori nafnn sitt ok spurde sidan. huat ætlar þu þorir ef ek kem til Noregs huort bændr munu uilia taka mik til konungs yfir landit. þorir eggiade hann med mikille akæfd at hann fære til Noregs ok lofade miog hans atgeorui. tok enn ok sagde þorir sua. nu gerdir þu uel at þu duldizst æigi læingr firir mer þuiat ek heyrde margar sǫgur af þer ok margr annar j Noregi af þinne frægd. ok þer satt at segia þa var þat einkanliga mitt eyrendi þessu sinne uestr hingat vm haf at ek for eftir bæn Upplendinga hǫfdingia ok annarra þinna frenda at uerda uiss huat manni Oli hinn girzski uæri er suo mikil agæti væri af sǫgd iafnnliga. ok ef ek gæti þat sagt fra sem nu er at þu uærir Olafr Trygguason þa var þat bæn frenda þinna ok allrar alþydu af Noregi at þu kæmir þar sem fliotazst ok gerdizst hǫfdingi yfir landinu. sogdu þeir þat sem satt er at Hakon jall hefuir ǫnguan styrk til at hallda rikinu ef almuginn er a moti þarlenzskum hofdingia þo at jall uerde landit firir utlendum uikingum þa er landherrinn uæitte honum. ok þadan er þat er ek talada fyrra dags at folk uillde þar hafua konung af ætt Haralldz hins harfagra. en til þess at þu megir æigi gruna sǫgnn mina her um þa eru her med mer at rade annarra frenda þinna .ij. modurbrædr þinir Jostæinn ok Kallhǫfut. En er hann visse at frendr hans uoru komnir sendir hann eftir þeim med ollum blijdskap. a hann þa rad ok rædur uit þa þori alla saman. fretti Olafr þa enn vm eyrendi þeirra en þorir sagdi þa enn sem fyrr. þeir Josteinn hofdu fatt vm sǫnnudu þat er þorir sagde. en med þui at Olafr trude ordum þeirra en var adr fuss til at fara til Noregs þa bio hann ferd

[1]) konungi *Cd.*

sina ok hafde .v. skip. siglde hann af Jrlandi þegar hann var buinn fyst til Sudreyia þadan til Orknneyia. þeir þorir uoru þar j ferd med honum.

---

## Fundinn Noregr.

176. Forniotr hefir konungr hæitit. hann red firir Jotlandi er kallat (er) Finnland ok Kuenland þat er[1] liggr firir austan hafsbotnn þann er gengr til motz vit Ganduik. þat kollu ver Helsingiabotnn. Forniotr atti .iij. syne het æinn Hlerr er uer kollum Ægi annar Logi þride Kari. hann var fadir Frosta faudur Snærs hins gamla. hans son het þorri hann atti .ij. syne het annarr Nór en annarr Gór. dottir hans het Goi. þorri var blotmadr mikill. hann hafde blot a hueriu are at midium uetri þat kolludu þeir þorrablot. af þui tok manadrinn hæiti. þat var tidenda æinn uetr at þorrabloti at Goi huarf j brott ok var hennar læita farit ok finnzst hon æigi. ok er sa manadr leid let þorri fa at bloti ok blota til þess er þeir yrde uissir huar Goi væri nidr komin. þat kolludu þeir goiblot. æinskis urdu þeir uisir um hana at helldr. iij. vetrum sidarr streingdu þeir brædr heit at þeir skylldu hennar leita. ok skipta sua leitinne at Norr skyllde leita um lǫndin en Gorr skyllde leita vm vtsker ok eyiar ok for hann a skipum. huortueggi þeirra brædra var fiolmennr. Hellt Gor skipum sinum vt eftir hafsbotnum ok suo j Allannz haf. sidan kannar hann uida Suiasker ok allar eyiar er liggia j Eystrasallti eftir þat j Gautasker ok þadan til Danmerkr ok kannar þar allar eyiar. hann fann þar frędr sina þa er komnir voru af Hle hinum gamla ór Hlessey. ok hellt hann þa enn fram ferdinne ok spyrr ekki til systur sinnar. En Norr brodir hans bæid þess er snio lagde a heidar ok skidfæri gerde gott. eftir þat for hann af Kuenlandi ok firir jnnan hafsbotnninn ok kuomu þar er þeir menn voru er Lappir heita. þat er a bak Finnmork. en Lappir uilldu banna þeim yfirfor ok tokzst þar bardagi. ok sa kraftr ok fiolkynge fylgde þeim Nor at vvinir þeirra urdu at giallti þegar þeir heyrdu herop ok sa uopnum brugdit ok lǫgdu Lappir a flotta. En Norr for þadan uestr a kiolu ok uar læingi vti ok sua at þeir uissu ekki til manna ok skutu dyr ok fugla til matar ser. foru þar til er uotnn hnigu til vestrættar af fiollum. þa fara þeir med uotnnunum ok kuomu at sia. þar var firir

[1] firir austan hafsbotnn þann er *tilf. Cd.*

þeim fiordr mikill sem hafsbotnn væri. þar uoru bygdir myklar ok dalir storir gengu at firdinum. þar var safnnadr firir þeim ok redu þeir þegar til bardaga vid Nor. ok for þeirra skipti eftir uana. allt folk fell þar edr flyde en Nórr ok hans menn gengu yfir sem lok yfir akra. for Norr um allan fiordinn ok lagde undir sig ok geordizst konungr yfir þeim herudum er þar lagu innann fiardar. Nórr dualdizst þar um sumarit [|||] þar til er sniafade a hæidar. þa stefnnde hann upp eftir dalnum þeim er sudr gengr af firdenum. sa fiordr er nu kalladr þrandheimr. suma menn sina lętr hann fara hit fremra um Mærina. hann lagde undir sig huar sem hann fór. ok þa er hann kemr sudr yfir fiallit þat er uar firir sunnan dalsbottninn sotti hann sudr eftir dôlunum þar til er hann kom at uatnne myklu er þeir kôlludu Miôrs. þa snyrr hann enn uestr a fiallit þuiat honum uar sagt at menn hans hôfdu farit vsigr firir konungi þeim er Soknni het. þa kuomu þeir j þat herat er þeir kôlludu Ualldres. þadan foru þeir til siofar ok kuomu j langan fiord ok miofan er nu hæitir Sognn. þar var fundr þeirra Sokkna ok attu þeir þar orrostu mykla þuiat Soknna bra ekki vid fiolkyngi þeirra. Nórr gek fram hart ok skiptuzst þeir Sokni hôggum vid. þar fell Sokni ok mart lid hans.

Ferd Nórs eftir Noregi at leita sy(s)tur (sinnar).

177. Eftir þat fór Nórr j fiord þann er nordr gengr af Soggne. þar hafde Sokne firir radit er nu hæitir Soknadalr. þar dualdizst Nórr læinge ok hæitir þar nu Norafiordr. þar kom til motz uid hann Górr brodir hans ok hafde þa huorgi þeirra spurt til Goi. Górr hafde ok undir sig lagt land allt et ytra er hann hafdi sunnan farit. ok þa skiftu þeir londum med ser brædr. hafde Norr meginland allt en Górr skal hafua eyiar þær allar er hann ferr stiornnfôstu skipe mille ok meginlandz. Ok eftir þat ferr Nórr til Upplanda ok kom þar sem nu hæitir Heidmork. þar red sa konungr firir er het Hrolfr ór Biargi hann uar son Suada jôtuns nordan af Dofrum. Hrolfr hafde numit a brott af Kuenlandi Goi þorra dottur. hann fór þegar til motz vid Nor ok baud honum til æinuigis. þeir bôrduzst læingi ok uard huorgi sárr. eptir þat sættuzst þeir ok fek Norr systur Hrolfs en Hrolfr fek Goi. þadan sneri Norr aftr nordr til rikis þess er hann hafde undir sig lagt. þat kallade hann Norueg. red hann þui riki medan hann lifde. en synir hans eftir hann ok skipta þeir lande med ser. ok toku sua riki at smæckazst sem konungar toku fiolgazst ok greinduzst sua j fylki.

### Beitir feck Noregh.

178. Górr[1] hefir ok verit kalladr sækonungr hans synir uoru þeir Hæiti ok Bæiti. þeir uoru sækonungar ok ofstopamenn myklir. þeir gengu miog a riki sona Nórs ok attu þeir margar orrostur ok sigrðduzst ymsir. Bæitir lagde inn j þrandheim ok heriade þar. hann la þar er nu hæitir Bæitissærr edr Bæitisstðd. þar let hann draga skip ór Bæitisstðd innanuerd(r)e ok nordr yfir Æiskrueid þar ganga Naumudalir at nordan. hann settizst j lyfting ok hellt vm hialmuðl ok æignadizst land allt þat er var a bakborda ok eru þar margar bygdir. Hæitir son Górs uar fadir Sueida sækonungs fðdur Halfdanar hins gamla fðdur Juars Upplendinga jalls fðdur Æysteins glumru fðdur Rðgnnualldz jalls hins rika ok hins radsuinna.

### Riki Haralldz konungs ok Rognualldz jarls.

179. Rognualldr jall gek til landz med Haralldi hinum harfagra. en hann gaf honum yfuirsoknn yfir Mæri huoratueggiu ok Raumsdali. hann atti Ragnnhilldi dottur Hrolfs nefiu. þeirra son var Hrolfr er uann Normandi. hann uar sua mikill at hann baru ðngir hestar hann uar kalladr Gaunguhrolfr. fra honum eru komnir Rudu jallar ok Æingla konungar. þeirra synir voru þeir Juarr ok þorir þegiande. Raugnualldr atti ok fridlusonu. het Halladr ok Hrollaugr ok Æinar hann uar yngzstr. Haralldr hinn harfagri for a æinu sumre vestr um haf at hegnna uikingum er honum læiddizst ofridr þeirra er heriudu j Noreg vm sumrum en uoru j Hiatlande edr Orkneyium a uetrum. Haralldr lagde undir sig Hiatland Orkneyiar ok Sudreyiar. hann fór allt uestr vm Maun ok eyddi Manar bygdina. hann atti þar margar orrostur ok eignnadizst laund sua langt uestr sem æingi Noregs konunga hefir læingra fæingit sidan. ok j æinne orrostu fell Juarr son Raugnualldz jalls. en Haralldr konungr siglde uestan þa gaf hann Raugnualldi j sonar bætr Hiatland ok Orkneyiar. en Rognualldr jall gaf Sigurde brodur sinum bæde londin. hann uar stafnnbui Haralldz konungs. konungr gaf Sigurdi jalls nafnn adr hann fór uestan. Sigurdr uar ok eftir uestr þar.

### Drepinn Melbrigda jarl af Sigurdi.

180. Sigurdr jall geordizst hofdingi mikill hann gerdi felag sitt vid þorstæin raud son Olafs hins huita ok Audar hinnar diupaudgu ok unnu þeir Katanes allt ok mikit annat af Skotlandi Mærhæfui ok Ros. hann let gera borg a sunnanverdu Mærhæfui. þeir mælltu fund a mille sin Melbrigda tonn Skota jall ok Sigurdr jall ok semia mal sin a

[1]) Norr *Cd.*

millum j akuednum stad med .xl. manna huorr. ok þa er nefnndardagr kom hugsade[1] Sigurdr jall Skota vera otrua. hann let bua .lxxx. manna a .xl. hesta. ok þa er Melbrigda jall gat at lita mællti hann vid sina menn. nu eru ver suiknir af Sigurdi jalli þuiat ek se .ij. mannzfætr a huerri hrosssidu ok munu menn vera halfu fleire en faraskiotar. herdum nu hugina ok læiti huerr [112] uorr at hafua mann firir sig adr en ver latimzst. Nu buazst þeir vid. ok er Sigurdr gat at lita þat skipar hann radageord sinne ok mællti hann vid sina menn. nu skal fara af baki helmingr lids uors ok koma j opnna skiolldu þa er saman lystr lidinu. en ver munum rida at sem huatazst ok stökkua j sundr fylkingu þeirra. Nu uard þar hardr bardagi ok æigi langr adr Melbrigdi jall fellr ok allt hans foruneyti. en Sigurdr jall let festa höfud þeirra vid slagalar til agætis ser. ok þa ridu þeir heim ok hrosudu sigri. ok er þeir voru a læid komnir þa uillde Sigurdr jall keyra hest sinn med fæti ok lystr kalfuanum a tönn þa er skagde ór höfde Melbrigda jalls ok skæindizst ok laust j uerk ok þrota ok þat leiddi hann til bana. ok er Sigurdr hinn riki heygdr a Ekkials bakka. Guthormr het son Sigurdar. hann red æinn londum æinn vetr ok do barnnlaus. En er Rognualldr Mæra jall spurde anndlát þeirra fedga sendi hann vestr Hallat son sinn ok gaf Haralldr konungr honum jalls nafnn. Halladr komzst uestr ok settizst j Hrossey en vikingar foru vm vteyiar ok annes ok drapu menn ok rænntu. bændr kærdu skada sinn firir Hallade jalli ok þotti hann litt retta hlut þeirra. þa læiddizst Hallade tignin ok uelltizst or jalldominum ok tok upp haulldz rett ok fór aftr til Noregs ok þotti hans för hin haduligazsta.

## Ferd Einars til eyiar.

181. Uikingar .ij. danskir settuzst j eyiarnar. annarr het Þorir treskegg en annar Kalfr skurfa. en er Rognualldr jall spyrr þetta likar honum storilla ok heimtir til sin sonu sina Þori ok Hrollaug. Hrolfr var þa enn j hernnade. Rognualldr spurde huorr þeirra uillde uestr j eyiarnar. Þorir bad hann firir sea vm sina ferd. Jall suarar. suo segir mer hugr um at her mune þinn þroski mestr vera ok liggia uegar þinir ekki hedan. Uilltu fadir segir Hrollaugr at ek fara. Jall suarar. ekki mun þer jalldoms audit verda. vt uilea uegar þinir til Jslandz. þar muntu auka þina ætt ok mun göfug uerda. Þa gek fram Æinarr hinn yngzsti son hans ok mællti. uilltu at ek fara til eyianna ok mun ek þui hæita þer sem þer mun mest vndir þikia at ek mun alldri koma þer

[1]) hugsage *Cd.*

j augsyn sidan ok a ek vid litit gott her at stydiazst ok órugın vm at minn þroski uerde annarstadar minne en her. Jall suarar. olikligr ertu til hôfdingia firir sakir modur þinnar þuiat hon er þrælborin j allar ættir. en satt er þat at þui betr þikir mer sem þu ferr fyrr j brott en kemr sæinna aftr. Rognualldr jall fek Æinari tuitôgsessu alskipada en Haralldr konungr gaf honum jalls nafnn.

## Drepnir vikingar.

182. Einarr siglde uestr til Hiatlandz ok dræif mart lid til hans. eftir þat for hann sudr til Orknneyia til motz vid þa Kalf skurfu ok Þori treskegg. var þar bardagi mikill ok fellu þeir badir vikingarnir. Þa var þetta kuedit.

Hann gaf Treskegg trôllum
Torfuæinar drap Skurfu.

Eftir þat lagdi Æinarr undir sig lôndin. hann geordizst hinn mesti hôfdinge. hann fann fystr manna at skera torf ór jôrdu til elldiuidar a Torfnesi a Skotlande þuiat illt var til elldiuidar j eyiunum. Æinarr uar mikill madr uegsti liotr æinsynn ok þo manna skygnnstr.

## Bardagi Einars jarls ok Halfdanar konungs sunar.

183. Þa er synir Haralldz harfagra voru rosknir georduzst þeir ofstopamenn myklir ok vhægir innannlandz sem fyr segir. Snæfridar synir Halfdan haleggr ok Gudrôdr liome drapu Rôgnualld Mæra jall. Þui uard Haralldr ræidr miog ok uard Halfdan landflotti uestr um haf en Gudrôdr sættizst vid fôdur sinn en Halfdan haleggr kom j Orknneyiar. stôk Æinarr jall or eyium ok upp a Skotland en Halfdan geordizst konungr yfir eyium. Æinarr jall kom aftr a sama áre. ok er þeir funduzst vard bardagi mikill ok hafde Æinarr jall sigr en Halfdan hliop firir bord. Æinarr quad visu.

Set gat ek Hrolfs ór hende
ne Hrollaugi fliuga
daurr a dela mæingi
dugir oss faudur hefnna.

en j kuelld medan knudum
vm kerstraumi romu
sitr þegiandi vm þetta
Þorir jall a Mære.

Vm morgininn eftir fundu (þeir) Halfdan halegg nordr a Rinars hæd. jall let rista blodôrnn a baki honum med suerdi ok skera fra rifin hrygginum ok draga þar vt lungun ok gaf hann Odni til sigurs ser ok quad visu.

Margr verdr senn at saudum
seggr med fögru skeggi
en ek at ungs j eyiu
allualldz sonar falli.
hætt segia mer holdar
vid hugfullann stilli
Haralldz hefuig skard j skillde
skal ek æi ugga þat höggit.

Eftir þat lætr hann kasta haug eftir hann ok quad visu.

Rekit tel ek Raugnnualldz dauda
rett skiptu þui nornir
nu er folkstudull fallinn
at fiordunge minum.
hlydi snotrir seggir
þuiat sigri uær radum
skatt uel ek honum hardan
af Hafættu grioti.

Ok er þetta spyrst til Noregs þa urdu brædr hans storilla vid ok hæituduzst at fara j eyiar ok hefna hans en Haralldr olli at frestadizst. Æinarr jall quad þetta þa er hann spurde heitan þeirra.

Eru til (mins) fiors margir
menn vm sannar deilldir
ór ymissum attum
osmabornir [113] giarnir.
en þo uita þeyge
þeir adr mig hafui fellda
huerr jlþornar arnnar
vndir hlytr af stundu.

Nökkuru sidarr for Haralldr konungr uestr vm haf ok kom j eyiar. Æinarr stok ór eyium ok yfir a Katanes. eftir þat foru menn a mille þeirra ok sættuzst þeir. Haralldr konungr lagde gialld a eyiarnar ok bad þa giallda .lx. marka gullz. Æinarr jall baudz til at hallda æinn upp gialldinu ok æignaz odul þeirra öll. en bændr uilldu þat þuiat hinir audgu hugduzst leysa mundu odul sin en hinir snaudu höfdu ekki fe til. Æinarr greidde upp gialldit ok uar þat leinge sidan at jallar attu odul oll adr Sigurdr jall gaf upp Orkneyingum odul sin. Haralldr konungr for aftr til Noregs. en Æinarr jall red firir Orkneyium leinge æfui ok vard sottdaudr. hann atti .iij. sonu het æinn Arnnkell annarr Erlendr þride þorfinnr hausakliufr. þa er Haraldr harfagri anndadizst var Æirekr blodöx .ij. uetr konungr. þa kom Hakon Adalstæins fostri j land en Æirekr stök a burt sem fyr segir. Arnnkell ok Erlenndr jallar synir Torfuæinars fellu a Æinglande med Æireki konungi blodöx sem fyrr er ritat. Gunnhilldr ok synir hennar foru sidan til Orknneyia ok toku þær undir sig ok duolduzst þar um hrid. þadan foru þau til Danmerkr ok giftu adr Ragnnhilldi dottur Æireks ok Gunnhilldar Arnnfinne syne þorfinnz jalls ok settizst þorfinnr jall at eyium. hann var höfdingi mikill ok herskárr. hann uard sottdaudr ok er hann heygdr j Rognnualldsey a Hauga hæide ok þotti verit hafa mikilmenni.

## Draap Hauardz.

184. þorfinnr atti .v. sonu. het æinn Hauardr hinn ársæli annar Hloduerr hinn þride Liotr .iiij. Skuli .v. Arnnfinnr. Ragnhilldr Æireksdottir red Arnnfinne bonda sinum bana j Myrkholu[1] a Katanesi en hon giftizst Hauardi hinum arsæla brodur hans. Hauardr tok jalldom ok uar godr hofdinge ok ársæll. Æinarr kliningr het madr systurson Hauardz hann uar hofdinge mikill ok hafdi sueit mykla ok uar j hernade a sumrum. hann þa ueitzslu at Hauardi ok at þeirri uæizslu tóludu þau mart Ragnhilldr ok Æinarr. kallade hon slikan mann uel til hofdingia fallinn ok betr hentan jalldom en Hauarde frenda hans ok kallade þa konu uel gifta er slikan mann ætti. Æinarr bad hana ekki taka slikar rædur kuat hann mann gófgazstann j eyium ok hana fulluel gifta. Ragnhilldr suarar. skammar munu verda samfarar okkar Hauardz hedan fra. satt er þat at verda munu menn til (j) eyium þeir er æigi mun allt j augu uaxa ef þu firirmant þer tignarinnar. Vid slikar fortaulur hennar gekz Æinare hugr til agirnne ok suika vid jall frenda sinn. ok sómdu þat sin a millum at hann skyllde drepa jall en hon skyllde giftazst honum. Ok nókkuru sidarr biozst Æinarr til ferdar þeirrar ok þa mællti spamadr æinn er var med honum. ger þetta uerk æigi i dag helldr a morgin ella munu leingi ætluig uera j ætt yduarre. Æinarr let sem hann heyrde þetta æigi. Hauardr uar þa a Stæinsnese j Hrosey. þar uar fundr þeirra ok bardagi hardr ok æigi langr adr jall fell. heitir þar nu Hauardz tæ(i)gar. Ok þa er þessi tidendi spyriazst þotti Æinarr ordinn nidingr mikill af verki þessu. þa uillde Ragnhilldr ekki sambland æiga vid hann ok kallar þat lygd æina at hon hefde þar j heitum verit. sendi hon þa eftir Æinari hardkióft. hann var son annarar systur Hauardz. ok þa er þau funduzst sagde hon skom at slikum frendum hans er æigi uilldi hefnna hans. kallaz allt uilia til vinna at jalls yrde hefnnt. er þat ok auduitat sagde hon at sa mun mest metinn af ollum godum monnum er jalls hefnir. hefir sa ok unnit til rikis hans. Æinarr suarar. þat er mællt fra segir hann at þer mælit stundum annat en ydr er j skapi. en sa er þetta uerk gerir mun uilea þat firir hafua at þu halldir þeim j hendr rikinu ok þeim hlutum odrum er æigi mun þikia minna skipta. Slita sua rædunni. Eftir þetta for Æinarr hardkioftr at Æinari kliningi ok drap hann. en Ragnhilldr sendi eftir Lioti brodur þeirra ok giftizst honum. Liotr tok jalldom ok gerdizst hofdingi mikill. Æinarr hardkioftr hafde nu drepit frenda sinn en var æigi nærr jalldomi en adr.

[1]) *saal. oprind. i Cd.; siden forandret til* Myrkkol.

unir hann nu storilla sinum hlut uillde nu afla ser manna ok sækia med magni til eyianna. honum uard illt til manna þuiat Orkneyingar uilldu þiona sonum þorfinnz hausakliufs. ok nokkuru sidar let jall drepa Æinar hardkioft.

## Bardagi Liotz ok Skula.

185. Skuli brodir Liotz for upp a Skotland ok var þar gefuit jalls nafnn af Skotakonungi. sidan for hann ofan a Katanes ok aflade ser þar lids ok for þadan j eyiar ok deilldi þar til rikis vid Liot brodur sinn. Liotr safnar lide ok for til motz vid Skula ok var fiolmennri. en er þeir funduzst uillde Skuli ekki annat en beriazst. vard þar hardr bardagi ok sigradizst Liotr en Skuli flyde yfuir a nes. ok þangat ferr Liotr eftir honum ok dualdizst þar vm hrid ok uard fiolmennr. ok þa ridr Skuli ofan af Skotlandi med her mikinn ok funnduzst þeir Liotr j Dølum a Katanese ok var þar orrosta mikil. [ill] Skuli hafdi her mikinn er Skotakonungr hafde fæingit honum ok Magbiodr jall ok voru Skotar hinir akaufuzstu j ønduerdre orrostu. Liotr jall bad menn hlifa ser ok standa þo sem fastazst. en er Skotar fengu ekki at gert eggiade Liotr sina menn ok var sialfr hinn akafuazste. ok er sua hafde stadit vm hrid þa raufzst fylking þeirra Skota ok eftir þat flyia þeir en Skuli hellt upp bardaga en fell þo at lyktum. Liotr tok undir sig Katanes ok var þa vfridr milli Skota ok Liotz jalls þuiat Skotar undu illa ofaurum sinum. þa er Liotr jarll uar a Katanesi þa kom ofan Magbiodr jall af Skotlande med her mikinn ok funduzst þeir Liotr jall a Skidamyre a Katanesi. ok hafdi Liotr jall ekki lids vid en þo gek Liotr sua fast fram at þeir viknnudu firir Skotarnir. ok var skammr bardagi adr þeir flydu er lifuit þagu en fiolde var sárt. Liotr uendi aftr med sigri ok var lidit miog sart. Liotr jall hafde ok feingit sár þat er hann læidde til bana.

## Bardagi.

186. Lauduerr tok ialldom eftir Liot ok var mikill høfdingi hann atti Audnu dottur Kiaruals Jrakonungs. þeirra son var Sigurdr digri. Lauduerr uard sottdaudr ok er heygdr j Høfnn a Katanesi. Sigurdr son hans tok jalldom eftir hann. hann vard hofdingi mikill ok vidlendr. hann hellt med ualldi Katanes firir Skotum ok hafde huert sumar her vti. hann heriade j Sudreyiar a Skotland ok Jrland. þat var a æinu sumre at Finnlæikr Skota jall hastlade Sigurde uøll a Skidamyre at nefndum degi. en Sigurdr gek til frettar vid modur sina hon uar magrkunnig.

Jarll sagde henni at æigi munde minne lids munr en .vij. menn vm æinn. Hon suarar. ek munda þig hafua leingi upp fætt j ulllaupi minum ef ek vissa at þu mundir æinart lifa. ok rædr audna lifui en eigi huar madr er kominn. betra er at deyia med sæmd en lifua med skom. tak þu her vit merki þui er ek hefir gỏrt af allri minne kunnattu ok uæntir ek at sigursællt mun uerda þeim er firir er borit en banuꞑnt þeim er berr. Merkit var geort af myklum hannyrdum ok agætligum haglæik. þat var gert j hrafnns mynd ok þa er vindr blæss j merkit þa uar sem rafnn bæindi fluginn. Sigurdr jall uard ræidr miog vid ord modur sinnar ok gaf Orknneyingum odul sin til liduæitzslu ok for til Finnlæiks jalls a Skidamyre ok fylktu huorirtueggiu lide sinu. ok þa er orrostan se saman uar skotinn merkismadr Sigurdar jalls til bana. Jall kuadde annan mann til at bera merkit ok þa er barizst uar vm hrid fell sa. .iij. fellu merkismenn jalls en hann hafde sigur ok fengu þa Orknneyingar odul sin.

## Fundr Olafs ok jarls.

187. Olafr Trygguason siglde uestan at Orknneyium sem fyrr var getit. en þuiat Petlandzfiordr var æigi færr þa lagde hann skip sin a lægi j Asmundaruoge vit Rognnualldzey. en þar a uoginum la firir Sigurdr jall Lauduersson med .iij. skipum ok ætlade þa i hernat. en þegar Olafr konungr visse þat at jall var þar firir þa let konungr kalla hann til mals vid sig. En er jall kom a konungs skip hof Olafr konungr sua rædu sina. þat mun þer kunnikt Sigurdr jall at Haralldr hinn harfagre for med her sinn uestr hingat þa er hann hafde eignazst allan Noreg. vann Haralldr konungr vndir sig Orknneyiar ok Hiatland ok mikit riki annat her firir vestan haf. gaf konungr eyiarnar ok Hiatland jarlle sinum Rỏgnuallde hinum rika j sonar bætr en Rognnvalldr gaf Sigurde brodur sinum. gerdizst Sigurdr þa jall Haralldz konungs. Annan tima for Haraldr konungr aa hendr Æinare jalli med allmikinn her. gengu þa godgiarnir menn a millum þeirra konungs ok Æinars ok sættuzst þeir at þui at konungr kallade ser allar Orknneyiar ok Hiatland. lauk sua med þeim at jarll gallt konungi .lx. marka gullz firir drap Halfdanar haleggs sonar hans en Æinarr jall hellt lỏndin[1] af Haralldi konungi. Litlu sidar kom austan af Noregi Æirekr konungr Haralldz son. voru þa jallar synir Torfuæinars lydskylldir Æireki konungi ok þat til marks vm (at þeir fengu konungi mikit lid til hernadar. en annan tima er Æirekr konungr kom til eyianna) hafde hann j brott

[1]) lỏndum *Cd.*

jalla tuo med ser Arnnkel ok Erlend en let firir londin þorfinn jall brodur þeirra. en þeir badir fellu a Æinglande med Æireki konungi. Eftir þat kuomu synir Æireks af Æinglandi ok hôfdu þeir þa ualld yfir eyiunum. en þa er þeir uoru hedan j brottu skipudu þeir lôndin Arnfinne[1] jalli magi sinum. eftir þat tok riki fyst Hauardr (af) brodur sinum. þa Liotr. sidazst Lauduerr fadir þinn. Nu hefuir þu Sigurdr jalldom yfir riki þessu er ek kalla mina æignn sem allt annat þat riki sem alt hefir Haralldr hinn harfagri ok huerr hans ættmanna tekit (i) arf eftir annan. þu uæitzt at nu eru synir Æireks ok Gunhilldar flestir af radnir. en þo at Ragnnhilldr systir þeirra lifue þa synizst mer sem hon mune þa illzsku drygt hafua a Orknneyingum at huergi æigi hon rad ne riki helldr hafui hon fullkomliga firirgert sinu fe ok fiorui ef þær udadir eru allar sannar er af henni eru sagdar sem monnum þikir miog ugganda ok æigi olikligt at se. Nu med þui Sigurdr jall at sua hefir til borit at þu ert kominn a mitt ualld þa attu .ij. kosti firir hendi miog [II5] vjafnna. sa er annarr at þu skalt taka tru retta ok georazst minn madr ok lata skirazst ok allir þinir vndirmenn. skaltu þa æiga vissa uon virdingar af mer ok at hallda sem minn vndirmadr med jalls tignn ok fullu frelsi þetta riki sem þu hefir adr haft. ok þar a ofan þat er myklu er mæira vert at rikia j æilifum fagnade j himnariki med allzualldanda gude. er þer þat vist ef þu helldr oll hans bodord. hinn er annar kostr at miog er daligr ok vlikr hinum fyrra at nu j stad skaltu deyia. ok eftir þinn dauda skal ek grimliga geisa lata elld ok jarnn vm allar Orknneyiar brenna ok bæla bygd ok menn nema þetta folk vile frelse hafua ok trua a sannan gud. ok nu ef þu ok þinir undirmenn vilia þenna upp taka sem sidarr var nefnndr þa muntu ok allir þeir er a ymislig skurgod trua hædiliga kueliazst j heluitis loga eftir bradan bana med daligum diôflum utan enda. En er Sigurdr jall hafde heyrt sua langt ok sniallt eyrendi Olafs konungs herdi hann huginn honum a moti ok mællti suo. þat er þer at segia Olafr konungr at ek hefui æinradit firir mer at ek vil æigi ok æigi ma ek ok æigi skal ek firirlata þann sid er minir frendr ok forfedr hôfdu firir mer þuiat ek kann mer æigi betri rad en þeir ok æigi ueit ek at sa atrunadr se betri er þu bodar en hinn er ver hôfum adr alla æfui haft ok halldit. Ok med þui at konungr sa jall þrahallda a sinne villu greip hann son hans iungan er hann hafde þar med ser ok þar hafde upp uaxit j eyiunum. þenna son jalls bar konungr fram a saxit ok bra suerde ok biozst at hôggua suæininn sua mælande. nu muntu Sigurdr

[1]) þorfinne *Cd.*

jall sia mega at ek skal ǫngum manni æira þeim er æigi uill almatkum gude þiona edr hlyda minum fortǫlum ok þeim hinum blezsada bodskap til heyra. ok þui skal ek nu þegar j stad þenna þinn son þer firir augum drepa med þessu sama suerde er ek helld a nema þu ok þinir menn þionit minum gude. þuiat hedan ór eyiunum skal ek æigi fyrr fara en ek hefui framit ok fullgert hans hit agæta eyrendi ok (þu) hefir skirn tekit ok son þinn sa er nu helldig a. Ok sua sem jall var þa vid kominn kaus hann þann kost er konungr uillde ok betr gegnndi at taka tru retta. var jall þa skirdr ok allt folk j Orkneyium. Sidan gerdizst Sigurdr jall eftir veralldar virdingu jall Olafs konungs ok hellt af honum lǫnd ok len ok fek honum j gisling þann sama son sinn er adr var af sagt. sa het Huelpr eda Hunde. let Olafr skira sueininn med Lǫduers nafni ok flutti med ser til Noregs. Sigurdr jall batt eidum allt sattmal þeirra. þui nęst siglde Olafr konungr burt af Orkneyium en setti þar eftir presta at sida folkit ok kenna þeim hæilug fræde. skildu þeir Olafr konungr ok Sigurdr jall med vinattu. Lifdi Hloduerr skamma stund. en eftir þat (er) hann er daudr uæitti Sigurdr jall Olafi konungi ǫngua lydskylldu. hann gek þa at æiga dottur Melkolfs Skotakonungs ok var þeirra son þorfinnr.

## Draap þoris klacka.

188. Olafr konungr siglir austr j hafit ok hǫfdu allblidan byr. var konungr þa hinn katazsti þuiat hann vissi ser ǫngrar uælar von edr haska huorki af frændum sinum ne ǫdrum monnum þeim er þar voru j ferd. en jafnan þotti honum vndarligt er frændr hans uoru suo hliodir en alldri gladir sidan þeir funduzst uestr a Jrlandi Josteinn ok Kallhǫfud. þeir komu af hafui utan at Mostr. gek hann þar a land ok let þar messu syngia j landtiallde. sidan markade konungr grunduoll til kirkiu j þeim sama stad er hann let messuna syngia. fek hann þar smidu til ok allt annat þat er þurfti. let Olafr konungr þa kirkiu fyst gera. lagde konungr þar fe til ok fek j hendr þangbrande presti. þorir klakka sagdi konungi þa er þéir komu til Mostrar. at honum væri þat æitt rad at gera ekki vart vid huerr hann var ok fara sem akafligazst nordr til þrandheims a fund Hakonar jalls sua at æingi niosnn fęri firir honum. þetta syndizst konungi uel til lagt ok vitrliga. gerde hann suo at hann for dag ok natt vtleid med landi sem byrleide gaf. kom huergi vid land en la vid vteyiar þa er motuidri uoru. En þorir gaf þui þetta rad til at hann visse at allt landzfolkit uar giarnnt a alla nyiung ok j annan stad huersu Olafr Tryggvason var frægr ordinn j

Noregi at margra manna frasognn. hugsade hann þat at sua marga frændr atte Olafr gofga ok tæingdamenn ǒllu megin fra ser austr a landit ef þeir tæki hann til hofdingia yfir sig sem visar uonir væri ef þeir vissi hann j land kominn at þa mundi at drifua allr landherrinn ok vilea ekki annat en taka hann til konungs ok efla til rikis. en styrkr Hakonar var mestr vm þrændalǒg ok þotti þori jalli ekki ofrefli vid uitrlæik sinn ok lidsafla at[1] rada Olaf af dǒgum ef hann kæmi nordr þangat med æigi lid flæira en hann hafdi ef þorir fengi adr. æigi færi til at taka Olaf af lifui sem þeir jall hǒfdu rad til sett adr þorir fór ór Noregi. foru þeir nu sua at landzfolkit vard ekki vart vid þa. En æins dags at kuellde kuomu þeir nordr at Agdanes(i) [116] lǒgdu þar skip sin til lægis ok tiolldudu yfir. en þegar at þeir fundu menn at mali spurdu þeir at Hakon jall var þa inn j þrandheimi ok þat med at hann er uordinn missattr vid bændr. En er þeir þorir ok Kallhofud heyrdu þetta bra þori miog j brun. þuiat þa vard ǒdruuisu en hann hugde. þuiat eftir Jomsvikinga bardaga voru allir menn j Noregi fullkomnir vinir Hakonar jalls firir þann sigr er hann hafde fæingit ok frelst þat land allt undan ufride. en nu sua illa at borit at þui er honum þotti at hǒfdingi mikill uar kominn j landit en bændr vsattir vid Hakon jall ok jafnuel þar j þrandheimi j fǒdurlæifd Hakonar. þorir kallade þa til sin Jostein ok Kallhofud. hann talade vid þa langt æinmæli. En er nattade ok allir menn voru sofnnadir a skipum þa stodu þeir brædr upp ok klædduzst hliodliga toku uopnn sin ok gengu a einn litinn bát. þeir reru til skips Olafs konungs ok gengu þar upp leyniliga ok at rekkiu konungs. sǒgdu at naudsyn bæidde at hann gengi a land med þeim. hann gerde sua. En er konungr hafde nidr setz fellu þeir badir til fota honum ok mæltu med myklum harmi ok ahyggiu. okkr hefuir at hendi borizst hǒrmuligr glæpr sua at vit erum dauda firir uerdir sem uondir suikarar. ok þui gefumzst vit nu upp a þitt ualld at þu gerir af okkr huort er þu uill latir lifua edr deyia. Konungr spurde. huat hafui þit vm at vera. þeir sogdu þa allt huersu Hakon jall hafde naudgat þa til at vera j suikrædum vid hann med þori klokku. ok er þer nu ætladr bradr bani. hǒfum vit af þessu verit jafnnan hugsiukir en alldri gladir sidan vit forum af Noregi. Konungr mællti. standit upp skiott. ekki skal ek ykkr um þetta kunna þuiat ek uænti at þetta ok allt annat gangi eftir gudligri forsia vm minn hag. hafui þit uel farit med ykkru male ór þui sem at rada var kennit nu til nokkut gott rad hueriu ek skal fram fara. Jostæinn suarar þa. j kuelld er þorir hafde spurt tidendi

[1]) ok *Cd.*

ofan af landi læiddi hann okkr bada a æintal ok þakkade okkr huersu uel vit hȯfdum halldit hæit ok særi vit Hakon jall. sidan sagde hann okkr at hann ætlar j morgin snemma at heimta þig a land upp æinn sua sem til radageorda. ok þadan af uggi ek at hann hafui þau suikræde fram sem Hakon jall hefir okkr bodit at taka þig af lifui. Nu kunnum vit brædr þer þat at segia at hedan skamt a næsta fialli byggir æinn Finnr framviss ok forsparr sua at hann væit ok firir segir vuordnna hluti. ok þui radum vit at uer farim at vitea hans ok bidim hann oss firir segia þat er oss foruitnar. Olafr konungr suarar. læitt er mer at vitea Finna edr fretta þa þeirra luta er mer þikir vit liggea at vita. en ef ykkr likar þat þa verde vile guds ok ykkar. þa gengu þeir þrir saman. ok þar sem læidin la voru myrar miog blautar en myrkt af nott. sua bar til at konungrinn stod fastr j æinne kelldu suo diupre at tok upp um brokabellti. ok þa er þeir drogu hann upp sagdi hann sua. þess var uon at mer mundi til bera þuiat ek samþykta at leita fulltings af Finne þessum er fyrnsku mun vita. en ver kristnir menn skylldum healpar uænta af himna gude ok a hann treysta firir allt fram j ollum uorum nalægum naudsynium. nu var mer þessi maklig skrift at liggia fastr j feni at ek fengi mer æigi sealfr vm borgit. þeir brædr suorudu. suo er sagt af fornum monnum at bysna skal til batnnadar. sa er annar orzskuidr at fall er farar hæill. festir þu nu ok fætr j landi. þat er ok sagt af Finnenum at hann þottizst vita þeirra þarkuomu. gerde hann þat bragd at hann gerde elld mikinn j gammadyrum sinum at sa elldr skyllde lysa firir þeim er þangat villdu fara. þeir Olafr konungr sa liosit ok kuomu sidan til gamma Finnzsins utan alla stygd ok talman af honum teknna. Finnr gek æigi vt ór gammanum helldr kallade hann hárri rȯddu suo segiande. uel uæit ek ok huerr þu ert edr huert þu vill edr huers þu læitar. ekki skaltu inn ganga j mitt hus þuiat ek er miog siukr sidan þu komt a þetta land. j ydru foruneyti eru sua biartir gudar at j gegnn gȯfugligu liose þui er skærliga skinn af þeim ok þeirra asionu er mer huorki lofat at lita ne sia. ok þui bid ek þig at þu uirdizst þitt eyrendi vti fram at bera en ek mun inne at hyggea ok andsuara. Olafr mællti. segþu oss Finnr af þinum forspam huat oss mun at hendi berazst edr huat uer skulum gera. Finnr suarade. a morgin mun þorir bidia at þu gangir a land med honum ok þa mun hann vilea at þit talit enn saman lágt ok leyniliga nokkura þa hluti er þer til heyra. ok er þit komit a land þa mun þorir vilia hafua hærra sæti en þat skaltu [117] æigi samþykkia. þa mun hann hafua .ij. menn folgnna j skogi er skiott munu fram hlaupa þig at drepa þegar þorir

hefir nokkut mark þeim til þess geort. þu skalt ok hafua adra .ij. menn j skogi leyniliga. ok þa er þu hefir þeim gefit þat mark at þadan af megi þeir vita huat þinn vile er munu þeir fyrr en hinir fram koma af skoginum skiotliga ok drepa þori. mun hann þa j þeirri snðru væiddr verda er hann hafde þer til buna ok illgiarnnliga uppegnnda met sinum suikum. en litlu sidarr mun Hakon jall þuilikum dauda deyia. muntu þa riki rada yfir ollum Noregi. ok þa er þu ðdlazst riki eftir Hakon muntu þa boda Nordmonnum nyian sid ok oss vkunnan þann er þinir vndirmenn munu miog suo allir vit taka. Ok ef þer profazst nokkut nytsamligt þat er ek tala þuiat ek skal þig æigi blekkia ok þui bid ek at þu þrðngir mig ekki þann sid at taka þuiat ek uerd þar at vera sem ek er adr ok ekki ma ek annars stadar vera. Nu uæit ek ekki af þinni virdingu flæira firir at segia þat er enn er uuordit. en ef þat kann til at bera sem æigi er ðruænt at hundr þinn Uige verde sarr sentu hann til min ok mun ek græda hann. Ok at þessu firir sogdu þagnnade Finnrinn. en þeir Olafr konungr foru af fiallinu ofan. þa talade konungr til þeirra brædra. huat vili þit nu lata hafua af þessum hlutum er Finnrinn hefir sagt. þeir suara. allt þikir okkr þat truanligt er hann talade en þo skaltu rada hueriu fram er farit þuiat þat mun bezst gegnna. en þui hyggium vit þat æigi fals er Finnrinn sagde at þorir sagde okkr þetta adr allt firir ok þat med at þessi hefde verit radagerd þeirra Hakonar adr þeir skildu. ok þui skilldu vit brædr æiga frialst at segia þer suikin þa er vit kæmim fotum a meginland at þeir ætludu at þu skylldir vera drepinn fyrr en vit gæingim a land. en nu hefir suo tilborit at þu lifir en vit erum lausir allra suardaga ok fastmæla uit þa Hakon jall. nu er þat hit fysta okkart rad at þu setir j skoginn þina trunadarmenn sua at þeir verdi skiotari at drepa þenna hinn uonda niding. Konungr mællti. þetta skal allt hafua er þit hafit hugsat. en huort uili þit þetta uerk uinna edr skal ek adra menn til fa. þeir suorudu badir senn at þadan j fra skulu þeir ðllu þui fram fara sem honum er bezst viliat. Segir konungr þa at þeir skulu þa ganga j skoginn ok hlaupa fram þegar ek bregd upp glofua minum. Gek konungr þa a skip sitt sua at æingi visse. Snemma vm morgininn kom þorir a skip til Olafs konungs ok bad at þeir munde ganga a land .ij. samt til radagerda. konungr sagde þat vel mega. ok er þeir kuomu a land ok ætludu nidr at setiazst þa uillde þorir hærra sitia en konungr uillde þat æige. bra hann þa upp glofua sinum med hægri hendi. þeir Jostæinn hlupu ór morkinne ok .ij. menn adrir. urdu þeir þa skiotari. þeir hiuggu badir senn til þess uonda suikara þoris sua at hann fek

þegar bana. En er menn þoris þeir er hann hafdi ætlat til at drepa konung sa þessi tidendi þa namu þeir stadar. þeir Josteinn sneru þegar at þeim ok drapu þa bada. en adrir menn þoris þeir er a skipum voru badu ser grida ok þat væitti Olafr konungr. gerduzst þeir hans menn ok bundu þat æidum.

### Bardagi Hakonar jarls vid bændr. capitulum.

189. Hakon jall gerdizst sua mikill illifnadarmadr vm kuennafar at hann gerdi ser allar konur jafnnhæimilar huort sem voru mædgur eda systr meyiar edr manna konur. j mǒrgu ǒdru gerdizst hann grimdarfullr vid sitt vndirfolk firir þui var hann kalladr þat er sidan hefir halldizst Hakon illi. Madr er nefndr Bryniulfr rikr madr ok vinsæll hann bio j Gaulardal. Bryniulfr atti konu væna hon var uel at ser um marga hluti. A æinne nott sende hann til Bryniulfs þess eyrendis at þeir hafui j brott konu hans ok færi jalli. Bryniulfr var kominn j sæng hea husfreyiu sinne er jalls menn kuomu a bæinn. þeir baru upp firir Bryniulfi sitt eyrendi sogdu þat bodskap Hakonar jalls at Bryniulfr sendi konu sina jalli. Bryniulfr suarar. fatt lætr jall þessi umællt ok ugeort þat er illt er. ok suo er hann nu uanstilltr j sinum uondskap at æigi er oruænt at skiott steypizst hans riki ok lati hann herfuiliga sitt lif þuiat þetta folk er j myklum naudum er undir hann verdr at luta. geri þer nu skiott annat tueggia at þer dragizst j brott ella bidi þer bradliga þa skam at þer megut badar hendr a festa. þotti sendimonnum sinn kostr sa likazstr at fara aftr vid suo buit. en er þeir kuomu til jalls sǒgdu þeir honum sin eyrendislok. Jall suarar. allt skal Bryniulfi til æins koma. lata skal hann konuna edr drepinn ella. Sendi jall þa mikit lid. en er þeir kuomu a bæ Bryniulfs baru þeir fram eyrendi jalls. Bryniulfr suarar. þat er nu likazst at ek hafui æigi lidsafla vid ydr at sinne en þo ma vera at jall taki um sidir makliga usæmd firir sinn ofsa ok udadir. Spratt hann þa upp ok [II8] tok klæde sin ok uopnn gek sidan brott med mikille ræide. en sendimenn toku konuna ok færdu jalli. Bryniulfr for j bygdina ok kallade saman bændr ok kærde firir þeim sin mal ok huern vsoma jall gerde honum. Nu er su min beidni sagde hann at ver stefnum saman lide uoru ok fǒrum at jalli ok beriumzst vid hann edr brennum jnne. er oss þat hin mesta skom ef ver þorum æigi at reka af oss þessa illzsku. nu þo at mer se min suiuirding nalæguzst þa mun æigi langt at bida adr fleire munu æiga um slik uandræde at tala ef ekki er at gert. kann vera at þa se nokkurir sua hraustir at æigi þoli jalli huernn osoma þo at þer vilit

nu ekki uikiazst undir mina naudsyn Allir bændr suorudu uel rædu Bryniulfs kolludu hina mestu naudsyn at duga honum til ok uorkunn at hraustum manni lægi sligt j myklu rumi. var þa vid sealft buit at herrinn mundi upp hlaupa. Litlu sidarr uar jall a uæitzslu j Gaulardal þar sem hæitir j Medalholmi en skip hans lagu vt firir Uiggiu. Ormr lyrgia er nefnndr rikr bonde hann bio a þeim bæ er hæitir a Bynese. Ormr atti þa konu er Gudrun het hon uar dottir Bergþors at Lundum. Gudrun var kollut Lundasol þuiat hon var kollut sem hon uar kuenna friduzst. Hakon jall sende þræla sina a Bynes til Orms þeirra eyrenda at færa jalle konu Orms. þrælar kuomu a Bynes ok baru fram sitt eyrende. Ormr tok þui ekki fiarri bad þa fara fyst til nattuerdar. en adr þrælarnir uoru mettir kuomu margir menn ór bygdenne sem hann hafde ord til sent. let Ormr þa ǫnguan kost at Gudrun fære med þrælunum. þa mællti Gudrun til sendimanna. segit þau min ord jalle at ek mun æigi til hans koma nema hann sendi eftir mer þoru af Rimǫl. þora var husfreyia rik ok æin af unnostum jalls. þrælarnir komu aftr til jalls en urdu reidir miog vid suor Gudrunar. þeir hæituduzst fast uid bonda ok husfreyiu sogdu at þau mundu þessa idrazst adr skamt lide þadan ok at þeir skyllde sua þar koma ǫdru sinne at þeim þætte þa sa hinn bezsti badum at gera uilea jalls. skildu þa vid þat. Ormr skar upp herǫr ok sende til Halldors a Skerdingstediu en Halldorr let þegar fara fra ser. sendu þeir Ormr bod fiogurra uegnna j bygdina ok letu þat bodi fylgia at allir uigir kallar skylldu fara at Hakoni jalli ok drepa hann. ok eftir er bodit gek hliop upp mugi mannz ok sokti til Medalholms allt þetta lid. Hakon jall fekk niosnn af herhlaupi þessu. for hann þa med sitt lid af bænum j dal æinn diupan er sidan var kalladr Jallsdalr ok læynduzst þeir þar eftir vm daginn. hafde Hakon niosnir allt af bondaherinum. bændr toku uegu alla ætludu þeir hellzst at jall munde farinn til skipa sinna. en firir skipunum red þa Erlendr sonr jalls hann uar hinn mannuænligzsti madr. Ok er nattade þa dreifde Hakon jall lide sinu ok bad sina menn fara marklæide vt til Orkadals. mun æingi madr ydr mæin gera sagde hann ef ek er huergi nærr. segit þat Erlendi syni minum at hann fare med skip min vt eftir firde ok suo sudr a Mære til fundar vid mig þuiat ek mun þangat fara j land þegar nokkut dræifizst bondaherrinn. en ek mun uel fa læynnzst j fylsnum firir þeim medan þeir læita sem akafazst eftir mer ok hallda saman flokkinum Foru jalls menn þa j brott sumir vt til skipanna til Erlendz en þeir hæim j bygd er bu attu. jall var eftir ok þræll hans sa er het þormodr karkr. þessi þræll hafdi Hakoni jalli verit gefinn at

tannfe þa er hann var barnn þuiat þeir voru jafnngamlir badir. foru þeir jall at læita ser hælis. ræid jall en Karkr gek. En er þeir komu at a þeirre er Gaul het var iss á ánne miog uakr. jall for af bake ok uæik hestinum j uok æina ok let þar eftir møttul sinn ok festi vid isbrunina sua at æigi matti med øllu ofan reka. foru þeir þa til hellis þess er hæitir Jallshellir. þeir lagu þar vm hrid ok sofnnudu ok let Karkr illa j suefnne. en er þrællinn uaknnade mællti hann. herra minn sagde hann dreymde mig nu. Jall spurde huat hann dreymde. Mer þotti vit herra vera j hellinum. ek sa at mikill madr illiligr for nedan at hellinum ok hræddumz vit at hann mundi inn ganga j hellinn. mer þotti hann stad nema firir hellisdyrum ok segia sua. nu er Ulli daudr. sidan gek hann brott ok upp til fiallz en ek uaknada. Jall mællti. þar mun Erlendr son minn uera. drepinn. Karkr sofnnade ødru sinne ok let enn illa j suefnni sem fyrr. en er hann uaknade mællti jall. huat dreymdi þig nu. þræll suarar. nu þotti mer þessi madr hinn sami aka ofan fra fiallinu. en er hann kom til hellissins til min mællti hann. segdu jalli at nu eru lokin sund øll. Jall suarar. skamt segir þu þa eftir lifsdaga vorra.

## Drepinn Erlendr Hakonarson.

190. Eftir drap þoris klokku hellt Olafr vt a fiordinn fim langskipum en þar reyri jnnann a moti þeim Erlendr son Hakonar [119] jalls med þremr skipum. Lognn var vedrs ok nalguduzst skiott skipin er huorir reru a mot ødrum. en er skamt var mille þeirra þa grunade Erlend (at) ofridr munde vera. snerv þeir þa at lande. Olafr konungr sa þa langskip roa at ser ok hugde hann at þar munde Hakon jall. en er þeir Erlendr sneru undan þa bad konungr sina menn roa eftir þeim sem akafazst. En er þeir Erlendr uoru miog sua komnir at landi reru þeir a grunn. hlupu þar þegar firir bord ok læitudu þegar med sundi til landz. Olafr konungr sa huar suam madr forkunnar fridr. konungr greip hialmuolinn ok kastade at þeim manni. kom þat høgg j høfut Erlendi jalls syne sua at haussinn brotnnade til hæila. let Erlendr þar lif sitt. þeir Olafr drapu þar mart manna. sumt lidit komzst undan med flotta sumt toku þeir ok gafu grid ok høfdu af tidenda søgnn. þat uar sagt konungi at þessi madr er hann hafdi drepit med hialmaruolnum uar Erlendr son Hakonar jalls ok þat med at bęndr høfdu farit at jalli med ufride ok hann var ordinn forflotta firir þeim ok dræift var øllu hans lide.

### Hakon jarl var j grofinne med(!) ok Karkr þræll.

191. Hakon jall ok Karkr þræll duolduzst skamma hrid j hellinum stodu upp ok gengu a bæinn Rimôl. sendi jall þa Kark a fund þoru ok bad hana koma leyniliga til sin. hon gerde sua ok fagnnade uel jalli er þau funduzst. Jall mællti. uæitzstu nôkkut þat leyni a bæ þinum at þu megir fela mig þar vm nokkurra natta sakir þar til er bændr riufua safnadinn. þora sagde. þat mun mer æigi auduellt uerda at uarduæita þig her a laun. munu þinir vvinir her koma ok ransaka þenna bæ sem uandligazst ok ôll nalęg leyne. mun þin læitat vera her framar en huar annars stadar firir þa skylld at morgum manni mun likligt þikia at ek healpi þer ef ek ma sligt er ek orka. en þo er sa æinn stadr a þessum bæ at ek munda æigi kunna at læita þuiliks hôfdingia sem þu ert en þat er suinabæli nokkut. þora fylgde þangat jalle. hann mællti þa. þetta er uel til fundit ok uitrliga. her skulum uer firir buazst. lifsins skal nu fyst læita mæirr en hirda um herbergit huort þat er allrikmannligt. Tok þa þrællinn ok grof þar mykla grof ok bar brott molldina. en þau jall ok þora satu medan ok skrumudu. sagde hon þa jalli þau tidende er hon hafde nyspurt at Olafr Trygguason var kominn a fiordinn ok hann hafde drepit Erlend son hans. sidan gek jall j grofina ok Karkr þręll med honum. þora fek þeim noga vist ok dryk ok lios ok adra hluti þa er þeir þurftu at hafua. þui næst byrgde hon aftr grofina med vidum ok sopade a ofan molldu ok myki. sidan rak hon þar yfir suin. tradu þau nidr tadit sua at ekki sa nyuirki a. gek þora þa heim til bæiarins. uisse æingi nema þora at jall uæri þar. suinabæli þetta uar undir stæini einum myklum.

### Draap Hákonar jarls af Karci.

192. Bændr þeir er j atfôr hôfdu uerit vid Hakon jall foru þegar a fund Olafs Trygguasonar er þeir spurdu at hann uar j land kominn. fognudu þeir honum med ollum blidskap ok goduilia ok sogdu sua. þetta er oss ordinn mikill timadagr er uær nadum þig finna ok suo uæntum uær at þetta skuli uerda. uær ætludum eftir Jomsuikinga bardaga at æingi hofdingi mundi slikr uera sem Hakon jall sakir sigrsælda ok margra hluta annarra er hann hafdi til hôfdingskapar. uillde þa ok allt landzfolkit ekki annat en hallda hann til rikis. en sidan hans illzska ok udadir hafua suo gæingit ór dæmum at med ôngu moti er þolanda þa er nu uordinn ollum monnum suo læidr hans uansi ok vdęmi at þui sidr helldr hann riki hedan af at hann skal tyna lifuinu þegar uer finnum hann. truum uær at þat uerdi geort

med þinu[1] fulltinge ok hamingiu sua giptusamliga sem þer hefir til tekizst um drapit Erlendz sonar hans. þui uilium uer bidia at þu gerizst hofdingi yfir þessum flokki ok bidir sua ædri tignar. þuiat uer uitum at allr landzherrinn uill ok hellz þiona undir afkuæmi Haralldz harfagra. þo at æigi uæri jafnnagætr madr sem þu ert. Olafr uard gladr uit þeirra rædu. Gerdu þeir þa samlag sitt toku bændr þa Olaf til konungs yfir sig. hôfdu allir æitt rad at læita eftir jalli. þeir foru þa eftir Gaulardal upp. þotti monnum þa vera likazst at jall munde uera a Rimol ef hann hefde til manna komizst þuiat einge uar jafnnkær uinr (jalls) j þeim dal sem þora. en er þeir kuomu at anne Gaul fundu þeir môttul jalls j uokinne ok suo hestinn nokkuru nedarr kominn j eyre æina. en er þeir kendu môttulinn tôludu nokkurir at jall munde tynzst hafua j anne ok þyrfte æigi læingr at læita hans. þa mællti æinn gamall madr. æigi kunnu þer uit edr slægdir jalls ef [ED] þer truit hann tynzst hafua j a þessi ok þer skilit æigi at þetta er prettr hans at blekkia ydr. Konungr sagde at sua var. samþyktu þeir þat allir ok helldu fram ferdinne þar til er þeir kuomu a bæinn a Rimôl. þeir brutu þar upp huert hus ok læitudu jalls bæde jnne ok vti sem þora hafde getit til ok fundu hann æigi. þa atti Olafr konungr þing vti j gardinum. sidan stod konungr upp a stæin þann hinn mykla sem þar uar hia suinabælinu ok skaut konungr a eyrendi ok taladi hatt ok huellt ok sagde sua. þat er monnum kunnikt at uer hôfum læitat eptir Hakoni jalli ok firir þui at uær finnum hann æigi at sinne þa skulu þat allir vita at þeim manni skal ek giallda makliga ômbun ok mikit verdkaup er verdr banamadr jalls. þui næst for Olafr konungr med allt lid sitt brott af bænum Rimôl ok inn a Hladir ok settizst þar. Hakon jall ok þrællinn voru j grofinne þeir heyrdu fullgerla huat Olafr konungr talade. En er konungr uar j brottu ok hans menn mællti jall. mikill mattr fylgir þessa mannz mali. ek hefir uerit staddr j morgum haska ok mannraunum ok hefir þat mællt verit at ek uæri æigi manna hræddazstr en nu vid æin saman ord Olafs þessa græip ottinn mitt hiarta sua fast sem alldri fyrr at hugr fyllizst ahyggiu ok hrætzslu af hans ognarordum. Læit jall þa til þrælsins ok sa hans yfirbragd ok asionu miog dôkna ok lituerpazst. jall mællti til hans. hui ertu sua blæikr en stundum suartr sem jôrd. er æigi þat er þu uilir suikia mig. Karkr suarar. æigi er þat. en þer ma þat æigi undarligt þikia at ek hrædumzst ord þessa mannz æigi sidr en þu. (Jall mællti). ma þat firir þui at vit uorum a æinn dag fæddir man skamt mille dauda okkars. En er nattade snæddu þeir badir saman

[1]) þinum *Cd.*

ok drukku af æinu keri. Jall hellt uðku firir ser um nottina þuiat hann trude illa þrælnum. en Karkr suaf bæde fast ok læinge en þo vaknnade hann um sidir ok sa jall uaka. Karkr mællti. dreymdi mig enn herra. mer þotti sem vit uærim badir j æinu skipi ok skyllda ek styra. Jall sagde þa. þar rædr þu firir lifsstundum huorstueggia okkars. Karkr sofnnade j annan tima ok let illiliga. en er hann uaknnade spurde jall huat hann hafde dreymt. Hann sagde. a Hlodum uar ek nu ok lagde Olafr Trygguason gullhring a hals mer ok enn þotti mer hann gefua mer mikinn hest. Jall mællti. þar mun Olafr konungr lata blodraudan hring um hals þer ef þu kemr til hans. uara þu þig sua at hann mun lata afhöfda þig ok þo æigi öruænt at hann lati þig sidan upp festa til hadungar ok gefui hann þer þenna hest. en af mer muntu gott hliota sem fyrr hefir uerit ef þu suikr mig æigi. Sidan uoktu þeir badir sua sem huorge tryde ödrum. en j mot deginum sofnnade jall. hann let bratt illa j suefnni æpti ogurliga ok skaut undir sig hælunum ok hnakkanum sua sem hann mundi uilia upp risa. vid þat vard Karkr hræddr miog ok felmzfullr af otta. hann græip mikinn knif ok huassan af linda ser. hann lagde knifinum j gegnum barka jalls ok skar vt ór eftir. þat uar bani jalls. Sidan snæid þrællinn hofudit af jalli ok for burt med kom þrællinn eftir um daginn inn a Hladir. hann færde Olafi konungi höfud Hakonar jalls ok sagde alla atburde vm ferd þeirra Hakonar sua sem nu var adr tead. þa mællti Olafr konungr. firir hueria sok suæik þu jall. Karkr suarade. ek drap jall mest firir þau hinu fögru hæit er þu hetzst þeim er banamadr hans yrde ok þat annat at ek visse uarlla huat ek skyllde at hafazst vid þau hrædiligu læti er hann hafdi j suefnninum. Konungr mællti. þat skal ek efnna er ek het þar vm at lata þig hafua makliga ömbun firir þitt starf ok læida sua þeim er eftir lifa at suikia sina lanardrottna. þo at þu þionadir illum þa var hann þo þinn herra ok attir þu honum gott at launa ok æigi mundir þu at sidr suikit hafa þo at þu hefdir godan att. Let konungr þa læida hann vt ok hoggua af honum hofut. sidan let konungr taka höfut Hakonar jalls ok Karks þræls. for þa Olafr konungr ok mart bonda med vt til Nidarholms. sa holmr uar þa hafdr til þess at drepa þar þiofua ok illmenni stod þar galgi. þar let konungr at bera bæde hofudin ok festa upp. gek þa til allr herrinn ok æpti upp ok grytti at hofdi jalls ok mællti at þar skylldi fara nidingr med ödrum nidingum. Eftir þat voru menn sendir upp j Gaulardal ok toku buk jalls upp or grofinne ok drogu brott ok brendu. ok sua uard mikill mattr at fiandskap þeim er þrændir gerdu til Hakonar jalls at æingi matti annat nefnna

hann en Hakon illa. var þat (kall) haft j þrandheimi ok uidara annars stadar jnnan landz ok vtan. en þo ma þat segia fra Hakoni jalli at hann hafde marga hlute til at vera hðfdingi. hann var madr storættadr j allar kynkuislir spakr at uiti ef hann hefdi [121] til gods uiliat hafua ok kænn vid alla rikisstiornn snarpr ok hardfæingr j orrostum ok bar oft hamingiu til at sigrazst a sinum (o)vinum. Sua segir þorlæifr Raudfelldarson.

**Hakoni vitum ver huergi**
**hafizst hefir runnr af gunni**
**fremra jall und ferlli**
**folk raunar þer mana.**

Hakon jall uar ðrlyndr af fe vit sina menn ok langan tima uinsæll af alþydu innanlandz. en hina mestu uhamingiu bar slikr hofdingi til banadægrs sins. ok uar þat j odru lagi æigi undarligt þuiat Hakon jall var alla æfui undirhyggiufullr otrur ok suikall bæde vit vini ok ovini. hinn ramazsti gudnidingr ok blotmadr. uar þa ok sa timi kominn er allzualldande gud hafde firirætlat at blotskapr ok hæidni ok þessi hinn uondi ouinarins eyrendreki Hakon jall skyllde firirdæmazst en j stadinn skyllde koma hæilug trua ok rettir sidir ok fagurliga blomgazst um oll Nordrlond firir goduilia sakir ok astundan þessa blezsada guds drottins sendiboda Olafs konungs Trygguasonar. En þa er Hakon jall uar drepinn hafde hann jall uerit þrettan uetr ok .xx. fra þui er Sigurdr jall fadir hans fell. en þa uar Hakon halfþritugr. en nu skorti hann .ij. uetr a sextugan er hann var drepinn.

Olafr Trygguasun til konungs tekinn yfir Noregh.

193. Olafr konungr sat a Hlodum fyst eftir fall Hakonar. en er þessi tidendi spurduzst at Hakon jall uar drepinn en Olafr konungr Trygguason kominn j stadinn þa sottu a hans fund aller hofdingiar ór þrændalðgum ok mart annat folk. voru allir med æinu samþykki at þeir badu hann vera sinn hðfdingia ok budu honum sina þionustu ok goduiliafulla hlydni. tiadu þeir ok firir honum at þeir mattu æigi læingi hðfdingialausir vera firir þau tilfelle er þa hðfdu ordit. sðgdu þat er satt var at þeir attu uon af jðrlum Æireki ok Sueine hinna mestu hardynda firir þys þann er þeir hðfdu gert at Hakoni fðdur þeirra. Olafi þokkadizst uel þeirra tal. uar þat ok rad þeirra allra samt at stefnna atta fylknna þing j þrandheimi. kom þar ok allmikit fiolmenni er til sotti vm ðll þrændalðg. En er þing var sett stod Olafr konungr vpp ok kuaddi ser hliods. tok hann sidan sua til mals. þat

mun ollum monnum kunnikt þeim sem her eru samankomnir at Haralldr konungr hinn harfagri uar læingi æfui konungr yfir ollum Noregi. tok hann sumt riki j erfd en sumt æignadizst hann hernade. setti hann þau laug at huerr hans ættmanna sa er kallsift at langfedga tali væri fra honum kominn skylldi uera konungr ok taka riki eftir fodur sinn. en þui at Haralldr konungr atti marga syne þa skifti hann riki med þeim sua sem honum þotti hæfua ok setti þat med at æinn skyllde uera yfirkonungr landzsins þo at flæire uære jafnkomnir firir ættar sakir. Nu med þui at þetta folk er hofdingialaust ok hefir þolat adr læingi rangligt riki ok yfirbod þa uil ek biodazst til eftir þui sem margir hǫfdingiar ok rikismenn hafua bæitt at gerazst yduarr konungr ef þer vilit vera minir þegnar. synizst mer sua (firir) sumra hluta sakir sem uort samfelag se æigi umakligt at huorir mætti adra styrkia ok stydia til rettra framferda. hefir ydr borit mikinn vanda til handa at etia vid ræide Hakonar sona Æireks ok Sueins ok annarra frenda hans ok vina firir aftǫku jalls. æigi þer þadan von hinna mestu afarkosta ef þer hafuit ǫnguan hǫfdingiastyrk j moti sem þer hafit adr kært firir mer. en j annan stad læt ek at moti drifua mikinn uanda sua langan missi sem ek hefui bedit minna sæmda. þuiat langa æfui hefir riki verit j þessu landi gripit gripdeilldum ok longum uidgengizst ofsi ok uiafnnadr. þar fyst er Æirekr blodǫx drap Olaf. fǫdurfǫdur minn ok marga adra brædr sina þuiat firir agirnne sakir uillde hann æinn hafua riki þeirra. þar næst kom til rikis Hakon Adalstæinsfostri ok unni hann sæmdar frændum sinum þeim sem æigi risu med ofbelldi j mot honum. skipade hann þa Tryggua fǫdr minum þat riki er fadir hans hafde att ok gaf honum konungs nafnn. hellt hann þui riki medan Hakon konungr fodurbrodir hans lifde ok voru hinir mestu astvinir. En er Æireks synir hǫfdu riki tekit þa suiku þeir Tryggua konung fǫdr minn ok drapu hann j trygd at radi Gunnhilldar modur sinnar þa er ek uar j modur kuide. Su hin sama Gunnhilldr setti margar gilldrur med sinne slægd at væida mig ok taka af lifui þegar ek var fæddr. var Astridr modir min ok ek leyniliga a Offrustodum med Æireki fǫdr sinum. en firir uæilræde Gunnhilldar træystizst Æirekr æigi at hallda okkr her j landi. for modir min þa med mig huldu hǫfdi ok helldr fatækliga austr til Suiþiodar. þar duǫldumz vit nærr[1] j utlegd med Hakone gamla. hefde Gunnhilldr þa fangat [122] mig med suikrædum firir sina sendimenn ef sa godi madr Hakon gamli hefdi æigi halldit mig med ualde ok hofdingsskap firir hennar eftirsoknn sakir uinskapar vid Æirek modurfǫdr minn. þui næst þa er

[1]) r. .ij. ar

ek var þreuetr foru uit modir min ór Suiþiodu skipferd ok ætludum austr j Gardariki a fund Sigurdar brodur hennar. þa mættum uit vikingum ok vorum vit handtekin ok selld mansali en sumt foruneyti okkart drepit. skilde þar med okkur modur minne sua at ek sa hana alldri sidan. ek uar þa selldr vid verde sem adrir mansmenn. var ek .vj. uetr j þeirri vtlegd a Æitztlandi þar til er Sigurdr modurbrodir minn leysti mig þadan ok flutti mig þadan austr j Gardariki. þa uar ek .ix. uetra. adra .ix. uetr uar ek j Gaurdum j vtlegd þoat firir manndoms sakir godra hofdingia væra ek uel halldinn. þar næst uar ek j Uindlandi .iij. uetr en firir uestan haf j hernadi .iiij. uetr. hefui ek þessar stundir sem ætla ma lǫngum þolat uos ok erfuide en haft þat æina frelsi er ek var med vtlendum þiodum ok vkunnum. haft nu naliga ekki annat til framflutningar lide minu en ek hefui ordit lifuinu til at hætta ok minna manna ok þar med haft j haska þat er enn er mæira vert þoat ek greina þat æigi at sinne þuiat margan mann saklausann hǫfum uær rænt sinu godzse ok suma lifuinu med sem hermanna hattr er. En þeir menn hafua setit yfir æignum uorum ok ættleifd sem æigi uoru miog makligir er satu um lif uort ok uorra frænda med margfǫlldum suikrædum. sem var Gunnhilldr konungamodir ok synir hennar. en þo hǫfdu þeir ætt til þess at vera konungar ef þeir hefdi æigi mæira agirnnzst en þeir attu at rettu. En þessi hofdingi er nu uar firir skemzstu Hakon jall hafdi burdi til þess at hallda fǫdurleifd sinne ok hafua jalls nafnn ok len af rettum Noregs konungi. en þat uoru hinu mestu olaug ok rangyndi at hann rede æinn ollum Noregi en drap nidr konunga þa er hann atti med rettu undir at þiona suma med bardogum en suma med suikrædum sem ek mundi hafua mid a mer ef hans illuile hefdi fæingit framkuæmd. þuiat hann sendi þori klokku uestr um haf at koma mer med uelum uestan a ualld jalls ella skylde þorir drepa mig sem þeir menn sumir vita er her eru a þinginu. Nu uænti ek þess at æingi madr er at rettum lǫgum jafnær konungdominum sem ek firir ættar sakir [ef þetta er[1] uile hofdingia ok samþykki alþydu. Lauk Olafr sua sinne rædu at allir menn hormudu huersu langa eymd ok utlegd hann hafde þolat. hliop þa upp mugr ok margmenni ok uilldi æingi annat heyra en Olafr Trygguason væri konungr. var þa Olafr Trygguason til konungs tekinn a allzheriar þinge yfir land allt suo vijtt sem haft hafde Haralldr konungr hinn harfagre ok dęmt honum rikit at fornnum lǫgum. hetu bændr honum at fa styrk fiolmennis til at fa rikit ok sidan at hallda. en konungr het þeim j mote lǫgum ok landzretti ok at hallda

[1]) er þetta *Cd*.

þa vid agangi ok ofsoknn Hakonar sona ok allra annarra þeirra er eftirmal uilldu uæita aftoku jalls. tok Olafr konungr ser þa hird. þess getr þordr Kolbæinsson j Eireks drapu at Hakon jall var af lifui tekinn en Olafr Trygguason kom til rikis j Noregi.

Mæinrenner bra manna
margfusa skðp uarga
lioda litlu sidarr
læ Hakonar æfui.

en til landz þess er lindar
ladstafr uegit hafde
hraustr þa er herr for uestan
hygg ek kęmi son Tryggua.

## Af liflaate Albani ok Sunnifuu. capitulum.

194. A dðgum Hakonar jalls er sagt at andadizst æinn konungr uestr a Jrland(i) hann atti dottur er het Sunifua. hon var vitr snemma ok vel kristin þuiat Jrland hafdi uel kristit verit. Sunnifua uar hin fegrsta mær ok þa roskin at alldri er þessi frasðgnn gerdizst. hellt hon riki eftir fðdur sinn med forrade gaufugra frænda sinna ok vina. en med þui at Sunnifua hafde riki mikit ok sua sialf hin fridazsta synum þa gerduzst til æinir hæidnir uikingar at bidia hennar. Sunnifua uillde þui sidr giftazst hæidnum manni at hon hafdi statt j hug ser at þiona gude æinum j hræinlifui ok æiga ðngan mann a jardriki. toku uikingar at heria a riki Sunnifuu ok marga uega at þrðngua hennar kosti. ætlade þeirra hðfdingi sua at naudga henni[1] til samfara vid sig. Sunnifua stefnndi þing med sinum monnum. ok er saman uoru komnir frændr hennar ok uinir sagdi hon sua. ek hefui ydr saman kallat hinir kæruzstu vinir til radagerdar um riki þetta er ek hefui stiornnat nokkura stund med ydr. en nu tekr mig at þrðngua ofsi ok agangr illra manna sem alla[2] adra þa er (stunda) til fallualltra fagnada þessa hins skamæliga lifs. Firir þui hefui ek hugsat at ek skal alldri læingr bera raunir ok ahyggiur firir þessu hinu uesala riki sem æin ambatt er ðngu er nytt hea æilifum fagnnade helldr skal (ek) suo sem rikborin gera mik frialsa [123] ok gefuazst j ualld ok forsia mins drottins Jesu Cristi. ok suo munu þeir gera er mer uilia fylgia. en allir skulu frialsir firir mer ok sialfradir at hallda sinu fostrlande þo at ek radumzst fra. En sua var Sunnifa elskulig ollu folki at fiolde mannz uillde fara brott med henni bæde kallar ok konur ok firirlata sina odaliord. Eftir þat aflade Sunnifua þeim skipa ok biozst til ferdar med þeim mikit lid. þau helldu undan landi skipum sinum þegar þau voru buin med þui moti at þau hofdu huorki segl ne árar æinge styri ok ðngan skipræida eingi uopnn ne herklæde. merkti Sunnifua þat j þessu at hon treysti mæirr almętti

[1]) sua *tilf. Cd.* [2]) allra *Cd.*

himnakonungsins en ueralldligum fararbæina edr fulltinge. fal hon sig ok allt sitt foruneyti a hendi lifanda gude ok bat hann visa ser læid ok styra þeim huert er hann uillde. Rak þau sidan um haf innan þar til er þau bar at guds fulltinge at eyium þeim er liggia uit Noreg firir sunnan Stade. hæitir ǫnnur eyin Selia en aunnur Kinn. þessar eyiar uoru ubygdar af monnum en fe var þar landzmanna sem vida j vteyium þuiat myklar bygdir uoru inn a landit fra eyiunum. Sunnifua gek a land j Seliu ok folk hennar þat er þar kom uit. Fiall mikit uar uestr a eyna. þar uoru j fiallinu hamrar ok hellar storir. biugguzst þau þar firir ok bygdu hellana. þar duǫlduzst þau langa hrid ok þionudu gude med miklum goduilia ok margfalldri bindandi ok lifdu vit fiska þa er menn Sunnifu toku ór uǫtnum. En er bygdarmenn urdu uarir vid manna uistir j eyiunum þa hugdu þeir spelluirkia mundu uera ok leggiazst a fenat þeirra. foru bændr þa til fundar uit Hakon jall ok sogdu at spelluirkiar ok utilegumenn lagu a eyiunum Seliu ok Kinn ok gerdu mikinn skada a fe landzmanna. badu þeir hann fara til med fiolmenni ok drepa vikingana þa er j eyiunum uoru. Jall gerde sem þeir badu. for hann til eyiarinnar med myklu herlide uopnudu sem til bardaga. En er þeir hinir godu guds vinir er firir voru sa ferd þeirra þottuzst þeir vita at þeim mundi atsoknn væitt. þeir gengu þa inn j hella sina ok badu almattkan gud at hann gæfui salum þeirra eilifua huilld paradisar sælu huerium dauda sem þau dǫi. þar med badu þau at gud uæitti þeim þann groftr sem hans væri milldi til ok miskunn sua at æige hefde hæidnir menn ualld yfir likum þeirra. Allzualldandi gud uæitti þeim þat er þau badu at þessir guds dyrdlingar endu sitt agætt lif med þui moti at stor biorg fellu firir hella þa er þau voru jnne. toku þeir suo ǫmbun eilifrar sælu firir sina stundliga þionustu. en hæidingiar kuomu til eyianna ok læitudu mannanna ok þotti miog undarligt er þeir fundu æigi þuiat þeir hofdu set þa litlu adr er þeir kuomu at eyiunum. fara þeir aftr vid sua buit.

## Fanz heilagr domr Sunnifu.

195. Nokkuru sidarr þa er Hakon jall var daudr en Olafr konungr kom til rikis j Noregi þa bar sua til at .ij. rikir bændr er sumir menn nefnna þord huornntueggia ok eru kendir vid mædr sina. annarr þordr Egilæifarson en annarr þordr Jorunnarson. þeir voru mikils verdir. þessir bændr foru a skipe vid nǫkkura menn sunnan ór Fiordum ok ætludu nordr til þrandhæims a fund Hakonar jalls þuiat þeir hǫfdu þa enn æigi spurt hǫfdingia skifti. þeir kuomu j Ulfasund ok j eyna

Seliu þuiat hon liggr vid þiodlæid. þar sa þeir skina mikit lios ofan or himnum ok fagurt asyndar j nalęgd uid eyna sua at þessi birti tok landit ok eyiarnar. þeim þotti þessi syn miog undarligh. letu þo at landi ok uilldu foruitnnazst huat þar uar undir er þessi gæisli skæin ofan. en er þeir gengu a land j eyiunum fundu þeir skamt fra sionum þar rett sem þeir hofdu liosit set mannz hofud þat var biart ok þekkiligt. þar af kendu þeir sua sætan ilm at slikan hofdu þeir alldri fyrr kendan. en med þui at þeir uoru hæidnir skildu þeir æigi huat sa hinn agæti ilmr merkti en þo þotti þeim mikils vm vert. toku þeir upp hofudit ok biuggu um med uegsemd. uðfdu j hræinum duki ok hðfdu med ser ok ætludu at færa Hakoni jalli. þuiat þeir ætludu at hann mundi skynia med sinne vitru huat þetta taknnade. foru sidan ferdar sinnar. En er þeir kuomu nordr um Stade fretta þeir þa at Hakon jall var daudr en til rikis kominn j stadinn agætr hðfdingi Olafr Trygguason. þessir menn helldu fram ferd sinne æigi at sidr. ætludu nu at finna þenna hinn nyia konung þuiat þeim uar mikit af sagt af hans godlæik ok hofdingsskap. lettu þeir æigi fyrr en þeir kuomu nordr a Hladir a fund Olafs konungs. Hann tok vid þeim med myklum blidskopum þegar hann visse huerir þeir uoru. tok hann bratt at boda þeim helga tru ok bad þa skiraz lata. ok ef þit georit þetta segir konungr eftir minne bæidni þa skulu þit hafua þar j mot fullkomna mina vinattu. þeir toku ekki þui fiarri sogdu at þeir uoru þess fusir at uæita honum sina þionustu. toluduzst þeir vid um hrid. fretti konungr tidenda sunnan ór landi. þeir sogdu slik sem konungr spurde. þui næst sogdu þeir konungi vm ferdir sinar ok syndu honum hofudit er þeir hofdu fundit j Seliu. Hirdbyskup Olafs konungs [124] er hann hafde flutt med ser af Æinglande ok het Sigurdr ok uar kalladr Sigurdr riki hann uar bæde uitr ok godgiarnn ok klerkr mikill. Nu sem konungr ok byskup sea hðfudit sogdu þeir at þat uar sannliga hæilags mannz hðfud. tok konungr þa enn af nyiu at telia tru firir þessum monnum er hofudit hofdu fundit ok sagdi sua til þeirra. mikill fagnadr ok gledi ma uerde ðllum godum monnum ok rettruadum af umhugsan almattigs guds þo at ekki megi sia ne heyra ok æingi mannz hugr hugsa huersu agæta ðmbun uar drottinn uæitir sinum þionustumonnum firir stundligt erfuide. en til þess hefir hann mykla millde synt ykkr ok þetta taknn at þit skylldit þui skiotara snuazst sialfuiliande fra skurgoda uillu til sannrar truar ok hæilagrar skirnar sem ollum verdr ogurligra ef vmhugsa at hinn halæiti himnakonungr mun allmykla dyrd uæita sinum astuinum j himnarikis fagnade. þar er hann lætr

kennazst sua agætan ilm af daudum monnum ok þrongdum limum þeirra likama at æigi mætti slikr verda af ollum ilmandi grausum. þessum hinum godum monnum fanzst sua mikit um rædu konungs at þeir jattudu þegar at trua a sannan gud. uoru þeir þa skirdir ok þeirra foruneyti. sidan hafdi konungr þa j sinu bode ok uæitti þeim hina uirduligazstu uæitzslu medan þeir uoru j huitauodum ok let kenna þeim hæilug fræde. sidan foru þeir med godum giofum ok vinattu konungs hæim til bua sinna. En þeir konungr ok byskup hofdu þat hit helga hofud j sinne uarduæitzslu allt þar til er Olafr konungr atti þing nordr vid Stadi a Dragshæidi(!) sem sidan mun getit uerda. Eftir þat þing leitade konungr eftir vid þa menn er næstir biuggu eyiunne Seliu ef nðkkura nyiung hefdi firir þa borit. var honum þa sagt at þangat hefdi oft set fagurt lios. þa gek ok fram einn bonde ok sagde konungi sua. ek atti hross þar j eyiunne Seliu. þat huarf en ek leitade þess. fann ek þat a vtanuerdri eyiunne standa vid æina stora hamra ok hia þeim storhaumrum sa ek skina biart lios ok fannzst mer mikit vm þa syn. Ok at þessum hlutum heyrdum foru þeir Olafr konungr ok Sigurdr byskup til eyiarinnar Seliu med miklu lide ok sa þeir uestr a eyna at a storum haumrum hðfdu verit storir hellar ok mundu hafua fallit æi firir morgum arum. þa fundu þeir ok hueruetnna j mille steina manna bæin med hinum sætazsta ilm. um sidir kuomu þeir þar at er biargit hafde nyliga sprungit fra æinum hellismunna. þar fundu þeir likama hinnar uirduliguzstu meyiar Sunnifu hæilan ok uskaddan med hari ok holldi sem hon uæri nysalut. þeir toku þa upp helgan dominn ok biuggu vm virduliga med myklum fagnade ok halæitu guds lofui. Sidan uar bygd eyin ok let Olafr þar kirkiu gera fram af helli þeim er likami sællar meyiar fannzst j ok uar hennar hæilagr domr þar dyrkadr um margra konunga æfui. En vm daga Magnus konungs sonar Erlings skakka ok a þrettanda are hans konungdoms uar þessi hin gðfugliga guds brudr Sunnifa flutt med fagnade ok fagurligum iartæignum til Berguinar ok huilir hon þar nu j myklu skrini ok uirduligu yfir haaltare j kirkiunne. ok a þui sama are sem hæilagr domr hinnar sælu Sunnifu uar ór Seliu fluttr eftir þui sem j annal er skrifuat fór til guds med fðgrum pislarsigri hinn sæli Thomas erkibyskup.

### Fra Olafi ok Sunnifu.

196. Olafr konungr gaf uaflatliga þakkir allzualldanda gude æinkanliga firir þat at hann virdizst med sinne halæitri miskunn a hans

dǫgum at birta dyrd þessarar sinnar þionostukonu Sunnifu ok hennar hinnar sęlu suæitar. þuiat allir hinir uitrozstu menn kuæiktuzst til astar vid almattkan gud ok hlydni uid konung þadan af er þeir sa slik efnni sua berliga birtazst af slikum stormerkium. ok su uar sǫnn trua er Olafr bodade ok þat æitt er traust at þiona lifanda gude. þat finzst skrifat at brodir Sunnifu sa er Albanus het hafui verit j þessu hinu helga lide ok farit vestan vm haf med Sunnifu. en þui er her ekki af honum sagt at synizst efanligt þat. en þo segia þat sumir menn þeir er j Seliu hafua verit ok þar er kunnikt at þar se mikil kirkia helgut guds pislarvott Albano er fystr uar pindr firir guds nafnn ok segia þeir menn suo at (þar) se halæitliga dyrkat hǫfut þess Albani er drepinn uar a Æinglande. At þeirre kirkiu er þessum Albano er helgut er suartmunka klaustr. j þeirri kirkiu eru mǫrg skrin bæde stor ok sma er geor hafua verit at helgum domum þeirra hinna godu guds manna er j ferd uoru med Sunnifu. en su kirkia er upp j fiallit fra klaustrinu. Sua er sagt at j hellinum þar er fannzst likami sællar meyiar Sunnifu sprettr upp brunnr æinn ór berginu ok rennr þadan litill lækr ok fa margir siukir menn hæilsu af þeir er bergia. Firir framan kirkiu þa er fram er af hellinum let Olafr konungr (gera) [125] æitt mikit griothlad ok sua hatt ok ramgert sem hit sterkazsta virki. segia sua sumir menn at þat se æitt hit mesta mannuirke a þann hatt sem þat er gert. undir þessu hlade edr uirki er sett klaustrit. er upp at ganga til hinnar efri kirkiunnar med bekkinum milli ok hladsins. Messudagr sællar meyiar Sunnifu ok hennar sælu suæitar er halldinn af Nordmonnum hinn .viij. jdusdag julij manadar er ver kollum Seliumannamesso. J Seliu uæitir uorr drottinn Jesus Cristus morg stortaknn firir uerdlæik sinna dyrdlinga sem tigna skal at æilifu firir sina stundliga armędu.

### Eirekr ok Sueinn brædr stucku or landi.

197. Olafr konungr for yfir landit um uetrinn eftir er hann uar til konungs tekinn j þrandheimi ok lagde hann undir sig allt riki. var hann þa til konungs tekinn a hueriu þinge ok sua sneruzst til hlydne allir menn j Noregi. jafnnuel þeir hǫfdingiar a Upplondum edr austr (j) Uik er adr hofdu halldit land af Danakonungi þa gerduzst þeir menn Olafs konungs ok helldu lǫnd ok len af honum. styrde hann folkinu uegsamliga ok var nu konungr yfir Noregi ollum nordan fra Finnabui ok sudr til Gautelfar. hann gerdizst madr rikr ok gǫfugr ok hafde mikit starf (ok) margskonar medan hann red landi. ok hann hellt fystr Noregs konunga retta tru til guds ok af hans stiornn ok riki uard

alkristnat Noregs uelldi. ok adr urdu þar um morg stortidende. en hann bad menn med fǫgrum ordum taka þenna sid ok lata skurgod ok bad þa hyggia at dǫmum Æinglismanna edr þyskra manna edr danskra manna ok likia eftir þeirra dǫmum ok kuat olikt at þiona gude edr fiandanum ok segir mart fra ǫmbun godra manna ok kuolum uondra manna. hann flutti þetta eyrendi med myklu herradǫmi ok hǫfdingskap ok guddrottins krafti. For konungr sua yfir landit hinn fysta uetr ok vm sumarit eftir. Æirekr jall Hakonarson ok Sueinn brodir hans ok adrir frændr þeirra ok vinir flydu landit ok sottu austr j Suiauelldi til Olafs konungs sænska. fengu þeir brædr þar godar vidtaukur. Sua segir þordr Kolbæinsson.

**Hafde ser vid særi**
**sliks uar uan at hanum**
**auds en upp um kuæde**
**Æirekr j hug mæira.**

**sotti ræidr at radum**
**rann æinge þar manna**
**þriflyndr gafzst þrændum**
**þrænskr jarll konung sænskan.**

## Frasagnir Beda prestz.

198. Sua segir hæilagr Beda prestr j alldafarsbok þeirre er hann gerde um landaskipan j hæiminum at eyland þat er Tile er kallat a bokum liggi sua langt j nordrhalfu heimsins at þar komi æigi dagr a uetrum þa er nott er læinngzst ok æigi nott a sumar þa er dagr er læingzstr. firir þui ætla uitrir menn at Jsland se Tile kallat at þat er uida a þui landi at sol setzst æigi um nætr þa er dagar eru læingzstir. þa er ok þat uida at sol ma æigi sia um daga þa er læingst er nott. Hinn hæilagi Beda anndadizst .vij. hundrut ok fimtan ok .xx. arum eftir holldgan uars herra Jesu Cristi mæirr en tiu tigum ara fyrr en Jsland bygdizst af Nordmonnum. En adr Jsland bygdizst af Noregi hofdu þar verit þeir menn er Nordmenn kalla papa. þeir hafa verit kristnir. þar funduzst eftir þeim bækr irskar biollur ok baglar ok enn fleire hlutir þeir er þadan af matti skilia at þeir voru kristnir menn er þar hǫfdu bygt ok komnir til uestan um haf. uisa ok sua til enskar bækr at j þann tima hafui verit farit j mille landa. þa er Jsland fanzst ok bygdizst var Adrianus pafui j Romaborg en Hlauduer Hlǫduersson firir nordan fiall. en Leo ok Alexandr son hans j Myklagarde. þa var Haralldr hinn harfagri yfir Noregi en Æirekr Eymundarson yfir Suiþiod ok Beornn son hans. Gormr hinn gamle j Danmork. Elfradr hinn riki j Einglandi ok Jatuardr son hans. Kiarual at Dyflinne a Jrlandi en Sigurdr hinn riki j Orkneyium brodir Rǫgnnualldz Mæra jalls.

### Er Naddoddr vikingr fann landit.

199. þessir menn hafua fundit Jsland sem her (er) skrifat. er fystr af þeim nefnndr Naddoddr uikingr er for af Færeyium ok ætlade til Noregs. þa rak langt uestr j haf. þeir fundu land ok okunnigt ser ok kuomu austan at ok gengu upp. en med þui at þeir sa æingi likendi til at land þat munde bygt uera duolduzst þeir þar þui skamma stund. ok adr þeir sigldu burt sniofade miog a jordina ok þui kðlludu þeir þat Snioland. Gardar het madr Suauarsson. hann læitade Snialandz ok fann þat ok siglde umbergis ok uisse þui at þat uar eyland. Gardar dualdizst litla hrid a landinu hann for aftr til Noregs ok sagdizst fundit hafua holma einn. var þa landit kallat Gardarsholmi. Gardar var fadir Una fðdur Hroars Tungugoda. Floki Uigrudarson[1] heyrdi getit Gardarsholma hann for at læita landz þess ok fann. þa uar þar huert uatnn fullt af fiskum. Floki ok hans forunautar duolduz þar vm uetrinn ok gadu æigi firir ueidum at uarduæita kuikfe þat er þeir hðfdu flutt med ser. ok þui at [126] þat var fodrlaust do þat allt. sidan skildu þeir vit landit.

### Vtkoma Jngolfs.

200. Jngolfr het norrænn*madr en annarr Leifr ok var kalladr Hiorleifr. Jngolfr uar Arnnarson Beornnolfssonar en Hiorleifr var Hrodmarsson Hroa(l)dssonar. Hroa(l)ddr ok þeir Beornnolfr voru brædr synir Hromundar Gripssonar. Læifr ok Jngolfr heyrdu sagt at Floki hefdi fundit land þat er hann kendi vid jokla þa er hann hafdi þar set ok kallade Jsland. þeir fostbrædr læitudu landz þessa ok fundu. þeim uirdizst þat uel ok uilldu þar byggia. en sakir þess at þeir hðfdu æingi kuikfe edr annat þat er til bunadar þurfti sigldu þeir aftr j Noreg ok ðfludu ser þar naudsynligra hluta. þat var a .vj. ari rikis Haralldz konungs hins harfagra er þeir Jngolfr ok Hiorleifr fundu Jsland en .vij. vetrum sidar foru þeir at byggia landit sem nu var sagt. þat var a þrettanda ari rikis Haralldz konungs. þa hafde hann verit .ij. uetr æinualldzkonungr yfir Noregi sidan Hafsfiardar orrosta uar. þat uar fiorum uetrum eftir fall hins helga Jathmundar konungs j Æinglande. þa var lidit fra hæims upphafui .vj. .m. .lx. ok .iij. uetr en fra holldgan uars herra Jesu Cristi .viij. hundrut .lx. ok .iiij. ár.

[1]) *r.* Vilgerdarson

## ÞAATTR ÞORSTEINS VXAFOTZ.

Þordr skeggi het madr hann nam lǫnd ǫll j Loni firir nordan Jokulsa millum ok Lonshæidar ok bio j Bę tiu uetr. en er hann fra til ǫnduegissulna sinna j Læiruuogi firir nedan hæidi þa sellde hann lǫnd sin Ulflioti lǫgmanni er þar kom vt j Loni. Ulfliotr uar son þoru dottur Ketils Haurdakara Aslakssonar Bifrukara Unarssonar Arnnar hyrnnu. En er Ulfliotr var nærr .lx. at alldri þa for hann til Noregs ok var þar .iij. vetr. þa settu þeir þorlæifr spaki modurbrodir hans lǫg þau er sidan voru kollut Ulfliotz lǫg. En er hann kom ut þa var alþingi sett ok hǫfdu allir menn æin lǫg sidan her a landi. þat var upphaf enna hæidnu laga at menn skylldu æigi hafua hǫfudskip j haf. en ef menn hefdi þa skylldu þeir af taka hofud adr þeir kæmi j landz syn ok sigla æigi at landi med gapande hǫfdum ne ginandi trionu sua at landuættir fældizst vid. Baugr tuieyringr edr meire skyllde liggia j hueriu haufuthofui a stalli. þann baug skylldi huerr godi hafua a hendi ser til logþinga þeirra allra er hann skylldi sialfr heyia ok rioda hann þar j rodru blotnautz þess er hann blotade þar sialfr. Huerr sa madr er þar þurfti logskil af hendi at leysa at domi skillde adr æid uinna at þeim bauge ok nefnna ser uotta .ij. edr flæire. ykkr nefnnig j þat uætti skyllde hann segia at ek vinn æid at baugi lǫgæid. healpi mer suo nu Freyr ok Niordr ok hinn almatki as sem ek mun sua sok þessa sækia eda ueria edr uitni bera edr kuidu edr doma dęma sem ek væit rettazst ok sannazst ok hellzst at lǫgum ok ǫll lǫgmæt skil af hendi leysa þau er undir mig koma medan ek er a þessu þinge. þa var landinu skift j fiordunga ok skylldu vera .iij. þing j fiordungi huerium en þriu hǫfuthof j þingsoknn huerri. þar uoru menn uandadir til at varducita hofin at hyggendi ok rettlæti. þeir skylldu domnefnnur eiga a þingum ok styra sakferlli. þui voru þeir godar kalladir. huerr skyllde ok giallda toll til hofs sua sem nu er kirkiutiund. Bauduarr hinn huiti af Uǫs ór Noregi bygde fystr at Hofui ok ræisti þar hof ok gerdizst hofgode. hann var fadir þorstæins fǫdur Hallz a Sidu. þorir hinn hafui nam land j Krossavik firir nordan Reydarfiord. þadan eru Krossuikingar komnir.

### Af Freysteini.

202. þorkell het madr er bio j Krossavik hann var Gæitisson. hann uar hit mesta afarmenni ok hardfæingr ok kalladr ofrhugi. hann uar þa okugntr er þessi saga gerdizst. systir hans óx upp med honum

er Ornny het allra kuenna uænst huerri konu hagari. þo var mikill mallaki á rade hennar hon hafde ekki mal ok uar med þui alin. þau unnuzst mikit syskin. þorkell atti þræl æinn utlendan at ollu kyni er Freystæinn het. hann uar huorki liotr ne illr uidræignar sem adrir þrælar helldr uar hann gæfr ok godr uidrskiptis ok naliga huerium manni uænni. þui var hann kalladr Freysteinn hinn fagri. Krummr het madr. hann bio j Krumshollti sa bærr er nu eyddr. hann uar Uemundarson Asbiarnarsonar Krumssonar hins gamla. Krumr hinn gamli for af Uðs bufelli til Jslandz. hann nam land a Hafranese inn til þernnunes ok allt hit ytra bæde Skrud ok adrar vteyiar ok inn ðdru megin at þernnunese. Krummr hinn yngri atti þa konu er þorgunna het ok var þorsteins dottir Uetrlidasonar Asbiarnarsonar gðfugs mannz af Bæitzstðdum Olafssonar langhals Bearnnarsonar reydarsidu. þorgunna var uitr kona ok medallagi uinsæl miog margkunnande. ekki frid en forn [127] j skapi helldr hardlynd ok þo órskiftamadr. Krumr var orikr madr. miselldri mikit var med þeim hionum. var þorgunn þa roskin kona er þetta æfuintyr gerdizst. þau attu ekki barn sua at sðgur gangi af.

## Jvar liomi kom til Jslandz.

203. Styrkarr het madr Endridason Hræidarssonar. þeir voru brædr Hræidarr ok Asbeornn fadir Jarnnskeggia af Yrium en systir þeirra var Olof er atti Klyppr hessir er drap Sigurd konung slefu. þeirra brodir uar Erlingr rikr hessir af Hðrdalandi. Erlingr atti þann son (er) Juarr het allra manna uænstr þeirra (er) upp uðxu a Hordalandi. þui uar hann kalladr Juarr liome. hann var huerium manni betr at jþrottum buinn ofmetnadarmadr sua mikill at naliga mattu ðngir menn mæla ne gera til jafnna vid hann. hann uar vkuæntr langa tima ok þui at honum þotti ser nærr huergi fullkosta. hann sat laungum hia Styrkari frænda sinum a Gimsum j þrandheimi. þessi Styrkarr var fadir Æinars þambaskelfis. segia þat ok sumir menn at þeir hafui brædr (verit) Enndride fadir Styrkars ok Asbiornn fadir Endrida ilbræids. astudigt var læingi med þeim frændum Styrkari ok Jvari. Juarr hafdizst lðngum vid j kaupferdum. bade til Æinglándz ok Danmerkr. eitt sumar for hann til Jslandz kaupferd. hann kom skipi sinu j Gautavik j Austfiordum. þorkell Gæitisson ræid til skips ok baud styrimanni heim til sin vid sua marga menn sem hann uillde med ser haft hafua. Juarr þakkade bonda ok kuetzst þat þiggia mundu. Juarr for hæim j Krossavik vid fimta mann ok sat þar vm uetrinn. Juarr (uar) gledimadr mikill ok orr af fe. þat var æinn dag at þorkell gek til tals vid Ornnyiu

systur sina ok sagde henni at styrimadrinn var heim kominn. villda ek frænde segir hann at þu þionadir honum j vetr þuiat her eru flestir adrir menn j starfui. Ornny ræist runar a kefli þuiat hon matti æigi mæla. en þorkell tok vid ok læit aa keflit. sagde sua. ekki er mer vm at leggia mig til þionustu vid styrimann þuiat mer segir suo hugr vm ef ek geri þat at þiona Juari at þar mune mikit uont af standa. þorkell ræiddizst fast er Ornny taldizst undan. en er hon sa þat stod hon upp ok gek inn ok tòk til þionustu (vid) Juar ok helt þui vm vetrinn. en er a leid sa menn at Ornny mundi fara æigi kona æin saman. ok er þorkell fann þat spurde hann Ornnyiu huersu hattat væri vm hagi hennar edr huort hon uæri med barnni edr huerr þat ætti med henni. Ornny ræist þa enn runar ok sǫgdu þær sua. æigi hefuir Juarr betr launat þer uetr-uistina en sua at barnn þat er ek gæing med a hann vid mer. Setti þa grat mikinn at Ornnyiu en þorkell gek j burt. Lidr vt uetrinn ok er uorar lætr Juarr bua skip sitt j Gautavik. ok er þat var buit byzst Juarr brott or Krossavik ok hans menn. þorkell ridr j ueg med Juari ok er þeir hofdu ridit nokkura stund uæik hann til vid styrimann. huert rad gerir þu Juarr firir barnne þui er þu att vid Ornnyiu systur minne edr uilltu gera uel ok ganga at æiga hana. en ek mun gæda hana sua peningum at þu ser sæmdr af. Juar brazst vit ræidr miog ok suarade. til illz eyrendis hefda ek farit þa til Jslandz ef ek skyllda eiga systur þina mallausa. hefir mer kostr verit ædri kuenna ok kyn-stęri hæima a Hǫrdalande edr þo uidara j Noregi. en þu þarft æigi at kenna mer barnn systur þinnar þo at hon æigi vid þrælum þinum. hefir þu talat vid mig mykla suiuirding. þorkell suarar. vilir þu æigi ganga vid barnni Ornnyiar ok sma bædi mig ok hana j ordum skaltu sialfan þig firir finna. hefui ek æigi þolat monnum fyrr meirr þuilika sman. Juar hio þa til þorkels. ~~þat~~ hǫgg kom a fotinn ok vard mikit saar. þorkell bra þa suerde ok hio til Juars en hann ræid undan. en hǫggit kom a hestfotinn sua at af tok. stok Juar þa af baki ok rann eftir felǫgum sinum en þorkell reid heim j Krossauik. Annan dag eftir safnnar þorkell monnum ok ræid j Gautauik med .xxx. manna. en er hann kom þar hafde Juar kift bryggium. en vindr stod af lande ok sigldu sua til hafs ok linti æigi fyrr en hann kom til Noregs ok for sua hæim a Hǫrdaland ok settizst vm kyrt. þorkell ræid hæim j Krossa-vik ok vndi litt vid sinn hag þuiat hann hafde æigi mæiri sman fæingit en þessa alla saman.

### Fæddr þorsteinn vxafotr.

204. At midiu sumre edr litlu sidarr fæddi Ornny barnn. þat uar suæinbarnn sua mikit at menn þottuzst ekki barnn mæira nyfætt set hafua. þorkatli var sagt at systir hans var lettari ordin at þui barnne er ætti vid henni Juar liomi. en er þorkell heyrde þat vard hann æsiliga ræidr ok sagde at vt skyllde bera. en þat var þa lôg j þann tima at vt skyllde bera vrikra manna bornn ef uillde ok þotti þo æigi uel gert. þorkell let kalla Freystein þræl ok bad hann tortima suæininum en hann taldizst undan þar til er þorkell sagde a ræide sina. þa var Gæitir fadir þorkels vistum med þorkatli [128] syni sinum. hann talade vm at sueininn skyllde æigi vt bera sagde ser sua hug um segia at sa sueinn munde ekki litill firir ser verda ef hann næde lifui at hallda. þorkell var suo æfr at hann uillde ekki a þat heyra ok kuat æigi annat skylldu en pilltrinn vęri vtborinn. Nu gek Freystæinn þo naudigr færi til Ornnyiar ok tok upp sueininn ok gek vt med ok til skogar. hann uafdi pilltinn j æinum duk ok lagde flikkis sneid j munninn. hann gerde skiol undir uidarrotum ok let þar koma j barnnit ok bio uel um ok gek sua fra. for heim sidan ok sagde bonda at hann hefde firir set barnninu. bondi let uel yfir ok var nu kyrt vm hrid.

### þorsteinn vox upp hia Krum.

205. Bradliga eftir þetta er þat at segia at Krummr bondi for j skog sinn at sækia vid. hann heyrde barnns grat ok for þangat til ok fann suæinbarn bæde mikit ok vænligt. þar la hia flesksneid er hann þottizst vita at fallit munde hafua ór munne barnsins ok þui munde þat æpt hafua. spurt hafde Krumr at barnn hafde verit vt borit j Krossavik ok huersu þorkell hefde hart vm mællt. þottizst vita at þetta sama munde vera. en med þui at þeir þorkell voru mikler vinir ok hins annars at hann sa at þat var bæde glæpska ok skade at þar dęi sua manligt barnn ok likligt til storra afdrifa þa tok hann þat upp ok hafdi heim med ser ok gerdi ekki ord a. þat var a fiorda dęgri er barnnit fannzst fra þui er þat var vt borit. Krumr gaf nafnn pilltinum ok kallade þorstein ok sagde sinn son vera. vm þetta urdu þau þorgunn samrada. Uex þorsteinn nu þar upp ok leggr þorgunna vid hann astfostr ok kennir honum mart j frædum. þorsteinn gerdizst bade mikill ok sterkr ok vidlæitinn vm allar jþrottir. hann uar suo sterkr at þa er hann var .vij. vetra gamall sambaud hann at afle rosknum monnum þott færir væri. þat var æinn dag sem oftar at þorsteinn kom til Krossauikr. hann gek til stofu. þa sat Gæitir fadir bonda a palli ok

þuldi j felld sinn. en er pilltrinn kom j stofuna þa fór hann miog geystr sem bornnum er tijtt. fellr hann a stofugolfinu. ok (er) Gæitir ser þetta skellir hann upp ok hlærr. en er Ornny ser pilltinn setr at henni grát mikinn. Pilltrinn gengr innar at Gæiti ok mællti. huort þotti þer þetta allbrosligt er ek fell adan. Gæitir suarar. þat er satt þuiat ek sa þat er þu satt ægi. Huat var þat sagde þorsteinn. þat ma ek segia þer. þa er þu komt j stofuna fylgde þer æinn huitabiarnnar hunn ok rann firir innar a golfit. en er hann sa mik nam hann stadar en þu fort helldr geystr ok fellt þu vm huninn. ok þat er ætlan min at þu ser ægi son Krums ne þorgunnar helldr mantu stærri ættar. Pilltrinn settizst nidr hea Gæiti ok skrumudu þeir. en er kuelldade sagdizst þorsteinn heim skylldu. Gæitir bad hann koma þar oft þuiat mer þikir sem þu munir eiga her kynne. En er pilltrinn var vt geinginn kom Ornny þar ok færde þorsteini klæde nyskorin. for hann sidan hæim. uandi hann nu kuomur sinar til Krossavikr. þorkell gaf ser fatt at pilltinum en þotti hann þo fragerdamadr at uexsti ok afli. Gæitir sagdi þorkatli syne sinum at þat væri hans ætlan at þessi þorsteinn væri son Ornnyiar ok Juars lioma ok mundi verda mikill madr firir ser. þorkell kuetz ægi kunna at synia. skulum ver her fa sannar frettir af. Ok um morgininn sendir þorkell eftir Krum ok þorgunnu ok þorsteini. ok er þau kuomu spurde þorkell gloggliga at huersu þorsteinn væri til kominn. En þau hion sogdu allt huersu til komit var. sagde Freysteinn ok sina sǫgu ok bar allt saman. þotti þorkatli nu uel um gengit ok kunni Freysteini þak firir. Uaknar þorsteinn nu vid ætt sina ok for hann nu uistafari til Krossavikr ok gerir þorkell vid hann raun vel.

## Draumr þorsteins.

206. þat er sagt æitt haust er menn skylldu a fiall ganga bæidde þorkell þorstein frænda sinn fara med þeim. hann jattade þui. hann var tiu uetra gamall þa. Freysteinn kuedr hann til ferdar med ser. þeir fara sem þeim liggia læidir finna mart fiar. ok er þeir fara hæim a læid koma þeir j einn dál diupan eru þa .ij. saman þorsteinn ok Freysteinn. þa kuelldadi miog. þeir sa þar æinn haug storan. her ætlag j natt at vera segir þorsteinn ok skaltu uaka j natt Freysteinn ok uekia mik ægi huersu sem ek læt j suefni þuiat þar þiki mer a liggia. Freysteinn jattade þui. Sidan sofnade þorsteinn ok er a læid nattina let hann illa j suefui þuiat hann brautzst um a hnakki ok hæli. þui gek allt til dags. Freysteinn efadizst j huart hann skylldi uekia þorstein edr ægi. myklu uoru hans læti erfuidligre. En er lysti af degi uaknade

þorsteinn ok var þa suæittr miog ok mællti. dyggiliga hefir þu enn uakat Freysteinn. hefir þu nu gert þa .ij. hluti at huortueggi uæri launa verdr. j fystan tima er þu fort med mig ok nu. skal ek nu þui launa þer at ek skal fa firir þig frelsi af þorkatli frænda minum ok her er .xij. merkr silfurs at ek uil gefua þer. en nu uil ek segia þer draum minn. mer þotti haugr sia opnazst ok gek þar vt ór madr raudklæddr. [129] hann var mikill madr uexsti ok ekki adaliga illiligr. hann gek at þorsteini ok heilsade upp a hann. þorsteinn tok honum uel ok spurde hann at nafni edr huar hann ætti heima. hann letz Bryniarr hæita ok æiga hæima j hauge þeim er þu ser standa her j dalnum. en væit ek huat þu hæitir ok sua huers kyns at þu ert ok sua þat at þu mant mikill madr uerda firir þer edr uilltu fara med mer ok sia hybyle min. þorsteinn jattade þui ok stod upp ok tok ǫxi sina er þorkell hafde gefit honum. ganga jnn j hauginn. En er þorsteinn kom þar syndizst honum þar uel firirbuit. hann sa þar til hægri handar sitia .xj. menn a bek. þeir uoru allir raudklæddir ok helldr faligir. ǫdru megin j hauginum sa hann sitia .xij. menn. þeir voru allir blaklæddir. sa var þeirra mestr ok miog illiligr. Bryniarr laut at þorsteini ok mællti. sa er brodir minn hinn mykli madr ok erum vit þo ekki skaplikir. hann hæitir Oddr ok uill flestum illt hann uæitir mer þungar busifiar en hann er þui ollu sterkare en ek sem hann er meire uǫxstum. en ek hefuir ordit at jatta þui ok minir menn at fa honum hueria natt mǫrk gullz edr .ij. merkr silfrs edr æinnhuernn grip jafnnan þessu. hefir nu sua fram farit hinn næsta manut ok gerumzst uer nu farnir at lausafe. Oddr hefir at uarduæita gull þat er su nattura fylgir at huerr madr sem mallaus er ok leggr þat undir tungurætr ser þa tekr þegar mal sitt. ok af þui gulle ma modir þin mal fa. en Oddr geymir þat sua rikt at þat geingr alldri af honum huarki natt ne dag. Nu setzst Bryniarr nidr hia sinum kumpanum en þorsteinn sitr þeirra yzstr. en er þeir hafua setit um hrid stod Bryniarr upp ok gek yfir at Oddi brodur sinum ok afhendi honum æinn hring digran. Oddr tok vid þegiande en Bryniar gek aftr til sætis sins. sua stod upp huerr at ǫdrum ok færdu Oddi allir nokkurn grip. en hann gaf ǫngum þok j moti. En er þeir hofdu þetta allir (gert) þa mællti Bryniarr. þat mun þer rad þorsteinn at gera sem adrir ok færa Oddi nokkut gialld æigi mun annat duga med þui a þu sitr a uornn bek. Oddr var ygldr miog ok sat upp miog gnæpr ok helldr ufrynligr. þorsteinn stod þa upp ok hellt a ǫxi sinne. hann gek yfir at Oddi ok mællti. ekki er ek plaggamargr til Oddr at luka þer gialld þetta muntu ok ekki mikilþægr at vid mig þuiat ek er vrikr. Oddr anzsade

ok helldr stutt. ekki er mer um kuomu þina hingat. en muntu æigi frami lata þat er þer likar. Ek hefir ekki til nema ǫxi mina ef þu uillt hana taka. Oddr retti hǫndina j mote en þorsteinn hoggr til hans. kemr þat a houdina (firir) ofan ǫlnnboga ok tekr af. Oddr sprettr þa upp ok allir þeir er (j) hauginum voru. vopnn þeirra hengú uppi yfir þeim. gripa þeir þau. slær nu med þeim j bardaga. þat ser þorsteinn at nu er ekki fiarri vm met þeim þorsteini ok Oddi er Oddr uar æinhendr. allir litazst honum hinir blaklæddu menn hardfæingari. þat ser hann ok þo at þeir hǫggizst af hendr edr fætr edr særizst odrum storsarum þa eru þeir a annarre stundu hæilir. en þat er þorsteinn hio þa var þat eftir edli. æigi linti þorsteinn fyrr ok þeir brædr allir saman en Oddr var drepinn ok þeir allir kumpanar. þorsteinn uar þa miog modr en ekki sarr þuiat Bryniarr ok hans felagar hǫfdu hlift þorsteini uid hǫggum ǫllum. Bryniarr tok nu gullit af Oddi daudum ok fek þorsteini ok bat hann færa modur sinni. hann gaf honum .xij. merkr silfrs j siode ok mællti. mikit frelsi hefir þu unnit mer þorsteinn þuiat nu ræd ek her haugi ok æignum. mun þetta upphaf þinna þrekvirkia er þu munt vinna vtanlendis. þu munt ok taka sidaskifti ok er sa sidr myklu betri þeir sem hann mega hliota. en hinum er erfbidra vm sem æigi eru til þess skapadir ok slikir eru sem ek þuiat vit brædr vorum jar(d)buar. nu þætti mer myklu mali skipta at þu kæmir nafni minu undir skirn ef þer yrde þat audit at æiga son. Sidan læidde hann mig vt ór hauginum ok adr vit skildum mællti hann. ef min ord mega nokkut þa snuizst þer þin uerk ǫll til hæidrs ok hamingiu. Eptir þat sneri Bryniarr jnn j hauginn en ek uaknnade ok þat til marks vm at her er nu bade hia mer si(o)drinn ok gullit. Sidan foru þeir ok raku hæim fenat þann er þeir hǫfdu fundit ok hæimtu menn uel. Sagde þorsteinn þenna atburd allan ok færde modur sinne gullit ok tok hon þegar mal sitt er þat kom undir tungurætr henni. Stendr þessi haugr j Jǫkulsdal ok er kalladr Bryniarshaugr ok ser enn j dag merki.

## Freysteinn feck Odnyiar(!).

207. Freysteinn fek frelsi bratt af ordum þorsteins ok gerde þorkell þat uel ok lidugliga þuiat honum uar uel j gede til Freysteins þuiat hann visse at hann uar godrar ættar ok gǫfgra manna fram j kyn. Grimkell fadir Freystæins bio a Uos ok atti Olofu Brunnolfs dottr þorgeirssonar Uestarssonar. en Sokki uikingr brende inne Grimkell fǫdur hans en tok pilltinn ok sellde mansali. hafdi Gæitir hann vt

hingat. þat segia sumir menn at þorsteinn gifti Freysteini Ornnyiu modur sina. Freysteinn hinn fagri bio j Sanduik a Bardznesi ok atti Vidfiord ok Hellisfiord ok var kalladr [13] landnamsmadr. fra honum eru komnir Sanduikingar ok Vidfirdingar ok Hellisfirdingar.

þorsteinn (ferr vtan).

208. Asbiornn kastanrazsi atti skip uppi standanda j Gautavik. þar tok þorsteinn ser fari med honum. þa var hann .xij. uetra gamall. þorkell fek honum fararefni sua at honum nægdi. ok adr þorsteinn ræid til skips toluduzst þau vid ok modir hans. hon mællti. nu muntu frændi finna fôdur þinn Juar lioma ok ef hann gengr sæint vid faderni þinu þa er her æinn hringr er þu skalt færa honum ok seg honum at þenna hring gaf hann mer j fysta sinne ok ma hann þa æigi dyliazst vid. Sidan skildu þau mædgin ok ræid þorsteinn til skips ok for vtan vm sumarit. komu þeir nordarliga vid Noreg um haustit. for þorsteinn vistafari til Styrkars a Gimsar ok var þar vm uetrinn. fell uel a med þeim Styrkari þuiat hann sa at þorsteinn var hinn mesti atgeruimadr þuiat hann jafnnuægde þa hinum sterkaustum monnum j ollum læikum. Vm uetrinn nôkkuru firir jol komu þar sendimenn Juars lioma þess eyrendiss at Juarr hafde bodit honum Styrkare til jolauæitzslu. sa het Beornn er firir þeim uar. Styrkar het ferdinne ok for med .xxx. manna. þar var þorsteinn j ferd. þeir koma til væitzslunnar. var Styrkari þar uel fagnat. sat hann hit næsta Juare um ueitzsluna. for ueitzslan uel fram ok affaradag ueitzslunnar adr menn skylldu burt fara gek þorsteinn firir Juar ok mællti. þat er eyrendi mitt vid þig Juar at vita huort þu uillt nôkkut ganga vid faderni at mer. Juar suarar. huert er nafnn þitt edr huadan ertu at kominn. þorsteinn er nafnn mitt. Ornny heitir modir min ok er Gæitis dottir vt a Jslandi ok her er hringr er hon bad mig færa þer til jartæignna ok kuat at þu mundir kenna at þu hafdir gefit henni. Juar rodnadi fast ok mællti. þu munt æiga allt verra faderni. eru nogir þrælar vt a Jslandi til þess at modir þin kenni þig. er þat ok mala sannazst at mer þætti æiga at læida dræingium ok herians sonum þat at huerr putuson kallade mig fodur at ser. þorsteinn ræiddizst þa akafliga miog ok stillti þo uel ordum ok sagde. illa hefir þu suarat ok odreingiliga. en sua kem ek annat sinn at þu gengr vid mer elligar er þat bani þinn. þorsteinn snyrr þa j brottu. Juarr talade til Styrkars. þat villda ek frænde at þu banadir foli þessu þuiat mer þikir æinskizs illz orugnt firir hann. Æigi uil ek þat segir Styrkar þuiat ek ætla hann hafua rettara at mæla en þu þuiat ek

hygg at hann se kynstorra manna. Skildu þeir Juar ok Styrkarr þa j styttinge. for Styrkar heim a Gimsar ok þorsteinn med honum. Styrkar atti ser systur er Herdis het kuenna uænst. godr þokki var a med þeim þorsteini. þar var hann .ij. vetr. þa for þorsteinn vt til Jslandz ok heim til Krossavikr ok hafde mikit framizst j vtanferd sinne. ok er hann hafde verit .iij. uetr a Jslande for hann vtan med Kolbirnne sneypi til Noregs. for hann þa enn til Styrkars a Gimsar ok tok hann vid honum fegins hendi.

## Troll a Heidarskogi.

209. Gloggliga er þat sagt at þetta sumar yrde hôfdingia skipti j Noregi. felli fra Hakon blotjall en j stadinn kom Olafr Trygguason. hann bodadi ollum monnum retta tru. þat kom firir Olaf konung at flôgd lægi a Hæidarskog sua at þar tæki af uega alla. Konungr skytr a husþinge a spyrr huerir fara vilea at frealsa Hæidarskog. Madr stod upp mikill ok uorpuligr er Bryniulfr het lendr madr j þrandheimi ok mællti. ek uil fara herra ef þer vilit. Konungi kuetzst þat vel lika. Biozst Bryniulfr þa vid .lx. manna. þorkell het (madr). þangat rida þeir Bryniulfr til gistingar. tok þorkell vid þeim uel. voru þeir þar vm nottina en vm morgininn fylgde hann þeim j ueg ok kuat þat skada mikinn er konungr skylldi æigi slikra manna læinge niota mega. Sidan ridu þeir ueg sinn ok allt þar til er þeir sa standa skala mikinn. þadan sa þeir hlaupa þrear trollkonur .ij. ungligar ok æin stærst hon uar lodin.ôll vtan sem grabeornn. þær hofdu allar suerd j hondum. þeir sa ok ganga mikinn mann ef mann skyllde kalla ok .ij. pillta med honum. hann hafde brugdit suerd j hende. þat var sua biart at sindra þotti af. ôll uoru trollin illilig at sia. þar slęr þegar j bardaga. uard hinn mykkli madr miog storhoggr ok sua hin lodna skessa. Lykr med þui at þar fellr Bryniulfr ok allt hans foruneyti nema .iiij. menn kuomuzst a skog ok foru sidan a fund konungs ok sogdu honum þessi tidendi ok spurdizst þetta vida.

## þorsteinn vann trollin.

210. þat er at segia at Styrkar talade vid þorstein ok spurde huart hann uillde fara med honum a Hæidarskog. þorsteinn letzst buinn þeirrar ferdar. biugguzst þeir æinn morgin snemma ok foru a skidum upp a fiall ok lintu æigi fyrr en þeir kuomu at kuelldi dags til æins sæluhus ok ætla þar at uera um nottina. skiptu þeir þa verkum skyllde þorsteinn uatnn sækia en Styrkar elld kuæikia. þorsteinn geingr þa vt

ok tok up spiot er Styrkar hafde gefuit honum ok vatzfôtur j adra hond. ok er hann kemr miog til uatzsins sa hann stulku ganga med uatzfotur. hon uar ekki forads ha en ognar digr. ok er hon ser þorstein kastar hon nidr fôtunum ok [131] bregdr vit hart ok hleypr aftr a ueg. þorsteinn lætr ok eftir sinar uatzfôtur ok hleypr eftir. En er stulkan ser þat rykkir hon hart undan. hleypr þa huort sem getr ok dregr þa huarke sundr ne saman med þeim. gengr þessu þar til er þorsteinn ser skala standa miog storan ok ramgeruan. þar hleypr þessi stulka inn j ok skellir aftr hurdu. en er þorsteinn ser þat skytr hann eftir henni spiotinu ok kemr j skalahurdina ok flygr j gegnum hurdina. þorsteinn gengr þa at skalanum ok inn j finnr spiot sitt a golfuinu en ekki ser hann til stulku sinnar. honum uerdr gengit innan um skalann ok þar til er hann kemr at æinne lokrekkiu þar brann lios a kertistiku. þorsteinn ser at kona liggr j sænginne ef konu skylldi kalla. hon uar bæde ha ok digr ok at ôllu trollzlig. hon uar storskorin miog j andliti en alitz bæde suort ok bla. hon la j æinum silkiserk. hann uar þui likazstr sem hann uæri þueginn j manna blode. flagdit uar þa j suefni ok hraut ogurliga hatt. skiolldr. ok suerd hek uppi yfir henni. þorsteinn steig upp a rekkiustokkinn ok tok ofan suerdit ok bra. hann fletti þa klædum af flagdinu. sa hann þa at hon uar oll allodin nema æinn dili vndir hinne uinstri hendi sa hann at snôggr var. þat þottizs hann vita at annathuort munde hana þar jarn bita edr huergi annarstadar. hann leggr suerdinu a þessum sama flek ok fellr a hiolltin. suerdit bitr sua at oddrinn stod j dynunni. Kelling uaknnade þa ok æigi vid godan draum ok falmade hondunum ok spratt upp. þorsteinn hefir allan æinn rykkinn at hann slôkkuir liosit ok stôkkr upp yfir flagdit j sængina. en hon hle(y)pr fram a golfit ok ætlar at vegandinn muni til dyranna leitat hafua. en er hon kemr þar sæfuizst hon a suerdinu ok deyrr. þorsteinn gengr þa at henni ok kippir burt brandinum ok hefir med ser. hann gengr þa þar til er hann kemr at hurdu. hon uar greyft j stokk ok hnigin æigi allt j klofa. hann sa mikinn mann a palli sitia ok miog storskorinn ok hengu yfir honum oll herklæde. a adra hond honum sat mikil skessa ok illilig ok ekki allelldilig. Pilltar .ij. leku a golfinu. þeim var sprottit har ór kolli. Skessan tok til orda. huort sifiar þig Jarnnskiolldr fadir. Æigi er Skialldijs dottir. liggia a mer hugir storra manna. Hann nefnnde þa pilltana annan Hák en annan Haka ok bad þa fram ganga til Skiallduarar modur sinnar ok vita huort hon uekti edr suæfui. Skialldis suarade. vradligt er fadir at senda ungmenni j myrkri þuiat ek uil segia þer at ek sa j kuelld hlaupa .ij.

menn ofan af fialli. þeir eru suo fothuatir at ek hygg at þat se fatt af uorum monnum at þeim standiz. Æigi þiki mer a þui liggia segir Jarnnskiolldr. þuiat þa æina menn sendir konungr hingat at ek ottumzst þa ekki. þuiat þat er æinn madr at ek hrædumz en sa hæitir þorsteinn ok er Ornnyiar son vtan af Jslandi. en suo er sem mer hangi blad firir auga um ðll min forlaug huat sem þui uelldr. Ulikligt er þat fadir segir hon at sa þorsteinn komi nðkkurnn tima a Hæidarskog. Pilltarnir geingu nu fram en þorsteinn uæik ser fra. þeir hlaupa fram ok vt. En er nðkkur stund var lidin tok Skialldijs til orda. fram fysir mig at ganga. Nu hleypr hon fram a hurdina hart ok hæimsliga. þorsteinn snyrr þa undan. en er hon kemr at utidyrum þa fellr hon vm modr sina dauda. henni verdr þa kallt ok kynligt vid. hon hleypr þa vt ór skalanum. j þui kemr þorsteinn at ok hðggr af henni hðndina med suerdinu Skiallduararnaut. hon uill þa jnn aftr j skalann en þorsteinn uerr henni dyrnar. hon hafde skalm j hendi. þau sækiazst vm hrid en sua lykr med þeim at Skialldijs fellr daud. J þui kom Jarnnskiolldr vt hann hafde brugdit suerdit j hende bæde biart ok bitrligt sua at þorsteinn þottizst ekki sligt set hafua. hann hðggr þegar til þorsteins. hann væik ser vid hðggit ok vard þo sarr a lære. suerdit rendi nidr j uollinn allt upp at hiolltum. laut Jarnnskiolldr þa vid en þorsteinn ræidde upp suerdit Skiallduararnaut bede hart ok tijtt ok hðggr til Jarnnskialldar. þat hðgg kom a ðxlina tok af hðndina ok fotinn. fell Jarnnskiolldr þa vid. þorsteinn lætr þa skamt storra hðggua j mille ok hðggr þa af honum hðfudit. Eftir þat gengr þorsteinn inn j skalann. en er hann gengr jnn uard hann æigi fyrr uarr vid en hann var gripinn upp ok færdr nidr. þorsteinn finnr þa at þar var komin Skiallduðr kelling ok var þa synu uerre uidræignar en fyr. hon greyfizst þa nidr at þorsteini ok ætlar at bita sundr j honum barkann. þorsteini kemr þa j hug at sa mun mikill vera er skapat hefir himin ok jord. hafde hann ok heyrt margar saugur ok merkiligar fra Olafui konungi ok þeirre tru er hann bodade. hæitr nu af hreinu hiarta ok hæilum huga at taka vid þeirre tru ok þiona Olafi medan hann lifde ef hann kæmizst heill ok lifs j brott [133] af allre kunnattu. ok er hon ætlade tðnnum at uikia at barka þorsteins en hann hafde stadfest heitit kemr gæisli jnn j skalann ogurliga biartr ok stendr þuert framan j ðgun kellingar. vid þa syn uard henni sua illt at dro ur henni matt ok magnn allt. hon tok þa at gæispa nidðrkliga. hleypr þa ór henni spyia ok ofan j andlit þorsteini sua at naliga hellt honum vid bana af illzsku ok oþef þeim er af stod. þikir monnum ok æigi ðruænt at j briost þorsteini muni af komit hafua

nokkurr partr. sakir þess at monnum þikir sem hann hafui æigi sidan dyggliga einhamr verit huort er þúi uelldr mæirr spyia Skialluarar edr þat at hann var vtborinn. liggr nu huortueggia þeirra j mille heims ok heliar sua at þa matti huorki upp standa.

## Fra þorsteini.

211. Hitt er at segia at Styrkarr er nu j sæluhusinu ok þikir þorsteini dueliazst. kastar hann ser þa upp j setit ok er hann (hafdi) legit nokkura stund hlaupa þar inn pilltar .ij. miog illsuipligir ok hafde sitt sax huorr j hendi sækia þegar at Styrkare. en hann gripr fra stokkinn fra setinu ok lemr þa med þar til er hann drepr þa bada. sidan gengr hann vt ór skalanum. grunar þa huat þorstein mun duelia. geingr nu þar til er hann kemr at skalanum. ser nu uex ummerki at þar liggia tuo flǫgd drepin en þorstein ser hann huergi. þikir nu vggligt at hann mune j nokkurum naudum staddr vera. hæitr nu a skapara himins ok jardar at taka vid þeirri tru sem Olafr konungr bodar ef hann fynde a þeirri natt þorstein felaga sinn lijfs ok hæilann. geingr sidan jnn j skalann ok kemr þar at sem þau Skiallduǫr ok þorsteinn liggia. spyrr þa huort þorsteinn megi nokkut mæla. en hann segir þat æigi trauda. bidr hann hialpa þa til. Styrkarr tekr þa til Skiallduarar ok dregr hana af ofan. þorsteinn stendr upp bratt ok er stirdnadr miog af ollu saman vmfangi þui er hann hafde att vid flogdin ok fadmlǫgum Skillduarar. briota þeir þa Skiallduǫr kellingu a hals. ok gek þeim þat hit tregligzsta þuiat hon var hardla halsdigr. segir þorsteinn nu Skyrkari allt fra ferdum sinum. Styrkar anzsade. mikill afreksmadr ertu sua at þat er likazst at þessa þinna afreksuerka se getit medan Nordrlǫnd eru bygd. Taka þeir nu ok draga saman ǫll flǫgdin ok kynda at bal ok brenna upp at kǫlldum kolum. sidan kanna þeir skalann ok finna þeir ekki femætt. fara j burt sidan ok hæim a Gimsar. Spyriazst nu þessi tijdendi ok þikia mikil vera.

## Juarr kendiz faderni þorsteins.

212. Olafr konungr sat a ueitzslu a Hǫrdalandi. þangat fara þeir Styrkarr ok þorsteinn ok ganga firir konung ok kuedia hann. þar var Jvarr liomi þa med konungi j suo mikille virdingu at .ij. menn satu þa upp j mille þeirra konungs. þorsteinn snyrr þa firir Jvar med brugdit suerdit Sk(ialld)vararnaut ok stak blodreflinum firir briost honum ok mællti. geor þu annathuort at ek þrystir otæpt blodreflinum ella gak þu vit faderni at mer. Jvar suarar. mer þikir sæmd j at æiga þig at

syne attu ok suo goda modur at ek væit at hon mundi þat æigi sagt hafua nema satt væri. vil ek at visu vid þer ganga. Konungr telr þa tru firir þeim sem ǫllum ǫdrum er a hans fund kuomu. þeir letu þat audsott af sinne hendi. segia þa konungi glǫggliga allan atburd sinnar þarkuomu ok fra þeim tidendum er georduzst a Heidarskogi. Konungr gelldr þa margfallt lof gude firir þær jartæignir er hann uæitti synd-ugum monnum her j heimi. uoru þeir sidan skirder bader. fór Styrkar hæim a Gimsar ok hellt ǫllum þeim uæizslum er hann hafde fyr haft. en þorsteinn gerdizst madr Olafs konungs ok fylgde honum til dauda-dags ok Juarr fadir hans ok þottu vera hinir vǫskuzstu menn.

## þorsteinn vann blotnaut.

213. Harekr het madr hann bio a Reinu j þrandheimi lendr madr ok ekki miog vinsæll. hann hafde tekit vid kristni en þo var konungi sagt at eftir myndi nokkut af fyrnnsku j fari hans. þui tok konungr þar veizslu ok uillde reyna huat satt var j. þar var uæizsla fǫgr. Harekr uar ǫfundsamr ok illgiarnn honum lek ǫfund a uirdingu þor-steins. þat var einn dag at Harekr talade vid þorstein ok spurde hann af sinum afreksverkum en þorsteinn sagde slikt er hann spurde. Etlar þu nǫkkurnn mann sterkara j Noregi en þig segir Harekr. Æigi væit ek þat suo vist segir þorsteinn. Huorr ykkar konungs ætlar þu at sterkare se segir Harekr. Allt mun mig annat mæira skorta uid konung en afl segir þorsteinn ok mun ek þo æigi komazst til jafnns [133] uit hann vm þat. þeir skilia nu tal sitt. ok um daginn eftir sagde Harekr konungi at þorsteinn hefdi jafnnazst til vid hann vm allar jþrottir. konungr gaf ser fatt vm þat. Nǫkkuru sidarr talade konungr um at þeim væri þat rad er til hefde jafnnaz vid hann at reyna þa jþrottir sinar eda er þat satt þorsteinn at þu hefir þat talat at þu værir jafnn mer at jþrottum edr framarr. Æigi hefir ek sua talat herra segir þor-steinn edr huerr sagde ydr þat. Harekr sagde konungr. Hui sagde hann ydr sidr af blotnauti þui er hann blotar a laun þuiat þat mun þo sann-ara. en þat sagda ek herra ath mig munde allt mæira skorta vid ydr en afl ok munda ek þo æigi komaz til jafnns vid ydr um þat. Er nokkut þat satt Harekr sagdi konungr. Litit mun þar til haft herra segir Harekr. Lat oss sia naut þat er þu hefir sua mikil mæti aa segir konungr. þat skal j ydru uallde herra segir Harekr ok skulu ver þa fara fram a skoginn. þeir gerdu sua. ok er þeir koma þar sea þeir nautaflokk mikinn. þar var med uxi ogurliga storr ok illiligr suat konungr þottizst slikan vsenann hafua. hann oskrade ogurliga ok let miog illiliga.

Harekr mællti. her er nu nautit herra ok hefui ek þui mætur a uxa þessum at hann er miog elskr at mer. Se ek uist sagde konungr ok litzst mer illa a. edr huat er nu þorsteinn uilltu reyna afl þitt ok taka naut þetta þuiat mer þikir sem æigi muni gagnn j at hann lifui læingr. þorsteinn hleypr þa fram j nautaflokkinn ok þar at sem uxinn var. nautit snyrr undan en þorsteinn gripr j fotinn hinn eftra ok sua hart at bæde rifnade hud ok holld sua at fotrinn gek af med ǫllu þioinu ok hellt a eftir ok gek sua firir konung en blotnautit datt nidr dautt. en sua hafde nautit vid spyrnnt ramliga at þat var sokkit hinum fyrrum fotum nidr j jordina upp at kniam. Konungr mællti þa. sterkr madr ertu þorsteinn ok ekki mun þer aflafaatt verda ef þu att vid menzska menn vm. mun ek nu auka nafnn þitt ok kalla þig þorstein vxafót ok her er æinn hringr at ek uil gefua þer at nafnnfesti. þorsteinn tok vid hringnum ok þakkade konungi þuiat þat var godr gripr. Konungr fór nu heim a bæinn ok kastade sinne æigu þar a allt en rak Harek ór landi firir vhlydni sina ok blotskap.

## þorsteinn drap troll.

214. Jnnan litils tima spurdizst enn af Hæidarskogi at þar lagu flǫgd a sua at menn mattu þar æigi fram komazst. Styrkar sendi þa ord þorsteini at þeir skylldi enn fara a Heidarskog. þorsteinn bra vid skiott ok for med konungs lofui ok hitti Styrkar. fara nu .ij. samt ok koma j þat sæluhus sem þeir voru fyrr ok voru þar vm nottina. Vm daginn eftir er þeir voru vti staddir sa þeir .xiij. menn a skoginum ok var æitt kona j. þeir snua þagat til. þorsteinn kennir þar stulku sina ok hafde helldr uaxit þuiat hon uar nu hit mesta flagd. Hon kastade ordum a þorstein ok mællti. þar ertu kominn þorsteinn uxafotr ok komtu her suo næst at ek matti minne til reka. drapt fodur minn modur ok systur en Styrkar brædr mina .ij. en þu elltir mig. vard ek hrædd miog sem æigi var olikligt vm .ix. uetra gamla meystulku en nu er ek .xij uetra. ek for j jardhus æitt er vid skildum. en medan þit borduzst þit fadir minn tinda ek saman alla godgripi þa er j skalanum voru nidr j jardhusit vndir sæng modur minnar. nǫkkuru sidar giptumzst ek þessum manni Skelkinge ok skilda ek þat til vid hann at hann skyllde drepa huornntueggia ykkarnn Styrkars. nu er hann her kominn ok brædr hans .xi. ok muntu nu þurfua at syna karllmannliga uornn ef duga skal. Slær nu sidan j bardaga med þeim sækir Skialldgerdr þar at er þorsteinn var firir sua hart at þorsteinn þikizst varlla j mæire raun komit hafua. en suo lykr þo med þeim at þorsteinn kemr

a Skialldgerde hǫggi firir ofan miadmirnar med suerdinu Skiallduararnaut ok tekr j sundr j midiu. þa hafde Styrkarr drepit Skelking. vinna þeir nu skiott vm vid hina .xj. ok drepa þa alla. Sidan fara þeir j skalann. briota upp jardhusit ok bera þadan j brott marga godgripe. foru sidan heim a Gimsar ok skiptu fe med ser sidan. Bad þorsteinn þa Herdisar systur Styrkars ok fek hennar. segia menn ok at þau ætti son er Bryniarr het. For þorsteinn nu til Olafs konungs ok uar med honum sidan ok fell a Orminum langa.

---

## Fra landnamsmonnum.

215. Jngolfr var fystr ok frægstr allra landnamsmanna. þeir Hiorleifr bygdu fyst Jsland. sidan for mart stormenni þangat vndan ufride ok ofriki Haralldz hins harfagra. Son Jngolfs var þorstæinn fadir þorkels mana logsǫgumannz er æinn heidinna manna hefir bezst verit sidadr sua at menn vitu dęmi til. hann let j banasott sinne bera sig [134] biartan undir solargæisla ok fal sig sua a hende þeim er solina hafde skapat. Son þorsteins var þormodr er þa uar Kialnesinga gode er kristni kom a Jsland. hans son uar Hamall fadir Mars fadir þormodar ok Tiorfua. Margir uoru þeir menn er skirdir kuomu vt hingat ok namu her land. en firir þui at myklu voru flæire landnamamenn hæidnir ok blotmenn myklir þeir er med ǫllu afle stodu j moti rettum atrunade ok med illgerdum smadu ok fordęmdu kristna menn sem sagt mun verda en hinir sealfir ungir j trunni. en þo at nǫkkurir landnamsmenn kastade eigi med ǫllu kristnni þa voru þau bornn þeirra naliga ǫll heidin ok afkuæmi þuiat kennimenn voru ǫngir a landinu þeir er folkit sidade. En firir þui er ritat af nokkurum landzmonnum islenzskum at þat synizst æigi vuidrkæmiligt at geta j þessi frasognn nokkurra þeirra manna er her hafua truat a sannan gud fyrr en kristni var j lǫg tekin a Jslande huerrar ættar þeir hafua verit. sua sem þat se firirbodan edr tilrudning þess hins agæta vmskiptis er eftir ferr at allt landzfolkit snyzst fra fiandans villu til sannrar drottins þionustu sua at æ sidan hefir kristindomrinn halldizst ok friouazst en alldri eyzst.

## Fra bornum Ketils.

216. Ketill flattnefr het madr hann var son Biarnnar bunu. hans bornn eru nefnnd. Biornn hinn austræni ok Helgi biola voru synir

Ketils en dętr Audr hin diupaudga ok þorunn hyrnna. Ketill for ór Noregi til Sudreyia sem sǫgur votta. hann skyllde vinna Sudreyiar til handa Haralldi konungi harfagra. þat for fram ok drap hann vikinga þa er þar hofdu yfir gengit en gerdizst sidan hofdinge yfir eyiunum ok gallt ǫngua skatta Haralldi konungi sem skilit var med þeim. En er Haralldr konungr spurde þat tok hann undir sig æignir Ketils en rak j burt Beornn son hans er hann hafde yfuir skipat. Beornn for þa til fodur sins ok vnde þar ægi. sidan for hann til Jslandz ok nam land vid Bræidafiord. hann bio j Biarnnarhǫfnn til elli. hann do þar. hann var heygdr at fornnum sid þuiat hann æinn var vskirdr af bornnum Ketils ok var kalladr Beornn hinn austræni.

## Fra Patrechi byskupi ok Ǒrlyghi. capitulum.

217. Hrappr het son Bearnnar bunu brodir Ketils flattnefs. hann atti þann son er Ǒrlygr het hann var uppfæddr med hinum hæilaga Patreki byskupi. þa uar hann byskup j Sudreyium. Ǒrlygr uar uel kristinn hann fystizst at fara til Jslandz ok bad Patrek byskup at hann sæi vm med honum. Byskup suarar. væita mun ek þer mina vmsia ef þu uillt þeim radum hlydinn vera er ek gef þer. ger firir guds nafnn ok mina bæn at þu hallt uel tru þina þa er ek hefir kent þer ok eggia oftliga alla þa menn er eftir þinum ordum vilia vikiazst at trua a æinn gud almattkan. ok ef þu nemr þer jord a Jslande eftir þeim sid er þar er lattu a þeirri jordu kirkiu gera gude til lofs ok dyrdar ok hinum agæta Columba þuiat hann er mikill guds vin ok uorr æinkanligr patronus. þat er at skilia uorr hǫfudfadir ok formælande vid gud. Byskup gaf Ǒrlyge kirkiuvid ok jarnnklǫkku ok plenarium ok molld uigda er hann bad hann leggia undir hornnstafi kirkiunnar. Ǒrlygr let j haf ok tokzst vgreidliga ferdin. þa het hann a gud ok Patrek byskup ok tok litlu sidarr land j Patreksfirde med hægum byr ok hagstædum. þeir uoru þar hinn fysta uetr en vm uorit eftir bio Orlygr skip sitt ok siglde sudr med landi þar til er hann fann þann fiord er inn gengr milli nesia tueggia ok Hualfiordr hæitir. hann lagde at hinu sydra nesinu þat er kallat Kialarnes. þar hafde numit land Helgi biola brædrungr Ǒrlygs. Ǒrlygr var hinn næsta uetr med Helga frænda sinum. en vm uorit setti hann bu saman at rade hans. hann bio at Esiubergi ok let þar kirkiu gera sem hann hafde hæitit Patreki byskupi. hellt hann retta tru sem byskup hafde kent honum ok sua segizst at hans son blotade ekki skurgod. margir voru þeir adrir menn er skirdir kuomu vt hingat ok bygdu her landit.

### Audr hin diupaudga kom til Jslandz.

218. Olafr het herkonungr hann var kalladr Olafr hinn huiti. hann var son Jngialldz konungs Helgasonar Olafssonar Gudrødarsonar Halfdanarsonar huitbæins Upplendinga konungs. Olafr huiti heriade j uestruiking ok vann Dyflinn a Jrlandi ok gerdizst þar konungr yfir. Olafr fek Audar hinnar diupaudgu dottur Ketils flattnefs. þorsteinn raude het son þeirra. Olafr fell j orrostu a Jrlandi en Audr ok þorstæinn son hennar foru þa j Sudreyiar. þar fek þorsteinn þuridar dottur Eyuindar austmannz. þuridr uar systir Helga hins magra er atte þorunne hyrnnu Ketilsdottur. þau þorsteinn attu morg børnn. Olafr fæilan het son þeirra en dętr Groa Olof Osk þorhilldr þorgerdr Uigdijs. þorsteinn gerdizst herkonungr. hann retzst til ferdar ok felags med Sigurde jalli hinum rika syne Eysteins glumru. þeir unnu Katanes ok Sudrland Ros ok Mærhæfui ok meirr en halft [135] Skotland. gerdizst þorsteinn þar konungr yfir adr Skotar suiku hann ok fell hann þar j orrostu. Audr var þa a Katanese er hon spurde fall sonar sins. hon let gera knorr j skogi a laun. en er hon var buin hellt hon vt j Orknneyiar ok gipti þar þorgerde dottur þorstæins rauds. Sidan biozst Audr at læita Jslandz. hon hafde a skipi med ser .lx. kalla frialsa. sa het Kollr er þeirra var æzstr ok mest virdr af Aude. uar hann mest at radum med Aude. Kollr uar son Uedrgrims Asasonar hessis. Kollr atte þorgerde dottur þorsteins rauds. Audr for fyst til Færeyia ok gifte Olofu dottur þorsteins. þadan eru komnir Gautuskeggiar j Færeyium. sidan for Audr til at læita Jslandz. hon kom at firir sunnan land ok braut skip sitt. For Audr þa a Kialarnes til Helga brodur sins. (baud) hann henni at vera þar um uetrinn med helming lids sins. henni þotti þat vera uel bodit en kuetzst þo æigi uita huadan honum kemi slik litilmenzska. for hon þadan uestr j Bræidafiord til Biarnnar brodur sins. Beornn sagdizst kunna stormenzsku ok uegmenzsku systur sinnar. gek j moti hennı́ med kalla sina ok baud henni þar at uera med allt lid sitt. Audr tok þat med þokkum. var hon þar vm uetrinn med allt lid sitt ok var henni uæitt hit stormannligzsta. en vm uorit eftir nam hon land a Bræidafirdi ok bio j Huamme til elli. Audr uar kristin ok þui let hon krossa gera a holum nokkurum ok kallade þa Krosshola ok þar framde hon oftliga sitt bænahalld med mikille godfyse. Olaf fæilan frænda sinn son þorsteins rauds uirde Audr firir huernn mann fram. Olafr kuæntizst ok fek Aldisar dottur (Konals) Stæinmodarsonar Ôlvissonar barnnakallzs. Audr uar uegskona mikil ok þa er hon uar ellimod baud hon til

sin ǫllu stormenni þui sem henni var uel uingat[1]. ok er su uæitzsla hafde (stadit) .iij. nætr þa gaf hon ollum monnum aheyrandum Olafi frænda sinum landit j Huamme ok allar adrar æignir sinar ok jardir þær sem hon hafde æigi adr gefuit skipuerium sinum ok leysingium ok allt þat fe eftir hennar dag. sidan uallde hon vinum sinum giafir ok red þeim hæilræde. eftir þat þakkade hon ollum bodsmonnum sina þarkuomu. sagde hon at su hin sama ueitzsla skylldi enn standa adrar .iij. nætr. quad hon þat skylldu vera erfui hennar. þa vm nott hina næstu eftir andadizst hon. Audr uar grafin j sandi þar er flædur gek yfir sem hon hafde adr firir sagt. þuiat hon uillde æigi liggia j uuigdre molldu er hon uar skird. En eftir andlat hennar uilltuzst frændr hennar af rettre tru. var sidan gert hof a Krossholum þa er blot toku til a Jslande.

## Fra Laxdælum. capitulum.

219. Dalakollr atti þorgerde dottur þorsteins rauds sem fyrr var ritat. þeirra bornn uoru Hǫskulldr Groa er atti Uelæifr hinn gamli ok þorkatla er atti þorgæir gode. Hoskulldr Kollzson bio j Laxardal eftir fǫdur sinn þar het sidan a Hǫskulldzstǫdum. hann atti Hallfride dottur þorbiarnar fra Vattne ór Haukadal. þorlæifr var son þeirra er atte þuride Asbiarnardottur Slæitubiarnarsonar. þeirra son var Bolli er atti Gudrunu Osuifrsdottur. Hǫskulldr keyfti Melkorku dottur Jrakonungs er Myrkiartan het. þeirra son var Olafr pai. Olafr pai atti þorgerde dottur Egils Skallagrimssonar. þeirra synir voru þeir Kiartan Egill Halldorr Steindorr ok þorgerdr dottir. Kiartan atti Hrefnnu Asgæirsdottur ædikollz. uoru þeirra synir Asgæirr ok Skumr. Dottir Olafs pa var þuridr er atti Gudmundr j Asbiarnarnesi. þeir uoru synir Gudmundar Hallr ok Uigabarde. dottir Hoskulldar Kollzsonar var Hallgerdr snuinbrok er atti Gunnarr at Hlidarenda.

## Vtkuoma Helga hins magra.

220. Beornn het madr agætr a Gautlandi hann var son Hrolfs fra Aam. kona Bearnar het Hlif dottir Hrolfs Jngialldzsonar Frodasonar konungs. Eyuindr het son þeirra. Beornn uard usattr vid Sigfast mag Soluars Skota(!) konungs ok brendi hann inne vid .xxx. manna. sidan for Beornn til Noregs med .xij. mann ok tok vid honum Grimr hessir son Kolbearnnar. uar Beornn met honum æinn uetr. þa uillde Grimr drepa Beornn til fiar ser. þa for Biornn til Ondottz kraku er bio a Ǫgdum j Huinisfirde. uar Beornn a sumrum j uestruiking en a uetrum med

[1]) hingat *Cd.*

Ǫndotti þar til er Hlif kona hans andadizst. þa kom Eyuindr son hans austan þadan ok tok vid herskipum fǫdur sins. Eyuindr for þa j uestruiking ok hafde vtgerdir firir Jrlandi. hann fek Rauðrtu dottur Kiaruals konungs ok stadfestizst þar. hann uar kalladr Eyuindr hinn austræni. þau Ravarta attu son er Helgi het hann selldu þau til fostrs j Sudreyiar. en er þau komu þar .ij. uetrum sidar þa var (hann) suelltr sua at þau kendu hann æigi. hǫfdu þau hann þa med ser ok kolludu hann Helga hinn magra. hann fæddizst upp a Jrlande. en er hann var fullroskinn gerdizst hann virdingamadr mikill. gek hann þa [136] at æiga (þorunni) hyrnnu dottur Ketils ok attu þau morg bǫrnn. Hrolfr ok Jngialldr hetu synir þeirra. Helgi hinn magri for til Jslandz med konu sina ok bornn. Helgi uar kristinn at kalla ok þo blandinn miog j trunne. hann sagdizst aa Krist trua en hann het a þór til siofara ok hardræda. Helgi hinn magri nam allan Eyiafiord mille Sigluness ok Reynissness ok bio j Kristnesc. Helgi gaf Jngiallde syne sinum land firir austan Eyiafiardar a ofan fra Arnarholi til þuerar hinnar ytri. Jngialldr bio at þuera hinne sydre ok ræisti þar hof mikit. hann atti Salgerde Steinolfsdottur. þeirra son var Eyiulfr hruga. hann atte Astride dottur Uigfus hessis af Uǫs or Noregi. Uigaglumr var son þeirra. þeir uoru brædr synir Vikingakara Æirekr biodaskalli fadir Astridar modur Olafs konungs Trygguasonar ok Uigfus af Uǫs fadir Astridar modur Uigaglums.

## Her segir vm ættartolur.

221. Ketill het madr son Jorunnar mannuitzbrekku hon var dottir Ketils flatnefs. Ketill for til Jslandz af Sudreyium. hann uar uel kristinn þui kolludu heidingiar hann Ketil hæimska. Ketill fiflski nam land austr j Veri. hann bio j Kirkiubæ þar er nu nunnuklaustr. þar mattu alldri hæidnir menn bua. Ketill var fadir Asbiarnar fǫdur þorsteins fǫdur Surtz fǫdur Siguatz lǫgmannz.

## Fra Aasolf hinum kristna.

222. Jorundr het madr kristinn hann var Ketils son er numit hafdi Akranes. Jorundr bio j Gaurdum. hans frændi var Asolfr hann (kom) vt j Holltavatz ose ok georde ser skala vndir Eyiafiollum ok bygde þar þuiat hann var uel kristinn ok uillde ekki æigaz vid heidna menn. en þeir hǫtudu hann ok urdu uarir vid bygd hans. en gud hafde gefit honum sua mikla gift at lækr er fram fell hia skala hans uar fullr af fiskum ok sua kyrrir at Asolfr matti hondum taka huern er hann

uillde. þat fundu hæidingiar ok raku hann burt þadan ok ætludu ser uæidina þuiat þeir firirmundu honum hennar. þa gerde Asolfr ser skala vid annan læk ok huarf þangat allr fiskafiolde af hinu fyrra vatnne en hæidingiar mistu. en er þeir vissu þat var Asolfr af þeim burt rekinn. Hann gerde ser þa hinn þridia skala ok for allt a sama ueg. En er hann sa sig æigi mega þar uera j fride for hann a fund frænda sins Jorundar. hann tok uel vid honum ok uisade honum til holms hins idra þuiat hann atti þar annat bu. þar endi Asolfr med agætum lifnade sitt lif. Ok er sua sagt at Olafr Trygguason red firir Noregi at hann hefdi mykla frett af fyrrsogdum Asolfui ok let Olafr konungr þau ord um fara at hann skyllde honum til sin bodit hafua ef þeir hefde þa badir lifat þuiat konungr kuetzst hyggia at sa munde betr hafua er salufelag ætti vid hann. Suo finz ok a fræđebokum ritat at sa madr hafui buit at Holmi hinum ytra[1] a Akranese er Halldorr het son Jlluga hins rauda Hrolfssonar Hroalldzsonar Ulfssonar Grimssonar hins haleyska þorissonar Gunnlaugssonar Hrolfssonar Ketilssonar kiðlfara. Halldorr uar godordzmadr ok uel kristinn. A æinu uori syndizst honum j suefni at madr kǫmi at honum biartr ok uegligr ok sagde sua til hans. þat uil ek þèr kunnikt gera Halldorr at mer mislikar at gridkona þin þerrir fætr sina a læide minu jafnan er hon gengr ór staudli. en þui segi ek þer til þessa at (þu) ætlar at lata kirkiu gera a bæ þinum ok uil ek at kirkian standi yfir læide minu. Halldorr spurde j suefninum huerr þessi madr væri. Hann suarar. Asolfr hæiti ek. ek kom vth hingat til Jslandz a landnamatid uel kristinn sem þu munt heyrt hafa getit. firir þui lofade gud at ek segda þer til graftrar mins. þui næst uaknnade Halldorr ok hugsade draum sinn. hann þottizst skilia at satt mundi uera þat er firir hann hafde borit þuiat hann munde at Jllugi fadir hans hafde getit at þessi Asolfr uar þar læiddr. sidan merkti hann þufu þa er gridkonan þerde a fætr sina ok bannade henni at gera sua þadan j fra. þat sama sumar sigłde Halldorr snemma til Noregs ok kom aftr at hauste med kirkiuuid. let hann kirkiuna rett setia yfir læide Asolfs sem hann hafdi firir sagt ok er hann kalladr hæilagr.

## Af byskupi ok þorualldi. capitulum.

223. Madr er nefnndr Æilifr ðrnn hann uar son Atla Skidasonar Bardarsonar. son Æilifs arnnar uar Atli hinn rammi. hann atti Herdijse dottur þordar fra Hðfda. annar Solmundr fadir Gudmundar fðdur Uigabarda. þride son Æilifs het Kodran hann bio at Gila j Uazdal. Jarnn-

[1]) r. idra

gerdr het kona hans. þeirra synir uoru þeir Ormr ok þorualldr hinn uidforle. hann fæddizst upp med þordise spakonu. hon gerde uel til [137] hans. En er hann uar roskinn for hann vtan ok uar uirdr uel huar sem hann kom. hann for uida um heim ok vann mart til frægdar. þessi þorualldr kom fram j Saxlande ok var þar skirdr af byskupi þeim er Fridrekr het. þann sama byskup flutti þorualldr til Jslandz med ser at flytia þar guds eyrendi. voru þeir at Gilaa æinn uetr. var þa Kodran skirdr fadir þorualldz med husfreyiu sinne ok heimamonnum vtan Ormr son hans uillde æigi skirazst lata j þann tima. en þo for þat fram þa er gud uillde sem sidar mun sagt uerda. En er byskup ok þorualldr hôfdu einn uetr at Gilaa verit foru þeir vm vorit eftir uestr j Videdal med lid sitt ok settu bunat at Lækiamoti ok biuggu þar .iiij. uetr ok foru a þeim arum vida vm Jsland at fremia guds eyrende. A hinum sidazstum missarum er þeir voru at Lækiamoti bad þorualldr til handa ser konu þeirrar er Uigdijs het. hon uar dottir Olafs er bio at Haukagile j Uatzdal ok var at þui brudlaupi fiolde hæidinna manna. þar uoru ok berserkir fiolkunnigir het Haukr huorrtueggi. þeir stodu mest j moti rettri tru budu byskupi ef hann hefde nôkkura þoran til edr nokkut traust a gude sinum at hann skyllde reyna vid þa jþrottir þær er þeir voru uanir at uada loganda elld eda lata fallast a uopn sua at þa sakade ekki. En byskup treystande guds miskunn ok næitade æigi. Uoru þa geruir elldar storir eftir endilôngum skalanum sem j þann tima uar tijtt at drekka ôl vid elld. Byskup skryddizst ôllum byskups skruda ok vigde vatnn. gek þa at elldinum sua buinn hafde mitr a hofde bagal j hende. hann vigde elldinn ok dreifde yfir vatnninu. þui nest gengu inn þessir besserkir niduliga greniande ok bitu j skialldar rendr ok hôfdu besserkir suerd j hondum. ætludu nu at vada elldinn. en þa bar skiotara at fram en þeir hugdu ok drapu fotunum j elldstokkana sua at þeir fellu badir afram. en elldinn lagde at þeim ok brendi þa a litille stundu med sua mikille akefd at þeir voru þadan daudir dregnir. þeir voru færdir upp med gilinu ok grafner þar. þui hæitir þar sidan at Haukagile. Fridrekr byskup georde firir ser krossmark ok gek a elldinn midian ok sua fram eftir endilôngum skalanum. en logann lagde fra honum sem vindr blesi j. þui sidr kende byskup mæinlætis hita af elldinum at æigi med nokkuru moti suidnudu hinar minzstu trefr af skruda hans. Snerust þa margir til guds þeir er sa þetta hit halæita stortaknn. þeir þorvalldr ok byskup foru uida um Jsland ok kostgæfdu miog at koma vid kristindominum. þeir foru um Uestfirdinga fiordung. þeir kuomu j Huamm þar bio þa þorarinn nef son

þordar gellis hann atte Fridgerde dottur Hôfdaþordar. bondi var æigi hæima en husfreyia tok uel vid gestum j fystu. þorvalldr talde tru firir henni en hon blotade j mote. Skeggr(!) son þeirra hafde huetuetnna j spotti þat er þorualldr talade. þa orti þorualldr visu.

For ek med dom hinn dyra
dreingr hlyddi mer æinge
gatum haad af hreyti
hrætæins goda suæini.

enn med ognar sennu
alldin rygr at skallde
þa kreppi gud gydiu
gall ór hæidnum stalli.

Ekki er þess getit at nôkkurir menn j Vestfirdinga fiordunge tæki retta tru af ordum þeirra þoruallz ok byskups. þui foru þeir nordr vm land. þar skirde byskup nokkura uirdingamenn. æinn af þeim uar Ǒnundr son þorgils greniadar j Reykiardal. annarr þoruardr Spakbauduarsson hann bio j Ase j Hialltadal ok Hlenni j Saurbæ j Eyiafirde. þessir ok enn flæire menn urdu kristnir fullkomliga j Nordlendinga fiordungi. en þeir voru margir þo at þa leti æigi skirazst at sinne at trudu a Krist ok firirletu skurgoda uillu ok allan hæidinn sid ok uilldu æigi giallda hoftolla. Firir þat ræidduzst hæidingiar Fridreki byskupi ok lôgdu fiandskap a þa alla er honum samþyktu. þoruardr Spakbauduarsson let kirkiu gera j Ase ok hafde med ser prest er byskup fek honum at syngia tijdir ok uæita henni þionustu gudliga. Su kirkia er þoruardr let gera uar smidut .xvj. vetrum fyrr en kristni var lôgtekin a Jslande. Hit næsta sumar a alþinge talade þorualldr Kodransson tru firir monnum en hæidingiar ǫptu j moti ok syndu sua mikinn fiandskap vid bada þa byskup at þeir gafu skalldum fe til at nida þa. þa var þetta kuedit.

Hefir bôrn borit
byskup niu
þeirra er allra
þorvalldr fadir.

þessu ræiddizst þorvalldr sua miog at hann drap .ij. menn af þeim er kuædit hôfdu ort. En byskup sat inne j bud ok sa a bok. en adr en þorvalldr kom j budina kuomu .ij. bloddropar a bokina firir byskup ór lofti ofan. en er þorvaldr kom til hans mællti byskup. annathuart hefir þu framit manndrap edr hefir þu radit þat j hug þer. þorvalldr sagde þa huat er hann hafdi gert. byskup mællti. hui fortu sua hart. þorvalldr suarade. ek þolda æigi at þeir kôlludu okkr raga. Byskup mællti. þat var litil þolraun þo at þeir lyge þui a þig at þu ættir bôrn. en þu hefuir fært ord þeirra a uerra ueg þuiat uel mætta ek bera bornn þin þoat þu ættir nokkur. æige skyllde kristinn madr leita at

hefnna sin sealfr þo at hann væri smadr hatrliga helldr at þola [138] firir guds sakir brigsle ok mæ(i)ngerdir uondra manna.

## Herferd at byskupi ok drap Hedins.

224. Nv skal segia faatt af morgum ok myklum meingerdum ok ofsoknnum er hæidnir menn uæittu Fridreki byskupi ok þorvalldi firir bodan rettrar truar. þa bar sua til at þeir uilldu rida til uorþings j Hegranes. enn er þeir nalguduzst þingstadinn þa hliop upp mugrinn allr hæidinna manna ok runnu j mot þeim med myklu opi sumir bðrdu med grioti sumir skoku at þeim vopnn ok skiolldu med harki ok hareysti badu godin steypa vvinum sinum ok var æinge kostr at þeir mætti komazst a þingit. þa mællti byskup. nu mun þat fram koma er modur mina dreymde fordum daga at hon þottizst finna vargs hár j hðfde mer þuiat nu eru ver geruir rækir ok reknir sem skædir uargar med hædiligu opi. Eftir þat foru þeir hæim til Lækiamotz ok duðlduzst þar um sumarit. A þui sama sumre eftir alþinge sðfnudu nokkurir hæidnir hðfdingiar lide sua at þeir hofdu .ij. hundrut manna .xij.ræd. þeir ętludu til Lækiamotz at brenna byskup inne med allt lid sitt. en er þeir attu skamt til bæiarins at Lækiamoti þa stigu þeir af hestum sinum ok ætludu at æia sem þeir gerdu. en þa er þeir uoru a bak stignir flugu upp hea þeim fuglar margir uouæifliga. vid þat ærduzst hestar þeirra ok urdu sua odir at þeir fellu allir ofan er a bak uoru komnir. ok mæidduzst sumir ok fellu a griot ok brutu fætr sina edr hendr. sumir fellu a uopnn sin ok fengu stor sar af þui at hestarnir hlupu a fætr þeim ok mæiddu þa. þeim vard minnzst til uandræda er hestarnir hlupu fra ok urdu þeir at ganga langa leid til sins hæima. hurfu þeir vid þetta aftr. skilde sua med þeim. Skylde sua almattigr gud sinum monnum at þui sidr fengu þeir byskup þessu sinne nokkut mein af illuilia ok vmsati hæidingia at þeir urdu med ðngu moti uarir vid þessa atfðr ok radagerd. Biuggu þeir þorvalldr þann hinn fiorda uetr at Lækiamoti enn at sumre foru þeir vtan ok kuomu til Noregs ok lagu þar j hðfnn nokkurre. þa kom vtan af Jslande ok lagde til þeirrar sðmu hafnar sa madr er fyr var nefndr Hedinn fra Sualbarde. Hedin gek a land ok j skog at hðggua ser husauid. þorvalldr vard þess varr ok kallade med ser þræl sinn. þeir foru j skoginn þar sem Hedin uar. let þorvalldr þrælinn drepa Hedin. En er þorvalldr kom til skips ok sagde þetta byskupi þa suarar byskup. firir þetta uig skulu vit skilia þuiat þu uillt sæint lata af manndrapum. Eftir þat for Fridrekr byskup til Saxlandz ok endi þar lif sitt med agætum lifnnade ok

hæilaglæik takande æilifa ðmbun af allzualldanda gude firir sinn goduilia ok stundligt starf.

### Þeir Olafr funduz ok Þorvalldr.

225. Sva er sagt at Þorvalldr hafui farit vida vm heim sidan þeir byskup skildu. Þess er ok fyrr getit at Otto keisari kristnade Danmork. for Olafr Trygguason med honum j Austrueg ok uar mikill radagerdamadr keisaranum til at kristnna folkit. ok j þeirre ferd er suo sagt af nðkkurum monnum at Olafr hafui fundit Þorvalld Kodransson. ok sakir þess er huorr þeirra hafde mart af annars radum fręgd ok frama spurt kuodduzst þeir kunnliga þoat þeir hefdi æigi fyrr setz. en er þeir toku tal sin a mille spurde Olafr konungr. ertu Þorualldr hinn uidfðrle. Hann suarar. ek hefui enn ekki uida farit. Konungr mællti. þu ert godmannligr madr ok giftusamligr edr hueria tru hefir þu. Þorvalldr suarar. þat uil ek giarnna segia ydr. ek hefui ok helld kristinna manna tru. Konungr mællti. þat er likligt at þu þionir uel þinum herra ok kuæikir margra manna hiortu til astar vid hann. er mer mikil foruitnne a morgum truligum tidendum þeim er þu munt segia kunna fyst af (a)gætum jartæignum Jesu Cristi guds þins ok sidan af ymsum londum ok okunnum þiodum. þar næst af þinum athðfnum ok frækiligum[1] framgðngum. Þorualldr suarar. med þui at ek skil at þu girnnizst med godfyse af mer at vita þa sanna hlute at ek hefui set (ok) heyrt vil ek giarnna gera þinn uilea uæntande þar firir at þu segir mer þui auduelligar þat er ek spyr þig. Konungr sagdi sua vera skylldu. Sagdi Þorvalldr honum þa mðrg tijdendi ok merkilig bæde af gude ok godum monnum. fellz konungi þetta uel j skap en ðllum þeim er hia voru þotti þat hin mesta skemtan. en þa er Þorvalldr sagde fra þui er a Jslandi hafde georzst þa er þeir Fridrekr byskup uoru þar fretti konungr uandliga at hueriu edr huerssu margir þar hefde af þeirra ordum retta tru tekit edr huerr madr hefde auduelligazst jattat kristninne edr huerir mest hefde mot mællt. en Þorvalldr sagde þat allt greiniliga. En er konungr hafde heyrt huersu mykla astundan þeir hofdu haft til fram at flytia kristnibodit ok huersu margar ok myklar mæingerdir þeir hðfdu þolat firir [139] guds nafnn þa sagde hann sua. þat gefr mer at skilia at þessir Jslendingar er þu hefir nu fra sagt muni vera hardir menn ok hraustir ok toruellt mun verda at koma þeim til kristni. en þo er þat mitt hugarbod at þeim uerde þess audit. ok sidan er þeir trua a sannan gud hygg ek at þeir hallde allir uel sina tru huerr sem

[1]) at *tilf. Cd.*

til uerdr um sider at koma þeim a rettan ueg. þorualldr sagde þa. heyrt hefui ek flutt af nokkurum uisendamonnum at þu munir verda konungr at Noregi ok er þa likligt at gud gefui þer giftu til at snua Jslendingum ok mǫrgum odrum þiodum j nordrhalfunne til rettrar truar. þorvalldr spurde þa konunginn margra hluta. en hann leyste allt uel ok vitrliga þat er hann spurde. ok sua langan tima sem þeir voru badir samt var þeirra glede ath huorr spurde edr sagde nokkut spakligt ǫdrum. sidan skildu þeir med hinne mestu vinattu. For þorualldr þa vt j Myklagard ok fek storar sæmdir af stolkonunginum. en sidan let hann klaustr ræisa ok gaf þar til audæfui ok j þui sama klaustri endi hann sina æfui med hreinu(m) ok halæitum lifnade.

## Aaratal vm Jslandz bygging. capitulum.

226. þa er Fridrekr byskup ok þorvalldr kuomu til Jslandz voru lidin fra holldgan vors herra Jesu Cristi .ix. hundrut ara ok æitt ar hins niunda tigar ok hundrat tirætt ok .lx.[1] fra upphafui Jslandz bygdar. .iij. uetrum sidar gerde þoruardr Spakbauduarsson kirkiu j Ase.

## Kristnibod Olafs konungs.

227. Olafr Trygguason for þann vetr hinn sama er a læid sem hann var til konungs tekinn j þrandheimi j land austr hit efra allt til landzenda ok lagdi þar undir sig land allt sem adr er sagt. For konungr snemma vm uorit vt j Uikina ok hafde þar lid mikit. dualdizst hann þar længi vm uorit. kuomu þar til hans margir rikir menn þeir er voru frændr hans en sumir hǫfdu verit myklir vinir Tryggua konungs. uar honum þar fagnnat med myklum fagnnade ok kærlæik. Brædr .ij. biuggu þar j Uikinne audgir ok kynstorir het annarr þorgeirr en annarr Hyrnningr. þeir komu a fund Olafs konungs. þeir hǫfdu uakit þat mal uid Lodin stiupfǫdur konungs at þeir uilldu bidia dętra Lodins ok Astridar modur konungs. en Lodinn suarar uel ok ueik þeim radum undir konung þuiat þær voru systr hans. Æinn dag kallade konungr til sin modurbrædr sina Jostein ok Kallhǫfud ok þorkel dyrdil ok Lodin stiupfǫdur sinn þorgæir ok Hyrning þuiat þeir voru rikazstir menn austr vm Vikina. Sidan hof konungr sua mal sitt med hinne mestu ahyggiu ok aluoru. þat uil ek ydr kunnikt gera sagde hann at ek vil kristnibod upp hefia her j landi. skal ek þui a leid koma at kristna allan Noreg edr deyia at ǫdrum kosti. uil ek at þer takit vndir þetta mal med mer ok fylgit sidan af ǫllum mætti þui hinu agæta eyrendi

[1]) r. .vj.

sua at þetta hit healpsamliga rad mætti framkuæmd fa. hefui ek ok þessa mina ætlan þui firir ydr upp borit fyrr en annat fo(l)k her j lande at mer þikir þat vænazst firir sakir valldz ok rikdoms at þessi bodskapr gangizst vid ef þit brædr vilit fylgia þorgeir ok Hyrningr. en ek trui frændum minum bezst at mer se goduiliadir ok þar med Lodni stiupfȯdur minum firir tæingda sakir. þa suarar þorgeirr. skiotr er ek j andsuorum vm þetta mal. uilir þu konungr gifta okkr brædrum systur þinar Jngirijde ok Jngigerde med rade fȯdr þeirra Lodins ok annarra frænda þeirra þa skulum vit allan okkarnn styrk ok afla þer væita hueriu sem þu uillt fram fara ok alla okkra vine ok styrk frændr ok fe læida til hlydni vit þig þa er uit megum radum vid koma. þer er nu ok kunnig ætt okkr ok eignir storar at sannordra manna frasȯgnn þo at þu hafir æigi leingi verit her j landi. Konungr suarar. væit ek at þit erut menn rikir ok storættadir ok sealfir reyndir at trulæik ok dreingskap. fyrr uil ek unna ykkr þessarra rada sem þit beidit ef þat er æigi j moti vilia þeirra systranna edr fȯdr þeirra. skal ek ydr alla mina teingdamenn ok frændr audga at riki ok sæmdum ef þer uilit efla kristindominn med mer þuiat þat geri þer nu sua at sinne at mer þikir mestu uarda. Allir þeir er þar uoru a malstefnnu sȯgdu at þeir skylldu þui ȯllu atfylgia sem konungr uillde vera lata ok allir þeir er þeirra radum uilldu fylgia. Sidan var talat vm bonord þeirra brædra ok uar þat framgeingt at þeir fengu dætra Lodins ok Astridar. skyllde su uæitzsla uera snemma sumars j Uikinne. Eftir þessa malstefnnu gerde Olafr konungr bert firir alþydu at hann uill boda kristne ȯllum monnum j riki sinu. jattudu þeir fyst þessu bodi er adr hȯfdu undir gengit sem nu var sagt. voru þeir ok rikazstir þeirra manna er þa voru uit staddir. gerdu þar adrir eftir þeirra dœmum. voru sidan skirdir menn allir um Uikina austanfiardar. Sidan sat Olafr konungr at uæitzslu þeirra brædra [49] ok for su uæitzsla uel fram ok skoruliga. Eftir uæitzsluna for konungr nordr um Uikina ok baud ȯllum monnum at taka tru en þeir(!) er j moti mælltu ueitti hann storar refsingar. let suma drepa en suma hamla at hondum ok fotum suma rak hann ór landi. kom þa sua at um allt þat rike er att hafde Tryggui konungr fadir hans ok allt þat riki er att hafde Haralldr konungr grenski frænde hans þa gek þat folk allt undir kristnibod þat er Olafr konungr bodade. uar þa alkristit allt um Uikina.

---

## HER HEFR SORLA ÞAATT.

Firir austan Uanakuisl j Asia var kallat Asialand edr Asiaheimr. en þat folk var kallat Æsir er þar bygdu en hofudborgina kolludu þeir Asgard. Odinn uar þar nefnndr konungr yfir. þar uar blotzstadr mikill. Niord ok Frey setti Odinn blotgoda. dottir Niardar het Freyia hon fylgde Odni ok uar fridla hans. Menn þeir uoru j Asia er æinn het Alfrigg annarr Dualinn .iij. Berlingr .iiij. Grerr. þeir attu hæima skamt fra hôll konungs. þeir voru menn sua hagir at þeir logdu a allt gerua hond. þesshattar menn sem þeir voru kolludu menn duerga. þeir bygdu einn stein. þeir blonduduzst þa meirr uit mannfolk en nu. Odinn unni mikit Freyiu enda var hon allra kuenna fegurst j þann tima. hon atti ser æina skemmu hon var bæde fôgr ok sterk sua at þat segia menn at ef hurdin uar aftr ok læst at æingi madr mætti komaz j skemmuna an uilia Freyiu. þat var æinn dag er Freyiu vard gengit til steinsins hann var þa opinn. duergarnir uoru at smida æitt gullmen. þat var þa miog fullgert. Freyiu læitzst uel a menit. duergunum leitzst ok uel a Freyiu. hon falade menit at duergunum baud j moti gull ok silfr ok adra goda gripi. þeir kuoduzst ekki feþurfui. sagdizst huerr uilia sealfr sinn part selia j meninu ok ekki annat firir uilea hafa en hon lægi sina natt hea huerium þeirra. ok huort sem hon let at þessu komazst betr eda uerr þa keyftu þau þessu. Ok at lidnum .iiij. nattum ok endum ôllum skildaga a(f)henda þeir Freyiu menit. for hon heim j skemmu sina ok let kyrt yfir ser sem ekki hefdi j ordit.

### Fra Odni ok Loka.

229. Madr het Farbauti. hann var kall einn ok atti ser kellingu þa er Laufey er nefnd. hon var bade mio ok audþreiflig þui var (hon) Naal kollut. þau attu ser æinn son barnna sa uar Loki nefnndr. hann var ekki mikill uôxstum. ordskar var hann snemma ok skiotligr j bragde. hann hafde fram yfir adra menn uitzsku þa er slægd hæitir. hann var miog kyndugr þegar a unga alldri þui var hann kalladr Loki læuiss. hann redzst til Odins j Asgard ok gerdizst hans madr. Odinn mællti huetuetnna eftir honum huat sem hann tok til. enda lagde hann oft storar þrautir firir hann ok leysti hann þær allar vonu betr af hondum. hann vard ok naliga allz viss þess er vid bar. sagde hann ok allt Odni þat er hann uisse. þat er ok sagt at Loki vard viss er Freyia hafdi fæingit menit ok sua huat er hon hafdi j moti gefit. sagde hann enn þetta Odni. En er Odinn uard þess viss sagde hann at Loki skylldi na

meninu ok fa ser. Loki kuat þat vuenligt sakir þess at æingi madr ma j skemmuna komazst firir utan uilia Freyiu. Odinn sagde at hann skyllde fara uerda ok æigi aftr koma fyrr en hann hefde nad meninu. Loki sneri þa j brottu ϱpandi. flestir urdu vid þat katir er Loka gekk litt til. Hann gengr til skemmu Freyiu ok var hon læst. hann læitade vid inn at komaz ok gat æigi. kuldauedr uar vti mikit ok tok honum fast at kolna. hann vard þa ath æinne flugu. hann flôkkte þa vm alla lasa ok med ollum fellum ok gat huergi loft fundit sua at hann mætti jnn komaz. uppi allt hea bustinne ok þo æigi meire boru fann hann enn sem stinga mætti j nal. þá boru bogra(r) hann inn. En er hann kom jnn var hann flenneygr miog ok hugdi at ef nokkurir uekti. en hann gat þat set at allt suaf j skemmunni. hann ferr þa jnnar at sænginne Freyiu ok skyniar þa at hon hefir menit a halse ser ok at nistin horfdu nidr a. Loke verdr þa at einne flo. hann setz a kinn Freyiu ok hôggr sua at Freyia uaknar ok snerizst vid ok sofnar aftr. þa dregr[1] Loki af ser floar haminn lokkar þa af henni menit. lykr þa upp skemmunni ok ferr j burt ok færir Odni. Freyia uaknar vm morgininn ok ser at opnar eru dyrnnar en ekki brotit en menit var j brottu hit goda. hon þikizst vita huer brôgd j munu vera. gengr inn j hôllina þegar hon er klædd firir Odin konung ok talar um at hann hafui illa latit gera at stela fra henni godgrip hennar ok bidr hann fa ser aftr godgrip sinn. Odinn segir at hon skal þat alldri fa. sua at æins hefir hon at þui komizst. nema þu orkir þui at þeir konungar .ij. at .xx. konungar þiona huorum uerde missattir ok berizst med þeim alôgum ok atkuædum at þeir skulu jafnnskiott upp standa ok beriazst sem þeir adr falla. vtan nôkkurr madr kristinn verde sua rôskr ok honum fylge sua mikil gifta sins lanardrottins at hann þori at ganga til bardaga þessa ok uega med uopnum þessa menn. þa hit fysta skal [141] þeirra þraut lyktazst. hverium hofdingia sem þat verdr lagit at leysa þa suo or anaud ok erfuide sinna farligra framferda. Freyia jattade þui ok tok vid meninu.

## Capitulum.

230. J þann tima er lidnir voru fra falli Fridfroda fiorir vetr ok .xx. red sa konungr Upplondum j Noregi at Erlingr het. hann atti ser drottningu ok .ij. sonu het Sôrlli sterki hinn ellri en Erlendr en yngri. þeir voru efniligir menn. Sorlli[2] var þeirra sterkari. þeir lôgdu j hernat þegar þeir hôfdu alldr til. þeir bôrduzst vid Sindra viking Sueigis son Haka sonar sækonungs j Elfuarskerium ok fell þar Sindri

[1]) drekr *Cd.* [2]) Haugni· *Cd.*

vikingr ok allt lid hans. j þeirri orrostu fell ok Erlendr Erlingsson. Eftir þat hellt Sorlli j hit eystra sallt ok heriade þar ok uann sua mörg storuirke at sæint er öll at skrifua.

## Fra Halfdani.

231. Halfdan hefir konungr hæitit hann red firir Danmork. hann sat j stad (þeim) er Hroijskellda hæitir. hann atti Huednu hina ellri. þeirra synir uoru þeir Haugni ok Hakon[1]. þeir uoru afburdarmenn a uöxst ok afl ok alla atgerui. þeir lögdu j hernat þegar þeir voru þroskadir. Nu er þar til at taka at Sorlli er. at a æinu hausti helldr hann til Danmerkr. Halfdan konungr hafde þa ætlat j konungastefnu. hann var þa miog hniginn j efra alldr er sia saga gerdizst. hann atti dreka sua godan at æi fannz annarr slikr a Nordrlondum sakir sterklæika ok allz haglæiks. hann flaut vm streingi j hafnninne er Halfdan konungr var a landi ok hafdi latit heita fararmungat sitt. En er Sorlli sa drekann rann j hiarta hans æigingirnnd mikil sua at hann uillde drekann æiga firir huernn mun ok æinn. enda er þat ok flestra manna sögnn at æigi hafui betri gripr verit j skipi en j þessu at frateknum drekanum Ellida ok Gnod ok Orminum langa a Nordrlondum. Hann talade þa vid menn sina at þeir skylldu buazst til bardaga. þuiat ver skulum drepa Halfdan konung en æignazst drekann. Mali hans suarar sa madr er Sæuar het hann var stafnbvi hans ok stallari. þat er æigi rad herra segir hann þuiat Halfdan er hofdingi mikill ok frægr madr. hann a ok sonu þa .ij. er radnir erv til hefnnda þuiat þeir eru nu einir huerir frægazstir menn. þo at þeir se godunum fremri sagdi Sorlli þa skal ek æinn ueg beriazst ok adr. Buazst þeir nu til bardaga. Kemr nu niosnn Halfdani konungi. bregdr hann vid ok ferr til skipa ok menn hans allir. buazst þegar til bardaga. Lögdu þat sumir menn til med Halfdani at honum væri vrad j at beriazst ok hann skyllde flyia sakir lids munar. Konungr sagde at fyrr skyllde huerr falla vm annan þuerann en hann skyllde flyia. Buazst nu huorirtueggiu til orrostu ok slær nu j hinn hardazsta bardaga ok lykr med þui at Halfdan konungr fellr ok allt lid hans. sidan tok Sörlli drekann ok allt þat er a honum uar femætt. Sidan spurde Sörlli at Haugnni var kominn ór hernnade ok la uit Odinsey. þangat helldr Sörlli skipum sinum. ok þegar þeir finnazst sagde (hann) honum fall Halfdanar födur sins ok bydr honum sættir ok sialfdæmi ok þar med fostbrædralag en Högnni næittade þui ollu. Sidan borduzst þeir sem segir j Sörla stikka. gek Hakon[1] alluel fram ok

[1]) r. Haki

drap Sæuar merkismann Sôrla ok stafnnbua. eftir þat drap Sorlli Hakon en Haugnni drap Erling konung fôdur Sôrlla. Sidan bôrduzst þeir Hôgni ok Sôrlli ok fell Sôrlli firir Hoggna af mędi ok sarum. ok let Hognni sidan græda hann ok suôrduzst þeir j fostbręđralag ok helldu þat uel medan þeir lifdu badir. En Sorlli lifde þeirra skemr ok fell j Austruegi fyrir vikingum sem segir j Sôrla sticka. ok her segir.

Fell enn forsnialli
fyst inn viglysti
ygr i Austruegi
allr á helpalla.

daudr vm dalreydar
daadkunnr miskunnar
beit at brandmoti
brynstingr vikingum.

Enn sem Hôgni fretti fall Sôrla heriadi hann j Austrveg a sama sumri ok hafde allzstadar sigr ok vard þar konungr yfir. ok segia menn sua at .xx. konungar vrdu skattgildir undir Hogna konung ok helldu af honum riki. Haugni uard sua frægr af sinum storuirkium ok hernade at hans nafnn var jafnnuel kunnigt nordr vit Finnabu sem vt j Paris ok allt þar i milli.

## Er Gondul hitti Hedin.

232. Hiarrande hefir konungr hæitit hann red firir Serklandi. hann atti ser drottningu ok æinn son þann er Hedinn er nefnndr. hann var snemma afreksmadr at afli uexsti ok atgerui. hann lagde j hernat a æskualldri ok gerdizst sækonungr ok heriade uida um Spania ok Græcia[1] ok oll nalæg riki sua at hann skattgillde undir sig .xx. kon-unga sua at allir helldu af honum land ok len. Hedinn sat a uetrum hæima j Serklandi. þat er sagt æinnhuernn tima at Hedinn for a skog med hird sinne. hann uard staddr j riodri æinn sinna manna. hann sa konu sitia a stoli j riodrinu mykla uexsti ok frida sionum. hon kuaddi Hedin kurtæisliga. hann spurdi hana at nafnni en hon nefnndizst Gôndul. Sidan talazst þau vid. spyrr hon hann at storuirkium sinum. en hann sagdi henni allt af letta ok spurde hana huort hon uisse nokkurnn konung ser jafnan at hreysti ok hardrædi frægdum ok framkuæmdum. Hon kuetzst þann [143] uita er ekki skyrti vid hann ok æigi þionudu sidr .xx. konungar en honum ok kuat hann Haugna hæita ok sitia nordr j Danmork. þat væit ek sagde Hedinn at þat skulum vit reyna huorr okkar fremri er. Mal mun þer segir Gondul til manna þinna þeir munu læita þin. Sidan skilia þau. ferr hann til manna sinna en hon sat þar eftir. þegar at uordôgum byrr Hedinn ferd sina hefir æinn dreka ok a .ccc.

[1]) Græsna *Cd.*

manna. hann helldr nordr j hæima. hann siglir þat sumar ok þann uetr. at uordogum kom hann j Danmork.

## Fundr Hedins ok Hogna. capitulum.

233. Haugni konungr sat þa hæima. ok er hann spyrr at agætr konungr er þar uit land kominn bydr hann honum heim til agætrar uæitzslu. Hedinn þektizst þat. ok er þeir satu vid dryk spurde Hogni huert eyrendi Hedinn hefdi er hann fystizst sua langt nordr j heima. Hedinn sagdi þat sitt eyrendi at þeir reyndi med ser hug ok hreysti jþrottir ok alla atgerui. Hogni letzst þess buinn. ok annan dag arla foru þeir a sund ok j skotbakka. þeir fromdu ok burtræid ok uopnnfime ok allar jþrottir ok voru sua iafnir a alla atgerui at æingi þottizst mega j mille sea huorr fremri uære. Eftir þetta geort sueriazst þeir j fostbrædralag ok skylldu allt æiga at helminge. Hedinn var ungr ok vkuæntr. en Hogni var nokkuru ellri hann atti Heruðru Hioruardzdottur Heidrekssonar ulfhams. Hogni atti dottur er Hilldr het. hon uar allra kuenna uænst ok uitruzst. hann unni mikit dottur sinne. ekki atti hann barnna fleira.

## Draap drottningar.

234. þat er sagt at nðkkuru sidar færi Hogni j hernat en Hedinn sat eftir ok skyllde geyma rikis. þat var æinn dag at Hedinn for a skog at skemta ser þa uar blijtt uedr. honum vard enn uikit j burt fra monnum sinum. hann kom j æitt riodr. þar sa hann sitia konu a stoli þa sðmu er hann sa fyrr a Serklandi ok leitzst honum sem hon uæri nu allt fegri en fyrr. Hon kastade en ordum fyrr a hann ok gerde sik blijda j male. hon hellt a æinu hornne ok var lok yfir. Konungi rann hugr til hennar. hon baud honum at drekka. en konungr þystr þuiat honum uar uarmt ordit tekr vid ok drekkr. En er hann hafdi drukkit bra honum miog undarliga vid þuiat hann munde onguann hlut þann sem adr hafde yfir gengit. hann settizst þa nidr ok tðluduzst þau vid. Hon spurde huort honum hefdi nokkut sua reynzst sem hon hafde sagt honum fyrr vm jþrottir Hogna ok hardræde. Hedinn sagde þat satt vera þuiat hann skorti ekki uit mig neina atgerui er vit reyndum ok þui hðfum vit kallazst iafnir. Ekki eru þit þo iafnir segir hon. Huat finnr þu til þess segir hann. þat finn ek til segir hon at Haugni a ser drottningu af storum ættum en þu att þer ðnga konu. Hann suarar. Hogni giftir mer þegar Hilldi dottur sina er ek vil bidia ok er ek þa ekki uerr kuæntr en hann. Minkazst þa mettnnadr þinn segir hon ef

þu bidr Hognna męgda. hitt væri helldr til ef þig skyrti huorki hug ne hreysti sem þu lætr at se at nema Hillde j burtu en drepa drottningu med þui moti at taka hana ok leggia hana nidr firir bardit a drekanum ok lata hann snida hana sundr þa er hann er fram settr. Sua var Hedinn fanginn j illzsku ok ominne af ǫli þui er hann hafde drukkit at honum syndizst ekki annat rad en þetta ok ekki mundi hann til at þeir Hogni væri fostbrædr. sidan skildu þau ok for Hedinn til manna sinna. þetta var at alidnu sumri. Hedinn skipar þa monnum sinum at bua til drekann þuiat (hann) kuez heim uilia til Serklandz. sidan gek hann til skemmu ok tok sinne hendi huora drottningu ok Hillde ok gengr vt med þær. menn toku klædi ok gripi Hilldar. þeir æinir voru menn j rikinu at ekki þordu at gera sakir Hedins ok manna hans þuiat hann var miog vfrynligr. Hilldr spurde Hedin huat er hann ætlade. en hann sagde henni. Hon bad hann æigi sua gera þuiat fadir minn mun gipta mik þer ef þu uillt bidia min. Ei uil ek þat gera segir Hedinn at bidea þin. Ok þo at þat se segir hon at þu uilir ekki annat en flytia mig j burt þa munu þit fadir minn þo sættazst. enn ef þu gerir sua illa ok vmannliga at þu vinner bana modur minne þa munu þit fadir minn alldri sættazst. ok þessliga hafa mer draumar gengit sem þit munit beriazst ok drepazst nidr ok þo muni þar annat þyngra a koma. ok mun mer þat mikill harmr ef ek skal horfua upp a fǫdur minn at hann skuli standa undir meingerdum ok myklum alǫgum. en mer er þo einge glede j at sia þig j illendum ok erfuidismunum. Hedinn kuaz alldri hirda huat er bak kæmi ok sagdizst gera mundu sem adr. Æigi mattu nu at gera segir Hilldr þuiat þer er æigi sialfratt um. Sidan gek Hedinn til strandar var þa settr fram drekinn. skaut hann þa drottningu nidr firir bardit. let hon þar lif sitt. en Hedinn gengr vt a drekann. Ok er hann er albuinn fysir hann at ganga (a) land æinn sinna manna ok j þann sama skog sem fyr hafdi hann gengit. ok er hann kom fram j riodrit sa hann þar Gǫndul sitia [143] a stoli. þau kuǫdduzst kunnliga. Hedinn sagde henni fra framferdum sinum. hon let uel yfir. hon hafde þar hornnit þat er hon for fyrr med ok baud honum at drekka af. Hann tok vid ok drak. en er hann hafde drukkit sæig at honum suefnn ok hallade hann ser j kne henni. En er hann var sofnnadr for hon undan hofde honum ok mællti. nu uige ek þik vndir ǫll þau atkuæde ok skildaga sem Odinn firir mællti ok ykkr Hǫgna bada ok allt lid ykkart. Sidan uaknade Hedinn ok sa suipinn af Gǫndul ok syndizst honum þa suort ok mikil. Hedinn mundi nu allt ok þotti mikit slys sitt. hugsar nu at fara nǫkkut langt j burt sua at hann

mætti æigi dagliga heyra brigsli sinna uondra framferda. ferr nu til skips lætr skiott ór landfestum. stendr byrr af lande ok sigler sua j burt med Hillde.

## Bardagi Hedins ok Hogna. capitulum.

235. Nu kemr Hǫgni heim. uerdr nu viss hins sanna at Hedinn hefir siglt j burt med Hillde ok drekann Halfdanarnaut en drottning la daud eftir. Hogni vard vid þetta miog ræidr ok bad menn vid bregda þegar ok sigla eftir Hedni. Gera þeir nu ok sua ok fa hinn bezsta byr koma æ þar at kuelldi a þær hafnir sem Hedinn hafde burt siglt adr um morgininn. þat var æinn dag er Hǫgni hellt til hafnar at þa voru segl Hedins at sia vid hafui. þa hallda þeir Hogni þegar eftir. þat er sannliga sagt at þa fek Hedinn anduidri j moti ser en Hogna hellzst hinn sami byrr. Hedinn leggr þa upp at eyiu þeirri er Ha heitir ok leggr þar j lægi. Bradliga kemr Hǫgni eftir. ok er þeir finnazst kuedr Hedinn hann blidliga. þat er þer at segia fostbrodir segir Hedinn at mig hefir hent sua mikit slys at þat ma einge bæta nema þu. ek hefir hertekit dottur þina ok dreka en væitt liflat drottningu þinne ok þo æigi af æiginligre illzsku minne helldr af uondum spaam ok illum alǫgum. uil ek nu at þu skerir æinn ok skapir okkar j mille. þat vil ek ok bioda þer at leggia bade af Hilldi ok drekann menn alla ok fe en fara sua langt vt j hæima at koma alldri til Nordrlanda ne þer j augsyn medan ek lifui. Hogni suarar. ek hefda gift þer Hilldi ef þu hefdir hennar bedit. nu þo ok at þu hefdir hertekit Hillde þa mætti vid þo sættazst firir þat. en nu er þu hefir geort sua mikit vverkan at þu hefir nizst a drottningu ok drepit hana er æingi uon a at ek vili sættum taka. skulu ver ok reyna þegar j stad huerir stærst kunna at hǫggua. Hedinn suarar. hitt er rad ef þu uillt ekki annat en beriazst at vit reynim .ij. med okkr þuiat her attu vid ǫnguann mann sakir nema vid mig. dugir þat æigi at omakligir menn gialldi glæpa minna ok illgerda. Fylgdarmenn þeirra suorudu allir sem æins munni at þeir skylldu fyrr falla huerr a fætr ǫdrum helldr en þeir næde hǫggum vid at skiptazst. En er Hedinn sa at Hogni uilldi ekki annat en beriazst þa bad hann sina menn a land ganga. skal ek æigi lengr bila vid Hogna ne bidiazst undan bardaga ok dugi nu huerr eftir dreingmenzsku. Ganga þeir nu a land ok beriazst. er Haugni allæfr en Hedinn bade uopnnfimr ok storhǫggr. þat er med sannyndum sagt at sua mikil at-kuede ok illzska fylgde þessum alǫgum at þo at þeir klyfizst j herdar nidr þa stodu þeir upp sem adr ok borduzst. Hilldr sat j æinum lundi

ok sa upp a þenna læik. þessi armæda ok anaud gek alla stund fra þui at þeir toku til at beriaz ok framan til þess er Olafr Trygguason vard konungr at Noregi. Segia menn at þat væri fiortan tigir ára ok þriu ár adr en þessum agæta manni Olafi konungi yrdi þat lagit at hans hirdmádr leysti þa fra þessu aumliga afelli ok skadligum skapraunum.

## Jvar haadi Hiedningavig.

236. A fysta ári rikis Olafs konungs er sagt at hann kæmi vid eyna Ha ok lagde þar j lægi æitt kuelld. Sa var þar vani vid fyrsagda ey at þar hurfu hueria natt uardmenn sua at æinge visse huat af vard. Juar liomi atti uðrd at hallda þessa nott. en er allir menn voru sofnnadir a skipum tok Juar suerdit er att hafde Jarnnskiðlldr en þorsteinn son hans hafde gefit honum ok ðll herklæde sin ok gek upp a eyna. En er hann er upp kominn a eyna sa hann mann ganga j mot ser. sa var mikill uexsti ok allr blodugr med myklum ahyggiusuip. Jvar spurde þenna mann at nafnni. hann quaz Hedinn hæita ok vera Hiarrandason kyniadr vtan ór Serklandi. er þer þat satt at segia at þo at her hafui horfuit uðkumenn at þat er mer at kenna ok okkr Hðgna Halfdanarsyni þuiat vit erum ordnir firir sua myklum atkuædum ok anaudum ok okkrir menn at ver beriumzst bæde nætr ok daga ok hefir þessu gengit marga mannzalldra. en Hilldr Hognadottir sitr ok ser upp a. en Odinn hefuir þetta lagit a oss ok ekki annat til undanlausnar en nokkurr kristinn madr berizst vid oss. þa skal sa æingi upp standa er hann drepr ok þa er huerr sa leystr fra sinne anaud. nu uillda ek bidia þig at þu fęrir til bardaga med oss þuiat ek væit at þu ert uel kristinn sua ok at konungr sa er [144] þu þionar er mikillar hamingiu. segir mer ok sua hugr um at ver munum af honum ok hans monnum nðkkut gott hliota. Jvar jattar at fara med honum. Hedinn uard gladr uit þat ok mællti. þess skaltu uarazst ok ganga æigi framan at Haugna ok þess annars at drepa mig æigi fyrr en Hðgna sakar þess at þat er æinkis menzsks mannz at ganga framan at Hogna edr drepa hann ef ek er adr daudr þuiat hann hefir ægishialm j ðgum ok hlifir ðngu uætta. ok þui er þat æina til at ek gangi at honum framan ok beriumzst ek vid hann en þu gangir at baki honum ok ueitir honum bana tilræde þuiat þer man litit firir uerda at bana mer þo at ek lifui uor allra leingzst. Sidan ganga þeir til bardaga ok ser Jvar ath þetta er allt satt sem Hedinn hafdi sagt honum. gengr hann at baki Hðgna ok hðgr j hðfud honum ok klyfr hann j herdar nidr. fellr Hðgni þa daudr ok stod alldri upp

sidan. Sidan drap hann þar þa menn alla er at bardaganum voru en sidazst Hedin. ok vard honum litit firir þij. Sidan gek hann til skipa ok var þa lyst af degi. hann for til konungs ok sagde honum. konungr let uel yfir verki hans ok sagde honum giptuliga tekizst hafua. Eftir vm daginn gengu þeir a land ok þar til sem bardaginn hafdi verit ok sa þar ônguann stad þeirra tidenda er þar hofdu uordit en sazst blod a suerde Juars til merkia. ok alldri hurfu þar uardhallzmenn sidan. Konungr for heim eftir þetta j riki sitt.

---

## Predican Olafs konungs vid bændr.

237. Olafr konungr hellt or Vikinne ok nordr a Grenland. hann hafdi mikit lid ok fritt. en huar sem hann for edr hafde þing vid bændr baud hann ollum monnum at lata skirazst. ok gengu allir menn undir kristni þuiat æingi fekzst uppræist af bændum j moti ok var folkit allzstadar skirt þar sem hann kom. Olafr konungr stefnndi þing j Mostr a sunnanverdu Hôrdalande. en er bændum kom þingbod konungs safnnadizst þar saman fiolmenni. taka tal med ser ok radagerdir um uandkuæde þat er þeir hafa spurt. at Olafr bodar a hueriu þinge nyiann ok vkunnan atrunat ok skylldar huernn mann til þann at hafua ok hallda en hinn uppgefua ok onyta er landzfolkit hefir adr halldit. verda þeir a þat sattir at þessu bodi skulu þeir j moti standa med ôllu afli. uelia sidan til .iij. menn þa er vitraztir ok malsniallazstir uoru j þeirra flokki at mæla j moti konungi ef hann uillde þetta eyrendi frambera ok segia diarfliga at þeir uillde undir eingi olaug ganga þo at konungr bydi þeim. A næstu nott adr þingit skyllde vera dreymdi konung at honum þotti koma at ser uirduligr madr ok biartr yfirlitz. Konungr fretti huerr hann væri. Hinn suarar. ek hæiti Martinus Turonis borgar erkibyskup. Konungr (mælti). hui syndi gud þig mer. Martinus suarar. sa hefir verit hattr her j landi sem vijda annarsstadar þar sem hæidit folk er at þor ok Odni er ôl gefuit ok Asum eru full æignut þar sem samdrykkiur edr gilldi eru halldin. en nu uil ek at þu latir hinn ueg skipta at uæitzslum ok samkundum þar er firir minnum er mællt at sa uuandi er adr hefir verit se nidr lagdr en þu latir nefnna til minna med gudi ok hans helgum monnum mig fystan. en ek skal stydia ok styrkia þitt eyrendi a morgin sua at þat fai framgang þuiat margir ætla j moti standa ok iafnan skal ek þer lidsinne

uæita til godra framferda. Konungr þottizst þessu jatta. Þui næst uaknnade hann ok hugsade huat firir hann hafde borit ok þotti honum betr dreymt en æigi. Konungr for til þings um daginn ok var þar kominn mikill fioldi manna ok allir med uopnum. En er þingit var sett stod konungr a bergi nǫkkuru ok hans menn umhuerfis. voru þeir ok med uǫpnum en bondalydrinn sat firr meirr. Sua segia sannfrodir menn at enn se a berginu smakoppar þar sem konungr settizst nidr ok sua þar sem menn hans stodu ok studduzst vit uopnn sin ok æigi sidr fotspor Olafs konungs sem hann hefdi stadit j krommum snia. Konungr talade blidliga til bænda ok mællti sua. her eru nu saman komnir margir hǫfdingiar ok mikils verdir þar med fioldi fo(l)ks. uil ek ǫllum mǫnnum kunna þǫk er þetta þing hafa sott eftir voru bode þuiat ek uęnti at þessi ydr herkuoma verde ollum oss til sæmdar bæde j brad ok leingdar. þat er ydr kunnigt at allt þetta landzfolk hefir lanat mer hofdingskap yfir allt Noregs riki ok hæitit mer at uæita hlydni ok goduilia þionustu eftir minne uilld. en firir þui at ek uænti at allir menn efni sin hæit her um þa hæyrir mer at leggia ydr æigi j anaud sem verdkeyfta þręla helldr skipa ydr sæmiliga þionustu þa er hæuerskir riddarar æiga at væita sinum konungi. þat vil ek ok æigi at þer set hlutlausir hæilsamligra aminninga huat ydr hæfir at gera edr huerium ydr hæfir at þiona. ef þer vilit mer hlydnazst þa skal ydr gera riddara hins æzsta konungs þess er alla ser þionande truliga audgar æigi at æins stundligu riki heldr [145] nærir hann sina þræla at gera brædr sins hins sæta sonar ok samerfingia eilifs fagnnadar. þuiat stundligt riki er ǫngu nytt nema kaupa med þui æilift riki þat er alldri verdr endir a. þui skulu þer trua a allzu(alld)anda gud fǫdur ok skapara allra hluta ok hans blezsada son er virdizst at lata berazst hingat j heim af sinne blezsadre mey ok modur Mariu til lausnar ǫllu mannkyni ok a helgan anda æinn gud j þrenningu ok æinn j æiningu. ok med þessi tru skulu þer lata skirazst j nafnne fodur ok sonar ok hins helga anda ok gerazt sua synir almattigs guds ok erfingiar æilifs rikis. en þer skulut næita fiandanum ok allri skurgoda villu er fiandinn hefir ydr anetiat ok ætlar sua ydr at læida sem hina fyrre fiandr til æilifra kuala med sealfum ser ef þer halldizst j þionustu vid hann. er ydr þat nu skiotazst af at segia at allir sua orikir sem audgir þeir er auduelliga ganga undir ok sealfuiliande þenna bodskap skulu æiga at mer sanna vinattu ok þar med æilifua ǫmbun af allzualldanda gude. en þeir sem a moti mæla ok uilia æigi hlydnazst þessu fagnadarfullu eyrendi er þeim liggr mest vid at hafua ok hallda þeir skulu sæta af mer reide ok refsingum þar

sem ek ma þui vidkoma. Talade konungr bæde langt ok sniallt. En er hann hætte sinne rædu þa stod upp sa høfdinge er æinna var sniallazstr ok til þess var ætladr af þeim at suara fystr konungi at mæla moti kristnibodi hans. en er hann villdi til mals taka þa setti at honum (horsta) ok þraung mykla sua at hann fek øngu orde upp komit ok settizst hann nidr. þa stod upp annar bondi ok uillde æigi falla lata andsuorin þo at hinum fyrra hefde æigi uel til tekizst. en er hann hof sitt mal þa vard hann suo stamr at hann fek ekki ord talat sua at skilia mætti. toku þa allir at hlæia at honum þeir er nærr voru. settizst hann vid þat nidr. þa stod upp hinn þride med mikille ræide ok ofmetnnade ok villde tala j moti konungi. hugsade hann at hefnna sinna felaga med myklu tungubragde ok mikille snilld. en hann vard sua haas ok rámr at æinge madr heyrde huat er hann sagde ok settizst sa nidr med skom ok suivirding er upp ræis med drambi ok ofbelldi. Sidan uard a þui þinge æingi til at mæla moti konungi. kom þa sua at allir jatludu þui at konungr baud. Skilde konungr þa æigi fyrri vid en allt þingfolkit var skirt. baud konungr þa vm þangbrande presti at skira børnn ok konur ok allt folk þat er þar var nærr ok æigi hafde komit til þingsins. ok allzstadar þar sem hann var konungr yfir ok landzlydrinn tok retta tru þa let hann brenna hof en briota hørga ok ræisa j stadinn kirkiur ok setti til kennimenn þar er honum þotti mest naudsyn til vera. let ok eyda oll skurgod edr brenna edr briota. Sua segir Markus løgmadr.

Femilldr fylkir uillde
firnna mørg ok hørga
blothus brenna lata
bad hann hæidin god mæida.
siduandr sidan kende
sannfrodr tru goda
herlundr hølda kindum
hann er rikzstr konungmanna.

---

## þAATTR STEFNIS þORGILSSUNAR.
### Hann kom til Olafs konungs.

Madr er nefnndr Stefnir hann var son þorgils Æilifssonar Helga sonar biolu Ketilssonar flatnefs Bearnnarsonar bunu. Stefnir var fæddr a Kialarnese ok uøx þar upp medan hann var barn. Stefnir for vtan þa er hann var a ungum alldri ok tok tru j Danmork ok var gaufugr madr. Stefnir kom til þorvalldz Kodranssonar ok for vijda vm heim med honum at kanna helga stade ok rikra manna sidu. Vm sidir huarf Stefnir

aftr nordr j laund. fann hann þa Olaf Trygguason firir uestan haf ok gerdizst hans madr. for hann uestan med Olafi konungi til Noregs.

### Stefnir for til Jslandz ok bodadi kristni.

239. Stefnir hinn islenzski var med Olafi konungi. Konungr atti oftliga tal vid Stefnni þuiat hann var uitr madr ok hafdi farit vida. fretti konungr hann miog at framferdum ok sidum rikra hǫfdingia j ǫdrum londum sua vm ferdir þeirra þoruallldz Kodranssonar. Stefnir sagde slikt er hann spurde. Konungr spurde Stefnne ef honum uæri hugr a at vitea frænda sinna a Jslande ok boda þar helga tru. Stefnir suarar. sua var þar tekit a firir flestum monnum firir þorvalldi þa er hann for þess eyrendis til Jslandz med Fridreki byskupi at mig langar ekki til þess. ok uar hann j alla stade betr tilfærr en ek at flytia þann bodskap. Konungr mællti. med þui at ek hefui sua upphafit at flytia kristnibod her j Noregi at ek hefui fullkomliga statt upp a mitt hiarta at ek skal alldri fyrr letta þessu starfui en allt landzfolk er her rett-truat þa skal ek æigi sidr astunda med ǫllu kostgæfui at læida gude til handa þann lyd er Jsland byggir edr ǫnnur Nordrlǫnd þau sem hingat liggia undir vart riki til kaupferda edr atflutninga þeirra gæda er ver megum æigi missa. en þau laund megu halfu sidr þarnnazst þeirra hluta sumra er hedan flytiazst. en þat er [146] æigi hæyriligt at kristnir menn saurgi sina tru sua at þeir eigi kaup vid heidingia ok annat uinskapar samneyti sem vid sina brædr. nu hefui ek þat hellzst hugsat at senda til Jslandz ok boda guds tru ok vita huersu vidlætr. se ek her med oss annann æigi likara til felldan þessa eyrendis þuiat þu ert þeim samlendr ok ættadr uel algerr j tru ok helgu sidferde. Stefnir suarar. giarnna uil ek fara ydra sendifor huert er þer likar til Jslandz edr annarsstadar. en uggr er mer a at til litils komi min ferd þuiat Jslendingar frændr minir eru hardir vidæignar ok vilia seint lata af þui er þeir taka upp. þui næst biozst Stefnir til Jslandz. let sidan j haf med nokkurum lærdum monnum ok ǫdru foruneyti er Olafr kon-ungr fek honum. greiddizst þeirra fǫr uel. þeir hǫfdu vtivist bæde hæga ok skamma. Stefnir kom skipe sinu j Gufaross nokkuru firir alþinge. tok hann þegar opinberliga at boda guds eyrendi. ok er menn vissu at hann var kristinn ok med hueriu eyrendi hann for þa toku þeir vid honum illa ok vmannliga en þo frændr hans æinna vest. Hann for diarfliga yfir vid tiunda mann uestr ok sudr. ok er hann sa at ǫngir skipuduzst vid hans fortaulur j þeim herudum þuiat allt folk var heidit firir sunnan land ok vm Uestfirdinga fiordung þa reiddizst Stefnir ok

let briota hof ok hörga ok briota skurgod med styrk sinna forunauta. þa sofnnuduzst saman heidingiar ok letu þa æigi na at briota hof sin edr mæida god sin. A þui sama sumre var þat lögtekit a alþinge at huernn þann skyllde gera sekan ok vtlægan er lastade godin edr ueitte þeim nökkura meingerd edr vsæmd. skylldi þær sakir sækia frændr þeirra er firir sokum voru hafdir þrimenningar ok fiormenningar ok þar j mille þuiat heidnir menn kolludu kristnina frændaskom. Firir þui sęktu Stefni frændr hans synir Osuifrs Helgasonar Ottarssonar Bearnnarsonar Ketilssonar flattnefs. þeir hetu sua þorolfr ok Askell Torradr ok Vandradr. en Ospakr brodir þeirra villde æigi sækia hann. Stefnir suarade þeim þa er þeir höfdu sektan hann þessi sekt. þer hafit mig firirdæmdan ok man mig þat ekki saka. en hedan munu æigi lida margir uetr adr ydr mun firir þessa sok at hendi koma mikil vgifta ok hamingiuleyse.

## Tok vt skip Stefniss.

240. Skip Stefnnis stod upp um uetrinn j Gufarose. en um uorit er snio leysti or fiollum þa tok upp skipit allt ok slæit vt allt samt aruöxstr ok stormr uedrs. rak skipit til hafs ok þotti heidingium audsynt at godin uoru ræid Stefnni. þar vm quodu þeir visu þessa.

| | |
|---|---|
| Nu hefir stafnnualinn Stefnis | helldr kued ek uist at ualldi |
| straumr ferr um hol knerri | uindr slæit band a landi |
| felliuedr af fialli | geisar a med jse |
| fiallrænt brotit allan. | allrikr Freyrr slikum. |

Litlu sidar kom skip Stefnis at landi med ualldi ok uilea almattigs guds ok var sua at litt var lest edr ekki.

---

## Vidrtal bænda.

241. Olafr konungr þa er hann hafde kristnat allt folkit j Uikinne for hann nordr med landi þat sama sumar er Stefnir for til Jslandz sem nu var sagth. sneri konungr ollum monnum til kristni huar sem hann kom ok kendi þeim retta sidu. A Hordalandi voru þeir menn margir rikir ok agætir er komnir voru af ætt Hordakara. Hördakari atti .iiij. syne. æinn het þorlæifr hinn spaki. annar Augmundr fadir þorolfs skialgs födur Erlings a Sola. þordr het hinn þride fadir Klyps hessis er drap Sigurd konung slefu. fiorde son Hördakara het Ölmodr hinn gamli fadir Askels fodur Aslaks fitiaskalla. var þessi ættbogi þa mestr ok gofgazstr a Hordalandi er kominn var af ætt Hordakara. En er þeir frændr spurdu til þessa atkuædis at Olafr konungr for austan

med landi ok hafde lid mikit ok braut fornn laug a monnum. en allir sættu refsingum ok afarkostum þeir sem a moti mælltu þui er hann uillde vera lata. þa gera þeir stefnulag sin a mille at gera rad firir ser þuiat þeir vissu at konungr munde bratt koma a þeirra fund. En er þeir funduzst allir frendr þa mællti sa er mest var firir þeim. þat vita allir þeir menn er her eru saman komnir at Olafr Trygguason mun skiott koma at vitia uar. er hann agætr madr af jþrottum sinum styrk ok storuirkium þeim er hann hefir unnit vida j londum. þui fylgir honum frægd ok frami um alla nordrhalfu hæimsins. firir þa skylld er gott ok sæmiligt slikum konungi at þiona ok honum at hlydnazst vm allan tilheyriligan bodskap ok uidrkæmiligar krǫfur. en sidr sa hinn vkunne er hann bodar mislikar oss miog. nu er þat mitt rad at ver frændr gangim æigi undir þann bodskap vtan konungr iati til uors lyndis nokkurnn þann hlut er aukizst uor virding ok sæmdir. þetta rad uar af ollum uel romat. lauk sua þeirre stefnu at þat var samþykki þeirra ok rad at þeir skylldu allir koma fiolmennir til Gulaþings ok finna þar Olaf konung ef hann uillde.

## Vppfæddr Erlingr.

242. [147] Đessi frændbalkr afkuæmi Hǫrdakara hafde læingi æfui radit firir Hordalandi. þorolfr skialgr[1] Augmundarson bio a Jadre. hann uar rikr madr ok fiolmennr. hann var mikill viafnadarmadr. son hans het Erlingr sem adr var getit hann fæddizst upp annars stadar at fostri medan hann var vngr. snemma var hann mikill ok sterkr ok þotti helldr udǫll.

---

## þAATTR ROGNVALLDZ.

### Capitulum.

Madr er nefnndr Lodinn hann bio j Æruik hann var audigr ok eingi ofrhugi j skapi. kona hans het Gyda hon var væn ok suarri mikill. þau attu .ij. sonu het annar Vlfr en annar Rǫgnualldr. Lodinn var vinr þorolfs skialgs en þo var kona hans honum enn kærri. Var þorolfr oftliga a ueitzslum ok sat þar lǫngum. jafnan var hann margtaladr vid husfreyiu Lodins ok lek þat ord a at hann munde æigi dyggiliga launa honum godar uæitzslur ok vingiafar. Sua bar til æitt sinn er Skialgr var at væitzslu j Æruik at menn hlupu jnn j skalann firir dag

[1]) skialfr ok *Cd.*

ok sǫgdu þorolfui at loft var brent þat er Lodinn la j ok hann sialfr drepinn en menn vissu æigi huerr þess verks uar ualldr. þorolfr kuat hart læikit en ekki er getit þess at þorolfr gæfui ser mikit vm. hǫfdu margir grun mikinn a þorolfi vm verk þetta þuiat monnum þotti saman bera ok þarvist hans en ǫngir kuodu þat upp firir riki þorolfs j hauada. þorolfr baud sig til vmsiar med Gydu. hon jatti þui ok hafde hann hana hæim med ser en kastade þar sinne æign a lendur ok lausafee. sonu Lodins uillde hann þia vndir þrældom. let Rognnualldr þiazst en Vlfr æigi. þui var hann selldr mannsali til fiar langt ór lande ok kemr hann ekki vid þessa sogv. Rǫgnnualldr þroskadizst skiott ok var hann madr mikill ok sterkr ok ovænn j asionu. hann aflade bratt a mikille vinnu ok var hagr vel. þorolfr hafde hann j þrælatǫlu. en er hann var roskinn at alldri þa setti þorolfr hann yfir adra menn at stiorna til vinnu. Æinn tima mællti Rognnvalldr til þorolfs. una munda ek med þer ef þu fengir mer konu þa er mer gætizst at. Hann suarade. þar þiki mer uænt vm þuiat kona hæitir Sigridr at ek mun til lata. hon er dottir æins litils bonda er her byr skamt a burt. er þer sa kostr fullgodr ok vil ek hafua hollostu þina þar j mot. Rognnvalldr sagde sig æigi honum vtruliga þionat hafua. Var nu þetta at radum gert at Rognnualldr fek Sigridar hon uar væn ok uel at ser. þau gatu bratt son ok nefnndu hann Gunnar hann uar snemma mikill ok vænligr at sia. þorolfr skialgr tok suæininn ok elskade sem hann være hans son. Sua lidu fram .iij. vetr. þorolfr for huert sumar j hernnat ok setti Rognnvalld hæima rædismann firir bu sitt. en hann sat vm kyrt a uetrum ok hafde hann mart manna jafnan med ser. þa er suæinninn Gunnar uar þreuetr a þui are biozst þorolfr at fara j uiking sem hann var uanr. en adr hann fære hæiman kom hann at mali vid Rǫgnvalld ok sagde suo. vinnu ętla ek at lata framflytia j sumar mæire en vande er til þuiat ek vil lata gera mer mikinn drykkiuskala ok vanda sem mest. skalltu vera forsiamadr þessa starfa med ǫdrum þrælum ok fa smidi til þuiat þu ert vmsyslumadr mikill ok hagr vel. þætti mer þa uel syslat ef ek mætti þar j uæita j haust vinum minum ok fagnna sua heimkuomu minne. Rognnvalldr jatlade þessu. Ferr þorolfr j hernat en Rognvalldr byrr til skalasmidarinnar ok færr til .ij. hina hǫguzstu smide uinduerska at ætt gerir ok kosti goda þuiat hann skorti æigi peninga. þo lagde Rǫgnnvalldr vid þa mykla vinattu. gek skalasmidir bæde uel ok skiott. Rǫgnnvalldr let hirda vanliga alla spanu ok oll athǫgg ok hafde hann forsǫgnn alla a þessi smid. en er skalinn var algerr ok skot vmhuerfis þa let hann þræla flytia heim elldivid mikinn ok hlada kǫstu jafnn-

hafua uegginum ǫllu megin vm skalann. var þetta allt vnnit adr þorolfr kæmi hæim vm haustit. En er hann kom heim leit hann a smidit ok let uel yfir. hann spurde Rǫgnnvalld hui hann hefde latit hæim færa sua storan vitkǫst. Hann suarar. þui at jafnnann a uetrum er kuæinat vm elldividar fæd þui at mikils þarf vid. en j annan stad uillda ek æigi at sol rifui j sundr nyia timbrueggi edr litt brædda. þorolfr gaf ser vm þetta ekki meira. let hann sidan bua ueitzslu rikuliga j skalanum ok baud til vinum sinum. drykkr var hinn styrkazsti ok uæitt af kappi. hafde Rognnvalldr hina mestu vmhyggiu at ætla ǫl til ok inn at bera skæinktu ok hinir uindversku smidir. Rǫgnnvalldr eggiade þo at bera sem akafazst drykkinn þuiat æigi skorti efni til. sagde hann þat mestu uarda huert ord alegdizst vm storueitzslur at j fystu yrde menn fulldruknir. byllararnir uoru ok j radum med honum ok vissu hueriu hann ætlade fram at fara þorolfr hafde lagt mykla elsku vid sueininn Gunnar. hafde hann latit gera honum raudan skallaz kyrtil ok let hann sitea hia ser j ǫnduegi. Nu drukku [143] menn sua akaft hinn fysta aftan at huerr la sofinn j sinu rumi. en er suo var komit þa (var) Rognnvalldr æigi idiulaus þo at æigi þyrfti ǫlit inn at bera. visse þa huat spænir þeir skyllde er hann hafde vm sumarit safnnat. voru þeir hinir vinduersku menn j starfui med honum ok baru mikinn vid firir skaladyrnar en alla spanu baru þeir at skalanum slogu sidan elldi j allt saman ok vidkostu þa hina storu ok þui næst tok skalinn allr at loga. Gek Rognnvalldr þa inn ok græip suæininn Gunnar ór aunduegi fra þorolfi ok bar hann vt sofanda til modr sinnar ok kuat betr at hann vaknade sæint þuiat ver æigum helldr starfsamt sagdi hann. hon kuat ærit vm þat. þeir menn er j skalanum voru voru suo druknir at þeir vǫknudu æigi fyrr en loginn lek vm þa. brann þar skalinn ok allir þeir er jnne voru. Rǫgnnvalldr slo ok elldi j þrælahusit ok brendi þat folk er þar var inne. sidan foru þau til strandar ok fengu ser þar skip ok reru vt a fiordinn. þa vaknade suæinninn Gunnar ok sa loga ok reyk a landit. hann mællti. nu bregdr undrum vit. er ek her kominn en litlu adr sofnnada ek j ǫnduegi hia fostra minum ok muntu hinn ille Rognvalldr uallda þessum mykla skada er elldrinn georir er ek se heim til bæiarins. villda ek myklu helldr þar vera hia þorolfui fostra minum en her hea þer þuiat æigi muntu uel vid mig gera er þu gerdir illa vid hann. Rǫgnualldr bad uitleysing þann þegia. þau hǫfdu fe mikit j bordbunade ok brendu silfre er hinir vinduersku menn hǫfdu vt borit medan Rognnualldr bio brennurnar. þeim forzst æigi allt hit græidazsta. huelfde skipinu vndir þeim firir sunnan Stade. tyndizst þar

hinir vinduersku menn ok allir þeir er a voru skipinu en Rognnvalldr gat borgit konu sinne ok syne ok flutti hann þau til bæiar j Æruik. þorolfr skialgr hafde sett firir eignir þær er þar voru litils hattar menn. rak Rognualldr þa j brott ok settizst þar j bu. urdu frendr hans þui fegnir er hann hafdi tekit þar fe ok fodurlæifd sina. (sagde) Rognnualldr sua er hann kom nordr j Æruik at þorolfr skialgr hefde hann geort frialsan ok gefuit honum aftr æignir sinar firir langa ok truliga þionustu. þotti monnum su sognn truanlig. Brenna þorolfs spurdizst vida en eingi madr þottizst vita huerr at uallda munde. var ok æigi miog eftir læitat þuiat Erlingr son hans var barnn at alldri en þorolfr hafde verit madr vdęll ok agiarnn ok hafde ekki vinsældir af alþydu ok flestir hans vinir hofdu brunnit med honum. þa er Rögnnvalldr hafde litla hrid heima verit j Æruik tok hann son sinn Gunnar ok for til siofar fek ser æínn litinn bat. sidan tok hann annat skip mæira ok flutti batinn a sia vt langt fra landi. sidan tok hann sueininn ok batt vid innvidu j hinu litla skipinu ok let reka huert er uilldi. en Rögnnualldr for til landz. Sigridr spurde at vm ferd hans edr huat er hann hefde gert af barnninu. hann suarar. kuetzst ekki mundu til segia annat en æigi munde sueinninn segia huerr Skialg hefde inne brent. Sat Rögnvalldr sidan j bui sinu ok þotti mikill madr. en fra suæininum er þat (at) segia at batinn rak vndir honum firir vinde ok straume nordr med landi ok ræiddi vm sidir at eyiu einne. Rögnualldr hafde sua vm buit. þo at hann hefde bundit hann vid innvidu j skipinu sua at hann matti æigi leysa sig en þo voru lausar hendr hans ok matti hann taka til fædu þeirrar er fadir hans hafdi ætlat honum at hann mætti lifa vid. Firir ey þeirri er batinn rak at red æinn blotmadr. var þar mikit hof ok æignnat þor. þessi madr fann rekann ok þotti vndarliga vmbuit. leysti hann suæininn ok læitade orda vid hann en hann þagde vid. bondi tok barnnit ok bar heim til konu sinnar. þeim syndizst sueinn þessi fridr ok æiguligr en þau voru barnnlaus. þau læitadu eftir ef hann kynni nökkut mæla. fengu þau ekki ord af honum. Bondi sagdi fundinn nagronnum sinum ok fretta eftir huort nokkurr madr visse vm barnn þetta huadan þat var at komit. ok kunne þat æingi at segia. þa mællti bondi. huat man annar þa en ek fæda upp med þui at æingi madr kannazst vid suein þenna ok kalla ek minn son. en nafnn skal hann taka af lit kyrtilsins ok hæita Raudr. Ox hann upp ok var bæde mikill madr ok skauruligr. vnne fostri hans honum mikit sua at hann gaf honum alla eign sina eftir sinn dag. blotmadr þessi uard ekki gamall. þa tok Raudr þar vid öllum æignum ok öllum fiarforradum.

gerdizst Raudr þa hinn mesti blotmadr. ok suo er sagt at hann magnade med myklum blotskap likneski þors er þar var j hofinu sua at feandinn mællti vid hann or skurgodinu ok hrærdi þat suo at þat synndizst ganga med honum vti um dögum. ok leidde Raudr þor oftliga vti vm eyna.

Her hittir Sigridr Olaf konung ok tekr skirn.

244. Nv er at segia fra Sigride konu Raugnvalldz. hon kom einn tima at male vid bonda sinn ok sagde suo. vit hofum læingi saman buit met [149] ast ok ynde. en nu ætla ek at bregda okkrum samuistum þuiat ek hygg at okkr dugi æigi sua buit. ek hefui verit j samþykki ok vitorde med þer vm þau storuirke sem þu hefir unnit med suo mikille huldu sem þer er kunnikt. þuiat þat er reynt at æingi madr helldr sinum þrifum til alseendis(!) þo at hann myrde æinn mann. en þessir storhlutir er vit hofum j hiarta eru myklu meire hattar en æins mannz mord. nu hefui ek heyrt at vijda vm heiminn se halldinn annarr sidr en ver höfum ok þeir sem þann sid hafua taka nafnn af þeim gude er þeir trua aa er hæitir Huitacristr ok þui hæita þeir kristnir menn. er ok sagt at Huitacristr se sua miskunnsamr at æinge madr hafui sua illt gert adr at æigi gefizst honum upp þegar er hann uill kristinn vera edr hallda hans tru. ek hefui ok frett at sa madr er samlendr ok ferr vijda vm land at boda þenna atrunat hann hæitir Olafr ok er Trygguason Olafssonar. nu ætla ek ok hans at læita ok ef ek profa þetta allt satt vera sem mer er af sagt þa skal ek taka tru þa sem hann bodar. ok ma vera at þa hlyde en nu æigi sua buit sem komit er okkru mali. Rognnvalldr suarar. þu munt þer rada. en kyrr man ek vera ok vbreytt munde okkrum radahag ef ek reda. þui næst for Sigridr ór lande med kaupmonnum ok sigldu til Æinglandz. fann Sigridr Olaf konung firir uestan haf. en er hon nade at tala vid konung sagde hon suo. þui er ek her komin at ek hefir spurt at þu bydr annan sid en menn hafua j Noregi. nu uil ek lata skirazst ok hafua ok hallda þa tru er þu kennir. Konungr suarar. þu ferr med godu eyrende ok ganga suo fair med kristnina ok vil ek lata giarnna þetta embætti væita þer. Var Sigridr þa skird. Sidan mællti Sigridr til konungs. ef ydr þikir mer þetta uel hafa farit þa man her koma at þui sem mællt er at æ ser giof til giallda. þu mant koma til Noregs ok boda þar retta tru. ugntir ek at mæira mægi gæfua þin med guds miskunn en illzska ok motgangr landzmanna. en ek vil þer kunnikt gera at madr hæitir Rognualldr rikr ok audigr hann byr j Æruik firir sunnan Stad j Noregi.

Rognnvalldr er bondi minn. nu er þat bæn min konungr er þu kemr til Noregs at þenna mann lokkir(!) þer med linlæik ok giðfum ok fogrum fortðlum til sannrar truar þui at helldr man hann ganga firir blidu en hardyndum. annar madr hæitir Raudr er rædr firir ey æinne nordr þar. er mer vkunnikt segir hon huerr uandi mer er vid hann. badir eru þeir myklir menn ok ekki vskaplikir vm mart ok mætti þat verda ydr munr konungr at þeir væri þer helldr sinnadir en j moti. Sidan sagde hon konungi inniliga ðll skipti þeirra þorolfs ok Rognnualldz ok sua um adra rikismanna skipan huer þa var j Noregi. Sigridr gaf Olafi konungi godar giafir adr þau skildu þuiat hon hafde haft med ser af Noregi mikit fe. for hon eftir þat vt j heim ok endi þar lif sitt med myklum godlæik. en Olafr konungr for litlu sidar austr til Noregs sem fyrr var ritath.

### Vidtal konungs ok bænda.

245. Nv er þat til at taka sem fyrr var fra horfuit. at Olafr konungr stefnnde lide sinu til Gulaþings þuiat bęndr hðfdu sent honum þau ord at þeir uilldu þar suara malum hans. En er huorirtueggiu kuomu til þingsins þa atti konungr fyst tal vid hðfdingia. bar konungr firir þa sin eyrendi ok baud þeim sem odrum monnum at taka vid kristnni. þa suarar sa þeirra er æinna var rikazstr. talat hðfum ver frændr þetta mal ok samit vor a millum at med þui konungr er þu uill pynda oss til slikra hluta ok briota lðg vor ok þrðngua oss vndir þig med nokkurre naudgan þa munu ver j moti standa med ðllu afli ok fa þeir þa sigr sem audit ma verda. en ef þu konungr uillt leggia til vor frenda nokkura farsæliga hluti þa mattu þat sua uel gera at ver munum allir uæita þer trulynda þionustu. Konungr suarar. huat vili þer af mer þiggia til þess at vor sælt (ok) samþykki verdi sem bezst. þa suarar hofdinginn. þat er hit fysta ef þu uillt gifta Astride systur þina Erlinge Skialgssyne frænda vorum. hann kollum vær nu vænstan mann allra ungra manna j Noregi. Konungr suarar. likligt þiki mer at þat giaford se gott ok sęmiligt þuiat Erlingr er audigr ok uel ættadr ok hinn fridazsti synum. en þo a Astrijdr suðr þessa mals. nu man ek leita vid hana huersu henni er vm gefit þui at flest mun ek til vinna at guds kristni fai framgang þat er ek ma auduelliga uæita af sealfs mins uallde. Sidan rædde konungr vid Astride þetta mal ef hon uillde giftazst Erlinge at hans rade. Hon suarar. lijtt nyt ek þess sagde hon at ek er konungs dottir ok konungs systir samborin j badar ættir ef mig skal gifta utignum manni (ok) mun [150] ek enn bida

nokkura uetr annars giafordz. Skildu þau suo sina rędu. gek Astridr brott. Konungr let þa taka æinn hauk er Astridr atti ok let plokka af fiadrirnnar ok sende henni sidan. þa mællti Astridr. ræidr er brodir minn nu. Stod hon þa upp ok gek til fundar vid hann. konungr fagnar henni uel. hon sagde þa at konungr skal sia firir hennar rade sligt er hann uill. Konungr suarar. þat hugda ek sagde hann at ek munde hafua ualld til at gera þann tiginn mann sem ek vil her j landi. Sidan uar Erlingr skirdr med frændum sinum. Eftir þat var talat vm bonord Erlings ok Astridar. lauk sua at Astridr uar fostnut Erlinge. Sidan let Olafr konungr setia þing ok baud bondum kristni ok var þa Erlingr forgan(g)smadr at flytia þetta eyrende ok þar med allir frændr hans. Jatti þui þa allr lydr þuiat ǒngir voru hofdingiar til motmęla. var þa skirt allt folk ok kristnnat. Litlu sidarr gerde Erlingr Skial(g)son brudhlaup til Astridar. þar var Olafr konungr ok baud at gefua Erlingi jalls nafnn ok mikit riki. Erlingr suarar. hessar hafua verit frændr minir. vil ek ekki bera hærra nafnn en þeir. en þat vil ek þiggia konungr at þer latit mig vera mestan mann med þui nafnne her j lande. Konungr jattade honum þui ok at skilnade uæitte konungr Erlingi magi sinum nordan fra Sognnsæ ok allt austr til Lidandisnes med þeim hætti sem Haralldr konungr harfagri væitti sonum sinum. For konungr þa nordr med landi at ueitzslum ok bodade guds eyrende huar sem hann kom.

## Konungr var i Æruik ok fangadi Rognvalld.

246. Olafr konungr var a uæitzslu skamt fra Æruik. hugsade konungr þa huat Sigridr hafde sagt honum firir uestan haf af Rognnualldi bonda sinum sem fyrr er getit. sendi konungr þa menn til Rognnuallz ok bad hann koma a sinn fund. Sendimenn hittu Rǒgnualld ok baru upp konungs ord. Rognnualldr suarar. uel komnir skulu þer her vera gangit inn til drykkiu ok sitit her medan ydr þikir gott. en æigi uæit ek uonir mins eyrendis a konungs fund ef þer vitit æigi. Konungs menn foru aftr ok sǒgdu honum greiniliga suǒr hans. konungr mællti. þa skal ek æiga vid hann eyrende ef hann a ekki vid mik. skal ek þar koma vid fiolda mannz. Rognnualldr bonde spurde at konungr munde þar koma. sendi hann alla menn burt af bænum. En er konungr var kominn nær bænum med lid sitt sa þeir æinn mann vti. konungr spurde huerr sa munde vera. honum var sagt at þat var Rognnualldr bondi. konungr mællti. mikill madr ok hamingiusamligr. Rognnvalldr gek æinn j moti konungi ok fagnade honum. konungr tok þui uel. Sidan mællti konungr. þat er mitt eyrendi til þin Rognnualldr

sem til allra manna her j lande at ek uil at þu truir a æinn allzuallda(!) gud fôdur ok son ok helgan anda skapara himins ok jardar ok allra hluta syniligra ok vsyniligra. med þessari tru skaltu næita diofli ok allum hans vilia ok uelum ok skurgoda uillu ok þeirra trunade. sidan skaltu sem huerr annarra sa er salunne uill hialpa ok æignazst eilift lif taka skirnn j nafnne heilagrar þreningar med sannre idran ok jatningu synda þinna. en sa gud er þu skalt trua aa er sua mattugr ok milldr at miskunna at hann þuærr af monnum j skirninne allar syndir. alldri hefir hann suo illt gert ef hann gengr til skriftar firir kennimonnum ok segir til glæpa sinna med sannre jdran. En er konungr hætti sinne rædu þa suarar Rognualldr. leinge hefir mer lett geingit med mina tru en alluel likar mer þin bod vtan æinn hlut er þu segir at til skripta skal ganga ok segia [sua at hafnna skal skurgoda atrunade[1] þuiat myklu flæira hefir yfir mig lidit en ek muni allt segia. ok þui vil ek ekki vid þinne tru taka en j ôngùan stad skal ek letia at adrir menn taki vid kristni. Let konungr þa taka Rognualld hondum ok hafde hánn j sinne geymslu.

## Capitulum.

247. Hit sama sumar stefnde Olafr konungr .iiij. fylknna þing nordr a Stade a Dragsheide. skylldu þar koma Sygnir ok Firdir Sunnmęrir ok Raumdęlir. Olafr konungr sotti til þings þess med allmikit fiolmenni er hann hafde haft austan ór landi ok sua þat lid er komit hafde til hans a Rogalande ok Hôrdalandi. bændr sottu til þings sem akuedit var. En er konungr kom med lid sitt þa bodade hann þar tru sem annarstadar. en firir þui at honum þotti bændr æigi skiott lata vid sinu eyrendi þa baud hann at þeir skylldu æiga vid hann orrostu en at ôdrum kosti lata skirazst ok taka retta tru. En med þui at konungr hafde styrk mikinn fiolmennis þa sa bændr at þeir hôfdu æigi afla til at beriazst vid konung. var þat rad upp tekit vm sidir at allt þat folk kristnadizst ok tok helga skirnn. Eftir þat for konungr til eyiarinnar Seliu ok fann þar likama hinnar sælu Sunnifu ok adra helga doma þeirrar sælu suæitar er henni hafdi fylg(t) sua sem fyrr er ritat. sidan for konungr [15] a Nordmæri med lide sinu ok kristnnade þat fylke.

[1]) r. [sinar athafnir

## Olafr konungr kom til Rauds.

248. þui næst siglde Olafr konungr inn a Hladir ok let briota ofan hofit ok taka burt fe allt þat er þar var ok allt skraut af godunum. hann tok gullhring or hofs hurdunne er Hakon jarll hafde gera latit. eftir þat let hann brenna allt saman hofit ok godin. En er bændr verda þessa varir lata þeir fara herðr vm ðll hinu næstu riki ok stefna lide vt ok ætla at fara at Olafi konungi med her. Konungr hellt þa vt eftir firde. hann stefnnde nordr med landi ok ætlade at fara nordr a Halogaland ok kristnna þar. En er konungr kom nordr firir Naumudal þa ætlade hann til Raudseyiar. þann morgin gek Raudr til hofs sem hann var uanr. þorr var þa helldr hryggiligr ok væitti Raud æinge ansuðr þo at hann læitade orda vid hann. Raud þotti þat miog undarligt ok læitade marga uega at fa ord af honum ok spurde hui þetta sætti. þorr suarar vm sidir ok helldr mædeliga ok sagde at hann gerde þetta æigi firir sakleysi. þuiat mer er sagde hann miog þraungt j kuomu þeirra manna er hingat ætla til eyiarinnar ok miog er mer oþokkat til þeirra. Raudr spurde huerir þeir menn væri. þorr sagde at þat var Olafr Trygguason ok lid hans. Raudr mællti. þeyttu j moti þeim skeggbrodda þina ok stðndum j mote þeim knaliga. þorr kuat þat firir litit koma mundu. ok þo gengu þeir vt ok bles þorr fast j kampana ok þeytti skeggraustina. Kom þa þegar anduidri j mote konungi sua styrkt at ekki matti vid gera ok let konungr siga aftr til sðmu hafnar sem hann hafde adr verit. ok for suo nokkurum sinnum. en kostgęfde konungr þess at mæirr at fara til eyiarinnar. ok vm sidir vard rikari hans godvile med guds krafti en sa fiande er j mot stod. Raudr kom enn til hofsins ok var þorr miog vfrynligr ok j hordum hug. Raudr spurde hui sætti. þorr sagde at þar var konungr kominn j eyna. Raudr mællti. vit skulum þa standa j moti þeim med ðllu afli en gefazst ekki upp þegar. þorr kuat þeim þat litit mundu gera. Sendi konungr þa ord Raud at hann kæmi a hans fund. Raudr suarar seinliga ok man ek ekki koma a hans fund þuiat mer er ekki þokki a kuomu hans en þo myklu minne þokki þor gude minum hinum matluga. Konungr sotti þa til Rauds ok kallade saman allt folk þat er j eyiunne var. sidan bodade konungr Raud ok ollum þeim er þar voru samankomnir guds ord med miuklæti ok linlæik en ðngum hardyndum ok kostgæfde at læida Raud a retta tru sem annat folk. Konungr mællti. þat er eyrendi mitt til eyiar þessarar sem annarstadar ath leida þig Raudr ok allan þenna lyd af þeim villustigum er þer hafuit allz of leinge gengit eftir fiandans teygingum ok visa ydr a þa hinu greidu gðtu er alla læidir til æilifs fagn-

adar þa er hana fram ganga med rettri ras gudligra bodorda. en þat er at trua a sannan gud fôdur ok son ok helgan anda ok lata skirazst j hans nafnne. gera sidan med godfyse hans vilea ok geyma hans blezsadra bodorda ok taka þar ômbun ef rett er stundat eilifa sælu ok riki med allzuallda(!) gude. en sa er sannr gud allzualldande sem huerr skynsamr ma skilia er skapat hefir himin ok iord ok sio sol ok tungl ok alla skeppnnu af ôngu efni j upphafui ok sidan styrir ok stiornar sinne skepnu eftir sinne villd ok fagurligre skipan. þat ma æigi sidr skilia med at þat eru æigi gudar þo at suo kallizst er likneski eru ger eftir illum monnum ok mega þui sidr ôdrum healpa at þeir eru sealfir blindir ok daufir dumba ók daudir ok mega huergi ór stad hrærazst vtan þeir se af monnum bornir edr fiandinn hræri þau med sinu falsi ok sionhuerfuingum til þess at hann megi þui auduelligar suikia mannfolkit ef suo synizst sem skurgodin megi þeim nokkut lidsinne væita til sinna glępa þeirra er þeir vilia fram fara er a þau trua. en þeir falsgudar hafua þui sidr nôkkurnn matt at sealfir fiandurnir eru hardla ueykir ok (u)mattugir j moti krafti allzualldanda guds. Raudr suarar mali konungs. aheyriligt getr þu gert konungr tal þitt en æigi er mer mikit vm at lata þann atrunat er ek hefui adr haft ok fostri minn kendi mer. ok æigi ma þat mæla at gud uarr þorr er her byggir j hofui voru megi litit þuiat hann segir firir ouordna hluti ok oruggr uerdr hann mer j allar þrautir ok firir þui man ek ekki bregda okkru uinfæingi medan hann helldr trulynde vid mik. en ekki man ek mæina ôdrum monnum at hallda þa tru sem huerium synizst. Konungr sagde. þat er ok likazst at þer æinum geri ekki j moti at standa ef allir adrir vilia rettu rade fylgia ok spurt muntu hafa at ek hefui oft menn fra æfui kuadda er æigi uilldu hlyda minum bodum [152] eftir sealfra þeirra hialp ok naudsyn. Raudr mællti. helldr nu vid hot ekki geng ek firir sliku. en þo allz er þu konungr erth suo þrahalldr a þinu male her umb ok þu segir þinn gud allstyrkan ok mega huetuetnna er hann uill þa mun hann uilea efla þig sua at þu megir myklu orka. en þu kallar þor audgætligan ok uanmegin en ek uænti at þer mun at ôdru verda. nu man ek lata gera bal mikit en þit þorr gangit at sinu megin huorr ok takizst þit j hendr ok mun sa ykkar sigr hafua er annan dregr vm elldinn ætla ek at þorr verde þer handsterkr. Konungr mællti. huerr madr heyrde sligt. einge madr dirfdizst fyrr at visa dioflum til þrautar vid mig þar sem ek boda helga tru. en þo man ek til þessa rada treystande a miskun almattigs guds at fiandinn man ekki mega j moti krafti Jesu Cristi. en þo geng ek til þessa

profs med þeim skildaga at huoregum[1] okkrum þors skal hialpa huers sem vid þarf ok einge madr skal til fara med okkr at uæita þeim er vanhluta verdr. Var þa hladith mikit bal ok skotit j elldi. þorr gek at elldinum ok var þo tregr til. tokuzst þeir konungr j hendr ok suiptuzst fast. þorr let firir gangaz drap hann fotum j elldstokkinn ok steyptizst fram a elldinn. brennr hann nu þar upp a litille stundu at ǫsku en konungr stakade huerge vid. Olafr konungr mællti. nu er ollum monnum audsynt at þeir hafua illan atrunat er treystazst þor þar sem hann matti æigi sealfum ser healpa vid bruna. Raudr suarar. reynt er þetta nu konungr at þu berr sigr af ykkrum vidskiptum ok alldri skal ek a hann trua sidan en þo ferr fiarri at ek lati skirazst at sinne. Konungr let þa handtaka Raud ok hafde hann j uardhallde. en þo uisse huorgi þeirra Rognnualldz til annars. en allt annat folk j eyiunni tok sanna tru ok helga skirnn. Olafr konungr spurde at Haleygir hofdu (her) vti ok ætludu at veria Olafi konungi land ef hann kęmi nordr þangat. voru þeir hofdingiar firir þui lide Harekr or þiottu þorir hiortr Eyuindr er kalladr uar kinnrifa. Sneri konungr þa lide sinu sudr til þrandheims ok inn j fiordinn þuiat hann fretti at þręndir hǫfdu dreift her þeim er þeir hofdu saman dregit þegar er konungr hafde farit vt eftir firde ok frett med vissu at hann ætlar nordr a Halogaland.

Konungr frealsade þa Rognnvalld ok Raud.

249. Olafr konungr hafde þa Raud ok Rognnualld med ser j vardhalldi. konungr gek oft til tals vid Rǫgnnvalld þuiat honum virdizst hans ordalag mart skynsamligt. þat var einn dag er þeir toludu at konungr spurde ef hann uisse nokkut til huerr ualldr[2] munde brennurnar(!) þorolfs skialgs a Jadre. Rognvalldr suarar. hui man ek þat vita. ek var leinge med þorolfi a Jadre ok var hann heill ok katr adr ek for þadan en litlu sidar var mer sogd brennan ok lat hans. en auallt er þess er getit kemr mer j hug Raudr j Raudsey. Ekki fek konungr af honum meira þar vm. Sidan hitti konungr Raud ok fretti ef hann visse huerr þorolf skialg hefde inne brent. Raudr suarar. þat uæit ek æigi en Rognnualldr j Æruik kemr mer jafnan j hug er þar er vm talat. Konungr mællti. uilltu nu lata skiraz. Raudr suarar. æigi skal þat fyrr en ek væit huat Rognnvalldr gerir at. en æigi er þat firir þui illa er mer vid hann. Konungr let þa leida þa bada saman ok spurde þa enn at hinum somum tijdindum. Rognvalldr suarar. sligt ma ek af segia konungr sem ek sa(gda) j fystu er þu spurdir eftir. Kon-

[1]) huorgegum *Cd.* [2]) uallda *Cd.*

ungr mællti. se ek þat at huorrtueggi ykkarr mun vera halldinordr. nu med þui at þit vilit æigi segia mer þa skal ek segia ykkr þar nokkut af. Hof hann þa upp ok sagde allt til enda skipte þeirra þorolfs ok Rognualldz. nu hefir mer sua flutt Sigridr kona þin Rognvalldr ok er þess von at þit niotit hennar bæde nu ok sidarr. ok ekki man ek þetta sua miog refsa sem margir munu ætla eda efni standa til ef þit takit retta tru ok helga skirnn ok gerizst fullkomnir uorir vinir. þa suarar Rognualldr. mikil er gift þin konungr ok goduile. hans munu ver æilifliga niota ok allir þeir er þer hlydnazst. Gek Rognvalldr þa vid verkinu ok ollum alburdum þeim sem konungr hafde sagt. jattudu þeir Raudr þa badir at hafua ok hallda þann sid sem hann bodade. voru þeir sidan skirdir ok tok konungr þa j sina vinattu. reiknaduzst þeir þa vid vm frændsemi ok gek Rognnvalldr vid faderni Rauds. for huorr þeirra heim til sinna æignna med leyfui ok rade konungs. helldu þeir vel tru sina ok vinattu vid konung medan hann red Noregi en ekki er þess getit at þeir gylldi fe frændum þorolfs skialgs firir brennuna.

---

## ÞAATTR HALLFREDAR VANDRÆDASKAALDZ.

A ofanverdum dogum Hakonar Adalstæinsfostra bio nordr a Halogalandi j ey þeirri er Ylfui hæitir sa madr er þorualdr het ok var kalladr skiliandi. hann atti konu þa er þorgerdr het ok var Hallfredar dottir. Gallti het brodir hennar ok var rikr madr ok bio j Sognne. synir þorualldz voru þeir Ottarr [153] ok þorkell silfri ok var hann æigi skilgetinn. Jngialldr het madr er þar bio enn j eyiunne hans son het Aualldc. (Ottarr var) med Jngiallde. Sokki het vikingr æinn mikill ok illgiarn hann for uida med hernade. hann var vinr mikill Gunnhilldar sona er þa redu Noregi. hann kom a nattarþeli at bæ þorualldz ok segir sinum monnum at þar mundi gott fang j hendr bera er audigr madr var firir ok skulu ver bera elld at bænum. þorualldr gek at dyrum ok spyrr huerr firir elldinum rede. Sokki sagde til sin. Huers giolldum ver at segir þorvalldr ek man æigi motgerdir vorar vid þig. Sokki suarar. ekki foru uær uikingar at sokum. vilium ver hafa lif þitt ok fe. þorvalldr suarar. þess munu þer nu rad æiga at sinne. Nu sækia vikingar ath bænum med elldi ok uopnnum ok lykr þar suo at þorvalldr brennr þar jnne med .xv. mann en nokkurir menn kuomuzst a

brott. vikingar toku fe þat allt er þeir mattu nytium a koma. Sumt lid Sokka gerdi til Jngialldz ok lôgdu þar elld j hus. hann gek til dyra ok beiddi monnum vtgaungu en þess var æingi kostr. þa huarf Jngialldr til sueinanna Ottars ok Auallda ok mællti. þat er likazst at lidin se min orlôg ok uillda ek giarnna koma ykkr ór elldinum ok mætti þit niota leingri forlaga ok skal ek skiota ykkr vt vm laundyrr ok væri ykkr efni til selld at hefnna þessa ef ykkr er nokkur framkuæmd ætlut. þeir segia at vera munde vile til en æigi siam vit efni til þess at sua bunu. þeim var sidan skotit vt vm laundyrr æinar ok komuzst þeir met ræyk a burt ok hlupu vt a eyna. en firir gny ok elldzgangi ok þat er þeir voru æigi fæigir þa kuomuzst þeir undan ok til æins bonda er þar bio. Ottarr mællti þa. uilltu bondi lia mer skip. Hann spyrr huat suæinum eru þit. Hann suarar. þeir æinir eru at betr samir at flytia okkr en duelia okkr. Hann suarar. þat mun uist satt þit munut vera eyiarsuæinar uorir. þa voru þeir fluttir til landz ok kôlluduzst gongumenn ok koma þeir þar er sildaferia æin var ok spurdu huerr firir rede. þeir kuoduzst vera nordan or Uogum. Ottarr mællti. vili þer nokkura þionustusueina. Styrimadr suarar. uel koma oss bakstrsuæinar ok stigit a skip vt. Helldu sidan sudr med landi. ok er þeir koma a Sognnsę þa mællti Ottarr. nu uilium vit her inn j fiordinn ok æigum her firir frændr. Styrimadr mællti. þat skal ykkr nu hæimillt ok kann vera at þit set her æigi verr komnir en þar sem þit vorut upp-teknir ok hafui þit uel þionat en brugnir munu þit uit flæira. Sidan skildu þeir.

## Drepnir berserkir. capitulum.

251. Sid vm aftan kuomu þeir j Sognn til Gallta modurbrodur sins ok settuzst utarliga j halm. Gallti gek at þeim ok spurde huerir þeir uæri. þeir kuoduzst uera gongusuæinar. Gallti mællti. hitt munda ek ætla at þit verit dugandi menn ok frændr minir se ek þat a ôgna-bragde ykkru. ok gangit til sætis. Ottarr suarar. nu er dulit til hofs er haskinn firrizst. þar voru þeir j godu yfirlæti .vij. vetr edr .viij. ok gerduzst menn geruiligir. ok þa vard orrosta a Fitium ok fell Hakon Adalsteinsfostri en Gunnhilldar synir toku rikit. þa mællti Gallti. þann ueg uirdig Ottarr sem þu munir verda firir ykkr frændum. en nu er su ôlld j Noregi at ek se æigi at ek geta halldit ykkr firir vvinum vorum. nu skulu þit fara uestr til Æinglandz ok seam fyst huersu vid lætr. en ek uænti fridar af Gunnhilldar sonum ef þit erut æigi vid. Ottarr kuetzst hans rad hafua vilia. ok foru þeir or landi ok uestr vm

haf ok ofludu ser fiar ok gerduzst mýklir menn. sellt hafde Gallti jardir þeirra ok kuikfe ok varit j silfr. .iij. uetr voru þeir firir uestan haf ok attu gnott fiar. þa foru þeir til Orknneyia ok mællti Ottarr vid Auallda. þat læikr nu j skapi mer at kaupa mer Jslandz far. þat spyr ek at þar hafua menn frelsi ok þat lata godir dræingir ser soma. Aualldi bad hann firir rada. sidan keyftu þeir Jslandz far. Ottarr mællti þa. nu er sua (mal) med uexsti at ver hofum fæingit fe mikit ok gott ord en þo megum uer æigi hæita uaskir menn ef æigi skulu fodurhefndir fram koma. en þo at þat þiki æigi synt þa er þat þo æigi reynt fyrr en ver finnum vvini vora. nu skal framarlla til hætta helldr en æigi finnumzst ver. Sidan fara þeir til fundar vid vikinga ok sa j æinum leyniuoge morg skip. þa mællti Ottarr. nu munu ver hafa breytnni. ek mun fra lide skiliazst ok Aualld e ok hætta æigi lide voru. uęnti ek at ver verdim hamingiu mæire en illuirkiar þessir. en þeir menn er eftir eru skulu hafa hendr a reipum ok verit bunir at ver komum aftr. þeir kuomu j lid uikinga ok var spurt huat manna þeir væri. þeir kuoduzst vera matgerdarmenn ok letu sild fala ok spurdu huar hofdinginn væri Sokki. mun honum æigi hent at kaupa til vista ydr. Menn suorudu at hann væri æigi uanr at [154] fara æinn saman at sildakaupum ok ferr hann iafnan vid .xl. manna. Ottarr suarar. hui sæta uarlæikar þessir. edr huar sefr hann a nottum. liggr hann a skipe edr landi. þeir kuodu hann j lofti æinu sofa. þuiat hann aa sǫkott vid menn ok lætr log bera firir ser ok ganga ekki allnær ok æigi mun hann ganga at sildakaupum a kuelldum. þeir Ottarr gengu j brott ok satu vm æigi at sidr. Sokki let læsa dyrr huert sinn er hann gekk a burt edr hann var þar ok gætti sealfr lukla ok trude ser bezst en let standa .xxx. manna firir skemmudyrum. Ottarr hafde þetta allt spurt ok hafde vid buizst ok atti nafraskiodu ok graftol ok mællti vid Auallda. nu munu vit hafa gætzsllu a er menn eru a brottu fra skemmunni ok grafa undir skemmuna ok læita at koma upp undir skemmunni. Ok sua gerdu þeir ok urdu menn ekki varir vid þetta starf. ok vm nottina er[1] Sokki kom j herbergit þa spratt Ottarr upp ok lagde spiote j smaþarma honum nedan (u)ndir bryniuna. en Aualldi hio ór Sota brodur hans þionappa ok var þat banasar. sidan hlupu þeir j iardhusit er þeir hǫfdu gert ok kuomuzst til bat(z) sins ok sidan til skips sins ok fengu godan byr til Jslandz. ok þotti æigi skǫruligri hefnnd ordit hafa. Gunnhilldr konungamodir spurde þetta ok quat mæin at þui at hon

[1]) menn *tilf. Cd.*

læidde þa æigi augum er vini hennar hofdu drepit. en uæit ek huerir gert hafa.

### Ottarr kom til Jslandz ok feck Aastdisar.

252. Ottarr kom skipi sinu j Blonduos firir nordan land. adr uoru þar lond numin. Ottarr keyfti land j Grimstungum j Uatzdal at þeim manni er Æinarr het ok gaf vid kaupskipit ok gerde þar bu. Aualldi var med Ottari hinn fysta uetr en at uori keyfti hann land at Knuki j Vazdal ok fek þeirrar konu er Hilldr het ok uar dottir Eyuindar sorkuis. dottir þeirra het Kolfinna hon var uæn kona ok oflati mikill. Olafr het madr er bio at Haukagile hann var audigr madr ok atti þa konu er þorhalla het ok var dottir Æuars hins gamla. Astdijs het dottir þeirra ok var skorulig kona. hennar bad Ottarr ok fek med myklu fe. son þeirra het Hallfredr en annarr Gallti. en Valgerdr dottir ok var kuenna friduzst þeirra er þa voru j Uatzdal edr vidara. Olafr at Haukagile fostrade Hallfred ok var hann þar uel halldinn. Hallfredr var snemma þroskuligr mikill ok sterkr uel andlitz farinn nefliotr ok kallmannligr nǒkkut skolbrunn marghattadr ok margbreytinn þegar hann var nokkut þroskadr jarpr aa hár ok for uel. hann var skalld gott þegar a unga alldri ok alnidskar en ekki miog vinsæll.

### Ottarr riez nordan til Nordraardals.

253. þorstæinn Jngimundarson var þa hofdinge at Hofe j Uazdal ok bio þar ok þotti mestr madr j þeim sueitum. hann var vinsęll ok mannheilla madr. Jngolfr ok Gudbrandr uoru synir hans. Jngolfr var ųęnstr madr nordr j suæitum. Vm hann var þetta kuedit.

| | |
|---|---|
| Allar uilldu meyiar | suo uiļ ek ok kua(d) kelling |
| med Jngolfi ganga | med Jngolfi ganga |
| þær er uaxnar voru | medan mer tuær um tolla |
| vesol kuetzst hon æ til litil. | tenn j efra gomi. |

Haustbod uar sett j Grimstungum ok knattleikr. Jngolfr kom til læiks um daginn ok mart manna med honum nedan ór dal. uedr var gott ok satu konur vti ok hǒrfdu a læikinn. Ualgerdr Ottarsdottir sat upp j brekkuna fra ok konur hia henni. Jngolfr var at læiknum ok flo knottrinn þangat er Ualgerdr uar. hon tok hann hondum ok let koma undir yfirhofnn sina ok bad þann sækia er kastat hafde. en Jngolfr hafdi kastat. Hann heyrdi þetta ok snarade eftir en bad þa læika. en hann settizst nidr hea Valgerde ok talade uid hana allan þann dag. Nu var slitit

leiknum ok fara heim vm kuelldit þeir er æigi voru bodsmenn. Sidan uandi Jngolfr komur sinar j Grimstungur ok talade vid Ualgerde. Ottarr kom at mali vid Jngolf. æigi getz mer at kuomum þinum ok spurt muntu þat hafa at ver hofum æigi þolat ollum monnum skammir edr skapraunir algerdalaust. muntu komazst auduelligar at radahag vid hana ef þu uill. Hann kuetzst sealfrade vilea vera ferda sinna huat sem Ottarr sagde. let sua at æins skipadan dalinn at hann kuetzst æingis naudungarmadr vera skylldu. Sidan hittir Ottarr þorstein ok segir honum. bad hann æiga hlut at suo at ver halldim rettum hlut vid Jngolf son þinn. þu ert uitr madr ok godgiarnn. þorsteinn suarar. vist gerir hann þat j moti uilia minum ok hæita uil ek minne vmrædu. Skilia þeir vid þat. þorsteinn mællti vid Jngolf. annan hatt hafui þer en ver a unga alldri. gerit ydr at ginnungum er hofdingia efni skylldu vera ok lat þu af tali vid dottur Ottars bonda. Jngolfr kuat batnna skylldu vid hans vmrædu ok let hann þa [155] af kuomum fyst j stad. Sidan orti Jngolfr mansaungsdrapu vm Valgerde. Ottarr reiddizst þui miog. ferr enn at hitta þorstein. kuat ser nu leitat mikillar skapraunar. nu bid ek þig at þu lofir mer at stefnna Jngolfi syne þinum þui at ek vni æigi at kyrt se. þorsteinn suarar. æigi mun ek banna þat en medallagi ætla ek þat radligt. Jokull Jngimundarson uar þa at Hofui brodir þorsteins er þetta var. hann sagde þa. heyr a endime at þu munir fara malum fram vid oss frændr her j sueit ok skal þat skiott at illu verda. Jokull bio upp j Tungu j Uazdal. þorsteinn syndi enn sem oftar godgirnd sina ok setti menn til med þeim a Hunavatz þinge ok handsalade firir Jngolf son sinn ok bad þess Ottar at hann yndi þui at þorsteinn gerde j mille þeirra vm drapumalit ok annat þat er j mille var. þessa fystu menn Ottar ok vard þat at sætt at þorstæinn skyllde gera æinn. Sidan mællti hann. skiot eru her min vmmæli. her er at sea firir huorumtueggium huersu ykkr likar. ek geri halft hundrat silfurs til handa Ottari en Ottarr skal selia iardir sinar ok radazst j burt ór þessi sueit. Ottar quaz æigi uara at honum mundi slikr uiafnnadr bodinn. þorsteinn kuetz æigi sidr firir hans hond set hafa j þessu uid skaplynde huorratueggiu. Ok eftir þetta redzst Ottarr sudr j Nordrárdal ok bio fyst a Ottarstodum. þa var Hallfredr son hans nærr .xx. at alldri ok var þroskuligr.

## Griss bad Kolfinnu. capitulum.

254. Hallfredr lagde hug a Kolfinnu Aualldadottur. en Aualld a var litit vm þat ok uillde gifta honum dottur sina. en Hallfredr uillde ekki kuongaz. Aualldе ferr at finna Ma vin sinn er bio a Marstodum ok

sagde honum huar komit var. Hann suarar. her mun til órræda at taka sem ek er. ek mun fa mann til at bidia hennar. madr hæitir Griss ok er Semings son hann er vinr minn ok byr vt at Gæitaskarde j Langadal. hann hefir verit vt j Myklagarde j myklum soma. Hann var audigr madr ok vinsæll. Nu sendi Mar eftir Grise ok kemr hann a Marstade. Marr mællti. rad ætla ek at gera firir þer. þu skalt bidia Kolfinnu dottur Aualllda þar skortir æigi fe ok er kostr godr. Nu koma þeir til Aualllda ok voru .viij. saman. þeir settu vti spiot sin. Gris atti gullrekit spiot. Nu satu þeir at malum ok flutti Mar firir hond Gris. Aualldi quaz Mars forsio hlita mundu ef konunum lizst sem mer. J þui bile kom Hallfredr ok forunautar hans. hann sa spiotit ok mællti. komnir munu her menn nǫkkurir vm langan veg. gættu hesta okkarra en ek mun fara til dyngiu Kolfinnu. Ok suo gerir hann. hann settizst nidr hea henni ok spyrr huat komit væri. en oþokki mun mer a vera þui at þin mun bedit uera. en ek trui æigi at þat verde uel suo buit. Lattu þa firir þui sia at rada æigu segir hon. Æigi skal þat segir hann þo at þer þiki nu hinn nyiari betri. Nu tekr hann Kolfinnu ok setti hana j kne ser vti a dyngiu uegginum ok talade sua vit hana at allir mattu sia þegar vt gengu. hann sueigir hana at ser driugan ok fara þa j æinstaka kossar. Nu koma þeir vt. þa mællti Gris. huerir eru þessir menn er her sitia a dyngiunne er suo latazst at akafliga Gris var helldr vskyggnn madr ok sureygr nokkut. Aualldi suarar. Hallfredr er þar ok Kolfinna dottir min. Gris mællti. er þetta uandinn. Oft berr suo at segir Aualldi. en þu hlytr þetta uandrædi af at rada af þui er hon er nu þin festarkona. Gris suarar. audsett er þat at vid mig uill hann nu fiandskapaz ok er sligt til hręsni gert. Nu suarar Aualldi. lat vera umællt ef þu uillt þat ok er þer þa æinge vandi a. Gris suarar. stadfest hefui ek þetta rad firir mer. Sidan gengu þeir til hesta. þa mællti Hallfredr vid Gris. vita skaltu þat at ek virde suo sem þu uilir gera fiandskap vit mig ok mun ek banna þer radit. en ef þat tekst þa mun illa fara. þa suarar Marr. æinskis munu ver meta þin ord um þetta þuiat Aualldi mun rada æiga. þa quad Hallfredr visu þessa.

Suo nǫkkui verdr sǫkkuis
sannargs troga margra
ægiligs firir ǫgum
allhæidins mer ræide.

sem olitill vti
allz mest vid fǫr gesta
stæri ek brag firir brude
burhundr gamall sturi.

Ok hirde ek ekki vm blotmanninn huat þu leggr til. Marr suarar. þott litit se traust mitt þa mattu þo uel flimta mig ekki. Hallfredr

kuetzst rada mundu ordum sinum en þeir malum sinum. Hann quad visu.

Redkada ek rækimæidum
randalids at bidia
otta æinka dottur


Aualldi þui skalldi.
sid mun surz vm bida
sia geta menn til hennar
kvonar byrr af kyrri
Kolfennu mer renna.

Ok for Hallfredr þa ræidr a burt.

### Hallfredr bardiz ok vard fangadr. capitulum.

255. Mar suarar. ridum eftir honum. Ok suo gerdu þeir ok voru .xv. saman. Hallfredr var þa vistum at Haukagile. Olaf fostra hans grunade vm ferdir þeirra Gris ok Mars ok sende þegar eftir Ottari at segia honum allan malauðxsl at Hallfredr þurfui manna vit. Nu er þat at segia at Hallfredr ok hans menn ridu undan .ij. en xv. eftir. [156] Gris mællti þa. þar ma nu sea þa Hallfred ok snuum eftir þeim. þeir fara radlausliga undan ok sækium at þeim ok kostum klædum a uopnn þeirra ok endazst mun mer afl til þo at ek hallda þeim .ij. Marr suarar. sligt er uel mællt. þa hleypir huerr sem buinn var. Nu getr Hallfredr at lita eftirræidina ok mællti. rennum æigi undan. gott er vid lidsmun at etia ok buum okkr uaskliga ok veriumzst her a holltinu. þeir Gris ok Marr sækia at þeim en þeir veriazst uel ok dræingiliga. en þo kemr at þui sem mællt er at ekki ma vit margnum ok verda þeir handteknir ok bundnir. þa mællti Gris. menn rida þar ok hefui ek tǫl(u) a at vera munu .xxx. ok ma verda at sigrinn verde skammr. þar var þa Ottarr kominn. þeir Gris snua þa aftr j gotuskard nokkut af anne ok læitudu ser vigis. hann kuadde Ottar ok spurde hann at eyrendum. Hann suarar. ek spyr at Hallfredi. Gris mællti. her er hann nu ok liggr lagt. Ottarr mællti. med huerium hætti er nu um hann. Gris mællti. bundinn er hann en æigi drepinn þo at þat være makligra. Ottarr mællti. naudung mikil þott sok se til. huort vili þer unna mer þess at ek geri æinn yduar j mille. Gris mællti. hui mun þat æigi fallit þott ek ætti helldr vm at dęma en virda skal þig um sinn sua mikils. Ok þetta rada þeir ok er Hallfredr laus latinn. ok þa mællti Ottarr. æigi er ferdin virdulig. Hallfredr mællti ok quaz æigi hana lofa mundu. en eigi hirdi ek huat þu gerir ef Gris a Kolfinnu. Ottarr suarar. þui skalltu æigi rada allz er hann trude mer til. hann skal konu æiga ok se hon .iij. uetr j festum en þu skalt fara vtan ok læita þer mæire sæmdar. Hallfredr mællti. æigi væit þo huerir manni eru truir ef fedrnir bresta. nu skal þat fyrr at

hendi berazst at skora a Gris til hol(m)gaungu þegar ek finn hann. Nu rida þeir hæim fedgar. Hallfredr ridr til Haukagils. Olafui þotti illa hafua ordit ok sendi ord Ottari at brigda þessu ok kuat vandræda vant suo buit. Þa kuomu ord til Hallfredar at fadir hans væri siukr ok kuetz Ottarr vilia finna hann ok skipa til vm fe sitt. Hallfredr kom þegar ok þa let Ottarr þegar taka hann ok bera at honum fiotur ok eru nu .ij. kostir at vera kyrr edr sitia her j fiotrinum ok styra æigi frændum þinum j hættu. Hallfredr suarar. æigi hefir þu j tuæim hondum vid mig vm fiandskap ok helldr muntu rada en ek siti her j hôftum. Ok suo var. Nu er at segia fra þeim atburdum er Griss fek Kolfinnu en Maar hafde bodit jnne. ok þotti Ottari at þui miog hrapat ok kuat at huorigir mundu uel hafua. ok sendi ord Olafui þo at hann gætti sua til at æigi yrde holmgangan. Olafr fysti Hallfred vtan ok quaz mundu fe til leggia med honum ok let þat godra manna sidu. Hallfredr suarar. se ek nu huer astrad þer hafuit (vid) migh. en suo segir mer hugr vm at lông uerde uor uandrȩde. Ok retzst til skips. Hallfredr kom til skips ok kuat visu.

Fus er ek þoat osa
afl uôll drepi stalli
miog skytr maurnar vakri
minnazst vid Kolfinnu.

þo at algrindar endizst
attgodrar mer trodu
betr unnum nu nytri
nærr sem heitin væri.

Hann for vtan ok kom vid Noreg ok sotti a fund Hakonar hins rika er þa red lande. Hallfredr gek firir hann ok kuadde hann. jall spurde huerr hann være. Hann nefnndizst Hallfredr. en eyrendi mitt er þat at ek hefui kuæde kuedit vm ydr ok uillda ek hliod fa. (Jall suarar). likligr værir þu at skalldligt være kuæde þitt ok skaltu hliod fa. Ok sidan kuat hann ok tokzst uel til. Jall mællti. þat ma sea at þu mant vera hofdingia diarfr. Jall gaf honum goda ôxi silfrreknna stundar mykla ok klȩde god ok baud honum med ser at vera. ok þat þiggr Hallfredr.

## Hallfredr hitti Olaf.

256. At sumre ferr Hallfredr vt til Jslandz ok kemr firir sunnan land ok hafde þa fe mikit. sidan var hann j fôrum nokkura stund ok kom alldri nordr um land. Ok æitt sinn er hann kom af Jslande la hann vid Agdanes ok er hann hitti menn at male var honum sagt at hôfdingia skifte være ordit j Noregi. væri Hakon jall daudr en Olafr Trygguason væri til rikis kominn. þat var ok sagt med at

Olafr baud ǫllum kristnne. þetta þotti Hallfredi allt saman mikil tidendi. urdu skipueriar allir a þat sattir at þeir skylldu heita a gudin at þeim gęfui byr at sigla burt fra Noregi nokkur til heidinna landa. suo var heitit stofnat at þeir skylldu gefua fe ok .iij. sallda ǫl Frey ef þeim gæfui til Suiþiodar en þór edr Odni ef þa beri aftr til Jslandz. Sidan lagu þeir þar nokkura stund ok gaf þeim æigi a burt. vrdu þa vm sidir at sigla inn a fiordinn. lǫgdu þeir þa til hafnar þeirrar er het Fladki ok nadu þeir æigi sealfu læginu þuiat þar lagu firir langskip mǫrg. Vm nottina georde storm mikinn af hafui en þeir lagu a suædinu. hǫfdu þeir streingia raun mykla ok akkera. þa var alidin nottin ok þegar at lysti af degi mællti æinn af langskipamonnum. þessir menn a kaupskipinu eru komnir haskasamliga þuiat þeir liggia þar sem mest stendr uedrit [157] a ok dugit til uel ok healpum þeim. Geingu þa .xxx. manna a æitt skip ok reru til þeirra. einn þeirra sat ok styrde sa var j olpu grænne ok mikill uexsti. þeir kuomu at kaupskipinu. þa mællte sa er styrde til kaupmanna. þer erut ekki uel komnir þuiat stormr er a en firir er vhræint ok skeriott ok skulu ver græida ferd ydra. Hallfredr mællti. huat hæitir þu. Hann suarar. ek hæiti nu Akkerisfrakki. En j þui er þeir hofduz ord vid þa gek j sundr æinn akkerisstræingr. olpumadrinn fleygdi ser þegar vtbyrdis ok gat gripit j nidrdrættinum stræinginn ok bar upp j skipit. þa er stræingrinn brast þa quad Hallfredr þetta.

Færum festar vorar  
ferr særoka at knerri  
suord tekr helldr at herda  
huar er Akkerisfrakki.

Olpumadr suarar þui at hann var þa upp kominn a skipit ok mællti.

Enn j olpu grænne  
ek fek dreing til stræingia  
þann er hnakmidum hnykkir  
her er Akkerisfrakki.

ef þu villt þat vita sagde hann. Var þa dregin upp grunnfære þeirra. ok reru þessir firir skipinu ok fluttu þa j gott lægi en æigi vissu kaupmenn huerr þessi var olpumadrinn. var þeim þa sagt litlu sidarr at þat hafde verit Olafr konungr. Var konungr þa kominn at nordan. en hann hafdi ætlat nordr a Halogaland sem adr er getit. lagde konungr þa skipum sinum til Nidaross. dvaldizst hann þar en var

stundum a Hlodum med hirdsuæitir sinar. Hallfredr hellt ok skipi sinu til Nidaross.

---

## ÞAATTR KIARTANS OLAFSSONAR.

Olafr pai var son Hauskolldar Dalakollzsonar. hann atti Þorgerde Egilsdottur Skallagrimssonar. Þeirra son hinn ellzsti het Kiartan. hann var kalladr eftir Myrkkiartane Jra konungi modurfôdur Olafs. Olafr pai bio j Hiardarhollti j Laxardal. hann var rikr madr ok gôfugr ok manna godgiarnazstr ok vinsælstr. Kiartan Olafsson ox upp j Hiardarhollti med fedr sinum. Kiartan uar manna fridazstr at allri skapan þeirra er fæzst hafua a Jslande. hann var mikilæitr ok vel farinn j andliti lioslitadr eygdr manna bezst. mikit hafde hann haar ok fagurt sem silki ok fell allt med lokkum. manna skygnnstr. hann var mikill madr ok sterkr suo sem verit hafde Egill modurfadir hans edr Þorolfr Skallagrimsson. huerium manni var Kiartan betr a sig kominn. manna var hann hagazstr ok vigr bezst ok allar jþrottir hafdi hann vmfram adra menn a Jslandi. sundfærr var hann huerium manni betr. hann var madr litilatr ok lettudigr. milldr af fe ok suo vinsæll at huert barnn unni honum er kunne hans nafnn. hann elskade Olafr mest allra barnna sinna. Þar fæddizst ok vpp j Hiardarhollti Bolli Þorlæiksson brodurson Olafs. voru þeir Kiartan frędr miog iafnnalldrar ok fostbrædr. Bolli var mikill madr uexsti ok allsterkr fridr synum ok rettnefiadr ok helldr langlæitr. Þykuarradr ok þo ekki munnliotr. grimeygdr[1] ok þo ekki opineygdr ok lagu fagurt ôgun. liosiarpr var hann a har manna hermannligazstr ok hinn mesti skartzmadr. hann gek næst Kiartani vm alla atgerfui. var med þeim fostbrædrum allastudigt sua at huergc for Kiartan þess at Bolli fylgde honum æigi. J þann tima bio Vsuifr Helgason at Laugum j Sælingsdal. hann var spekingr mikill ok audmadr. hann var kominn at fôduræll af Katli flatnef. modir hans het Nidbiorg en hennar modir Kadlin dottir Gônguhrolfs Rognualldzsonar. Vsuifr atti Þordise Þorolfsdottur laga af Medalfellzstrônd. hann atti .v. sonu. Gudrun het dottir hans. hon var firir ollum þeim konum er upp oxu a Jslande. þegar a unga alldri var Gudrun gift þeim manni er Þorualldr het Halldorsson goda ór Garfsdal. hon skilde vid hann ok giftizst Þorde syne Glums Gieirasonar. hann var kendr vid modur sina ok uar kalladr

[1]) r. grunneygdr

Jngunnarson. hann druknade a Bræidafirde. þeirra son var þordr kottr er fostrade Snorre gode. hans son var Stufr skalld. Gudrun var þa ekkia vm hrid ok sat heima at Laugum. Kiartan uande oft læidir sinar til Sælingsdals laugar. funduzst þau Gudrun þar iafnan tolðduzst mart vid. þat tolodu margir menn at med þeim þætti jafnnræde. Olafr talade vid Kiartan. ekki er mer vm ferdir þinar til Laugar. þuiat þat er mitt hugbod en æigi vil ek þess spa at ver frendr ok Laugamenn berum æigi til alsendis giftu vm vor vidskifti. Hellt Kiartan uppteknum hætti um ferdir sinar til Lauga. Bolli for iafnan med honum.

### Ættartolur. capitulum.

258. Asgeirr het madr er kalladr var ædikollr hann bio at Asgæirsaa j Videdal. hann var son Audunar skðkuls er fystr kom til Jslandz sinna kynsmanna ok nam Vijdedal. Audun var Biarnarson Hundastæinarssonar jalls af Einglande. modir Biarnar var Olof dottir Ragnnars lodbrokar. dottir Audunar var þora modir Hallz fðdur [158] Ulfhilldar modur Astu er atti Haralldr grænski. þeirra son var Olafr konungr hinn helgi. Asgæirr Audunarson atti Jorunne dottur Jngimundar hins gamla. þeirra son het Audun fadir Asgæirs fðdur Audunar fodur Egils er atti Vlfbæide dottur Eyiulfs hins hallta Gudmundarsonar hins rika. son þeirra var Eyiulfr er uegínn uar a alþinge fadir Orms kapalins þorlaks byskups hins helga. annarr son Asgæirs ędikollz het þorualldr fadir Dðllu er atti Jslæifr byskup. þeirra son var Gizsorr byskup. hinn þride son Asgeirs het Kalfr. hann var j þann tima j kaupferdum ok þotti hinn bezsti dreingr. þuridr het dottir Asgeirs. hon var gift þorkeli kugga syne þordar gellis. þeirra son var þorsteinn. ðnnur dottir Asgeirs het Hrefnna. hon var kuenna uænst nordr j sueitum ok vinsæl.

### Fra Kiartane.

259. Kiartan Olafsson keyfte halft skip at Kalfui Asgæirssyne er uppi stod j Gufaróse at rade þorstæins Egilssonar frænda sins mæirr en Olafs fðdur sins. Kiartan hitti Gudrunu ok sagde henni at hann ætlade vtan. hon kuat hann þessu skiott hafua radit ok hafde þar vm þo fleire ord þau er Kiartan matte skilia at hon let ser at þessu verda litt getit. Kiartan mællti. ef þer mislikar þetta þa skal ek gera annan hlut þann er (þer) like uel. Hon suarar. efnn þu þat þa. þuiat ek vil fara vtan med þer j sumar þui ek uni ekki eftir a Jslande. Kiartan mællti. þetta ma æigi þuiat brædr þinir eru vradnir en fadir þinn gamall ok eru þeir allir forsia suiftir ef þu ferr j burtu. en bid þu

min .iij. vetr sua at þu gifztst æigi. Gudrun quez honum ǫngu mundu vm þat hæita. Skildu þau vid þat at sinn ueg þotti huoru. Ræid Kiartan hæim j Hiardarhollt ok sidan til skips ok Bolli frænde hans med honum ok letu j haf þegar þeir voru bunir. þeim byriade vel ok toku Noreg nordr vit þrandheim logdu inn til Agdanes ok spurdu þar hofdingiaskifti ok sua at Olafr konungr bodade sidaskipti. Helldu þeir skipi sinu jnn til Nidaross. ok voru margir islenzskir menn j Noregi þeir er mikils voru verdir. lagu þar firir bryggium .iij. kaupskip er islenzskir menn attu. æitt skip atti Brandr hinn orui son Vermundar þorgrimssonar. annat attu brædur .ij. het annarr Biarnne en annarr þorhallr. þridea skip atti Hallfredr skalld. var hann þa nykominn er Kiartan kom þui at þeir sigldu æitt sumar af Jslande. Allir fǫgnudu þeir hinir islenzsku (menn) uel Kiartani en þo Brandr æinna bezst þuiat þeir voru adr kunnigir. En islenzskir menn þeir er nu voru nefnndir hǫfdu allt samband at þui at neita sid þeim er Olafr konungr bodade adr en Kiartan kom. en nu baru þeir en rad saman ok læitudu vid hann huat hann uillde at gera. hann tok litit af ǫllu þar vm ok kuaz þui mundu samþykkia sem þeim syndizst ollum radligazst.

## Fra Olafi ok Kiartani.

260. Olafr konungr uar þa j Nidarosi ok hafde med ser fiolda mannz. let hann þar flytia starfua mikinn þuiat hann let setia kaupstad i Nidarose ok husa konungsgard upp fra Skipakrok. þar let hann ok setia kirkiu um haustit. konungr let marka toftir a arbakkanum ok gaf sidan monnum sinum sem honum syndizst ok ser uilldu lata hus gera. þat uar um haustit æinn godan uedrdag at menn foru or bænum til sunnz a ána Nid. þat sa þeir Jslendingar. Kiartan mællti at þeir mundu ganga til at sea sunnzjþrottir bæiarmanna. þeir gerdu sua ok sa um daginn ath þar lek æinn madr a sundi langt umfram alla menn þa er þar voru. þa mællti Kiartan[1] til Hallfredar Ottarssonar. uilltu reyna sund vid þenna mann. Hallfredr suarar. þat ferr fiarre þuiat þar er sa madr at ek ætla j ǫngu at sambioda. þa ræddi Kiartan uit Bolla frænda sinn ef hann uillde reyna sund vid bęiarmanninn. Hann suarar. ekki ætla ek þat mitt færi. Kiartan suarar. æigi væit ek huar nu kemr fram kapp ykkart. skal ek þa til ef huorgi ykkar þorir. gek[2] hann þa at anne fram þar gagnnvert sem menn voru a sunde. Kiartan var j skallaz kyrtli raudum. hann kastar kyrtlinum ok fleygir ser sidan a ána. lagdizst hann þa at þeim manni er bezst var syndr ok færde

[1]) mællti *tilf. Cd.* [2]) geg *Cd.*

hann þegar j kaf ok hellt nidre vm hrid. eftir þat let Kiartan þenna mann upp. En er þeir hǫfdu tekit æigi langa huilld þa greip bæiarmadrinn Kiartan ok keyrde j kaf. voru þa nidre helldr leingr en Kiartani þotti hæfuiligt. kuomu enn upp vm sidir. æingi hofduzst þeir ord vid. foru enn nidr j þridea sinn. voru þeir þa myklu leingzst nidre. vissi Kiartan þa ualla huersu læikr sea munde fara þuiat hann þottizst alldri j iafnnkrappan stad komit hafua. þar kemr enn at þessi madr lætr hann upp. leggiazst þeir þa til landz badir ok toku at klædaz. bæde syndizst Kiartane bæiarmadrinn mikill ok sterkligr. þessi madr [159] spurde huerr sia madr væri. en Kiartan sagde nafnn sitt. Bæiarmadr sagde. þu ert vel sundfærr Jslendingr edr ertu suo buinn at (odrum) jþrottum sem þessi. Kiartan suarar. æinge jþrott edr sǫmd er mer j þessi. mun ok sua vm fleire þoat jþrottir hafui verit kalladar a minu landi. Bæiarmadrinn suarar. þat mun radazst vid huernn þu att vm[1] huert ord þu fær af jþrottum þinum edr hui spyrr þu mig æigi at nafnni. Hann quez ekki hirda vm nafnn hans. Bæiarmadr mællti. þat er bæde at þu ert madr gerfuiligr enda lætr þu helldr storliga en æigi þui sidr skalltu vita nafnn mitt ok vid huernn þu hefir sundit reynt. ek er Olafr Trygguason er her er kalladr konungr. Kiartan suarade ǫngu ok sneri j burt berkyrtladr. Konungr var ok klǫddr. hann kallade þa a Kiartan ok bad hann æigi suo skiott ganga. Kiartan uæik aftr ok þo helldr sæint. Konungr tok þa skikkiuna af herdum ser ok mællti. æigi skalltu yfirhafnarlaus ganga til þinna felaga suo sæmiligr madr ok hamingiusamligr sem þu ert ok uil ek gefa þer skikkiu þessa. uil ek at þu takir þat er vit hǫfum vid atz j dag sem ek mun gera firir glenz ok gaman þuiat ek uænti at fair menn kalli þer at minne jþrott j sundforum þo at ek gangi þar um til jafnns vit þig. Kiartan þakkade konungi ok gek sidan til manna sinna ok synde þeim skikkiuna. var þat hinn bezsti gripr. Jslendingar letu illa yfir er hann hafdi þegit skikkiuna. þotti þeim at hann hefdi j þui gengit a ualld konungs ok vndir hans vinattu. Vedrattu gerde harda er haustade ok voru frost mikil ok kuldar. þa sǫgdu heidingiar at þat væri æigi undarligt þo at vedratta leti illa. kuodu þeir godin ræid uordin konunginum fyst at upphafi ok þar vt j fra ollum þeim er þat sidaskifti hofdu tekit sem hann hafdi boþat. Litlu sidarr batnade uedrettan. kom þa mart folk til bæiarins af næstum herudum. var þat folk flest hæidit. Jslendingar hofdu ser radit herbergi j bænum til uetrsetu allir samt. var Kiartan miog firir þeim.

[1]) edr *tilf. Cd.*

## Kiartan tok vid kristni.

261. Einn dag atti Olafr konungr þing vt a Eyrum vid þat folk er þar var komit. taldi hann tru firir þeim. talade hann langt ok miukliga en at lyktum hardnade helldr ræda konungs. het hann þeim liflati edr ǫdrum afarkostum er æigi uilldu uikia eftir hans ordum. letu þa margir menn skirazst af landzfolkinu. var vid þat lokit þinginu. þat hit sama kuelld sendi konungr menn til herbergia (Jslendinga) at heyra huat þeir tǫludu. Jslendingar satu vid drykkiu ok uoru katir. var þar glaumr mikill inn at heyra. toludu þeir vm þingit er verit hafdi um daginn ok vm bodskap þann er konungr hafdi uppborit. þa mællti Kiartan til Bolla. er þer nokkurr hugr a frendi at taka þann sid er konungr bydr. Bolli suarar. ekki er ek þess fuss þuiat mer synizst sidr þeirra ueikligr ok miog eydiligr. Kiartan suarar. æigi synizst okkr þetta æinn ueg. þuiat mer þikir sem konungs vile fai framgang suo at margir menn uikiazst vndir hans bodskap a hueriu þingi. edr þotti ydr hann j ǫngum hotum hafua vid þa menn j dag er æigi uilldu ganga undir hans bod. Bolli suarar. at visu þotti oss hann ganga ór skugga um þat at þeir munde mæta myklum afarkostum af honum er æigi uilldu honum hlydnazst um trvhalldit. Æingis mannz naudungarmadr skal ek uera segir Kiartan medan ek ma uopnum uallda. þat þiki mer ok litilmannligt hrǫstum dræing at vera drepinn saklauss sem skynlaus kuikendi. þetti mer sa kostr myklu betri ef ek vissa uisann bana minn at vinna nokkut til fregdar adr þat er leingi mætti[1] uppi vera. Bolli mællti. villtu storræde nokkut at hafazst. Kiartan suarar. þat mun ek skiott segia þer. ef konungr uill hallda a trubode vid oss Jslendinga sem vid adra menn þa synazst mer .ij kostir til firir hondum. sa annarr at ganga undir hans allan bodskap ok lata ǫngra pyntinga vid þurfa. hinn er annar kostr ef konungr er radinn j at væita oss afarkosti at brenna hann inne. Bolli suarar. æigi kalla ek þetta litilmannligt en æigi mun þetta framgæingt verda at þui er ek hygg þuiat konungr mun verda giptudriugr ok hamingiumikill ok hefir yfir ser sterk uardholld bædi nætr ok daga. Kiartan mællti. suo se ek fara flestum at bilar arædit þo at godir kallmenn se. mællta ek þetta mæirr til raunar vid ydr en ek æsi þess nokkurn af aluǫru. Bolli quat þat uant at sea huerium hugar þyrfti at fryia. þa toku margir vndir at þetta var þarfleysutal mikit. foru þa niosnarmenn aftr til konungs ok sǫgdu honum allt tal þeirra. Vm morgininn eftir er sagt at Olafr konungr uill þing hafua ok let til bioda ǫllum Jslendingum. en er þing

[1]) mæitti *Cd.*

var sett stod konungr upp ok talade. þakkade hann ollum monnum þangatkuomu [160] þeim er hans vinir villdu vera ok vid rettri tru taka. væik hann rædu sinne til Jslendinga ok spurde ef þeir villde trua a sannan gud ok lata skirazst. þeir toku ekki fliott undir þat. þa mællti konungr. huerr er sa af ydr er þat þotti rad at brenna mig inne. Kiartan suarade. þer munut hugsa herra at sa hafui æigi einord til at ganga vid er þat hefir mællt. Konungr suarade. sia ma ek þig ok æigi smaradan en æigi mun þer þat audit verda at stiga yfir hǫfud mer. nu munu menn þat kalla at þu hafir noga sok til at þu hæitizst æigi vid flæire konunga inne at brenna þa er þer vilea hit betra kenna. en firir þui at þu gekt vid suo dreingiliga en þo æigi vist at hugr hafui fylgt (mali) þa er sligt var talat þa skal æigi taka þig af lifui firir þessa sok. þuiat litit er at taka hotyrde ydr iafnningia hia þui sem uorr drottinn Jesus Cristr konungr allra konunga þoldi dauda af sinum vvinum. kann uera sem ek vænti at þu halldir þui ollu betr helga tru sem þu ert tregari til ok mælir meirr j mot en adrir. þat er ok ætlan min at þat skipti tǫgum af Jslendingum er þann dag munu vit tru taka er þu lætr onaudigr skirazst. þiki mer þess uon ef þer komit til Jslandz at frændr ydrir ok vinir lati miog hallaz eftir ydrum uirduligum fortolum. eru her nu suo margir gofgir menn saman komnir af þui landi. er þat ok mitt hugbod at þu Kiartan hafir betra sid þa er þu siglir af Noregi en þa er þu komt hingat. farit nu allir j fride ok gridum huert er þer uilit af þessum fundi. skal ek ydr ekki pynta til kristni at sinne þuiat lifande gud himna konungr þiggr sealfrada ok vilianliga þionustu ok kemzst æingi madr naudigr til hans dyrdar. Var mikill romr georr at mali konungs ok mest af kristnum monnum en Jslendingar matu vid Kiartan at suara sliku sem hann uillde. þa mællti Kiartan. mykla þǫk kunnum uær allir Jslendingar ydr konungr firir þat er þer georit oss godan frid. er þat ok ugnazst at suo fai þer teygt oss til hlydne vid ydr at þer farit at þui med litilæti ok linlæik ok gefit oss upp storar sakir þar sem ver erum a ydru ualldi sua at þer megit a huerri stundu gera slikt af voru efni sem þer uilit. nu er ek æigi suo hæimskr at e(k) kennumzst æi vid at ek hefuer illa talat. hafua Jslendingar frændr uorir læingi verit vuægnir bæde j ordum ok verkum. þat er ok fornn malshattr med oss er oft reynizst at ǫl er annarr madr. talar madr þat oft huatvisliga drukkinn er hann uillde med ǫngu moti fram fara þa er hann er med skynsemdar vite. nu mun her med okkr fara sem mællt er at iafnnan uægir hinn vitrari. ma ok vera at þat mæli nokkurir norrænir menn at oss Jslendingum

kippi j kyn þoat vær gæingim helldr firir blidu en stridu um sidaskifti uort. en þuiat æins ætla ek[1] at taka tru her j Noregi at ek skal þa ok litils virda þor hinn næsta vetr at ek kem til Jslandz. þa suarar konungr brosande. þat finn ek glǫgt a ordum þinum ok yfirbragde at þu þikiz mæira æiga undir afli þinu ok atgerfui en þar sem þorr er edr Odinn. Var þa slitith þinginu. en er konungr kom til herbergis eggiudu nǫkkurir menn at naudga Kiartani til kristni ok ǫdrum Jslendingum. sǫgdu at honum var vradligt at lata sua iafnnnærr ser uera marga heidingia þa er æigi hofdu allra orda um bundizst at sitia a suikrædum vit hann. Konungr suarade þeim ræideliga. ekki mun ek sliku fram fara þuiat ek ætla marga þa er kristnir kallazst vera j sinu lagi æigi betr hattada en Kiartan ok hans suæitungar. ok at visu skal slikra manna uel bida ok kenni ek sua Kiartan ok hans lynde at ek er ekki hræddr vm at hann uile a suikrædum sitia vid mik hedan af. Lidr nu a haustit. spurde konungr at þrændir hofdu blot stór at uetrnottum. (hetu þeir fast a godin) at þau skylldu æigi lata þar vidgangaz kristnibod Olafs konungs.

## Konungr Olafr bodar kristni. capitulum.

262. A onduerdum vetri let Olafr konungr fara bod vm allan þrandheim ok stefnnde .viij. fylkna þing (a Frostu). en bændr sendu[2] þingbod j herut ok stefnndu saman þegnn ok þræl vm allan Noreg. En er konungr kom til þings þa var þar kominn bonda mugrinn med aluæpnni. en er þingit var sett taldi konungr tru firir bondum. En er hann hãfde litla stund talat þa æftu bændr ok badu hann þegia. ok munu ver elligar uæita þer atgongu ok reka burt af landi her þegar a þinginu edr drepa þig. gerdu uær þenna kost Hakoni Adalstæinsfostra þa er hann baud slik bod. skipadizst hann vel vid [161] ok somdum ver sattmal uor j millum ok helldu huorir uel uit adra. nu uirdum uær þig æigi mæira en þann hinn goda hofdingia ok man þer sa hinn bezsti kostr at gera eftir hans dęmum. En er Olafr konungr sa ærde bonda ok þat med at þeir hǫfdu her suo mikinn at ekki matti vid standa þa uæik hann redunni til samþykkis vid bændr ok sagde sua. ekki uil ek hallda strid uid ydr bændr þuiat ek uil minnigr uera huersu þer bændr settut uel a stofnn vid mig. tokut mig til konungs ukunnan mann ok hofut mik til rikis yfir land þetta. nu uil ek æigi vera suo vsannsærr at ǫmbuna sligt illu. en þa væri sua ef ek uillde nu her beriazst vid ydr ok gerde huorir ǫdrum sua mikit mannspell at sæint

[1]) þuiat æins *tilf. Cd.* [2]) stefndu *Cd.*

edr æigi bide þess bætr. nu uil ek hitt er huorumtueggium gegnir betr at uer hafim ok halldim vel uor j millum alla þa sætt er ver settum j fystu ok somdum med oss at huorir styde ok styrke adra til farsæligra luta edr framferda. uil ek fara til þangat sem þer hafit mest blot ok sea þar sidu ydra ok atferli. tokum þar rad uort allir samt um atrunadinn huornn uær uilium hafua ok verdum sidan a æitt sattir ok samþykkir um sidinn ok truna. En þegar at konungr talade linara til bænda þa linadizst hugr þeirra. for þadan j fra likliga med þeim allt vidrmæli ok sattgiarnliga. var þat radit at vera skyllde mids uetrar blot inn a Mære. skylldu þar til koma allir hǫfdingiar ok rikir bændr ór þrændalǫgum sua sem sidr þeirra var til. þar skyllde ok koma Olafr konungr.

### Her segir af Yriarskeggia. capitulum.

263. Skeggi het madr æinn bonde rikr hann var kalladr Jarnnskeggi edr Yriarskeggi. hann bio aa Upphǫrgi a Yrium. Skeggi uar fystr manna j moti konungi a þessu þinge ok hann var mest firir bondum at standa j gegnn kristninne. hann var æinnhuer mestr hofdinge af þrændum. þeir slitu þingenu med þessum hætti sem nu var sagt. foru bændr þa heim en Olafr konungr med lid sitt for til Nidaross ok settizst þar.

### Vmtal Kiartans ok annarra Jslendingha.

264. Olafr konungr hafde þar latit husa konungsgar(d) vm haustit ok flytia þangat til ǫll fǫng þau er hann þurfti til uetrsetu. þar let hann ok gera Klemens kirkiu. uar kirkia su algeor at iolum. ætlade konungr ok byskup at uæita þar iolatidir j kirkiunne. Atfangadag iola mællti Kiartan til sinna manna at þeir skylldu standa upp um nottina ok sea atferlli kristinna manna huersu at þeir flytti fram sin fræde ok þionkan vid gud sinn. Margir toku uel undir þat sǫgdu at þat munde uera mikil skemtan. gengu þeir til kirkiu um nottina Kiartan ok Bolli. þar var ok vid Hallfredr ok mart annarra islenzskra manna. heyrdu þeir þar klukna hliod ok fagran sǫng er þar var fluttr ok kendu sætan ræykelsis ilm. gengu Jslendingar æigi fyrr hæim til sinna herbergia en um daginn eftir hamessu. Tokzst umræda mikil huersu þeim virdizst sidferde ok athæfui kristinna manna. letu menn þar allmisiafnnt yfir. sidan var Kiartan eftir spurdr hueria virding hann uillde a hafua sidferde kristinna manna. Kiartan suarar. þat berr storu huersu mer þokkazst uel þeirra athæfui þui helldr sem mer kynnizst mæirr ok

iafnan hefir mer uel litizst a konunginn. en nu j dag fra þui agætliga sem fyrr sua at ek ætla þann betr hafa er honum hlydnazst ok væitir goda þionostu. ok er þat sannazst at segia at ek ætla þar vid liggia ǫll uor malskifti ok hamingiu at ver truim a þann gud er hann bodar. nu duelr mik æingi hlutr at ek geng æigi þegar til konungs ok bidia skirnarinnar vtan sa æinn at hann mun til borda genginn ok þat at ek uil æigi vnada konung edr kristna kennimeṁ a þessum degi er þeir kalla mykla hatid guds sins. þuiat mæire uon er at þat se starfui mikill at uæita oss ollum skipuerium þat embætti ok ætla ek þann dag dueliazst er uær latum allir skiraz. en med ǫngu moti ma Olafi konungi[1] vera annara til at þat verde framgeingt. er þat ok vstadfastligt at lata sua akafliga at æinhuerium lut at æigi fylgi hof edr stilling. edr huersu synizst þer þetta rad Bolli frændi. Bolli tok uel undir ok bat Kiartan rada beggia þeirra framferd þar vm. Konungr hafde enn sem fyrr setta menn til vm daginn at verda visir huat Jslendingar talade. uoru honum sogd þessi ord adr sa dagr var allr.

## Fra Olafi ok Kiartani.

265. Annan dag jola þa er konungr var klæddr sende hann til Kiartans ok bat hann koma a sinn fund. Kiartan kom til konungs med nǫkkura menn ok kuaddi hann. Konungr fagnnade honum blidliga. en er þeir hǫfdu fa ord uit talazst þa baud konungr Kiartani at taka vit kristni. Kiartan [162] suarar. þui skal nu æigi næita ef ek skal þar firir fa ydra vinattu. Konungr quaz giarnna vilia væita honum sina vinattu. er mer sagt af hit liosazsta huat þer felagar hafit sagt j giær. hefir þu nokkut sannat ordzkuit uornn kristinna manna at hatidir eru til heilla bazstar. Sǫmdu þeir konungr þetta sattmal sin a mille. uar Kiartan þa skirdr ok Bolli frændi hans ok oll þeirra skipshǫfnn. hafdi Olafr konungr (Kiartan) ok Bolla i iolabode sinu ok var honum allkært til þeirra. þat er sǫgn flestra manna at þann dag gerdizst Kiartan handgæinginn Olafi konungi er þeir Bolli foru or huitauodum.

---

## Hallfredr hitti j fystu Olaf konung.

266. Olafr konungr gek æinn dag vti um stræti en nokkurir menn gengu j mot honum. sa fagnade konungi er fystr gek. konungr spurde

[1]) konungr *Cd.*

hann at nafnni. hann nefnndizst Hallfredr. (Konungr mællti.) ertu skalldit. Hann suarar. kann ek at yrkia. Konungr mællti. þu munt vilia trua a sannan gud en kasta forneskiu ok illum atrunade. þu ert skoruligr madr ok æinardligr ok er þer æinsætt at þiona æigi læingr fiandanum. Hallfredr suarar. uel getr þu um talat konungr en æigi mun ek þo lata skirazst kauplaust. Konungr mællti. huat er til mællt. þa sagde Hallfredr. þat at þu sialfr uæitir mer gudsifiar af ǫngum ǫdrum uil ek þat embætti þiggia. Konungr sagde at hann mun þat til vinna. Var Hallfredr þa skirdr ok allir hans skipueriar. hellt Olafr konungr Hallfredi undir skirnnn. þess getr Hallfredr j æinu kuæde er hann orti um Olaf konung.

Hlaut ek þann er æzstr var æinna
ek sanna þat manna
undir nidbyrdi nordan
nordr gudfǫdur ordinn.

Sidan var Hallfredr skirdr. fek konungr hann j hendr modurbrædrum sinum Jostæini ok Kallhofud at þeir skylldu kenna honum Credo ok Paternoster. toku þa ok tru bændr margir ok þeir brædr synir Breidarskeggia[1] ok allir Jslendingar þeir sem þar voru j bænum.

## Fortolur konungs vid bændr.

267. En er a læid iolin þa sendi konungr bod inn a Strandir ok vt j Gaulardal ok sua j Orkadal ok baud til sin hǫfdingium ok ǫdrum storbændum. en þeir kuomu til konungs allir er hann hafde ord til sent. þa tok konungr vid þeim med hinum mesta blidskap ok let gera þeim fagra uæizslu. var væitt af kappi sua at hit fysta kuelld urdu allir bændr druknir forkunnar miog þeir er nykomnir uoru ok um nottina eftir suofu allir menn þar j ro. Vm morgininn er konungr var klæddr let hann syngia ser tidir. en er messa var sungin let konungr blasa til husþings. for hann sealfr til þings med sina menn. En er folkit var komit ok þingit uar sett þa stod Olafr konungr upp ok talade. hann sagde sua. ver attum þing inn a Frostu. baud ek þa bondum at þeir skylldu lata skirazst en þeir budu mer þar j mot at ek skyllde huerfa til blota med þeim. kom þat asamt med oss at ver skylldim finnazst inn a Mæri ok gera þar bloth mikit. nu er þat ollum monnum kunnigt at ek hefui godin j marga stade suiuirt ok allan eytt þeirra atrúnat. firir þui uæit ek at mikils mun vid þurfa at gera þeim til þakenda til þess at þau uile þiggia mina þionustu ok snua fra mer sina grimma ræide ok lati mik hallda minu

[1]) Brediarskeggia *Cd.*

riki ok sæmd. nu ef ek skal til blota huerfa ok liknnazst vid godin þa uil ek gera lata hit mæsta þat er monnum er tijtt ath blota monnum. skal æigi til þess uelia þræla edr illmenni helldr hina agætazstu menn ok rika bændr. nefni ek þar til Orm lyrgiu af Medalhusum ok Styrkar ok Gimsum. Karr af Grytingu Asbiornn þorbergsson af Ornesi Ormr af Lyxu Halldor af Skerdingstediu. nu eru þessir allir her vid staddir. enn skal til nefnna adra .vi. þa er æzstir eru ok mestir hofdingiar af Jnnþrændum. skal þessum monnum ǫllum blota til árs ok fridar. en firir þui at brad naudsyn er til at ver mykim nǫkkut þo at æigi se miog at sinne reidehug godanna er læingi hefir hardnat ok aukizst oss j gegnn af uorum motgerdum margfolldum vid þau ok vvingiarnnligum framferdum en þat j annan stad at ydr man allant til vera at taka af þeim ǫmbun yduarar þionustu þat er at samlagazst vm sid þeirra fagnnade ok felagskap er þer hafit sua læingi til stundat med allre alvoru þa skal nu j stad uæita ydr ollum atgongu er til vorut nefnndir þessarar sælu er þau munu ydr uæita firir æfinliga astar þionustu. nu þurfui þer æigi at blana edr bliknna vid þessi min ord þuiat ef god ydr eru sua mattug sem þer segit þa munu þau gefua ydr æilifua sęlu j verkakaup allra hellzst[1] ef þer þolit dauda firir þeirra sakir a ofan yduart æfinligt starf. en ef sua er sem mer synizst at helldr hryggizst ydrar asionur ok hyggi þer æigi iafnngott til godanna samlags sem margr munde ætla þa mun sua synazst at þer efizst j vm [363] þeirra almatt. nu ferr suo sem ek væit at þer hafit þau rad sem ek mun kenna ydr. trui þer alldri sidan a þa fiandr er ǫngua ombun mega uæita sinum þionum vtan þat er þeir hafua sealfir þat er æilifr bruni heluitis pijsla. snuizst helldr til guds þess er sua er mattugr milldr ok godgiarnn at huerium sinum þionustumanni (gefr) æilijfa sælu ok vendiligt riki med sealfum ser j himnarikis dyrd eftir þetta fatækliga lif sem ver hǫfum j þessarri veslu verolld. þat riki gefr allzualldande gud æigi sidr hinum fatækazsta en rikum konungi ef honum þionar med sannri tru ok godum verkum. suo hit sama þeim er allan sinn alldr hafua honum uæitt motgeordir ok snua algerliga a ǫruasa alldri til hans miskunnar sem hinum er allt fra barnnæsku hafua honum þionat. Lauk konungr suo rædu sinne at allir bændr þeir er þar voru komnir jattudu at trua a sannan gud ok badu konung grida. sidan voru þeir skirdir allir ok uæittu konungi suardaga til þess at hallda retta tru en leggia nidr allan blotskap. hafde konungr þessa menn alla j bode sinu þar til er þeir fengu honum j gijsling sonu sina edr brædr edr adra nafrændr.

[1]) at *tilf. Cd.*

### Skirdr Kiartan ok Bolli ok Hallfredr(!).

268. Olafr konungr for um uetrinn eftir jol inn til þrandheims. uoru þa j for med honum Kiartan ok Bolli ok Hallfredr skalld ok margir islenzskir menn þeir er þa voru med konungi nyskirdir. konungr hafde þar ok med ser annat lid bæde mikit ok frijtt. En er hann kom inn a Mæri þa voru þar firir hôfdingiar þeirra þrænda allir þeir er mest mælltu j mot krist(n)inne ok hofdu þar med ser alla storbændr þa er fyrr hofdu uanir verit at hallda upp hofudblotum j þeim (stad). Var þa saman komit allmikit fiolmenni ok eftir þui sem fyrr hafdi samit verit a Frostuþingi sagde konungr at hann uillde þar þing hafa. bændr letu þat til ræidu. gengu huorirtueggiu med aluæpnni a þingit. ok j fystu geordizst hark mikit ok haræysti. ok er þat setnade ok hliod gafzst baud Olafr konungr bændum kristni enn sem fyrr. Jarnnskeggi suarar þa enn mali konungs af bondum ok mællti sua. nu er jafnt sem fyrr Olafr konungr at ver bændr vilium æigi at þu briotir lôgh a oss. er þat vili uorr allra at þu blotir sem adrir konungar her j lande hafua gert firir þer ok sua adrir hofdingiar þrænda ok allt annat stormenni þessa landz Sigurdr Hladajall ok Hakon son hans er nu uar næstr hofdinge yfer mestum luta landzsins. var hann agætr madr firir uitz sakir ok hardfæinge þoat hann væri æigi konungr. var langa stund hans riki alluinsællt ok med ollu ekki var hann firir þat fra riki radinn at hann færi med slikar lôgleysur at menn skylldu æigi trua a þann gud er huerr uillde. nu var Hakon Adalstæinsfostri enn sa er slikan bodskap hof. urdu þrændir vid þat bæiskir sua at þeir letu konungi æigi uhætt ef hann helldi sliku fram ok syndizst honum at sueigia til vid bændr eftir fortolum Sigurdar jalls ok annarra vina sinna. ok mun þer þat æitt hæfua at gera sua sem ver uilium ok sogdum þer firir a uetri þuiat ekki hefir oss hugr horfit vm atrunadinn. Bændr gerdu mikinn rom at mali Skeggia. sogdu at þeir uilldu suo allt vera lata sem hann hafde talat. þa mællte konungr. sua uil ek gera sem talat var aa Frostuþinge at ek vil nu ganga j hofit ok sea atferlli ydr ok tilbunat blotanna. Skeggi suarar. þa gerir þu uel konungr ef þu helldr þat er þu hefir talat fyrr vid oss bændr at þu liknazst vid godin. hyggium vær þat æina hæfa munu þer ok huerium annarra þeim sem vid þau hafua misgort marga hluti ok stora ok mykia þeirra ræide. uarir mik ok ef þu ser þor gud uornn ok allan hans umbunat at þer litizst hann þui uegligri sem þu hyggr gerr at honnm ok uandligar. Sidan gek konungr inn j hofit med fa sina menn ok nokkurir af bondum foru þangat med honum. allir voru þeir uopnnlausir er inn gengu vtan sealfr

Olafr konungr hafde refde æitt gullbuit j hende ser. En er þeir kuomu j hofit skorti þar æigi skurgod. þor sat j midiu hann var mest tignadr. hann var mikill ok allr buinn gulli ok silfre. sa var umbunadr þors at hann sat j kerru. hon var miog glæsilig. firir henni voru beittir tre-hafrar .ij. hardla uel geruir. a huelum lek huortueggia kerran ok hafrarnir. hornnatog hafranna uar slungit af silfri. allt var þetta smidat med undarliga myklum haglæik. Konungr stod ok læit a likneskiuna. Skeggi sa þat ok mællti. huort kemr at þui sem ek gat fyrr at þer munde uel litazst a þór ef þu sæir hann þuiat mer synizst sem þu litir nu vinar augum til hans. Konungr suarar. æigi þikiumzst ek her þor sealfan sea helldr likneski gert eftir. þuiat ek uæit æigi at hon hafui nokkut megn j moti son(n)um gude. en ek uæit uislega at guds skepnna er til hennar [164] hôfd ok þui kann ek ekki at suiuirda hana suo buit med minu alite. þuiat ek hygg at hann megi þui sidr moti gude at mer þikir sem hon mune ekki mega at hafazst þo at ek edr minn make brenne hana edr brioti. Skeggi suarar þat hygg ek at æinge madr sa er her er nu j hofinu se sua hardr eda diarfr at þora mune at briota edr brenna likneski þors. med þui at hann mun uallda mega at þat verde æigi ok sua sakir þess at margir ok mikils verdir vinir hans standa her nu alla uega umbergis hann bædi her j hofinu ok suo vti firir þeir er sterkliga munu strida moti hans grimmum vvinum ef þarf þeim er honum vilia grimmliga granda. ok trui ek þij konungr at þu skilir at æigi þer ok ôngum ôdrum er þat rad at hæitaz vid þor helldr hæfir hitt at firir mikinn motgang er þu hefir vid hann haft væitir þu honum nu nôkkura virding. Konungr suarar. til huers mælir þu þar vm. Æigi til mæira sagdi Skeggi en þu hæimtir at þer litt þat hornnatog hafranna er firir eru bæittir kerru þors sua at þadan af megir þu skilia huersu uikianligr ok audradr hann uill vera ollum þeim er hann virda ok uegsama. Konungr suarar. æigi tel ek þor þess makligan at nokkur rettruadr madr tigne hann ok uist æigi þiki mer þu þess verdr at ek geri nokkut firir þin ord. en ef ek vissa at þu uilldir trua a drottin minn Jesum Cristum er konungr er allra kon-unga þa munde ek undir hans nafni ok sealfum honum til sæmdar ok virdingar en þer til healpar ok hæil-u gera þat er þu beiddir. ok ef þu Skeggi uilldir skirnn taka ok þiona þeim gude er ek hefui þer bodat nu ok fyr skyllda ek uppgefa þer þinn motgang huernn er þu hefir mer synt ok morgum hlutum eftir þinum uilia uikia þeim er badum okkr heyrir uel at gera. Skeggi mællti. þat ueitzstu konungr at sua kann oftliga til at bera at margr verdr mikils hattar madr med

litlu lokkadr til at gera þa hluti er þeim þikia mikils verdir er bidia. ma ok vera at sua fari med okkr. Konungr suarar. þa skaltu vita Skeggi at huat sem ek fer her fram at sinne þat geri ek allt firir sakir dyrdar drottins mins Jesu Cristi ok af þui skaltu geyma ok gabba huorki mig ne hann. Skeggi mællti. ger þu fyst þat er ek bid þig. Konungr gek þa til kerrunnar ok signnde sig. sidan hæimte hann hornnatogit en hafrarnir gengu auduelliga eftir. Skeggi hlo þa at ok mællti. huat er nu konungr hefir þu nu vingazst vid þor ok georzst nu þegnn hans ok þionustumadr. ek hefui set nokkura konunga ok sögur af þeim heyrdar ok hefui ek öngua frett af at nokkurr þeirra hafi leitt eyki þors ok þui synizst mer sem þu hafir mikit hlydnimark vid hann gert ok þig undirokat hans þionustu ok annarra guda uorra. Konungr var þa miog ræidr ok mællti sua hatt at uel mattu heyra þeir menn er firir vtan voru hofit. sagde ek þer Yriarskeggi ok ollum þeim er her eru j hofinu ok enn segi ek huerium manni er nu ma heyra min ord ok minar framferdir þær sem ek hefui her uit fo(l)k j Noregi ok huar annarstadar er ek hefui komit edr ek kann at koma. uillda ek at hinum hæsta gude mætti verda til hæidrs ok agætis en mer til saluhialpar en ollum þeim til nada ok nytsemda er uel uilia gera hafa ok hallda hiartaliga firir minar fortölur hans blezsudu bod-ord en hinum er honum hafnna ok hans atrunade uillda ek at minar gerdir kæmi til hefnndar ok hirtingar suo framt sem ek ma vid komazst at ombuna huorumtueggium sinar tilgerdir. firir skommu kenda ek þer Skeggi ath þu skylldir æigi gabba guds nafnn. en þu þar j mot hlott hædiliga ok hæimskadir sealfan þig en hæddir mig. þu trudir ok æigi þui er ek sagda at ek munda meira virda minn lauard ok lausnara allzualldanda gud helldr en þor edr fiandann fodur þinn. þu kalladir mig þegnn ok þionustumann þors en ek hygg at ykkr skal at ödru uerda. uillda ek at þu profadir eftir litinn tima hueria virding ek uil uæita þor edr huort ek kann þer at refsa þina illzsku ok vdadir. en þo at ek drepi þig æigi greidliga minum hondum ok brytia ek þig sua j brad firir fiandann j heluiti þa skal þer nu at verdugu skamt til illz ef ek ma rada. Ok þa er konungr hafde þessa hluti talat reidde hann refdit ok rak vid eyra þor sua fast at hann fauk ór kerrunni fram a golfit ok brotnade miog. hlupu þa til konungs menn þeir er inn hofdu gengit med honum j hofit ok skyfdu skurgodin af stöllum. En er Skeggi sa þat brazst hann vid suo sem odr ok ærr ok æpte ok eggiade alla þa menn er honum uilldu lid uæita at hefnna [165] gudanna. sidan strauk hann hart vt j hendr konungs monnum. en þeir eftir þui sem adr var

rad firir gert baru þegar uopnn a hann ok j þeirri suipan uar Jarnnskeggi drepinn vti firir hofsdyrum. sidan for konungr til manna sinna.

### Tal Olafs konungs vid bændr.

269. Nv er þar til at taka at bændr gerdu þys mikinn hark ok hareysti eftir drap Skeggia. Sidan stod konungr upp ok bat allt folk setiazst[1]. ok er suo uar gert stod konungr ok litadizst vm. Sidan tok hann suo til mals. her er margr madr saman kominn ok væri uel ef ydr syndiz bændunum at huerr yduarr væri suo audrum hæilradr sem þer erut hreystiligir at sia. en suo sem þessi fundr er fiolmennr þa var enn fleira folk a Frostuþinge. baud ek ydr þa sem nu sidaskifti ok atrunadar at þeir(!) skylldu næita diofli ok leggia nidr alla hans þionustu ok skurgoda blot en trua a sannan gud skapara allra hluta ok honum þiona med hræinu hiarta. hafda ek þar litt byriat mitt eyrende adr þeir gerdu þar at hark ok hareysti. fengut(!) til sidan æinn af sinu lide at flytia fiandans eyrendi. sleit suo þui þingi at ver lǫgdum her stefnu med oss a Mærinne. nu flutta ek fram þat sama guds bod ok mins drottins eyrendi ollum oss til healpar ok miskunnar ef þer uilldit uel undir uikiazst. en þer ok ydrir formælendr uorut nu allt framhuassari ok dia(r)fari i motmælum en fyrr. budu þer mer nu sem þa at huerfa til blota med ydr. toku þar til Hakon Adalstæinsfostra at mer mundi æigi duga vtan ek gerde eftir hans dǫmum. Hakon konungr var madr fridr ok fagr mikill ok sterkr umfram flesta menn um jþrottir ok at allri skapan enn likazsti sinum fǫdur Haralldi konungi. hafde hann ætt ok alla hluti til þess at vera æinuallzkonungr yfir Noregi. en ekki lof uæiti ek honum firir þetta þuiat allt var honum þetta usialfratt helldr skapat ok skipat af sealfum gude. þar med gaf gud honum kynning sins nafnns ok enn umfram skipade gud hann halæitan hofdingia yfir sina fǫdurleifd ok gaf honum sealfræde sem huerium ǫdrum at gera huort er hann vill gott edr illt. en hueriu mundi hann ǫmbuna þeim er honum væitti þetta. þer bændr tokut þar til dǫma er Hakon konungr hof slikan bodskap sem uær berum nu fram ok fylgium. huersu ma sa hertǫgi sea læid firir sinum riddarum er hann blindir sealfan sig allra sannynda sealfuiliandi ok lætr uondan suikara læida sig langt af rettum veg j hendr sinum vvinum þeim er honum hrinda j diupa grǫf heluitis. huersu ma sa konungr kallazst er hinn herfuiligzsta vvin ok hinn illgiarnnazsta þræl lætr stiorna ser ok sinu riki. þer lofit þat bændr firir Hakoni konungi at hann let kugazst firir ydr sinum þrælum af sannre

[1] sættazst *Cd.*

tru ok hædde sua sinn herra ok halæitan skapara en suiuirde sealfuan sig ok sinn konungdom at hann gek til blota. [var þat[1] ungligt ok æigi mikilmanligt at vinna þat til þessa uesluga rikis ok stundliga stiornanda ok einkis er uert hea æilifum fagnade at næita gude sinum ok ganga ór hans þionostu þess halæita herra er honum hafde gefit suo marga goda hlute er fyrr uoru tiadir ok taldir. ok enn sua illt ok suiuirdiligt sem þat var at selia sinn drottin þa var hitt halfu haduligra at gerazst sua illr ættarspillir ok skemdarfull skræfua at uilia æigi aftr huerfa til sannynda helldr samdi hann sidan sætt uit þa er hann suiku fra gude. þuiat alldri hafde hans fadir suo gert. Haralldr konungr uar hæidinn ok uissi ekki til guds ok let hann drepa alla þa menn er hann uisse er framazst voru j fiolkynge ok fiandans þionustu. finzst þat ok j hans ordum at hann hafui uænt ser nokkurs trautzst af þeim er hann hefir skapat þo at hann hefdi æigi full- uissu af huerr sa gud uar. ok verdr þa þo mikill munr þess er æigi tok retta tru ok græidde þo til guds huginn med godri natturu edr hins er hlaut hæilaga skirnn ok hafnade sinum (skapara ok) hans bodordum. nu skal enn aftr uikia ordrædunni til yduar bondanna. hædiliga hofudskǫm henti ydr at þer kugudut kristinn konung af rettri tru ok þa er hann uillde greida firir ydr guds gǫtu felldu þer hann j forat. hefir mer ok georlla ok glǫggliga fra verit sagt huersu glæpiliga gerd þer fromdut vit yduarnn formann. su uar hin fysta at þer budut honum a samkundu at snæda med ydr ok j þui samsæti suiku þer hann slægliga ok badut hann blota. en hann næittade þui þuerliga ok þo drak hann med ydr minne ok gerde kross yfir. þat sa æinn af ydrum monnum ok mællti. hui ferr konungr nu suo. Sigurdr jarll suarar. uel for konungr þuiat hann gerde nu hamar ok drak minne þors. þat er uist at vita at jall talade þesse ord af illgiornnum anda sem sidan profuadizst. onnur var su ydr giord at þer gintut konunginn til at gina yfir [166] ketilhǫddu þuiat hann hafde adr firir kuedit at eta hrossa kiǫt edr drekka sodit sem þer badut en hann gek til ok gæin yfir hǫdduna. ok firir þenna yduarnn glæp skal ek lata gǫmul jarnn gina yfir ydra suira ok hefnna suo Hakonar konungs þo at hann færi flatliga. þa var su enn udæmilig ydr gerd hin þridia at þer badut konung bita a hrosslifr sem ugganda er at hann hafui gert. þar firir skal ek lata ydr bergia bæiskum dauda. munu þa sidan haduligir hǫggormar ok heluitzskir hundar þat eru daligir dioflar draga ydr ok drekkia j diup heluitis ok bæiskliga bita særa ok slita salir ydrar ef þer uesalir vilit æigi adr

[1]) [vard *Cd.*

bæta þat er þer hafit brotit. en þar sem þer vikut til Hakonar jalls þa matti hann helldr kallazst heruikingr en hôfdinge þuiat hann hafde til þess burde[1] at vera jall yfir ættlæifd sinne en hann drap hofdingia þa er rettbornir voru til landz þessa ok hann atti vndir at þiona suma med bardaga suma med undirhyggium ok suikum ok tok suo rikit undir (sig). hann tok skirnn j Danmôrk þo at naudigr at bode Haralldz konungs Gormssonar ok allir hans menn þeir er þar voru ok het þui med suardaga Haralldi konungi at lata kristna allt folk j Noregi. en adr hann for or Danmôrk sende hann fra ser aftr til konungs alla þa kennimenn ok klerka er Haralldr konungr hafde fæingit honum ok gerdizst hinn rammazsti gudnidingr þui ollu verri en Hakon konungr at jall dro ekki til aftrhuarfs vtan æiginlig illzska med fiandans flærd. var ok þess uon at illr auðxstr mundi upp renna af illri rot þuiat Sigurdr jall var hin mesta gilldra ok snara tion ok tapan Hakonar konungs med kugan annarra hofdingia ok sialfs hans uæikleika. sua at þat ma sannliga segiazst at Sigurdr jall uar at uisu uargr undir saud hia Hakoni konungi ok suæik hann med slęgligu yfirbragde. en kon-ungrinn uar þa miog uminnigr gudspiallzsins orda huer suo segia. hyggi þer at falsligum spamonnum huerir til yduar koma j sauda-klædum en firir innan eru þeir skædir uargar. sua synndizst þessi jall hægr sem saudr en jnnan var hann flærdarfullr ok lygi. ok þui var þess uon at ill rot munde illan auðxst gefua sem fyr sagda ek. þuiat illt tre ma æigi godan auðxst gefa helldr skal þat vera upp hoggit ok j elld kastat. þess hafde fyrr nefnndr Sigurdr jall fullar raunir þa er hann var inne brendr af vvinum sinum ok suikinn adr slægliga. gallt hann suo sinna glæpa þessa (hæims) ok mun æilifuliga brenna j oslokkui-ligum loga. nu þo at þer lofit hardfæinge ok hofdingskap Hakonar jalls firir sigr þann er hann syndizst vinna a Jomsuikingum þa er þat sannara at æigi vann hann þann sigr med sinum fræklæik helldr med fiandans krafti ok suo mikille illzsku at hann gaf fiandanum opinberliga sinn son .vij. uetra gamlan ok æigi sidr sealfan sig. nu er ydr þat uonleyse at ek ganga af hæilagre tru ok elsku uors drottins Jesu Cristi firir ydr ord huort sem þer talit vid mig blijtt edr strijtt þuiat alldri skal ek suo uirda litils ok suiuirda mina tignn at gefuazst undir ualld vuinarins sem þessir gudnidingar er ver hofum nu um talat. en æigi þarf þetta leingr firir ydr at draga. takit nu j stad allir vid kristni en at ôdrum kosti halldit vid mik bardaga. skulu þer þat þo uita at her eru myklu fleire minir menn en þer ætlit Jnnþrændir. þiki mer ok þess

[1]) bæde *Cd.*

von at ver hafim komit j meire mannraun en beriazst vid bondkalla edr þorpara her j þrandheimi. Lauk konungr suo sinne rædu. en þui at Skeggi var drepinn þa vard æingi til at gerazst formadr firir bondum ok bera merki moti konungi. uard hinn kostr tekinn af ǫllum at gefazst upp a ualld konungs at hlyda þui sem hann baud. þa let konungr skira þat folk allt er þar var adr uskirt ok tok gislinga af bondum til þess at þeir skyllde hallda kristne sina. Sidan let konungr sina menn fara med lærdum monnum um ǫll fylki j þrandheimi. mælltu þa ǫnguir j mot kristni ok var allt folkit skirt j þrændalǫgum. For Olafr konungr med lid sitt vt til Nidaross ok settizst þar. en bændr fluttu lik Jarnnskeggia vt a Eyrar ok liggr hann j Skeggia haugi j Austratt.

### Saattmaal Olafs konungs ok (frænda) Jarnskeggia.

270. Olafr konungr gerde stefnulag vid frændr Jarnnskeggia ok baud þeim bætr firir uig hans. uoru þar margir menn gǫfgir til andsuara ok eftirmals. Skeggi atti æina dottur er Gudrun het. þar kom at lyktum sattmal Olafs ok frænda Jarnnskeggia at Olafr konungr skyllde fa Gudrunar. En er brudkaups stefnna su kom þa gengu þau Olafr ok Gudrun j æina sæng. en þegar hina fystu nott er þau lagu bæde samt ok Gudrun ætlade at konungr munde vera sofnadr þa bra hon knifui ok ætlade at leggia konunginn. en konungr uakti ok uard þegar uarr uit. græip hann af henni knifinn ok stod upp ór sænginne. gek hann til manna sinna ok sagde vm huat læika var. Gudrun tok [167] klæde sin ok allir þeir menn er henni hǫfdu þangat fylgt ok for sidan burt. kom Gudrun alldri sidan j sæng Olafs konungs.

### Olafr konungr leet reisa skipit Traununa.

271. Enn sama uetr let Olafr konungr ræisa langskip mikit a eyrunum vid Nid. hafde hann þar til marga smidu ok gek suo fram smidin. þat var snekkia. skipit var .xxx. at rumatali stafnna hatt ok helldr miott ok ekki bordmikit. þui kallade konungr þat Trǫnuna. Kiartan Olafsson ok Bolli uoru med konungi vm uetrinn sidan þeir toku tru. konungr mat Kiartan umfram alla islenzska menn firir sakir ættar ok atgerui. er þat alsagt at Kiartan uar sua uinsæll at hann atti ser ǫnguan ofunndarmann jnnan hirdar. þat uar ok allra manna mal at æige hefde slikr madr komit af Jslande sem Kiartan. ok Bolli frænde hans hann þotti ok hinn uaskazsti madr.

### Fra konungi ok Hallfredi.

272. Hallfredr skalld Ottarsson uar med Olafi konungi. hann gek æinn dag firir konung ok bad hann hlyda kuæde þui er hann hafde ort um hann. Konungr kuetzst æigi uilia hlyda kuæde hans. þa mællti Hallfredr. þui muntu rada herra. en tyna mun ek þa þeim frædum er þu hefir latit kenna mer ef þu uillt æigi hlyda kuędinu þuiat ekki eru þau fræde skalldligri en kuædit er. þa mællti konungr. uandrædaskalld ertu vid at æiga ok skal hlyda kuæde þinu. Hallfredr flutti kuædit skǒruliga. þat var drapa. þa mællti konungr er lokit var quædinu. þetta er gott kuædi ok uel ort. uilltu nu geraz minn madr ok verą med mer. (Hallfredr suarar). ek var fyrr hirdmadr Hakonar jalls. nu mun ek ekki gerazst þer handgenginn ok ǒngum ǒdrum hǒfdingia nema þu hæitir mer þui at mig hendi ǒngua þa hluti at þu segir mig þer afhendan ne rekir mig fra þer. Konungr suarar. þann ueg er bragd a þer at þu munir faas suifazst ok latir þer mart soma. ganga ok sǒgur helldr fra lynde þinu þær at mer þikir æigi ǒruænt at þu farir nokkurum hlutum þeim fram at ek uil firir ǒngan mun sæma. Hallfredr suarar. þar kann ek skiott rad til. drep þu mig þa. Konungr mællti. vist ertu vandrædaskalld en minn madr skaltu þo vera ok hafa samt vidrnefnnit sagde hann. (Hallfredr mællti) huat gefr þu mer at nafnnfesti ef ek skal vandrædaskalld heita. Konungr suarar. se ek at þetta uilltu æiga kenningarnafnn ok þigg af mer suerd helldr fritt. en vandi mikill mun þer a þikia þui at æinge skal vmgerdin fylgia ok varduæit sua .iij. nætr ok .iij. daga at ǒngum uerde mæin at. þa quad Hallfredr visu.

Veit ek at visu skreyti
uidlendr konungr sende
nǒktan brand af nǒkkui
nu at syrar mey dyra.

verda hiollt firir herde
hǒfum gramr kera framdan
skolkuings vm þa ek skialga
skrautlig konungs nauti.

Uel gat Hallfredr uarduæitt suerdit. Hallfredr lastade ekki godin þo at adrir menn hallmællti þeim. quat ekki þurfa at amæla þeim þo at menn uillde æigi trua a þau. Hann kuat þetta æinn tima sua at konungr heyrde.

Fyrr var hitt er harra
hlidskialfan gat ek sealfan
skift er a gumna giftu
gedskiotan uel blota.

Konungr mællti. þetta er allilla kuedit ok er yfirbota vert. Hallfredr quad.

Aull hefir ætt til hylli
Odins skipat liodum
algillda man ek alldar
idiu uorra nidia.
em ek traudr þui at uel Uidris
ualldit hugnadizst skallde
legg ek a frumuer Friggiar
fion þui at Kristi þionum.

Konungr mællti. allmikinn hug leggr þu a godin ok er þat illa virdanda firir þer. en þo er nidrlag visunnar betr kuedit en okuedit. þa quad Hallfredr visu.

Hǫfum holda ræifar
hrafnnblotz goda nafnni
þess er ǫl uit lof lyda
lom ǫr heidnum domi.

Konungr mællti. æigi bætizst enn vm ok yrk adra til yfirbotar. þa quad Hallfredr visu.

Mer skyli Freyr ok Freyia
fiard læt ek af dul Niardar
likniz grǫm vid Grimne
gramr ok þorr hinn ramme.
Krist bid ek allrar astar
erum læid sonar ræide
uallda fræknnum folldar
fedr æinn ok gud kuedia.

Konungr suarar. sligt er alluel ort. ok yrk enn. Hallfredr quad.

Sa er med Sygna ræsi
sidr at blot eru kuidiut
þar uerdr flest at fordazst
fornnhalldin skǫp nornna.
lata allir ytar
Odins blot firir roda
nu er ek neyddr fra Niardar
nidium Krist at bidia.

## Fra konungi ok Ottari.(!)

273. Ottarr het madr en Kalfr annarr. þeir voru brædr ok upplenzskir at ætt en sum uar nordr a Halogalandi. þeir uoru med hird Olafs konungs uel metnir af konungi en ekki uinsælir af alþydu. þeir ǫfundudu Hallfred skalld. þotti þeim hann hafua of mikinn gang af konungi en Hallfredr uillde ekki uggia firir þeim. Uar þat æitt kuelld vit dryk at slo j deilu mykla med þeim. var konungr uit ok bar hann helldr j hag þeim Ottari ræduna þuiat hann sa at Ottari mundi æigi endazst at þræta vid Hallfred. Ok er konungr uar burt genginn uoru þeir at endrnyia sina deilu ok um sidir slo j kappmæli med þeim. sagdi Hallfredr at Ottarr mundi ser litt æinhlitr ef þeir ættizst illt vid. lauk suo þui mali at Hallfredr hliop upp ok hio til Ottars med ǫxinne Hakonar naut jalls ok uæitti honum banasaar. Kalfr þræif Hallfred ok menn med honum. settu þeir fiotra a fætr honum ok bundu [168] hendr hans. uoru þat lǫg at þann mann skyllde drepa at mann dræpi inne j kon-

ungs herberge. Sidan foru þeir Kalfr til konungs ok sǫgdu honum uigit Ottars. kuodu þa sea mega huat manna Hallfredr var. mun hann sua ætla at bledia hirdina sagde Kalfr ok er æigi vist huort hann hlifir hofdinu ef hann kemzst j fære vm. Rægde Kalfr ok hans felagar Hallfred alla uega sem mest þar til at konungr bad drepa hann um daghinn eftir. Kalfr vard vit þat gladr ok varduæittu þeir Hallfred j jarnnum vm nottina en læiddu hann vt vm daginn eftir ok ætludu at drepa hann. þa mællti Hallfredr. er sa daudr at ek uann aa. þeir sogdu at sua uar. Hallfredr mællti. þa man ydr makligt þikia at ek deyi. edr huar er Olafr konungr. Kalfr mællti. huat mun þig þat varda. til dauda hefir hann nu dǫmt þig adr. (Hallfredr mællti). ef nǫkkurir menn eru her nærr staddir þeir at ek hefui uel til gort þa launi þeir mer nu sua at ek se læiddr þar nær sem konungrinn er. uil ek þakka honum hirdvist. þa kom þat fram sem mællt er at huerr a ser vin med vvinum. voru þeir menn þar at vid konnuduzst at Hallfredr hafde þeim uel til gort ok leiddu hann þadan skamt fra sem konungr uar uti staddr ok Sigurdr hirdbyskup hans. En er Hallfredr kom nærr þeim þa mællti hann til konungs. minnizst þer herra at þer hafit mer þui hæitit at segia mig ydr alldri afhendan. ok verdit æigi hæitrofa vid mig ella mun uor samuist skemri verda en ek uillde at uæri. sa er annar hlutr til at telia at þu ert gudfadir minn. Byskup mællti. firir guds sakir herra latit manninn niota slikra hluta suo storra. Konungr suarar. sua skal vera byskup sem þer bæidit. ok bat leysa hann skiott. Var þa sua gert ok likade Kalfi allþungt. Hallfredr uar enn med hirdinne ok uar konungr þo færre til hans en adr en þo bætti hann þetta uig firir Hallfred. þat var æinn dag at Hallfredr stod firir konungi. fell hann þa til fota honum. konungr sa at hann fellde taar ok spurde huat honum þætti suo mikit. Hallfredr suarar. nær fellr mer konungs ræidin ok henni uillda ek af mer koma. Konungr suarar. suo skal uera. þu skalt fara sendifǫr mina ok skulu vit þa sattir ef þu kemr henni fram. edr huort attu suerdit er ek gaf þer. A ek uist herra segir hann ok hefir þat ekki sidan j vmgerd komit. en þo hefir ǫngum manni mæin at þui ordit. Konungr mællti. þat samir ok at vandrædaskalldit æigi uandrædagripinn edr muntu yrkia kunna visu sua at þu nefnir suerd j hueriu visuorde. Hallfredr suarar. vit mun ek læita ef þer uilit ok allt til vinna at koma af mer yduarre reide. þa quad Hallfredr.

Eitt er suerd þat er suerda
suerdaudgan mig gerde
firir suipniordum suerda
suerdott mun nu uerda.
munat uansuerdat uerda
uerdr er ek þriggia suerda
iardarmens ef yrde
vmgerd at þui suerde.

Konungr þakkade honum visuna ok kuat honum mykla jþrott at skalldskap sinum ok gaf honum þa umgerd at suerdinu miog vandada ok mællti. nu skulu vit sattir ok þo at þig hende vite at þu komir æigi til borda edr kirkiu sem adrir menn edr annat sligt þa skal þer upp gefa framar en flestum ődrum. Hallfredr þakkade konungi mikiliga sinn blidskap ok alla astut er hann uæitti honum.

## Hallfredr for til þorleifs.

274. Einn dag litlu sidarr bar suo til at konungr spurde huar Hallfredr skalld væri. Kalfr suarar. hann mun hafua uanda sinn ok blota a laun. er þat til marks at hann hefir j pungi sinum likneski þors gert af tőnn ok ertu konungr miog dulinn at honum ok færr hann æigi sannreyndan. Konungr let Hallfred þegar kalla til sin. ok er hann kom þa mællti konungr. ertu sannr at þui at þu hafir likneski þors j pungi þinum ok blotir. Æigi er þetta satt a mig sagt herra segir Hallfredr. ok er her skiot raun til. skal nu j stad ransaka pung minn. hefui ek nu ekki undanbragd maatt hafua þo at ek uillde þuiat mik varde ekki þessa atburdar[1]. Var þa rannsakat ok fannz æinge hlutr sa j vitum hans at til þess væri likligr sem Kalfr hafde sagt a hann. þa mællti Hallfredr til Kalfs. þetta er sannliga daudarog. skal þer ok þetta at hordu verda ef ek nai suo til þin sem ek uillda. þu hafdir enn fyrr tekit mig med ualldi ok uart þa buinn at uæita mer bana. var þa ok nőkkur sők til en nu æingi nema lygi þin ok rog. Konungr mællti. æigi er ykkur saman uært. nu skal Kalfr fara til bua sinna mun hann þa ekki rægia þig edr adra menn vid mig. en þu Hallfredr sagde konungr skalt fara sendifőr mina a Upplőnd til þess mannz er hæitir þorlæifr hinn spaki. þessi þorllæifr er dotturson þorllæifs Hőrdakarasonar. þorlleifr uill æigi vit tru taka. nu skaltu drepa hann edr blinda. skal ek leggia til þessar ferdar med þer gift ok hamingiu. hafdu ok suo marga menn sem þer likar. en sent hefui ek menn fyrr til þorleifs ok hafua þeir ő(n)gu til uegar komit vit hann þui er ek uillda. Hallfredr suarar. æigi synizst mer þessi ferd riflig en giarnna (vil ek) fara huert at þer uilit senda mig. uil ek at Jostæinn modurbrodir yduarr fari uid mer ok bekkiunautar minir þeir sem ek kys til sua at uer sém saman fiorir

[1]) r. aburdar

ok .xx. Sidan var buin ferd þeirra. ridu þeir til þess at þeir kuomu j skog æinn skamt fra bæ þorleifs spaka. þar stigu þeir af hestum sinum. þa mællti Hallfredr. nu skal ek ganga til beiar en þer skulut bida min til þridia dags ef þess þarf. en þer farit aftr læid ydra ef ek kem æigi aftr um þat. Jostæinn baud at fara med honum en Hallfredr [169] uillde þat æigi. Hann tok ser stafkalls gerui ok breytti sem mest asionu sinne. hann let liggia(!) lit j augu ser ok sneri huðrmunum vt ok let rida kolum ok læir j annlit ser. hann let gera ser mikit skegg ok let þat lima vid hðku ser ok kialka. Var hann þa med ðllu okenniligr ok gamalligr. lagde hann a bak ser æinn torfa næfra bagga[1] languaxinn ok uar þar j suerdit konungs nautr. gek Hallfredr sua buinn hæim a bæinn snemma dags. þorleifr uar þui uanr sem miog uar fornnmennis hattr at sitea longum vti a hðgi æinum æigi langt fra bænum. ok sua bar nu a moti at Hallfredr kom at haugnum. for hann helldr uesaliga ok stumrade miog. hafde kall þrong mykla ok hrækti j skeggit. rende til ðgum þo at oskygnn væri ef hann sæi nokkut manna vti. en er hann kom upp a hðginn hæilsade þorleifr honum ok spurde huerr uæri. Hann suarar. ek er fatækr madr gamall hrummr af uose ok nu mest af kuldum er ek hefui ŕekizst vti j allan uetr a mðrkum ok skogum. uard ek firir monnum Olafs konungs snemma a hausti nordr j þrandheimi. uar ek færdr konungi ok let hann briota mig til kristni en ek hlupumzst a brott leyniliga ok drap ek adr æinn konungsmann. nu hefir mig angrat sidan frost er ek hefui farit huldu hðfde. en ek munde enn bratt hressazst ef mer væri uit hiukat ok hefui ek þui hingat farit at mer er sagt at þu ser godr dræingr ok morgum hialparmadr þeim er þin þurfua. þui uil ek bidia at þu uæitir mer asio nokkura. þorleifr suarar. æigi uæit ek huat af þui verdr en þo munt þu uida verit hafua ok vera madr frodr ef þu ert madr gamall. hefir þu ok tungubragd ekki omiukligt. Tok hann þa at spyria hann margra hluta um landaskipan ok ðrnefnni. Karll leysti ór þui ollu frodliga sem hann spurde. þorleifr mællti. uar nðkkut sa madr med Olafi konungi at Hallfredr het. sa madr dreymir mig oft en þo er þat umerkiligt. en koma munu her konungs menn bratt. Kall suarar. heyrt hefui ek geti(t) Hallfredar ok sialldan at godu. hafde ek þess ok fullar raunir at hann uar þar æinn manna þeirra er mig færdu konungi. J þessu stumrade kall upp a hauginn til hans. þorleifr mællti. æigi væit ek huat manna þu ert edr huat þu segir en æigi uerdr þu mer allitill firir ðgum. Ætlade hann þa upp at standa en Hallfredr þræif til hans ok

[1]) *r. enten* torfabagga *eller* næfrabagga

keyrde undir sig þuiat hann uar myklu sterkari. þeir ulltu ofan firir hauginn ok uard Hallfredr efri. hann setti þegar hæl a augat þorleifi ok hleyfti vt ór hôfdinu. þa mællti þorleifr. nu kemr þat fram at mer hefir læingi otti at verit at þer Hallfredr. en æigi ertu nu æinn at þessu þuiat konungs gæfan fylgir þer þuiat ek þikiumzst þat vita at þetta mun vera konungs bodskapr at þu blindir mig edr drepir. en nu uil ek bidia at þu gefir mer annat augat. en ek gef þer knif ok bellti ok er huortueggia gerssime en koma þer sidan at lide ef suo berr til þuiat uera kann at æinn tima þurfir þu fulltings manna. Hallfredr suarar. þat geri ek firir ônguan mun at þiggia at þer giafir edr godgripi til þess at briota konungs bodskap her um. helldr uil ek þat taka a mig kauplaust at gefa þer annat ôgat. þorleifr þakkade[1] honum ôgagiofina ok skildu at þui. For Hallfredr til sinna manna ok vard þar fagnafundr med þeim. en þorleifr gek hæim til bæiar sins ok sagde ôngum auerkann fyrr en Hallfredr uar allr a brottu. þeir Hallfredr ridu læid sina ok kuomu þar um farinn ueg er Kalfr atti bu. hann uar vti a akri at sa kornni sinu. þa mællti Hallfredr. nu berr uel til. nu skal drepa Kalf illmenni. Josteinn suarar. ger æigi þat at blanda suo ogiftu vid audnu. (Hallfredr suarar). æigi skiftir þa at hôgum til at godr dreingr se mæiddr en ver latim mannskræfu þessa lifa. ok æigi nenni ek þui at marka hann æigi at minnzsta kosti. Hliop Hallfredr þa af baki ok græip Kalf hondum ok stak ór honum annat ôgat. Kalfr þolde illa meitzslin ok bar sig litt. (Hallfredr mællti). nu synir þu enn a þer greyskapinn. uar ok þess uon at mikit munde skilia hreysti ok dreingskap med ykkr þorleifi spaka. Ridu þeir nu leid sina þar til er þeir fundu konung. hann fagnnade þeim ok spurde tidenda. hann sagde at hann hefde blindat þorleif spaka. Konungr mællti. þa hefir þu uel gert ok syn mer augu hans. Hann tok ôgat. Konungr tok vid ok mællti. hui fektu sligt auga. muntu nu hafa flæira gert en ek baud þer þuiat þorleifr hefir ekki att þetta auga. Hallfredr synde honum þa annat auga. Konungr mællti. þetta er ôga þorleifs ok seg nu satt huat þu hefuir gert. Hallfredr sagde þa at hann hafde blindat þorleif ôdru auga en stungit annat ór Kalfui. Konungr sagde. þa hefir þu enn æigi betr en halfgert mitt eyrendi ok muntu uilia fara j annat sinn ok færa mer augat þorleifs þat er eftir er. Æigi uil ek þat segir Hallfredr ræna þorleif þui auga er ek gaf honum adr. en fara mun ek til Kalfs ok blinda hann med ôllu [170] edr drepa þuiat ek hefui æigi mæirr en halflaunat honum þa er hann stangade mig med spiotzoddum ok rak

[1]) auga *tilf. Cd.*

mig til bana bundinn sem þiof. en þat er sannazst at ek georda þui ekki mæira at honum at mer þikir til æinkis vera at æiga vid mannleyse þat. Konungr kuat þa standa skylldu. Var Hallfredr þa med Olafi konungi j godri sæmd.

---

Vtanferd Ogmundar ok auerke Halluardz. capitulum.

275. J þenna tima uoru margir gøfgir menn a Jslandi þeir at j frendsemistølu uoru vid Olaf konung. af þeim var Uigaglumr son Eyiulfs hrugu ok Astridar Uigfusdottur hersis sem fyrr er sagt. Helga het systir Uigaglums. var hon gift Steingrime j Sigluvik. þorualldr het son þeirra ok var kalladr tasalldi. Sa madr hafde uaxit upp med Uigaglume er Ogmundr het hann var Hrafnsson. Hrafn var audigr madr ok bio uestr j Skagafirde. hann hafde verit þræll Glums ok Astridar modur hans ok hafde Glumr gefit honum frelsi. modir O̊gmundar var skylld Uigaglumi at frændsemi. Augmundr uar fridr madr synum mikill ok geruiligr. hann hafde gott yfirlæti af Glumi frænda sinum. Glumr uar þa hniginn a hinn efra alldr ok bio at þuerbrekku j O̊xnadal en Augmundr uar þa roskinn. Uigfus son Glums uar þa j Noreg med Hakoni jalli. þat uar a æinu sumri at Ogmundr sagde Glumi at hann fystizst vtanferdar. uillda ek sagde hann kaupa mer skip a Gasum. uil ek þar til kosta fe fødur mins at gnogt er til en hafa af þer asia ok orda fullting at þessu. Glumr suarar. margir fara þeir vtan at ekki eru mannuænligri at sia en þu. Keyfti Glumr honum skip at norrænum monnum ok bio Augmundr ferd sina vid mikinn fearhlut er fadir hans fek honum. þeir letu j haf helldr sid sumars. gaf þeim byri. fengu uedr stor ok hagstæd. ok er þa bar ór hafui sa þeir land ok leggia skipit j rett um nottina en sigla til landz at liosum degi. ok er þeir hofdu æigi læinge siglt þa minkade uedrit ok tok af byrinn. ok er nattade tok at huessa j annan tima. (Ogmundr) kuat þa æigi fara skylldu sem fyrr at þeir lægi af ser byrinn. Tunglskin var mikit. sigldu þeir nu um nottina. En er þeir attu skamt til landz lagu firir þeim mørg skip j tæingslum. þat voru langskip. þat uar j eyiasunde nokkuru. ok sa þeir æigi fyrr skipin en þeir sigldu eitt (j) kaf ok sua inn at meginlandi til hafnnar. sogdu þa sumir menn þeir er a kaupskipinu høfdu verit at þeir hefde siglt vuitrliga. en Augmundr suarar at huerir yrde sin at geyma. En firir langskipum þeim atte at rada Hakon jall. en þat skip er þeir høfdu j kaf siglt hafde att sa madr er Halluardr het. hann var rikr madr ok hinn mesti vin jalls. honum var sagt

vm morgininn huer suiuirding ok skade þeim uar georr. Jall uard ræidr miog vid þessi tidende ok mællti sua. þessir menn munu vera snapar ok hafua ekki fyrr komit j ǫnnur lond. nu gef ek þer Hal(l)uardr orlof til at refsa þeim ok hefnna þinnar suiuirdingar þuiat þeir æiner munu þessir menn uera at þer mun ekki ofre(f)li j vid at æiga. skortir þig huorki til hreysti ne hardfæingi at gera þeim slika skǫm edr meire huerir sem þeir eru. þa suarar Vigfus Vigaglumsson. þer munut vilia herra taka sætt af þessum monnum ok hallde þeir lifui sinu ef þeir uilia sitt mal leggia a yduarnn dom. mun ek fara ok vita huerir þeir se ok leita um sęttir ef þess er kostr. Jall suarar. gera mattu þat. en frekr get ek at þeim þiki lokarr minn til fegiallda vm slik mal. Vigfus for til kaupskipsins ok kende þar Augmund frænda sinn ok fagnnade honum uel ok spurde tidenda af Jslande ok at fǫdur sinum. en Ögmundr sagde sligt er hann spurde. Sidan mællti Uigfus. yduart mal horfir til mikilla uandręda af tilfellum þessum er ordit hefir af yduarre hingatkuomu. Sagde hann þeim þa huat at var ordit ok sua þat at Hakon jall hafde sæinliga tekit a sættargerd vid þa. nu er eyrende mitt til þin frænde at bidia at þu leggir a dom jalls. en ek skal flytia þitt mal sem ek kann ok mun þa med nǫkkuru moti uel fram fara. Augmundr suarar. þat æitt fretti ek af jalli þessum at ekki gef ek allt mitt rad a hans dom ok einna sizst ef hann hæitr illu þuiat þat mun hann efnna. en æigi firirtek ek at bæta þetta tilferli ef hann mælir litiliga til. Vigfus mællti. a þat mættir þu lita huat þer hæfir þuiat þu att vid þann um at ekki er berande hans ræide at næita hans domi. Vigfus for vt til skips jalls ok sagde honum at þessir menn uoru hans fostbrædr ok sumir frændr. vilia þeir ok sitt mal leggia a yduart ualld. þa sagde æinn madr jalls. rangt segir þu þinum herra. þeir bioda æingi nyt bod firir sig. Halluardr mællti. þat er sannazst at mer er hæfuiligt at hefna min sealfr ok þurfua þar ekki annarra manna uit. Jall bad hann suo gera. Vigfus mællti. þess mannz skal ek bani vera ef ek ma at drepr Ogmund frænda minn. Hal(l)uardr mællti. þo at þer set ofrhugar myklir [17] Jslendingar þa er þess uon her j landi at menn uile æigi þola skom botlaust helldr af ydr frændum Uigaglums en ǫdrum monnum þeir er nokkurs þikkia verdir. Reri Halluardr þa til kaupskipsins en Hakon jall let hafa styrk uardhǫlld a Vigfusi. Halluardr kom at kaupskipinu ok spurde huerr þar uar formadr. Augmundr sagde til sin. þa mællti Halluardr. ver felagar æigum uid ydr storsakir ok erum nu til þess her komnir at uita ef þer uilit bioda firir ydr nokkurar sæmdir ok sæmiligar bætr. Augmundr suarar. æigi

mun bota syniat ef æigi er frekliga til mællt. Halluardr suarar. þeir menn æigu her j hlut at æigi uilia (sma) hluti þiggia firir storar suiuirdingar. Augmundr mællti. þa uilium uer uarnna bota ef miog storliga er latit. Ek ætla þat ok likazst sagde Halluardr at bidia ydr ekki þess er þer ættit at bioda. Hliop hann þa upp a kaupskipit ok laust Augmund mikit ǒxarhamars hǒgg sua at hann fell þegar j vvit. For Halluardr vid þat a fund jalls ok sagde honum. en jall kuat myklu minna at gert en makligt væri. Halluardr suarar. hǒfdinge þeirra var mest sakbitinn her um. ok syndizst mer þui at gera her æigi mæira at j þessu sinne en liosta hann j suima. uar þat makligt at lata suiuirding koma suiuirding mot. en þat er enn firir hende at auka enn hefnnd sidarr ef synizst. En þegar at Uigfus uisse þetta þa eirde honum illa ok uillde uinna aa Halluardi edr drepa hann. en honum urdu a þui æinge færi sua let jall geyma hans. Augmundr uitkadizst ok hafde þo fæingit mykla akuomu. la hann læingi uetrar ok uard þo hæill um sidir ok uard hann af þessu efni miog gabbadr sua at huar sem hann kom uar hann[1] kalladr Ǒgmundr dyttr. en hann let sem hann uisse æigi huat huergi talade. Uigfus kom oft til hans ok bad hann hefnna sin. uil ek þar til sagde hann uæita þer mitt lidsinne at þu reker þinnar suiuirdingar. Augmundr suarar. þetta mal uæit æigi suo uid frænde. synizst mer at ek se æigi mæirr uanuirdr af Halluarde en at likendum var ok æigi uon at minna munde firir koma sua hardliga sem uær hǒfdum uora sǒk til buit j fystu. er þat vrat at hefnna þessa. er Halluardr hinn mesti vin Hakonar jalls en þu kominn her aa ualld hans. a ek annat at geallda Glumi fǒdr þinum en hafua þig j þeirre hættu at þer se vis uon meitzsla edr bana af minu tilstille. Vigfus suarar. firir þat kann ek þer ǒngua þǒk ok æi man fadir minn kunna at þu latir sem þu skulir sea firir minum kosti þar um er ek uil æigi sealfr. ætla ek þer helldr til ganga hugleyse en varygd ok er illt at fylgia þeim manni er hera hiarta hefir j briosti. er þat ok likazst at þer bregde mæirr j þræla ættina en þueræinga. Skildu þeir vid þat at Uigfus uar hinn ræidazsti. Læid a uetrinn ok um uorit bio Augmundr skip sitt ok for vt til Jslandz um sumarit ok hafde aflat mikils fiar j ferd þessi. kom hann skipi sinu j Eyiafiord. Glumr fretti skiott skipkuomuna. uar honum ok sagt hueria suiuirding Augmundr hafde fæingit j ferd þessi. En er Augmundr hafde fæingit rad firir gort skipi sinu ok fe þa for hann til þuerbrekku ok dualdizst med Glumi vm hrid. uar Glumr vid hann falatr ok fannzst þat a honum at æinge þokki uar Glumi j hans

[1]) kom *tilf. Cd.*

þarkuomu. Augmundr var hinn katazsti ok barzst a mikit. hann for til allra mannfunda er þar voru j suæit ok var helldr hlutsamr um mal manna. ok ef nokkura menn greinde a þa þotti æingi madr skiotligri til storræda en Augmundr. hann uar ok tiltakasamr þat er Glumr þurfti vid um buss tilskipan edr atflutningar ok let yfir ser hit uænligzsta. En þat var læingi at Glumr uillde ekki uit hann mæla. ok æinn dag mællti Glumr til hans. vita skaltu þat Augmundr at ek kann ǫngua þǫk starfua þins ok þiki undarligt er þu ert suo framgiarnn edr hlutsamr um mal manna þar sem æinge dad fylgir þer ok er herfuilig þin hin fysta ferd sua at ek uillde gearnna alldri sia þig er þu uillt verda sealfum þer at skom ok brigsle ok ollum frændum þinum ok bera æfinlig klæki at þora æigi at hefnna sin. Augmundr suarar. a þat mattu lita frændi huat er mer gek til er hefnndin forst firir þuiat mer þotti mikit j hættu er Uigfus var son þinn. þar mattir þu segir Glumr ekki firir sea er hann uillde æigi sealfr. þætti mer þat til vinnanda at þit verit badir daudir ok hefdir þu synt af þer hugpryde um hefnndina. nu er þat annathuort at þu ert fra þui þrottigr ok þolinn sem adrir menn ok muntu syna þa af þer kallmenzsku þo at sidar se þuiat j annan stad værir þu ekki suo bleydemannligr j bragde ella ertu med ollu vnytr ok verdr þat þa rikara sem uerr gegnir at oft verdr ydr udriug hin vfrialsa ættin til dreingskaparins ok ekki uil ek hafua þig læingr med mer. For Augmundr þa til fǫdur sins ok var med honum sidan.

## Hefnd Ogmundar. capitulum.

276. þa er Augmundr hafde verit .ij. uetr a Jslande þa bio hann skip sitt vm sumarit [172] ok fek menn til ok sigldu til Noregs. kom hann af hafui nordr vid þrandheim ok hellt inn a fiordinn. hann lagde skipi sinu sid dags undir Nidaros holm. þa mællti Augmúndr. nu skal skiota bati fram. uil ek roa inn j ana ok vita tidendi af landinu. Augmundr tok yfir sig halfskiftan fell(d) ok hlǫdum buinn um handueginn. uar þat agætr gripr. Gek Augmundr a litinn bat vid þridea mann. þat var vm morgininn snemma. reru þeir inn at bryggiunum. þa gek madr ofan or bænum sa uar j heklu. hon uar geor af skarlaki(!) ok sǫmut oll brogdum. Heklumadrinn spurde huerr firir batinum rede. Augmundr sagde til sin. Bæiarmadrinn mællti. ertu Augmundr dyttr. Kalla sua sumir menn segir hann. edr huat hæitir þu. Ek hæitir Gunnarr helmingr. en þui er ek sua kalladr at mer þikir (gaman) at hafa halflit klæde. Augmundr mællti. huat er tidinda her j landi. Gunnarr suarar. þau þike

mer stor tidende at Hakon jall er daudr en kominn til rikis agætr konungr Olafr Trygguason. Augmundr mællti. huat uæitzstu til huar sa madr mun vera er Halluardr hæitir þrænskr madr ættstorr ok audigr. Gunnarr sagde. þat er æigi undarligt þo at þu frettir at honum. hann er nu kalladr Halluardr hals þuiat hann var j Jomsuikinga bardaga med Hakoni jalle j fyrra uetr ok fek þar sár mikit a halsinn firir aftan eyrat ok berr hann sidan hallt hôfudit. en nu er hann her j bænum med Olafi konungi ok hefir hann fæingit af honum uirdingar. en felld hefuir þu godan Augmundr ok uel litan er tuiskiftr er ok uillda ek at þu selldir mer felldinn. Æigi uil ek selia felldinn segir Augmundr en ef þer litzst uel a þa uil ek gefa þer. Ok gef manna hæilazstr sagde Gunnarr ok ek uillda geta launat þer þessa giof. en heklu þessa skaltu fyrst hafa ma uera at þer uerde hon at gagni. Gek Gunnarr þa upp j bæinn ok uar j felldinum. en Augmundr for j hekluna. Hann mællti þa til sinna manna. nu skulu þit festa batinn uit bryggiuna at skutstafninum sua at æigi suifi fra medan ek gæing upp. en þit skulut sitia j rumunum ok hafa bunar arar til rodrar. Sidan gek Augmundr upp j gardinn ok uard litt uit menn uarr. hann sa opnar dyrr a æinu herbergi ok stodu þar nokkurir menn uit handlaugar ok uar æinn mestr ok fridazstr synum ok bar hallt hôfutit ok kende Augmundr at frasôgn Gunnars at þar munde uera Halluardr. gek Augmundr at dyrunum ok þottuz allir þeir er inne uoru þar kenna Gunnar helming j heklu sinne. Hann uar helldr lagtaladr. bad hann Halluard ut ganga þuiat (hann) letz uit hann æiga skyllt eyrende. sneri Augmundr þa annan ueg fra dyrunum ok bra suerde er hann hafde j hende. Gunnarr uar þar ollum monnum kunnigr ok gek Halluardr ut æinn saman. en Augmundr hio hann þegar banahôgg er hann kom at honum. Hliop Augmundr þa ofan til batzsins. kastade hann af ser heklunne ok let koma stæin j hôttinn ok fleygde ut a aana ok sok hon til grunna. Augmundr gek a batinn ok bad þa roa vt eftir anne. en er þeir kuomu til kaupskipsins mællti Augmundr til sinna manna. her er ufridr mikill j lande. en nu kastar uinde innann af firdenum munu uer uinda segl uort ok sigla ut aftr til Jslandz. þeir kolludu hann enn sem fyrr helldr hręddan er hann þorde æigi at koma a land þo at þarlennzsker menn ættizst illt vid. þeir geordu suo sem hann mællti firir. kuomu aftr til Jslandz. toku Eyiafiord. for Augmundr a fund Uigaglums ok sagde honum sina ferd. kuat þa hefndina framkomna þott frestin uæri longh. Glumr let þa uel yfir ok kallade hann þat ok verit hafa sitt hugbod at hann munde reynazst nytr madr. uar Augmundr þa med Glumi j godu yfirlęti.

Gun(n)ar stauck til Suidiodar firir vigit.

277. Nv er þar til at taka at monnum Halluardz þotti sæinkazst innkuoman hans. gengu þeir vt ok fundu hann daudann j blode sinu. uoru þa sogd þesse tidende Olafi konungi ok þat med at menn hugdu at Gunnarr helmingr hefde drepit Halluard. Konungr sagde. hann munda ek sizst til kiosa. en þo skal nu þegar læita at honum ok festa upp ef hann er þessa ualldr. Gunnarr atti ser brodur er het Sigurdr. hann uar audigr ok hirdmadr Olafs konungs ok hans kærr uinr. uar Sigurdr þar j bænum. en þegar hann uard þess uarr at brodur hans uar ætladr daude þa leitar hann at honum ok finnr hann. spurde Sigurdr ef hann uæri sannr uigs þes(s) er honum uar æignat. Gunnarr kuat þat fiarre fara. Sigurdr mællti. ueitzstu ok ekki til huerr þetta hefir gort. Gunnarr mællti. þat segi ek huorki þer ne ǫdrum. Sigurdr mællti. forda þer þa. Gunnarr gerde suo ok komzst j skog ok uard æigi fundinn. letti hann æigi fyrr sinni ferd en hann kom fram j Suiþiod. þar uoru stor blot j þann tima ok hafde Freyr þar verit mest (blotadr) ok suo miogh [173] (var) magnat likneski Freys at fiandinn talade vid menn ór skurgodinu ok Frey hafde uerit fæingin kona ung. uar þat atrunadr landzmanna at Freyr uære lifande sem syndizst j sumu lagi ok ætludu at hann munde þurfa at æiga hiuskaparfar vid konu sina. var þessi kona ok frid synum. skyllde hon ok mest rada firir hofstadnum ok ǫllu þui er þar la til godahussins. Gunnarr helmingr kom þar fram um sidir ok bat konu Freyss healpa ser ok bæiddi at hon munde hann þar lata vera. hon leit vit honum ok spurde huerr hann uæri. hann letz uera leysinge æinn vtlendr. Hon mællti. æigi muntu uera j alla stade gæfumadr þuiat Freyr litr ekki vinar augum til þin. nu huil þig her .iij. nætr ok uitum þa huersu Frey þokkazst til þin. Gunnarr mællti. myklu þiki mer betra at þiggia þina healp ok hollostu en Freys. Gunnarr uar gladr ok skemtanarmadr mikill. ok er hann hafde þar verit .iij. nætr mællti Gunnarr uit konu Freys ok spurde huersu at þa skyllde vera um hans þaruist. Ek uæit þat æigi geolla sagde hon. þu ert madr felauss ok kann þo uera at þu ser godra manna ok væri mer um þat meira at uæita þer nokkura asia. en Frey er litit um þig ok uggi ek at hans reide liggi a. nu uertu her halfan manut ok siam þa huat j gerizst. Gunnarr sagde þa. sua skiptir um sem ek munde kiosa. Freyr hatar mig en þu healpar mer þuiat ek uil æigi med Frey uera.

Gunnar var i Suiariki ok hitti þar brodur sinn.

278. Gunnarr þokkadizst monnum þui betr sem hann hafde þar læingr verit firir skemtan ok annan uasklæik. kom hann enn at mali vid konu Freys ok spurde um sinn hag. Hon suarade. uel þikir monnum her til þin ok þiki mer rad at þu ser her j uetr ok farir a ueitzslur med okkr Frey þa er hann gerir monnum arbot. en þo er honum illa vit þig. Gunnarr þakkade henni uel. Lidr nu at þeirri stundu er þau buazst hæiman ok skylldu þau Freyr ok kona hans sitia j uagnne en þionustumenn þeirra skylldu ganga firir. þau attu at fara yfir fiallueg mikinn. þa gerde at þeim hrid mykla. gerdizst þa færdin þung en Gunnarr uar til ætladr at fylgia uagnninum ok kom þa sua um sidir (at) allt folkit dræif fra þeim sua at Gunnarr æinn uard eftir ok þau Freyrr ok kona hans j uagninum. Tok Gunnarr þa at mædaz fast er hann gek ok læidde eykinn. en er sua hafde farit um stund þa gefr hann upp firirgonguna ok setzst j uagninn ok lætr eykinn rada ferdinne. Litlu sidar mællti hon til Gunnars. dugi enn ella mun Freyrr upp standa at þer. Hann gerir enn suo um hrid. en er hann mædizst mællti hann. til mun ek hætta nu at taka j moti Frey ef hann rædr a mig. Freyr ræis þa ór uagnninum ok takazst þeir fangbrǫgdum ok uerdr Gunnarr miog afluani. hann serr þa at honum mun æigi sua buit duga. hugsar hann þa med ser ef hann getr yfirkomit þenna fianda ok verdr honum audit at koma aftr til Noregs at hann skal huerfa aftr til rettra(r truar) ok sættazst vid Olaf konung ef hann uill uit honum taka. ok þegar eftir þessa hugsan tekr Freyr at hrata firir honum ok þui næst fellr hann. hleypr þa ór likneskinu sa feande sem þar hafde leynzst ok uar þa skrokkrinn æinn tomr eftir. Sidan braut hann þat allt j sundr gek suo at uagninum ok gerde konunne .ij. kosti. at hann munde hlaupa fra henni ok læita firir ser ella skal hon segia at hann se Freyrr þa er þau koma til bygda. hon kuetzst þat giarnna helldr uilia segia. ferr Gunnarr þa j umbuning skurgodsins. En uedr tok at birta. kuomu þa sidan til uæitzslu þeirrar er þeim uar bodit. uar þar firir mart þeirra manna er þeim skyllde fylgt hafa. þotti folkinu nu mikils um uert huersu Freyrr synde maatt sinn er hann skyllde komazst til bygda med konu sina j sliku uedri þar sem allir menn hofdu hlaupit fra þeim. sua ok þat at hann gek nu med monnum ok at ok drak sem adrir menn. Foru þau at ueitzslum um uetrinn. uar Freyr iafnan fataladr vid adra menn nema konu sina ok æigi uill hann lata sæfua kuikuende firir ser sem fyrr ok æinge blot vill hann þiggia ok ekki offr utan gull ok silfr klæde god edr adrar gerssimar. En er stundir

lida fram þa þikiazst menn finna at kona Freyrs ferr æigi æinsaman ok er med barnni. þat uerdr monnum allagætt ok þikir nu morgum alluænt um Frey gud sinn. uar ok uedratta blid ok allir hlutir suo arnænir at æingi madr munde sligt. Spurduzst þessi tidendi uida um hæim huersu blotgud Suia uar mattugr. kemr þetta ok firir Olaf konung Trygguason ok grunar hann um hueriu gegna mun. Ok æinn dag um uorit kallar Olafr konungr til tals uit sig Sigurd brodur Gunnars helmings. konungr spurde ef hann frette nǫkkut til Gunnars brodur sins. Sigurdr kuetzst ekki til hans fretta. Konungr mællti. þat hefir hugr minn at sa blotgud Suia er nu ganga mestar sǫgur fra ok þeir kalla Frey at þat muni vera reyndar [174] Gunnarr brodir þinn þuiat þau uerda mest blot ef lifande menn eru blotadir. nu uil ek senda þig austr þangat eftir honum þuiat (þat) er hormuligt at uita ef kristins manz sala skal suo hormuliga fara. uil ek gefa honum upp ræide mina ef hann uill auduelliga fara a minn fund þuiat ek uæit at Augmundr dyttr hefir drepit Halluard en æigi Gunnarr. Sigurdr bra uit skiott ok for þar til er hann fann Frey þenna ok kendi þar Gunnar brodur sinn. bar hann honum ord ok eyrendi Olafs konungs. Gunnarr suarar. fuss uæra ek at fara ok sættazst uit Olaf konung. en ef Suiar uerda uarir uit huat um er þa munu þeir uilea taka mig af lifui. Sigurdr mællti. uer skulum leyniliga læita hedan j burt ok hafa a þij traust sem uera mun at mæire er gæfa ok goduile Olafs konungs med guds miskunn en eftirlæit Suia. Gunnarr byrr sig nu ok konu sina ok hǫfdu med ser lausafe sligt er þau mattu med komazst. ridu sidan leyniliga j burt vm nott. En er Suiar verda þessa uarir þa þikiazst þeir sea allt huersu farit mun hafa. senda þegar menn eftir þeim. en er þeir uoru skamt a læid komnir þa uillluzst þeir uegar ok fundu þau æigi. fara Suiar vid þat aftr. en þau liettu æigi fyrre sinne ferd en þau fundu Olaf konung. tok hann Gunnar j sætt uit sig en let skira konu hans. ok helldu þau sidan retta tru.

## Konungr baud Kiartani til Jslandz at boda cristni.

279. þenna sama uetr sem Gunnarr helmingr uar j Suiþiodu voru þeir Kiartan Bolli ok Hallfredr vandrædaskalld med Olafi konungi sem fyrr uar getit. En er uetr læid af ok menn biugguzst ferda sinna þa gek Kalfr Asgeirsson at Kiartani ok spurde huat er hann ætlade ferda sinna um sumarit. Hann suarar. þat hafda ek hellzst ætlat at uit mundum hallda skipi okkru til Æinglandz j sumar þui at þar er nu kaupferd god kristnum monnum. en þo uil ek finna konung adr en uit radum

þessu til stadar þuiat hann tok litt a um ferd þessa þa er okkr uard til talat. Sidan gek Kalfr a brott en Kiartan til tals uit Olaf konung. Konungr tok honum þa sem iafnan med hinne mestu blidu ok spurde huat er j hafde verit med þeim kumpanum. Kiartan sagde um huat þeir Kalfr hofdu talat en kuat þat mest sitt eyrendi at bidia hann orlofs um sina ferd. Konungr suarar. þann kost mun ek gera þer Kiartan vm ferdir at þu farir vt til Jslandz j sumar ok briotir þar folk til kristne annathuort med styrk edr radum. en ef þer þikir su ferd torsottlig þa vil ek firir onguan mun missa þig þuiat oss uirdizst at þer se betr hent at þiona tignum monnum en gerazst at kaupmanni ok rekazst landa a mille. Kiartan suarar. skiotkiorit geri ek þat herra at ek uil myklu helldr uera her med ydr en dæila af kappi vit frændr mina ok vine. er þat ok likara um fodur minn ok adra frændr mina nana at þeir se þui ostrangare j moti kristninne ok at gera yduarnn uilia sem þeir uita at ek er her a ydru ualldi j godum kosti. Konungr mællti. þetta er bæde kiorit uitrliga ok stormannliga. Gaf konungr honum þa klæde ǫll af skallati er hann hafde ser geora latit. ok hæfdu Kiartani þau alluel þuiat þat segia menn at þeir uæri menn iafnnhafir er þeir gengu undir mal Olafr konungr ok Kiartan. For Kalfr med fe þeirra til Æinglandz vm sumarit.

## Ferd Audgils ok Hallfredar til Suiþiodar.

280. Einn dag um uorit er Hallfredr vandrædaskalld stod firir konungi mællti hann. leyfui uillda ek af ydr hafua herra at sigla j sumar kaupferd sudr til Haleyrar. Konungr mællti. æigi skal þat banna þer en þo segir mer suo hugr um at æigi munir þu ofusare aftr koma til min en nu ferr þu j brott ok mart mun lida um hagi þina. Hallfredr suarar. til þess uerd ek nu at hætta. Olafr konungr gaf honum at skilnade æinn tygilknif ok bat hann iafnnliga uit sig hafua. ok ma sua at beraz med guds uilia sagde konungr at þer verde gagnn at honum. Hallfredr þakkade honum. Eftir þat biozst Hallfredr ok siglde til Danmerkr sem hann hafde ætlat. hann hafde spurn af Siguallda jarlli at hann uar hofdingi mikill. Hallfredr kom a fund hans ok kuetzst hafa ort vm hann kuæde. Jall spurde huerr hann uæri. en hann sagde til sin. Jall suarar. ertu skalld Olafs Trygguasonar. Suo er sagde Hallfredr ok uillda ek fa hliod at flytia quædit. Hui mun oss þat æigi uel sæmilig(t) er Olafr konungr lętr ser uel lika. Hallfredr flutti quædit ok var þat flokkr. Jall þakkade honum quædit ok gaf honum gullhring þann er stod halfa mork ok baud honum med ser at vera. Hallfredr suarar.

hafit þauk firir herra. en ek a eyrendi til Suiþiodar ok uerd ek þo fyst at uenda aftr til Noregs fyrst(!) þegar ek verd til lidugr. Jall bad hann gera sem hann uilldi. Ok at alidnu sumri sigldi Hallfredr sunnan at Uikinne ok fek storm uedrs ok brutu skipit austan fiardar ok tyndu fe ǫllu. for Hallfredr þadan til Konungahellu ok dualdizst þar vm hrid. Sua bar til æinn dag at Hallfredr gek vt at madr gek j mot honum. kuaddi huorr annan ok spurde huorr annan at nafnne. Hann nefndizst Audgisl gautzskr madr. [175] a ek a Gautlandi bu ok konu en þo er ek nu at kominn uestan af Æinglande. skortir mig æigi aud. edr ertu Hallfredr uandrædaskalld. Hann quat sua vera. Audgisl mællti. ek hefui spurt at þu munt verit hafa j skipbroti ok munir vera ǫræigi ok miog feþurfui. nu mun ek sla kaupe uit þig at þu far med mer austr j Gautland til uetruistar en ek skal gefa þer .x. merkr silfrs til fylgdar þuiat mer er sagt at fylgd þin se kaupande. en uegrinn er kalladr vhræinn ok setiazst af þui margir aftr þeir er fara uilldu. Hallfredr sagde at hann uill þenna kost. Eftir þat biugguzst þeir ok hofdu klyfiada .v. hesta ok æinn lausann. foru sidan austr a skoginn .ij. saman. Ok æinn dag sa þeir at madr gek j moti þeim. sa uar mikill ok sterkligr. þeir spurdu hann at nafnni. en hann sagdizst Onundr hæita ok uera suænskr at ætt ok nu austan at kominn. edr huert ætli þit at fara segir Aunundr. þeir sǫgdu honum. Hann mællti. uandfært er miog þegar austr sækir a skoginn þeim sem vkunnigt er. geta þess ok sumir menn at ekki græidizst uel uegrinn þeim sem med fe fara. en þo uard ek uid ǫnguann haska uarr ok er þat ekki mark þuiat mer eru her allar læidir kunnar ok uæik ek fra allzstadar þar er spelluirkia bæli eru uǫn at uera. nu mun ek snua aftr ok radazst til ferdar med ykkr ef þit uilit gefua mer læigu nǫkkura. Audgils suarar. litit er mer um þat. uæit ek æigi huerr þegnn þu ert. Hallfredr uar helldr eggiande at þeir tæki vit honum. ok þat uar(d) ok skyllde hann hafa .xij. aura silfrs j læigu. Hallfredr uar þa sem þroskamestr at uexsti ok afreyndr at afli. hraustr ok skiotr til arædis. Audgisl uar vid alldr ok ekki miog sterkr. þeir foru nu læid sina ok voru .iij. saman. Aunundr for firir um daginn ok at kuelldi kuomu þeir at sæluhusi nǫkkuru. þa mællti Hallfredr. nu munu uer æiga þrenn uerk firir hondum. skaltu Aunundr uida heim til elldibranda oss þu hefir ǫxi mykla. en Audgils skal gera elld. ek mun taka uatnn. Aunundr suarar. þat mun betzst at uida uel ok utæpiliga til hussins þuiat her kunnu oft menn at koma ok þurfa elldz vid. Hallfredr quat þat uel mællt. Audgisl mællti. helldr uil ek sækia uatnnit en þu gerir elldinn. Latum suo þa sagde hann.

þeir Audgisl fara nu at sækia uatnit en Aunundr at uida hæim. en Hallfredr tekr elld ok tendradizst æigi skiott þuiat uidrinn uar hrarr. þotti honum þeir uerda ok helldr sæinir hæim til hussins. Hallfredr hafde leyst af ser belltit ok kastat a hals ser. uar þar uit sa sami tygilknifr er Olafr konungr hafdi gefit honum sem fyrr uar sagt ok la knifrinn aftr a bak honum. En er Hallfredr lagdizst at nidr at kuæikia elldinn þa kom Aunundr inn med uidinn ok kastade honum skiott nidr en snarade at Hallfredi med ræidda ǫxina sem hardazst ok hio til hans tueim hondum um þuert bakit. kom ǫxin j knifinn ok skæindizst Hallfredr litt tuæim megin a hrygglundunum er ǫxarhyrnnunnar namu. en j þui at hann heyrde at ǫxin ræid at honum fek hann þat fangarad at hann grofz hit nedra til fotanna Aunundi. het Hallfredr þa a gud ok mællti. dugi þu nu Huitakristr at æigi stige sea mannfeannde yfir mig ef þu ert sua mattugr sem Olafr konungr lanardrottinn minn segir þig. Ok med guds miskunn ok gift Olafs Tryggua-sonar er iafnan stod yfir honum þa gat hann retzst upp med Aunund ok færde hann nidr suo mikit fall at hann uar j vviti ok hraut ǫxin ór hendi honum. Hallfredr bra þa saxi er hann var gyrdr med undir klædum. Aunundr uitkadizst þa. Hallfredr spurde þa huart hann hefdi drepit Audgisl. Hann quad þat satt uera. Hallfredr lagde saxinu þa j gegnum hann ok dro hann sidan vt ór skalanum ok byrgde eftir husit. ætlade hann þa at taka a sig nadir. en þess uar æigi kostr þuiat Aunundr brautzst fast a hurdina en Hallfredr stod firir innan ok gek þui allt til dags. Um morgininn eftir fann Hallfredr Audgisl daudan uit brunninn. tok hann af honum knif ok bellti ok hafdi med ser ok uoru þat godir gripir. sidan grof hann Audgisl. Sa Hallfredr þa ath Aunundr hafdi uerit spelluirke ok drepit menn til fear. uar hus þat miog fullt af fe ok allzskonar uarninge. þa quad Hallfredr visu.

**Ol ek þar er alldri uela**
**audgilldanda uilldag**
**hyriar natt a humi**
**hrafnnuins fe munu.**
**mun ek gods uid grenni**
**Gunnars s(on) sem ek kunna**
**ef fyrr skerdir færdi**
**fiortal a mig hiorua.**

Sidan for Hallfredr austr a fiallit ok uard æigi græidfært þuiat hann kunne illa læidir. Ok at kuellde æins dags heyrde hann uithǫgg fram firir sig a skoginn. reid hann þangat eftir. þui næst fann hann riodr j skoginum ok uar þar madr firir ok fellde uit. þesse madr uar mikill ok þrekligr raudskeggiadr ok skolbrunn ok helldr illmannligr. sia hæilsade honum ok spurde hann at nafnni. Hallfredr sagde til sin ok

spurde j mot huerr hann uæri. Ek hæiti Beornn sagdi hann. by ek her firir austan skoginn ok far [176] þu til gistingar med mer. ek a husakynne god ma ek uel uarduæita uarnning þinn. Hallfredr þa þat ok for med honnm. Hallfredi uar þar vkunnikt um bygdir en nokkut þotti honum bonde grunsamligr. syndizst Hallfredi sem fekrokar væri j augum honum. Beornn uar albæinn vid hann um kuelldit. lagu þau husfreyia j æinne lokhuilu. þar uoru .ij. rekkiur ok var Hallfredi skipat j adra. En er þau hǫfdu nidr lagizst þa uar skotit aftr lokhuilu hurdinne ok sett a hespa firir framan. Hallfredr grunade Biornn þui mæirr. hann hafde ekki farit af klædum sinum. stod hann upp vit fotaþilit ok bra suerdinu konungs naut. j þui bile lagde Beornn j rumit en Hallfredr hio hann banahǫgg. Husfreyia hliop upp ępande ok het a hæimamenn Biarnnar at þeir skyllde duga til at hondla þenna glæpamann er drepit hafde bonda hennar saklausan. standa menn þegar upp ok uar kuæikt lios ok lokit upp huilugolfinu. Hallfredr biozst til uarnar en husfreyia bar klæde a uopn hans ok uard hann handtekinn ok fiotradr. Sidan sendi husfreyia þeim manni ord er het Ubbi ok uar kalladr Blotubbi ok uill taka rad af honum huat gera skyllde uit þenna utlenda mann er drepit hafde bonda hennar. en hann lagde þat til at hann uæri læiddr a þing ok þar dæmt um hann af ǫllum bygdarmonnum. Brodir Blotubba het þorárinn. hann uar audigr madr. hann red mestu j þui herade. dottir þorarins het Jngibiorg hon uar uitr kona ok hinn mesti kuennskǫrungr. þa konu hafde Audgisl att. Nu uar þing stefnt. kom þorarinn þar ok Blotubbi brodir hans ok Jngibiorg dottir þorarins. uar sidan talat um þessi mal. kom þat hellzst asamt med þeim at glæpamadr þessi hinn utlendi munde hafdr til blota. þa mællti Jngibiorg. man æigi rad at hafua mal ok tijdendasogn af manni þessum er um langan ueg er tilkominn adr hann er til dauda dęmdr fullkomliga. þorarinn sagdi. þat mun enn birtazst at þu ert uitrari en þeir allir at her eru saman komnir. gak þu nu til hans ok uit huat manna hann se edr huat hann kann segia. Hon gek þar til er Hallfredr uar bundinn hardliga ok spurde huat manna hann væri. Hallfredr nefndi sig ok kuetz islenzskr madr uera. Ertu Hallfredr uandrædaskalld sagde hon. Suo er sagde hann. Jngibiorg mællti. huat dro þig til kristinn mann ok hirdmann Olafs konungs at rekazst austr hingat j hæidni uora æinn saman. Hann hof þa upp sǫgu alla ok sagde henni um ferdir sinar fra þui er hann siglde til Danmerkr ok til þess er hann kom til Bearnar. nu for suo med okkr Birnne sagde Hallfredr sem uita ma at ek drap hann ok þo æigi fyrr en hann uæitte mer suikligt tilræde. en

ef þu ert su Jngibiorg sem ek ætla ok Audgisl sagde mer at uæri husfreyia hans þa hefui ek her nu ekki annat til uitnnis at saga min er sönn en knif ok bellti er ek tok af honum daudum þuiat alla adra hans peninga tok Beornn j sina varduæitzslu um kuelldit er ek kom til hans. synde Hallfredr henni þa gripina. ok kom Audgisl firir litit at hafua mik dyrt keyft ef ek skyllda æigi hefnna hans ok suo fiorrada uit mik. Hallfredr quat þa visu.

Sua hefir hermila harma
hingballdr j gny skiallda
baugs erum suift at suæigi
sarlinnz rekit minna.
at lofhnugginn liggia
let ek sunnr j dyn gunnar
ek um hefnnda suo okkar
Audgils bana daudan.

Jngibiorg kuetzst gerla kenna þessa gripe at Audgisl hafde þa att. spurde hon nu uannliga at huersu farit hafde med þeim Önunde. Hallfredr quat þa visu.

Ek bra ellda stökkui
aulna skæids af ræide
lagda ek hendr at hunde
hundgediadum undir.
stendr enn sa er sendir
sidan blakkar skida
bal raud ek yggiar ela
els uid þiod a uelum.

Jngibiorg mællti. sia mun uera sönn saga þuiat Beornn hefir læingi um grun buit ok skaltu fyst fara hæim med mer en sidan skal ek reyna sannsögli þina. Nu for Hallfredr med henni ok uar hann þrekadr miog af hardri knuskun ok böndum en Jngibiorg let skiott næra hann. Jngibiorg ok þorarinn fadir hennar foru til bæiar þess er Beornn hafde att ok tok Jngibiorg þat fe allt til sin þuiat þau Audgisl attu ekki barnn. Sidan sendu þau Jngibiorg a fiallit ok reyndizst þat allt sannynde er Hallfredr hafde sagt. uar þa flutt fe þat allt til bygda er Önundr hafde saman dregit. uar þat þa samþygt af ollu bygdarfolki ok dęmt eftir lögum þeirra at Hallfredr ætti fe þat allt er hann hafde dræingiliga til unnit. uar þat allmikill audr. Hallfredr uar med Jngibiorgu uel halldinn ok helldu landzmenn bratt mikit tal af honum. Jngibiorg uar uitr kona ok uæn. Hallfredr uakti bonord sitt uit hana ok baudzst henni til bonda. Hon suarar. mart er j þui olikligt en æigi se ek firir allri uirdingu þar um. þu ert madr skirdr ok vtlendr [177] en her eru blot mikil ok munu menn ekki þola at þu halldir þann sid er þu hefir iattat. en j annan stad æigi uist at þer dugi uel ef þu fellir nidr þinn atrunat. en likligr ertu til godrar forystu. nu far þu a fund födur mins ok læita vid hann þessa mala. Hallfredr gerde suo ok toludu þeir þetta mal ok kom allt asamt med þeim. lauk þui sua at

Hallfredr fek Jngibiargar ok gek j bu med henni. skorti æigi aud fear ok dualdizst Hallfredr þar um hrid ok undi uel[1] sinu rade.

## Aftrkuoma Hallfredar til Olafs konungs.

281. Hallfredr uandrædaskalld uar .ij. uetr austr j Gautlandi ok hafde fæingit at æiga hæidinnar konu sem fyrr uar sagt. hann for a fund Olafs Suiakonungs ok flutti honum drapu er hann hafde ort um hann ok þa af honum godar giafir. Enn sidarra uetrinn er Hallfredr uar a Gautlandi syndizst honum j suefni Olafr konungr Trygguason æina natt miog reiduligr ok mællti. jlla gerir þu er þu kastar miog sua kristnni þinne. nu er þer radligra at fara a minn fund med lid þitt ok endrbæta tru þina. Hallfredr anduarpade miog er hann uaknnade. Jngibiorg spurde huat hann hefde dreymt. Hallfredr sagde henni huat firir hann hafdi borit. edr huersu mun þer þat uera gefit. huort muntu fara med mer a fund Olafs konungs. a ek þer mikit gott at launa. nu mætta ek suo hellzst þer launa þinn goda at læida þig til sannrar truar. Jngibiorg mællti þa. sliks uar uon æigi litil at þig mundi þangat hæimta. ok firir þui at ek skil at sa sidr er myklu betri en sa er uær hǫlldum uil ek firir uist med þer fara. þau attu son uænligan er Audgisl het. hon uar þa ok med barnni. Vm uorit foru þau austan ok Audgisl med þeim ok lettu sinne ferd æigi fyrr en þau kuomu j þrandhæim um haustit a fund Olafs konungs. Konungr tok uel uit Hallfredi ok asakade hann þo nokkut er hann hafde sua leinge uerit med hæidnum monnum ok fæingit hæidinnar konu. fek konungr til prest at skrifta honum ok gek Hallfredr gladr undir þat allt er honum uar bodit. Litlu sidar fæddi kona hans suæinbarnn ok gaf hann þeim suæini nafnn sitt ok uar hann kalladr Hallfredr ungi. eftir þat uar Jngibiorg skird ok synir hennar badir. Sidan mællti konungr til Hallfredar. enn skaltu bæta framarr uid gud er þu hefir miog suo gengit af[2] tru þinne. uil ek at (þu) yrkir uppræistardrapu ok bætir sua sal þina en hafir æigi til unytz eins þa jþrott er gud hefir þer let. Hallfredr sagde sig þat giarnna (vilia) ok allt annat þat er hann mætti gera eftir uilia Olafs konungs. Tok hann þa at yrkia uppreistardrapu ok er þat hit bezsta kuædi. Uar hann med konungi um uetrinn j godri uirdingu. þann uetr andadizst Jngibiorg kona hans.

[1]) ok undi alluell *tilf. Cd.* [2]) þinne *tilf. Cd.*

## HER HEFR ÞAATT AF NORNAGESTI.

Sva er sagt at a æinum tima þa er Olafr konungr sat j þrandhæimi bar suo til at æinn madr kom til hans at alidnum degi ok kuaddi hann sæmiliga. Konungr tok honum uel ok spurde huerr hann væri. en hann sagdiz Gestr hæita. Konungr suarar. gestr muntu her uera huersu sem þu hæitir. Gestr suarar. satt segi ek til nafnns mins herra. en giarnna uillda ek at ydr gisting þiggia ef kostr væri. Konungr sagde honum þat til ræidu uera. En med þui at alidinn uar dagr uillde konungr ekki tala uid gestinn þuiat hann gek þa skiott til aftanssaungs ok sidan til bordz ok þa til suefnns ok nada. Ok a þeirre somu nott uakti Olafr konungr Trygguason j sængh sinne ok las bænir sinar en adrir menn allir suofu j þui herbergi. þa þotti konungi æinn alfr edr ande nokkurr koma inn j husit ok þo at luktum dyrum ǫllum. hann kom firir rekkiu huers mannz er þar suaf ok at lyktum kom hann til sængr æins mannz er þar la utarliga. þa mællti alfrinn ok nam stadar ok mællti. furdu sterkr láss er her firir tomu huse ok er konungr æigi iafnnuis um sligt sem adrir lata er hann se allra manna spakastr er hann sefr nu suo fast. Eftir þat huerfr sa a brott at luktum dyrum. En snemma um morgininn eftir sendir konungr skosuein sinn at verda uiss huerr þessa sæng hafdi bygt um nattina. profadizst suo at þar hafde legit gestrinn. Konungr let kalla hann firir sig ok spurde huers son hann væri. En hann suarar. þordr het fadir minn ok var kalladr þingbitr danskr at kyni. hann bio a þeim bæ j Danmǫrk er Græningr hæitir. þrifligr madr ertu segir konungr. Gestr sia uar diarfr j ordum ok mæiri en flestir menn adrir sterkligr ok nokkuat hniginn j efra alldr. hann bidr konung at dueliazst þa læingr med hirdinne. Konungr spurde ef hann uæri kristinn. Gestr letzst uera primsignndr en æigi skirdr. Konungr sagde honum hæimillt at vera med hirdinne. en skamma stund muntu med mer oskirdr. En þui hafdi alfrinn suo til ordz tekit um lasinn at Gestr signnde sig um kuelldit sem adrir menn en uar þo reyndar hæidinn. Konungr mællti. er [178] þu nokkur jþrottamadr. Hann quaz læika horpu edr segia sǫgur sua at gaman þætti at. Konungr sagde þa. illa gerir Sueinn konungr þat at hann lætr oskirda menn fara or riki sinu landa a medal. Gestr suarar. ekki er þat Danakonungi at kenna þuiat myklu fyrr for ek burt or Danmǫrk en Otto keirari let brenna Danauirke ok kugade Haralld konung Gormsson ok Hakon blotjall at taka uit kristnne. Margra hluta spyrr konungr Gest. en hann

### þraandr villdi eigi fara til Olafs konungs.

299. þa er Sigmundr Brestisson hafde kristnat allar Færeyiar eftir bode Olafs konungs Trygguasonar hugde hann at flytia med ser þrand ór Gotu ok uard tysuar aftrreka sem adr er ritat. bio hann sidan ferd sina ok græiddizst uel. kom uid Noreg ok fann Olaf konung nordr j Nidarose ok færde honum fe þat er hann greidde firir skatta af Færeyium þa er tyndz hofdu hit fyrra sumar ok suo þann skatt er þa atti at lukazst. Konungr tok honum uel ok dualdizst Sigmundr med konungi læinge um uorit. Sigmundr sagde konungi glôgg-liga allt sem farit hafde um skipti þeirra þrandar ok annarra eyiar-skeggia. Konungr suarar. þat uar illa at þrandr kom æigi a minn fund ok spillir þat miog bygd yduarre vt þar j eyiunum at hann uerdr æigi j brott flæmdr þuiat þat er min ætlan at þar siti æinn hinn uesti madr a ollum Nordrlondum er hann er. Olafr konungr uar mestr jþrottamadr [189] j Noregi þeirra manna er menn hafa heyrt fra sagt um alla hluti. huerium manni var hann sterkari ok fimari ok eru þar margar frasagnir ritadar vm þat. æin su er hann gek a arum vtbyrdis þa er menn hans reru a langskipe ok lek a .iij. handsôxum j senn sua at iafnan uar æitt a lofti ok hende ôll at oddinum. hann uo jafnnt badum hondum ok skaut .ij. spiotum senn. manna fimazstr uid allzskonar bogaskot ok synndr huerium manni betr. hann uar allra manna skygnazstr. brattgeingri uar hann j biorg en huerr madr annarra. Olafr konungr uar allra manna gladazstr ok læikinn miog. blidr ok litilatr ôrr ok storgiofull akafuamadr mikill um marga hluti skartsamr ok sundrgerdamadr mikill. firir ollum monnum um fræklæik j orrostum. allra manna grimmazstr þa er hann var reidr ok kualde miog uuine sina. suma brende hann j ellde. suma let hann olma hunda rifa j sundr. suma let hann lemia edr kasta firir biorg ofan. voru af slikum sokum vinir hans astudigir uid hann en ovinir hans hræddir. ok vard þi mikil framkuæmd hans um kristnebod ok adra hluti bæde innanlandz ok j odrum londum at sumir gerdu hans uilia med blidu ok vinattu en sumir firir hrę̨zslu sakir. þat var æinn dag at Olafr konungr talade vid Sigmund vm uorit. nu skulu uit skemta okkr j dag ok reyna fimlæika okkra. þar er ek miog uanfærr til herra segir Sigmundr en þo skal þetta a ydru ualldi sem annat þat er ek ma rada. Sidan reyndu þeir sund ok skot ok adrar jþrottir ok er þat sôgnn manna at Sigmundr hafui næst gengit Olafi konungi um margar jþrottir ok hafui þo allar skort en þo minna (en) huernn þeirra manna er þa uoru j Noregi.

### Olafr konungr beidde hringinn af Sigmundi.

300. þat er sagt æitt sinn þa er Olafr konungr sat vid dryk ok væitti hird sinne ok hafde marga menn j bode sinu þa uar Sigmundr med konungi j myklum kærlæikum ok satu .ij. menn a milli konungs ok Sigmundar. Sigmundr lagde hendr sinar fram a bordit. konungr læit til ok sa at Sigmundr hafde digran gullhring a hende. Konungr mællti. lat sia hringinn Sigmundr. Hann tok hringinn af hende ser ok fek honum. Konungr mællti. uilltu gefa mer hring þenna. Sigmundr suarade. þat hafda ek ætlat herra at loga æigi hring þessum. Ek man fa þer annan j moti segir konungr ok skal sa huorki minne ne ufridare. Æigi mun ek þessum loga segir Sigmundr þui het ek Hakoni jalli þa er hann gaf mer hringinn med mikille ðlut at ek munde honum æigi loga. ok þat skal ek efnna þuiat godr þotti mer nautrinn er jall uar ok uel gerde hann vid mik marga hluti. þa mællti konungr. lat þer hann ok þikia suo godan sem þu uill bæde hringinn ok suo þann er þer gaf. en gifturaatt uerdr þer nu þuiat þessi hringr u(er)dr þinn bani. þetta uæit ek æigi ogiorr en þat huersu þu hefir hann fæingit edr huadan hann er at kominn. gek mer þat mæirr til þessarar bæidne at ek uillde firra vine mina uandrædum en mig fysti at æiga hring þenna. Uar konungr þa raudr sem dreyri j andliti. en þetta tal fell nidr ok uar konungr alldri iafnnblidr sem adr til Sigmundar. dvaldizst hann þo med konungi um hrid ok for eftir þat snemma vt til Færeyia vm sumarit. skildu þeir Olafr konungr þa med vinattu ok sa Sigmundr hann alldri sidan. Kom Sigmundr þa vt til Færeyia ok settizst j bu sitt j Skufey. en þat kom fram sem Olafr konungr sagde at sa madr er het þorgrimr illi med sonum sinum .ij. myrde Sigmund til hringsins Hakonar nautz þa er Sigmundr uar adr sundmodr j Sudrey þar er j Sanduik hæitir. suo sem segir j Færeyinga sðgu.

### Olafr konungr hof bonord vid Sigridi.

301. Nu er fyst at segia huat er fram for j Noregi medan Sigmundr kristnade folk j Færeyium. Olafr konungr for sudr med landi þa er þeir Sigmundr skildu. for konungr at uæitzslum um haustit ok allt helldr tomliga. ok þegar er hann kom sudr um Stade baud hann til sin bondum ok bætti tru þeirra ok samde sidu þeirra þar sem honum þotti þurfua. kom Olafr konungr a ðnduerdum uetri austr j Uikina. Sigridr drottning j Suiþiod er kollud uar hin storrada sat at buum sinum. en litlu sidarr en Olafr konungr kom austr j Uikina sem nu uar sagt foru menn a mille þeirra Olafs konungs ok Sigridar drott-

ningar med þeim eyrendum at konungr hof bonord sitt vid hana. en hon tok þui likliga ok var þat fest med æinkamalum at stefnulag skyllde vera med þeim til þessa mala um uetrinn eftir jol j Elfinne uit landamæri. þa sende konungr Sigride hring þann hinn mykla er hann tok ór hofshurdunne a Hlôdum. þotti þat ollum er sa hin mesta gessime. Sigridr drottning tok gladliga vid hringinum ok lofade miog orlæik ok storlynde Olafs konungs. let hon þegar fara til synis um hollina ok sogdu allir menn æitt at æingi þottizst set hafua jafnngodann hring. [190] þar voru med drottningu gullsmidir hennar .ij. en er hringrinn kom til þeirra þa handuogu þeir hringinn ok logdu ekki til utan þeir toluduzst uit æinmæli. ok er drottning sa þat kallade hon þa til sin ok spurde huort (þeir) spottade at hringinum. þeir duldu þess. hon sagde at þeir skyllde firir vist segia henni huat þeir hefde at fundit. þeir sôgdu at fals uæri j hringinum. Drottning mællti. huadan af viti þer þat. þeir sogdu at hann væri myklu lettari en annat gull þat er iafnnmikit er asyndar. Drottning segir. þetta skulu þit skiott profua. Let hon þa briota hringinn ok fannzst þar innan j mikill eirbaugr. hon vard þa ræid miog ok sagde at Olafr konungr munde sua falsa hana at flæira.

## Capitulum.

302. Asta dottir Gudbrannz kulu er ath hafde Haralldr grænski giftiz bratt eftir dauda hans Sigurde syr. hann uar konungr a Hringariki. Sigurdr konungr syrr uar son Halfdanar Sigurdarsonar hrisa Haralldz sonar harfagra. Olafr het son Haralldz konungs grænska ok Astu Gudbranz dottur ok fæddizst upp j bernnzsku sinne a Hringariki med Sigurdi konungi stiupfôdur sinum ok Astu modur sinne. þenna sama uetr er þau Olafr konungr ok Sigridr hofdu fundizst um sumarit for Olafr Trygguason or Uikinne upp a Hringariki ok bodade þar kristnne. let þa Sigurdr konungr syrr ok Asta kona hans skirazst ok Olafr son hennar. hann uar þa þreuetr ok uæitti Olafr konungr sealfr gudsifiar nafna sinum Olafi Haralldzsyni. ok eftir skirnn Olafs segia sumir menn at Olafr konungr Trygguason hafui talat langt ok fagrt eyrinde ok þat firirspat sem sidar kom fram suo mælande. þessi suæinn Olafr er nu er nyskirdr ok æinkanliga gude gefinn synizst mer sem uera muni mikillar hamingiu. ok þat hygg ek at hinn hæsti himnagud hafui hann ualit ok skipat bæde konung ok kennanda hæilagrar truar þuiat suo segir mer hugr at hann man uerda æinualldzkonungr æzstr eftir mig yfir ollum Noregi. ok sua sem uit hofum æitt nafnn suo munu uit

hafua æinn konungdom yfir þessu riki. ok su guds kristnni sem ek grunddualla her j Noregi ok a þeim londum ollum sem þessum konungdome til heyra man fram ganga med uallde ok vilia uors drottins. þuiat þessi hans þionustumadr ok hinn agæti konungr Olafr man kristna stydia ok styrkia ok stadfesta med blezsadum bodordum sins lauardz ok lausnara. þat er ok mitt hugbod at þessi konungr þoli margar ok myklar motgerdir af sinum vvinum ok undirmonnum suo þo at þat snuizst honum til sigrs ok sæmdar þessa hæims en annars hæims til æilifs fagnadar med almatkum gude. Ollum monnum þeim er heyrdu þessi ord Olafs konungs þottu þau suo mikils uerd at þar firir græiddizst hugr þeirra til guds truar. uar þa kristnat allt folk a Hringariki ok vida um Upplond. Eftir þat for Olafr konungr vt j Uikina ok dualdizst þar til þess er hann for austr til Konungahellu til stefnu vid Sigride drottningu sem mællt uar um uetrinn at þau mundu þar gera samgang sinn. Kom þar Sigridr drottning. toku þau konungr tal sitt. for þat allt j fystu likliga til samþykkis ok þess er rætt hafde verit. þa mællti Olafr konungr at Sigridr skyllde taka skirnn ok tru retta. Hon suaradi. ekki mun ek ganga af tru þeirri er ek hefui haft ok halldit her til ok frændr minir firir mer. man ek ok ekki at telia þoat þu truir a þat god er þer likar. Olafr konungr uard miog ræidr suðrum hennar. hann laust med glofa sinum j andlit henni helldr bradliga ok mællti. hyggr þu hrokkinskinnan at ek uile eiga þig nu sua hundhæidna ok afgamla. hygg af þui ok ger þig æigi suo diarfa at þu gudlastir oftar mins drottins nafn med þinu hæidingligu ordtæki at mer aheyranda suo at þu kallir god hinn hæzsta konung er ek trui a. þa mællti Sigridr. þessi oll saman sman ok suiuirding er þu gerir mer Olafr mætti uerda þinn bani. Olafr konungr suarar. æigi mantu þat vita er nu segir (þu) þuiat ek uænti at uorr herra Jesus Cristr hafui fullkomliga forsio yfir mer nærr fram skal koma minn daude edr med huerium hætti hann skal uerda edr hueria hluti minn drottinn uile med sinni dyrd draga til lykta lifs mins. en likara þiki mer at þu hafir æigi framkuæmd til þess at fa mer bana þuiat þu bannsett blotgydia matt æigi rada nærr þer kemr daligr daude ok man þer þat þo fyrr at berazst en lokit se lifstundum minum. þuiat ek man suo leingi lifa sem gud uill. hefui ek traust a þui ef ek þiona honum retliga at hann kalle mig þa til sin er honum þikir ek bezst vidbuinn. [131] en mer þikir vis uon ef þu helldr fram þinne uillu ok uondskap ok endir med þui þitt lif stundligt at þa deyrr þu at þer gegnir uest. en gud man rada ef betr uerdr. Skildu þau suo tal sitt ok voru bæde miog

ræid. for Olafr konungr þa austr j Vikina en drottning til Suiþiodar til bua sinna. Litlu sidarr giftizst Sigridr drottning Suæini Danakonungi Saumæsusyni þuiat þa var daut Gunnhilldr dottir Burizlafs Uindakonungs er hann hafde adr att. gerdizst þa ker vinatta med tæingdum mille Sueins Danakonungs ok Olafs suænska sonar Sigridar drottningar.

## Olafr konungr feck þyri drottningar.

303. Burizlafr Vindakonungr kærde þat mal oftliga firir Siguallda jalli magi sinum at sættargerd su uar rofin er Siguallde hafde gert mille Suæins konungs ok Burizlafs konungs. at Burizlafr konungr skyllde fa þyri drottningar dottur Haralldz konungs Gormssonar systur Suæins konungs. en þat rad hafde ekki fram gæingit suo sem ætlat var þuiat þyri setti þuert nei firir at hon munde giftazst gomlum konungi ok heidnum. For nu suo fram um hrid at þyri var med Sueini konungi j Danmork. En er Burizlafi konungi þotti firir uon um komit at Sueinn konungr munde senda honum systur sina þa sagde konungr Siguallda jarle at hann uill hafua maldaga þann allan er honum var skilinn ok bad hann fara til Danmerkr ok færa ser þyri drottningu hæitkonu sina. Jall lagdizst þa ferd æigi undir hofut ok for a fund Sueins konungs ok bar þetta mal upp firir hann. sagde at hann atti uissa (von) hernadar ok vfridar af Uindlandi ef æigi helldizst gert sattmal af hans hendi uit Burizlaf konung. kom jall suo sinum fortaulum ath Suæinn konungr fek honum j hendr systur sina naudga ok fylgde henni or Danmork nǫkkurar konur ok fostri hennar er nefnndr er Ǒzsurr Akason rikr madr ok enn fleiri menn. uar þat j einkamalum med þeim Sueini konungi ok jalli at æignir þær j Uindlandi er att hafde Gunnhilldr drottning skyllde þa hafua þyri j sina hæimanferd ok þar med adrar æignir storar j tilgiof sina. þyri gret sarliga ok for miog naudig. En er þau komu j Uindland þa gerde Burizlafr konungr brudhlaup sitt ok fek þyri drottningar. En medan hon uar þar uillde hon huorki þiggia fædu ne dryk ok for suo .vij. daga. Sidan hurfu þau Ozsǫrr fostri hennar j brott um nott til skogar. er þat skiotazst fra þeirra ferd at segia at þau komu fram j Danmork ok þordi þyri firir ongan mun þar at uera þuiat hon þottizst vita at Sueinn konungr munde þegar fretta hennar þarkuomu (ok) senda hana aftr til Uindlandz. foru þau þadan ok allt huldu hofde þar til sem þau kuomu nordr j Noreg a fund Olafs konungs Trygguasonar. tok hann uid þeim uel ok voru þau þar j fagnade. sagde þyri drottning Olafi konungi allt um sin uandræde ok bad hann hialprada ok at hon hefde fridland j hans riki. þyri uar kona ordsnioll

ok virdizst konungi vel rædur hennar. hon uar ok frid kona synum ok kurtæislig. kom konungi þa j hug at þat munde uera gott kuonfang at fa hennar. uikr hann sidan sinne rædu til hennar ok spurde huort hon uillde giftazst honum. En sua sem hennar rade uar þa komit ok þat annat at hon sa huersu þat giaford uar farsæligt at giftazst sua agætum konungi þa syndizst henni uant at næita þessu bode ok bad hon konung sia rad firir ser ok sinum kosti. En er þetta mal uar talat þa fek Olafr konungr Þyri drottningar ok fastnade hon sig sialf at rade Ozsorar fostra sins. efnnade Olafr konungr þa til agætra(r) uæitzslu ok gerde brudhlaup sitt j Tunsbergi. þat uar hinn þridia uetr er hann uar konungr at Noregi litlu sidar en þau Sigridr drottning funduzst j Elfinne. þuiat Þyri drottning fann konung j Uikinne þa er hann var nykominn austan fra stefnunne. Stefnnde konungr þa til sin ollu stormenne ok gǫfgum bændum um Uikina ok uida annarsstadar. kom þar saman allmikit fiolmenni ok uar su uæitzsla hin stormannligzsta. Ok fysta dag ueitzslunnar sua sem agætr drykkr gladdi menn uar konungr allkatr ok allir þeir er inni uoru. kallade konungr þa til sin æinn hæuerskan skutilsuein ok bad hann ganga til drottningar med sitt eyrende. þionustumadr gek firir drottningu ok mællti. minn herra sendi mig til yduar fru eftir at spyria huort hann skal uelia yduarri tignn bekkiargiafir eftir þi. sem til heyrir mey edr þeirri konu er manni hefde gift verit. Hon suarar. gak ok seg þinum herra at hann hugse sialfr um sig huart helldr munde til heyra ef ek hefde bygt med honum æina sæng .vij. nętr sem nu hefir ek med odrum konungi. gere hann sidan sem honum synizst mæire sæmd ser ok mer. Sueinninn for ok sagde konungi suǫr hennar. konungi likade uel hennar ord ok sendi henni þegar æina kuennskikkiu med allfridum skinnum ok agætum bunade. At þessi somu ueitzslu talade konungr marga hluti til sidbotar monnum þeim er þar uoru samankomnir ok gerde þat opinbert firir alþydu at þeir menn [192] allir suo kallar sem konur ef sannir yrde at þui at færi med galldr ok gernningar æinkanliga sæidmenn skylldu allir fara af landi burt. sidan leth konungr læita at þesshattar monnum um Vikina vm ǫll nalæg herut ok bygdir ok baud þeim ollum a sinn fund. Ok er þeir komu til konungs uar þar fioldi manna. en æinn uar allra þeirra foringe sa uar Eyuindr kellda hann uar sæidmadr ok allmiog fiolkunnigr. Eyuindr uar audigr ok ættstorr. hann uar sonarson Raugnnualldz rettilbæina sonar Haralldz konungs harfagra. Konungr talade til þeirra blidliga ok bad þa taka skirnn ok retta tru ok letta af forneskiu ok fiolkyngi. en ad odrum kosti sagde hann skulu þer fara

vtlægir af minu riki edr firirlata yduart fostrland. En er þeir uilldu ekki uit skipaz ord konungs þa skipade hann þeim ǫllum j æina mykla stofu. þar uar buit um uel ok gert þeim ollum hin bezsta uæitzsla ok gefinn hinn sterkazsti drykkr ok borinn kapsamliga. en er a læid daginn ok hæidingiar gerduzst ǫlodir. þuiat þeir spǫrduzst ekki uit at drekka ok sem lysti. þa kom konungr til þeirra ok mællti. þat man lysazst at mer þikir mikit firir at lata ydr þuiat mikinn skada gere þer oss edr audn riki voru ef suo mart ok herligt folk er her er samankomit skal burt fara. en ek mun þo æigi hafa ydr her j landi ef þer latit æigi af yduarre uillu. nu uil ek giarnna ef þess er kostr at þer letit at minum fortǫlum ok legdit nidr fornan atrunat en takit j moti kristnni ok sanna tru almattigs guds. skulu þer þa hallda eignnum ydrum ok attiordum ok þar med hafa hia oss samfagnat ok sæmd ualld ok virding nærr sem þer kunnit at bidia ok mer se heyriligt at uæita. þa suarar Eyuindr kellda firir hond allra ok segir suo. þess þarf æigi at læita konungr er æigi man fazst huorki firir glæsilig ord ne afarkosti at ver firirlatim uornn atrunat. Gek konungr þa j burt en bad sina menn uæita þeim æigi okapsamligar en adr. Uar þat folk suo miog drukkit at huerr madr la þar drukkinn ok sofinn er setit hafdi. Konungr let um kuelldit leggia elld j stofuna. uǫknudu heidingiar eigi fyrr en elldrinn lek um þa. brann þar stofan ok allt þat er inne uar nema Eyuindr kellda. komzst hann vt um laundyrr med fiolkynge ok fiandans krafti. leitadi hann suo j burt ok firdizst sem mest Olaf konung. En er Eyuindr uar langt a ueg kominn fann hann æinn dag a læid sinne nokkura menn saman. þeir toluduzst vid ok spurde Eyuindr huert þeir ferdadizst. en þeir sogdu at þeir ætlade a fund Olafs konungs. Eyuindr mællti. þat berr alluel til ok georit suo uel at þer berit eyrendi mitt til konungs ok segit honum sua at Eyuindr kellda er burt kominn ór elldinum ok þat uænna at hann komi alldri sidan a ualld Olafs konungs. ok allt a sǫmu leid sem fyrr mun hann fara med seid ok alla sina fiolkynge utan nokkut megi uit auka. For Eyuindr þa leid sina. en þessir menn kuomu a konungs fund ok sogdu honum eyrende Eyuindar. konungr let illa yfir er Eyuindr uar æigi daudr ok segir hann æigi skylldu suo hælazst ef hann fengi nad honum odru sinne.

## Olafr konungr var a Auguallznesi.

304. Olafr konungr sendi bod um Uikina at hann uill hafua lid uti vm sumarit at fara nordr j land. for konungr sialfr ok hirdin þegar

uorade ut eftir Uikinne ok tok ueitzslor at storbuum sinum. sotti[1] hann nordr a Agdir ok Rogaland er a leid langafostu. Hann kom paskaaptaninn j Kǫrmt a Augualldznes. uar þar buin firir paskaueitzsla. þar uar med konungi þyri drottning Sigurdr byskup ok mart annat stormenni. hafde hann nærr .ccc. manna. En sua sem margheyrt (er) ok sannprofat at sidan er allzualldande gud hafde ser skipat til þionostu haleita hird himneskra krafta suo steyfti ǫfund ok ofmetnnadr þeim einglinum er einna uar agętazstr skipadr or hæstu sæmd ok sælu er honum uar gefin af gude ok suo ollum þeim er honum uoru samhuga j ofbellde mot skaparanum. ok sua sem hann uar adr fegri ok fridari ollum einglum j hinne hæstu dyrd suo uard hann þa ok æ sidan liotari ok leidiligri ollum dioflum j hinu nedsta heluite suo illzskufullr ok ǫfundar med sinum arum ok eyrendrekum at hann kostgæfir allra mest firir at koma hueriu godu rade ok byrlar oftliga æitr sinna slęgda mannkyninu med ymisligri asynd edr yfirbragde. þuiat ef hann serr nokkut sinn æydazst flok sinna þionustumanna en fiolgaz saude gudligrar hiardar af fortolum ok fagrligri aeggian eyrendreka Jesu Cristz þa læitar hann uit a alla uega at tæla med nokkurum suikum þa er hann þykiz skom edr skada af hafua hlotit ok ætlar sidan aftr at leida j myrkr vtoluligrar uillu þat sama folk er hann þykizst adr hafa [193] tynt ok tapat. sem synazst ma j þui sem eftir ferr.

## Fra vidtali konungs ok gestz.

305. Sva er sagt at þat sama kuelld er Olafr konungr þa paskaueitzslu a Augualldznesi kom þar madr gamall miog ordspakr æinsynn ok augdapr ok hafde hatt sidan. hann kom ser j tal vid konung ok þotti konungi mikit gaman at rædum hans þuiat hann kunne af ollum londum tidendi at segia æigi sijdr j fyrnd en nu. spurde konungr hann margra hluta en gestrinn fek ór aullu leyst. Sat konungrinn læingi vm kuelldit. ok vm sidir spurde konungr huat manna Augualldr hefde verit er bærrinn ok nesit var vid kent. Gestr sagdi. Augualldr uar konungr ok hermadr mikill hann blotade mest ku æina ok hafde hana med ser huort sem hann for a sio edr landi. þotti heilsamligt at drekka iafnan miolk hennar. ok er sa ordzkuidr þadan at margir menn hafua at allt skal fara saman karll ok kyr. Augualldr konungr bardizst uid þann konung er Dixin het ok j þeirre orrostu fell Augualldr konungr. uar hann þa heygdr skamt fra bęnum a nesinu en j annan haug þadan skamt fra uar lǫgd kyrin ok þar settir upp bautastæinar þeir er enn

[1]) setti *Cd.*

standa. Slika hluti sagde hann ok marga hluti adra (af) hinum fyrrum tidendum ok fornnkonungum. En er leingi var setit a nott fram þa minti byskup konung a at mal væri at ganga at sofua. georde konungr ok suo. En er konungr uar afklæddr ok hafde lagizst j sængina þa kom þar gestr hinn gamli ok settizst a fotskorina ok talade hann leinge uit konung þuiat konungi þotti ordz uant er annat uar talat. Sigurdr byskup la j næstu huilu konungs sænginne. ok er konungr hafde leingi uakat mællti byskup at mal uæri at sofa. hneigdizst konungr þa at hægindinu ok þotti þo mikit firir at letta talinu. en gestr gek vt. Konungr sofnade skiott ok fast ok hraut miog. hann uaknnade litlu sidar ok spurde þegar at gesti ok bat hann kalla til sin. var hans þa leita farit ok fanzst hann huergi. þa stod byskup upp ok klęddizst. Konungr spurde ef þegar væri mal til tijda. byskup sagde at sua var. Klæddizst konungr þa ok bat kalla til sin matgerdarmann ok stæikara ok spurde þa ef nokkurr madr hefdi komit til þeirra firir skommu sa er þeir bæri æigi kennzsl a. þeir suðrudu. at visu herra kom til uor madr alldradr sa er uer kendum æigi þa er ver biuggum uæitzslu þessa. hann sagde at uer sydim furdu illt slatr ok quad ekki hæfa at bera sligt a konungs bord a iafnnmikille hatid sem j hond ferr. fek hann oss þa nautsidur .ij. fæitar ok digrar ok sudu ver þær med odru kiðti. Konungr mællti. georlla skil ek at sa er allr æinn ok gestr er talade vid oss j kuelld. farit nu sem skiotazst ok brennit þa vist alla sem skiotazst ok berit a sę vt þuiat æigi skal fiandinn sua suikia oss at nokkurr minna manna eti hans æitrfulla fædu. hefir þetta reyndar verit æingi madr þo at sua hafui synnzst helldr hefir ouin allz mannkyns sealfr feandinn brugdit a sig like hins uesta Odins þess er hæidnir menn hafa langan tima truat a ok ser firir gud haft. en nu synir hann sig æigi mega þola heitan bruna sinnar boluadrar ofundar er hann serr eydazst sueit sinna manna sua sem folkit gefr sig j ualld ok undir uilianliga þionustu allzualldanda guds. ok firir þa skylld læitar hann oss at nætia j neti sinna boluadra slęgda þeirra er hann egnndi med sua braduisligum prettum at hann talmade firir oss huilldina vm hæfuiligan suefnsins tima. ætlade sidan at ver þar firir þyngdir af suefni skylldim lata or lagi ganga edr med ollu vrækia skipada tima gudligrar þionustu. letliga at enn birtizst sidar sumar hans slęgdir þo at ek tina þær æigi. huat enn med þessu sem nu uar talt hefir uorum sonnum (u)uin fiandanum tilgengit at hann dualdi suefnninn firir oss j gærkuelldi. kemr mer ekki a uuart at fylliz med nokkuru moti a þessum deghi sem ek hefui nu auisat. Gek konungr þa til tijda ok var sungit.

### Tekinn Eyuindr.

306. Nv er þar til at taka at a þessi somu paschanott kom þar vid eyna Eyuindr kellda. hann hafdi mikit langskip alskipat. voru þat allt sæidmenn ok fiolkunnigt folk. Eyuindr gek upp af skipinu sinu ok oll suæit hans ok toku þa at magna fiolkyngi sina. gerde Eyuindr þeim hulizhialma ok þokumyrkr sua mikit at konungr ok lid hans skyllde æigi mega sia þa. En er þeir komu nær bænum a Augualldznesi þa uard miog annann ueg en Eyuindr hafdi ætlat. þokumyrkrit þat er hann hafde gert med fiolkyngi stod yfir honum ok hans foruneyti. urdu þeir allir senn suo blindir at þeir sa æigi helldr augum en hnakka ok gengu allir j hring ok j kring. En er uardmenn konungs sa huar þeir foru ok uissu æigi huat flokki þat var þa var [194] sagt konungi þann tima er vti uar ottusaungr. Konungr gek vt ok er hann sa huar þeir Eyuindr foru bad hann menn sina uopnna sig ok vita huat monnum þat væri er sua foru undarliga. þeir gerdu sua. kendu konungs menn þar Eyuind kelldu. þeir toku þar þessa alla menn ok leiddu a konungs fund er hann gek fra messu. sagde Eyuindr þa allan atburd um sinar ferdir ok suo þat at hann hafde þa ætlat at koma at konungi ouðrum ok drepa hann sofanda edr brenna inne med alla sina suæit ef æige hefde blindleikr sea meinat er fell a hann ok hans menn. Konungr mællti. huart er þat nu fyllt at su hin sama gilldra edr snara hefir fallit a ydr sealfa er þer egnndut ðdrum. uar ok þess uon at mæira munde mega styrkr almattigs guds ok hans agætazstu eingla er hann skipar til uardueitzslu ok uernndar sinu folki helldr en fiolkynge þin edr sa hinn boluade sendebode Odinn sealfs fiandans er til þess dualdi firir oss suefnninn a tækiligum tima med sinum skemtiligum skroksðgum at hann mætti þui auduelligar oss suikia ok suæfa þa er uer skylldum uaka ok gude þiona sem þessum tima er tilheyriligt. ferr þetta ok makliga eftir uallde ok uilia hins hæsta himnakonungs at hann sealfr med sinum sæla syne uorum herra Jesu Cristo er a þessum sama degi lifgade sinn likam ok reis af dauda med sinum helga anda einn gud j þrenningu hefir hann af þessu sem ollu ðdru sigr ok sæmd en ouinrinn skaup ok skemd. en medr þui Eyuindr at þu hefir nu fullkomliga reynt at þin fiolkynge ok fornneskia uinnr þer ok ðdrum ekki utan illt þa muntu nu ok þinir sueitungar uilia aflata allri uillu ok trua um sidir a sannan gud. En med þui at Eyuindr ok hans kumpanar neittudu þui þuerliga þa let konungr byrgia þa alla j æinu huse. en annan dag eftir uoru þeir fluttir allir at konungs rade j eitt siofarsker skamt fra eyiunne. letu þeir Éyuindr þar allir lif sitt ok er þat sidan

kallat skrattasker. Olafr konungr sat a Augualldznesi fram um paskauiku. ok er af lidu hinir hæstu dagar þa let konungr briota huorntueggia hauginn er þar voru a nesinu ok funduzst manzbæin j hinum meira hauginum mikil ok fornlig en nautzbein j hinum minna. Sidan for konungr nordr med landi um uorit ok onduert sumar ok þo helldr tomliga. dualdizst hann longum uida at storbuum sinum ok hafde med ser mikit lid ok fritt.

---

## HER HEFR VPP ÞAATT ÞORVALLDZ-TASALLDA.

### Capitulum.

Nv þo at margar rædur ok frasagnnir se ritadar j þessu male þær at æigi þikia miog tilheyra sogu Olafs Trygguasonar þa þarf þat æigi at undrazst. þuiat suo sem rennande uðtnn fliota af ymissum upp-sprettum ok koma oll j æinn stad nidr til þeirrar somu likingar hafua þessar frasagnir af ymissligu upphafui æitt endimark at rydia til at-burda sem Olafr konungr Trygguason uerdr uit staddr edr menn hans.

### Rægdr Þorvalldr.

308. Sigurdr er madr nefnndr en annarr Haukr þeir uoru haleyskir menn at ætt ungir at alldri en myklir ok sterkir ok hofduzst miog j kaupferdum. þetta sama sumar er Olafr konungr for austan or Uikinne sigldu þeir Sigurdr ok Haukr uestr til Einglandz. en er þeir komu aftr til Noregs at alidnu sumre þa sigldu þeir nordr med landi. þeir mættu lide Olafs konungs nordr a Mære. En er konungi uar sagt at þar uoru kaupmenn haleyskir komnir af Æinglande ok voru heidnir þa let hann kalla styrimenn til sin ok spurde ef þeir uillde taka tru ok lata skirazst. en þeir neitodu þui skiott. Konungr talade firir þeim fagrliga ok fek ekki af þeim þat er hann uillde. het hann þeim þa afarkostum liflati edr lima. ok gerde þat ekki. þa let konungr setia þa j jarnn ok hafde þa med ser nordr til þrandheims. uoru þeir um hrid halldnir j hoftum ok fiotrum. Konungr kom oft til þeirra ok het þeim sæmdum ok sinne vinattu en stundum hðrdum pijslum. ok stodade ekki þuiat þeir gengu huorki firir blidu ne stridu. En a æinne nott hurfu þeir brott or uardhalldinu suo at æinge madr spurde til þeirra ok æinge madr uisse huersu þeir hðfdu brott komizst þuiat fiotrarnir

lagu þar obrotnir ok læst husinu er þeir hofdu inne uerit. toludu menn þar mart til en konungr sealfr uar um þetta farędinn ok talde þo nokkut a uardhalldzmennina er gætt þeirra skyllde hafua. uirde þeim þat bæde til uangeymslu ok vskynsamligrar fauitzsku er þeir urdu æigi uarir uit brotferd þeirra. en þo uard ekki at gert þuiat þeirra var leita farit ok funduzst þeir æigi. Sid um haustit komu þeir fram brædr [195] Sigurdr ok Haukr nordr a Halogalande med Hareki j þiottu. tok hann alluel uit þeim ok uoru þeir med honum um uetrinn med godu yfirlæti.

## Konungr sendi þorualld til Vpplanda.

309. A þui sama sumri sem nu var fra sagt kom til Noregs vtan af Jslande þorualldr tasallde systurson Uigaglums. hann var fridr madr synum mikill ok sterkr ok ǫrr af peningum. þorualldr kom af hafui vtan at þrandheimi lagde hann inn til Nidaross. Olafr konungr uar þar firir j bænum. ok þegar at konungr visse at þar voru komnir kaupmenn hæidnir utan af Jslande þa bodade hann þorualldе a sinn fund ok bad hann lata skirazst. hann jattade at vinna þat til uinganar konungs at taka vid kristnne. konungr sagde at hann skyllde þui aluarligre fa hans vinattu sem hann leti auduelligar at hans ordum ok bodskap. var þorualldr þa skirdr ok hans foruneyti. þorualldr uar med Olafi konungi vm uetrinn j godu yfirlæti. Sigurdr het hirdmadr konungs en annar Helgi. badir voru þeir gilldir menn firir ser ok kærir konungi en þo vskaplikir. Sigurdr uar uinsæll af alþydu en Helgi uþydr ok undirfǫrull. þorualldе tasallda uar skipat at sitia mille þeirra um uetrinn. Helgi ofundade þorualld ok afþokkade allt firir honum. en Sigurdr uar uel til hans ok flyde Helgi þadan af bekkinum ok uillde æigi sitia hea þeim þorualldi. tok hann þa at rægia þorualld sem mest vid konung ok allt þar til er konungr bad hann hetta. þarftu huorki sagde konungr at rægia þorualld vid mig ne adra menn þa er med mer eru þuiat ek uil sealfr reyna mina menn. Helgi leitade þa ef Sigurdr uillde j fazst vid þorualld ok rægde hann firir honum. Sigurdr mællti. æigi mun ek oþokkazst vid þorualld firir þin ord þuiat hann er dugande dreingr en þu ert hit mesta illmenni. Nu med þui at Helgi letti enn æigi af helldr var hann kostgęfr a rogit þa kom suo um sidir at konungr gerdisst farr uit þorualld. Eitt sinn mællti Helgi til þorualldz. spyr þu konunginn eftir hui hann er suo falatr. þorualldr suarar. ekki geri ek firir þin ord ne eggian ok suo uænti ek at konungr trui ekki rogi þinu þo at honum mislike nokkut uit mig. Helgi

mællti. digrliga lætr mörlande enn. Nokkuru sidarr einn dag mællti þorualldr er hann kom firir konung. herra diarfligt er min at spyria eftir uglede yduarre. ef sott uelldr þa er uon at skiott bætizst en ef uelldr annar ahugi edr nokkur önnur tilfelli af manna uolldum þa ma enn vera at letti med yduarre gift ok hamingiu. Konungr mællti. æigi er ek siukr. þorualldr mællti. þa er þegar nærr ok af hinn hardazsti. eru menn þa sakbitnir uit ydr. Konungr sagdi at suo uar. en þu ert skylldr til þorualldr at leysa þetta uandræde er þu hefir fystr eftir læitat. þorualldr suarar. allir ydrir menn eru skylldir til at gera yduarnn uilia. en vita uerd ek huar til þetta heyrir þo at ek se uanfærr til at leysa. Konungr mællti. Bardr heitir madr ok kalladr digri upplenzskr madr at ætt audigr madr at peningum. dottur æina a hann barnna er þora heitir. Bardr er hniginn a efra alldr. hann byrr á Upplondum þar sem hæitir j Ulfsdolum. hann a mikinn bæ ok uegligan. þora dottir hans er med honum en ekki uerda menn þar uid fiolmenni varir. nu likar mer þat litt at Bardr uill æigi uit tru taka ok æigi koma a minn fund. ek hefui sent til hans tysuar .xij. menn ok hafua öngir aftr komit. þorualldr mællti. er Bardr blotmadr mikill. Konungr mællti. ekki uita menn til þess þuiat ekki er hof a bæ hans ok þikir Bardr miog kynligr ok ouisir eru monnum hættir hans. þorualldr mællti. giarnna uillda ek gledia ydr herra. nu mun ek fara at hitta Bard ef þer uilit huat sem fleira gerizst at. Konungr kuetzst þat uilia. Helgi uard vit þetta gladr þuiat hann uænti at þorualldr munde æigi aftr koma helldr en adrir þeir sem þessa ferd hefde farit. Sidan biozst þorualldr ok bad konungr hann hafua med ser suo marga menn sem hann uillde. þorualldr suarar. Sigurd sessunaut minn hefui ek reynt at dyggum manni ok godum. hann uil ek at fari med mer en ekki fleira manna þuiat gifta ydr ok hamingia ma oss meira en nokkurir menn. Konungr suarar. uist skal ek minn goduilia til leggia med ykkr. en senda uil ek ykkr til þess bonda er Biornn heitir hann byr skamt fra Barde. hann þiki mer uænstr til at kunna nokkut segia ykkr af hattum Bardar ok uisa ykkr þangat leid. Sidan foru þeir ok komu til Biarnar ok tok hann uel vid þeim þegar hann uisse at þeir uoru sendimenn Olafs konungs. spurdu þeir hann at hybylum Bardar. en Beornn sagde med undrum hans hag fram flytiazst. þuiat þar verdr ekki vart uit menn þa er þangat er komit en þo fara þar allar syslur skipuliga fram. Vm nottina er þeir uoru sofnadir þa dreymdi þorualld at honum þotti Olafr konungr koma at ser ok mællti. þu munt finna at höfde þer duk æinn er þu uaknar ok þar er knytt j bref æitt er a er ritat nafnn

guds. þat bref skaltu lata koma a morgin firir briost þer ok uefia duknum at vtan ok vm buk þer sem hann [196] tekr. þa man þer duga at ganga diar(f)liga at Barde.

### Videign þorvalldz ok Bardar.

310. þorualldr uaknade ok fann dukinn ok bio suo um sem honum var kent. Um morgininn leidde Beornn bonde hann or garde ok visade honum leid til bæiar Bardar. uar þar at fara um skog nǫkkurnn. En er þeir komu fram af skoginum sa þeir bæ mikinn ok var skidgardr haarr um. gengu þeir til bæiarins. grindarhlid uar opit a gardinum ok suo dyrr a husunum. þeir sa ekki manna vti. þeir gengu j andyrit ok lituduzst um. uoru þar hus stor ok þili nyskafin. skali uar a adra hond tialldadr allr ok buinn uel. Bardr sat j onduegi hann uar skǫllottr j skallatz klædum ok hellt a hiartskinnz glofum en kona mikil ok uæn sat uit borda. ekki sa þeir þar fleira manna. Bardr mællti. huat er komit j andyrit. þeir nefnndu sig ok sogduzst vera konungs menn. Bardr mællti. huert eyrendi hafui þit hingat .ij. saman. þorualldr suarar. lid okkart er suo mart firir dyrum at þig mun mega færa a fund Olafs konungs naudgan ef þu uill æigi fara lostigr. Bardr snarade þa glofana sundr mille handa ser ok quat þetta vit.

Hugda ek hitt at ek hefda
hardhendr uerit stundum
at ek skalfgrana skelkinn
skylldag æinn of hallda.

þorualldr mællti. reynum nu þa ok tokumzst til. Red þorualldr þa a Bard ok suiptuzst þeir fast. þa uar dagr miog alidinn. þeir attuzst vid stund þa ok uard þorualldr miog afluana. bad hann þa gud hliodliga uæita ser styrk j moti honum. en Bardr gek þa at sem fastaz. en er briostin þeirra mættuzst þa uar þui likt sem madr gengi at ok kipti fotum undan Bardi sua at hann fell at þreskilldinum. uoru þeir þorualldr þa badir suo modir at þeir mattu ekki athafaz. þa mællti Bardr. dugi þu nu þora. Hon suarar. ekki ma ek þer duga fadir þuiat uit Sigurdr suiftumzst ok er her alluel a komit þuiat uit erum iafnnsterk. Bardr mællti. þa uerdr nu til þess at taka er ek hefui æigi fyrr þurft at bidia mer lids j moti einum. gangi nu fram þeir sem undir skalanum byggia ok ueiti mer. Hlupu þar þa fram .lx. manna ok voru þeir þorualldr þa handteknir. Bardr mællti. uel hafa undirskalans buar uæitt mer þora ok suo man enn ef ek þarf nokkurs uid ok þui þiki mer

rad at þeir (Sigurdr) se æigi j bôndum. en þo uil ek æigi at þu rennir oftar a mig trollit þitt þoat þu heitir þorualldr þuiat æigi skortir þig dirfd ne arẹde. en þo ma uera at þu skulir madr heita ok muntu uera helldr fiolkunnigr þuiat ekki uard mer aflskortr uid þig fyrri. en ek hygg at þu hafir ragnat at mer suo üondar uættir at ek uard at falla firir þuiat þat uard alldri fyr at ek fella firir einum. en her uerdi þit at uera j nott þo at þit set hreddir huersu at uit ykkr mun buit. Uar þeim þa sett bord ok buit uel. skorti þar huorke uist ne dryk godann. En er þeir voru mettir mællti Bardr. ekki tel (ek) mat eftir. en uel diar(f)liga þotti mer þit snæda þoat þit værit med ollu uhræddir ok med uinum komnir. Uar þeim þa fylgt til sẹngr ok þotti þeim þorualldi ok Sigurdi þar uel umbuit. suofu þeir af um nottina. ok um morguninn er þeir uoru brott bunir bad Bardr menn sina at fylgia þeim af garde. En er þeir uoru ut komnir litazst þorualldr um ok sa ôngua menn hea þeim. hann mællti. þat uillde Bardr at uit færim brott ok ættimzst uær ekki fleira uid en þat skal nu þo ekki uera. finna skulu vid hann enn adr. Gengu þeir þa inn. Bardr mællti. þit erut allundarligir menn. gangit vt en farit æigi burt edr hui kunni þit æigi at hrædazst sem adrir edr er ykkr allant til at deyia. þorualldr suarar. þui hurfu vit aftr at ek uillda æigi drepa nidr godrẹde minu en sæmd þinne. erum vid uist ekki suo hrẹddir at uit þorim æigi til fullnadar at flytia konungs eyrende. nu uil ek þess beida at þu ridir sealfuiliande med mer a konungs fund. Bardr mællti. hui spyr þu æigi fyst huernn atrunat at ek hefui. þar er mer æingi foruitni a segir þorualldr. Bardr sagde. þat uil ek þer þo kunnigt gera at ek trui ekki a skurgod edr fiandr. ek hefui farit land af landi ok mætt bæde risum ok blamonnum ok firirkuomu þeir mer ekki. ok firir þui hefui ek truat a matt minn ok megin. en nu er mer ordinn ualiugr j fyrsta sinn at þeim atrunade ok se ek þat at ekki hefdir þu mig sigrat ef þu nytir eingis at nema [157] sealfs þins. edr huat uar firir briosti þer er uit kuomum saman. þat er mer grunr at sa mun mikit mega er sa afspringr er af kominn. þorualldr suarar. rett getr þu at sa er mattugr þuiat þat uoru nôfnn guds er ver kristnir menn truum a. Bardr mællti. ek kann æigi þat at hugsa at sa muni æigi ollu mega orka ef hann kemr sealfr til er mer uann nu at fullu nôfnn hans. ok firir þui mun ek fara med þer a kónungs fund at ek skil at gott mun a þann gud at trua er suo er mattugr ef a nokkurnn skal trua. en þui let ek gera undirskalann ok setta ek þar mina menn at ef fiolmenni væri dregit at mer ætlada ek til þeirra at taka ok niota lids-

munar. en ef kęmi at mer .ij. edr .iij. þa gaf ek mer ekki um þuiat ek þottumzst firir þeim ekki uppnæmr. her eru ok menn Olafs konungs fiorir ok .xx. er hann hefir sent til min. eru þeir her uel halldnir en æigi drepnir sem konungr munde hyggia. Sidan biotzst Bardr ok for med þorualldi med alla sina menn a konungs fund. en er þeir komu ner bænum j Nidarose þa mællti Bardr. far þu nu þorualldr til konungs ok seg honum at ver uilium her skirdir uera sem nu eru uer komnir. þuiat uær uilium æigi at fiolmenni hlei at oss at uer sem afklęddir suo gamlir. þorualldr for til konungs ok sagde honum allt um sinar ferdir ok huar þa uar komit. Olafr konungr uard uit þetta gladr ok fór þegar med kennimonnum til fundar vid Bard. Hann fagnade uel konungi ok mællti. mattugr er gud þinn konungr ok hefui ek nu þat reynt ok þui uil ek a hann trua ok lata skirazst. Konungr suarar. uel talar þu Bardr eftir þinne skilningu. en þat er satt atkuedit at sa er gud (er) mer styrir ok ollum hlutum syniligum ok vsyniligum ok kallar til sin med ymissum hattum alla þa menn er hans þionustu eru makligir. Uar Bardr þa skirdr ok allir hans menn. þa mællti Bardr. er ek nu godr herra. Konungr quad suo uera. Bardr mællti. ek hefi þotz mer miog einhlitr her til ok þionat ekki konungum en nu uil ek gerazst þer handgenginn konungr ok þiona ydr medan ek lifui. þiki mer þat uænazst at (ek) tyna þa æigi þeim godleik sem nu hefui ek fæingit. en ek uil at þu siair rad firir þoru dottur minne ok ollu hennar fe ok giftir hana þorualldi þessum hinum islenzska manni þuiat vid eigum honum gott at launa. þorualldr suarar. æigi ma suo vera þuiat ek er adr kuæntr a Jslande. Konungr mællti. þa skaltu gefua þessa konu Sigurde vin þinum þar er uel a komit med þeim er þau (eru) iafnnsterk. þorualldr suarar. þat uil ek giarnna gera. en þess uil ek bidia ydr herra at þer segit Helga ór yduarri þionustu ok er þo oflitill mun(r) gerr þeirra Sigurdar. en ek mun þo firir ydra skylld gera ekki a hlut Helga ef þer uæitit mer þetta. Konungr sagde at suo skylldi uera. Sidan fek Sigurdr þoru ok settizst j bu a Upplondum er att hafde Bardr digri. Bardr tok sott litlu sidarr en hann uar skirdr ok andadizst j huitauodum. en þorualldr for til Jslandz med mikille sæmd af Olafi konungi ok þotti uera mikilmenni.

## Harekr fluttr til konungs.

311. Nu er þar til at taka er fyrr uar fra horfit at þeir brædr hinir haleysku Sigurdr ok Haukr hofdu komizst ór bǫndum ok vardhallde Olafs konungs. satu þeir um uetrinn uel halldnir med Hareki j

þiottu. þat uar um uorit æinn uedrdag godan at Harekr uar hæima ok fatt manna a bænum þotti honum dausligt. þeir brædr fylgdu honum iafnan. þa spurde Sigurdr ef bonde uillde at þeir reri nokkur at skemta ser. þat likade Hareki uel. gengu sidan til strandar ok settu fram sexæring. tok Sigurdr ór nausti segl ok reida er fylgde skipinu sem þeir voru adr uanir at hafa med ser þoat þeir færi skamt at skemta ser. Harekr gek vt a skipit ok lagde styri til lags. þeir brædr hofdu aluępnni sitt sem þeir voru uanir at ganga heima med bonda. badir uoru þeir manna sterkazstir. en adr þeir gengi vt a skipit þa kostudu þeir vt smiorlaupum nokkurum ok braudkass ok baru vt j mille sin mungatztunnu a skipit. Harekr biozst vm aftr j skipit ok geymde ekki um huat þeir brædr hofduzst at. Sidan reru þeir fra landi. uindr litill uar a nordan ok uedrit blijtt. en er þeir uoru skamt komnir fra eyiunne þa færdu þeir brædr segl upp en Harekr styrde. bar þa bratt fra eyiunne. þui næst gengu þeir brædr aftr þar til er Harekr sat ok spurdu huert hann ætlade at þeir skyllde fara. Hann sęgde at þeir munde sigla til næstu eyiar at skemta ser. Sigurdr mællti. suo er nu komit bondi at þu skalt uelia um .ij. kosti edr .iij. sa er hinn fysti at lata okkr brædr rada firir ferd uorri ok stefnu ok skal þa gera uel vit þig sem makligt er. hinn er annar at uit bindum þig. sa er hinn þride at vit munum drepa þig. Harekr suarar. þit munut nu rada. þuiat Harekr sa huar ko(mit uar). [198] Batt hann þat þa suardogum ok sellde þeim tru sina þar til. gek Sigurdr þa til stiornnar ok stefnnde sudr med lande. Gættu þeir brædr þess at þeir skyllde huergi menn finna. en byri gaf sem bezst ok blidazst. lettu þeir ferdinne æigi fyrr en þeir kuomu sudr vid þrandheim ok inn til Nidaross a fund Olafs konungs. Konungr let Harek kalla til motz vit sig ok baud honum at lata skirazst. Harekr mællti j moti. þetta toludu þeir konungr ok Harekr marga daga med ser stundum firir fiolmenni en stundum a æinmæli. kom þar ekki asamt med þeim. ok at lyktum sagde konungr Hareki. nu skaltu fara heim ok skal ek ekki gera a hluta þinn. fyrst firir þat at frændsemi er mikil millum okkar. þat annat at þu munt kalla at ek hafui þig med suikum fæingit. en vit þat til sannz at ek æthla j sumar nordr at vitea yduarr Haleygianna. skulu þer þa profua huort ek kann at refsa þeim at neitta kristninne. Harekr let (uel) yfir þij at hann kæmizst sem fyst þadan j brott. Olafr konungr fek Hareki skutu goda. reru a bordit .x. menn edr .xij. let konungr bua skip þat sem bezst at ǫllum fǫngum. þar med fek hann Hareki til fylgdar .xxx. uaskra manna ok alla uel buna. For Harekr þegar brott er hann var buinn.

en Sigurdr ok Haukr uoru eftir med Olafi konungi ok letu skirazst badir. Harekr for leid sina þar til er hann kom heim j þiottu. hann sende þegar ord Eyuinde kinnrifu uin sinum ok bat suo segia at Harekr or þiottu hafde fundit Olaf konung ok hafde æigi kugazst latit at taka vid kristnne. hitt annat bat hann segia Eyuinde at Olafr konungr ætlar um sumarit at fara med her a hendr þeim. sagde Harekr at þeir munde þar uarhuga uerda uit at giallda. bat Eyuind koma sem fyst a sinn fund. En er þessi eyrende uoru borin Eyuinde þa sa hann at ærin naudsyn mundi til vera at gera þat rad firir at þeir uæri æigi uppnæmir firir Olafi konungi. for Eyuindr þegar sem skyndiligazst med hleypiskutu ok fa menn a. en er hann kom til þiottu fagnnade Harekr honum uel. gæingu þeir þegar a æintal tueir samt annan ueg fra bęnum. En er þeir hofdu litla hrid talat þa komu þar konungs menn þeir er Hareki hofdu nordr fylgt. gripu þeir Eyuind ok hǫfdu til skips med ser. foru þegar brott med Eyuind ok lettu sinne ferd æigi fyrr en þeir komu sudr til þrandheims ok a fund Olafs konungs j Nidarose. Uar Eyuinde þa fylgt a konungs fund. baud konungr honum sem odrum monnum at taka skirnn. Eyuindr kuat þar nei vid. Konungr bat hann blidum ordum at taka tru retta ok sagde honum marga skynsemi ok suo byskup af dyrd ok iartæignum almattigs guds. ok skipadizst Eyuindr ekki vit þat. þa baud konungr honum uirduligar giafir ok ueitzslur storar ok het honum þar med sinne fullkominne vinattu ef hann uillde lata af heidni ok taka skirnn. en Eyuindr neitade þui ollu þuerliga. þa het konungr honum meitzslum edr dauda. ekki skipadizst Eyuindr vid þat. Sidan let konungr bera inn munnlaug fulla af glodum ok setia a kuid Eyuinde ok bratt brast kuidrinn j sundr. þa mællti Eyuindr. taki af mer munnlaugina ek uil mæla nǫkkur ord adr en ek dey. þa uar suo gert. Konungr mællti. uilltu nu trua a Krist. Nei sagde hann ek ma ǫngua skirnn faa þoat ek uillde þuiat fadir minn ok modir mattu ekki barnn sitt upp fæda adr þau foru til Finna fiolkunnigra ok gafu þeim mikit fe til at gefa þeim getnat med sinne kunnostu. þeir sogduzst þat ekki mega gera. en þat ma vera sǫgdu þeir at uer megim þiggia at þat barnn er þit eigit næst likamliga lifi ef þit heitit þui med suardaga ef sa madr lifir at hann þioni þor ok Odni til daudadags. sidan gatu þau mig ok gafu Odni. fæddumzst ek upp ok þegar ek matti mer nokkut enndrnyada ek þeirra heit. hefir ek sidan Odni þionat med allri elsku ok ordit rikr hofdinge. nu er ek sua margfalliga gefinn Odni at ek ma þui med ǫngu moti brigda ok æigi uil ek. Eftir þat do Eyuindr. hafde hann verit hinn fiolkunnigazsti madr.

## Sigurdr pindr til dauds. capitulum.

312. A æinu sumre kom sa madr til Jslandz er Grimr het hann var islenzskr at ætt ok hafde læingi utan verit. hann uar hirdmadr Olafs konungs ok hafde uerit stafnnbui hans vm hrid. Grimr uar mikill madr ok uar a Jslande um uetrinn ok ræid til þings um sumarit eftir. þa bio þorkell Raudabiarnnarson uestr j Borgarfirde j Suignaskarde. þorkell uar a alþinge. en þat uard med atburd j lǫgbergsgongu at þorkell trefill fell ok uar trodinn undir fotum er mannþraung uar mikil. þorkell kemzst a fætr ok uard vid þetta miog ræidr. kende hann Grime er adr uar nefnndr at hann hefde mest fottrodit hann. Sa madr uar a þinge med þorkeli er Sigurdr het. hann uar sterkr ok atgeruimadr mikill. þorkell bad Sigurd hefnna Grime sinnar suiuirdingar. ok um kuelldit er Grimr uar buinn til huilu ok afklęddr hliop Sigurdr inn j budina at Grime ouaurum ok sotti hann med uopnum. Grimr uard vid hraustr [199] en fek litla uornn ueitta þuiat hann uar uopnnlaus firir ok fell hann þar. Firir þetta vig gengu frændr Grims at eftirmali ok gerdu Sigurd sekian skogarmann a þui sama þinge. en þorkell trefill kom þeim vtan vm sumarit. hann kom til Noregs um haustit ok gaf ser nafnn annat en hann atti. En Olafr konungr spurde af kaupmonnum þeim er vtan komu af Jslande at Grimr er verit hafde stafnnbui hans uar ueginn ok þat med at uegandinn munde þar kominn. þa uard konungr miog ræidr ok for þegar med sueit manna til kaupskipsins at leita eftir manninum ok kendi braatt huerr ualldr mundi uera uerks þessa þo at hann dyldizst. uar Sigurdr þa gripinn ok settr j fiotur. Sidan setti konungr fiolment þing. uar Sigurdr þa leiddr fram a þingit. konungr bad afklęda hann ok sagde at hann skyllde bæita hundum til bana. þa gek firir konung einn hirdmadr hans ok mællti. herra helldr synizst oss þessum manni hardr daude skipadr. nu er þat bæn ok tillaga þinna manna at þu latir þenna mann koma botum firir sig ok takit j ydra þionustu sua uaskligan mann j stad hins uegnna þuiat æigi er þessi uhermannligri en Grimr uar. Konungr suarade. þenna skal hann nu dauda hafua sem honum uar ætladr at adrir hrædizst helldr at drepa menn minạ saklausa. En er hirdmadrinn sa at konungr uillde ekki firir hans ord gera her um þa for hann til motz vid Sigurd byskup ok sagde honum til þessa. byskup sende hann þegar aftr til konungs ok bad hann gefa upp manninn. Konungr suarar. æigi kann byskup gerr at sea menn a uelli en ek. afklæde manninn skiott. Ok var þa sua gert. Sidan uar gerr mannhringr um Sigurd ok slegit lausum hundunum en hann berr ok bundinn firir. en suo segizst at hann hefde

suo snart augnnabragd at allir hundar hurfu fra honum. ok var æinge suo grimmr at þyrde a hann at rada er hann huesti ögun j mot þeim. þa kallade konungr til hinn snarpazsta hund Uiga ok klappade um hann ok visade at hinum klędlausa manni. hann uar helldr tregr til. stod þo upp ok bysti sig ok hliop sidan at Sigurde ok greip til hans vm sinn ok ræif kuidinn. rann sidan aftr til konungs ok lagdizst nidr firir fætr honum. En er Sigurdr kende sarsaukans spratt hann upp hart þuiat fætr hans voru lausir en hendr bundnar. stok hann upp yfir mannhringinn ok fell þegar daudr nidr. En er byskup frétti þetta asakade hann konung fast þar til er hann fell til fota byskupi ok bad hann litilatliga miskunnar med sannre idran ok jattade sig med tarum miog hafa misgert j guds auglite þetta grimma uerk. byskup uar buinn til satta af guds halfu þegar hann sa idran konungs ok setti honum þo opinberliga skrift firir þenna hlut.

---

## ÞAATTR SVEINS OK FINZ.

### Capitulum.

Þess er getit ok suo er ritat a fornnum bokum at a doghum Hakonar jalls Sigurdarsonar var nefnndr[1] j þrandheimi sa madr er Suæinn het. hann uar audigr madr ok ættstorr falatr ok hoglyndr huersdagsliga en stridr ok storhugadr vid mæire menn ef honum mislikade. hann blotade heidin gud at sid frænda sinna ok forelldra sem j þann tima gerde allt folk j Noregi. hafde Sueinn hof mikit a bæ sinum ok buit virduliga. voru þar j morg skurgod en þo tignade Sueinn þor æinna mest. hann var j vingan vid Hakon jall sem adrir blotmenn. Sueinn uar kuongadr. hann atti .ij. syne. het annar Sueinn en annar Finnr. Sueinn var likr födr sinum en Finnr var helldr udęll æinrænn ok annmalugr laun(gum) hlutsamr ok hafadamikill en stundum þögull ok þriotlyndr ok öllu skapi hinn kynligzsti. þui syndizst sumum monnum hann uitlitill. ok ekki miog var hann truadr at sid þeirra þuiat þa sialldan er hann kom j hofit födr sins lofade hann ekki godin helldr hæddi hann þau j hueriu orde ok kallade þau rangeyg ok riuka duzst af. sagde þau æigi mega odrum healpa er þau hofdu æigi afl til ath hræinsa saur af ser. oftliga greip hann til þeirra ok suipti þeim af stollunum. en fadir hans sagde honum þat firir þrifum standa er hann

[1] r. nordr

uar suo illa vit þau. suo morg ok mikil þrekuirke sem þor hafde unnit farit j gegnum biorg ok hamra en Odin rædr sigri manna. Finnr suarar. þat er hardla litill mattr at briota steina edr gnipur edr starfua j sliku edr gefua sigr sem Odin gaf med uelum en ðngu uallde. en mer þikir sa mattugr er sett hefir j fystunni biorgin ok hæiminn allann ok sioinn. edr huat kunne þer fra þeim at segia. En þar uar farętt vm af fðdr hans. Einn uetr at jolum mællti Finnr er menn voru til drykkiu komnir. margstadar munu hæitstreingingar fram fara a þessu kuellde þar sem æigi man betra at vera en her. nu stræingi ek þess heit at ek skal þiona þeim konungi er æzstr er ok at ðllu umfram adra. þessa heitstreinging virdu menn misiafnnt firir Finni. sðgdu sumir at Hakon jall væri æzstr hofdingi a Nordrlondum ok Finnr munde honum þiona vilia. Finnr sagde at hann visse huort var jall edr konungr. Toku þa annat sumir menn þeir er suiuirdu firir honum at hanǹ synde fauitzsku sina j þessum [200] suðrum ok suo j hæitstreing(ing)inne. Eftir jolin biozst Finnr til brottferdar. fadir hans spurde huert hann ætlade. Finnr suarar. þat uæit ek æigi huert ek skal fara. en læita ætla ek konungs þess er ek uil þiona ok þo suo at æins at (ek) skal efnna j alla stade heitstræingin(g) mina. Spurde hann þa ef Suæinn brodir hans uillde fara med honum. hann quaz æigi þat uilia. þat er ok uel sagde Finnr. þu munt ætla at uarduæita fe uort med fðdr þinum þar til at ek kem aftr. Fadir hans spurde. uilltu at ek fai þer menn til fylgdar. Finnr suarar. þat ferr fiarre. þuiat ekki mun ek uel sia firir fleirum monnum ef ek hefui æigi uit til at sea firir mer sem margir mæla ok ek dyl æigi at suo se. Eftir þetta for Finnr brott ok sudr hit efra a Upplond. kom hann fram austr j Uik. Finnr fek ser þar far med byrdingsmonnum sudr til Danmerkr. en þegar hann kom fotum undir sig j Danmork þa gek hann æinn saman fra skipi til skogar ok bad ekki uel lifa sina forunauta ok ðngan mann bad hann ser ueg uisa til bygda. uilltizst hann læinge a morkum vti ok um sidir kom hann ór skogi fram þar sem hann fann firir ser æinn hiardsuein. En er þeir funduzst settuzst þeir nidr ok toluduzst vid. spurde Finnr ef skamt væri til bygda. suæinn kuat suo vera. Finnr spurde ef hann uillde skifta klædum uit hann. hann kuetzst þat vilia giarnna. ok suo gerdu þeir. Finnr mællti. huat er her bundit j klædunum. Hann suarar. þat kðllum ver kross kristnir menn. þikizst þu vera kristinn sagde Finnr edr huernn ueg er þat at vera kristinn. Sueinninn sagde honum þar af sligt er hann kunne. en Finnr sagdizst ekki af skilia ok sagde honum j mot fra heimsku æinne ok hegoma þor ok Odni ok þeirra þrekuirkium. Sueinninn mællti. bratt

ætla ek at þu fair uafit firir mer. en þat er uænna ef þu finnr byskup uornn er hedan er skamt a brott at þu munir æigi hæimsku æinne uid hann koma þuiat hann mun segia þer merkiligar vm truna en ek. Finnr mællti. huat er þat byskupinn yduarr. huort er þat madr edr annat kuikuende. Sueinninn suarar. æigi þuerr enn hæimskan þin ok ætla ek at þu ser fifl edr afglapi ella ertu ekki iafnnhæimskr sem þu lætr. en byskup kollum uer stiornnarmann ok foringia hæilagrar kristnne. Finnr kuatzst at visu uilia hann hitta. þui næst fann hann byskup ok kuadde hann. byskup spurde huat manna hann uæri. en (hann) quaz vera Nordmadr. Byskup mællti. a huernn truir þu. Finnr suarar. a þor ok Odin sem adrir Nordmenn. Byskup mællti. þat er ill trua ok skal ek lata kenna þer adra tru betri. Finnr suarar. þa ueit ek þat at ek heyre huort mer þikir su truan betri. edr hui skaltu lata kenna mer þa tru helldr en syna mer hana sealfr. Byskup sellde hann j hendr presti æinum ok bad hann kenna honum truna. en Finnr uafde allt firir presti sua at hann gat ekki at gert. ok sagde prestr byskupi at madr þessi var suo toruelldr ok hæimskr at ekki mætti vid æiga. Byskup mællti. suo litz mer a mann þenna at hann muni uera ekki sua hæimskr sem hann er kynligr. Tok byskup þa at tea ok telia firir honum stormerki almattigs guds. ok sidan mællti Finnr. (þetta er allt annan ueg en ek heyrdi fyrr at engir gudar uoru jafnmattugir sem þorr ok Odinn. en nu skilst mer þat hellzt af ordum þinum um) Krist þann er þu bodar ok þer hafit nafnn af tekit er a hann truit ok miog suo huerr madr matti gera uit hann sem uillde medan hann var j þessum hæime en eftir daudann gerdizst hann suo halæitr at hann heriade j heluite ok batt þor hofdingia allra goda ok sidan stod ekki uætta vid honum. þui synizst mer sem hann se sa konungr sem ek hefir heitstreingt at þiona eftir þui sem þer kennit mer. Byskup mællti. þetta er allt rett eftir þui sem þu hefir fæingit af gude skilning vm. ok kemr nu þat fram sem ek sagda at þu ert myklu vitrari en þu lætr. Uar Finnr þa skirdr ok hellt uel tru sina ok dualdizst þar vm hrid j Danmork.

## Sueinn ok Finnr toku tru af ordum konungs.

314. En nu er fra þui at segia at Olafr konungr kristnade folkit j Noregi. En þo at alþyda væri skird af kennimonnum þeim er konungr sendi um allan þrandheim eftir drap Yriarskeggia þa uoru þar sem annarsstadar j landinu þeir er tregir voru til at taka retta tru. einn af þeim uar Sueinn er fyrr var getit ok Sueinn son hans med sinum heimamonnum. En er Olafr konungr fretti at þeir fedgar uilldu

æigi tru taka þa sende hann þeim bod at þeir kæmi a hans fund. ok er þeim kuomu konungs bod mællti hinn yngri Suæinn til fodur sins at þeir munde fara a konungs fund ok taka sidan þann sid er konungr bodade. hinn ellri Sueinn kuetz ekki fuss at breyta þeim atrunade er hans frændr ok forelldrar hofdu haft ok halldit. en þo red hinn yngri Sueinn at þeir foru ok fundu konung. tok hann uit þeim uel ok bodade þeim kristni. Sueinn hinn ellri suarar. ekki mun ek lata sid minn. Konungr suarar. þa mun her uerda skiot vmskifte at ek mun lata drepa þig. Sueinn suarar. þat mattu gera ef þu uill. ek er madr gamall ok þiki mer æigi mikit a liggia huort ek dey vti edr inne stundu fyrr [231] eda sidarr. þa mællti Sueinn hinn yngri til konungs. herra uęgit fôdr minum ok drepit hann æigi þuiat hann er ættstor ok frændmargr ok munu þer hafua mart stormenni j moti ydr ef hann er af lifui tekinn. Konungr fann at hinn yngri Sueinn uar allt linari j lynde ok mællti til hans. huat berr mest til at fader þinn er suo tregr til at taka truna. þikia honum fostur þungar edr meinlęti. Sueinn suarar. fiarri ferr þui. þuiat hann er hraustr dreingr ok gilldr kallmadr j alla stade þo at hann se alldradr. en hof þors þikir honum mest at lata þuiat þat er mikit hus ok fritt ok gert fagrliga ok buit med myklum kostnade. ætla ek honum nærr ganga ef þat skal briota edr brenna. Konungr suarar. þat er þo likazst at þat annathuort hliote fram at fara. Sueinn mællti. þikir ydr ekki þat rad at hofit stande med sinum bunade. ok vinne þer þat til at vit fedgar takim þa tru er þu bodar at æigi se spillt suo agætu smide. en vid munum þat efnna sem vit heitum at æiga ekki vm vid þor ok biargizst hann þa a sinar hendr. Konungr suarar. æigi uæit ek huort þat hlydir. en þo med þui at ek finn med þer goduilia ok aller menn kalla ykkr dræingi goda þa uil ek þui iata at hofit stande med þessu skilorde sem þu sagdir fram helldr en þit neitit kristni ok bidit suo bradan bana. Gek Sueinn þa at finna fôdr sinn ok sagde honum huar komit var þeirra male. Hann suarar. hui munde konungrinn þetta uilia saman hafua. Sueinn suarar. a þessu mattu marka fadir huersu mikit konungi þikir varda at vit takim þenna sid er ek ætla okkr hæfua at hafua ok j annan stad huersu uel hann truir okkr til dreingskapar. Sueinn hinn ellri suarar. þui mun ek heita ef konungr uill at blota æigi þor ok æinge afskifte uæita hæidnum godum ef hann lætr vmeitt standa hofit. Toku þeir þa skirnn ok gerduzst vinir Olafs (konungs) þuiat þeir helldu uel ôll sin heit ok letu skira allt sitt heimafolk.

### Finnr kom til konungs. capitulum.

315. En nu er þar til at taka at Finnr Sueinsson fretti til Danmerkr at sidaskipti uar ordit j (Noregi. for hann til Noregs ok kom nordr j) þrandheim þann sama uetr er Olafr konungr hafde komit austan ór Vikinne um sumarit ok sat j Nidarose. En er Finnr kom til bæiarins gek hann þegar til þess herbergis er konungr drak inne. Finnr uar buinn fatækliga. bat hann ser inngônguleyfis at tala vid konung. þeir kuodu þat ônguan hatt at okunnir menn gerde konungi vnadir þa er hann sat yfir bordum. ok latum uit þig ekki inn ganga ok ônguan annan stafkall þann er suo er herfiligr ok hæimsligr sem þu ert. Ek ætla þat ok mala sannazst sagde Finnr at ek þyrfta ykkr æinskis orlofs at bidia uonda þræla. Tok hann þa sinne hende huornn dyruordinn ok slôngde fra dyrunum en hann gek inn. ok þegar hann kom j stofuna þyrftuzst menn at honum ok þottuzst æigi vita huat vræsi uar. uilldu þeir keyra hann vt aftr. en þat uard ekki auduellt ok stod hann vid helldr fastara en þeir hugdu. for þa j hardlæiknni. sumir reyttu ok rifu af honum þa hina uonda leppa sem hann hafde en sumir bordu hann med hnefum. hann gerde ok mot sligt sem hann matti. Konungr uard uarr uit ok spurde hueriu sætti. þeir sogdu at sa hinn hæimski haulldr uillde hann finna. þa er rad sagde konungr at gera æigi illa vid hann. Hann var þa lauss latinn. Konungr spurde huerr hann væri. Finnr sagde til sligt er honum likade. Konungr mællti. huert er eyrendi þitt til min edr uilltu lata skirazst. Finnr suarar. æigi ætla ek mig uerr kristinn en þig. Konungr quaz æigi vita huat er hann sagde. þa mællti Finnr. huat ætlar þu konungr huat manna ek se. Konungr suarar. þat uæit ek æigi en hitt se ek at þu ert madr gilligr ok eru menn stærri en þu en fair uænni ok mikit er þitt yfirbragd. Finnr suarar. þa skifti huersu gott væri mitt yfirbragd ef mikit er. Konungr suarar. (æigi) ertu illmannligr. Finnr suarar. gott er sligt at heyra af suo agætum manni. Konungr mællti enn. suo littz mer a þig at þu munt vera dræingr godr æinrænn ok undarligr ok nokkut bradr j skaplynnde. Allt er þetta satt er þu segir quad Finnr. ok gettu nu til konungr huerrar ættar ek er. Konungr suarar. þat þiki mer æigi vlikaz at þu ser son Sueins vinar mins. þat er ok sagde Finnr at ek er Sueins son. en þu munt uita huort hann er þinn vin edr æigi. Hann er vist minn vin sagde konungr ok uel kristinn. en þo gerde okkr a æinn hlut j fyrstu. hof æitt er æignat þor er stendr hea bæ hans ok hygg ek hann þo uæita þar til ekki afskifti. Finnr vard vit þetta odr ok mællti. heyr her a endime. huat ser þu godr konungr ef menn þinir ok vinir fara med launblot ok muntu raunar vera

æinn uillumadr. Konungr quad hann vera helldr akafan. Stok Finnr vt ok for til fundar uit fôdr sinn ok brodur. En vm nottina adr Finnr kom þar dreymde Suein brodur hans at honum syndizst þór koma at ser helldr ufrynligr ok daprligur. Hann mællti. her kemr nu at þui med okkr sem mællt er at fyrnnizst vinskapr sem fundir. en þo at þat se suo sem er þa uil ek [232] bidea þig æins hlutar. at þu flyt mig burt af huse minu til skogar þuiat Finnr brodir þinn mun hæim koma ok hygg ek ekki gott til hans kuomu. Sueinn suarar. þui hefui ek heitit konungi at gera mer afskiftalaust vid þig ok þat man ek hallda. þike mer þu ok gudleyse ef þu hefir æigi matt til at forda þer ok flytia þig sealfr huert er þu uill. Huarf þorr j brott harmsfullr ok hrygdar en Sueinn uaknade. Finnr kom þar um daginn eftir ok toku þeir fedgar alluel vid honum. en er Finnr hafde þar verit æina nott stod hann upp snemma ok fek ser æinn belg. sidan tok hann j hond ser æina kylfu stora ok gek til hofsins. þar var þa helldr fornnligt um gætti. hurdaiarnn rydug ok allt helldr fornnfaguligt. Finnr gek inn ok skyfde godin af stôllunum en reytti ok ruplade af þeim allt þat er femætt uar ok bar j belginn. Finnr slo þor þriu hôgg med kylfunni sem mest gat hann adr þorr fell. sidan lagde hann band a hals þór ok dro hann eftir ser til strandar ok let hann koma eftir þat a bat. for hann suo til fundar vid konung at hann hafde þor lôngum a kafui vtbyrdis. stundum barde hann Finnr hann. En er konungr sa þetta sagde hann Finn æigi fara uægiliga med þor. Finnr suarar. þat lysir j þui ath mer hefir læingi likat illa vid þor ok þui skal hann hafa enn verri ok verdugri vfarar. Klauf hann þa þor j sundr j skidur æinar ok lagde sidan j elld ok brende þær at ôsku. sidan fek hann ser lôg nokkurnn. kastade þar a ôskunne ok gerde af graut. þann graut gaf hann greyhundum ok mællti. þat er makligt at bikkiur eti þor[1] en hann at sealfr sonu sina. Gerdizst Finnr þa madr Olafs konungs. Finnr var sidgodr ok trurækinn. fylgde hann uel tijdum iafnan. Æinn morgun kom Finnr huorki til ottosaungs ne messu. spurde konungr hueriu gegnnde er Finnr kom æigi til tijda sem hann atti vanda til. Honum uar sagt at hann la j huilu sinne. Konungr gek þa til hans ok spurde ef hann være siukr. Finnr suarar. litit er bragd at þui. Konungi syndizst sott hans mikil ok let hann bua hann til framfarar ok fylgde honum elskuliga medan hann la. Finnr andadizst or þeirre sotth ok mælltizst adr uel firir. ok þotti Olafi konungi mikill skade at honum þuiat huar er konungr bodade retta tru þa var Finnr suo odr ok

[1]) ok *tilf. Cd.*

akafr at hellt vid uoda þeim er æigi uilldu skiott uid uikiazst konungs eyrende.

### Sætt Olafs konungs ok Hareks.

316. Um uorit eftir aftôku Eyuindar kinnrifu let Olafr konungr bua skip sin ok lid. þa hafde hann sealfr Tronuna er hann hafde gera latit. hann hafde lid mikit ok fritt. en er hann var buinn hellt hann vt ór firde nordr firir Byrdu ok suo nordr a Halogaland. en huar sem hann kom vid land þa atti hann þing ok baud ollu folki at taka skirnn ok tru retta. bar þa æingi madr traust a at mæla i mot konungi ok kristnadizst land allt þar sem hann for. Olafr konungr tok ueitzslu j þiottu at Hareks. uar Harekr þa skirdr ok allt lid hans. gaf Harekr konungi giafir godar ok gerdizst hans madr. tok Harekr af konungi ueitzslur storar ok lennz mannz rett. helldu þeir sidan kærleik ok vinattu med frændsemi sin a mille. Harekr j þiottu uar son Eyuindar skalldaspillis. fadir Eyuindar uar Finnr skialge. modir Eyuindar uar Gunnhilldr dottir Halfdanar jalls ok Jngibiargar dottur Haralldz harfagra. Olafr konungr uar Trygguason Olafssonar Haralldzsonar harfagra.

---

## þAATTR RAUDS HINS RAMMA.

Raudr hinn rammi het madr æinn rikr bonde ok audigr. hann bio j firde þeim a Halogalandi er hæitir Skialfti[1] þar sem heitir Godeyiar. Raudr hafde med ser marga huskalla ok hellt hann rikmannliga sina menn þuiat hann var hofdinge mestr j firdinum ok suo uida nordr þar. fylgde honum fiolde Finna þegar hann þurfti nokkurs uid. Raudr uar blotmadr mikill ok allfiolkunnigr. hann var mikill vinr þess mannz er þorir het ok uar kalladr hiortr. hann red firir nordr j Uogum. þeir Raudr ok þorir voru hofdingiar myklir. En er þeir spurdu at Olafr konungr for med her nordr þangat þa sôfnnudu þeir at ser her ok budu[2] skipum vt ok fengu lid mikit. Raudr hafde dreka mikinn ok gullbuin hofut a. uar þat skip .xxx. at rumatale ok þo mikit at þui. þorir hiortr hafde ok mikit skip. þeir helldu lide þui sudr med landi moti Olafi konungi. En er þeir hittazst lôgdu þeir þegar til bardaga vid konung uar þar orrosta haurd. sneri þa bratt mannfallinu j lid hæidingia ok hruduz skip þeirra. en þui næst kom a þa felmtr ok flotti. Raudr reri dreka

[1]) r. Salfti [2]) baud *Cd.*

sinum vt til hafs. þui næst let hann uinda a segl sitt. hann hafde iafnan byr huert er hann uillde sigla ok uar þat af fiolkynge hans ok golldrum. er þat skiotazst at segia af ferd Rauds at hann siglde þar til er hann kom heim til Godeyiar. þorir hiortr siglde med sitt (lid) inn at lande ok hlupu þar af skipum. Olafr konungr for eftir þeim uid sina menn. hlupu þeir a land ok elltu hina [203] ok drapu. uar Olafr konungr frastr ok fremstr sem oftar þa er sligt skyllde þreyta. Konungr sa huar þorir hiortr hliop. hann uar allra manna fothuatazstr. konungr rann eftir þori ok fylgde honum hundrinn Vige. þa mællti konungr. Vige taktu hiortinn. Hundrinn hliop fram eftir þore ok þegar upp a hann. þorir nam stadar vid. konungr skaut kesiu sinne þa at þori suo at kom undir hondina ok oddrinn vt um adra. ok j þui lagde þorir til hundzins ok væitti honum mikit sar. Let þorir þar lif sitt en Uige uar borinn saarr til skipa. fek konungr til hinn bezsta læknni at græda hundinn ok uard hann hæill. en sumir menn segia at hann sende rakkann til Finnz þess er hæitit hafde at læknna hann sem fyrr er ritat. Olafr konungr gaf ollum monnum frid þeim er badu ok retta tru uilldu taka.

## Pindr ok drepinn Raudr hinn rammi.

318. Olafr konungr hellt lide sinu nordr med landi ok kristnade allt folk þar sem hann for. en er hann kom nordr firir Skialfta[1] ætlade hann at fara inn a fiordinn ok finna Raud. en hregguidre ok staka stormr la inn a fiordinn. la konungr þar til viku fulla ok hellzst a hit sama sterkuidri inn eftir firdinum en vt hit ytra uar blasande byr at sigla nordr med lande. siglde konungr þa nordr j Ônnd ok gek þar allt folk undir kristnne. Sidan sneri hann ferd sinne sudr aftr. en er hann kom nordan at Skialfta[1] þa var hrid ok siadrif inn a fiordinn. konungr la þar nôkkurar nætr ok uar uedr hit sama. þa talade konungr uit Sigurd byskup ok spurde ef hann kunni þar nokkut rad til at leggia. Byskup suarar at hann mun fræista til ef gud uill sinn styrk til gefa at sigra þenna fiannda. Sidan skryddizst byskup ollum messuskruda ok gek fram j stafnn a konungs skipinu. let hann þar setia upp rodukross ok tendra firir kerti ok bar reykelse. hann las þar firir gudspiall ok margar bænir adrar. sidan stokti hann uigdu uatnni um allt skipit. sidan bad hann taka af tiolldin ok roa inn a fiordinn. hann let þa kalla til annarra skipa at aller skyllde roa inn eftir þeim. en er rodr uar

[1]) r. Salfta

greiddr a Tronunne þa gek hon inn a fiordinn. ok kendu þeir menn onguan uind a ser er a þui skipi voru ok suo stod su toft eftir j uarsimanum at þar uar loggn[1]. en suo laust siorokan burt a huornntueggia ueg at huergi sa fiollin. reri þa huert skip eftir ôdru þar j logninu. foru þeir suo allan daginn ok vm nottina eftir komu þeir litlu firir dagan inn j Godeyiar. En er þeir kuomu til bæiar Rauds .þa flaut þar firir lande dreki hans sa hinn mykli. Olafr konungr gek þegar upp til bæiar Rauds med lid sitt ok væitti atsoknn lofti þui er Raudr suaf j ok brutu upp. hliopu menn konungs þar inn ok uar Raudr handtekinn ok bundinn en menn hans uoru drepnir þeir er þar uoru inne en sumir handteknir. þa var gengit at skala þeim er huskallar Rauds suofu j. voru þeir sumir drepnir en sumir bardir edr bundnir. þui næst uar Raudr leiddr firir konung. Konungr baud honum at lata skirazst. mun ek þa ekki sagde konungr taka af þer æignir þinar ok vera helldr vin þinn ef þu kant til at gæta. Raudr ępti j moti þui ok sagde at hann skyllde alldri a Krist trua ok gudlastade a marga uega. Konungr uard þa ræidr ok sagde at hann skyllde hafua hinn vesta dauda. let konungr þa taka hann ok binnda vid jarnnsla eina ok let setia kefli milli tanna honum ok luka suo upp munninum. þa let konungr taka lyngorm æinn ok bera at munni honum. en ormrinn uilldi æigi j munninn ok hroktizst fra j burt þuiat Raudr bles fast j mot honum. þa let konungr taka huannniola trumbu ok setia a munn honum. en sumir menn segia at konungr leti setia ludr sinn j huopta honum ok let þar j orminn. sidan let hann bera at vtan jarnnsla gloande. hroktizst þa ormrinn vndan iarnninu j munn Rauds ok sidan j briostit til hiartans ok skar vt vm vinstre siduna. let Raudr sua lif sitt. Olafr konungr tok þar almikit fe j gulle ok silfre ok ôdru lausafe j uopnum ok margskonar dyrgripum. en menn alla þa er fylgt hofdu Raud ok þa voru a lifue let hann skira ef tru uillde taka. en þa er þat uilldu æigi let hann drepa edr pina. þar tok Olafr konungr drekann er Raudr hafde att ok styrde sialfr. þat skip uar myklu fridara en Tranan. uar fram a dreka hôfud en aftr krokr ok fram af suo sem spordr. uar huortueggi suirinn ok suo stafninn gulli lagdr. þat skip kallade konungr Orminn þuiat þa er segl var a lofti skyllde þat vera firir uængi drekans. uar þetta skip þa fridazst j ollum Noregi. Eyiar þær er Raudr bygde hæita Gilling ok Hæring en allar saman hæita þær Godeyiar ok Godeyia straumr firir nordan[1] a mille ok meginlandz.

[1]) ok *tilf. Cd.*

Her rær Olafr konungr eftir einum kyniamanni.

319. [204] Olafr konungr kristnade fiord þann allan. for hann sidan læid sina sudr med lande. ok uard j þrandheimi mart til tijdenda þat er enn er j frasagnir fært er troll ok illar uættir glettuzst vid konungs menn ok stundum vid sealfan hann. þat var æinn dag er þeir foru læid sina at þeir sa mann æinn roa fra hafui vtan a æinum nokkua ok stefnde at biorgum nokkurum. þesse madr uar bæde haarr a þoftunne ok herdemikill ok sueigde fast árar. Konungr mællti til manna sinna. takit nu uel a rodrinum þuiat ek uil finna mann þenna hinn mykla er her rærr firir oss ok uita huat dræing hann se. En er hinn mykli madr sa at konungs menn auka rodrinn þa gerir hann ok suo. dregr hardliga arar ok lætr siga herdar. ok dregr ekki saman med þeim. þa bad konungr sina menn auka enn rodrinn ok bera arar sem flestar voru a Orminum. taki ok .ij. edr .iij. hueria arina segir hann ok mun þo þurfa allz vit at uær getim þenna karll tekit. þeir gerdu nu sem konungr bæiddi ok dro Orminn þa eftir. En er nokkuamadr ser þat þa þotti konungi sem huadanæfua væri augu a honum. skyggnizst hann nu vm fast ok hyggr at huersu langt hann a til biarganna. neytir hann þa afls ok kostgæfir med kappi undanrodrinn. stendr upp vid ararnar ok lætr fallazst j kiol nidr. dregr þa þo saman ok helldr seint. En er konungi þotti sem nema mætti mal j mille þeirra kallade konungr a hann ok mællti. bid þu nu hinn mykli madr ok ro æigi undan læingr þuiat uer uilium finna þig. Nǫkkuamadrinn suarar. sua at æins er gert uid flesta uine uora at mer er æinge fyst a at finna þig. þui uil ek ok æigi bida þin at margir eru vm æinn ef uer finnumzst ok þa quad (hann) visu.

| | |
|---|---|
| Of fiarre stendr errinn | ef værim her harrar |
| ormr brunar daukkr at nǫkkui | hardrads synir bader |
| hárr med hygginn stiora | snakr skridr þar er brum blæikir |
| hlyri minn ok vinnir. | brædr tuæir ne uit þa flædim. |

þa segir konungr. allt at æinu mundi þit flyia þo at þit værit tueir edr huerr ertu. (Hann suarar). þat skiftir þig ǫngu ok quad.

| | |
|---|---|
| Læika bardz a borde | mer læikr æinn ok annarr |
| byrbræins firir þer æinum | olldu sueipr j greipum |
| gramr mun a folldu fremri | þui verd ek bordz a barda |
| faarr sex tigir ára. | bæginn firir uægia. |

Ok þu skalt nu ok vægia sagde konungr. Æigi er ek amælis uerdr segir hann þo at ek uægia at sinne sem verda ma suo gamall madr firir suo morgum dreingium ungum ok hraustum. en alldri at helldr

skal ek koma a yduarnn fund. Spratt hann þa upp hart ok tijtt. kastade arunum ok huelfdi nǫkkuanum undir ser sua at þeir sa hann alldri sidan.

## Olafr konungr hitti þor.

320. þat uar æinn tima er Olafr konungr siglde sudr med lande litinn byr ok hęgan at madr stod a hamre æinum ok kallade a þa. bat þa hafua til litilæti at uæita ser far sudr j land. Olafr konungr styrde Orminum at berginu þar sem madrinn stod ok stæig hann vt a skipit. þessi madr uar mikill uexsti ok ungligr fridr synum ok raud-skeggiadr. ok er hann kom a drekann slo hann a glenz ok glimur uit konungs menn. hann uard þeim hardleikinn ef þeir skylldu nokkut afl reyna. gerde hann af ser glede mykla. þotti þeim gaman at æiga uid hann. uæittu huorir ǫdrum j glenzse hadulig ord ok athlatr. sagde hann at honum þætti konungs menn ueslingar ok litilmagnar. ok væri þer uuerdugir at fylgia suo agætum konungi segir hann edr skipa suo fritt skip. ok var hardskipadri dreki þessi þa er Raudr hinn rammi atti hann er hann nytti uarlla til lidsemdar med ser slika sem ek er firir krafta saker nema helldr til skemtanar ok raduneytis. en nu eru þer þo aulmusur hea mer. Konungr spurde ef hann kynne nokkur tijdende at segia fornn edr ny. hann kuetz ætla at hann munde þess fars spurdr at hann kynne æigi or ath leysa. konungi þotti gaman at rædum hans ok þotti hann helldr uera margfrodr. Konungr mællte. segdu enn nokkura fornna fræde ef þu kant. Hann suarar. þar tek ek þa til herra at land þetta uar bygt fordum daga af risum nokkurum. en risar þeir fengu med atburd bradan bana sua at þeir do naliga allir senn suo at æigi uard mæirr eftir en .ij. konur. sidan toku menn [af at byggia austrlondin[1] æinkanliga land þetta. en þær hinar myklu konur uæittu þui folki mikinn yfirgang ok umakan ok þrǫngdu þeirra manna rade er bygdu landit allt þar til er landzmenn toku þat rad at hæita til healpar ser a þetta hit rauda skegg. en ek greip þegar hamar minn ok slo ek þær badar til bana. ok hefir þetta landzfolk halldit þui at kalla a mig til fulltings ef þeir hafua nǫkkurs vit þurft allt her til. en þu konungr hefir miog sua eytt ollum vinum minum sem hefnnda uæri firir uert. J þessu læit hann aftr j moti konungi ok glotti vid j þui [205] er hann bikti ser vt af bordinu suo skiott sem kolfui skyti a siainn. ok sa þeir hann alldri sidan. þa mællti konungr til manna sinna. se þar nu huersu fiandinn var diarfr at hann gek opinberliga j augsyn

[1]) r. af austrlǫndum at byggia

oss vm liosann dag ok birtizst j sliku huersu kristnum monnum hæfir at vera iafnan uarir um sig vid suikum hins vhreina anda er iafnan sitr um þat at suikia mannkynit[1] bæde opinberliga ok leyniliga ok firirkoma med sinne illzsku ollu godu mannzsins athæfui en læidir sidan þann er vikr eftir hans fortölum ok teygingum ok sig gefr fullkomliga undir hans ualld med illum verkum med ser hertekinn til æilifra kuala. þui skulum uer jafnliga merkia oss gude med sigrmarke hins helga kross þuiat ef krossmarkit er gert med traustri tru suo sem til guds er hin öruggazsta uernnd ok hlifd andar ok likama moti ollum syniligum vvinum ok usyniligum. suo sem oss gaf skilia fullkomliga adr uer merktum oss þui sama marki j Danmork löngum tima fyrr en uer tækim helga skirnn. en þo at dioflar freisti uor opinberliga þa eru þeir allt at æinu hardla hræddir uit kristnna menn er sitt traust hafa a gude ok hans helga krosse. sem nu birtizst at þessir fiandr forduduzst fund uornn sem mest þegar uer mattum skilia huerir þeir voru er oss syndizst bæde nu ok fyrra dag. firir þui æigum ver margfalliga at lofa Jesum Cristum ok hans hinn helga kross utan enda.

### Frasagnir trolla vm prettu vid Olaf konung. capitulum.

321. Nokkurnn tima er konungr siglde sudr med lande kom hann j Naumdęla fylki ok la þar med lid sitt[2] vm hrid þui at honum gaf æigi at sigla sudr læingra. En konungs menn höfdu heyrt ord a þui at j Naumudal uære meire trollagangr ok vuætta en annarstadar j Noregi. ok þat for miog uaxanda suo at menn mattu uarlla hallda þar bygdum sinum firir trollagangi sidan Hakon jall var daudr. En Olafr konungr kristnade landit ok sat löngum a uetrum j þrandheimi. var þa morgum konungs monnum foruitnni a huort slikt væri skrok edr sannynde. þat er sagt at .ij. hirdmenn Olafs konungs gengi af skipum leyniliga eina nott. en er þeir höfdu gengit um stund j nattmyrkrinu sa þeir huar elldr brann j helli ok skundödu þangat til. sa þeir þar mörg troll sitia vid elld ok töludu sin a mille. þeir namu stadar firir hellismunnanum ok syndist þeim sem æinn munde uera höfdinge þeirra vvina. sa tok til orda. huort uiti þer at her uit land er kominn Olafr konungr med lid sitt ok er þat likara ef hann duelst her nokkura hrid at hann geri oss nökkurnn umaka. þeir fianndr suara. þat vitum uer höllzsti giorlla huersu myklar vnadir ok illæiknni hann hefir oss gert huernn tima sidan hann kom j þetta (land) er hann lætr oss huergi huilld hafa. hefir hann drepit suma vine uora edr annan ueg uerr

[1]) ok firirkoma *tilf. Cd.* [2]) ok la þar *tilf. Cd.*

undan oss spanit med sinum illzskufullum ordkrokum en ellt oss burt af uorum æiginbygdum ok enn uvist at ver megim her j nadum uera firir honum j þessi vtlegd. ok uæi uerde uoru uanmegni at ver fam huorki hefnnt honum uorrar suiuirdingar ne uorra vina. en at skulum ver þat gera sem ver megum at æyda bygdirnar. þa mællti hofdinge þeirra. seg mer huat þer hafit vid atzst. þa tok til orda æinn af þeim vhræinum ondum ok sagde sua. bygd min uar j Gaulardal skamt fra Hlðdum ok atta ek vinattu vid Hakon jall ok gaf hann mer godar giafir. ok þa er hann uar umakliga ræntr life ok riki kom þessi hinn grimme konungr j hans stad. ok æinn dag er hirdmenn hans hðfdu læik suo nęrr bygd minne at ek þottumzst varlla mega þola hark þeirra ok hareysti þa slogumz ek j læikinn med þeim leyniliga ok tok ek æinn þeirra hondum ok lek ek suo uit þann at ek braut hond hans. en a ðdrum degi braut ek fot annars. ok gengu suo mæiddir fra leiknum. ok hinn þridia dag kom konungr sialfr ok gek j læikinn med þeim. ek redumzst þa enn til med þeim ok ætlada ek at gera nokkurum mein. mer uoru þa enn menn okunnir ok kenda ek ðngan fra ðdrum. greip ek þa til æins helldr hardliga. en sa tok j moti ok setti suo fast hendr at sidum mer at mer mætti æigi uerra vid verda þoat þær hendr hefde uerit geruar ór gloanda iarnne. ok sua tok hann mig at þrðngua med myklu afli at vit sealft hellt at ek munde æigi uæpande þola. en þo kuomumzst ek or hondum honum med mikille naud ok miog brunninn. vard ek þa at flyia þadan bygd mina þoat naudig ok vuiliande til þessa stadar. þa sagde annarr fiannde. þat er fra mer at segia at ek tok a mik fagrar konu asionu. gek ek inn sid um kuelld þa er Olafr konungr hellt æina mykla ueitzslu ok var allt folk miog drukkit. ek hellt a æinu hornne fðgru. þat var fullt af þeim dryk er ek hafde blandat med æitri ok mðrgum illum hlutum er ek ætlada ath [206] skæinkia konungi. ek stod vid trapizsuna tiguliga buin. þa retti konungr hond sina til min ok tæiknade mer at ek skyllda byrlla honum. en ek vard suo fegin sem ek hefde þa þegar allt hans rad j hende mer. gek ek þa firir hann ok bar ek honum þat hit fagra hornn. en hann tok vid ok steyfti ofan yfir mig þeirri illzsku ok æitri er ek ætlade at hann skyllde drekka. sidan setti hann hornnit j hðfut mer sua fast at þeirra meitzsla bid ek alldri bætr sidan er hann uæitti mer þar af. þa mællti hinn þride uhreinn ande. æigi for mer þessu uligt. ek bra a mig fagri mynd kurtæissar konu ok kom ek hæueskliga klędd j herbergi Olafs konungs sid kuelldz er hann sat berfættr ok knytte linbrok at bæine. byskup sat a adra hond honum. en er ek uar

innkomin tok ek at uekia klada a fæti konungs nidr vid ilina. konungr sa huar kona stod uæn. þar uar ek. ok kallade a mig ok bad kla fot sinn. en ek gerde suo þar til sem hann gek at sofa. en er konungr kom til huilunnar þa tok enn af minum uǫlldum at uaxa kladinn a fæti hans. ek settumzst a fotskǫrina ok klo ek fotinn þar til er bæde sofnade konungr ok byskup. þa rettumz ek upp yfir konung ok ætlada ek at firirfara honum ok uæita honum bana med minum illzskukrafti. en konungr uaknade skiott ok laust j hofut mer suo mikit hǫgg med bok at haussinn lamdizst miog. flyda ek þadan som skiotazst. ber ek æ sidan hallt hǫfut ok uerdr alldri uerklaust. En er konungs menn hǫfdu þessa hluti set ok heyrt þa hurfu þeir aftr ok foru til skipa suo hliodliga at menn uǫknudu ekki vid. en um morguninn sogdu þeir konungi ok ollum hans monnum þenna atburd. Konungr mællti. allt er þetta satt er þit segit ok þat til marks at þa er fotr minn hafde kleginn verit uakta ek þegar upp byskup ok bad ek hann sia huart fotrinn væri heill af tilkuomu þess fianda er suo syniliga ok þo med sinne slægd hafde gengit j uor herberge med sionhuerfing natturuligs likama. en er byskup kom til ok læit a fotinn þa fannz þar a blarr flekkr ok blasinn af eitri. let byskup þann flek skera ǫr med holldi ok blode. sidan var þat sar grætt at hæilu ok mun ǫrr þat sia a fæti mer medan ek lifui. en þo firirbyd ek ollum minum monnum at ganga af skipum a land upp vm nætr firir æina þarfleysu foruitnne utan alla naudsyn. Eftir þat for Olafr konungr a land med allt hit bezsta lid sitt ok vm allar nalægar bygdir med krossum ok helgum domum ok dreifdu uigdu uatnne um biorg ok hamra dali ok hola ok hreinsade med helgum bænum ok guds fulltinge allt þar er þeir foru af ǫllum uęttum ok uhræinum ǫndum ok frelsti suo allt folk af vvina anaud ok uppgangi. foru eftir þat vt til skipa sinna ok helldu sidan sudr med landi. kom Olafr konungr lide sinu um haustit sudr til þrandheims. hellt hann inn til Nidaross ok bio þar til vetrsetu.

## Olafr konungr braut god þrænda.

322. Nu er Olafr konungr hafde skamma stund verit j þrandheimi kom sa kuittr firir hann at nǫkkurir þrændir munde þa enn hallda hæidnum domi ok þar j þrandheimi munde standa Freys god vbrotit ok þeir þrændir sem at þui vrade uoru mynde þar fremia skurgoda blot. En er konungr spurde þetta likade honum storilla. ok sua er sagt at þa er hann frette þessi vtijdende uar hann staddr a æinne uæitzslu. þar voru ok þa þrændir nokkurir med honum. konungr berr

a bryn þeim at þeir blotade Frey eftir þui sem þeir menn hefde sagt honum er baru þa vitnne vm. ok sua sem þrændir kendu sig vm þetta sanna saka duldu þeir æigi diarfliga en villdu þo æigi vid ganga. Konungr mællti. þa mun raun a uerda huat satt er af þui er þer segit. ok þui skal þetta mal profa med þeim hætti at ek byd ydr at briota skurgod þat er gert er eftir Frey þat er mer er sagt at þer blotit. en ef þer vilit æigi sua gera þa trui ek þui at þessi sok se sonn er ek ber nu at ydr. þeir suorudu þa. æigi munu ver briota likneski Freyss þuiat ver hofum leingi honum þionat ok hefir oss þat vel dugat. Konungr mællti. ek mun briota ok minir menn skurgodit þo at þer bannit. þeir sǫgdu. ver munum uist banna ok firir standa at Freyrr se brotinn. uæntande þo at hann sialfr veri sig uaskliga ok uæite oss fullting ef ver fylgium honum ǫrugliga þui at hann mun mega orka meira en þu hyggr. Konungr suarar. þetta skal nu reyna. þer skulut standa firir Frey en ek skal sækia hann med guds miskunn ok godra manna fulltinge. veri hann sig þa ef hann ma. a morgin skulu ver þing hafa þar sem ek geri akuedit. skal ek þangat hafua Frey ok dæma hann þar diarfliga ok drepa hann sidan en gera þat gott rad firir ollum ydr sem gud kennir mer ef þer vilit af ganga yduarre uillu. þrændum þotti þetta æigi miog radligt en sa þo at sua vard at vera sem konungr villde. gengu þeir þa til skipa sinna ok reru inn eftir firdinum. keptu huorir at sigla ok roa sem mest. for þa sem oftar at gifta konungs matte meira en fiolkynge Freys ok illr atrunadr [367] þeirra er honum þionudu. ok þui bar suo til sem hinn bezsti villde at skip konungsins gek myklu mæira ok þui kom hann fyrr til hofsins. En er hann kom a land þa sa hans menn stodhross nokkur vid ueginn er þeir sǫgdu at Freyr ętti. konungr stæig a bak hestinum ok let taka rossin ok ridu þeir nu fram til hofsins konungr stæig af hestinum ok gek inn j hofit ok hio nidr godin af stǫllunum. sidan tok hann Frey undir hond ser ok bar hann vt til hestz en byrgde sidan hofit. konungr ræid med Frey fram til stefnnunnar ok kom hann fyr en þeir at stefndir voru. var þa slegit upp landtialldi konungs ok beid hann þar.

## Kristnibod Olafs konungs.

323. Nv er þar til at taka at þrændir kuomu til hofsins ok luku þui upp ok gengu inn þeir sa at Freyr var j brottu en ǫnnur godin meidd ok þottuzst þeir vist vita at konungr munde þessu uallda. þeir foru sidan til stefnnunnar. Ok er menn voru þar komnir talade konungr firir folkinu mest vm þa hluti er til heyrde landzstiornn ok laga-

hallde. en eftir þat sendi konungr menn j tialldit ok bad þa bera Frey vt. ok er Freyrr kom a þingit tok konungr hann ok setti nidr ok mællti. kenni þer mann þenna. þeir suorudu. kennum ver hann. Huerr er hann þa sagde konungr. Sa er hann er þu kennir æigi. þessi er Freyrr gud uorr. Konungr mællti. hueriu ma Freyr orka suo myklu godu at ydr syniz þess þǫrf edr nokkur mikil naudsyn at trua a hann. þeir suorudu. oss þotti hann til farra ara myklu mega orka. Hui orkar hann nu minna sagde konungr. þui sǫgdu þeir at hann er oss nu ræidr ok uelldr þu þui. þuiat sidan er þu bodadir oss annan gud a at trua ok ver gengum nokkut eftir þinum fortǫlum þikir honum ver ser hafua brugdizst ok þui uill hann nu einge afskifte væita oss. Konungr mællti þa suo sem af nǫkkurum(!) glenzse edr gabbi til þeirra. þat er illa segir hann er Freyr (er) ydr reidr. edr (j) hueriu syndi hann ydr matt sinn fyrr mæirr j þui er þer missit nu. þeir suorudu. j þui er hann talade oft vid oss ok sagde firir ouordna hluti ok uæitti oss ar ok frid. þess get ek sagde konungr at Freyr hafui ek(ki) talat vid ydr helldr diofullinn sealfr. en hann mun þat æitt hafua gefit ydr er hann hefir adr fra odrum tekit ok gert þat til þess at þer skylldit þa helldr trua a hann. en diofullinn med þui at hann er illgiarnn þa mun hann þui launa ydr er þer (truit) a tremann þenna er hann magnar ok hleypr j at hann mun ydr alla hafua j heluiti eftir yduarnn dauda. Hann tok þa ǫxi mykla ok gek at Frey ok mællti þetta. nu skal ek profa þig Freyrr huart þu matt mæla ok suara mer. En Freyr þagde. Ef þu Freyr segir konungr matt æigi edr uillt æigi. suari sa er j þer er ok þig hefir læingi magnnat. en ef huorgi ykkarr ma nu nokkut at hafazst þu ne fiandinn þa skilst mer at sannr gud sa sem ver truum a kristnir menn hafui fordrifit ykkr bada ok þui skal ek med guds miskunn ok minu magni eyda ok af ma ok at naudgum ydr nidr briota kraft ok illzsku allra yduarra. Freyr þagde þa enn. Konungr mællti. enn er til þin tala(t) Freyr. ef þu hefir matt at gefa monnum afl edr orku hlif þu þer (æigi) nu ok hafz at huat er nu mattu. ok ef þu sefr uaki þu ok ver þig þuiat ek mun nu at þer ganga. Konungr hof þa upp exina ok hio hond af Frey. en Freyr bra ekki vid. konungr hio þa huert hǫgg at ǫdru þar til er hann hafde likneskiu þessa alla limat j sundr. Konungr sneri þa til folksins ok mællti. nu munu þer eftir hafa hugsad huat vid Freyr hofum saman att ok þer hugsat hafua hans uanmegnn. þa megi þer ok alita ok firir hugskotz augum hafua matt ok miskunn ualld ok virding vars drottins Jesu Cristi. þui at hueria hluti er ek hefir moti Frey edr ǫdrum fiandum fram farit þa

hefui ek eftir þui gert sem mer gefr at skilia at gud hefir mig til skipat. ok þui bidr ek ydr at þer leggit. nu af fyrnsku ok fiandans uillu en takit aftr atrunat vid allzvalldanda gud ok þa sömu elsku er þer hafit honum adr hæitit. eru þat mikil suik ok ogurlig at menn trui a þat er myklu er minna en þer sealfir. þuiat su æin er skepnan at manninum skal þiona ok hlyda en hann skal yfir bioda. ek kann ydr þat glögt at segia at Freyr þessi er þer hafit blotat uar æigi kuikr madr helldr æinn tremadr manna hondum gerr sa er her liggr nu sundr hög(g)inn j smar skidur ok suo buinn til elldz matar. þat skulu þer ok vita at madr sa er Freyr het hefir uerit mikils hattar konungr j Suiariki. en þa er hann var daudr uar gerr æinn haugr hardla mikill ok uar þar lagdr j likamr Freys. en er hann var haugsettr þa var talat at nokkurir menn munde fara j haug hea honum til hugganar vid hann þuiat monnum hafde hann verit miog harmdaude. en þo [208] at hann væri uinsæll medan hann lifde þa uillde þo æinge vera hea honum daudum. þui toku Suiar þat rad at þeir letu gera dyrr a hauginum ok .iij. glugga. helltu þeir j æinn glugginn gulli annan silfri en æirpeningum j hinn þridea ok fluttu suo þangat þann skatt er Suiar gulldu. þuiat Freyr hafde adr alla skatta tekit firir þa sok at þeir kendu honum ár ok frid. en þo leyndu þeir dauda hans ok sogdu hann lifua ok þui trudo folkit ok for suo fram .iij. uetr ok hellzst þa ár ok fridr. en er Suiar vissu at Freyr var daudr þa villdu þeir æigi brenna hann sem sidr uar til þo at hann hefde heygdr verit. þuiat þeir hugdu hann þa enn uallda huiuettna godu. þeir kölludu hann veralldar gud ok blotudu hann langa æfui. en nu tek ek þar til er adan huarf ek fra at j fystu þa er Freyr var heygdr uillde æingi lifande madr vera hea (honum) ok þui gerdu Suiar tremenn .ij. ok settu þa j haug hea honum þuiat þeir hugdu at honum mundi gaman þikia at læika ser at þeim. en er langar stundir lidu þadan kom nökkurum Suium j hug at briota hauginn þuiat þa uoru aftr byrgdar dyr hans ok gluggar en menn vissu at mikit fe var j hauginum. ok er hann uar raufadr foru nokkurir menn j festum ofan a golfit ok sa þar gull mikit ok gersimar margar. ok er þeir hugduzst fet mundu brott bera urdu þeir suo hræddir at þeir þordu öngan hlut med ser at hafa utan þa .ij. tremenn er Frey hofdu fyrr feinguir verit til læikna ok med þui voru þeir uppdregnir til sinna lagsmanna. var þa aftr byrgdr haugrinn. en tremennina toku Suiar til sin ok blotudu annan sealfir en annan sendu þeir hingat j þrandheim ok hefir sa her verit blotadr ok hefir þessi tremadr huortueggi verit Freyrr kalladr. en gud sa er ek bodar

ydr (ok skapat hefir) himin ok jord ok alla adra skepnu hann sende mig hingat til þessa landz at kenna ydr tru retta. ok ef þer (truit) a sannan gud mun hann gefa ydr goda árferd frid ok farsælu ok huetuetna gott huat er þer þurfit at hafa. þuiat med sônnu at segia hefir hann alla hluti j sinu uallde ok gefr alla goda hluti. ek sagde edr fyr at Frey var kendr fridr sa hinn mykle er j Suiþiod uar vm hans daga en Danir kendu þann frid Froda konungi er red firir Danmôrk ok kôlludu þeir þat Froda frid. en myklu sannara at segia þa red firir þeim fride allzualldande gud himnarikis herra ok hofdinge sa er allt gott ma ok æinn styrir ollum hlutum. ok a þeim tima er fyrr sagdir konungar satu at sinum rikium þa red med hæd ok herradomi Augustus kæisari sa er frid ok frelsi gaf ollu folki. ok a þeim sama tima sende sealfr hinn sanne gud sinn sætazsta son til healpar ok heilsu ollu mannkyne ok þa uar hann eftir þui sem bækr segia borinn blezsadr gud ok madr fra hreinne ok hæilagri Mariu mey j heim þenna. sidan uar hann her j heimi gud j guddomi en syniligr ok lifande madr j mañndomi eftir þui sem ritningar uotta. ok a sidazstum arum sinnar heruistar predikade hann firir sinum lærisuæinum kennande þeim þau healparrad sem huerr kristinn madr er skylldr at hafa ok hallda ok þa sômu tru sem hann kende hafui þer vid tekit ok iattat at hallda ok hafa þo sumir (hafi) illa ok vmannliga af gengit. ok firir uist er betra ok abyrgdarminna at taka æigi hæilaga skirnn helldr enn tyna tekinne sem nu birtizst med ydrum suikum er tynt hafuit ydrum atrunade ok gerst þar firir greypiligir gudnidingar. ok ef þer vilit enn framlæidis hafna med ollu yduarre healp ok hæilsamligum radum hueriurn(!) ek hefui ydr oftliga kent skal ek makliga med myklum ok margfôlldum kuolum knosa ydra likame ok sidan drepa ydr firir ydra diofuliga dirfd ok þann bannsettan blotskap er þer hafit framit ok fullgert æigi at æins at mer fraveranda helldr j namunda ok næstum gordum hea mer hafi þer berlliga blotat. gerit nu annattueggia at þer takit aftr ydra tru retta ast ok elsku allzualldanda guds ok hæilagt himnariki er huerium er firirbuit er honum þionar retliga allt til enda lifs sins. en ef þer vilit æigi þydazst þetta mitt rad skulu þer þegar j stad daliga deyia allir þeir er fylgt hafua fornnum atrunade en firirlatit healp ok hæilsu. þuiat ek ma æigi rettr konungr hæita ef ek læt nôkkurnn gudniding ganga leinge lifanda j minu riki ef ek ma rettliga refsa honum sinn glǫp. Ok er Olafr konungr lauk sinu male gerdu margir godan rom at ok sôgdu at suo ætti allt at uera sem hann hafde talat. en þeir er blotat hôfdu badu konung dæma sith mal ok lôgdu allt a hans ualld þuiat þeir sa

þa sinn kost aunguan annan likara. En medan konungr hafde sitt eyrende fram flutt þa dreif at mikit fiolmenni þuiat konungr hafde leyniliga bod sent fra ser sidan hann uard [209] uarr vid blotin ok var þar þa suo mikill herr saman kominn at blotmenn fengu ǫngua vidstodu til uarnar ok þui gengu þeir allir a guds ualld ok lǫgdu allt sitt mal a konungs dom. En er þeir foru heim af þinginu ok inn eftir firdinum var kuelldath miog. þa fengu þeir suo stort uedr at huerr bode ræis at ǫdrum. konungr uar þa hardla gladr ok styrde sealfr skipi þui er hann var a.

## Af gamanrædum konungs.

324. Sa islenzskr madr var med konungi er þorarinn het ok var skalld. enn er konungr uillde æigi læingr styra kuaddi hann þorarin til stiornar. hann sagdizst ekki miog kænn vid þat. konungr bad hann þa yrkia nokkut til gamans monnum. þorarinn mællti. um h(u)at skal ek yrkia. Konungr suarade. huernn fær þu til stiornarmann medan þu yrkir visuna. þorarinn suarar. þat hygg ek at hundr yduar Uige styri allitlu uerr en ek. Freista ma sligs sagde konungr. en þo skaltu skiott til lata visuna. þuiat stiornarinn er æigi ǫruggr ef Uige ferr til en uedrit er huast Konungr tok þa fætr rakkans ok lagde at styrinu en hellt þo sealfr a styrinu iafnnfram. þorarinn quad þa visu.

Sitr vid ár en etium
allualldr a sia kalldan
vel rær drottar dæilir
dyrr en hundr vid styri.
skelfir a gnapi mar gylfa
gædings skafuit ræde
ialmar hlumr vid hilmis
hendr sem skilldi uendir.

Sua segir þorarinn at konungr hafui setz til rodrar er hann letti af at styra. en er visan var kuedin ok suo var latit sem Vige hefde styrt skipinu toku menn miog at glediazst. En er konungr ok hans menn komu væstir til bęiar sǫgdu þeir hæimamonnum þau tidende er a þinginu hofdu gerzst. en þeir allir at þau tidende heyrdu lofudu sannan gud ok þa giftu er hann hafde þa enn gefit Olafi konungi æinkanliga at leida þa hina ueslu menn er uillzst hǫfdu af rettum ueg fra sinum skapara a sannlæiks gǫtu med sinne frægd ok fortolum.

## þorkell fann hiortinn.

325. þorkell dyrdill modurbrodir hans var med honum er æinna var mest astfolginn honum allra sinna vina. hann sa þa konunginn miog gladan ok þui fagnande gek hann burt af herberginu ok eftir litinn

tima aftr komande leidande med ser æinn hafr firir konunginn ok mællti. minn herra. ef ydr likar hôggi þer hafrinn. Konungr brosti þa ok bra suerde ok hio sidan a hals hafrinum. en hafrinn stod sem adr ok bra ekki vid. konungr undrade þetta miog hui hafrinum blęddi ekki. hann gek þa til hans ok sa at hann uar gerr af tre en hafrstaka þônd yfir vtan. þorkell tok þa af stokuna en lauk upp hafrinum ok var hann fullr af silfre. Konungr suarar. huat(!) skal breytnni þessi þorkell frænde. Hann suarar. þessi var ein fehirdzsla Hakonar jalls hueria ek hefir firir skommu fundit. Konungr spurde. huat uilltu nu sea firir þessu fe. þorkell suarade. þat hygg ek at nu hafua ek æigi olôgliga vid skilit þetta fe ok huat annat þat er til eiganda er komit. Konungr mællti. huernn kallar þu æigandann. þorkell mællti. ydr herra kalla ek æiga fe þetta ok allt annat þat er suo er komit sem ek fann þetta. Haf þu þôk frændi firir þina dygd ok dreingskap huernn er þu hefir mer synt j þessu þinu tiltæki. ok ef þer þikir ek æiga sem ek væit at satt er þenna hafr ok þat er j er þigg hann af mer ok niot manna bezst. en þat legg ek til med þer at þu varduæitir vandliga hafrinn suo buinn at ôllu sem þu læiddir hann firir mig þuiat hann er þer af astum gefinn ok þat hefir hugr minn at æitthuert sinn þa er þer þikir mestu varda verde þer hann at gagnni. þorkell þakkade konungi þessa giof ok leiddi sidan burt hafrinn ok aftr komande kuaddi hann konung. konungr tok honum blijdliga ok talade. gude uelkominn frende ok sit her hia mer. þorkell gerde suo. konungr bad þa byrlarann skeinkia honum ok sagde hann vel hafua til þess vnnit. ok er byrlarinn bar kerit retti konungr hondina sem hann uillde med taka. Byrlarinn mællti til konungs. minn herra. met orlofui a þorkell æigi þetta. Konungr suarar brosande. honum gaf ek en þo skulum vid nu badir saman drekka. ok ef hann vill at suo se skal ek nu fyrr drekka. þa suarar þorkell. þer kennit oss herra hæuersku j slikum hlutum ok morgum ôdrum. Menn drukku þa ok uoru miog gladir. Konungr mællti þa til þorkels. þikizst þu nu frænde mikils hafua aflat. þorkell suarar. suo mart hafui þer mer gefit at æigi mun ek ok æigi ma ek meta huersu mikils vert er. en þo er su æin ydr giof at yfir berr allar adrar mer gefnnar en þat er ydr vinatta ok þa þottumz ek mest afla er ek fek hana. (Konungr mællti). ef godr madr skilr at honum er gott gefit þa er honum naudsyn a at ombuna godu ok lata giafarann æigi læinge launa bida. þorkell suarar. herra konungr. kenna ma ek mitt mark a þui at mikit stendr a minu reipi uid ydr um alla hluti. þat er vel frænde sagde konungr at þu skilr ath þetta er til þin talat þuiat

þat skaltu vita at þa giof er ek gaf þer nu [210] næst þiki mer þu godu æiga at launa. þorkell suarar. minn herra. þat viti þer at allir minir hlutir eru j ydru ualldi ok þui kiosit nu þegar j stad af minne æignn ydr til handa huat er þer vilit. Konungr mællti. þat uil ek at þu segir mer ef þu ueizst nokkurar fehirdzslur Hakonar jalls suo tilkomnar sem hafrinn sa er ek gaf þer. þorkell suarar. skyllt væri at ek segda ydr huat er ek vissa. en æigi mun ydr mæire foruitne a þui er þer spurdut nu en mer er a þui nærr mer skal hafrinn at gagnni koma. Skil ek nu sagde konungr at þu uill at iafnnmæli se med okkr ok þi munu vid þetta mal morgins bida lata. drekki menn uel ok geri sig glada ok gongum sidan at sofa. Ok suo var gert sem konungr sagde firir.

## Capitulum.

326. þegar a næsta dag eftir morgindrykkiu mællti þorkell til konungs. nu er uedr blijtt. ef ydr likar herra þa er nu gott at fara a skog ok skemta ser. Konungr mællti. sea þu firir frænde huort uit skulum rida edr ganga. þorkell sagde til ræidu uera suo marga hesta sem þurfti. Ok er menn voru ferdar bunir red þorkell firir ueginum. ok er þeir komu j skoginn steig konungr af baki j einu riodri. ok er þorkell sa þat gerde hann ok suo ok ueik at konungi ok leiddi hann med ser ok nokkurir menn gengu med þeim um skoginn þar til sem þeir komu j æitt riodr. þar sa þeir æitt hus. þorkell lauk þui upp ok bad konung þar inn ganga ef hann uillde. konungr gerde suo. ok er hann uar inn kominn hugde hann at uandliga at husinu ok sa þat suo sæmiliga innan buit at hann þottizst uarla set hafa sæmiligra husbunat. þar uar ok buit æitt sæti hardla fagurt ok j þui sæti sat æin kona klædd hardla uel. Konungr spurde huer kona su uæri. þorkell suarar. ef þer hefdit set þorgerde Hǫlgabrude er Hakon jall atti mest vinfæingi vid þa mętti uera at þer þęttizst nǫkkut marka mega af aliti þessarar konu hennar vidbragd ok yfirlit. Konungr þottizst þa skilia at þessi var þorgerdar likneskia. hann tok þa gull ok silfr ok god klæde af likneskiunne. sidan kallade konungr a forunauta sina þa er vti stodu ok bat þa fa ser hest. ok er þeir komu aftr tok konungr likneskiu þorgerdar ok batt j tagl hestsins. sidan steig hann a bak ok reid suo til sinna manna. þeir kuoddu hann. hann suarar þeim brosande. hæilir dræingir. huat segi þer. huerr yduar uill ser her konu kaupa. En er þeir fundu at konungr gerdi ser kallz suarade æinn þeirra sua talande. huerr a firir kuenkosti at rada þeim er til kaups er bodinn. Konungr

suarar. þat hygg ek at vid þorkell frændr hafim nu forsio þessarrar konu med þui at henni hefir suo til borit at hon hefir mist bonda sins þess er henni uar hardla kærr. sa hefir ok hattr verit vm hrid at hôfdingiar þessa landz huerr eftir annan hafa hana hollzsti miog prisat en nu er suo komit hennar hôgum at hon mun hlita verda uorre forsio. þa sa huerr til annars ok hugsade med ser til huerrar konu konungr munde þetta tala. konungr þottizst þat skilia ok sagde suo til þeirra. ef ydr foruitnar at uita atferd ok asionu þessarar konu gangit nu til ok kennit hana ef þer megit þuiat mig uarir at nokkurir þeir menn er her erù nu hafui set hana fyrr. Konungr synde þeim þa likneskiuna en þeir hugdu at henni vandliga ok kendu hana gerla. ok æinn þeirra talade suo til hennar. hui ertu her þorgerdr sua herfuiliga hneist ok vuirduliga af flett þinum biarta bunade þeim er Hakon jall leth þig hafua þa er hann elskade þig. þorgerdr þagde. Konungr mællti þa vid þann mann er til likneskiunnar talade. skil ek madr at þu þikizst kenna likneskiu þessa þuiat þu merkir hana med nafnne ok sagdir fra bunade hennar ok suo fra þui huerr hana hafde elskat. en med þui at þu uissir þetta huortueggia bid ek þig at þu segir mer huort þu unnir þeir(ri) konu nokkut at þu nefndir firir likneskiunne. þessi madr suarar konungi. at sidr unna ek henni at huert sinn hędda ek hana þa er ek sa hana ok alldri uillda ek hana tignna ok nu allra sitzst sidan þu bodadir mer sannan gud ok ek hefui vid tekit hæilagri skirnn ok þeirri tru at þar a at fylgia. ok nu uil ek uotta firir ydr ok ollum þeim er heyra mega mitt mal at ek er sannliga kristinn ok at þeim atrunade er þer hafit mer kent hafnada ek alldri ok honum skal ek æ hallda medan gud gefr mer (at) lifa. ok þui talada ek til likneskiu þorgerdar meirr af gralæika ok gabbi en til gôfgunar uit hana. Konungr mællti. haf þu guds þôk firir þin ord ok giarnna uillda ek heyra marga mina menn suo tala Konungr bad þa klęda likneskiuna ok suo uar gert. sidan uar hon sett a æinn hafan stall ok þar gullkisturnar hea henni þær er þeir konungr ok þorkell hôfdu brott borit ór husinu. þær sômu kistur hafde Hakon jall badar gefit þorgerde fullar af gulli ok silfri. konungr bad þa sina menn til ganga at sia likneskiu þessa en hann sialfr stod nærr uerande at profa [31] huersu þeim brygde vid þessa syn. en er hann gat at lita at æingi þeirra væitti henni lotning ne litilæti helldr sa þeir aller hermiliga til hennar ok er konungr hafde þetta profat lofade hann gud firir at æingi þeirra hafde suiuirduliga saurgat sina tru hæilaga a þessi liotu likneskiu. sidan bat hann afklæda hana ok eftir þat slo hann hana sealfr med sinne kylfu suo fast at

hon brotnade öll j sundr. ok sidan let konungr gera bal mikit ok voru þa brend bæde likneskin þorgerdar ok Freys er fyrr var getit. þuiat konungr uillde æigi at kristnir menn varduæitti nökkut af þeim ser til uondskapar edr uilluefnnis. Ok eftir þetta unnit segir konungr suo. lof se þer allzualldande gud halæitr herra ok höfdinge þu ert einn yfirkonungr allrar skepnu. þig lofa ek ok þik dyrka ek ok þer þakka ek allar astgiafir er þu hefir mer gefit þo at vverdugum. heyr þu nu himirikis konungr ok blezsadr gud bęn mina. þess bid ek þig dyrdarfullr drottinn at þu gef þessu þinu folki er þer æinkannliga a hende (er) folgit healp ok hæilsu frid ok farsæld ár ok ynde ok alla goda hluti ok yfir allt fram þa ast at uer unnim þer alla æfi medan uer lifum sua at þar firir þiggim uer af þer sigr ok sælu sæmd ok salubot þessa hæims en æilifan fagnnat annars hæims. Allir þökkudu konungi sin ord ok sögdu at þeir skyllde þa tru hallda sem hann hafde þeim kent medan hann (ok) þeir lifde. Konungr suarar. sua trui ek at þer gerit sem nu heiti þer medan ver erum aller samt. en eftir uornn skilnat er skiott man at hende bera þiki mer hardla hrædilig ydr vstyrkt sua vngir sem þer erut j trunne at þer uelltit aftr j uilluna. þuiat þer vitit firir vist at ek hefi æigi megnn til at gęta med ydr sua at þer hafit allir halldit hæilaga tru. en ef höfdingia skipti verdr þa ma vera at þeir er næstir koma eftir mik leggi æigi iafnnmikit kapp a kristnibodit uid ydr sem ek þo at þer set kristnir at kalla huersu sem þer uilit þa vikia ydru mali. en iafnan skal ek vaflatliga bidia firir ydr ollum þeim er af minum ordum hafa retta tru tekit at uorr herra Jesus Cristus miskunne ydr ok sannr gud sende ydr sinn eyrendreka at endrbæta ydra tru ef þer hafit hana æigi hræinliga halldit. ok ma uera at þui læingr sem hann hefir yfir ydr at rikia at þui rettari ok röksamligri verde hans refsing sem hann mun betr lika gude ok godum monnum en ek. ok ef þer uilit honum æigi hlydnazst hygg ek at vm sidir spari hann huorki sealfan sig ne sina hluti at leida ydr a rettan ueg ef þer hafit adr illa ok vheyriliga af honum gengit.

---

## ÞAATTR HROMUNDAR HALLTA.

### Capitulum.

Eyuindr sorkuir het madr er vt kom med Jngimundi gamla. hann nam Blöndudal uestr fra Skagafirde ok uillde æigi lifa eftir Jngimund

ok red ser sealfr bana. hann atti son vid ambatt sinne j elli er Hromundr het. hann atti Audbiorgu dottur Márs Jorunda(r)sonar hals. hon uar ambattar dottir. Hromundr uar lȯngum med Mafui a Marstodum er hann bardizst uid sonu Jngimundar um Deilldarhialla. þar vo Hromundr Haugna son Jngimundar ok vard firir þat heradssekr mille Jokulsár j Skagafirdi ok Hrutafiardarár. Hromundr uard sár a fæti ok uar iafnan halltr sidan af þui uar hann kalladr Hromundr hallti. Hann keyfti Fagrabrekku land firir uestan Hrutafiardaraa ok bio þar vm hrid. hann gerde virke mikit vm bæ sinn ok uar hinn uænsti madr ok mikill firir ser. Son hans het þorbiornn þyna ok var Audbiorg modir hans. hann atti Gudrunu dottur þorkels a Kerseyre er nam sunnan Hrutafiardarhals. þeirra son uar þorllæifr er Hromundarfostri uar kalladr. Hallstæinn het son Hromundar. allir voru þeir frændr myklir menn ok sterkir. son þorkels a Kerseyre het þorir brodir Gudrunar konu þorllæifs. hann bio at Melum hit næsta. Helga het dottir hans ok uar frid kona sionum ok skorungr mikill.

### Vtkuoma Sleituhelga.

328. Ðat bar til tidenda æitt sumar at skip kom af hafui j Hrutafirde a Bordeyre. Slæituhelgi het styrimadr en Jȯrundr brodir hans. þeir uoru .xij. menn a skipe. þeir voru vsuifir menn ok illordir ok attu menn litt kaup uit þa ok foru helldr utan herads til kaupa til annara skipa. frettu menn at þeir uoru uikingar ok ransmenn en hȯfdu ekki nema ransfe. ok er alæid sumarit komu menn ekki til þeirra. þa mællti Helgi. þess uil ek nu fysa at þer set æigi illfæingir ok hafit hit betra skaplynde her uit suæitarmenn ok takit ydr uistir med bondum þuiat mer litzst folk þetta munu torsuæigt uerda ok kunna illa agang. hefui ek spurt at menn eru her sterkir ok afætur myklar. Ok er halfr manadr leid uoru þrir menn uistadir. [212] þa mællti Helgi. æigi eru menn her fusir at taka vid oss ok er þat uorkunn ok latum enn sueigiazst til vid þa. Ok suo gerdu þeir. en suo hafde lag alagzst at æigi toku menn vid þeim. Æitthuert sinn reid þorir fra Melum til skips ok hitti Helga. Helgi tok allgladliga vid honum ok spurde hueriu hann villde kaupa. þorir quad ser naudsyn a vera at kaupa vid. þuiat hus min liggia vid uelli. Helgi kuetzst mundu gera honum kost a þui at kaupa vid suo mikinn sem hann þyrfti. ok tak vid oss ȯllum til uetruistar. Hann kuetzst æigi til þess færr. en vauru skortir mig æigi firir at gefua. eru þer ok ekki uinsælir menn taldir. Hann taldizst undan at taka vid þeim. Helgi mællti. allmiog syna menn sig her j stygglæik vid oss ok er þat

þo likazst at þu setir æigi undan bondi ǫllum auuisla vid oss ef þu tekr æigi vid oss. þorir quad þat uallda er þeir hofdu sauingat. Helgi suarar at hann skyllde firir kostum rada ef hann tæki vid þeim. ella er vsynt hvort þu ferr tuiuegis. Ok er suo var komit mællti þorir bondi. nu er þu skorar suo miog a mig vm þetta þa skaltu æida vinna at uorum landzlǫgum firir ydr alla at þer skulut ǫngan uiafnnat gera j vetr næinum manni edr þær sakir at logmætar eru huorki uit mik ne adra æigi vid hion min ne nabua. mun ek uæita ydr hus en þer skulut sealfir fæda ydr. Helgi mællti. þu skalt rada bondi. Sidan foru þeir þangat ok motuduzst æinir j huse ok suðfu þar. ekki uar þetta miog þokkat af suæitarmonnum firir þori ok þotti honum þetta ofrad vera. Ok er þeir hofdu þar verit vm hrid þa bar oft saman fundi þeirra styrimannz ok bonda dottur ok ræittizst a vm tal ok kossa ok kneikingar med aluoru ok blidu ok fylgde framkuæmd byrgisskapar. þorir mællti. þat uillda ek Helgí at þu efndir hæit þin vid mik ok gerdir mer ǫngua skam ne uuirding ok lat af tali uid Helgu dottur mina ok hallt æida þina vid mik. Helgi quaz ætla at æigi munde skiott hrinda mega ast þeirra Helgu. ok er þer æingi uuirding j bonde ef ek bid konunnar med rettum landzlǫgum þeim sem her ganga ok med sliku fe sem þer likar. En er bonda þotti vsynt til bota en menn vsuifir þa red hann þat af at hann gifti Helgu dottur sina Slæituhelga ok er gert brudhlaup þeirra snemma uetrar. ok þadan af voru þeir æigi storilla vid menn ef ekki var tilgert vit þa.

## Hromundr stefndi Austmonnum.

329. þat bar til vm uetrinn at Hromundi hurfu stodross fim saman ok voru þau aull stormiog fæit. Um þat voru margar getur huat af hrossunum mundi ordit. synir Hromundar kuoduzst ætla at menn munde etit hafa er huergi spurdizst til en hrossin spǫk uðn at vera. Hromundr sagdi. þat er mer sagt vm Austmenn þessa at þeir hafi stærri slatr a bordum (en) adrir menn víti vonir til kaupa þeirra. er ok illt ord a þeim vm hotuettna. nu eru .ij. kostir til at lata ongua umrædu a koma ok mun þa ekki illt af hliotazst edr hætta a huat eftir kemr ok ganga at sinu. þeir kuodu þat vist betra ok þat æitt til liggia at læita eftir. Hromundr fann þa Midfiardarskeggia er þa bio a Skeggiastodum j Midfirde ok hǫfdinge uar yfir þeim sueitum ok redst um uid hann huersu med skyllde fara. Skeggi suarar. suo spyrst mer til at Austmenn þessir se hardir j hornn at taka ok uil ek hæita ydr minni forsia huat sem j gerizst. Sidan for hann. ok foru þeir fedgar Hromundr ok synir

hans litlu eftir þetta til Mela ok voru saman tiu. Austmenn voru sumir vti en sumir gengu vt j þui er þeir ridu at. þeir hôfdu litlar kuadningar huorirtueggiu. þa mællti Hromundr. suo er hattat Helgi sagde hann at mer hafa hross horfit ok er þat ahugi minn at her se nidr komin. (Helgi mællti). ekki hafa menn slikt uit oss mællt fyrre ok skal her fiandskapr j moti koma sua mikill sem uer megum mestan ydr giallda. Hromundr mællti. þat er uikinga hattr at afla fear med ranum edr suorfum en þat er þiofa hattr at leyna eftir. Hromundr læitade vid þori huat satt væri edr huat hann uisse af. þorir letz huorke uita þa sanna ne osanna at þessu. Hromundr kuat honum litilmannliga fara. Sidan bidr Hromundr menn sina stefna þeim ok uar radinn madr til at stefna huerium þeirra. sidan foru stefnnur (fram) ok voru Austmenn malodir ok hlaupodir ok kuoduzst þessa hefna skylldu. ôngir urdu auerkar med monnum a þeim funde. skilia vit sua buit.

## Ferd Austmanna.

330. Hromundr ok hans menn ridu nu hæim. ok er þeir hôfdu litla hrid heima uerit talade Hromundr. uer skulum auka þremr monnum ok lata bæta virke uort er miog er hrôrnat ok latum sem þeir muni efna þat er þeir hetu æigi godu ok þann fiandskap allan er þeir hetu munu þeir æigi lata undan ganga. Sidan sendu þeir malin ôll til medferdar Skeggia [213] j Midfiord ok foru mal þessi til alþingis ok urdu Austmennirnir allir sekir vm hrossastuld. en Hromundr ok synir hans satu hæima vm þingit. En Austmenn biugguz j burt fra Melum ok mælltu uel til þoris. þeir ætludu at bua skip sitt ok la læid þeirra um Fagrabrekku ok voru þeir Hromundr vti fedgar. Helgi mællti. þat skyllde uerda at ydr stæde gott ekki af virki þessu ok þa skyllde ydr sizst lid at þui verda er ydr lægi mest vid ok uel mætta ek sea þik blodgan Hromundr ok sonu þina. Hromundr mællti. ekki grunum uer illuilia yduarn en þat ætlu uer at nôkkurir æigi raudu at snyta adr uer sem uid uelli lagdir. Nu skildu þeir at sinne.

## Bardagi þeirra Hromundar ok Austmanna.

331. þat bar at æinn morgin at hrafnn settizst a liora ok skrækti hatt. Hromundr uar j rekkiu sinne ok uakti ok kuad visu.

**Vt heyri ek suan suæita**
**saraþornns er mornnar**
**brad uekr borginmodar**
**blafialladan gialla.**
**suo gol fyrr þa er fæigir**
**folknarungar uoru**
**gunnar gaukr er gautar**
**gautz bragda spa sôgdu.**

Ok enn quad hann.

Hlakkar hagli stokkinn
hræs er kemr at sæfui
modr krefr morginbradar
márr ualkastar baru.

suo gol endr þa er unda
æids af fornnum meide
hræfa gaukr er haukar
hilldinga miod uilldu.

Ok nokkuru sidarr risu upp huskallar bonda ok gadu æigi at lata aftr uirkisdyrnar eftir ser. ok þann sama morgin komu Austmenn ok voru saman .xij. þeir komu litlu sidar en huskallar uoru farnir fra uirkinu. þa mællti Helgi. nu uerdr uel. gongum nu j uirkit ok minnumzst hadu-ligra orda ok suo giorda. ok uil ek at uirkit uerde þeim at gagni allz ǫngu ef ek ma rada. þorbiornn þyna uaknnade uid mælgi þeirra ok hliop upp þegar ok til hurdar þeirrar er uar firir skalanum ok sa vt vm glugg æinn er a uar skorinn hurdunne at fornnum sid ok kende Austmennina at þeir uoru komnir j virkit ok gek inn aftr. Ok þa mællti Hromundr. huat er tijdenda frænde. þorbiornn suarade. þat hygg ek at Austmenn se komnir j virkit med ofride ok ætli at hefnna orda þeirra er uer hofum talat vid þa. en þat uæit ek æigi huersu at þeir hafa j virkit komizst. Hromundr spratt upp ok mællti. upp ver þa ok rekum uanmenni þessi af hendi ok kaupum a oss gott ord ok dugum dreingiliga. Hann eggiade þa sonu sina ok suo þorllæif fostra sinn ok uar hann .xv. uetra gamall bæde mikill ok rǫskligr at sia. hann biozst ok til utgongu en konur sǫgdu hann of ungan ok kuodu hann mundu fæigan en Hromund of gamlan uǫrnn at uæita. Hromundr quad þa visu.

Varat mer j dag daude
draugr flatuallar bauga
buumzst uit ilmar ialmi
adr ne gorr of radinn.

ræki ek litt þo at leiki
lituandr Hedins uitiar
adr uar oss of markadr
alldr uid rauda skiolldu.

Sidan toku þeir frændr uopnn sin allir fiorir. Hromundr hallti ok þorl-leifr þorbiornn þyna ok Hallsteinn ok gengu vt þær dyrr er a uoru enda hussins ok foru firir ofan þuertre en læstu hinar dyrnar er a uoru hliduegginum. Austmenn hlupu upp j uegginn ok skutu at þeim miog hardfeingiliga þuiat Helgi uar manna bezst uigr mikill ok sterkr ok uaskligr. uar hann nu ærr miog ok allir voru þeir illir vidreignar ok hardir. kuodu þa Hromund minne skylldu æiga til at reka ok þeir skyllde þa muna þiofsnafnit. Hromundr kuat þa nogt mundu til vinna ef þeir sækti j virkit. Uorduzst þeir þa æigi sijdr med hlifum ok tream en uopnnum. en Austmenn bǫrdu grioti ok skotum ok sottu at hit

hardazsta. en hinir uorduzst alluel ok voru æigi fleiri firir en fiorir. þeir sendu ok ofan stort griot ok þott Hromundr uæri alldradr gek hann uel fram ok uar storhǫggr ok med fulltinge sona sinna ok þorlleifs fostra sins fellu .vj. Austmenn. ok j þeirri hrid fell ok Hromundr ok þorlleifr fostri hans. Austmenn þeir er eftir lifdu hrukku ór uirkinu aller en þorbiornn þyna hliop eftir þeim ok ellti or virkinu alla þa er eftir lifdu. en er þorbiornn uillde aftr luka hurdina þa skaut Helgi spioti til hans ok kom a hann midian. hann tok sialfr spiotit ór sarinu ok sende aftr til Austmanna ok kom a Jorund midian brodur Helga. Helgi þreif hann upp þegar hann fell til iardar ok kastade a bak ser ok hliop ór uirkinu ok med honum allir hans felagar þeir fim er eftir lifdu. Hallsteinn hlio(p) eftir þeim en þeir undan þar til er þeir komu at læk æinum þeim er vt er fra Fagrabrekku. þar uillde Helgi yfir hlaupa med Jǫrund brodur sinn. en hafuir bakkar uoru at tueim megin ok vard honum aflfátt ok skridnade Jorundr aftr af herdum honum ok uar þa daudr. Helgi snaradizst þa vid ok j þui kom Hallstæinn at honum ok hio af honum hondina ok þa helldu Austmenn vndan. en Hallstæinn starfade at Jorunde ok fann at hann uar daudr ok þui bar þa undan. ok [214] sa Hallsteinn þat ok sneri þa aftr. vard hann þess uiss at fadir hans uar daudr ok þorbiornn þyna. þorleifr uar æigi eyrendr. hann bar hann inn. konur spurdu huersu farizst hefde. hann sagdi sem uar. þeir Helgi letu vt hinn sama dag ok tynduzst allir firir Skridinsenni. þorleifr uar greddr ok bio at Fagrabrekku ok þotti godr bonde. en Hallsteinn for utan ok kom a fund Olafs Trygguasonar. konungr bodade honum tru ok uar þat audsott. gerdizst Hallsteinn þa konungsmadr ok uar med honum sidan ok uar hinn fræknnazsti dreingr ok ǫruggr j framgongu ok uel uirdr af Olafi konungi. ok suo er sagt at hann hafui fallit a Orminum langa ok synt þar adr hreystiliga uǫrnn ok aflat ser suo godan ordzstir. ok lykr her fra honum at segia.

---

### Raugnualldr iarll sendi menn til Olafs konungs.

332. Olafr konungr ok þyry drottning satu j Nidarose um uetrinn er konungr hafde kristnat Halogaland. þyri drottning hafde um sumarit adr fætt suæinbarnn er þau Olafr konungr attu. sa suæinn uar będe mikill ok efniligr ok kalladr eftir modurfǫdur sinum. unnu þau konungr ok drottning þeim sueini mikit ok hugdu gott til at hann munde fædazst upp ok taka arf eftir fodur sinn. en hann lifde æigi fullt ár fra þui er hann var fæddr. þotti þeim badum þat mikill skade. þann

uetr uar mart islenzskra manna med Olafi konungi sem fyrr er sagt ok margir adrir gǫfgir menn. þa uar ok med hirdinne Jngibiorg systir Olafs konungs. hon uar frid synum litilat ok blijd uid alþydu fasttæk ok dreinglundut j skapi ok alluinsæl. hon uar uel til islenzskra manna þeirra er þar uoru. en Kiartan Olafsson uar henni kærazstr þuiat hann hafde leingzst af þeim verit med konungi. þotti honum ok oft skemtiligt at tala uid hana þuiat hon uar będi uitr ok snioll j mali. Olafr konungr uar iafnan gladr ok katr uit sina menn ok leidde miog at spurningum um hattu ok hǫfdingskap rikra manna af hinum næstum londum ef menn komu til hans af Danmork edr Suiþiod. Hallfredr uandrædaskalld hafde farit um sumarit austan af Gautlandi. hafde hann uerit med Raugnualldi jalli Ulfssyne er þa var kominn til rikis j uestra Gautlandi. Ulfr fadir Rognualldz uar brodir Sigridar hinnar storradu. uoru þeir syskina synir Olafr konungr sænski ok Rognualldr jarll. Sagde Hallfredr Olafi konungi mart af ialli. sagde at hann uar hraustr hǫfdingi ok stiornsamr ǫrr af peningum dreinglyndr ok uinhollr. sagde Hallfredr þat ok med at jall uillde hallaz til uinattu uit Olaf konung ok hafde þat talat at hann uillde bidia Jngibiargar Tryggvadottur. A þeim uetri komu austan af Gautlande sendimenn Rognualldz jalls ok fundu Olaf konung nordr j Nidarosi. baru þar fram eyrendi jalls firir konung ǫll slik sem Hallfredr hafdi adr ordi a komit at hann uillde uera fullkominn uin Olafs konungs ok þar med mællti hann til mægda uit konung ok uillde fa Jnngibiargar systur hans. fluttu sendimenn her med sannar jartæignir jalls at þeir foru med sǫnnum hans jartæignum[1]. tok konungr uel þeirra male en sagde at Jnngibiorg munde myklu rada sialf um giaford sitt. Sidan talade konungr þetta vid systur sina ok spurde huersu henni væri um þetta gefit. Hon suarar suo. ek hefi verit med ydr um hrid ok hafui þer veitt mer brodurliga vmsia ok elskuliga sæmd j alla stade sidan er þer komut j land þetta. nu firir þui at ek uil iatta yduarre forsio um giaford mitt uænti ek at þer giftith mig æigi hæidnum manni. Konungr sagde at suo skyllde uere. atti konungr þa tal vid sendimenn ok uar þat radit adr þeir foru brott at Rognualldr jall skyllde koma til motz uid Olaf konung um sumarit austr j landi ef hann uillde gera vid hann vinattu fullkomna. skylldu þeir þa sealfir tala med ser þessi rad er þeir fyndizst. Foru þa sendimenn jalls austr aftr med þessum eyrendum en Olafr konungr sat um uetrinn j Nidarose med mikille rausn ok fiolmenni.

[1]) r. eyrendum

## ÞATTR ÞORSTEINS SKELKIS.

Þat er sagt um sumarit eftir at Olafr konungr for at uæitzslum austr um Uikina ok vijdara annarstadar. tok hann uæitzslu a þeim bæ er a Ræinu[1] heitir. hann var miog fiolmennr. sa uar madr þa med konungi er þorstæinn het þorkelsson Asgeirssonar ædikollz Audunarsonar skðkuls islenzskr madr ok hafde komit til konungs um uetrinn adr. Um kuelldit er menn satu yfir drykkiubordum talade Olafr konungr at æinge madr af hans monnum skyllde æinn saman fara j salernni vm nattina. þuiat huer sem ganga beiddizst skylldi med ser kalla sinn rekkiufelaga ella kuat hann eigi mundu hlyda. Drekka menn nu uel vm kuelldit. en er ofan uoru drykkiubord gengu menn at sofa. ok er alæid nattina uaknade þorsteinn islendingr [215] ok bæidde at ganga af sæng. en sa suaf fast er hia honum la suo at þorstæinn uillde uist æigi uekia hann. stendr hann þa upp ok kippir skom a fætr ser ok tekr yfir sig æinn felld þykkuann ok gengr til hæimilishuss. þat uar stort hus suo at ellifu menn mattu sitia huoru megin. setz hann a yzstu setu. ok er hann hefir setit nðkkura stund ser hann at puki kemr upp a innzstu setu ok sat þar. þorstæinn mællti þa. huerr er þar kominn. Dolgrinn suarar. her er kominn þorkell hinn þunne er fell a hræ med Haralldi konungi hilditðnn. Huadan kom þu nu at quat þorstæinn. Hann sagdiz nu nykominn at ór heluite. Huat kanntu þadan at segia [spurde þorstæinn[2]. Hinn suarar. huers uilltu spyria. Huerir þola bezst pijsler j heluite. Einge betr quad puki en Sigurdr fafnisbani. Hueria pijsl hefir hann. Hann kyndir ofnn brennanda sagdi draugrinn. Ekki þiki mer þat suo mikil pijsl segir þorsteinn. Eigi er þat þo quad puki þuiat hann er sialfr kyndarinn. Mikit er þat þa quad þorsteinn. edr huerr þolir þar uest pislir. Draugrinn suarar. Starkadr hinn gamli þolir uest þuiat hann æpir sua at oss fiandðnum er þat mæiri pina en flest allt annat suo at ver megum firir hans opi alldri nadir hafa. Huat pinu hefir hann þess quad þorsteinn er hann þolir suo illa suo hraustr madr sem hann hefuir sagdr verit. Hann hefir ðkkla elld. Ekki þiki mer þat suo mikit sagde þorsteinn slikum kappa sem hann hefir verit. Ekki er þa rett a litit quad draugr þuiat iliarnar æinar standa upp or elldinu(m). Mikit er þat quad þorsteinn ok æp þu eftir honum nðkkut óp. þat skal uera quad puki. Hann slo þa j sundr a ser huoptunum ok setti upp gaul mikit. en þorsteinn bra felldarskautinu at hðfdi ser. Honum

[1]) Ræimi *Cd.* [2]) [er þorstæinn spurde *Cd.*

uard miog vsuift vid op þetta ok mællti. æpir hann þetta opit mest sua. Fiarri ferr um þat quad draugr. þuiat þetta er op uart drysildioflanna. Æp þu eptir Starkade littat quad þorsteinn. þat ma uel quad puki. Tekr hann þa at æpa j annan tima suo ꝺskurliga at þorsteini þotti firnn j huersu mikit sia fianndi iafnnlitill gat gaulat. þorsteinn gerir þa sem fyrr at hann uafde felldinum at hofdi ser ok bra honum þo suo vid at vmegin uar a honum sua at hann visse ekki til sin. þa spurde pukinn. hui þegir þu nu. þorsteinn annzsade er af honum læid. þui þegi ek at ek undrumzst hue mikil ognarraust at liggr j þer æigi meire puki enn mer synizst þu vera. edr er þetta hit mesta op Starkadar. Æigi er nærri þui. þetta er segir hann[1] helldr hit minnzsta op hans. Drag þu æigi undan leingr quad þorsteinn ok lat mik heyra hit mesta opit. Puki jattade þui. þorsteinn biozst þa vid ok braut saman felldinn ok snarade hann suo at hofde ser ok hellt at utan badum hondum. Draugrinn hafde þokat at þorsteini vm þriar setur vid huert opit ok voru þa þriar æinar a mille þeirra. Pukinn belgdi þa hrædiliga huoptana ok sneri um j ser augunum ok tok at gaula sua hatt at þorsteini þotti ór hofui keyra. ok j þui kuat uit klukkan j stadnum en þorsteinn fell j vvit fram a golfit. en pukanum bra suo vid klukkuhliodit at hann steyptizst nidr j golfit ok matti leinge heyra yminn nidr j iordina. þorsteinn raknnade skiott vid ok stod upp ok gek til sængr sinnar ok lagdizst nidr. En er mornnade stodu menn upp. gek konungr til kirkiu ok hlyddi tijdum. eftir þat uar gengit til borda. Konungr uar ekki forat blijdr. hann tok til orda. hefir nokkurr madr farit æinn saman j natt til heimilishus. þorsteinn stod þa upp ok fell fram firir konung ok sagdizst af hafa brugdit hans bodi. Konungr suarar. ekki uar mer þetta suo mikil meingerd en synir þu þat sem talat er til yduar Jslendinga at þer set miog einrænir. en vard þu vid nokkut uarr. þorsteinn sagde þa alla sꝺgu sem farit hafde. Konungr spurde. hui þotti þer gagnn at hann æpti. þat uil ek segia ydr herra. ek þottizst þat vita med þui at þer hꝺfdut varat alla menn vid at fara þangat æinir saman en skelmirinn kom upp at vid mundim æigi klakklaust skilia. en ek ætlade at þer mundit uakna vid herra er hann æpti ok þottumz ek þa holpinn ef þer yrdit uarir vid. Suo uar ok sagde konungr at ek uaknnade vid ok suo uissa ek huat fram for ok þui let ek hringia at ek uissi at æigi munde þer ella duga. en hræddizst þu ekki þa er pukinn tok at æpa. þorsteinn suarar. ek uæit ekki huat þat er hræzslan herra. Uar æinge otte j briosti þer sagde konungr.

[1]) þetta er *tilf. Cd.*

Æigi uar þat sagde þorstæinn þuiat vid hit sidazsta opit skaut mer næsta skelk j bringu. Konungr suarar. nu skal auka nafnn þitt ok kalla þig þorstein skelk hedan af. ok er her suerd at ek uil gefa þer at nafnnfesti. þorsteinn þakkade honum. Suo er sagt at þorsteinn gerdizst hirdmadr Olafs konungs ok uar med honum sidan ok fell a Orminum langa med odrum kauppum konungs.

---

## [216] ÞAATTR ÞIDRANDA OK ÞORHALLZ.

Sva er sagt þa er Haralldr hinn harfagri uar ordinn æinualldzkonungr yfir Noregi tok hann laug ok let Rognnualld Mæra jall skera hár sitt ok þa gaf jall honum kenningarnafnn ok kallade hann Haralld hinn harfagra. þat þotti uera sannefni. Suo segia ok sumir menn at konungr gaf jalli j harskurdar laun Hialltland ok Orknneyiar. En er jall talade uit sonu sina budu þeir honum Hrolfr ok Hrollaugr at fara til Orknneyia. en jalli var ekki um þat. þui sagde hann Hrollaugi suo. ekki mattu jall vera þuiat þu hefir ekki styrialldar skaplynde ok þat hygg ek at uegar þinir liggi vt til Jslandz. þat kom fram sem jall sagde at Hrollaugr for til Jslandz. hann uar hǒfdinge mikill ok hellt vel vingan vid Haralld konung en for alldri sidan til Noregs. Haralldr konungr sende Hrollaugi suerd gott ok hornn buit ok gullhring er vo fim aura. Suerdit bar sidan Kolr son Siduhallz. Hrollaugr þikir uerit hafa gǒfgazstr allra landnamsmanna j Austfirdinga fiordunge. Hrollaugr var fadir Gizsorar[1] kælisuelgs er atti Gro dottur þordar Jllugasonar[2]. þeirra dottir uar þordis modir Hallz a Sidu. Hallr a Sidu atti Joræide þidrandadottur. þeirra son uar þorsteinn fadir Magnus fodur Æinars fodur Magnus byskups. Annar son Siduhallz uar Egill fadir þorgerdar modur Jons byskups hins helga. þoruardr Hallzson uar fadir þorgerdar modur Jǒrundar[3] modur Hallz prestz fodur Gizsorar fodur Magnus byskups. Jnguelldr dottir Hallz a Sidu uar modir þoreyiar modur Sæmundar prestz hins froda. þordis[4] dottir Hallz uar modir Jnguelldar modur Liotz fodur Jarnngerdar modur Ualgerdar modur Bauduars fodur Gudnyiar modur Stullusona.

[1]) *r.* Ozsorar [2]) *r.* illuga [3]) *r.* Jorunnar [4]) *r.* þorgerdr

Fra Þidranda.

335. Ðorhallr het madr norrænn hann kom til Jslandz a dǫgum Hakonar jalls. hann tok land j Syrlækiarosi ok bio a Hǫrgslande. Þorhallr uar madr frodr ok miog framsynn ok var kalladr Þorhallr spamadr. Þorhallr bio þa a Hǫrgslande en Siduhallr bio at Hofui j Alftafirde ok var med þeim hin mesta uinatta. gisti Hallr a Hǫrgslande huert sumar er hann kom til þings. Þorhallr for oft til hæimboda austr þangat ok uar lǫngum þar. Sonr Hallz hinn ellzsti het Þidrande. hann uar manna uænstr ok efniligazstr. unni Hallr honum mest allra sona sinna. Þidrande for landa a medal þegar hann hafde alldr til. hann uar hinn uinsælsti huar sem hann kom þuiat hann uar hinn mesti atgioruimadr litilatr ok blidr vit alþydu ok huert barnn. Þat uar æitt sumar at Hallr baud Þorhalli vin sinum austr þangat þa er hann ræid af þinge. Þorhallr for austr litlu sidar ok tok Hallr uel uid honum sem hann uar uanr med hinum mesta blidskap. dualdizst Þorhallr þar um sumarit ok sagde Hallr at hann skyllde æigi fyrre hæim fara en lokit uære haustbode. Þat sumar kom Þidrande vt j Berufirde þa uar hann atian uetra. for hann heim til fodur sins ok daduzst menn þa enn miog at honum sem oft adr ok lofudu atgerui hans. en Þorhallr spamadr þagde iafnan þa er menn lofudu hann mest. Þa fretti Hallr hui þat sætti þuiat mer þikir þat merkiligt er þu mælir. Þorhallr suarar. ekki gengr mer þat til þess at mer mislike nokkurr hlutr vid hann edr þig eda ek siai sidr en adrir menn hans uænlæik ok atgerui helldr berr hitt til at margir lofa hann. hefir hann ok marga hluti til þess þoat hann uirde sig litils sialfr. kann uera at hans nioti æigi leingi ok mun þer[1] þa ærin eftirsia at vm son þinn suo uel mannadan þoat æigi lofui firir þer[1] allir menn hans atgerui. En er aleid sumarit tok Þorhallr at ogledìazst. Hallr spurde hui þat sætti. Hann segir. illt hygg ek til haustbods þessa. þuiat mer bydr suo firir at spamadr mune vera drepinn at þeirre ueitzslu. Þar kann ek at gera græin a sagde bonde. ek a uxa æinn .xij. uetra gamlan þann er ek kalla spamann þuiat hann er spakare en huert naut annat en hann skal drepa at haustbodinu. ok þarf þig þetta æigi at ugledia þuiat ek ætla at þessi min uæitzsla sem adrar skal þer ok ǫllum minum monnum uerda til sæmdar. Þorhallr suaradi. ek fann ok æigi þetta til af þui at ek uæri hræddr um mitt lif. ok bodar mer firir mæiri tidende ok undarligri þau er ek mun æigi at sinne upp kueda. Hallr mællti. þa er ok ekki firir at bregda ueitzslunne. Þorhallr suarar. ekki mun þat gera at mæla þuiat þat mun fram ganga

[1]) þat *Cd.*

sem ætlat er. Ueitzslan uar buin at uetrnattum. kom þar fatt bodsmanna þuiat uedrit uar huast ok uitgerdarmikit. En er menn settuzst til borda um kuelldit þa mællti þorhallr. bidia uillda ek at menn hefde mitt rad um þat at æingi madr kæmi vt a þessi nott þuiat mikil mein [317] munu a liggia ef af þessu er brugdit. ok huerir hlutir sem verda j bendingum gefui menn æigi gaum at þuiat illu mun furda (ef nǒkkurr) annzsar til. Hallr bad menn hafa ok hallda ord þorhallz þuiat þau riufazst ekki segir hann ok er vm heillt bezst at bua. þidrandi gek vm bæina. uar hann j þui sem odru miukr ok litilatr. En er menn gengu at sofa þa skipade þidrande gestum sæng sina en hann slo ser nidr j seti yzst vid þile. En er flestir menn voru sofnadir þa var kuatt dyra ok let æinge madr sem visse ok for suo þrysuar. þa spratt þidrandi upp ok mællti. þetta er skam mikil at menn lata her allir sem sofui ok munu bodsmenn komnir. Hann tok suerd j hond ser ok gek vt. hann sa ǒngan mann. kom honum þa þat j hug at nǒkkurir bodsmenn munde hafa ridit firir heim til bæiarins ok ridit sidan aftr j moti þeim er seinna ridu. hann gek þa undir uidarkostinn ok heyrde at ridit uar nordan a uollinn. hann sa at þar uoru konur .ix. ok voru allar j suǒrtum klædum ok hǒfdu brugdin suerd j hondum. hann heyrde ok at ridit uar sunnan a uollinn þar voru ok .ix. konur allar j liosum klædum ok a huitum hestum. þa uillde þidrande snua inn aftr ok segia monnum synina. þa bar þar at fyrr konurnar þær hinar suartklæddu ok sottu at honum en hann uardizst uel ok dreingiliga. Langri stundu sidarr uaknade þorhallr ok spurde huort þidrandi uekti. ok uar honum æigi suarat. þorhallr quad þa mundu ofsofit. uar þa vt gengit. uar a tunglskin ok frostuidri. þeir fundu þidranda liggia særdan ok uar hann borinn jnn. ok er menn hofdu ord uit hann segir hann þetta allt sem firir hann hafdi borit. Hann andadizst þann sama morgin j lysing ok uar lagdr j haug at fornum sid heidinna manna. sidan uar halldit frettum um manna ferdir ok uissu menn ekki uonir vvina þidranda. Hallr spurde þorhall hueriu gegnna munde þessi hinn undarligi hlutr. þorhallr suarar. þat væit ek æigi. en geta ma ek til at þetta hafui ǒngar konur uerit adrar en fylgiur ydrar frænda. get ek at her komi sidaskipti ok mun þessu næst koma sidr betri hingat til landz. ætla ek þær diser ydrar er fylgt hafua þessum atrunade nu hafua vitat firir sidaskipte ok þat at þær munu verda afhendar þeim frændum. nu munu þær æigi una þui at hafa ǒnguan skatt af ydr adr þær skiliazst vid ok munu þær hafua þetta j sinn hlut. en hinar betri diser mundu uilia healpa honum ok kuomuzst æigi uit at suo bunu. Nu bodade þessi ath-

burdr firir sem þorhallr sagde ok margir hlutir þuilikir þenna fagnadartima sem eftir kom at allzualldande gud læit miskunnar augum a þenna lyd er Jsland by(g)de ok leysti þat folk firir sina eyrendreka af longu fiandans þrældęmi ok læiddi sidan til samlags eilifrar erfdar sina elskuliga sonu. sem hann hefir hæitit ollum þeim er honum vilia þiona med stadfestu godra verka. suo ok æi sijdr synde vvinr allz mannkyns opinberliga j slikum hlutum ok morgum ǒdrum þeim er j frasagnir eru færdir huersu naudigr hann let laust sitt ranfæinge þat er ath skilia þann lyd er hann hafdi adr allan tima halldit hertekinn j uillubǒndum sinna boluadra skurgoda. þa er hann hneykti med slikum ahlaupum sinnar grimdarfullrar ræide a þeim sem hann hafde uǒlld yfir sem hann uisse nalgazst sina skam ok makligan skada sins herfangs. En Halli þotti suo mikit laat þidranda sonar sins at hann unde æigi læingr at bua at Hofui. færde hann bygd sina til þuottár. þat uar einn tima at þuotta þa er þorhallr spamadr uar þar at hæimbode med Halli. Hallr la j huilugolfui en þorhallr j annare rekkiu en gluggr uar a huilugolfinu. ok æinn morgin er þeir uoktu badir þa brosti þorhallr. Hallr mællte. hui broser þu nu. þorhallr suarar. af þui brosi ek at margr holl opnaz ok huert kuikuendi byrr sinn bagga bæde sma ok stor ok gera fardaga. Ok litlu sidar urdu þau tidende sem nu skal fra segia.

---

## þangbrandr kom til Jslandz ok baud cristni.

336. þa er Olafr konungr Trygguason hafde .ij. uetr radit firir Noregi sende hann þangbrand prest til Jslandz sem fyrr er ritat. hann kom skipi sinu j Seluog j Alftafiord hinn nyrdra. en er landzmenn uissu at þangbrandr ok hans menn voru kristnir þa uilldu þeir æigi mæla vid þa ok ekki visa þeim til hafnar ok onguan manndom̃ ne hial(p) uilldu bygdarmenn uæita þeim. J þann tid bio Siduhallr at þuotta. hann atti nordrferd j Fliotzdal at sinu[1] skulldafari ok eyrendum. en er hann for sudr aftr þa kom þangbrandr til motz vid hann gek firir hann ok kuaddi hann virduliga. [218] sagde hann Halli tilgang sinnar þarkuomu ok þat med at Olafr konungr hafde senth ord til ef hann bæri at Austfiordum at hann uæitti honum sitt traust huers sem hann kynne uit at þurfa. bad þangbrandr þa at Hallr munde koma skipi hans til hafnar ok uæita honum forsio annarligra hluta ser naudsyn-

[1]) sinum *Cd.*

ligra. Hallr tok þeim uel ok godgiarnnliga ordum hans ok ordsending Olafs konungs. fek hann þegar mann til at flytia skip þangbrandz j Alftafiord hinn sydra j Leiruuog ok let þar upp setia sem sidan hæitir þangbranz hafnn edr hrof en farminn allan let hann flytia hæim a tunuoll sinn ok georde þeim þar tialld þat er þeir biuggu j vm uetrinn. þar saung þangbrandr messur ok flutti fram gudligt embætti. Hallr uar vel til þangbranz ok allra hans felaga ok uæitti þeim alla naudsynliga hluti. uar hann löngum j budinne hea þeim. þat uar vm haustit hinn næsta dag firir Michaelis messu þa letu þeir þangbrandr nónhæilagt. Hallr bonde var þar ok spurde hui þeir letu af at vinna. þangbrandr suarar. þenna dag er eftir ferr holldum (uer) heilagt ok hatidliga til dyrdar hinum hæilaga Michaeli hofudæingli guds. Hallr mællti. huerr uar Michael sa firir ser edr huersu er hann j hatt. þangbrandr suarar. Michael uar æigi madr helldr ande skapadr af gude almatkum ok skipadr hofdinge annarra æingla þeirra er hann hefir til setta at strida j moti dioflinum ok hans fiandligum eyrendrekum ok at hlijfa öllu kristnu folki retttruadu uid skamsyniligum skeytum vhreins anda. Michaeli hofudæingli er ok æinkanliga af gude gefit ualld yfir kristinna manna salum framfarande af þessum heimi at taka vid þeim ok læida þær j halæita huilld. þar er oumbrædeligr fagnadr ok glede sæmd ok elska ok allr(ar) gæzsku gnottir. þar er æigi daude ok æigi sut ne sott ekki angr ne eymd helldr vendilig heilsa ok æilift lif. þeir menn sem hreinliga hafa þionat med rettlæti sinum skapara eru samlagadir æingla þionustu. þeirra fridr biarthlæikr sigrazst æigi af solar liose. þeirra ilmr sigrar allan sętleik. þeirra skiotlæikr afl ok mattr er mæire en ætlan megi a koma þuiat utaligr fiolde er græindr j niu fylke til firirskipadrar þionustu af gude. nökkurir af þeim hafa skipan ok ualld til þess at strida ok nidrsetia allan matt illgiarnnra anda. sumir visa j burt fra monnum ollum meinum ok motstadligum hlutum en væita j stadinn algerua hæilsu ok öll önnur þarfynde ok frialsliga hluti daudligum monnum. sumir standa æ[1] firir skaparanum. en þo allt at æinu er þeim öllum þat idia ok athöfnn at lofa skaparann uaflatliga ok vvmrædeliga med fagrhliomandum saungraustum honum at skemta. jafnan undrande hans fegurd fysazst þeir eilifliga at sia hans andlit. En er þangbrandr hafde þessa hluti talat med sniollum framburde þa mællti Hallr. þat synizst mer manninum vmatuligt at skynia ok skilia huersu dyrdarfullr at sa mun uera er sliker sua agæter æinglar þiona. þangbrandr suarar. senniliga hefir sealfr gud þer skilning blasit j briost hæidnum manni. En

[1]) ok *Cd.*

er bondi var til bordz kominn um kuelldit ok heimafolk hans allt mællti hann til sinna manna. þangbrandr ok hans felagar hallda hatijdliga a morgin til dyrdar æinum gude sinum. nu skulu þer ok hafa frelsi ok hallda hæilagt þann dag med þeim. oss er ok lofat at ganga til sea ok heyra athæfui þess sidar. Vm morgininn sem Hallr uar klęddr gek hann til tialldzins ok stod vti hea med alla heimamenn sina. en er þeir heyrdu kluknnahliod ok fagrar raustir syngiande manna er þeir hǫfdu fyrr huerge heyrt þa fannzst þeim vm ok þo enn meira þa er messa var er þeir sa klerka skrydazst agætum skruda ok kerti berande med agætum (liosum) ok kendu hinn sætazsta ilm. En er Hallr kom heim spurde hann hæimamenn sina huersu at þeim uirdizst athæfui kristinna manna. þeir suorudu at þeim syndizst hardla fagurt ok sæmiligt af ser allt þat er þeir hefde set af embætti kristinna manna ok heyrt af þeirra þionustu. þangbrandr talade tru firir Halli ok eggiade hann at snuazst til sidlætis kristinna manna. ok æinn tima mællti Hallr til þangbrandz. suo er hattat at her med mer eru kellingar gamlar hrumar ok ǒruasa sua at þær liggia j kǒr ok mega æigi sealfar bera sig. nu mun ek þig lata skira kellingarnnar. en ef þær mega nokkut hræra sig eftir skirnina edr þær se þa nokkuru sottminne en adr edr þeim þynge ekki vid er þær erv sua hrærdar at þær se j uatnn færdar þa se ek at mikill kraftr fylgir kristnum sid. skal ek þa lata skirazst ok allt mitt [219] heimafolk. Sidan eggiade Hallr kerlingarnar at þæ(r) skyllde tru taka þa er þangbrandr bodade. Ok er þær hǒfdu jattat þrifalldri spurning kennimannzsins af þrenningar tru ok er þær hofdu beitzst skirnar sem sidr er til þa skirde þangbrandr prestr kerlingarna(r) j nafnne fǒdur ok sonar ok hæilags anda ok færde þær eftir j huit klæde. En Hallr husbonde þeirra kom til þeirra þegar annan dag ok spurde huersu at þær mætti. en þær suorudu badar senn suo segiande. hardla uel megum vit þuiat sakir elli natturu erv afllitler likamir okkrir en þo er j brottu allr siuklæikr ok vhægindc er okkr hefir adr þyngt ok þreyngt en þar j mot er komin æskilig huilld ok heilsa likamans. þuiat allir okkrir lidir ok limir erv miukir huerr til sinnar þionustu þuilikt sem uit sem uordnar ungar j annat sinn. horfinn er ok uggr ok otti ok lifs beidni en vid hofum fæingit fagnat ok glede ok von meire sælu. Bondi vard vid þetta gladr ok het at taka tru. var hann skirdr þuottdag firir paska j brunnlæk sinum ok allt hans hæimafolk. gaf þangbrandr prestr læk þeim nafnn ok kallade þuotta sem sidan er bærinn vid kendr. þangbrandr prestr for um sumarit til alþingis med Halli.

Margir menn toku tru a Jslandi. capitulum.

337. Nv er at segia fra heidingium at (þeir) fyllduzst upp mikils fiandskapar moti þangbrandi presti ok gerdu þat vrad at þeir keyftu alh þeim manni er þa var mestr fornneskiumadr a Jslande af fiandans fiolkynge er het Galldrahedinn at hann skyllde suo gera med sinne kunnattu at þangbrandr prestr sykki kuikr j iord nidr. þeir Hallr gistu j Kirkiubæ. þar bio þa Surtr Asbiarnarson þorsteinssonar Ketilssonar hins spaka[1]. þessir langfedgar biuggu j Kirkiubę huerr eftir annan ok voru allir kristnir þuiat þar matti alldri heidinn madr bua. En þann dag er þeir Hallr ridu af Kirkiubæ þa sprak jordin undir þangbrandi ok sǒkk þar nidr hestr hans en hann komzst af baki ok gat hialpat ser med guds fulltinge ok forunauta sinna. En er þangbrandr kom til þings ok sneri morgum monnum til rettrar truar j Sunnlendinga fiordunge ok j nordrsuæitum. budu þeir honum nordr þangat er tru uilldu taka. kom hann nordr j Ǒxarfiord vm sumarit ok skirde marga menn j læk þeim hia Skinnastǒdum er Brannzlækr hæitir sidan. en at[2] Myuattne skirde hann menn j þangbrandz polle. en firir riki Eyfirdinga nade hann æigi at fara leingra en til Skialfanndafliotz. A þui sama sumre drapu þeir þangbrandr [ok Gudleifr[3] Arason Mársssonar [Vetrlida skalld[4] or Fliotzhlid um nid ok gudlastan. Vm þat vijg uar þetta kuedit.

Rydfionar gecc reynir
randa sudr a landi
beds j bęnar smidiu
balldrs siktolum hallda.
sidreynir let sinu
sniallr mordhamar gialla
haudrs j hattar stedia
hialldrs Uetrlida skallde.

Annar madr orti ok nid um þangbrand ok Gudleif. hann het þorualldr hinn ueili hann bio j Eyuik j Grimsnese. þessa visu sende þorualldr uæili Ulfui Uggasyne.

Vggs bialba mun ek Ulfui
æinsbendis bod senda
mer er vit stala styre
stugglaust syne Ugga.
at gnyfeta gæitis
guds uarg firir argan
þann er vit rǒgnn of reggni
reki hann en ek annan.

Sligt orti hann ok mart annat verra. Vlfr quad þessa visu a moti.

Tekkat ek sundr þo at sendi
sannreynir bod tanna
buarfs vid bleypiskarfui
barbanndz na fiardar.

[1]) *r.* fiflska [2]) af *Cd.* [3]) [Gudbrand *Cd.* [4]) [Vetrlida sonar skalldz *Cd.*

er rafaka ræki
raung eru mal a gangi
se ek vid myklu mæini
minsligt flugu at gina.

Sidan drapu þeir þangbrandr ok Gudleifr[1] þorualld uæila vid Hestlęk. Eftir þat for þangbrandr austr til skips sins ok biotzst til vtanferdar. let hann j haf er hann uar buinn þuiat hann sa sig litit vinna j kristnne-bodinu þuiat þeir voru (fair) at med litilæti geingi godfusliga undir guds bodord ok hæilaga (skirn) hia þui sem hinir voru at med fullum vvilia gengu j moti ok leitudu at lemia nidr helgan dom. En er þang-brandr var skamt j haf kominn þa lögduzst a motuidri med stormum ok uard hann aftrreka til Jslandz. tok hann land j Höfnn j Borgarfirde skamt fra Huita. þa bio j Skalhollti Gizsorr huiti Tæitzson Ketilbiarnar-sonar[2]. en er hann spurde at þangbrandr var ordinn aftrreka þa baud hann honum til sin. ok var þangbrandr j Skalhollti vm uetrinn. A þeim uetri tok stormr skip þangbrandz ok braut nokkut. Vm þat orti Stein-unn modir Skalldrefs.

þorr bra þummils dyri
þangbranz or stad löngum
hristi bord ok beysti
bardz ok laust vid jordu.
munat skid um sia sidan
sundfært atals grundar
hregg þuiat hart tok leggia
hanum kent j spanum.

Ok enn quad hon.

Braut firir biollu gæti
baund raku ual strandar
maugfellande j mellu
mastallz uishund allan.
hlifdit Kristr þa er kneyfdi
[220] (knorr) malfeta uarrar
litt hygg ek at gud gętti
gylfa hræins hit æina.

þat skip let þangbrandr bæta ok kallade Jarnmeis. þar er vidkendr Jarnmeishofde. Um uorit for þangbrandr uestr til Breidafiardar a Bardastrond ok dualdizst um hrid med Gesti Oddleifssyne. þar skorade berserkr nokkurr utlendr a hann til holmgongu. þangbrandr sagde sig þess albuinn. Berserkrinn mællti. þu munt æigi þora at ganga til ein-uigis ef þu ser jþrottir minar. þangbrandr spurde hueriar jþrottir þat væri. Hann suarar. ek geing um elld berum fotum brennanda ok ek lęt fallazst a saxodd minn hlifarlausan ok skadar mig huorke. þang-brandr suarar. gud mun þui rada. þa uar georr elldr mikill ok uigde þangbrandr elldinn. en berserkrinn gek a vhręddr ok brann a fotunum. sidan let hann fallaz a suerdit. en þangbrandr gerde krossmark yfir oddinum ok fek berserkrinn þar af bana. hans dauda fögnudu æigi at

[1]) Gudleikr *Cd.* [2]) Ketils sonar Biarnar sonar *Cd.*

æins kristnir menn helldr ok iafnnuel heidingiar þuiat berserkr þessi hafde uæitt morgum manni mykla kugan ok mikinn yfirgang. Let Gestr þa primsignnazst ok nokkurir adrir menn uestr þar þeir sem voru vinir Gestz. Eftir þat for þangbrandr til skips sins ok for vtan um sumarit a Jarnmeisnum ok tokz su ferd uel. kom af hafui vtan at[1] þrandheimi ok lagde skipi sinu jnn til Nidaróss.

## Hiallti var stefndr fyrir godgaa.

338. Nv uerdr fyst at segia fra Jslendingum þeim er þetta sumar komu utan af Jslande til Nidaróss litlu adr en Olafr konungr kom nordan af Halogalande. þar uar æinn madr Halldorr son Gudmundar hins rika af Mǫdruuǫllum annarr Kolbæinn son þordar Freysgoda brodir Brennuflosa. þride Suertingr son Runolfs goda. þar red ok firir skipe þorarinn Nef(i)ulfsson. þessir voru aller heidnir ok margir adrir riker ok vriker. þessir menn er nu voru nefnndir huerr med sina skipueria leitodu þegar brottsiglingar er Olafr konungr var kominn nordan af Halogalande. þuiat þeim uar sagt at konungr naudgade alla menn til kristne. logdu heidingiar vt ór ánne er konungr uar kominn til bæiarins. sigldu þeir vt eftir firde. þui næst gek þeim uedr j þra ok rak þa aftr undir Nidarholm. þetta uar sagt Olafi konungi at Jslendingar lægi vt undir Nidarholmi nokkurum skipum ok voru allir heidnir ok uilldu flyia fund hans. Konungr sende þegar menn til þeirra ok bannade þeim brottferd. þeir foru æigi en baru ekki af skipum. J þann tima komu af Jslande gofgir menn ok mikils uirdir þeir er kristni hofdu tekit af ordum þangbrandz prestz Gizsǫrr huiti ok Heallti Skeggiason ór þiorsárdal. Heallti atti Uilborgu dottur Gizsorar huita. en su var sok til vtanferdar Heallta at vm sumarit a alþinge hafde Heallti kastat fram kuidlinge þessum.

Vil ek æigi god geyia
grey þikki mer Freyia
æ man annat tueggia
Odinn grey edr Freyia.

En fystr manna tok undir kuidling þenna Runolfr gode Ulfsson Jǫrundarsonar ok kallade godga ok sækti hann til sektar þar þo at æigi væri auduellt. synde hann meirr j þui male kapp sitt ok rikdom en rettlæti. þuiat hann gat æigi halldit dominum firir vinsælld Heallta fyrr en hann setti dominn a Ôxarar bru ok let veria uige bruarspordana. en þa fekzst eingi madr til at ræifa malit fyrrum en sa madr settizst

[1]) af *Cd.*

j dominn ok ræifde malit er het þorbiornn ok uar þorkelsson. J þeim domi uard Hiallti sekr fiorbaugsmadr um godgána. bio hann sig þat sumar id sama til vtanferdar a þui skipe er hann hafde sealfr gera latit heima j þiorsárdal. ok er hann uar buinn for hann ofan eftir Rangá hinne uestri til siouar. en er þeir helldu ofan eftir anne rann madr mikill[1] okunnr ofan eftir bakkanum. sa hafde skiolld firir ser ok spiot. Hiallti grunade ath þessi madr munde uera til hans sendr ok kallade hann suo segiande til hans. þu hinn mykle madr þer j briosti liggr halmuisk þar er hiartat skyllde uera. En hann skaut spiotinu til Heallta sua ath j gegnum gek skiolldinn er hann bar firir sig. Toku þeir þa manninn ok spurdu huerr hann uæri edr huerr hann hefde sendan. Hann suarar. ek heiti Narfui ok er ek sendr af Runolfui goda at leysa suo sekt mina at drepa þig. Hiallti mællti. ek skal gefua þer heillarad til at uerda syknn. far þu vtan ok ver minn fylgdarmadr. Hann jattade þui. Sidan foru þeir Heallti ok Gizsor vtan. fundu þeir Olaf konung j Nidarose ok tok konungr þeim blijdliga þegar hann visse at þeir voru kristner.

### [221] þangbrandr kom til konungs.

339. Litlu sidarr kom þangbrandr a fund konungs nykominn af Jslande. sagde hann konungi huersu Jslendingar hofdu illa vid honum tekit. sumir niddu mig sagde hann en sumir uilldu drepa mik en at lyktum uar ek geðrr sekr a allzheriar þinge. ok er þat vist at þarlenzskr lydr mun alldri tru taka vtan fair menn. Vid þessa sðgu þangbrannz uard konungr akafliga reidr suo at hann let þegar blasa til þings ok boda til ðllum islenzskum monnum þeim sem þar uar(!) j bęnum ok a skipum. bad sidan taka alla þa er hæidnir uoru særa edr meida edr drepa. en hofdingiar islenzskir Kiartan Olafsson Gizsðrr ok Hiallti ok adrir þeir sem kristnir voru geingu firir konung ok badu Jslendingum fridar ok mælltu. æigi muntu herra ganga a bak ordum þinum. þuiat þu segir at æingi madr skal sua mikit hafua til ræide þinnar at æigi uilltu þat upp gefua þeim sem taka sanna tru at æigi se þeir heidnir sem kristnir uilia verda. nu uilia aller islenzskir menn taka tru ok lata skirazst. en ver munum finna þat rad til at kristne mun uit gangazst a Jslande. eru her margir rikra manna syner af Jslande ok munu fedr þeirra mikit lidsinne væita þessu mali. en þat hæfir uit heidit folk ok grimt at fara at med uitrligum radum ok þo med uægd ok miuklæti ok vinnr sligt oft meira en akafui ok grimd þui helldr sem hardari ok

[1]) mikit *Cd.*

hraustari menn erv j mot. en þangbrandr uingadizst vid fa menn a Jslande. er ydr herra æigi okunnikt hueriu hann for her fram med ydr. hafde hann vt þar hit sama skaplynde for med ofstopa ok hardri hende ok drap menn ef honum mislikade vid ok þoldu menn honum þar ekki sligt. En er þeir Hiallti luku sinne rædu langri ok sniallri þa mællti konungr. huerir edr huerrar ættar eru þit hinir malsniollu menn. Gizsorr suarar. Hiallti er Skeggiason þorgeirssonar Æilifssonar Ketilssonar hins einhenda. modir Hiallta uar þorgerdr dottir Hlifar dottur Torfuæinars jalls sonar Rognualldz Mæra jalls. en ek er segir Gizsörr son Tæitz Ketilbearnarsonar Ketilssonar riks mannz or Naumudal. modir Ketilbiarnnar het Asa dottir Hakonar jalls Griotgardzsonar. modir Tæitz födur mins segir Gizsorr uar Helga dottir þordar skeggia Hrappsonar Bearnarsonar bunu Uedragrimssonar. en modir min uar Olof dottir Bauduars sonar Uikingakara. uar Bauduarr brodir Æireks a Offrustödum (modur)fodur þins konungr. gerda ek firir frændsemis sakir uit ydr konungr er ek baud þangbrandi til min þa er adrir hotudu hann. En er konungr uisse suo mykla frændsemi þeirra Gizsorar uard hann vid þat blijdr ok segir suo. þit magar skulit vera uel komnir med oss j uetr ok ef þit hæitit mer umsyslu ykkarri ok astundan at uorr uile gangi fram um kristnibodit a Jslande þa skulu allir frialser fara hinir islenzsku menn firir oss utan þeir fiorir sem þer kallit gaufgazsta. þeim mun ek her eftir hallda j gisling þar til er kristindomr er logtekinn a Jslande edr ella firirtekinn. nefni ek þar til þann mann er her hefir dualiz med oss vm hrid ok ver höfum reynt at roskum dreing Kiartan Olafsson ok Halldor Gudmundarson Kolbæin þordarson freysgoda ok Suerting Runolfsson. nu munu fedr ok frændr þessarra manna mikit ualld a hafa huor(t) ek sendi þeim til handa sonu sina med sæmd ok godum giofum edr ek læt drepa þa. þeir Hiallti suorudu. Giarna uilium uer þessu hæita Jslendingum til frelsis ok æinkanliga bidia at þer gerit uel uit þa menn at þer nefndut j gisling. Konungr mællti. huat er ykkr langt at þeim monnum huort mægd edr frændsemi er þer bidit suo aluor(u)liga firir. þa uard til at suara konungi æinn norrænn madr helldr huatvijs. ek uar j sumar a alþinge Jslendinga þa er Runolfr fadir þessa Suertings sekti Hiallta. þa suarade þangbrandr[1] ok bad þann mann þegia skiott. en þer herra gerit uel vid þa Hiallta ok Gizsor þuiat þeir eru reyndir at þui at þeir launa oft godu þeim sem illa eru vid þa. sem Hiallti syndi enn er hann for af Jslande. hann tok þann mann j sina ferd er sendr uar til höfuds honum ok uillde drepa

[1]) þ'bergr *Cd.*

hann. Eftir þetta uoru skirdir allir Jslendingar þeir sem þar uoru vskirdir. uoru þeir Gizsorr ok Heallti vm uetrinn med Olafi konungi j hinne mestu sæmd ok kęrleikum. gislarner uoru ok med konungi um uetrinn uel halldnir.

---

## ÞAATTR EIREKS RAUDA.

### Capitulum.

Ðorualldr het madr son Osualldz Ulfssonar Ǒxnaþorissonar. þorualldr ok Æirekr [???] hinn raude son hans foru af Jadri til Jslandz firir viga sakir. þa var vijda bygt Jsland. þeir biuggu fyst at Draungum a Hornnstrondum. þar andadizst þorualldr. Æirekr fek þa þorhilldar dottur Jorundar ok þorbiargar knarrarbringu er þa atti þorbiornn hinn haukdælski. redzst Æirekr þa nordan ok bio a Æirekstodum hia Uatzhornne. son Æireks ok þorhilldar het Leifr. En eftir uig Eyiulfs saurs ok Holmgaungu-Hrafns uar Æirekr gerr brot or Haukadal. for hann uestr til Breidafiardar ok bio j Ǒxney a Æirekstodum. hann ledi þorgesti setzstokka ok nadi æigi (er) hann kallade til. þadan af gerduzst deilur ok bardagar med þeim þorgesti sem segir j sogu Æireks. Styrr þorgrimsson ueitti Æireki at malum ok Eyiulfr or Suiney ok synir (þor)branz ór Alftafirde ok þorbiornn Uifilsson. En þorgestlingum uæitti synir þordar gellis ok þorgæir or Hijtardal. Æirekr uard sekr a þornesþinge. bio Æirekr þa skip sitt (til) hafs j Æireksuoge. en er hann uar buinn fylgdu þeir Styrr honum vt vm eyiar. Æirekr sagde þeim at hann ætlade at lęita lanz þess er Gunnbiornn son Ulfs kraku sa er (hann) rak uestr um haf þa er hann fann Gunnbiarnarsker. kuetz hann aftr mundu leita til vina sinna ef hann fynde landit. Æirekr siglde undan Snęfellziokli. hann fann landit ok kom utan at þui þar sem hann kallade Midiokul. sa hæitir nu Blaserkr. hann for þa þadan sudr med landinu at leita ef þadan væri byggianda landit. Hann uar hinn fysta uetr j Æireksey nærr midre[1] hinne eystri bygd. um uorit eftir for hann til Æireksfiardar ok tok ser þar bustad. hann for þat sumar j hina uestri ubygd ok gaf uijda ǫrnefni. hann uar annan uetr j Holmum uit Hrafnsgnipu. en hit þridia sumarit for hann (nordr til Snæfellz ok allt inn j Hrafnsfiord. þa kuadzst hann kominn firir botn Æireks-

[1]) undir *Cd.*

fiardar. huarf hann þa aftr ok var hinn þridia uetr j Æireksey firir mynne Æireksfiardar. eftir um sumarit for hann) til Jslandz ok kom skipe sinu j Breidafiord. Hann kallade landit þat er hann hafde fundit Grænland þuiat hann kuat þat mundu fysa menn þangat er landit heti uel. Æirekr uar a Jslande um uetrinn. en vm sumarit eftir for hann at byggia landit. hann bio j Brattahlid j Æireksfirde. Suo segia frodir menn at a þui sama sumre er Æirekr raude for at byggia Grænland þa for halfr fiorde[1] tøgr skipa ór Breidafirde ok Borgarfirde en fiortan kuomuzst vt þangat. sum rak aftr en sum tynduzst. þat uar .xv. uetrum fyr en kristni uar løgtekin a Jslande. a þui sama sumre foru vtan Fridrekr byskup ok þorualldr Kodransson. þessir menn namu land a Grænlandi er þa foru vt med Æireki. Heriulfr Heriulfsfiord hann bio a Heriulfsnese. Ketill Ketilsfiord Hrafnn Hrafnnsfiord Sølui Søluadal Helgi[2] þorbranzson Alftafiord þorbiornn glora Siglufiord Æinarr Æinarsfiord Hafgrimr Hafgrimsfiord ok Uatnnahuerfui Arnnlaugr Arrnnlaugsfiord. en sumer foru til uestri bygdar.

### Leifr hepni var skirdr.

341. þa er sexstan uetr uoru lidnir fra þui er Æirekr raude for at byggia Grænland þa for Leifr son Æireks utan af Grænlande til Noregs. kom hann til þrandheims um haustit þa er Olafr konungr Trygguason uar kominn nordan af Halogalande. Leifr lagde skipi sinu inn til Nidaróss ok for þegar a fund Olafs konungs. bodade konungr tru honum sem odrum heidnum monnum er a hans fund komu. gek konungi þat audueliga uit Leif. uar hann þa skirdr ok aller skipueriar hans. var Leifr med konungi um uetrinn uel halldinn.

### Biarni leitadi Grænlandz.

342. Heriulfr uar Bardarson Heriulfssonar. hann uar frændi Jngolfs landnamamannz. þeim Heriulfui gaf Jngolfr land a mille Uogs ok Reykianes. Heriulfr bio fyst a Drepstokki. þorgerdr het kona hans en Biarnne son þeirra ok var hinn efniligzsti madr. hann fystizst utan þegar a unga alldri. uard honum gott bæde til fiar ok mannuirdingar ok uar sinn uetr huort vtanlandz edr med fedr sinum. Bratt atti Biarnne skip j førum ok hinn sidazsta uetr er hann var j Noregi þa bra Heriulfr til Grænlandzferdar med Æireki ok bra bui sinu. Med Heriulfui var a skipe sudreyskr madr kristinn sa er orti Hafgerdingar drapu. þar er þetta stef j.

[1]) r. þride [2]) r. Snorri

Minar bidr ek munka reyni
mæinalausan fara(r) bæina
hæidis hallde hattar folldar
hallar drottinn yfir mer stalli.

Heriulfr bio a Heriulfsnese. hann var hinn gofgazsti madr. Æirekr raude bio j Brattahlid. hann uar þar med mestri uirdingu ok lutu allir til hans. þessi voru bornn Æireks Leifr þorualldr ok þorstæinn en Freydis het dottir hans. hon uar gift þeim manni er þoruardr het ok biuggu þau j Gǫrdum þar sem nu er byskupstoll. hon (uar) [223] suarre mikill en þoruardr uar litilmenni. uar hon miog gefin til fear. Hæidit uar folk a Grænlandi j þann tima. þat sama sumar kom Bearnne skipi sinu a Eyrar er fadir hans hafde brott siglt vm vorit. þau tidende þottu Biarnna mikil ok villde æigi bera af skipe sinu. þa spurdu hasetar hans huat er hann bærizst firir. en hann suarar at hann ætlade at hallda sidueniu sinne ok þiggia at fǫdr sinum uetrvist. ok vil ek hallda skipinu til Grænlandz ef þer vilit mer fylgd væita. Allir quoduzst hans radum fylgia vilia. þa mællti Biarnne. vvitrlig mun þikia uor ferd þar sem æinge uorr hefir komit j Grænlandz haf. En þo hallda þeir nu j haf þegar þeir voru buner ok sigldu þria daga þar til er landit uar uattnnat. en þa tok af byrina ok lagde aa norrænur ok þokur ok uissu þeir æigi huert at þeir foru ok skipti þat mǫrgum dægrum. Eftir þat sa þeir sol[1] ok maattu þa deila ættir. uinda nu segl ok sigla þetta dægr adr þeir sa land ok ræddu um med ser huat landi þetta mun uera. en Biarni kuetzst hyggia at þat mundi æigi Grænland. þeir spyria huort hann uill sigla at þessu landi edr æigi. (Hann suarar). þat er mitt raad at sigla j nand uit landit. Ok suo gera þeir ok sa þat bratt at landit uar ofiaullott ok skogi uaxit ok smar hædir a landinu ok letu landit a bakborda ok letu skaut horfa a land. Sidan sigla þeir tuǫ dægr adr þeir sa land annat. þeir spyria huort Biarni ętlade þat en(n) Grænland. hann kuaz æigi helldr ætla þetta Grænland en hit fyrra. þui at ioklar eru miog myklir sagdir a Grænlandi. þeir nalguduzst bratt þetta land ok sa þat vera slett land ok vide uaxit. þa tok af byr firir þeim. þa ræddu hasetar þat at þeim þotti þat rad at taka þat land. en Biarnni uill þat æigi. þeir þottuzst bæde þurfua vid ok vattn. At ǫngu eru þer þui obirgir segir Biarnni. en þo fek hann af þui nǫkkut amæli af hasetum sinum. Hann bat þa vinda segl ok suo var gert ok settu framstafnn fra lande ok sigla j haf vtsynnings byr þriu dægr ok sa þa land it þridea. en þat land uar hatt ok fiollott ok iokull a. þeir spyria

[1]) sia *tilf. Cd.*

þa ef Biarne villde at lande lata þar. en hann quaz æigi þat vilia þuiat mer litzst þetta land ogagnnuænligt. Nu logdu þeir æigi segl sitt. hallda med landinu fram ok sa at þat var eyland. settu enn stafnn vid þui landi ok helldu j haf hinn sama byr. en vedr óx j hond ok bad Biarni þa suipta ok æigi sigla mæira en bæde dygde uel skipi þeirra ok ræida. sigldu nu fiogur dęgr. þa sa þeir land hit fiorda. þa spurdu þeir Biarna huort hann ætlade þetta vera Grænland edr æigi. Biarni suarar. þetta er likazst þui er mer er sagt fra Grænlandi ok her munu ver at landi hallda. Suo gera þeir ok taka land undir æinhueriu nese at kuellde dags. ok uar þar baatr a nesinu en þar bio Heriulfr fadir Biarna a þui nesi. ok af þui hefir nesit nafnn tekit ok er sidan kallat Heriulfsnes. For Biarni nu til faudur sins ok hættir nu siglingu ok er med fǫdur sinum medan Heriulfr lifde ok sidan bio hann þar eftir fodur sinn.

---

## Draap Gudraudar konungs. capitulum.

343. Gvdrǫdr konungr son Eireks blodǫxar ok Gunnhilldar hafde verit j uestrlǫndum sidan (hann) flyde land firir Hakoni jalli. en a þessu sumri sem nu er fra sagt þa er Olafr konungr Trygguason hafde fiora uetr radit Noregi kom Gudrodr konungr til Noregs med morg herskip ok mikit lid. en er hann kom j landuon vid Noreg þa stefnde (hann) sudr med lande þangat er honum var minne uon Olafs konungs[1]. siglde hann austr til Vikrinnar. en þegar hann kom til landz tok hann at heria ok braut undir sig landzfolkit en bæiddi ser vidtǫku. en er landzmenn sa at herr mikill uar kominn a hendr þeim þa leitǫdu þeir ser grida ok satta ok budu konungi at þingbod skylldi fara vm landit sǫgdu at þeir uilldu uæita honum uidrtǫku helldr en þola hernat ok stefnna til fiolment þing at taka hann til konungs. uoru þar mællt a laung frest medan þingbod færi vm Vikina. krafde konungr þa vista-gialldz medan su bidande skyllde vera. en bændr kioru helldr þann kost at bua konungi sua leinge væitzslur sem hann þyrfti ok þingbod gengi yfir. Gudrodr konungr tok þann kost at hann for yfuir landit at ueizslum med lid sitt en sumt gætti skipa hans. þeir brædr þorgæirr ok Hyrningr magar Olafs konungs uoru skipadir af hans halfu hofd-ingiar yfir alla Vikina þa er Olafr konungr uar nordr j landi. sendu bændr þeim ord myklu skiotara en þingbod gek ok letu segia [...]

[1] konungr *Cd.*

þeim um hernat Gudrǫdar konungs ok suo allt huersu farit hafde. letu þeir fara ǫruarbod fiogurra uegnna fra ser ok stefnndu til sin lide um ǫll hinu næstu herut. redu sidan til skipa ok foru nordr j Vikina. komu þeir a æinne nott med lid sitt þar sem Gudrǫdr konungr var a ueitzslu. ueittu honum þar atgaungu bæde med ellde ok uopnum. fell þar Gudrodr konungr ok flest allt lid hans. sidan helldu þeir til motz vid þat lid er a skipunum uar. var þat sumt drepit en sumt komzst vndan ok flyde uijds uegar. uoru þa daudir allir synir Æireks ok Gunnhilld(a)r. En er Olafr konungr fretti þessi tidendi let hann uel yfir þessu uerki ok þakkade magum sinum tilræde sitt ok hraustleik er þeir hofdu synt j þessu verki.

## Reistr Ormrinn.

344. þann uetr eftir er Olafr konungr hafde komit af Halogalande let hann reisa skip inn undir Hladhǫmrum þat er mæira var myklu en onnur skip er geor hafua verit j Noregi. þorbergr Skafǫxsson ok þorgæirr stakarhǫfde uoru stafnarsmider(!) at skipinu ok hǫfudsmider at ræisa j fystu. en þar uoru margir adrir at. sumir at fella sumir at telgia sumir saum at sla sumir at flytia vidu til ok adra hluti þa sem þurfti. uoru þar allir hlutir uandadir til. en kialartre gatu þeir æigi fengit þat er þeim þotti heyra saker leingdar skipsins ok leituduzst uida um. þat uar æinn morgin arla er þorgeirr ok þorbergr uoru a fotum fyrr en adrir menn. þeim uard gengit þar til sem skipit skyllde reisa. þeir foru þa enn hugsande sem oftar huat til kialartresins skyllde hafua ok gatu þa enn æigi þat fundit. þeir sa huar madr gek mikill uexsti skolbrunn ok nokkut greppligr j yfirbragde æinnsynn ok ekki þydligr. hann kastar a þa ordum ok spyr huort mikit gangi a skipsmidina. þeir segia æigi þat vera. hann spyr huat þui uallde. þeir segiazst æigi fa tre suo stort ne gott at heyre til kialarins. þat hefui ek spurtna(!) sagde hinn komni madr ok hafui konungr þo latit vijda vm sopazst. nu megu þit ganga ok sia litinn trestubba er ek hefui hingat flutt ok uitit huort hann gagnar til kialarins edr æigi. þeir spurdu hann at nafne en hann letzst Fornni heita bondi æinn ór þrendalǫgum kunninge konungs ok fornn vinr. þeir ganga þa til siofarins ok sia þar fliota litinn bat ok furdu stort tre er þeir þottuzst vita at kall hefde flutt þat eftir. þeir uellta þa upp trenu j fiorumal ok þotti þeim kall tiltakagodr bæde ok hagtækr. þeir hugdu þa at ok leitz þeim uel aa ok spurdu huat kall uillde firir hafua edr huersu dyrt vera skyllde. hann sagdizst ekki meta mundu uit konung en bad þa hafua

ef þeir uillde. en ek mun þa hæimta verd firir af konungi er mer hentar at hafua. For karll a bat sinn ok reri vth a fiord en þeir geingu heim til bęiar. Konungr uaknade eftir veniu klæddizst gek til kirkiu ok hlydde ollum tijdum. sidan til borda. en er drykkiubord uoru ofan gek konungr þar til sem smidirnir voru at skipsmidinne. þeir sogdu honum at þeir hefde kialartre fæingit ok huersu þat uar til komit. konungr kuetzst ekki uaknna vid Fornna þenna ok bad syna ser tred. ok suo gerdu þeir. konungr leit a tred ok steig a j æinhuerium stad ok mællti. hðggi her j sundr. ok sua var gert. en er þat uar j sundr hrðktizst þar vt ór æinn æitrormr. Konungr mællti. nu þikkiumzst ek sia huerr Fornni sia hefir verit. þetta hefir verit hinn ille Odinn. megum uer sia at hann hefir ætlat at ormr sea skyllde hrokkuazst j gegnum skip uort þa er uær uerim j hafui ok sokkua oss suo ollum nidr til grunna. nu skal þo hafua tre þetta ok hętta a guds forsio at oss dugi. þuiat þat er ðllum liost at meira ma millde ok miskunn allzualldanda guds helldr en ðfund ok illzska fiandans ok hans eyrendreka þeirra er um sitia ok ðfunda allra manna uelferd. Sidan let konungr sækia byskup ok bad hann uigia tred sem byskup gerde. ok eftir þat gerdu þeir kiolinn ok smidadu skipit. Konungr talade. nu skal skipit taka nafn af ormi þessum ok skal kalla Orm. en sakir uaxstar skipsins ok leingdar þiki mer hann hæita mega Ormr hinn lange. þar voru allir hlutir uandadir til. var skipit bæde langt ok bræitt bordmikit ok storuidat. En er þeir baru skipit bord(e) þa attu þeir smidirnir þorbergr ok þorgeirr naudsynia eyrende at fara hæim til bua sinna ok dualdizst þar miog leingi. [225] en er þeir komu aftr uar skipit fullborda. for konungr þegar vm kuelldit ok þorgæirr ok þorbergr med honum at sea skipit huersu skordat var. ok mællti þat huerr madr er skipit sa at alldri hefde seth langskip iafnnmikit ok suo fagrt. for konungr þa aftr j bæinn. En snemma vm morgininn for konungr enn til skipsins ok þeir þorbergr. uoru þa adrir smidir þar komner ok stodu ok hofduzst ekki at. konungr spurde hui at þeir hefdizst ekki at. en þeir sogdu at spillt var skipinu suo at madr munde gengit hafua fra framstafnne ok til lyftingar ok sett j bordit ofan huert skylihðgg at ðdru. Gek konungr þa til ok sa at satt var. mællti konungr þa ok suer vit at sa skyllde deyia ef hann vissi huerr firir ðfundar sakir hefde spillt skipinu. en sa er mer kann þat at segia sagde konungr skal mikil gæde af mer hliota. þa suarar þorbergr. ek mun segia ydr herra huerr þetta mun gert hafua. Konungr mællti. mer er ok æigi at ðdrum manni uon at þat happ muni henda at verda þessa viss ok kunna mer at segia. þer skal ek ok segia

herra. ek hefui gert. Konungr suarar. þa skalltu ok bæta suo at iafnnuel se sem adr edr betr. skal þar lif þitt vidliggia. Sidan gek þorbergr til ok telgdi bordin suo at oll gengu ór skylihöggin. Mællti þa konungr ok aller þeir er sa at skipit væri miklu fridara a þat bordit er þorbergr hafde skorit. bad konungr hann þa suo gera a bæde bord ok bad hann hafua þök firir. Uar þorbergr þa höfudsmidr firir skipinu þar til er algort var. uar þat dreki ok gert eftir þui sem uar dreki sa er hann hafde haft nordan af Halogalande. en þo var þetta skip myklu meira ok at ollum hlutum meir uandat. en þenna dreka kallade hann Orm hinn langa en hinn Orm hinn skamma. A Langormi uoru fiogr rum ok .xxx. höfudit ok krokrinn uar allt gullbuit. suo voru bordin ha sem a hafskipum. þat hefir bezst skip verit gert ok med mestum kostnade j öllum Noregi.

---

## þATTR SUADA OK ARNORS KELLINGARNEFS.

Mikil ok margfölld er miskunn allzsualldanda guds j ollum hlutum ok haleitr hans domr er hann lætr öngan godgerning firirfarazst helldr kallar hann elskuligri millde þa sem æigi kunna her adr til at nema skynia ok skilia dyrka ok elska sinn lausnara. sem uorr herra Jesus Cristus lifande guds son hefir synt j morgum frasögnum þo at ver munim fár tina. suo sem yfirbodan miskunnar tilkuomu ok fullkomins kristinsdoms a Jslande. synir gud j þeim frasognum sem eftir fara at hann stydr ok styrkir huert gott uerk þeim til gagnns er gera en hann onytir ok eydir illzsku ok grimd uondra manna suo at oftliga firirfarazst þeir j þeim snörum er þeir hugdu ödrum. Nökkuru eftir vtanferd Fridreks byskups ok þorualldz Kodranssonar gerdizst a Jslande suo mikit hallæri at fiolde mannz do af sullti. þa bio j Skagafirde nokkurr mikilshattar madr ok miog grimmr er nefndr er Suade þar sem sidan heitir a Suadastodum. þat uar æinn morgin at hann kallade saman marga fatæka menn. hann baud þeim at gera æina mykla grauf ok diupa skamt fra bæ sinum vid almannaueg. en þeir hinir fatæku urdu fegnir ef þeir mætti hafa amban erfuidis sins med nökkuru moti ok slokkua sinn sara hungr. ok um kuellldit er þeir hofdu lokit grafar gerdinne leidde Suade þa alla j æitt litit hus. sidan byrgde hann husit ok mællti sidan til þeirra er inni voru. gledizst þer ok fagni þer þui

at skiott skal endir uerda a yduarre uesolld. þer skulut her bua j nott en a morgin skal ydr drepa ok iarda j þeirre myklu grof er þer hafit gert. En er þeir heyrdu þann grimma dom firir sitt starf er þeim var daude ætladr sidan toku þeir at æpa med sarligri sorg vm alla nottina. þar bar suo til at þoruardr hinn kristni son Spakbauduars for þa somu natt upp vm herad at eyrendum sinum. en læid hans la allsnemma um morgininn hea þui sama huse er hinir fatæku menn voru inne. ok er hann heyrde þeirra gratligan þyt spurde hann huat þeim væri at angri. en er hann uard uiss hins sanna mællti hann til þeirra. ver skulum æiga kaup saman ef þer uilit sem ek. þer skulut trua a sannan gud þann er ek trui a ok gera þat sem ek segi firir. þa mun ek frelsa ydr hedan. komit sidan til min ofan j Aas ok mun ek fæda ydr alla. þeir sǫgdu sig þat giarnna uilia[1]. tok þoruardr þa slagbranda fra dyrum en (þeir) foru þegar fagnandi med myklum skunda ofan j Aas til huss hans. En er Suade uard þessa varr [226] uard hann hardla ræidr. bra vid skiott uopnade sig ok sina menn ridu sidan med ollum skunda eftir flottamonnum. uillde hann þa giarnna drepa. en j annan stad hugsade hann at giallda grimmu sina suiuirdu er hann þottizst af þeim bedit hafua er þa hafde leysta. en hans illzska ok uondskapr fell honum sealfum j hofut suo at jafnnskiott sem hann ræid huatt fram hea grǫfinne fell hann af baki ok uar þegar daudr er hann kom aa jord. ok j þeirre somu grǫf er hann hafde firir buit saklausum monnum uar hann sialfr sekr heidinge grafinn af sinum monnum ok þar med hundr hans ok hestr at fornnum sid. En þoruardr j Ase let prest þann er hann hafde med ser skira hina fatæku menn er hann hafde leyst undan dauda ok kenna þeim hæilug frædi ok fæddi þa þar alla medan hallærit var. þat segia flestir menn ath þoruardr Spakbauduarsson hafui skirdr verit af Fridreke byskupe. en Gudlaughr munkr getr þess at sumir menn ætla hann skirdann verit hafa aa Æinglande ok hafua þadan flutt vid til kirkiu þeirrar er hann let gera aa bæ sinum. En modir þoruardz Spakbauduarssonar het Arnnfridr dottir Slæitubiarnnar Hroarssonar. modir Sleitubiarnar uar Groa Herfinzdottir[2] þorgilssonar Gormssonar herssis agætz mannz ór Suiþiod. modir þorgils Gormssonar uar þora dottir Æireks konungs at Uppsǫlum. modir Herfinnz Eirekssonar[3] uar Helena dottir Burizlafs konungs ór Gaurdum austan. modir Helenu uar Jngibiorg systir Dagstyggs [riks mannz[4].

[1]) þat *tilf. Cd.* [2]) Hrafnsdottir *Cd.* [3]) *r.* þorgilssonar [4]) *r.* Risa konungs

Arnorr frialsadi fatæka menn.

346. A þeim sama tima sem nu uar adr fra sagt uar þat dæmt a samkuomu af heradsmonnum ok firir saker hallæris ok suo mikils sulltar sem a la uar lofat at gefua upp fatæka menn gamla ok væita ðngua healp. sua þeim er lama var edr at nðkkuru uanhæilir ok æigi skyllde herbergia þa. en þa gnude aa hinn snarpazsti uetr med hridum ok gnistande uedrum. þa uar mestr hofdinge vt vm suæitina Arnnorr kellingarnef er bio a Myklabæ j Oslandz hlid. en er Arnnorr kom hæim af samkuomu þessi þa gek þegar firir hann modir hans dottir Refs fra Barde ok asakade hann miog er hann hafde ordit samþykkr suo grimmum domi. tiade hon firir honum med mikille skynsemd ok morgum sannligum ordum huersu oheyriligt ok afskapligt þat uar at menn skylldu selia j suo grimman dauda[1] fðdr sinn ok modur edr adra nafrændr sina. nu vil þat firir vist segir hon þo at þu sealfr gerir æigi slika hluti þa ertu med ðngu moti syknn edr hlutlauss af þessu glæpafullu manndrapi þar sem þu ert hofdinge ok formadr annara ef þu leyfir þinum undirmonnum at vthysa sinum fedginum edr frændum nanum j hridum ok jafnnuel þo at þu leyfir æigi ef þu stendr ekki j mot med ðllu afli slikum odada. Arnnor skilde godfyse modur sinnar ok tok uel asakan hennar. giordizst hann þa miog ahyggiufullr huat er hann skyllde at hafazst. tok hann þa þat rad at (hann) sende þegar j stad sina menn um hina næstu bæi at safnna saman ðllu gamalmenni þui er vt uar rekit ok flytia til sin ok let þar næra med allri liknn. Annan dag stefnnde hann saman fiolda bonda. ok er Arnnorr kom til fundarins mællti hann suo til þeirra. þat er ydr kunnikt at ver attum firir skommu almenniliga samkuomu. en ek hefui sidan hugsat af samæiginligri vorri naudsyn ok brotit(!) saman uit þa vmannligu radagerd er ver urdum allir samþykkir ok gafum leyui til at væita liftion gamalmenni ðllu ok þeim ollum er æigi megu uinna ser til biargar med þui moti at uarnna þeim lifligri atvinnu. ok hirtr sannre skynsemd idrumzst ek miog suo illzskufullrar ok udęmiligrar grimdar. nu þar um hugsande hefui ek fundit þat rad sem uær skulum allir hafua ok hallda þat er at syna manndom ok miskunn uit mennina suo at huerr healpi sinum frændum sem huerr hefir mest fðng a æinkanliga fðdur ok modur ok þar vt j fra þeir sem betr mega firri[2] sullti ok lifshaska sina adra nafrændr. skulu uer þar til leggia allan uornn kost ok kuikende at ueita monnum lifsbiorg ok drepa til healpar uorum frændum faraskiota uora helldr en lata þa fara(z) af sullti suo at æinge bonde skal

[1]) daudan *Cd.* [2]) firir *Cd.*

eftir hafa meira en tuo ross. suo ok æigi sidr sa mykli uuande er her hefir framfarit at menn fæda fiolda hunda suo at margir menn mega lifa vid þann mat er þeim er gefinn. nu skal drepa hundana suo at fair edr ǫngir skulu eftir lifa ok hafua þa fędu til lifsnæringar monnum sem adr [227] er uant at gefua hundunum. nu er þat skiotazst af at segia at med ǫngu moti leyfum uer at nokkur madr gefui upp fǫdur sinn edr modur sa er med einshueriu moti ma þeim healpa. en sa er æigi hefir lifsnæring til at uæita sinum nafrændum edr fedginum fylgi hann þeim til min a Myklabæ ok skal ek fæda þa. en hinn er ma ok uill æigi healpa hinum nanozstum frændum þa skal ek grimmu geallda med hinum mestum afarkostum. nu þa minir kæruzstu uinir ok samfelagar helldr en undirmenn fremium j alla stade manndom ok miskunn uit uora frændr ok gefum ekki færi til vvinum uorum þui oss at brigsla at ver gerim med ofmikille fauitzsku vid uora naunga suo umannliga sem ahorfizst. nu ef sa er sannr gud er solina hefir skapat til þess at birta ok verma uerolldina ok ef honum likar uel millde ok rettlæte sem uer hǫfum heyrt sagt þa syni hann oss sina miskun suo at uer megim profa med sannyndum at hann er skapari manna ok at hann megi stiornna ok styra allri uerolldu. ok þadan af skulu uær a hann trua ok ongan gud dyrka vtan hann æinn saman rikianda j sinu uallde. Ok er Arnnorr hafde þetta talat þa uar þar þoruardr Spakbauduarsson uit staddr ok segir suo. þat er nu synt Arnorr at sa hinn sami gud er þu kuadder at þinu male hefir sinn helgann anda sent j þitt briost til at byria suo blezsadan manndom sem þv hefir monnum nu tiat j tolu þinne. ok þat hygg ek ef Olafr konungr hefde þig heyrt slik ord segia at hann munde gera gude þakkir ok þer firir suo fagran framburd. ok þui trui ek at þa er hann spyrr þuilıka hluti at hann uerde forkunnar feginn ok vist er oss þat mikill skade at uær skulum hann æigi mega sea edr heyra hans ord sem mer þikir ugganda at huorke uerde. En er allir þeir er þar voru saman komnir letu ser þetta allt uel vileat er hann hafde talat þa slitu þeir med þui þinginu. þa var hinn snarpazste kulde ok frost sem langan tima hafde adr verit ok hinir grimmuzstu nordanvindar. en suelli ok hinu hardazsta hiarnni uar steyft yfir jord suo at huergi stod upp. en a næstu nott eftir þenna fund skiptizst sua skiott vm med gudligri forsio at vm morguninn eftir uar a brottu allr grimmlæikr frostsins en kominn j stadinn hlær sunnanvindr ok hinn bezsti þeyrr. georde þadan af hæga uedrattu ok blidar solbradir. skaut upp jordu dag fra degi suo at af skǫmmu bragde fek allr fenadr nogt gras af

iordu til vidrlifnadar. glödduzst þa allir menn med myklum fagnade er þeir höfdu hlytt þui miskunnar rade er Arnnorr hafde til lagt med þeim ok toku þegar j mot suo gnogan uelgerning gudligrar giafar at firir þa skylld geingu allir þingmenn Arnnors karllar ok konur fliott ok feginsamliga undir helga sidsemi rettrar truar med sinum hofdingia er þeim uar litlu sidar bodit. þuiat a farra uetra fresti uar kristni logtekin vm allt Jsland. Arnnor kellingarnef var son Biarnnar þordarsonar fra Hofda. modir Biarnnar het þorgerdr dottir þoris imu ok þorgerdar dottur Kiaruals Jra konungs. Höfdaþordr uar son Biarnar byrdusmiors Hroallzsonar hroks Aslakssonar Biarnnarsonar jarnnsidu Ragnarssonar lodbrokar.

Olafr konungr vitradiz þorhalli a Knappstodum.

347. Madr er nefnndr þorhallr knappr hann bio a Knappstödum j Fliotum. þorhallr uar göfugrar ættar. hofdu hans forelldrar þar buit firir honum. þorhallr uar madr sidlatr ok þo hæidinn sem þa uar flest folk j suæitum þeim. hann uar miog tekinn ok þyngdr af likþra. þorhallr blotade skurgod at sid frænda sinna. uar æitt rikt hof æigi langt fra bæ hans hödfu Fliotueriar þar aller blot æitt sinn a hueriu are. A æinne nott er þorhallr suaf j rekkiu sinne dreymde hann at hann þottizst vera vti staddr. hann sa rida mann biartan at bæ sinum a huitum hesti skryddan konungligum bunade ok hafde gullrekit spiot j hende. en er þorhallr sa þenna mann nalgaz bæinn þa slo a hann otta ok uillde snua inn j husin. en riddarinn uard skiotare ok hliop af bake ok gek firir dyrnar suo segiande. æigi skalltu ottaz þui at þer skal ekki mæin verda at mer ne minne herkuomu helldr muntu ödlazst af minne tilkuomu hæilsu ok glede ef þu uill hlydnazst minum radum. harmar þu þina uanhæilsu. en æigi þarf ek at spyria at þui þuiat ek uæit at þu harmar þat nu. fylg mer nu þuiat ek skal syna þer örugt hæilsubragd. Kuomumadrinn læiddi hann æins stadar vt af tungardinum er geort(!) uar vm bæinn ok mællti til hans. j þessum stad skalltu smida hus æinum ok sönnum gude til sæmdar eftir þui mote sem ek mun syna þer. [228] en þessi gud man þer kunnigr ger a þessu sama are a alþinge þuiat firir uist ridr þu til þings j sumar. nu ef þu dyrkar med hræinu hiarta þann gud er þer mun þar bodadr uera þa muntu uerda hæill ok med hæilsu likamans muntu glediazst j fride ok farsæld þessa hæims en j vkominne verolldu niota æilifrar (sæmdar) ok sælu. Sidan mælldi hann grunduöll husgeordarinnar firir þorhalli med aurfalnum a spioti sinu

ok segir suo til hans. med þessi skipan skalltu husit gera ok hafa til vit þann er adr er j hofui þinu þui sem her er skamt fra bæ þinum ok suæitarmenn þinir erv uanir at sækia til ok hallda þar blotuæitzslu a hueriu are. þat hof skalltu lata ofan taka þegar j dag er þu ris upp. en þa falsguda er þer hafit tignat her til skalltu alldri dyrka hedan af. nu ef þu truir ordum minum ok þu geymir vtan allan efa þa hluti sem ek hefui bodit þa mun þer skiott battnna ok muntu styrkiazst dag fra degi. þui næst huarf draummadrinn fra honum. En er þorhallr uaknade trude hann syninne. baud hann þa ǫllum sinum verkmonnum þegar er dagade at fara til skyndiliga ok briota ofan hofit en færa allan vidinn heim til sin. En þo at þeir mǫgludu j moti ok toludu med ser at sligt þætti vrad þa þordu þeir allt at æinu eigi at mæla j moti hans bodskap ok gerdu fylliliga þat er hann hafde firir sagt. tok þorhallr þadan af at smida husit a allan þann hatt ok mikilæika sem honum hafde synt verit j suefninum. En þo at frædemenn hafui æigi full uisendi til huerr þorhalli þessum hefer vitrazst þikir monnum likligt at sealfr gud hafui synt med merkiligri mynd Olafs konungs Trygguasonar þess er bradliga bodade honum ok morgum ǫdrum healp ok hæilsu firir sealfs sins sendimenn met gofugligu guds eyrendi. þat ok annat draga menn til likenda vm þessa vitran at þorhalli syndizst virduligr madr med konungligum skruda ok litlu sidarr heyrde hann konunglikt eyrende med hueriu sendimenn sealfs Olafs konungs bodadu berliga allre alþydu rǫksemdarfulla ok retta tru.

## þorhallr tok vid tru.

348. þenna sama tima bio þadan skamt j burt a næsta bæ kona su er het þorhilldr. hon uar mikil firir ser ok miog fiolkunnig. A þeirre sǫmu nott er fyrr sagda uitran bar firir þorhall uakti þorhilldr upp sina menn þegar j lysing ok sagde suo. þer skulut fara sem skiotazst ok reka saman ok heim ór bygdum allt kuikfe uort bæde naut ok saude ok ross. byrgia sidan j husum edr rettum þuiat þat mun ekki lijf hafua er her er vti j dag. þuiat þorhallr nabui minn a Knapstǫdum er uordinn ærr ok vitlauss (sua) at hann sende til menn sina at briota ofan þat virduliga hof er þar stendr ok þar uerda þau hinu virduligu god er þar hafa læinge dyrkut verit at flyia naudig ok j grimmum hug ok ætla at læita hælis ok bustadar nordr allt a Siglunes. nu uil ek at minn fenadr uerde æigi a uegum þeirra þuiat þau erv suo ræid ok j bæiskum hug at þau munu ǫngu eira þui er firir þeim verdr. Nu uar suo gert sem hon mællti firir at ǫll hennar kuikende uoru hæim rekin

ok var byr(g)t. vtan æinn kapalhestr hafde eftir stadit j haganum ok fanzst hann sidan daudr. En þorhalli a Knapstodum gek allt eftir þui sem honum hafde vitrat verit. batnade sins suikleika dag fra degi ok hans mattr uox. ræid þorhallr til þings vm sumarit ok fann þar þa menn er fram fluttu kristiligan bodskap sem bratt mun sagt verda. tok þorhallr þar tru retta ok vard þa hit fysta hæill fullkomliga at likam er hann var skirdr. Eftir þat for hann fagnande til buss sins ok dyrkade alla daga lifs sins med sinne þionostzu allualldanda gud j þeirre kirkiu er hann hafde honum helgat ok fyst var geor j Fliotum j nafnne fődur ok sonar ok anda heilags. þeim er uegr ok dyrd æinum gude j þrenningu vm allar veralldir amen.

---

## Gizsor ok Hiallti bodudu cristni a Jslandi.

349. Gizőr huiti ok Heallti Skeggiason magr hans voru med Olafi konungi nordr j Kaupange hinn fimta uetr er hann var konungr at Noregi sem fyr er ritat. en snemma vm vorit sagde konungr at hann uillde senda þa vt til Jslandz at boda þar enn retta tru. þeir toku þui vel ok biuggu skip sin ok ætludu til Jslandz vm sumarit. Suertingr Runolfsson bio þa skip sitt ok etlade til Jslandz. flaut þat firir bryggiunum albuit. gek Suertingr þa a [229] fund Olafs konungs ok flutti mál sitt. bat ser orlofs. liggr mer mikit vid herra sagde hann at uær berim æigi farm af skipe er adr er buinn. Konungr suarar helldr ræiduliga. þat uar a þinu sealfrǫde at bua skip þitt őrlofslaust. er þat ok vel at son blotmanzsins se þar er honum þikir uerra. skal þar um standa allt þat er ek sagda a hausti. skal ek her mæira rada en þer þoat þer virdit litit ord min vt a Jslandi. Skildu þeir at þui ok for Suertingr huerge at sinne. þeir Gizsorr ok Hiallti letu j haf þa er þeir uoru bunir ok prestr sa er konungr hafdi fæingit þeim er þormodr het ok nokkurir adrir uigder menn er presti skylldu fullting væita j gudligri þionostu. þeim gaf uel byre ok ekki miog skiott. komu þeir þann dag uit Dyrholmaos er Brennuflose ræid Arnnarstaksheide til alþingis. fretti Flose þa tijdenda af Noregi af þeim monnum er roit hőfdu til þeirra Gizsorar ok sua þat at Kolbæinn[1] brodir hans uar halldinn j gisling af Olafi konungi ok þeir menn er adr uoru nefnndir. sagde Flosi til þings vtkuomu Gizsorar ok Hiallta ok þau tidende er hann hafde spurt. þeir Gizsorr toku þann sama dag Uestmannaeyiar er Flose

[1]) Kolbeornn *Cd.*

spurde vtkuomu þeirra. lendu þeir Hiallti vid Hau(r)gaeyre ok skutu þar a land kirkiuuide þeim er Olafr konungr hafde latit ǒxa ok fæingit þeim ok mællti suo firir at þa kirkiu skyllde reisa nærr þui er þeir tæki fyst land. Ok var þa hlutat huorum megin vogsins kirkian skyllde standa. sidan ræistu þeir Gizsorr ok Hiallti firir nordan uoginn þuiat sua bar þa hluti til. þar uar adr hof hæidingia ok blotskapr mikill. brutu þeir þat allt nidr. En er þeir Gizsorr hǒfdu dualizst fim[1] daga j eyiunum ok ræistan laup kirkiunnar þa foru þeir þadan ok toku Eyiasand þann sama dag sem menn ridu a alþingi. En er þeir Gizsorr kuomu a meginland þa fæingu þeir æigi ræidskiota ok ǒnguan farargræida af landzmonnum firir austan Nordra[2] þuiat þar biuggu allt firir þingmenn Runolfs goda. gengu þeir austan alla læid þar til er þeir (komu j Haf þar) biuggu (þeir) fedgar Skeggi Asgautzson ok þorualldr son hans er atti Koltorbu systur Hiallta Skeggiasonar. fek Skeggi þeim ollum hesta ok adra hluti þa er (þeir) þurftu þuiat þorualldr sonr hans var ridinn til þings. þeir ridu þadan j Laugardal ok badu þeir Gizsorr at Hiallti munde þar eftir vera ok rida æigi a þingit j hendr vvinum sinum er hann hofdu sektan hit fyrra sumarit fyrr en Gizsorr hefde adr læitat vm sættir ok tekit honum grid. let Hiallti þa læidazst eftir bæn Gizsorar ok annarra vina sinna at hann uar eftir vit hinn tolfta mann. en Gizsorr ok þeir er med honum voru foru þar til er þeir kuomu til Uellankǒtlu vid Ǒlbusvatnn. þa sendi Gizsorr ord til alþingis at viner hans ok frændr ok allir þeir er honum uilldu lid væita skylldu koma til motz vid hann þui at hann hafde þa spurt at vviner þeirra Hiallta ætludu þa at veria þeim vige þinguollinn. komu þa saman allir vinir ok fulltingsmenn Gizsorar sem hann hafde ord til sent. ok adr þeir foru þadan kom Hiallti uiuande[3] med alla menn er eftir hofdu verit med honum j Laugardal. ridu þeir Hiallti med fylktu lide a þingit. en hæidingiar hlupu þegar saman med aluæpni. var þa vidrlægt at þeir mundu beriazst. en med guds miskun skaut heidingium skelk j bringu ok þordu æigi a at rada. tok þa Asgrimr Ellidagrimsson systurson Gizsorar uit honum ok allri hans suæit j bud sina. En annan dag eftir saung þormodr prestr messu a arbakkanum[4] hia Vestfirdinga bud[5]. eftir messuna gengu þeir til lǒgbergs .vij. lærdir menn skryddir ok baru firir ser .ij. krossa mykla þa hina somu er nu erv j Skardinu ytra[6]. merker annar hæd Hiallta Skeggiasonar en annar merkir hæd Olafs Trygguasonar. þa var fiolment at logbergi. sidan logdu lerdir

[1]) *r.* tua [2]) *r.* Ranga [3]) *r.* at svifande(?) [4]) *r.* giabakka
[5]) fiordunge *Cd.* [6]) *r.* eystra

menn ræykelsi a glod ok lagde ilminn æigi sijdr j gegnn vinde en foruindis. þui næst uar hliod gott. hofu þeir Hiallti ok Gizsorr sitt eyrende med mikille snilld ok ordfære. sǫgdu fyst fra þui huersu at hafde borizst j ferdum þeirra. þui næst fluttu þeir hit diarfligsta eyrende ok bodskap Olafs konungs til kristne vidrtǫku. vm sidir snerv þeir sinne rædu til miukrar aeggianar vid alþydu. badu allt folk med blijdskap ok fogrum ordum at snua a suinn sinu rade ok iata sig undir vilia ok þionustu (konungs) allra konunga. at tekinne skirnn ok hæilagri tru ok halldinne mętti þeir ǫdlazst af sialfum gude æilifa [[illegible]] ombun vendiligs fagnadar himirikis dyrdar. En er þeir hofdu flutt sitt eyrende med myklu trausti ok malsnilld þa gerdiz þegar þyss mikill ok hareysti af þui at annar madr at ǫdrum nefnndi ser votta ok sagdizst ór lǫgum huorir vid adra kristnir menn ok heidnir.

## Af þingdeilum.

350. A þeirre sǫmu stundu kom einn pilltr hlaupande a þingit ok flutti sitt eyrende med mikille akefd. sagde iardelld uppkominn ok renna odliga ofan at bæ þoroddz goda ok ognade bradum bruna allri hans æignn. En er hæidingiar heyrdu þessi tidende sagde æinn þeirra. þat er æigi vndarligt at godin ræidizst slikum tolum sem nu heyrdum ver fram fluttar firir skommu. þa mællti Snorre gode þorgrimsson. (hueriu voru godin ræid) þa er her brast iordin sem nu stondum ver. voru þat æigi minne bysnn. ok ætlum uer godin huorigu ualldit hafa. Eftir þat gen̄gu menn fra logbergi ok hæim til buda. attu kristnir menn þa samtal ok badu Siduhall at hann segdi upp log þeirra þau er kristnehalldinu skyllde fylgia. en Hallr leystizst þui undan at hann keyfti at þorgæire Liosuetninga goda er j þann tima hafde lǫgsǫgnn yfuir ollu Jslande at hann skyllde segia fram lǫg þau er kristnum domi væri halldande. en þorgeirr var enn heidinn. ok er suo sagt at Hallr gaf honum til halft hundrat silfurs[1] med þeim skildaga at hann skyllde hafua þau þriu ord j framburde laganna sem þeir Gizsorr ok Hiallti segde honum firir huersu sem hann skipade odrum lǫgum. þat var hit fysta ord at allir menn skylldu kristnir uera a Jslande ok skirnn taka þeir er adr uoru oskirdir. þat uar annat at uheilug skyllde uera blot ǫll hof ok skurgod. þat uar hit þridea at fiorbaugsgard skyllde uarda blot ǫll. En er þorgeirr kom til budar sinnar lagdizst hann nidr ok breiddi felld yfir hǫfut ser ok la suo .ij. dægr. Aa þeirri stundu[2] attu heidingiar stefnu ok redu radum sinum huersu þeir skyllde fa j moti stadit ok

[1]) silfrurs *Cd.* [2]) stefnu *Cd.*

geta eytt þessu nyia kristnibode. kom þat asamt med þeim at þeir skyllde fast heita a gudin ok uelia .ij. menn ór huerium landzfiordunge at fornnfæra gudunum til þess at þau leti æigi kristni ganga yfir landit. En er þeir Gizorr ok Hiallti urdu þess uarir þa stefnndu þeir þegar saman ǫllum kristnum monnum. stod Hiallti upp ok tok suo til mals. þat er oss med sannyndum sagt at heidingiar hafua hæitit at gefua godum sinum til blotz .ij. menn ór huerium fiordunge landz þessa at þeir megi med fulltingo sinna falsligra guda eyda ok nidr briota kristiligt sidferde. en helldr satt at segia at þeir kostgæfua med sliku fiandans vrade ok aeggian at firirkoma hialp ok heilsu sinna salna. þar j mot synizst æigi uvidrkæmiligt at uær kristnir menn velim til iafnnmarga af vorre halfu at gefa ok helga uorum lifanda gude sǫnnum ok sælum. æigi til þess at uer uæitim þeim likamligan dauda helldr at þeir sealfuir at til þessarrar sigrgiafar eru nefnndir deyde lǫstu likamliga med rettuise ok hofsemi j þessi uerolldu iafnan sig offrande j helga fornn uorum herra Jesu Cristo med sinum godum verkum at þeir ǫdlizst um sidir med honum æilift lif j himiriki þui ǫllu þar sælli sem þeir erv godfusare. hæidingiar uelia til hinu uestu menn at gefua godum sinum ok fornnfæra þa med heruiligum dauda ok þeim makligum firir illgerdir sinar. hrinda þeim firir biorg edr j giar. en ver skulum þar j mot velia þa menn er uer fam likazsta a uoru landi ok þeirra mannkostir geri þa lifande fornn helga ok hræina ok gude þægia suo at firir þeirra uerdleika lati allzualldande gud med sinne miskunn ǫnga illzsku ǫfundarfullra sinna vvina nalgazst j gegnn sinum rettruudum monnum helldr at eydd(r)i ok afmad(r)e dyrkan diofuligra skurgoda[1] vidfrægizst kynni(n)g uors drottins nafnns suo at allr lydr þessa landz gangi giarnna sealfuiliande undir healpsamlig log kristiligrar truar. nu ef ydr likar munum uit Gizsorr gladliga ia okkr under þetta sigrgiafar hæit firir Sunnlendinga. En er allir kristnir menn sogdu ser þat uel lika þa uar eftir læitat huerir undir uilldu ganga þetta heit ór ǫdrum landzfiordungum. Gek þa firir Hallr af Sidu ok þorlleifr or Krossavik er kalladr uar þorllæifr hinn kristnne firir Austfirdinga. þeim sama þorlleifi stefnde Digrketill af rade ok aeggian Broddhelga um kristnehalld sem segir j Uopnnfirdinga sǫgu. en þann sama dag er Ketill stefnnde honum gerde a hrid suo mykla þa er hann var a leid [231] kominn med sina sueit. uilltuzst þeir uegar ok suo kom vm sidir at Ketill sa ser eingua ok sinum monnum adra lifs von en snua til bæiar þorlleifs. en þorlleifr tok vid þeim med ǫllum goduilia ok

[1]) en *tilf. Cd.*

blidskap ok væitti þeim medan þeir voru hridfastir med bezsta bæina er hann hafde til sem hann munde sinum syne edr brodur. þadan af let Ketill nidr falla allar sakir uit þorlleif ok uar æ sidan hans fullkominn vin. En firir Nordlendinga fiordung iadu sig undir þetta heit Hlenni ór Saurbę j Eyiafirde sonr Orms toskubaks ok þoruardr Spakbauduarsson af Skagafirde. En ór Uestfirdinga fiordungi uard æinge til nema Gestr Oddlæifsson. vid þat urdu þeir Gizsðrr ok Hiallti vgladir er þar fekzst æigi annarr til. en er var læitat ef nokkur uillde til ganga þa sagde Ormr Kodransson brodir þorualldz uidforlla er fyrr er getit. firir vist munde madr til verda at fylla þetta hit lofliga heit ef þorualldr brodir minn væri her a þinginu. nu med þui at hann er oss fiarlęgr at hervist huort hann er nu lifs edr lidinn þa uil ek fysilega þo vuerdugr ef þer uilit mig til nyta at ganga j stad hans her um. er min þo diarfligt sligt upp at kueda þuia(t) ek [uar enn[1] primsignndr at æins en æigi skirdr. En hofdingiar ok allir kristnir menn þeir er þar voru toku þetta hans bod med þokkum uar Ormr þa skirdr. þa uar hann hæimamadr a Gilsbakka j Borgarfirde med Hermunde magi sinum er þa atti Gunnhilldi systur hans.

## Orskurdr þorgeirs.

351. þorgeirr Liosuetninga gode hafde legit allan daginn ok vm nottina eftir sem nu er sagt. ok vm morguninn settizst hann upp ok bad alla menn ganga til lðgbergs suo kristnna sem hæidna. En er allr lydr uar þar saman kominn ok uar þar fyst þyss mikill ok hareysti. en þegar menn settuzst ok hliod fekzst þa mællti þorgæir sua. heyri þer spekingar mal min ok ðll alþyda hyggit at vandliga huat er ek talar. mer synizst horfa til vandræda ok timalausrar tapanar ðllu bygdarlagi ef lydr landz þessa skal æigi hafa æin lðg ok sidferde þuiat skiott ryfzst fridrinn ef lðgin tuiskiptazst. þadan af munu gerazst greiner med monnum ok sundrþykki. þar næst fullr fiandskapr vfridr ok bardagar suo at a skamre stundu mun þar af eydazst land þetta ef æigi kemr til hæilsamligt rad truligrar forsio. þui skulu uer med allri astundan varazst ok uidr sia at æigi berizst oss su vhamingia til handa at ver sialfir samlendir ok frændr stridimzst a medr ofrkappi. kostgæfum helldr med allri skynsemd ok goduilia at setia ok semia hafa ok hallda satt samþykki ok fastan frid her a fðdurleifd uorre ok fostrlande. hygg ek þat ydr heyrt hafa at konungar af Noregi ok Danmorku helldu langan tima millum sin strid ok stora bardaga allt þar til er hofdingiar

[1]) r. [em

huorstueggia landzsins leiddizst sa agi ok vfridr. gerdu þeir þa sætt sin a medal ok sterkan frid millum landanna at vuilia konunganna. en þat vard at þeirri farsæld at þeir konungar er læinge hofdu sundrþykkir verit sin a mille gerduzst þeir firir goduilia sinna radgiafa ok undirmanna kærir vinir ok sendi huorr ôdrum godar giafir ok gessimar ok hellzst sa fridr medan þeir konungar lifdu. nu þo at ver hofdingiar sém æigi iafnnrikir sem konungar j odrum londum ok vvitrare en þeirra radgiafar þa berr oss þo uel at taka dęmi af þeirra spakligum radum. þui skulum uær midla mal med þeim monnum er her gangazst mest j moti at huorirtueggiu hafui nôkkut sins máls en huorigir rade æinir. mætti ver sua eftir sett sattmal glediaz af godum radum allir samt ok vera æinn lydr undir æinum logum ok hafua allir æitt nafnn eftir æinum atrunade ok sidsemd studdir fride ok farsælu uorrar fôdurleifdar samlagadir j æinu samþykke ok sattmale. þuiat trua megi þer mer þar vm at iafnnskiott sem uær tuiskiptum logmalinu þa eydizst fridrinn uor j millum. þui er þat upphaf ok endir mins rads ok aeggianar at med æinu ok oleysiligu sættar samþykki holldum uer allir æin lôg vti byrgiande allan vfagna(t) ok aga sundrþykkis. En er þorgeirr gerde enda a sinu male þa gaf gudligr orlæikr suo mykla framkuæmd hans malsnilld at allir þingmenn suo heidnir sem kristnir iattudu þegar med æinu samþykki suo at ônger mællltu a moti at hafua ok hallda j alla stade [232] þau lôg sem hann uillde fram segia. þa mællti þorgeirr. þat hefui ek upphaf laga uorra til samþykkis vid kristna menn at huerr madr a Jslande meiri ok minne skal uera kristinn ok skirnn taka þeir er adr eru vskirdir. en hof oll ok skurgod skulu uera uhæilug ok nidr brotin ok skal huerium manni varda fiorbaugsgard ef blotar skurgod opinberliga suo at uottar se uit. þuiat þeir menn er mest hafua gengit moti kristnibodinu koma uarlla skilning a at þat megi saman fara at fæda upp bornn þau er alin eru suo fatækra manna sem rikra en banna ok afneitta til mannfędu þa hluti sem adr uoru alþydunne hinn mesti styrkr j. þui skulu uær hafua uort mal vm þat at hinu fornu lôg skal hafa um barnna utburd ok hrossakiotz át ok æigi skal saknæmt þo at madr bloti a laun suo at æige uerde uitnisfast. suo skulu uær ok hallda ôll hinu fornu lôg ônnur þau er æigi standa j moti kristnum domi. Lauk þorgeirr suo sinne rædu at allir lofudu þau laug sem hann hafde upp sagt ok æinge skillde tefia ne talma firir ôdrum at þiona Kristi sua godfusliga sem sialfr girnntizst. æigi þeir ok med freku afli fullrar stridu med ollu af settir fornnum uilia sins sidferdis þo at med uallde yrde þeir fyst til skylldadir at taka skirnn

ok kristiligt nafnn mæirr en firir gudliga ast ok æiginligan goduilia. en suo uard med gud drottins uilia at a farra uetra fresti uar þessi hæidni eydd ok afnumin med allra hofdingea rade ok alþydu samþykki sem nu uar tint um launblot ok barnna vtburd ok hrossakiotz át. slitu þeir med þui þinginu at kristni uar lögtekin um allt Jsland. uoru þa allir menn primsignndir þeir er a þinginu uoru ok margir skirdir þeir er adr uoru heidnir. en þui æigi þar allir at Nordlendingar ok Austfirdingar uilldu æigi fara j kallt uatnn ok uoru þeir margir skirdir j laugum at Reykium j Laugardal. Heallte Skeggiason uæitti gudsifiar Runolfui goda Ulfssyni þeim er hann hafde sektan hit fyrra sumarit. en er hann uar primsigndr þa mællti Hiallti. ·gömlum kennum ver nu godanum at gæifla a salltinu. En er þingmenn komu heim j herut þa uar alþyda skird a þui sumre sem fyst komzst uit ok mællti þa æinge madr j moti kristnum domi. hefuir su kristni sidan eflzst ok aukizst a Jslande en alldri eytzst en uar þo læinge ostyrk.

## Fra konungi ok drottningu.

352. Þa er þeir Gizsorr ok Hiallti uoru j Nidarose med Olafi konungi (var ár mikit j Noregi ok fridr godr innan landz.)· en er a læid uetrinn ok um uorit byriade Þyri drottning oftliga firir konungi (tal sitt) ok gret sarliga þat at æignir hennar uoru myklar j Uindlande en hon hafde ongan fiarhlut þar j lande suo sem drottning somde. stundum bad hon konung med fögrum ordum at hann skyllde fa henni æignn sina. sagde at Burizlafr konungr uar suo mikill vin Olafs konungs at þegar at þeir fyndizst mundi hann fa allt þat er hann bæiddizst. En er þessar rædur komu til vina Olafs konungs þa löttu allir konung at fara til Vindlandz þoat drottning fysti. þann uetr adr uar uedratta god ok greri snemma vm vorit. Suo er sagt at þat uar a paalmdrottinsdag at Olafr konungr gek vti um stræti. þa gek madr j moti honum med huannir margar ok undarliga storar j þann tima ársins. konungr tok æinn huannniola j hond ser ok gek til Þyri drottningar. hon sat (j) æinni stofu ok gret er hann kom inn. Konungr mællti til hennar. se her huanniola mikinn er ek gef þer. Hon laust uit hendinne ok mællti. stærrum gaf Haralldr konungr Gormsson fader minn. en minnr ędradizst hann at fara ór landi at sækia tignn sina en þu gerir nu. ok reyndizst þat þa er hann for hingat j Noreg ok eyddi land þetta at mestum hluta en æignadiz allt at skylldum. en nu mattu sia at ek hefui oft kært firir þer huersu fatækliga ek kom j land þetta edr huersu hneisuliga ek misse med rangyndum mikilla æigna j Uind-

landi. ok þorir þu æigi at fara j gegnum Danauellde at sækia æignir minar en sæmd þina firir Suæini konungi magi þinum. Olafr konungr hliop upp uit þetta ok suarade hatt. alldri skal ek hręddr fara firir Sueini brodur þinum ok ef okkrir[1] fundir verda þa skal hann firir lata. [263] Litlu sidar stefnde Olafr konungr þing j bęnum. hann gerde þa bert firir allri alþydu at hann mundi leidangr hafua vti um sumarit firir lande ok hann uillde nefnnd hafua or hueriu fylke bæde at skipum ok lide. sagde hann þa huersu morg skip hann uill hafa þadan ór firdenum. Sidan gerde konungr ordsendingar bæde nordr med landi ok sudr hit ytra ok hit efra ok lętr lide vt bioda. let konungr þa setia fram Orm hinn langa ok mǫrg ǫnnur skip bæde stor ok sma. þat sama sumar sende hann Gizsor ok Hiallta til Jslandz sem adr er ritat. þa sendi Olafr konungr Læif til Grænlandz at boda þar kristne. fek konungr honum prest ok nokkura adra uigda menn at skira þar folk ok kenna þui tru retta. For Leifr þat sumar til Grænlandz ok tok j hafni skipshofnn þeirra manna er þa uoru vfærir ok lagu a skipflaki. kom hann at alidnu þui sumri til Grænlandz ok fór til uistar j Bratta-hlijd til Æireks fodur sins. kolludu menn hann sidan Leif hinn heppna. en Æirekr fadir hans sagde at þat uar samskullda at Læifr hafde borgit skipshofnn ok gefit monnum lif ok þat at hann hafde flutt skemann til Grænlandz. sua kallade hann prestinn. en þo af radum ok eggian Leifs uar Æirekr skirdr ok allt folk a Grænlande.

---

## Hallfredr kom til Jslandz ok hitti Kolfinnu.

353. Litlu sidar um uorit en Olafr konungr hafde sent Læif Æireksson til Grænlandz gek Hallfredr Uandrædaskalld firir konung æinn dag ok bad ser orlofs til Jslandz um sumarit. Konungr suarar. þat skal uera sem þu uill hefui ek þig reyndan dreing. en at þui skaplynde er þu hefir þa þikir mer æigi litil uon at enn komi þær stundir at þu uilldir helldr uera med mer en a Jslandi edr j odrum stǫdum. en þuiat vvist er vm fundi okkra hedan af ef uit skilium nu þa skaltu þiggia af mer pellz skikkiu healm ok hring er stendr .vj. aura. þessa gripe skalltu æiga at menium at þu hefir mer þionat ok loga þeim æigi þuiat þeir skulu fara med like þinu til kirkiu en leggia j kistu med liki þinu ef þu andaz j hafui. Sidan bio Hallfredr skip sitt til Jslandz. hann sende Audgisl son sinn austr j Suiþiod ok fæddizst

[1]) nokkurir *Cd.*

hann þar upp med þorarnni modurfødur sinum. en Hallfrede syne sinum fek hann fostr gott þar (j) þrandheimi. En er Hallfredr uar buinn gek hann firir konung ok kuaddi hann. uar þat autsętt a Hallfredi at honum þotti mikit firir at skilia vit Olaf konung. sidan let Hallfredr j haf ok kom skipi sinu j Skagafiord j Kolbæinsáróss eftir alþinge. baru þeir þar farm af skipinu ok settu upp. sidan fek Hallfredr menn til at uarduæita uarnnat sinn ok selia vm uetrinn. En er hann hafdi þetta gort mællti hann til skipueria sinna. ferd liggr firir hende sudr um hæide at finna fødr minn ok skulu uær rida .xij. sama(n). Ridu þeir nu .xij. saman ok sneru uestr til Langadals ok uoru allir j litklædum. þeir stefnndu til selia Grijs. Kolfinna var þar ok konur nokkurar hea henni. þar voru ok fleiri sel ok stodu selin j Laxárdal mille Skagafiardar ok Langadals. saudamadr Kolfinnu segir at .xij. menn rida ath selinu ok aller j litklædum. Hon suarar. þeir munu æigi kunna leidina. Hann segir. kunnliga rida þeir þo. Nu koma þeir til selianna. Kolfinna fagnar uel Hallfredi ok spurde tidenda. Hann suarar. tidende eru fa en j tomi munu søgd uera. nu uiliuın uer her uera j nott. Hon suarar. þat uillda ek at þu ridir til uetrhusa ok mun ek fa þer leidsøgumann. Hann quez þar vera uilia. Gefa mun ek ydr þa mat segir hon ef þer uilit þetta æitt. Nu stiga þeir af hestum sinum. Ok er hattat uar vm kuelldit sagde Hallfredr at hann kuezst mundu hlutazst til reknna skipanar. ætla ek mer at huila j nott hia Kolfinnu en ek mun lofa felogum minum at breyta sem þeir uilia. þar voru ok fleire sel j dalnum. er ok sua sagt at huerr þeirra fek ser konu felaga Hallfredar vm nattina. Ok er þau kuomu j rekkiu Hallfredr ok Kolfinna vm kuelldit spurde hann huersu mart at uæri um astir þeirra Griss. en hon sagde at uel uær(i). Hallfredr sagdi at sua mætti uera en þo þikir annat finnazst j visum þeim er þu hefir kuedit til Griss. Hon sagdizst øngar kuedit hafua. (Hann segir). ek hefui skamma stund her verit ok hefui ek þo heyrt visurnar. Hon mællti. lat mik heyra huernn ueg uerki sa er at mer er kendr. Hallfredr quad þa visu.

**Leggr af lysibrekku**
**leggiadis af Grise**
**kuol þoler hlin hia hanum**
**hæitr ofremdar suæiti.**
**en dreypilig drupir**
**dynu rán hia hanum**
[234] **læyfui ek liosra uifa**
**lund sem allt a sunde.**

Hon suarar. ekki er þetta bot annars ok er undarligt at hraustr madr uill sligt kueda. Enn hefi ek heyrda adra segir Hallfredr.

þrammar suo sem suimmi
sila fullr til huilu
fuss skerdande fiardar
fulmárr a traud baru.
adr en orua stride(r)
ofridr þorir skrida
hann era hlads vit gunne
huijlu bradr und uadir.

Kolfinna mællti. ekki uill Griss yrkia vm þig ok þat semde þer ok betr at vvingazst æigi suo miog uit hann. þuiat æigi veit huar manni mætir. Hallfredr quad visu.

Litth mun haulldr inn huiti
hialmgrannz firir bur ganga
hann muna aura æyrar
an ok strutrinn grani.
þott orbþægir æigi
vfridr stodul uijdan
hirdande nytr hiardar
hiorfangs ok kui langa.

Kolfinna styggizst nu nǒkkut suo. Hallfredr quad þa visu.

Kolfinna let kennazst
kuedr ek enn of hlut þenna
huat kued ek uitru uife
uallda fullt af skallde.
en af ungum suanna
audhnykkianda þikker
od skal ek giarnna (greida)
ganga dyrdligr angı.

Smalamadr hlio(p) hæim um nottina ok sagde Grise. ok er hann visse þat ræid hann vit .xv. mann. Um morgininn biozst Hallfredr j brott ok adr hann hliop a hest sinn quad hann visu.

Litt hirdi ek lautar
lundr hefir hætt til sprunda
uiggs þo ek verda hogginn
uarr j hondum suarra.
ef ek næda sif slædu
soma karms medal arma
makat ek lass um liosa
lind of ræktar bindazst.

Sidan hliop hann a bak ok brosti. Kolfinna mællti. hui broser þu nu. Hallfredr quad þa visu.

Væittkat ek hitt huat verda
uerglodar skal modu
rennig ast til ilmar
unnar dags af munne.
þa fliodgegnir fregna
fagnendr iotuns sagnna
flo ek af gylltar grise
gæitbelg huat er mik tæitir.

Hallfredr uillde gefua henni skikkiuna konungsnaut en hon uillde æigi hafa. Ok adr þeir ridu j (brott kuad Hallfredr.)

Heim koma hirdenaumur
hams erat (godr) a fliodum
siafar bals ór selium
slettfialladar allar.
nu sel ek af þo at yfizst
olbekkiar syn nokkut
huerr taki seggr uit suarra
sinum abyrgd mina.

Nu kemr Griss til selianna. Kolfinnu uar skapþungt. Griss sa þat ok quad visu.

Nu þikir mer nokkurr
namskord uera ordinn
litt ek sumt vm sættir
suæimr medan ek var hæiman.
her hafua gestir gerua
gengr vt kona þrutin
þerrir sialigr suarri
slaug fiandliga augu.

þar uar j fǫr med Grise Æinarr son þoris þrandarsonar. Griss uill rida eftir en Kolfinna latti ok kuetzst æigi þikia synt huat batnade hans hlutr. Griss uill þo eftir rida ok ræid fram hia Audolfsstǫdum til Blǫndu. þa voru þeir Hallfredr komnir a midea ana. þa skaut Griss spioti til Hallfredar en hann tok a lofti ok skaut aftr til Griss. en Æinarr bra vid ǫxi ok kom spiotit firir briost Æinare ok fek hann bana. Griss kuat Hallfred renna. Hallfredr quaz æigi læingra fara mundu en af ánne ok bat þa at sękia. Griss ræid æigi at. þa lǫgdu menn ord til at Hallfredr skyllde bæta yfir osoma þann allan. Hallfredr spurde huers hann bæiddizst. Griss mællti. þui munda ek vna ef ek hefda hringa bada konungsnaut ok iallznaut. Hallfredr suarar. fyrr mun annat at berazst. Ok skildu uit þat. Hallfredr ræid sudr til Ottarstada til Gallta brodur (sins) en fadir hans uar andadr. Hallfredr uar þar vm uetrinn.

## Fra ferd Olafs konungs til Hroallz.

354. Hroalldr het madr er bio j Molldafirde audigr ok hæidinn ok konungs vvinr. hann gerdizst til ǫngrar hlydne vid konung ok trude hann a blotgod sin at konungr munde æigi sigra hann. ok þa er konungr ætlade at fara þangat uakte Hroalldr upp j moti honum boda .ij. mykla. ok er konungr kom at bodunum þa risu þeir upp ogurliga. þa mællti konungr. myklum fiandakrafti styrir sa madr er þessa boda uekr upp j fǫgru uedri. ok æigi at sijdr skulum uer sigla a þa. Ok suo gerdu þeir ok lęgduzst þegar bodarnir ok komzst konungr inn j fiordinn ok tok Hroalld hondum ok bat hann tru taka. en hann næitade ok quat ser helldr sama at lata lifit en þionkan gudanna. þa mællti konungr. illt uilltu hafa ok suo mun ok uera. Ok var hann drepinn ok lauk þar um hann. Ok suo hafde farit þria uetr at Hroalldr hafde þa uǫrnn firir sinu landi moti konungi ok hlyddi honum þat vm stund. ok for honum suo sem ollum ǫdrum at fiandinn blekkir þa loks alla er honum trua þott þat se med bloma vm hrid.

## Reiknat manntal a Orminum.

355. Olafr konungr let bua skip sin vm uorit er alæid ór Nidaróse. skyllde hann seallr styra Orminum langa er hann hafde adr gera latit vm uetrinn. þuiat hann var þa mest langskip ok fridazst j Noregi. ok þa er menn voru radnir til skipanar þa uar þar suo miog uandat ok ualit lid a at æinge madr skyllde [235] uera a Orminum yngri en .xx. en einge ellri en sextögr en valit miog at afli ok hreysti. þar uoru fyrst til ualdir hirdmenn Olafs konungs þuiat hirdin uar ualin af innlendum ok vtlenzkum allir þeir er sterkazstir voru ok fræknazstir. Vlfr raude het madr er bar merki Olafs konungs ok var j stafni a Orminum. hann uar af Heidmork. annarr Kolbeornn stallare af Raumarike ok Eindride ilbræidr. Vikarr austan af Tiundalandi brodir Arnnliotz gellina. þorsteinn vxafotr. en þessir uoru a (rausn j) söxunum. þorgeirr ok Hyr(n)ingr magar konungs. Juarr liomi Vakr elfski Raumason. Bessi hinn sterke. Aan skyti af Jamtalandi. þrandr hinn ramme af þelamork ok Oþyrmir brodir hans. þeir Haleygir þrandr skialgi Augmundr sande Hloduerr lange ór Salltvik ok Harekr huassi. þessir voru j krapparumi. Æinar þambarskelfir hann þotti þeim æigi hlutgengr þuiat hann var .xviij. vetra gamall. Hallsteinn Hlifarson. þorolfr. Juarr smetta. þorsteinn skelkr ok Ormr skogarnef. en j firirrumi uoru þessir. Ketill hinn hafui innan ór þrandheimi ok þorfinnr eisli Hauardr ór Orkadal. þeir Bárdr ok Beornn af Studlu ok Borkr ór Fiordum þorgrimr ór Huini þiodulfsson. Asgrimr ok Grimr. þordr ór Mardarlaug[1] þorstæinn huite af Offrustodum Arnnorr mærski. Halsteinn son Hromundar hallta Eyuindr snakkr Berþorr bestill ok Hallkell af Fiolum. en þessir voru midskipa. Olafr dreingr Arnnfinnr sygnnski Sigurd(r) billdr Æinarr hördzski ok Finnr sygnnski ok Griotgardr raumski. Asbiornn ór Mostr. þorkell dyrdill af Augdum. Beornn hinn mykli af Uestfolld. Bryniulfr ok Haukr brodir hans. Arnnor orski ok Ketill ryzske. Margir adrir miog agætir (menn) uoru a Orminum ok þo at ek kunni æigi at nefna þa alla. atta menn uoru ualdir j halfrymi a Orminum. einn madr ok .xxx. j firirrumi. þat var mal manna at þat mannual er a Orminum uar bar æigi minnr af ödrum monnum um afl ok fræklæik en Ormrinn langi af odrum skipum. þorkell nefia brodir konungs styrde Orminum skamma. þorkell dyrdill ok Jostæinn modurbrodir konungs hofdu Tronuna ok var huortueggia skipit alluel skipat. Niu storskip bio Olafr konungr ór þrandheimi ok umfram tuitogsessor ok smærri skip. En er konungr hafde miog buit lid sitt ór Nidarose þa skipade hann menn j

[1]) *r.* Niardarlaug

syslur ok armenningar um oll þrændalog. dualdi hann mart ok leid a sumarit fram sua at skip gengu til Noregs af Jslande ok ódrum londum.

## Vtkoma Kiartans Olaafssunar.

356. þa spurde Olafr konungr þau tidende at honum þottu god vera at kristnne uar logtekin a Jslande ok skirt allt folk. vard hann uit þat gladr ok lofade gud firir. let hann þa skiota a husþinge. þa stod konungr upp ok sagde suo. þau fagnnadar tidende hófum uær spurt af Jslande at þar er folk allt kristit. þar firir gerum uær gude þakkir ok gefum orlof ollum þeim monnum er her hafa setit af þeirra halfu at fara til Jslandz. Kiartan Olafsson suarade fystr manna mali konungs. hafui þer mykla þókk firir þat orlof herra segir hann. munu ver þann kost þiggia at fara til Jslandz j sumar. Konungr suarar. æigi munu uær nu þessi ord aftr taka en þo toludu uer firir onguan mun minnr til annara manna en til þin Kiartan þuiat uer uirdum suo at þu hafir setit her med oss meirr j vingan en j gisling. uillda ek at þu fystizst æigi vt til Jslandz þo at þu æigir þar gófga frænndr þuiat þu munt fa her ef þu uillt med oss vera mykla sæmd ok þann radahag at uer munum kalla at þu æigir æigi kost a Jslande. þa suarar Kiartan. Gud ómbuni ydr herra allan þann soma er þer hafit til min gert sidan ek kom a yduart ualld ok enn uænti ek at þer munit æigi sidr gefa mer orlof en ódrum monnum er þer hafit her halldit j uetr. Konungr suarar. suo skal uera Kiartan. en torugætr þiki mer slikr utiginn madr sem þu ert. Kalfr Asgæirsson hafde þann uetr verit j Noregi en komit adr um sumarit uestan af Æinglandi med skip þeirra Kiartans ok kaupæyre. En nu þegar at Kiartan hafde fæingit orlof af Olafi konungi til Jslandz ferdar þa helldu þeir Kalfr a bunade sinum. ok er skipit uar albuit þa gek Kiartan a fund Jngibiargar konungs systur. hon fagnade honum uel ok gaf honum rum at sitia hia ser. ok er þau toku tal sagde Kiartan at þa hafde hann buit ferd sina til Jslandz. Jngibiorg segir. mæirr ætlum ver Kiartan [336] at þu hafir þetta gert med æinrædе þinu ok fyst en menn hafui þig þess eggiat miog. Ekki vard þeim þa mart at ordum. Jngibiorg tok þa ór æinu eski guduefiar posa. þar uar j motr sniohuitr ok miog gullofinn. þat uar hinn agætazste gripr. hon gaf Kiartane motrinn. þenna motr muntu gefa Gudrunu Osuifursdottur j bekkiargiof. hellzsti godr er henni at uefia at hofde ser. uil ek at Jslendinga konur siai at su er æigi þræla ættar er þu hefir tal vid att her j Noregi. huergi mun ek leida þig sagde hon ok far nu hæill. Kiartan stod þa upp ok minntizst vid Jngibiorgu ok hofdu menn þat

firir satt at þeim þætti firir at skilia. gek Kiartan þa a konungs fund ok sagde honum at hann uar þa buinn. Olafr konungr læidde hann til skips ok fiolde manz or bænum. En er þeir komu þar er skipit flaut þa mællti konungr. her er suerd Kiartan at ek vil gefa þer at skilnade. lattu þetta uopn þer fylgiusamt vera þuiat ek uæntir at þu verdir æigi uopnndaudr ef þu berr þetta suerd. þat var hit bezsta vopn ok buit miog. Kiartan þakkade konungi giofina med fogrum ordum ok alla þa sæmd ok virding er hann hafde honum væitt medan hann var j Noregi. Konungr mællti. far þu nu uel Kiartan ok hallt uel tru þina. Skildu þeir Olafr konungr (ok) Kiartan med hinum mestum kærleikum. gek Kiartan þa bryggiuna vt a skipit. Konungr læit eftir honum ok mællti. mikit er kuedit at Kiartani ok at hans kynsmonnum. er þat oft mikill harmr at æigi ma gera vid forlǫgum mannzsins. Sneri Olafr konungr þa aftr j bæinn.

## Drap Kiartans.

357. Nv er at segia fra Kiartani at hann siglir a haf þegar byr gaf. hafa þeir vtivist skamma ok toku land a Huitaruǫllum j Borgarfirde. fretti Kiartan þa at Bolli frænde hans ok fostbrodir hafde feingit Gudrunu Osuifursdottur ok bra hann ser ekki vid þat. Var Kiartan þa vm uetrinn uestr j Hiardarhollti med Olafi fodr sinum. hann fastade þurt vm langafostu fystr allra manna a Jslande ok vard þat allagætt. marga hafde hann adra goda hattu ok trubrǫgd umfram flesta menn j þann tima a Jslandi. Eftir um uorit kuæntiz Kiartan ok gek at æiga Hrefnnu Asgæirsdottur gaf hann henni at linfe motrinn. en vm haustit halfum manade firir uetr at uæitzslu j Hiardarhollti tok þorlleifr Osuifursson suerdit konungsnaut fra Kiartani ok skaut þui nidr j fen æitt. en er eftir var læitat fannzst suerdit en vmgeordin alldri ok bar Kiartan þat alldri sidan. en litlu sidar at haustbode at Laugum huarf motrinn fra Hrefnu sua at alldri fannzst þadan af. gerdizst þa vvinatta med Kiartani ok Laugamonnum ok sidan fullr fiandskapr. for suo fram þann uetr. En vm uorit fimtadaginn j paskaviku satu þeir Vsuifurssynir ok Bolli firir Kiartani vid .ix. mann at aeggian Gudrunar vid Hafrsgil j Suinadal. en Kiartan reid vid þridia mann vestan ór Saurbæ. þeir baurduzst ok sottu þrir at Kiartani en fallinn uar forunautr hans annar en odrum helldu .ij. menn. Kiartan hafde suerd þat er ekki dugde ok bra hann þui iafnnan undir fot ser en þo drap hann æinn þeirra en særde annann. Bolli stod hia ok gerde ekki at. En er Vsuifurs synir sa at þeir mundu æigi bera af honum þa eggiade Ospakr alla uega Bolla ok sagdi. æigi

muntu Bolle vilia vita þa skam a þig at hafa farit heiman med oss ok heitit lidsinne en gera oss nu ekki gagnn at ver þurfum þin. var Kiartan oss þa þungr j skip(t)um er ver hôfdum minne sakir til. ok ef hann kemzst nu undan þa man þer sem oss skamt til afarkosta. þa bra Bolli suerde sinu Fotbit ok sneri at Kiartani. þa mællti Kiartan til Bolla. vist ætlar þu nu nidingsuerk at gera. en myklu betra þiki mer frænde at þiggia af þer bana en uæita þer bana. ok þui man ek þer æigi uopnum ueriazst. Kastade hann þa fra ser uopnunum. var hann þa enn litt saar en miok[1] modr. Bolli suarade ôngu en snarade at Kiartane ok væitti honum banasaar. Bolli idradizst þegar þessa verks ok settizst undir hofut honnm en Kiartan andadizst j kniam Bolla. Foru oll skifti Laugarmanna ok Hiardhylltinga będe adr ok sidan sem segir j Laxsdęla sôgu þo at her se litit brefat af. Lik Kiartans stod uppi viku. þa hafde þorsteinn Egilsson modurbrodir Kiartans latit gera kirkiu a bæ sinum uar Kiartan þangat færdr ok segizst suo at kirkian væri þa nyuigd ok j huitauodum er Kiartan uar þar grafinn. Firir uig Kiartans urdu Osuifurs synir allir sekir ok gefit fe til vtanferdar þeim ok kom æinge þeirra vt sidan. ok kom þat þa fram er firir sagde Stefnir þorgilsson frænde þeirra þa er þeir sektu hann aa alþinge firir kristnibod sem fyrr er sagt ok æigi sijdr fylldizst þat er Olafr [237] konungr mællti at skilnade þeirra Kiartans at Bolla uar uandkuæde ok vhamingia j verki þessu.

## Her segir af skapan ok atgerfi konungs.

358. Olafr konungr uar mikill madr uexsti ok allra manna kurtæisazstr vllhuitr a hár ok retthærdr ok huitr a brun ok lioss j yfirlitum ok eygdr agæta uel. ok þat hafa menn mællt at æigi hafui verit .ij. menn likari[2] j allri atgerui en Hakon Adalstæinsfostri ok Olafr konungr Trygguason. Olafr konungr hellt fystr retta tru allra Noregs konunga. honum gek þa uel rad sitt en myklu betr sidarr ok hafde hann þa marga hluti med ser at þat uar audset at hann uar af guds krafti til kiorinn. ok huar sem þing voru stefnnd ok malsniallir menn uoru til fæingnir at suara honum þa brazst þo of allt yfir konungs mal. enda hafde konungr sannynde ath mæla ok uæitti monnum morg gæde til þess at styrkia truna. Olafr konungr var allra manna sterkazstr ok huerium manne betr sunnfærr. hann suam j bryniu j kafui en tok huert spiot a lofti j orrostu ok skaut iafnnt badum hondum ok alltorfæingr mun slikr madr uera j hæiminum vm alla atgerui. hann

[1]) ekki *Cd.* [2]) uerit *tilf. Cd.*

uar byrsælli en adrir menn ok siglde þat a æinum degi er adrir sigldu a þremr. en suo sem Olafr konungr Trygguason var mæire ok sterkare ok betr at jþrottum buinn en huerr madr annarra a Nordrlondum j þann tima suo var ok stormenzska hans j ollum hlutum ok orr vid sina menn umfram flesta konunga. Sua segir Markus logsogumadr.

Hafglod hilmir sade
hialldrikr ok gaf skiolldu
stett hrings stôfnuum uæitte
stikka uopn ok skikkiur.
storradur stæinda knorru
stillir fek en ekki
hilldings harre millde
hann er rikstr konungmanna.

Olafr konungr sat læirigstum vm kyrt a uetrum med myklu fiolmenni ok uæitti hird sinne ok vinum. skorti þa huorki drykkiur storar ne glede. þess getr Markus.

Huns nott hueria knattu
hirdmenn konungs spenna
gylld hornn grædis melldrar
gladr uisir drak þadra.
uijdfrægr uelia tede
vin hirdmonnum sinum
allualldr æinkar milldum
Olafr und ueg solar.

Vm sumrum la Olafr a herskipum ok for firir land fram med lide sinu. Sua segir Markus.

Mordlinnz morgu sinne
módþrutinn suall vti
hufr suall brannir fellu
huessimeidr a skeidum.
gyllt hlyr gnôptu skolltar
gunnfikinn let blikia
herrudr hôfnum fiarre
haull ok fremstr at ollu.

---

## HER HEFR ÞAATT EINDRIDA JLBREIDS OK OLAFS KONUNGS.

A nokkurum tima þa er Olafr konungr hafde miog albuit skip sin ór Nidarose a æinn dag uæitte hann lide sinu ok læidangursmonnum. var þa drukkit fast. konungr uar hinn gladazste ok allt folk. þar uar mart mællt vid drykkinn sem uerda kann. tôludu menn þa um huart þa munde kristit allt folk j Noregi ok skirdir menn allir. þa sagde Vlfr merkismadr konungs. þui sijdr ætla ek allt folk skirt her j lande sagde hann ath mer þikir vera at her innan fiardar æigi langt fra oss se nokkurir menn vskirder. Konungi uar sagt skiott huat Ulfr hafde talat. let hann þegar kalla Ulf til sin ok mællti til hans. segir

þu Ulfr at hæidnir menn muni her byggia nærr oss. Ulfr suarar. fregt eru þa tekin min ord herra en þo skal ek ganga uit þui at ek hefir þann ueg helldr a drepit. Konungr mællti. huart getr þu þessa edr uæitzslu þetta med sannyndum. þat æitt segir Ulfr skal ek upp bera firir ydr med aluðru at ek skal hafa nokkut til mins mals. Konungr sagde. þa skalltu greina þetta med sannyndum huar þetta heyrir til. Ulfr segir at suo skal vera. Sa madr er inn j þrandheimi ok hæitir Endride ilbreidr Asbiarnnarson Hræidarssonar. en þeir voru brædr Asbeorn ok Endride fadir Styrkars a Gimsum. Endride er a ungum alldri okuongadr ok hefir tekit firir skommu vid fǫdrleifd sinne. hann er rikr at peningum mikill madr uexsti ok fridr synum. ogeorlla vitu menn afl hans ok jþrottir. hann er ǫrr af fe ok manna uinsęlstr en suo er mer sagt herra at Endride mune vskirdr. (Konungr suarar). þat er skade suo uel sem þu segir fra manni þessum at hann skal æigi kunna skapara sinn. nu hefir þu Ulfr þetta suo upp kuedit at þu skallt fara vit suo marga menn sem þu uillt a fund Endrida ok læita at koma honum til min. Ulfr suarar. fara mun ek sem þer uilit ok ekki med mannfiolda þui at Endride er ekki þess hattar madr at ek muna naudga honum til nokkurra hluta þeirra er hann uill æigi. skulu ver uera saman fiorir menn ok .xx. Fek Ulfr ser æina rodrarskutu. [238] for hann med sina menn þar til er hann kom nærr bygd Endrida. gek Ulfr upp til bæiar uit .xij. mann en adrir tolf skylldu gæta skips. Endride uar vti ok fagnade uel Ulfi ok baud honum þar at uera suo leinge sem hann uillde med alla sina menn þuiat Ulfr var honum malkunnigr. Ulfr tok þui uel ok gengu þeir inn. uar þar bærr skrautligr ok hus stor. en er þeir kuomu j stofu ok toku samsæti þa mællti Endride. sua er hattat at ek uæit at þer hafit tekit sid annan en ek hefui ok minir menn. en ek uil uæita ydr hallkuæman bæina ok ufalsadan þui skalltu kiosa huort uer drekkum allir samt edr j sinu herbergi huorir. Ulfr suarar. þat þiki mer huorumtueggium skemtiligra at ver drekkim allir samt. a ek uit þig eyrende þau er ek uil j tomi fram bera. en ver æigum konung suo agætan at hann hræinsar þat skiott med sinum goduilia þo at nokkut hafui a oss dregit af samneyti annarligs sidferdis. Endride mællti. þat er mer ok gæfazst. en huersu margmennr ertu. Ulfr suarar at adrir tolf hans menn voru nidri at skipe. þa skal ek segir Endride fa menn til at gæta yduars godz en þinir menn skulu fara til huss ok skulu þeir allir uera her uelkomnir. Uar þa sua gert. Sidan uar ǫl inn borit. hafde Endride mart manna ok var þar uæitzsla hin bezsta. Ulfr sat a adra hond Endrida ok menn hans vt j fra. En er

menn voru katir þa spurde Endride um eyrende Ulfs edr huort hann ætlade nokkut leingra at fara. Ulfr suarar. Olafr konungr sende mig hingat þess eyrendis at hann bydr þer til uæitzslu med sæmd ok uirdingu sem morgum ôdrum vt til Nidaross. lagde hann þar til mörg ord at þu mundir þessa ferd æigi undir hofut leggiazst þuiat hann hefir goda spurnn af þer. Endride suarar. hafui konungr þokk firir bod sitt ok sæmilig ord til min en ek mun a morgin væita andsuor eyrennde þinu þa er uær erum allir odruknnir ok med fullri skynsemd. Uar þar oltæiti mikil vm kuelldit ok suofu menn uel vm nottina. en um morguninn er menn kuomu j sæti mællti Endride til Ulfs. þat er at segia vm þitt eyrende at þu skallt þiggia her uæitzslu suo læinge sem þu uill. en ferd min mun dueliazst til konungs at sinne. en ek mun þegar fara a hans fund at mer þikir naudsyn bera. mun ek ok hæima bijda ok huergi vndan læita ef konungr uill mig hitta. muntu suo segia konungi at ek uil uera uinr hans ef hann gerir uel uid mig. Skildu þeir suo sina rædu at allt tal for med þeim Ulfui uinsamliga. for Ulfr þegar er hann uar buinn en Endride sat eftir at sinne.

### Endride bydr Olafi konungi til veizlu.

360. Nv er fra þui at segia at Ulfr kemr firir Olaf konung ok segir allt hit sannazsta um sin eyrendi ok annsuor Endrida. Konungr spurde Ulf huat er honum kannadizst af um sidferde Endrida huort hann veri mikill blotmadr. Vlfr kuetzst þess æigi uarr verda at hann blotade skurgod ok ongua menn kuat hann ser kunna þat at segia þuiat hann hafde ekki blothus a bæ sinum. þa er þegar nærr sagde konungr. skulum ver hann þa heim sækia ok koma honum a vvart ef hann uill æigi mig finna. En þegar Ulfr heyrde þetta af konungi skaut hann leyniliga hesti undir skosuein sinn ok bat hann rida sem huatligazst at segia Endrida at konungr munde þar koma skiotliga. Olafr konungr biozst sem huatligast ok siglde vm nottina inn eftir firde ok hafde þriu hundrat manna. kom hann þa til bæiar Endridá snemma dags ok gek þegar upp med lide sinu ôllu. en er hann uar kominn skamt fra strôndu. þa kom Endride j mot honum med mykla sueit manna. fagnnade Endride konungi med myklum blidskap ok baud honum heim til bugardz med alla sina menn. sagde ser þaukk a at konungr þægi þar uæitzslu er hann kuetz honum hafa firir buit. konungr tok gladliga bod Endrida. En er þeir kuomu at stofunne mællti Endride. su(o) er hattat herra at ek mun æigi dyliazst vid þat at sidir uorir munu æigi vera samfærir at frasôgnn manna. ok med þui ef þer uilit æigi hafa

oss j samsæti med ydr þa munu þer byggia stofu þessa sem ydr er firirbuin en ver munum læita oss annars herbergis. Konungr suarar. þu skallt hafa sealfr stofu þina ok þinir menn en þo skalltu hallda oss kost medan uer uilium her dueliazst. munum uer sla tiolldum vorum uti a uollunum nærri stofunne. Uar nu suo gert sem konungr mællti. skortir þar önguan hlut a at konungi uar uæitt uirduliga. for þar eftir oll þionusta onnur.

Her reyna þeir konungr ok Eindridi iþrottir sinar.

361. Ok hinn fysta dag uæitzlunnar let Olafr konungr kalla til sin Endrida. hann kuaddi konung er hann kom inn. Konungr tok uel quediu hans ok mællti suo. þo [239] at ek uile æigi samneyta alþydu heidinna manna þa uil ek at þu sitir her ok uil ek æiga tal uid þig. Endride sagde at þat skyllde a hans uallde. Suo er sagt at Endride uæri suo buinn er hann gek inn j landtialldit firir konung at hann uar j raudum skallatz kyrtle ok silkihufu gullsaumada a höfde ok spent gullhlade at enni ser ok digran gullhring a hægri hende. en aa uinstri sat æinn smasueinn harda fagr fiogurra uetra gamall edr fim. sa sueinn uar miog aþekkr Endrida j yfirbragde. þa var tekinn æinn stoll ok settr undir Endrida. ok settizst hann framan at konungsbordinu en̄ setti sueininn j kne ser. Konungr mællti uid Endrida. þu ert madr mikill ok uænn ok ef þar fara eftir jþrottir þinar þa munu ekki margir þinir iafnningiar j Noregi. þui hęfir þer at vita skapara þinn ok kunna at lofa gud firir sinar giafir. ertu kuongadr madr Endride. Æigi er þat sagde hann. Attu þa suæin þenna hinn frida er sitr aa kne þer. Ekki a ek barnn segir Endride en suæinninn er systurson minn. en þo skal honum firir þat ganga ef ek ma rada sem ek æiga hann þuiat ek munda honum eigi meira unna þo at hann uæri minn son. Konungr mællti. er nokkut hof a bæ þinum. Endride suarade. ekki er her hof. (Konungr mællti). huernn atrunat hefir þu ef þu ert heidinn ok þo æinge blotmadr. Endride mællti. ydr mun ek þikia tala helldr uuitrliga. ek uillde helldr at þer taladit um annat þat er ydr likade en spyrdit mig ekki um atrunadinn þuiat ek þikkiumzst önguan hafa þuiat ek hefir fast tekit med mer at ek skal alldri trua a stokka edr stæina þo at þat se geruar likneskiur eftir fiandum edr monnum þeim er ek ueit æigi hueriu orkat hafa. en þo at mer se sagt at þeir menn hafui mikit matt þa þiki mer þat ekki miog sannligt allz ek reyni at þau likneski er gud eru kollut eru j alla stade ufridare ok enn mattaminne en ek sealfr. Konungr mællti. hui truir þu þa æigi a sannan gud þann

er allt ma ok lætr skirazst j hans nafni. Endridi suarar. þat berr þar til er þer hafit ekki fyrr komit ok ǫngir af yduare halfu at gera mer kunnikt nǫkkut af athofnum þess guds er þer kallit almatkann. en þat annat at þo bitr meirr firir at med þui at ek uillde æigi trua þui er fadir minn ok adrir frændr kendu mer ok sogdu fra sinum gudum þa hefui ek einradit at taka alldri þann sid vkunnan er vnanir menn ok mer uandalausir j alla stade boda utan ek komi fullri skilning a at yduar gud se suo almattigr sem þer segit. Konungr spurde þa menn sina ef þat uæri satt sem Endride sagde at þeir hefde ekki bodat honum guds nafnn. en þeir sogdu þat satt. þui at hann uar þa farinn j hernat med sina suæitunga en sidan leid oss ór hug at gera ydr kunnikt. Olafr konungr mællti til Endrida. hefir þu ekki spurt þat at ek hefir refsat þeim sumum monnum er æigi hafa uiliat lata at minum ordum vm kristnibodit. Heyrt hefui ek þess getit segir Endride. en ohręddr er ek um þat at þer uæitit mer hardynde ok ydr satt at segia skal ek ǫngum hǫfdingia uæita naudigr þionustu ok fyrri dauda þola en nokkurs mannz kugan. ok vita skulu þer segir Endride þoat þer hafit nu nokkut lid at suo er bygdum skipat her j nandir at ek þarf æingis naudungarmadr at vera. en gera skal ek uel til yduar sem ek hefui kunnostu til ok med ǫngum uelum ef þer biodit mer ǫngua afarkosti en hallda fram hinu sama sidferde sem ek hefui adr haft. Konungr mællti. suo virdazst mer þin ord at þu munt vera madr diarfmælltr ok hafa uitrleik til at sea sannynde um sijdir. en ekki skal her fleira um tala at sinne en þer þikir hæfuiligt. en nu er þat at ræda er mer er sagt ok þess uarir mik at satt se at þu munt uera mikill jþrottamadr. en hueriar eru þær þinar jþrottir er þu þikkizst framar kunna en obreytiliga. Endride suarar. herra her liggia skiot suor til um jþrottir minar at þær hefi ek ǫngar. er ek madr ungr ok nykominn af barnns alldri. mista ek firir skommu fǫdur mins ok hefui ek sidan lagt hug a hybyla hattu ok framflutning lide minu. en medan fadir minn lifde ok ek uar ungr þa unne hann mer suo mikit at hann uillde ekki gera j moti minum uilea. en mer for sem odrum bǫrnum fra þui er ek kenda ast af fǫdur ok frændum at ek lagda a ekki hug þat er mer uar mentan j at nema helldr a eina saman glede ok galeyse þar til er ek miste fǫdr mins. Konungr mællti. segia mattu mer satt af firir þui at ek skal æigi firirmuna þer þinna jþrotta helldr kann uera at ef þu lætr þær j liose uit mig at sa lati þer þina mentan at gagnni uerda er þer gaf j fystu. Fast sæki þer þetta mal segir Endride. nu kann ek æigi at telia mer til jþrotta þo at ek sęi a at smasueinar [240] leki

ser a sunde. Konungr mællti. uel er þat at þu uill varazst sealfhol ok hræsni. en satt segir þu þat at þeir eru flestir leikar at madr verdr at sia adr hann kunne. edr huat uilltu fleira til tina. Se ek kuat Endride at ek kem mer æigi undan ydru kallzse utan ek uerd at suara ydr nokkuru þui er þer talit til. tok ek a boga þa er adrir smasueinar skutu beint til hæfis en ekki kunna ek at skiota. Uel ma suo quad konungr at þu skytir æigi bæint j fyrstu. ok nefnn þu til hina þridiu jþrott þina. Endride mællti. frekt taki þer herra min ord ok uant verdr mer at sigla j mille skers ok baru. heyrir mer æigi at þegia uit ydr en þer uaktit ord min sem ydr synizst ok stundum odruuiss en ek þikkiumzst tala. nu tel ek mer þat ekki til jþrotta þo at ek helldi a handsðxum ok þo helldr vfimliga þa er ek uar barnn. Vera ma þat segir konungr at þu leker æigi þann leik fimliga fyrr en þu uandizst. skaltu nu fara frials daglan(g)t ok hefer þu oss uel skemt. Gek Endride þa vt ór tialldinu til sinna manna.

## Reyndar iþrottir.

362. Enn[1] næsta da(g) eftir þa er konungr hafde drukkit um hrid let hann kalla Endrida til sin ok mællti til hans. uilltu nu lata skirazst ok taka retta tru þrautarlaust. Endride suarar. ekki er ek madr suo vmerkr at mer se nu allt annat j hug en j gær. Hugsat hefui ek nu sagde konungr maldaga med okkr. ek mun fa mann til af minu lide at reyna jþrottir vid þig ok ef sa færr þig yfirkomit j þeim jþrottum er þu nefndir til j gear þa skalltu trua a sannan gud drottin Jesum Cristum. en ef þu berr hærra hlut þa skalltu fara frials firir minu akalli ok hallda þa tru sem þu uill. þat er bæde sagde Endride at ek hefui mer onguar jþrottir talldar enda kann ek ðnguar. en dyrt er drottins ord ok munu þer rada verda okkar j mille hueruettnna er þer radit med ðngri kugan enda briota ek æigi berliga min ord a bak. edr huerr er sa madr at þer vilit lata til motz vid mik. Konungr suarar. mer þikir æigi annat likara en ek muna sealfr til ganga. er þat będe at ek þikiumzst þa gerst uita huerr þu ert enda þiki mer suiuirdingarlaust þo at þu berir af mer. enn hinn er þo myklu ædri þinn sigr at ek bera hærra lut af okkrum vidskiptum ef þetta liggr vid sem ek sagde adr. Endride mællti. þo at ek kynne manna bezst allar jþrottir sem nu kann ek litit edr ekki j fám þa uæri æigi þo tilganganda vid ydr. Sa kostr þiki mer ok hinn bezsti segir konungr at vid reynim æigi med okkr ok segizst þu yfirkominn. Kostr mun þess segir End-

[1]) Einn *Cd.*

ride þo at ek seai adr sundferdir ydrar. Sidan gengu þeir til strandar ok allt folk. afklæddizst konungr ok suo Endride. lǫgduzst þeir fra landi ok lekuzst vid leinge. færdu ymser adra nidr ok um sidir voru þeir sua leinge j kafui at nærr þotti oruænt at þeir munde upp koma. þo uard þat um sider at Olafr konungr kom upp ok lagdizst at landi. gekk hann upp ok tok huilld en klæddizst æigi. einge madr visse huat af Endrida uar ordit ok einge þorde at spyria konung eftir. En er lǫng stund uar lidin þa sa menn huar Endride for. hann hafde þa fæingit ser ræidskiota. sat hann a baki æinum myklum gransel. hann hellt tueim megin j kampa honum ok styrde honum suo. en er hann atti skamt til landz þa let hann lausann selinn. Konungr spratt þa upp ok lagdizst vt j mote honum ok færde hann þegar j kaf ok hellt honum nidre leinge. en er þeir komu upp lagdizst konungr at lande en Endride uar þa mattfarinn sua at hann uard æigi sealfbirgr. ok er konungr sa þat lagdizst hann at Endrida ok hialpade honum ok flutti hann til landz. En er Endride tok at hressazst ok þeir voru klęddir mællti Olafr konungr. mikil jþrott er þer j sundferdum þinum Endride. en þo er þat nu gude at þakka at þu vart okkar nu odriugare sem menn mattu sia at ek uard at flytia þig at lande. þat muntu nu hliota at uirda sem þu uill segir Endride. En hui deyddir þu æigi selinn segir konungr ok drott hann a land. Endride suarar. þui at ek uillda æigi at þer mættit þat segia at ek hefda fundit hann daudan. Ok lidr nu af hin næsta nott.

## Olafr ok Eindridi reyna skot.

363. Annan dag eftir mællti konungr at þeir Endride munu reyna skot. Endride suarar. allt þiki mer þer herra hafa tekit frekliga uattuise mina um jþrotternar. þarf ek æigi firir þui til at ganga at enn sidr er ek þessarre askynia uordinn en hinne fyrre. Uel þętti mer segir konungr at sua uæri ok er þa enn til at þu reynir æigi ok kalliz yfirkominn. Endride suarar. leinge mun þess kostr ok þikir mer ǫngum manni [241] ofgaman [of skemtan[1] at sea huersu langt j milli berr jþrottar yduarrar ok ofimligrar minnar uidrleitnni. Gengu þeir þa skamt fra bænum til skogar. lagde konungr þa af ser skikkiuna. setti hann þa spon j bakka ok ætlade langt skotmal. en sidan uar honum feinginn bogi ok ǫr. skaut hann ok kom orin j vtanuerdan spaninn ok stod þar. skaut Endride þa nokkuru jnnar j spaninn ok þo æigi j midiann. konungr skaut j annat sinn ok var til gengit ok stod ǫrin j

[1]) r. [ef skemtan þikir

midium spæninum. kolludu allir þat frægdarskot. Endride lofade ok hæfni konungs ok kuezst ætla at ser munde ekki gera eftir at skiota. konungr bat hann fra ganga ef hann uilldc ok segiazst yfirkominn vm þessa jþrott. Endride sagde at þess munde kostr þo at hann reynde adr. Endride skaut þa ok kom su ðr j stræingflaugina a þeirre ðr konungs er hann skaut sidar ok stodu suo badar. þa mællti konungr. mikill fręgdarmadr ertu vm jþrottir. en þo er þessi enn æigi reynd til fullnadar. nu skal taka suein þann hinn fagra er þu quazst mest unna hinn daginn ok setia hann at skotspæni eftir þui sem ek segi firir. Uar þa suo gert. Let konungr þa taka hnettðflu ok setia j hofut sueininum. nu skulu vit skiota her tðfluna or hofde sueininum segir konungr suo at sueininn saki ekki. þat munu þer megą gera sagde Endride ef þer uilit en uilia munda ek hefnna ef sueininum er uæittr skade. Konungr let þa binda linduk firir augu sueininum ok aftr vm hnakkann ok let tuo menn hallda endum duksins suo at sueininn matti huergi uikia hofdinu þa er hann heyrde huininn oruarinnar. gek konungr þa til þess stadar er hann skyllde standa. signde hann sig ok gerde krosmark firir ðruaroddinum adr en hann skaut en Endride rodnade miog. en orin flo undir tðfluna ok setti aftr af hofde sueininum. ok suo nærr hafde hausinum at helldr enn æigi dreyrde j midium huirflinum. Konungr bat þa Endrida til ganga ok skiota eftir ef hann uillde. en j annan stad gengu at Endrida modir hans ok systir ok badu hann gratande æigi til rada. Endride mællti til konungs. æigi er ek hræddr um þo at ek skiota eftir at gera ek sueininum skada. en þo skal nu æigi skiota at sinne. Konungr mællti. þa þiki mer sem þu ser yfirkominn. Endride suarar. þat skulu þer uirda sem ydr likar. en uera ma firir þui at þer takit þetta suo at mer þikir þer helldr hafua hallat til um okkr uidskipti. Satt er þat sagde konungr at ek hefui uist helldr hallat til ok hallat þo ðllu þer j hag. Gengu menn sidan heim til bæiar ok uar konungr hinn katazsti ok suo Endride ok settuzst menn til drykkiu.

### Handsaxa leikar konungs ok Eindrida.

364. þat var hinn þridea daginn er konungr mællti til Endrida. nu er uedr blitt ok kyrt uti ok skulu uid nu reyna handsaxa læikinn. Gekk þa vt allt folk. uoru þa fæingin sin tuð sðx huorum þeirra ok leku þa suo tijtt at æitt uar jafnan a lofti firir huorum. en þeir hðfdu æ medalkaflann ok þottizst æinge madr grein mega a gera huorr þeirra miukligar lek. leid suo lðng stund. þa mællti konungr. enn er

þessi læikr æigi reyndr til fullnadar. Gengu þeir þa til strandar ok vt a langskip mikit ok bad konungr sina menn roa a skipinu med endilöngum bordum. gek konungr þa vtbyrdis a arunum fram med endilöngu skipe ok lek þa at þremr handsöxum iafnnfimliga sem a lande ok suo hit sama Endride. alla læika lek konungr æ firir en Endride sidarr. þui næst gek konungr j annat sinn med sama hætti ok fyrr eftir arunum fram ok suo firir bardit at hann felldi þa æigi helldr handsöxin en adr ok æigi uard hann skouotr. gek hann þa aftr eftir arunum a annat bordit ok suo upp j skip. matte þat æinge madr skilia huersu at hann lek þetta. Endride stod firir konungi ok sa upp a hann er hann kom upp aa skipit ok þagde. Konungr mællti til hans. hui stendr þu ok læikr æigi eftir. þa mællti Endride. ekki bera æinglar guds mig i lofti sem ydr ok mattu þer þetta ekki leika af æinne saman yduarre jþrott helldr med krafti þess guds er þer truit a. þadan af skil ek at hann mun allt mega ok þui skal ek a hann trua en a onguan annan. Olafr konungr uard gladr uit ord hans ok lofade gud margfalldliga er hann gaf honum slika skilning. sagde konungr þa Endrida morg stormerki almattigs guds. uar Endride þui nęst skirdr ok allir hans menn ok gerdizst sidan hirdmadr Olafs konungs ok for med honum vt til Nidaross ok tok konungr hann j hina mestu kærleika vid sig. ok skilde alldri Endride vid konung medan þeir lifdu badir ok þotti æ vera hinn agætazsti madr.

## Capitulum.

365. Olafr konungr lek þat oftliga sidan þa er menn hans reru med landi fram [242] at hann gek a arunum utbyrdis ok lek at handsöxum. þess getr Markus logmadr.

Tuær senn tiggia uinnur
tel ek þær er ek uæit færre
gunnelldz geymirunna
gramr jþrottir framde.

hnigballdr huitra skiallda
handsöxum lek uandla
fleinriodr flestra dada
frarr ok gekk a aarum.

## Olafr konungr leysti menn or biargi.

366. Olafr konungr for nordan or þrandheimi med lid sitt þa er hann uar buinn. for hann sudr med landi ok helldr tomliga. dualdizst hann j morgum stödum. bætti hann sidu manna þar er honum þotti þurfa ok skipade monnum sinum syslur ok ármenningar allt þa(r) er hann for. gerduzst þa margir hlutir merkiligir j ferdum hans þat er

menn hafua j frasagner fært edr kuedit vm. Olafr konungr la a skipum sinum j hofnn nokkurre. þadan fra hofninne uar hamrafiall æitt hardla hatt ok hinu brottuzstu biorg. Suo bar til æinn dag at tuæir hirdmenn konungs tǫludu um jþrottir sinar. þottizst huorr uera odrum meire ok kunna fleire fimleika en annar at þeir hofdu kappmæli a huorr þeirra munde brattgeingri. dæilldu þeir þat mal um sidir med suo myklum þotta at þeir vediudu um. lagde annarr þar vid hofud sitt en annarr gullhring. þess getr Markus logmadr.

Vask iafnn uęttki rofnadr
uiti menn at ek fra tuenna
haus mannz hringe liosum
hirdmedr konungs uedia.

hui mart hiorua snyrtir
huorr letzst grams j hamre
styrr remdr stillir framde
stærra odrum færri.

Eftir þessa uedian ok morg kappmæli gengu þeir badir j biargit. gek annarr suo langt at honum hell(t) vid haska ok hrapan. leitade sa þa aftr med hræzslu ok gat borgit ser sialfr meitzslalaust ok þo sem naudugligazst. annarr for fyrr ok var sa kominn allt upp j mitt fiallit en þa þorde hann huorke at fara fram ne aftr ok huergi at hręra sig þuiat hann hafde będe litla handafesti ok fota. uar hann þa kominn suo haskasamliga at hann sa visligt sitt ofanfall ok bana ef hann uiki ser med nokkuru moti þadan sem þa uar hann. tok hann þa at kalla med mikille hręzslu at Olafr konungr edr menn hans skylldu healpa honum. þess getr Markus logmadr.

Annarr odlings manna
okuidinn red sidan
stigr uard stala sueige
strangr j berg at ganga.

hatt fiall huorke matti
hans uar lif þrotit klifa
elldrudr ǫlna folldar
upp edr nidr fra midiu.

En er Olafr konungr uisse huat um var ok heyrde op hans bad hann biarga manninum. quad hann þat uera dreingsbot mykla ef nokkurr hans madr uæri suo frækinn at þat fengi gert. Ok er konungr sa at æinge vard til þa lagde hann af ser skikkiu sina. for hann til ok rann bergit upp at manninum nærr sem sletta gǫtu. tok hann þa manninn undir hond ser ok gek med hann nokkuru læingra upp j biargit. Suo segir Markus logmadr.

Hillding huort fra ek ganga
hann red framt eftir manni
raduandr hilmir rende
rip j bratta gnipu.

þrekleyfdr þeingill hafde
þat var endr und hende
sigrþoll suo bar stillir
sinn dreing er gek leingra.

Sneri konungr þa ok gek ofan aftr bergit sua at hann hafde manninn heilan undir hendi ser ok setti hann hæilan nidr aa iofnnu. mælltu þat allir þeir er vid voru at þetta væri mikit þrekuirke ok er uordit frægt sidan.

Fra Olafi konungi ok þorkeli dyrdli. capitulum.

367. Dat bar at oftliga þa er Olafr konungr la a skipum sinum j hôfnum ok uardmenn uôktu a lande yfir skipunum at konungr kom þa af lande ofan at þeim uuorum um nætr er þeir ætlôdu at hann suæfui a skipe vt. en þeir urdu ekki uarir vid ok æinge visse med huerium hætti hann færi a land ok þo at þeir uekti ok helldi uord aa. þat fylgde ok þar med þo at dôgg væri mikil a jordinne sem oft kann at verda at huorki uôknudu skor hans ne klęde þo at hann væri sidklæddr. alldri sa þeir ok dôggar drep a grase þo at lodit væri þar er hann hafde adr nygengit. Nu uar lidsmonnum mikil foruitne á med hueriu moti sligt munde vera. en einge madr bar traust til at fretta sealfan konung at slikum hlutum. þat uar æina nott er þorkell dydrill modurbrodir konungs sat um ef hann mætti uiss uerda huersu at konungr færi þess a land af Orminum at uardmenn yrde ekki uarir vid þo at þeir uekti. þorkell stod upp ok klæddizst þa er adrir menn uoru sofnadir a Orminum. gek hann at lyptingunne ok uard þess uar at Olafr konungr la j sæng sinne. settizst þorkell þa vt a stokkinn vid bryggiuspordinn er la upp a land af skipinu. horfde hann aftr j skipit en sneri baki at landinu ok hellt suo uoku firir ser at konungr matti med ôngu moti ganga sua ór lyptingunni [243] at hann yrde æigi uarr uid. þorkell uar skartzmadr mikill ok hellt sig rikmannliga at klædum ok ollum kosti. en nu er suo sagt at hann hefde yfir sier guduefiar skikkiu samdregnna med hinum bezstum gram skinnum en um morgininn er nokkut uar mornnat fann þorkell æigi fyrr en gripit uar j herdar honum ok steyft ut af bordinu a kaf uouæifliga. uar þar þa kominn Olafr konungr ofan af lande. konungr mællti þa vid er hann steypti honum vtbyrdiss. uoknade nu dydrill þinn ok hafþu þat firir foruitne þina. ok iafnnskiott kastade konungr kadli a mot honum ok dro hann upp a Orminn. Suo segir Markus logmadr.

Dadstyrk dyrdar merki
dolgmennis fet ek inna
skybiods skelfuihridar
skôglar bordz hin fiordu.

boddskynde fra hrinda
huatlyndr þorkatli
storlyndr strijdra branda
storms firir bord af Ormi.

þa mællti konungr er hann sa at þorkell leit a skikkiuna. huat er nu frændi huort hefir nu uoknat dyrdillinn þinn. þorkatli þotti hann spotta sig ok suarar ðngu en kastar af ser skikkiunne. Konungr mællti. hui kastar þu suo vvirduliga iafnngodum grip. þorkell suarar. þat uar vist dugande skikkia en þo er nu spillt ok onytt ok angrar mig sligt ekki helldr hitt satt at segia ef ydr mislika minar tiltekiur. Einge hlutr mislikar mer vid þig sagde konungr. ma ok vera at skikkiuna saki ekki. Uar þorkell þa hinn katazste. Konungr tok þa upp skikkiuna. skipade hann henni þa firir ser ok hafde at hendr litla hrid ok fek sidan þorkatli. uar þa bæde þurr mottullinn ok skinnin ok at ollu slik edr betri en adr er hon uoknade. Suo segir Markus logmadr.

Spell uann spardizst stillir
spiotrunn skadabotar
mengerdr margra iarda
mikill dyrdligri skikkiu.
guduefr gerdizst efri
gran ok skinn und hanum
sionfagr suipstund æina
sidan iafnn edr fridre.

Olafr konungr fanz ok saaz i engla sueit.

368. þorkell dydrill uar hinn mesti astuin Olafs konungs med frændsemi þeirra. ueitti konungr honum flesta hluti j trunade þo at hann uillde æigi at adrir uisse. þorkell kom oft at mali vid konung ok spurde eftir hui at hann færi sua leyniliga a land um nætr at æinge madr vard uarr uid. talade þorkell diar(f)liga þa er þeir uoru .ij. saman sagde uuarligt ok æigi miog hðfdingligt at hann færi æinn saman fylgdarlaust langt fra skipum. Konungr suarar fa vm sagde þo at ekki munde saka. þorkell var iafnan a Orminum langa med konungi þoat hann væri kalladr skipstiornarmadr a Tronunne med Josteine brodur sinum. þorkell la um nætr vid lyftingina j firirrumi. þat var æina natt at tekit uar hogliga a fotum þorkatli. hann fleygde upp hendinne ok fann at þar uar Olafr konungr. klæddizst þorkell skiott ok hliodliga. konungr tok j hond honum ok gengu þeir vtan bryggiuna. en er þeir voru a land komnir mællti konungr. ef þer er suo mikil fyst a at vita sem þu hefir latit til huers at ek ferr a land um nottum þa skalltu nu ganga med mer ef þu uill adr hæita mer þui at segia ðngum manni þa hluti er þu ser edr heyrir a þessi nott medan ek er konungr at Noregi ok þu ueitzst lif mitt. vit þat til sannz at þar skal liggia vid lif þitt. þorkell het þessu þegar med fullum trunade. Gengu þeir sidan til skogar ok þar til er uard firir þeim riodr. j riodrinu uar æitt fagurt hus. þeir gengu at husinu ok æinu megin undir uegginn nærr dyrrum hussins. þa mællti konungr at þorkell skyllde þar bida hans. en kon–

ungr gekk at hurdunne ok lauk upp ok gekk inn ok lokade innan hurdina. þorkell gek vtan ok fann æina boru a hurdinne. sa hann þa inn j husit at Olafr konungr uar a kniam sem til bænar ok hellt upp hondunum til himna. þui næst kom lios suo mikit yfir konunginn at þorkell þottizst uarlla mega j gegnn sia. þar fylgde ilmr sua agætr at alldri fyrr hafde hann slikann kent. þa sa hann koma til konungs agæta .ij. menn biarta sem sol klædda sniohuitum bunade. þeir logdu hendr yfir hofud honum ok skryddu hann agætum konungs skruda. eptir þat sungu þeir aller halæitan lofsaung gudi med suo fǫgrum hliodum at hann heyrdi onguan slikann huorke adr ne sidan. þorkell uard vid þessa syn bæde feginn ok þo hrę̨ddr sua at hann matti uarlla upp sta(n)da ok fellr þa allr til jardar ok þakkade gude at hann nade at sia ok heyra suo mykla dyrd. þess getr Markus logmadr.

Ǫrriodr allra dada
jartæignir gaf biartar
dyggregns dyrdar mǫggnut
[244] dimt j sinn hit fimta.

sigrgiarnn solu fegri
senn uar pryddr med skryddum
doglingr drottins einglum
dyrdar fus j huse.

Nokkurre stundu sidarr for konungr vt ór husinu. gengu þeir sidan til skipa. þorkell efnnde uel þat er hann hafde hæitit konungi at hann sagde þenna atburd æigi fyrr en mǫrgum arum sidar ok uann þar at margar sǫnnur at hann hafde þetta set ok heyrt sem nu uar fra sagt. þotti skynsomum monnum hans sognn truanlig þuiat hann uar kalladr merkur madr ok sannordr um flesta hluti.

## Olafr konungr huarf at syn.

369. þat var enn sagt æinn dag þa er Olafr konungr var a uæitzslu nokkurre at hann hafde hlytt messu ok hafde sidan gengit til herbergis ok allir hans menn uoru j sæti komnir. þa huarf konungr ór hasætinu fliotliga suo at þeir sa hann æigi. en þeir þottuzst aller vita at hann uar æigi genginn ór herberginu. spurde huerr þa annan huar hann munde uera en æinge kunne ór at leysa. en er Sigurdr byskup heyrde upp a tal manna ok undran mællti hann. þat ma ek uel segia huar Olafr konungr er þuiat ek se hann georlla. hann stendr rett a midiu golfinu ok talar vid þann er þer megit æigi sea ok þui siai þer æigi konunginn. Litlu sidarr sa allir þeir er inne uoru at konungr sat j sæti sinu. þottuzst þeir þa vita at hann munde talat hafa[1] vid guds eingil. þotti ollum mikils vert um þenna atburd en æinge þorde vid

[1]) talat *tilf. Cd.*

hann um at tala sealfan eftir at spyria med huerium hætti sligt munde uera. Nu uillde gud j sliku birta verdleik Olafs konungs þo at hann uillde sealfr leyna. suo ok godleik Sigurdar byskups er hann matti hann sia ok segia ődrum fra er adr matti einge uita sa er jnne uar vtan konungr. Suo er ok hermt eftir margra skynsamra manna ordum þa er sidarr myklu uar talat vm Olaf konung Trygguason at þeim syndizst j sumum hlutum efanligt huort Olafr konungr hefde verit at æins iardligr madr edr himneskr eyrendreki sendr af gude til healpar monnum j þessa halfu heimsins.

## Rognvalldr jarl feck Jngibiargar.

370. Olafr konungr for sudr um Slade. þar j ferd uar med honum þyri drottning ok Jngibiorg Trygguadottir systir konungs. sottu þa margir menn ok riker þeir er bunir uoru til fundar vid konung ok fara skylldu med konungi. var þar hinn fysti madr Erllingr Skialgsson mágr hans ok hafde hann skæid sina hina myklu ok uar hon .xxx. at rumatale ok uar þat skip alluel skipat. þa kuomu ok til hans magar hans austan ór Uikinne þorgeirr ok Hyrningr ok styrde huortueggi þeirra myklu skipe. margir adrir rikismenn fylgdu konungi. for hann ollum hernum sudr med landi. en er konungr kom sudr a Rogaland dualdizst hann þar þuiat Erlingr Skialgsson hafde buit honum virduliga ueitzslu a Sola. þa kom austan af Gautlande Rőgnnualldr jall Ulfsson a fund Olafs konungs at vitia æinkamala þeirra. er ord ok sendibod hafde millum farit vm uetrinn at hann skyllde fa Jngibiargar systur konungs. tok Olafr konungr vel vid jalli. uar þa talat vm þetta mal. sagde konungr at hann uillde hallda oll sin ord þar um ok gifta honum Jngibiorgu systur sina ef hann villde taka tru retta ok kristna allt sitt underfolk þat er hann var yfirskipadr. Jarll jatte þui. uar hann þa skirdr ok allt hans foruneyti. uar þa aukin ueitzsla su er Erlingr hafde gera latit. gek jall at þeirre ueitzslu at æiga Jngibiorgu Trygguadottur. hafde Olafr konungr þa gift allar systur sinar. biozst jall til heimferdar ok Jngibiorg. fek Olafr konungr jarlli kennimenn at kristna folk a Gautlande ok kenna þui retta sidu. skildu þeir konungr med hinum mesta kærleik.

## Sigling Olafs konungs til Vindlandz.

371. Eftir gifting Jngibiargar systur sinnar biozst Olafr konungr sem huatligazst ór lande med lid sitt. hafde hann fritt lid ok mikit. hann hafde .lx. langskipa. en er hann siglde sudr um Sunnhordaland

lagde hann vid Mostr. þar j eyiunne uar æinn gamall madr ok þa blindr er kalladr uar miog forspaarr um marga hluti. en er þeir hofdu lagt skip sin j lægi ok umbuit þa nefnnde konungr til nokkura menn med ser at ganga upp a eyna. þeir foru til hus hins blinda mannz. ok er þeir gengu inn þa spurde sa er firir uar huerir þeir væri edr huert þeir skyllde fara. Einn þeirra sagde. uer erum kaupmenn ofan af landi ok forum med uarnning uornn. Huat kunne þer at segia til Olafs konungs edr lids hans. þeir sogdu at Olafr konungr lægi med ǫllum flota sinum þar undir eyiunne. þa anduarpade hinn [245] gamli madr hatt ok mællti mædiliga. oho mikinn skada munu ver bida j brottferd konungs uors ok er Noregsmonnum þat mikil uhamingia at tyna j einne ferd þeim fiorum hlutum er agætazstir eru her j lande huerr j sinne tegund suo at ongir þess kyns hafa fyrr komit j Noreg adrir slikir. þa mællti sa tilkuomumadr er firir þeim uar. huerir eru þeir fiorir hlutir er þu kallar sua agæta at huorke finnzst nu ne fyr adrir slikir. Hinn blinde madr suarar. þar nefni ek fyst til þann hlut er ǫllum er audsenn ok aller skynsamir menn tala æitt um at æinge konungr hafui slikr verit j Noregi sem Olafr Trygguason. ok þui er mikill skade at missa sliks hofdingia at æinge konungr hefir med slikri sæmd ok hialp styrt ǫllu folki sem Olafr konungr. annan hlut tini ek til drottuing þyri. henni heyri ek alla bera æitt uitlnne at æigi muni slik kona komit hafua j Noreg sakir uitz ok godleika. þride hlutr er skip Olafs konungs Ormrinn lange. þar tala allir æitt til at æigi mune slikt skip gert hafa verit j Noregi at uexsti ok fridleika. ok til þess er ok mikit haft er hinn blinde madr sagde. þuiat a Orminum var dreka hǫfud fram(an) buit uegliga en spordr aftr ok .ij. árar hins setta tigar a annat bord ok þui kolludu þeir hann Orminn langa. en a latinu heitir hann longus draco edr serpens. þessu skipe styrde konungr sealfr ok ualde til þa menn er agætazster voru at uasklæik ok sterkleik suo at ǫngir uoru j Noregi eftir hinir braustari ok af þessu fek konungr mykla sæmd. Ormrinn hafde fiogur rum hins fiorda tigar en kiolr hans uar fiorar alnar hins atta tigar graslægr. en þat uar æigi med alnum talit er til stafna uisse. mart var mællt til uarnnadar at æigi skyllde koma a drekann bleydimenn ne ǫlmǫsur ok ǫngum uar ueitt skipit nema nokkurr afburdarmadr væri sem ǫll dęmi finnazst til er fra Olafi er sagt ok hans kauppu(m). þa er enn hinn fiorde hlutr segir hinn blinde madr hundr Olafs konungs Vige er j sinne natturu er spakare ok betri en annarr hundr j þessu lande. nu er þat ugganda at her fari sem annarsstadar kann oft at verda at menn missa skiott ok niota skamma stund þeirra

hluta er myklu eru agætari en adrir j þeirri tegund. þa mællti konungr til sinna manna at þeir skylldu ganga til skipa sinna. en er þeir voru vtkomnir namu þeir stadar firir dyrunum. þa mællti hinn blinde madr. þat er þo satt at segia at þungt er at bida ellina ok sionleysit med þuiat æinn ueg ferr flestum gömlum monnum at æigi at æins sliofuazst synin helldr minkazst allt huguitit med likams blinndinne. nu munda ek æigi iafnnmart hafa rausat ef ek hefda vitat þat adan er nu ueit ek at ek hefui talat vid sealfann Olaf konung. en nu ma þat æigi aftr taka sem adr er talat. en þat er likazst at þeir leggi litinn trunat a geip mitt þo at hitt væri betr. Gekk Olafr konungr sidan til skipa med sina menn. siglde hann þegar er byr gaf öllum flotanum sudr til Danmerkr ok suo j gegnum Eyrarsuud. kom Olafr konungr j þeirre ferd til Vindlandz ok gerde stefnnulag vid Burizslaf konung. funduzst þeir Olafr konungr ok Burizslafr ok töludu vm æignir þær er Olafr konungr heimti. foru allar rædur uingiarnnliga mille konunganna ok vard godr greidskapr vm þęr heimtur er Olafr konungr þottizst þar æiga. dualdizst Olafr konungr þar leinge um sumarit ok fann marga vine sina. þar kom ok til hans Astrijdr dottir Burizslafs konungs kona Siguallda jalls. hon uar hinn mesti vin Olafs konungs będe af fornnum tæingslum er hann hafde aatt systur hennar ok af vinsęldum þeim fyrrum er hann uar þar j lande.

## Eggianarord Sigridar hinnar storraadu.

372. Sigrijdr hin storrada uar hinn mesti vuin Olafs konungs Trygguasonar ok fann þat til saka er hann hafde slitit æinkamalum vid hana ok lostit hana j andlit. var hon iafnnan þat hugsande ef hon męlti þeirrar suiuirdingar med nokkurum suikrædum hefnna. þar firir var hon margan dag hugsiuk ok hrygg. eggiade hon miog Suæin konung at hallda orrostu uid Olaf konung en hann gaf ser ekki um læinge. En um uorit er spurdizst til Danmerkr at Olafr konungr hafde her vti ok ætlade til Vindlandz vm sumarit þa uar þat æinn dag er Suæinn konungr kom j herbergi Sigridar drottningar ok saa at hon uar oglöd ok spurde huat at henni væri. Hon suarar. þat er mer at vglede sem mig mun iafnnan angra er ek hefir gifzst þeim manni er æigi berr traust til at hefnna minnar meingerdar a Olafi konungi Trygguasyni sem þess er von at þu reker æigi minnar vsæmdar er þer ferr fiarre at þu rekir sealfs [246] þins suiuirdingar. Sueinn konungr suarar. huer er su hin mykla suiuirding er þu kallar at Olafr konungr hafui mer gert. Drottning suarar. þat er mikil vsæmd er hann

hefir tekit þyry systur þina fridlutake ok lagzst med henni ok virt þig æigi suo mikils at þu skylldir rada firir kosti hennar. Sueinn konungr mællti. huer suiuirding uar mer þat at Olafr konungr fengi systur minnar þuiat hann er suo ag*ę*tr konungr at ek munda hana æigi betr gift hafa þo at ek hefda radit. Sigridr mællti. samþykkia mun ek þat at Olafr konungr se firir flestum konungum a Nordrlondum um marga hluti ok sua þat at systir þin se fulluel gefin i alla stade at hon æigi hann. en allmikil sman er þat slikum konungi sem þu þikizst vera er hann gerdizst naudmagr þinn ok synde suo at honum þotti eingis um þig vert at hann gek at æiga systur þina vtan þitt leyfui ok vitord. en hitt er þo myklu meire uansæmd er hann hefir setzst j þin skattlond þat er at rettu er fodurleifd þin ok helldr Noregs riki vtan skatt ok spurde þig ekki at. nu mundu ekki hinir fyrre frændr þinir þola sligt allt iafnnsaman en þu lætr sem þu uitir þer ǫngua vvirdingh gerua. Konungr suarar. þat ætla ek at ek verda at þola slikar meingeordir þui at sua er Olafr konungr reyndr at frækleik j orrostum ok hans kappar vida vm lond at hann hefir enn alldri usigr farit þo at hann hafui att vid ofrefli at skifta. þui hefui ek huorke afla ne ar*ę*de til at sækia hann heim j sealfs hans land ok riki uid uinsældir þær er hann hefir af hofdingium innanlandz j Noregi. Drottning suarar. litils hattar konungr muntu þikkia ok miog ættlera ef þu þorir æigi at hallda sæmd þinni firir odrum hǫfdingium þuiat med ǫngu mote mundir þu þola slikan viǫfnut ef þu uilldir vera likr þinum frændum ok forelldrum. nu mun ek gefa þer rad til at þu munt æigi þurfa at sækia Olaf konung j Noreg. þig skal ok æigi skorta lid a mote honum ef æigi bilar ar*ę*dit. En er Sigridr hafde oft slikar rædur j munne þa kom hon suo sinum fortǫlum vm sidir at Sueinn konungr vard fullkominn vvin Olafs konungs.

## Capitulum.

373. Sva er sagt at nokkuru sidarr en Æirekr jall uard landflotta ór Noregi kom hann a fund Sueins konungs Saumæsusonar ok bad Gydu dottur hans ok fekk hennar. tokzst þar þa vinatta mikil med m*ę*gdum ok sat Æirekr jarll lǫngum med Sueini konungi magi sinum a uetrum en var j hernade um sumrum. Nu er fra þui at segia æinnhuernn tima at Sueinn konungr kom at male vid Sigride ok spurde hana rads um huersu at hann skyllde na Olafi konungi suo at hann færi æigi med her j Noreg. Sigridr suarar. þat mun ek mega segia. ek hefir spurt at Olafr konungr byrr her mikinn ok skip mǫrg ór

Noregi ok ętlar hann at fara til Uindlandz j sumar. en vid skulum senda ord Olafi konungi syne minum ok Æireki jalli mage þinum at þeir ueiti þer lid. nu ef þu fęr þeirra styrk sem mig uarer at þeir mune fliotir til þessa vera þa þiki mer þu ekki at manna ef þu lætr Olaf konung Trygguason sigla j gegnum land þitt ok riki będe sudr ok sunnan suo at þu legger ekki at honum edr drepir hann edr reker af riki firir slikar sakir suo storar sem þu att honum at hefnna. en ef þer þikizst æigi (oruggir) j moti honum æinum þrir hǫfdingiar med ǫllum Dana her ok Suia ok lide Æireks jalls þa skalltu senda mann sudr til Vindlandz eftir Siguallda jalli er þu hefir adr gert vtlaga firir sannar sakir. skal hann þat þa vinna til sætta vid mig ok at na æignum[1] sinum ok landzvist j Danmǫrk at fara til fundar vid Olaf konung Trygguason ok sæta uelrędum vid hann annathuort at flęma fra honum herinn ok koma honum a yduart ualld ouaurum. mun þa ekki mikit firir vera at taka hann af life ef hann hefir litit lid til motz vid her yduarnn. Tǫludu þau þar vm ok gerdu allt þetta rad statt.

## Fundr Olafs konungs ok Siguallda iarls.

374. Litlu sidarr sende Sueinn konungr menn austr j Suiþiod a fund Olafs konungs mags sins ok Æireks jalls ok let segia þeim at Olafr Noregs konungr hafde her vti ok ætlade at fara um sumarit til Vindlandz. fylgde þat ordsendingu at Suiakonungr ok jall skylldu her vti hafa ok koma til motz vid Suein konung. skylldu þeir þa aller samt hallda orrostu uit Olaf konung. kom þar suo at Suiakonungr ok jall voru þeirrar ferdar albunir ok drogu saman skipaher mikinn af Suiþiod. foru þeir lide þui sudr til Danmerkr ok komu þar suo at Olafr konungr Trygguason hafde adr austr siglt. þess getr Halldorr hinn okristne er orti um Æirek jall er hann [247] baud her vt af Suiþiod.

Vt baud jofra hneitir
elmodr af Suiþiodu
sundz hell(t) gramr til gunnar
gunnbliks lide myklu.

heria uillde þa haulldar
hra gæitunga fæitra
márr fek a sæ sara
sylg Æireki fylgia.

Helldu þeir Suiakonungr ok Æirekr jall til motz vid Suein konung ok Sigride drottningu ok hafa þa aller saman ogrynne lids. Sueinn konungr hafde sent eftir Siguallda jalli syne Strutharalldz jalls ok samit sętter vid hann eftir þui sem Sigridr drottning hafde rad til gefit. sende Sueinn konungr Siguallda jall vm sumarit at niosna vm ferd

[1]) signum *tilf. Cd.*

Olafs konungs Trygguasonar ok gilldra suo til at fundr þeirra Sueins konungs mætti verda. for þa Sigualldi jall leid sina ok kom fram j Vindlande. for hann til Jomsborgar en sidan til Olafs konungs Trygguasonar. uoru þar fögur ord ok vi(n)attumal af jalle vid Olaf konung. kom Siguallde jall ser j hinn mesta kęrleik vid Olaf konung. Siguallde jall uar uitr madr ok radugr. en er hann kom ser j radagerd med Olafi konungi þa dualde hann ferd konungs austan at sigla ok fann til ymissa hluti. en lid Olafs konungs let geyse illa ok voru miog fuser er þeir lagu þar leinge albunir en uedr byruænt. Siguallde jall fek niosnn leyniliga af Danmorku at þa uar austan kominn herr Suiakonungs ok Æireks jalls. Suo ok þat at Danakonungr hafde þa ok buit skip sin ok her ok þeir hofdingiarnir munde þa sigla austan vndir Uindland med allan herinn sem þeir hofdu akuedit at þeir munde bida Olafs konungs vid ey þa er heitir Suölldr. Sendu þeir þau ord Siguallda jalli at hann skyllde suo til stilla at þar mætti þeir finna Olaf Noregs konung. þa kom frett su til Vindlandz at Sueinn Danakonungr hafde her vti. gerdizst sa kurr at Sueinn konungr munde uilea hallda orrostu vid Olaf konung. en er Sigualldi jall heyrþi þetta sagde hann suo til Olafs konungs. þessi kuittr er ydr er nu sagdr er hin mesta lyge þui at æigi eru þat rad Sueins konungs at leggia til bardaga vid ydr med einn saman Danaher suo mikit lid ok fritt sem þer hafit. en ef ydr er nokkurr grunr a þui at ydr mune vfridr gerr þa skal ek fylgia ydr med lide minu ok þotti þat enn nokkurr styrkr fyrr huar sem Jomsuikingar fylgdu hofdingium. mun ek fa þer .x. skip uel skiput. Konungr jatte þui. En er lidit Olafs konungs heyrdu þenna vfridarkuitt toku þeir at kurra þui meirr þuiat þeim uar leitt þar at liggia at vnytu. en er konungr uard þessa uarr uar þat æinn morgin at konungr atte husþing uit lid sitt. hann stod upp ok mællti. ollum monnum uil ek þakka fylgd ok forunæyti er þer hafit mer uæitt j sumar. uil ek ydr uorkynna at þer þikkizst hollzsti leingi heiman hafa verit fra æignum ydrum. þui uil ek nu orlof gefa at huerr yduarr buizst til heimferdar sem fyst verdr buinn med sin skip. en þeim skal ek kunna enn meire þokk ok ömbuna godu er æigi fara fliotara en ek suo at þeir fylgi mer til Noregs. En er menn heyrdu þetta urdu allir gladir vid ok þokkudu konungi sin ord. þa stod upp æinn rikr madr alldradr j lide konungs ok mællti suo. þann konung höfum uer yfir oss at olikr er odrum konungum at afli ok atgerui ok þo enn meirr at milldi ok allz hattar goduilia. nu þo at hans uórkyndar goduili gefui oss leyfui (at) huerr (fari) eftir sinum vilia þa heyrir oss at

neyta suo þessa sealfrædis at ueita honum trulynda fylgd ok skiliazst æigi vid hann medan hann er vtan sitt riki. allra hellzst at nu flygr kuittr sa j eyru oss at honum muni uæittar suiksamligar firirsatir af sinum vvinum. er þat uor hin hæsta sæmd at uæita konungi uorum þui fremri fylgd sem hann kann meirr þurfua en uer eigum hofdingiann agætara en nokkurir adrir. mundi oss þa þat j hug ef sua kann til at bera sem æigi skyllde ef ver missum hans suo at uer sem æigi nærr þat mun oss afla æfinligs trega ok vbætiligs skada ef suo illa verdr. En fatt æitt folk romade rædu hans. gek þa allr herrinn til skipa. let Olafr konungr blasa þegar til brottlögu ok leysa flotann. drogu menn þa upp segl sin. Olafr konungr hafde .lx. skipa sem adr er getit en Sigualldi .x. skip er þeir lögdu ór hofninne. ok hofdu þeir badir samt æinu skipe mæirr en .lxx. er þeir sigldu af Vindlande. Suo er sagt (at) Astridr dottir Burizslafs konungs kona Siguallda jalls kom til Olafs konungs næstu nott adr hann siglde af Vindlande sem enn mun [248] sagt uerda enn sidarr j sögunne. Astridr sagde konungi med skyrum ordum ok sannynndum at Danakonungr ok Suiakonungr ok Æirekr jall satu firir honum med ofrefli hers. bad hon konung med myklum god-uilea at hann skyllde æigi fara j umsatr vuina sinna. En konungr suarar. ekki mun ek bregda ferdum minum firir kuitt slikan er ek væit æigi huat satt er j. en þo at ek uisse at þat væri satt er þu segir þa munda ek æigi flyia fund ovina minna. ueit ek ok at Siguallde jall uinr minn mun mik uaran vid gera ef hann veit mer suik radin. trui ek ok þui fastliga at (gud) a ualld at gefa þeim riki sem hann uill. þa mællti Astridr. þa uil ek þess bidia at þu þigger at mer slika lidsemd sem ek ma þer uæita til brottkuomu ef þu kant þess uit þurfa. þat mun ek þekkiazst segir konungr ef þarfir gerazst. Ok at suo mælltu skildu þau þann dag. en eftir um daginn er Olafr konungr leysti flota sinn af hofninne uar uedr litit ok hagstætt þegar undan landi kom gengu meira smaskip öll ok sigldu þau undir vedr a hafit vt. en Siguallde jall siglde nærr konungs skipinu ok kallade ok bad konung sigla eftir ser jnn hallara. þuiat mer er kunnikt huar her er diupazst um eyiarsundin en þer munut þess þurfa vid hinu storu skipin. Siglde jall þa firir med sin skip en konungr siglde þar eftir med storskipin. En er Siguallde jall siglde med eyiunne Suölldr þa reru menn j mote honum a einne rodrarskutu. þeir sögdu jalli at herr Danakonungs ok Suiakonungs la þar j höfninne firir þeim. þa let jall hlada seglunum a sinum skipum ok heimtu þeir med aarum skipin inn undir eyna helldr tomliga. hafde jall tiu skip sem hann hafde heitit Olafi konungi til lidueitzslu ef hann

þyrfti. en Vinda skipit uar hit ellifta er sagt er at a uæri menn Astridar konungs dottur. for su snekkian j suig vid jalls skip ok þo æigi allnær. Olafr konungr siglde eftir skipunum þeim hinum storum. hafde hann þar ellifu skip en allr annarr herrinn hafde siglt undan vt a hafit. Suo segir Markus logmadr.

Orriodr atta skæidum
efzsta sinn ok þrennum
byrr vard beiṭa þorde
brynnt at Suoldrar minne.

Ormr skræid arar knude
aulna menn hinn langi
hirdprudr hilmir styrde
hann er rikstr konungmanna.

## Sigling Olafs konungs. capitulum.

375. Sveinn Danakonungr ok Olafr Suiakonungr ok Æirekr jall lagu þar undir eyiunne med allan her sinn sem adr er sagt. þa uar uedr fagurt ok solskin biart. gengu þeir þa upp a holminn aller hofdingiar ok myklar suæitir hersins med þeim. en er þeir sa at skipin Nordmanna sigldu mǫrg saman vt a hafit vit þat urdu þeir hardla gladir þuiat herrinn þeirra let illa er hann hafde þar legit at vnytu suo leinge at sumum þotte ǫruḡnt at Noregs konungr munde koma til motz vid þa. Ok nu sa þeir huar siglde mikit skip ok glæsiligt. þa mælltu badir konungarnir. þetta er mikit skip ok einkar fagurt. þetta mun vera Ormrinn lange. Eirekr jall suarar. mæire ok hraustsamligri mun Ormrinn reynazst en þo er þetta mikit skip ok fritt. Ok suo uar sem jall sagde. þat skip atte Styrkarr af Gimsum. Litlu sidarr sea þeir huar sigler annat skip myklu meira. þa mællti Sueinn konungr. nu mun her fara Ormrinn lange fǫrum nu til skipa uorra ok verdum æigi ofsæinir j mot þeim. Æirekr jall suarar. ekki mun þetta vera Ormrinn langi þo[1] er þetta skip uel buit. Uar ok suo sem hann sagde. þat skip atti þorkell nefia brodir Olafs konungs en æigi uar hann sealfr þar a. Ok nu sa þeir sigla mikit skip ok fritt. þa mællti Sueinn konungr. þar ma nu sia konungs skipit. Jarl suarar. vist er þetta mikit skip ok glæsiligt en þo (er) Ormrinn lange myklu agætare. Ok þegar eftir siglde hit fiorda skip mikit. þessi .ij. skip attu þeir ór Vikinne magar konungs þorgeirr ok Hyrnningr en æigi styrdu þeir skipunum þuiat þeir voru badir a Orminum med Olafi konungi. Litilli stundu sidarr siglde hit .v.ta skip myklu meira en hin er adr hofdu siglt ok (eigi) a hǫfut. þa mællti Sueinn konungr. hrḙddr er Olafr konungr Trygguason nu er hann þorir æigi at sigla vid hǫfut a Orminum. Æirekr jall suarar. ekki er þetta konungs skip. þetta skip kenni ek georlla ok sua seglit þuiat

[1]) þa *Cd.*

her er stafat segl. þetta er Ærlingr Skialgsson af Jadri ok latum þa um sigla þuiat ek segig ydr satt at þar eru þeir dreingir innan bordz at ef uær leggium til bardaga vid Olaf konung at oss er betra þar skard ok missa þeirra j flota hans. er þetta skip suo skipat monnum þuiat ek hygg at Erlingr sealfr styre skeidinne. þa mællti Olafr Suiakonungr. æigi skylldu ver nu of miog ædrazst at leggia til bardaga vid Olaf konung Trygguason þo at hann hafui skip mikit þuiat þat er vbætiligh suiuirding ef ver liggium her [249] med uflyianda her en hann sigli þiodleid firir vtan. Æirekr jall suarar. herra latum þetta skip undan sigla sem hinu fyrre þuiat ek man segia þer god tijdende ok sǫnn at Olafr konungr hefir enn æigi um oss siglt ok sannliga munu þer þenna dag kost æiga at beriazst uit hann ok þat uænna þo at huerr uorr þriggia er hofdingiar skulum heita firir her þessum hafim mikit lid hingat dregit at vær faim þa hrid adr þessi dagr se allr at ver þikimzst hafa ærit at vinna þo at þessi skip se æigi uit bardagann sem nu hafua um siglt. Ok nærrgætr uard jall þuiat þat var Ærlingr a skæid sinne ok siglde fra Olafi konungi magi sinum sua at hann sa hann alldri sidan ok margir adrir uaskir dreingir ok vinir konungs. Ok er æigi (uar) langt fra þui er þessi .v. storskip hǫfdu um siglt ok allr adr smaskipaflotinn þa sa þeir ok kendu skip Siguallda jalls ok uiku þa þangat at holminum. Sidan sa þeir huar sigldu .iiij. skip ok uar æitt af þeim mikit hofdaskip. þa mællti Sueinn konungr. gangi menn nu til skipa þuiat her ferr nu Ormrinn lange. þa mællti Æirekr jall. mǫrg hafa þeir ǫnnur storskip en Orminn langa en fa hafa en(n) um siglt ok bidum enn. þa mælltu margir menn. nu ma sia sogdu þeir at Æirekr jall uill ekki beriazst vid Olaf konung Trygguason ok æigi þorir hann nu at hefna fodur sins. ok er þetta suo mikil skamm at spyriazst mun vm ǫll lond ef ver liggium her med iafnmyklu lide en Olafr Noregs konungr sem vera ma sigle vid hond fulla[1] manna vid her vorn til at iafnna a haf vt hea oss sealfum. Æirekr jall uard miog ræidr uid ord þeirra ok bat alla menn ganga til skipa. en þat uæntir ek sagde hann þo at þer Danir ok Suiar fryit mer miog hugar at ydr huorumtueggium se æigi olæidara adr sol gengr j ęgi[2] j kuelld en mer ok minum monnum. En er þeir geingu ofan sa þeir huar sigldu fiogur skip mikil ok æitt af þeim uar þrifligr dreki geyse mikill allr gullbuinn. þa mælltu margir menn at jall hefde satt sagt ok her ferr nu Ormrinn lange sogdu þeir. ok er hann furdu mikit skip ok frijtt suo at ekki langskip mun slikt gert hafa verit a Nordrlondum. er æigi undarligt

[1]) fylla *Cd.* [2]) lęgi *Cd.*

at sa konungr se agætr uida er rausn hefir til at lata gera slika gripe. þa stod upp Sueinn konungr ok mællti. hatt mun Ormrinn bera mig j kuelld honum skal ek styra. þa mællti Æirekr jall. þo at Olafr konungr Trygguason hefde ekki meira skip en þetta er þa mundir þu þo Sueinn konungr alldri fa þat sott af honum med æinn saman Danaher. En þessi hinu storu hofdaskip er þeir ætludu Orminn langa uar hit fyrra Tranan en hit sidarra Ormrinn skamme. Dreif nu allt folk til skipanna ok raku af tiolldin. skipadu hôfdingiar þa herinum til atlôgu ok er suo sagt at þeir hlutudu um huerr þeirra fyrst skyllde leggia at konungs skipinu Orminum langa. ok hlaut Sueinn Danakonungr fyst at at leggia en þa Olafr Suiakonungr en sidazst Æirekr jall ef þess þyrfti vid. ok skyllde huerr þeirra æignnazst þau skip er sealfr ynne ok rydde af Olafi konungi med sinu lide. En er hofdingiar hofdu þetta at tala mille sin sem nu var fra sagt þa sa þeir huar sigldu .iij. skip allstor ok h(it) fiorda sidazst. sa þa aller mikit drekahôfut a framstafni þess skips ok buit sua sem a gull æitt sæi ok liomade vijda af vm siainn er solin skæin a. en er menn sa þar a vndruduzst þeir miog leingd skipsins[1] þui at stund uar a mille er þeir sa framstafninn ok hinn eftri kom fram. kendu aller ok mællti æinge a moti at þar uar þa Ormrinn langi. en uid þessa syn uard margr madr hliodr vid ok skaut almuganum þegar skelk j bringu ok otta þuiat þetta hit mykla skip flutti þar dauda furdu morgum manni. þa mællti Æirekr jall. makligt ok sæmiligt er þetta hit agæta skip slikum konungi sem Olafr er Trygguason þuiat þat er til hans sanntalat at hann berr suo af odrum konungum sem Ormrinn langi af odrum skipum.

### Her hefr upp Suðldrar orrosto. capitulum.

376. Ða er Siguallde jall hafde hladit seglum a skipum sinum ok reru inn under holminn sem adr er sagt þa sa þeir þorkell dydrill af Tronunne ok adrir skipstiornarmenn þeir er med honum foru at hann sneri sinum skipum inn undir holminn sem adr er sagt. þa hlodu þeir seglunum ok reru eftir honum ok kollôdu til þeirra ok spurdu hui þeir foru suo. Jall suarar at hann uillde bida Olafs konungs. ok er meire uon at vfridr se firir oss. letu þeir þa fliota skipin þar til er þorkell nefia kom nu med Orminn skamma ok þau .iiij. skip er honum fylgdu. var þeim [250] sôgd hinu sômu tidende. hlodu þeir þa seglunum ok letu fliota ok bida suo Olafs konungs. en floti konunganna la inn a hofninne ok mattu þeir ekki sia huersu mikinn her þeir hôfdu. En er

[1]) skips sins *Cd.*

Olafr konungr siglde inn at holminum ok hann sa at hans menn hofdu lægt seglin ok bidu hans þa styrde hann a uedr þeim ok spurde hui at þeir siglde æigi. en þeir sögdu at (v)fridarherr uar firir þeim ok badu hann flyia. Konungr stod upp j lyptingu vid þessa tidendasögnn ok mællti til sinna manna. [latit mik[1] af skipinu þuiat ek uil giarnna helldr beriazst en flyia. ek hefui enn alldri flyit j orrostu. rade gud lifue minu en alldri skal ek a flotta leggia þuiat þat er ekki rettr konungr er flyr vuine sina firir hræzslu saker. [þess getr Hallfredr.

Fylg þyrrir nam fyrri
frægr alldregi uægia
helldr let hauka bæitir
hugrekki ser þekkia.

Sua segir Markus logmadr.

Raunskiott ræsir matti
rit uar a ferd at lita
sol raud suolnis ela
senn dögglinga þrennra.[2]

Uar nu sua gert sem konungr mællti ok rendi Orminum fram fra skipunum ok heimtu lidsmenn onnur skipin iafnnfram med arum. reru þa ok fram undan eyiunne allr herr konunganna. urdu hofdingiarnir hardla glader vid þat er þeir sa Olaf konung kominn j vmsat(i)r sinar. En er konungr ok allir hans menn sa at siorinn uar uida þaktr j nandir þeim af herskipum sinna motstödumanna þa mællti til konungs æinn uitr madr ok hraustr þorkell dydrill modurbrodir konungs. herra segir hann. her er mikit ofrefli vid at beriazst drogum upp segl uor ok siglum vt a hafit eftir skipum vorum. þat ma enn uel takazst meden vvinir uorir bua sig til orrostu. er þat öngum manni til bleyde uirt at hann seai hóf firir ser ok lide sinu. Olafr konungr suarar hátt ok mællti. teingi saman skipin ok bui menn sig til bardaga ok bregde suerdunum. ekki skulu minir menn hyggia a flotta. þessi ord Olafs konungs uottade Hallfredr.

Geta mals þess mæla
menn at uopnna sennu
dolga fangs vid dreinge
dádöflgan gram kuodu.

badu hertrygdar hyggia
hnekkir sina rekka
þess lifa þiodir hnossa
þrottar ord a flotta.

[1]) *r.* [siga seglit sem skiotazst en sumir leggi arar a bord ok taki skridinn
[2]) *Fra* [þess getr Hallfredr. Fylg — dögglinga þrennra *er flyttet hid, skjönt det i Codex staar sex Linier nedenfor mellem Ordene* motstödumanna *og* þa mællti, *hvor det forstyrrer Sammenhængen og hvor det synes at være henkommet ved Uagtsomhed af Afskriveren.*

Olafr konungr let blasa til samlögu þeim .xj. skipum er hann hafde þar. uar konungs skipit j midiu en þar a annat bord Ormr hinn skamme en a annat bord Tranan ok önnur fiogur skip þar vt j fra til huorrar handar. misti hann þar nu her(s) sins sem vita matti. Er þat margra manna mal at Olafr konungr munde skiott hafa sigrazst a sinum motstödumonnum ef þa hefde þar verit þau skip er adr uar getit ok allr sa skipafloti er fra honum hafde siglt. suo margr hraustr dreingr sem a þeim skipum uar. suo erfitt sem nu uæitti þremr hofdingium med uflyianda her at sigra hann vid suo fa skip sem hann hafde. þess getr Hallfredr at Olafr konungr misti þar þess lids er fra honum hafde siglt ok honum aflade þessi bardagi mikillar frægdar. hann segir suo.

þar hykk uist til miog mistu
mörg kom drott a flotta
gram þann er gunni framdi
geingis þrænzkra dreingia.

næfr uo einn vid iofra
allualldr .ij. s(n)ialla
frggr er til sliks at segia
sidr ok jall hinn þridea.

Menn Olafs konungs lögdu saman skipin sem hann baud. en er konungr sa at þeir toku at teingea stafnana a Orminum langa ok Orminum skamma þa kallade konungr hatt ok mællti. leggit fram læingra hit mykla skipit. æigi uil ek uera aptazstr allra manna j her þessum ef orrostan tekzst. þa mællti Ulfr hinn raude stafnnbui konungs ok merkismadr. ef Orminn skal þui leingra fram leggia sem hann er leingri en önnur skipin þa mun auint vm söxin. Konungr suarar. þui let ek Orminn gera leingra enn önnur skip at hann skyllde þui diarflegar fram leggia j orrostu ok vera audkendr bæde j bardögum ok siglingum. en ek uisse æigi at ek munda æiga stafnnbuann bæde raudan ok ragan. Ulfr suarar. snu þu konungr æigi mæirr baki vit j dag at veria lyftingina en ek mun stafnninn. Konungr helt a boga ok lagde ör a streing ok sneri at Ulfui. þa mællti hann. skiotit þangat nu fyr herra sem meiri (er) þorfin en þat er aa (v)vine ydra þuiat ek hygg at ydr þiki ydrir menn æigi ofmargir adr kuelld kemr. Konungr tok aurina ok skaut æigi. Ok j þui er þeir attu þetta vid at talazst sa menn konungs at su Uindasnekkian er mest hafde sunnan siglt ein ser um daginn rendi suo hart at Or(m)inum aftr vid lyptingina at ualla matti auga a festa. þa stod upp madr j stafni ok talade vid konung a vkunna tungu ok suo andsuarade konungr a þa tungu er Nordmenn skildu æigi. þeir toludvzst vid litla hrid. sidan reru þeir a hinu litla skipinu at landi ok lagu þar vm akkeri. en konungs menn spurdu [251] hann huerir þeir voru

hinu okunnu menn er talat hofdu vid hann. Konungr suarar. þat eru kunningiar uorir af Vindlande.

### Olafr konungr bardiz vid Suein Danakonung.

377. Olafr konungr stod j lyfting a Orminum. bar hann hatt. hann hafde gylltan hialm. hann var miog audkendr fra ðdrum monnum. hann hafde silkehiup raudan steyftan vtan yfir bryniuna. En er Olafr konungr sa flok sinna motstðdumanna ridlazst ok upp voru sett merke firir hofdingium þa spurde hann sina menn. huerr hofdinge firir þeim er at gegnnt oss erv. Honum var sagt at þat var Sueinn konungr med Dana her. Konungr mællti. ekki hrædumzst ver bleydur þær þuiat æigi er helldr hugr j þeim en j skogargæitum. alldri baru Danir af Nordmonnum ok æigi munu þeir oss sigra j dag. en huerr hofdinge styrir þeim merkium er þar eru vt j fra a hægra ueg honum. þa uar honum sagt at þat uar Olafr sænski med Suia her. (Konungr suarar.) auduelldra mun Suium þikia at sitia hæima ok slæika blodbolla sina en ganga a Orminn j dag undir uopnn ydr ok uæntir mig at uer þurfim ekki at ottazst hrossæturnar. en huerir æiga þau hinu storu skip er þar liggia a vtborda Donum. þat er sogdu þeir Æirekr jall Hakonarson. þa mællti Olafr konungr. miog hafa þeir skipat tignum monnum her þenna moti oss. mun Æirekr jall uid oss þikiazst æiga skapligan fund. er oss van af honum snarprar orrostu þuiat þeir eru Nordmenn sem uær erum. þa er þyri drottning sa tilbunat bardagans tok hon miog at hryggiaz. þa mællti Olafr konungr til hennar. æigi þarftu nu at grata þuiat þu hefir nu fæingit æignir þinar j Vindlande. en ek skal j dag heimta tannfe þitt af Sueini konungi brodur þinum sem þu hefir mig oft bedit. Leidde hann þa drottningu nidr undir þiliur ok let bua þar vm hana sem bezst med skiallborg. sidan bad konungr Sigurd byskup vera þar hea henni til hugganar ok suo gerde byskup. þessu næst gerdu konungarnir ok jarll atrodrinn. Nu segir suo Snorre Stulluson ok flestir menn adrir at Sueinn Dana konungr legde fyst at Orminum ok hinum stærstum skipum Olafs konungs. en Markus logmadr segir suo at Olafr konungr sænski legde fyrstr at j Olafsdrapu hinne tuiskelfdu en sidar Sueinn Dana konungr. Suo segir Snorri at Sueinn konungr legde sin skip at Orminum langa en Olafr sænski lagde vt fra ok stak stðfnum a yzsta skipe Olafs konungs. en ðdrum megin lagde at Æirekr jall. Jallinn hafde jarnnbarda geyse mikinn er hann uar uanr at hafua j orrostum. þar var skegg a ofanverdu bardinu huorutueggia en nidr fra skegginu iarnnspaung breid ok þykk sem bardit ok tok allt j sio ofan.

þui var þat skip kallat Jarnnbardi. hann uar allra skipa ramgeruazstr. var hann ok skipadr af agætum monnum at afle ok allri atgerui. æinn af þeim uar Skuli þorsteinsson Egilssonar. Vigfuss Vigaglumsson. Torfui Ualbrannzson. Uagnn Akason. Suæinn Buason ok margir adrir Jomsvikingar. Jllugi taglarbani ok margir flæire afreksmenn þo at æigi se her nefnndir.

## Orrosta þeirra nafna.

378. Nu toku menn at blasa herblastr ok æptu huorirtueggiu herop. Sigualldi jall let skotta vid sin skip ok lagde ekki at sinne til orrostu. er hans litt getit vid bardagann en þo segir Skuli þorsteinsson.

Fylgda ek Frisa dolgi
fek ek ungr þar er spiorr sungu
nu finnr olld at ek elldumzst
alldrbot ok Siguallda.

þar er til motz vid mætir
malmþings j dyn hialma
sunnr fra Suolldrar minne
sárlauks rodin baru.

þessi orrosta var hin hardazsta. uar j fyrstu skotit ðrum bæde af lasbogum ok handbogum en sumir spiotum ok gaflðkum. ok er þat mal manna at Olafr konungr bardizst allra diarfligazst. Sua segir Hallfredr j Olafsdrapu.

Heft var litt a lofti
lidu ðruar fram gðrua
brodda flaug adr bauga
briotendr skyti spiotum.

ord var hitt at hardazst
huarkunnr firir lðg sunnann
mest j malma gnðstan
minn drottinn fram sótti.

þess getr Markus logmadr at Sueinn Dana konungr legde fyst at Olafi konungi med .lx. skipa þa er Olafr sænski bardizst vid Olaf Trygguason nafnna sinn ok þa flyde Olafr sænski undan med sitt lid. Hann segir suo.

Aurbragz ærir lðgdu
annat sinn at linna
griot vard gaunnlar borda
gnaust lomduzst þar flausta.

danskr herr dyran harra
drott hne morg þar er sotti
hird fell hrafnar gullu
hann er rikstr konungmanna.

Menn Sueins konungs stungu stðfnum a bæde bord a Orminum langa sem þykkuazst matti þuiat hann tok læingra fram en ðnnur skip hans. þa laugdu Danir at fast [352] at Orminum skamma ok Tronunne. var þa allmikill uopnaburdr a Orminum ok orrosta hin akafazsta ok miog mannskęd. geingu frambyggiar a Orminum j hðggorrostu ok aller þeir er þui komu vit en sialfr Olafr konungr ok aftrbyggiar skutu af bogum

edr handskotum ok drapu Dane en særdu suma. Suo segir Markus logmadr.

Staungh reid stalin sungu
sterklig iðfurs merkis
gramr skaut gerdizst snemma
gangr a Orminn langa.
nytr herr Noregs gætis
nærr var at traudr at særa
ords pruds Jota ferdir
Olaf vnd ueg solar.

En þo at Sueinn konungr legde med .lx. skipa einna fastazst at Nordmonnum j þessi hrid þa la þo allr meginherrinn j skotmali vid skip Olafs Noregs konungs. Olafr konungr synde agæta uðrnn med sinu lide en þo fellu menn hans j þessi suipan. Suo segir Hallfredr.

Sotti herr þar er hætti
hundmargr drasils sunda
en hialmsprotum hilmir
hardfeingr Dðnum uarde.
fellu þeir med þolli
þeim skęuadar geima
mæin hlutu af þui minir
meirr holldvinir fleire.

Olafr konungr Trygguason bardizst alldiarfliga. en er adaliga festizst atsoknn at Orminum þa gek hann fram sealfr j hðggorrostuna ok klauf margs mannz haus ok hofut med sinu suerde. Dðnum uæitti þungt atsoknin þuiat frambyggiar a Orminum langa ok stafnnbuar a Orminum skamma ok a Tronunne færdu akkeri [or stafnnliam[1] j skip Sueins konungs. en þeir attu uopnin at bera nidr undir fætr ser er þeir hofdu skipin myklu stærri ok bordhærri. hrudu þeir ðll Dana skipin en konungrinn Sueinn ok hans lid þat er undan komzst flyde a ðnnur skipin ok þui næst lðgdu þeir fra þreyttir ok sarir ór skotmali. ok for þessi herr suo sem gat Olafr konungr Trygguason at Danir sigruduzst æigi a Nordmonnum. Suo segir Markus logmadr.

Myrkt hregg mækis eggiar
meinilla gek Sueini
sár fra ek dreingium dreyra
Danir skundadu undan.

Suo segir Snorre Stulluson at Olafr sænski lagde þar at j stadinn er Sueinn konungr hafde fra lagt. tokzst þa enn af nyiu hin hardazsta soknn. urdu þar brestir storir ok hin snarpazsta orrosta ok mikit hareysti af eggian manna ok uopnnabraki er stalin mættuzst. bardizst Olafr konungr Trygguason med mykille hreysti ok hans menn fylgdu honum dreingiliga. Sua segir Hallfredr.

[1]) r. [ok stafnlia

Verdum Vinda myrde
uigskyrs en þat lysig
rammr und randar himne
rymr knattu spiorr glymia.
hirdar stods uit hardan
hnituegg med fiold seggia
uidis uellti mæidar
narghollr þrimu marga.

Suo er sagt at Suiar legde fimtan skipum at Orminum langa. þeir væittu snarpa atsoknn er þeir kuomu omodir til en Nordmenn uðrduzst af kappi ok drapu fiðlda manz en særdu suma. Sua segir Markus logmadr.

Fimtan fiornnis mána
fleygendr at gram rendu
ekkils ytiblðkkum
Olafr und ueg solar.

Nu for Suium allt a æina læid ok Dðnum at Nordmenn helldu skipum med stafnnliam ok akkerum ok hrudu þau er þeir nadu til. sðgdu suerd þeirra ein lðg ðllum Suium er þeir nadu til. Sua segir Hallfredr.

Vpp sðgdu lðgh lðgdar
lif skiott firum hlifa
gnog til gumna feigdar
galkn vid randar balku.

Leiddizst Suium þa vid at halldazst þuiat Olafr konungr gek alluel fram vid kappa ual sitt. þess getr Hallfredr.

Lett hykk leifa brautar
lðgnarungum uaru
gæirs vid gumna stiora
geigurþing at eiga.
þa er frekhladendr fræknir
farleggs at vin iarlla
ufs med hamri hefdar
hringskyrtur fram gæingu.

þa var hin snarpazsta soknn ok miok mannskæd er þeir nafnar(n)er hofdu vid atzst adr Olafr sænski letti fra. Sua segir Markus logmadr.

Grár reif gerdizst drifa
gall brandr vit slðg randa
trðllmaarr tryne sollinn
tueir nafnar hrę iafnnan.
sænskr herr sigri þorrinn
suerd bæit en flo peita
hrid ox hðldar flyde
holl ok fremzstr at ðllu.

Suiar hðfdu latit lid mikit ok suo storskip. uar ok flest folk Olafs sænska sárt en hann ongu nærr en ádr ok uard þo feginn er hann komzst med fiorui undan. Hafde Olafr konungr þa komit aa flotta bæde Daunum ok Suium. Sua segir Markus logmadr.

Tandr flaug tigge rende
tucim dǫglingum skǫglar
hans uegr hofzst med sigri
hǫll ok fremzstr at ollu.

Atlaga Eireks jarls.

379. þessu næst skal segia huat Æirekr jall hafdizst at medan konungarnir bǫrduzst vid Noregs konung. jall lagde fyst at yzsta skipe [253] Olafs konungs j annan arminn sem fyrr uar sagt. sibyrde hann þar vid Jarnnbardann ok hraut þat skip þegar ór tæingslum en lagde þa at þui er þar uar næst ok bardizst til þess er þat var hrodit. tok lidit þa at hlaupa a hinu stærri skipin. en jall hio huert ór tæingslum er hrodit var. en Danir ok Suiar lǫgdu at ollum megin at skipum Olafs konungs en Æirekr jall la ofallt sibyrt vid skipin ok atti hoggorrostu. en sua sem menn fellu af skipum hans geingu adrir j stadinn huilldir ok osarir. Suo segir Halldorr hinn okristne.

Gerdizst snarpra suerda
slitu dreingir frid læinge
þar er gollin spior gullu
gangr vm Orminn langa.

duerks kuodu fram fylgia
frans leggbita hanum
sænska menn at sennu
sunnr ok danskra runna.

þa var orrosta hin snarpazsta ok fell þa miog lid Olafs konungs ok suo kom at lyktum at oll voru hrodin skip hans nema Ormrinn langi. uar þar þa akomit allt folk Noregs konungs þat er uigt uar. lagde Æirekr jall þa a(t) Orminum storskipum. Sua segir Markus logmadr.

þa er iarll æinkar snarlla
endr fim skipum rendi
þrekmannz þridea sinne
þremia storms at Orme.

Jall lagde Jarnnbardann sibyrt vid Orminn. uar þar þa hoggorrosta hin snarpazsta ok hin akafazsta. Sua segir Halldorr.

Ferd kom helldr j hardann
hnitu reyr saman dreyra
tungl skaruzst þar tingla
tangar Ormrinn lange.

þa er bordmikinn barda
brynflags regin lagde
jall uann healms und holmi
hrid vid fafnis sidu.

Æirekr jall var j firirrume a skipi sinu ok var þar fylgt med skiallborg. var þar þa będe hoggorrosta ok spiotum lagt ok kastat ollu þui er til voppna var. sumir skutu bogaskotum ok handskotum. uar suo

mikill uopnaburdr a Orminum at illa matte hlifum firir koma suo flugu þykt spiot ok ðruar. þuiat ollu megin lðgdu herskip at Orminum. en menn Olafs konungs gerduzst þa suo odir at þeir hlupu upp a bordin til þess at na suerdzhðggum til vvina sinna at drepa folkit. ok margir lðgdu æigi suo undir Orminn at j hoggorrostu uillde vera þuiat flestum monnum þotti þat hart at æiga vid kappa Olafs konungs. en Nordmenn hugsudu ekki annat en uilldu æ fram ok drepa sina motstðdumenn. geingu þeir þa slett vt af bordunum þuiat þeir geymdu æigi annars firir akefd ok ahuga en þeir berdizst a slettum uelli ok sukku nidr margir met uopnum sinum mille skipanna. þess getr Hallfredr.

Sukku nidr af nadri
naddfárs j bðd sarir
baugs gerduzst vid vægiazst
verkendr hedins serkiar.

uanr mun Ormr af Ormi
aldyrr konungr styre
huars er hann skridr med lid lyda
leinge slikra dreingia.

þat er ok sagt at æinn norrænn madr uar med Æireki jalli a Jarnnbardanum er Finnr het ok var Eyuindarson af Herlandi. sumir menn segia at hann væri finnzskr. er þat sanliga sagt at hann væri fimazstr madr vid boga ok bæinskeytazstr allra manna j Noregi. hann hafde gert boga Æinars þambaskelfis. en[1] Æinarr var a Orminum j krapparumi ok skaut þadan vm daginn af handboga. hann var allra manna hardskeytazstr. Æinarr skaut ðr at Æireki jalli ok kom j styrisknappinn firir ofan hofut jalli ok suo hart (at) allt gek upp at reyrbondum. jall leit til ok spurde sina menn huerr skaut. ok iafnnskiott kom ðnnur ðrin suo nærr jalli at su flaug mille sidu hans ok handarinnar ok suo aftr j hofdafiolina at vti stod oddrinn. þa mællti jall vid Finn Eyuindarson. skiottu madr mann þann hinn mykla j krapparumi. Finnr suarar. þat ma ek eigi at skiota þann mann er æigi er fæigr. hitt ma vera at ek fai lamit bogann firir honum. Finnr skaut þa billdðru ok kom a midiann boga Æinars j þui er hann dro j þridia sinn bogann sem fastazst. ok brast j sundr boginn ok brast vid hatt. þa mællti Olafr konungr. huat brast sua hátt. Æinarr suarade. Noregr ór hende þer konungr. Æigi mun sua mikill brestr ordinn sagde konungr þuiat gud mun rada rike minu en ekki bogi þinn. tak nu boga minn ok skiot af. Kastade konungr þa at[2] honum boganum. Æinarr tok bogann ok dro þegar firir odd ðrina. hann mællti. ofueykr ofuæykr allualldz bogi. Kastade hann þa aftr boganum til konungs en tok suerd sitt ok skiolld ok

[1]) er *Cd.* [2]) af *Cd.*

bardizst diarfliga. Olafr konungr Trygguason stod j lyptingu a Orminum ok skaut leingstum vm daginn stundum bogaskotum stundum gaflôkum ok iafnnt tueimr senn. var þat allra manna [354] mal będe vina hans ok vvina þeirra er þar vòru vidstaddir ok suo hinna er sannligazst hafua frett til þeirra tijdenda er þar georduzst at ôngann mann hafui þeir vitat beriazst frækiligarr en Olaf Trygguason. þess getr Hallfredr.

Eigi lata ytar
enn þeir er vidazst renna
fremra mann um finna
folkreifum Oleifui.

Hefir Olafr konungr þat firir flesta konunga at hann georde sig audkendann j bardaganum at menn vissu æigi dęmi til at nokkurr konungr hefde synt sig suo opinberliga j orrostum sinum motstôdumonnum vidr sligt ofrefli sem hann a(tti) at etia. syndi hann j þui sina hugrekki ok hiartapryde at aller menn mattu sea at hann fordadizst ôngan haska. Sua segir Hallfredr.

Firdizst uedr sa er uarde
uijd lond Breta strijder
bleyde firdr vid bradan
brekkdoms firir konungs rekka.

hann let um sôk sanna
suerdgust hainn verda
skilit fra ek firir skylia
skod morg rodin blode.

En þui audsęrra ok ôruggara sem konungrinn gerde sig þui ollu mæire ognn ok otti stod af honum sem Hallfredr vottar. Olafr konungr sa fram a skipit at menn hans ræiddu ott suerdin ok hiuggu tijtt ok þat sa hann med at suerdin bitu ekki. þa suarar æinn konungs madr. będe eru suerd uor herra slio ok brotin miog. þa gek konungr ofan ór lyptingunne ok lauk upp hasætis kistuna. tok hann þar ór môrg suerd biort ok huoss ok fek monnum sinum. en er hann tok nidr hægri hendi þa sa menn at bloddropar runnu ofan vndan brynstukunne en æinge visse huar hann var saar. Mest uar uornin a Orminum ok mannskæduzst af firirrumsmonnum ok stafnnbuum þuiat þar var mannfolkit mest ualit en skipit hæst borde. en er mannfallit tok til a Orminum þa fell lidit fyst vm mitt skipit mest af mæde ok saarum. ok er þat mál manna ef þat hit frækna folk hefde maatt alsendis uôrn vid koma at Ormrinn munde seint unnin ordit hafa. Sua segir Hallfredr.

Munde lung hit langa
læsiks vnd gram rikum
blod kom a þrôm þidan
þiod uarliga hrioda.

medan itrs vina atti
innanbordz at morde
su gerdizst at uel varde
verdung iofurs suerdum.

En er mannfolkit fættkadizst a Orminum þa rædr Jllhuge taglarbani til uppgǫngu ok rennr upp stafnnliarnar ok kemzst upp a Orminn. ok er Endride ilbræidr ser þat þa snyrr hann þegar j moti honum ok æigazst þeir vid uopnnaskipti. er þar sæint at telia stor hǫgg ok sterkligan atgang er suo agætir menn hofdu j sinne hreysti ok hardfæinge. en þo lauk suo at Jlhuge fell ok let lif sitt med hinum mesta dreingskap.

### Eirekr jarl komz vpp.

380. En er Æirekr jall suipazst at ok ser (at) Jlluge var uppkominn a Orminn. þat ser hann ok annat at mannfolkit var faatt vm sigluna a Orminum. rædr hann þa til uppgongu ok komzst upp a Orminum vit fimtanda mann. þa kom a moti honum Hyrningr magr Olafs konungs met suæit manna. uard med þeim hin hardazsta hrid þuiat Hyrningr bardizst alldiarfliga. Sua segir Markus logmadr.

Ben let borduzst ytar
brynskids vidum suida
Hyrningr heiptar giornnum
hann er æzstr konungs manna.

Litlu sidar lauk suo med þeim at Æirekr jall hrauk ofan a Jarnnbardann. en þeir menn er honum hofdu fylgt fellu sumir en sumir voru særdir. vard Hyrningr allfrægr af þessi soknn. þess getr þordr Kolbæinsson.

þar var hialmads heriat
hroptz vid dreyrgar toftir
ord fek gott en gerde
grams vornn blam hamri
haulld bilar hárra fialla
Hyrningr adr þeir fyrnnizst.

En er Æirekr jall var kominn ofan a skip sitt þa mællti Olafr konungr til sinna manna. huat er. huort keyrdu þer nu jallinn ofan af Orminum. þeir sogdu at suo var. þat var gert alldræingiliga sagde konungr. var ok þess von þuiat Æirekr jall mun æigi sigra oss medan hann hefir þor j stafninum. þetta heyrdu margir menn ok suo Æirekr jall. Nu med þui at fallit var mart lid af Bardanum en flester menn sarir miog þeir er a lifue voru þa lagde Æirekr jall at lande ok suo Daner ok Suiar. hofdu hofdingiar þa radagerdir[1] huersu med skyllde fara.

### þorkell haafi fann raad til at vinna Orminn.

381. þa mællti Æirekr jall. þetta er æilif osæmd su er getit mun verda medan Nordrlǫnd eru bygd ef Olafr konungr Trygguason verdr

[1]) radagerdu *Cd.*

æigi sigradr af oss þar sem ver hofum enn vflyianda her en hann hefir nu æitt skip ok þo fallit mart manna a þui. nu gerit suo vel Dana konungr ok Suia konungr væitit mer til styrk fiolmennis at ek megi hefna fôdur mins ok reka af hondum oss ollum samt þessa suiuirding þuiat [255] suo mun fara sem ek sagde adr at ver hofdingiar munum aller aamæli af faa ok þeir mest er rikazstir eru ef Olafr konungr setr nu undan med sina menn. En er Æirekr jall hætti sinne rædu romudu margir uel hans mal. tôludu konungar ok jall þa þetta mal. kom þat asamt med þeim at konungar skylldu fa jalli styrk fiolmennan at leggia at Orminum. skillde Æirekr jall æignazst Orminn langa ok allt þat hlutskifti er þar fæingizst en sinn þridiung Noregs huerr þeirra ef hann fek sigrat Olaf konung. En er þetta mal var fest þa biozst allr herr Dana ok Suia enn af nyiu til bardaga. herdu menn þa hugi sina at eggia huerr annan. sogdu at þeir skylldu þa aldri letta af fyrr en þeir hefde sigrat Olaf konung Trygguason. Lagde jall þa af Jarnnbardanum lik ôll ok sara menn en hann skipade j stadinn osarum monnum ok huilldum þeim er hann ualde af Dônum ok Suium. er ok suo sagt af sumum monnum at jarll hafui þa hæitit at lata skirazst ef hann fenge unnit Orminn ok þat til marks at þeirra manna sôgn er med honum voru at hann kastade þór j brottu en setti rodukross j stadinn j midian stafnn a Jarnnbardanum. En er jall hafde buit skip sitt mællti hann vid æinn vitran mann ok mikinn hofdingia er þar var þa vidstaddr þorkell hinn hafui brodir Siguallda jalls. oft hefui ek verit j bardogum sagde Æirekr jall ok hefui ek alldri fyrri fundit iafnnhrausta menn ok uigkæna sem a Orminum eru ok æigi hefui ek set iafnntorsott skip at vinna sem Orminn. nu med þui at þu ert allra manna vitrazstr þa legg til þau rad er þu kant bezst til at Ormrinn verde unninn. þorkell suarar. æigi kann ek þar rad til at leggia en segia ma ek huat Olafr konungr Trygguason sagde sealfr til þa er menn toludu um at Ormrinn munde a þidum sia æigi unninn verda. en konungr sagde at hann mætti vinnazst med æinum hlut ef felldir væri a hann storuidir ok hallat suo til at auduelliga mętti na uppgongu. er þat ok ætlan min at þetta rad dugi. en ef þetta ma ydr æigi vinnazst þa kann ek ekki rad til at leggia. Biozst jall þa vm sem þorkell sagde firir. En medan jall var j þessum buninge ok adr sagdri radagerd ok huilld vard a bardaganum þa var sarum læk(n)ingar læitat ok skodat mannfolk ok (hofdu) hofdingiarnir feingit storan mannskada

### Raad konungsmanna.

382. Nv er þar til at taka at menn Olafs konungs badu hann læita undan med nokkuru moti. sǫgdu sem satt var at þeir hofdu þar mest j hættu sem hann var. letu þess von at aller hans menn munde na lifs gridum af vvinum hans þegar þeir visse at hann væri a brottu. sogdu þeir ok ef hann uillde þat helldr at þeir mætti þat vel læika at vinda segl upp a Orminum ok sigla a haf vt ok sua nordr eftir lide sinu. En konungr suarar med sama hætti sem fyr at hann munde æigi flyia firir sinum vvinum medan hann mætti hallda hæilu skipe sinu. kuat hann þat ekki rett þuiat enn þiki mer æigi vist sagde hann at þeir fai unnit Orminn medan suo margir uasker dræingir eru til varnar. Ok er þeir attu um þetta at tala þa reri at Orminum Vindasnekkian su hin sama er ein saman hafde legit vit land vm daginn ok fyrr er getit at til tals legde uid konung firir bardagann. þeir menn er a skæidinne voru festu sig vid aftr uit lyftingina a Orminum ok budu konungi at ganga upp a Orminn ok beriazst med honum. sogdu þeir at þeir uilldu falla þar med konungi edr komazst burt med honum ef þess yrde audit. Konungr suarar. ekki gerir mer sagde hann at þer gangit a Orminn med oss en hitt ma vera at mer komi at gagni at þer liggit j sama stad sem þer hafit j dag verit. Reru þeir þa aftr ok lǫgduzst þar þa enn um akkeri.

### En atsokn Eireks jarls.

383. Eirekr jall lagde at Orminum j annat sinn þegar er hann var buinn ok suo allr herrinn Dana ok Suia lagde þa enn til orrostu vid Olaf konung Trygguason ok stungu sumir stǫfnum at Orminum. en hitt uar allr meginherrinn er la j skotmale vid Nordmenn ok skutu a þa sem tidazst. En af Æireki jalli er þat at segia at hann reri suo fast at Orminum at brakade j hueriu tre ok suo er sagt at j þeim atrodre bryti hann allan buning af Orminum vm suirann ok sǫxin. sidan sibyrde hann vid Bardann ok gerde allharda hrid med þui lide er þar var a omott. spardizst hann ok ekki sealfr vid orrostuna ok þeir er eftir voru af hans monnum. Suo segir Halldorr.

Hykkat ek uægd at vige
uarm drott iofur sottan
fiord komz [256] iall at jǫrdu
ǫgnnhardan sig spaurdu.

þa er fiardmyuils forut
folkhardr a trǫd barda
litt uar sæuar soti
suangr vid Orminn langa.

Olafr konungr ok hans menn uðrduzst med hinne mestu hreysti ok dræingskap suo at ekki orkade a um mannfallit a Orminum medan þeir (uoru) huilder. en þeir drapu mart manna af sinum vvinum bæde af Jarnbardanum ok ðdrum skipum þeim er at hofdu lagt at Orminum. en þeim Æireki jalli ueitti enn sæint atsoknin. þa let hann vinda upp storuidu af Bardanum ok fella a Orminn langa. er þat mal manna at Ormrinn munde æigi unninn hafa ordit nema þeir hefde þetta rads tekit. þess getr Markus logmadr.

Ransriki remmilauka
raukspellir bat fella
styrs stærri haska
strangr a Orminn langa.

ættstorr ella matti
Æirekr j dyn gæira
jtrann alldri vinna
Olafr vnd ueg solar.

Tok þa miogh at hallazst Ormrinn er storuidir voru fellder a annat bordit. gerdizst þa mikit mannfall af huorumtueggium. en er þyntizst skipanin til uarnnar a Orminum suo at uida gerdizst aud bordin þa læitade Æirekr jall til uppgongu. uard þa enn hðrd uidtaka. En er stafnnbuar Olafs sa (at) Æirekr jall uar uppkominn a Orminn þa gengu þeir aftr a skipit ok sneruzst til uarnnar j moti honum ok væittu hit hardazsta vidnam. en firir þui at þa tok suo miog at falla a Orminum at uida gerdizst aud bordin þa toku jalls menn vida upp at ganga. en allt þat lid er þa stod upp til uarnar sotti aftr a skipit þar til er konungrinn var. Sua er sagt at þorstæinn uxafotr væri j firirrumi aftr vid lyptingina. hann mællti til Olafs konungs þa er lid jalls gek upp sem odazst a Orminn. herra sagde hann. skal nu huerr sem ma. Hui skal nu æigi sagde konungr. þorsteinn slo þa med hnefa sinum æinn mann jalls er upp hliop a bordit hea honum at hann setti vtan vid vangann suo hart at madrinn braut langt a sioinn braut ok hafde þegar bana. en eftir þat gerdizst þorsteinn suo ódr at hann græip upp bæitiasinn ok barde med. en er Olafr konungr sa þat mællti hann til þorsteins. tak uopnn þin madr ok verst med þeim þuiat uopnin eru til þess at menn skulu med þeim beriazst j orrostum en æigi uega med æinum saman hondum sinum ok tream. þorsteinn tok þa suerd sitt ok bardizst dræingiliga. Var þa enn vm hrid hðrd orrosta j firirruminu. Olafr konungr skaut or lyptingunne gaflðkum ok spiotum. þess getr Markus logmadr.

Huast skaut hlifar brustu
hilldingr ór lyptingu
sidan synt nam eydazst
soknnstrangr drekinn langi.

þa er Olafr konungr sa at Æirekr jall uar kominn j firirrumit a Orminum skaut konungr til hans þremr kesium skamskeptum. en þær foru ekki eftir veniu þuiat Olafr konungr hafde uerit æigi missefæingr huat sem hann hafde adr til skotit. en æinge þessi kesia kom a jall. flaug hin fysta firir vtan hægri sidu honum en ǫnnur med sama hætti a vinstri hlid en hin þridea kesia flaug fram j skipit firir ofan hǫfud jalli. þa mællti konungr. suo mista ek alldri mannz fyrr ok er mikil hamingia jalls þessa ok þat uill gud at hann hafui rikit (j) Noregi nu um sinn. er þat ok æigi undarligt þuiat ek ætla hann nu skift hafa um stafnnbuana a Bardanum. for þat suo sem ek sagda at hann munde æigi sigrazst j uorum skiptum ef hann hefde þór j stafninum. Nu firir þui at mart folk af lide jalls uar þa komit upp a Orminn sua sem vera matti a skipinu ok skip hans lagu ǫllu megin at Orminum en litit fiolmenni til uarnnar moti suo myklum her þa fellu nu a litille stundu margir kappar Olafs þoat þeir væri bæde sterkir ok fræknir. þar fellu þeir brædr badir magar Olafs þorgæirr ok Hyrningr Vikarr af Tiundalande Vlfr hinn raude Endride ilbreidr þorsteinn huiti þorsteinn skelkr Juar liomi ok margir adrir roskir dreinger þeir er agætt ord leifdu eftir sig. Kolbæinn[1] stallari hafde varit stafninn vm daginn med ǫdrum frambyggium. Kolbæinn uar buinn at klædum ok uopnum rett a somu læid ok Olafr konungr ok þui hafde hann suo buizst at hann hugsade ef þess kynne vid þurfa sem nu var at uæita nokkura hlifd Olafi konungi. En er falla tok hit fræknazsta lid Olafs konungs j firirruminu þa gek Kolbeinn upp j lyftingina til konungs. matti þa æigi kennazst skiott huorr þeirra uar þuiat Kolbæinn uar allra manna mestr ok fridazstr synum. uar þa suo mikill uopnnaburdr j lyftingina at allir skilldir þeirra konungs ok Kolbæins voru skufadir af skeytum. en (er) jalls menn sottu aftr at lyptingunne þa syndizst þeim suo mikit lios [257] koma yfir konunginn at þeir mattu æigi j gegn sia. en þa er liosit leid af sa þeir huergi Olaf konung.

## Frasagnir Snorra vm brotthuarf Olafs konungs.

384. Nv eru þar margar frasagnir vm þa atburde er þar gerduzst. Snorre Stulluson segir sua. at þa er Olafr konungr sa at flest lid sitt uar fallit en Æirekr jall ok hans menn þustu aftr at lyftingunne at Olafr konungr ok Kolbæinn stallari hlupu þa bader firir bord ok a sitt huorr. en Æirekr jall ok hans menn hǫfdu lagt at smaskutur ok drapu þa menn er a kaf hlupu. en er konungr sealfr hafde a kaf hlaupit þa

[1]) r. Kolbiorn

uilldu jalls menn taka hann hondum ok færa hann jalli. en Olafr konungr bra yfir sig skilldinum ok steyptizst j kafit en Kolbæinn stallare skaut sinum skillde undir sig ok hlifde ser suo vid spiotum er lagt uar af skipum þeim er undir lagu Orminum ok fell hann suo ofan a sioinn at skiolldrinn uar undir honum ok komzst hann þui æigi j kafit adr hann uar handtekinn. þessi er sǫgn Snorra. En suo er sagt fra ordum Kolbæins at þa er hann uar kominn upp j lyftingina ok konungr tok at skiota at Æireki jalli þa sa Kolbæinn þat sem adrir menn hǫfdu adr set at blod hraut fram undan brynstukunne ok litlu sidarr þottizst hann sea suipinn til konungs at hann stǫk firir bord j bryniu sinne ok ollum bunade þeim sem hann hafde haft vm daginn ok bra yfir sig skilldinum at vuinir hans uilldu taka hann. ok j þeirri suipan leit Kolbæinn til sinna motstǫdumanna ok sa at þeir voru þa suo margir uppkomnir a Orminn at kalla matti (at) af þeim væri fullt skipit. sagde Kolbæinn at þa slo a hann litlum otta. sneri hann þa a þat bordit er konungr hafde adr verit. en med þui at hann sa þa ekki til Olafs konungs þa let hann eftir skiolld sinn ok hliop firir bord. en er hann kom nidr a sioinn uard undir honum skiolldr æinkar fagr þann er hann þottizst kenna at Olafr konungr hafde borit um daginn. en er Kolbæinn kom nidr a skiolldinn vard hann uarr uit at madr suam undir skilldinum hogliga. en sa madr firirlet skiolldinn þegar hann kende at þunginn kom a. þui næst uar Kolbæinn handtekinn ok dreginn upp j skutu æina. hugdu þeir at þat væri Olafr konungr. var hann þa leiddr firir Æirek jall. en er jall uard þess uarr at þar var Kolbæinn en æigi konungr þa uoru Kolbæini grid gefin af jalli ok hans monnum.

### Huerir kuomuz lifs af Orminum.

385. J þeirre suipan hlupu marger menn Olafs konungs firir bord af Orminum þeir er þa uoru a lifue ok adr hofdu dreingiliga uornn uæitta sem æ mun uera j minnum haft þeirra uǫrnn ok hraustlæikr. en þo segir Hallfredr at menn kalli þorkel nefiu æinna agætazsta fylgd ok fastazsta hafua uæitt Olafi konungi brodur sinum. Hann segir suo.

Gott er giorua at fretta huernn rakligazst rekka  
gunnr uox firir haf sunnan  
suerd bitu fæigra fyrda satt mun itr vm slettan  
fior runn at þui monnum. sylg Olafi fylgia.

Vottar Hallfredr ok þar med at þorkell hliop sidazst firir bord allra manna Olafs konungs.

Ognrædir sa auda
armgriotz tronu fliota
hann raud gæir at gunne
gladr ok bada nadra.

adr hialldrþorinn helldi
hugframr j baud ramri
snotr a snæri otri
sundz þorketill undan.

Lagdizst þorkell til landz ok healpade suo lifui sinu at sinne. en þo tok hann sidan grid af Æireki jalli sem adrir þeir er verit hôfdu med Olafi konungi. Suo segizst at .vj. menn adrir en Kolbæinn stallare væri teknir af sunde þeir er grid voro gefin. Æinarr þambaskelfir þrandr skialge Augmundr sande þorsteinn uxafotr Biornn af Studlum Asbiornn ór Mostr. Siguallde jall hafde legit med skip sin .x. vm daginn ok verit ekki j orrostunne. en er Olafr konungr hafde firir bord hlaupit þa æpti herrinn allr sigróp. ok lustu þeir arum j sio Siguallde ok hans menn ok reru þa til bardagans. þess getr Halldorr.

Droguzst vitt at vige
Uinda skæidr ok gindu
þridea auds aa þiodir
þunngalknn varin monnum.

gnyrr uard a sia suerda
slæit ôrnn gera beitu
dyrr uo dræingia stiore
drott kom môrg a flotta.

En a þeirre sômu stundu er opit var ok Siguallde jall reri til skipanna lustu þeir menn arum j sia ok reru brottu sem hardazst er a þeirre voru Uindasnekkiunne er til tals hofdu lagt tysuar um daginn vid Olaf konung Trygguason. reru þeir þegar aftr under Uindland ok uar þat þegar ræda margra manna at Olafr konungr munde steyft hafa af ser bryniunne j kafui ok kafat vt vndan langskipunum synt sidan til Vindasnekkiunnar ok hefde menn Astridar flutt hann til landz. Er þat allt saman til likenda radit [258] vm brottkuomu Olafs konungs huat er þeir menn hafa sidazst til hans seth er þar voru j bardaganum ok þær frasagnir er Snorre Stulluson vottar at geruar hafui verit um ferder Olafs konungs ok nokkurir Nordmenn hafui kent hann vt j londum af þeim iarteignum er hann sealfr hafui sent hingat aa Nordrlond sem sidarr mun sagt verda. þat er enn til þess dregit af sumum monnum at aller vissu þat þeir er or bardaganum komu at hann hefir æigi fallit a Orminum. en þo segir suo Hallfredr uandrædaskalld.

Væit ek æigi hitt hue hæita
hungrdeyfui skal ek leyfua
dynsædinga daudan
dyrbliks ędr þo kuikann.

allz sannliga segium
sárr mun gramr at huoru
hætt er til hans at fretta
huortueggia mer segger.

En huornn ueg sem þat hefir verit þa kom Olafr konungr Trygguason alldri aftr til rikis j Noregi. en þo kallar Hallfredr ser ok ôdrum uinum Olafs konungs þeim er mest angrade at missa sliks hofdingia

vera j harms letta at hann væri a lifue þo at hann uæri firdr riki ok sinu fostrlande. Hallfredr quad visu.

Sagdr uar mer ne meira
muni madr strid of bida
lydum firdr ok lade
landuordr firir sio handann.

uæri oss þott ærumz
elldz þeim suikum bellde
heila liknn ef hauka
haklifs jofur lifde.

En þo at skynsamir menn þeir er þar uoru j bardaganum segdi huerr þat er sidazst sa til Olafs konungs þa þottizst einge þeirra fullan visdom mega a bera huort konungrinn munde þadan j brott hafa komizst edr æigi. Nu er ádr ritat huat Kolbæinn stallari sagde er næstr uar Olafi konungi adr hann stôkk firir bord.

## Sogn Einars þambaskelfis.

386. Sua sagde Æinarr þambaskelfir at þa er Æirekr jall sotti aftr j firirrvmit a Orminum at lyftyngunne þa sa Æinarr þat til konungs at bloddropar runnu nidr a kinn honum konungi undan healminum er hann hafde a hôfde. en er Æinarr uillde at hyggia huat konungr tæki til rads þa er jall kæmi at honum þa sagde Æinarr koma steinshôgg vid eyra, ser suo mikit at hann fell j vvit. en er hann stod upp ok vitkadizst þa sa hann huerge konunginn. Suo sagde Skule þorsteinsson Egilssonar fra Borg at hann sa Olaf konung standa j lyptingu a Orminum þa er Skuli sotti aftr med Æireki jalli. ok þa sagdizst hann luta nidr ok uellta manna bukum fra fotum jalli. en er Skuli rettizst upp þa var konungrinn horfinn. En litlu sidarr þa er sigropit kom upp sa nokkurir menn af motstôdumonnum Olafs konungs at madr j raudum klædum suam at Uindasnekkiunne þeirri er sagt er at a væri menn Astridar konu Siguallda jalls. en þeir menn er a þi skipe uoru stodu upp ok drogu hann upp j skipit ok reru þegar j brott sem skiotazst suo sem fyrr er ritat. Hefir sidan halldizst sa alþydu rom(r) at þeir menn hafui flutt Olaf konung lifanda brott med ser þo at nokkurir menn hafui þui j moti mællt. finnzst þat ok j kuedskap Hallfredar at honum þikir meire likende at Olafr konungr hefde (æigi) þadan komizst med fiorui firir fiolmennis saker. lek þa þo fyrst mest a tueim tungum um þessa atburde. sannade annarr at Olafr konungr hefde a brott komizst en annarr syniade. suo sem Hallfredr segir.

Enn segir audar kenne
austr ór malma gnaustan
seggr fra sarum tiggia
sumr at braut hafi komizst.

nu hefig sannfregit sidan
siklings ór styr myklum
kanna ek æi mart vid manna
mord uæipanar ordum.

En þa er sögn kom vtan ór londum vm ferder Olafs konungs þa tok ifa af morgum manni vm brottför hans. en vard sua ath (Hallfredr) quad sem honum uar j fystu sagt. harmade hann geyse miog er hann var æigi þar ath beriazst med Olafi konungi. þat er mællt at þessi orrosta hafui fræguzst verit a Nordrlondum firir margra hluta sakir. fyst af þeirre hinni agætu uörnn er Olafr konungr ok hans menn uæittu a Orminum er menn uita æigi dęmi til (at) nokkurir menn hafui jafnnlæinge uarizst ok med slikri hreyste sinum (v)vinum vid sligt ofrefli sem þeir attu at etia. þar med af suo hardri atsoknn Æireks jalls ok hans lide sem uidfrægt er ordit. var ok þessi fundr miog agættr af myklu mannfalli ok af þeim sigri jalls er hann hraud þat skip er j þann tima hafde mest ok fridazst gert verit j Noregi ok margir mælltu at alldri munde med uopnum unnit verda a uatnne fliotanda ef þuilikum dreingium væri skipat sem þa var. en mest firir þa skylld uar þessi orrosta miog vidfręg at sa konungr var sigradr er frægzstr uar a danska tungu. ok suo uar mikil uinsæld Olafs konungs at þat uar alþydu hugsan at æige munde slikr konungr fædazst j Noregi. Sua segir Hallfredr.

| | |
|---|---|
| Fyrr mun hæimr ok himnar | adr en glikr at godu |
| hugræifum Oleifui | gædingr mune fædazst |
| hann uar menzskra manna | kænn hafui Kristr enn hreine |
| mestr fliott j tuo bresta. | konungs önd ofar londum. |

[259] Suo er sagt at þessi bardagi hafui verit a ödrum degi viku hinn fimta idus dag septembris manadar þat er æinne natt eftir Mariu messu hina sidarre. þa uar lidit fra holldgan uorss herra Jesu Cristi þushundrat ara. þat var a atta áre rikis Adalrads Æingla konungs ok a .vij. áre rikis Sueins konungs tiuguskeggs Dana konungs. a þui sama áre andadizst Otto keisare hinn þride med þui nafnne en Hæinrekr tok riki.

## Andlaat þyri drottningar.

387. þa er lokit uar manndrapum a Orminum uar hann rannsakadr ok ruddr af likum daudra manna. þa var þyry drottning leidd upp undan þilium miog harmþrungin ok gret sarliga. en er Æirekr jall sa þat þa gek hann at henni ok mællti med mykille ahyggiu. her hafua ordit stor tijdende j falle margra gofgra manna. höfum ver mikinn harm gert j þui morgum manni j Noregi þo at þer se næst höggit ok þer falli þyngzsl sem uon er. nu med þui at æigi ma aftr taka unnith uerk þa skal met þui bæta sem ma at ef ek fæ nokkut riki j Noregi

þa skal ek gera ydra tignn j alla stade sem ek ma mesta ok ydr sæma j ǫllum hlutum. Drottning suarar. þessi þin hæit erv mællt af myklum dreingskap ok goduilia sem þu munt oft af þer syna ok giarnna uillda ek lifa ef ek mætta ok þekkiazst þinn godgerning. en suo sarum harmi er mitt hiarta slegit at ek ætla mer æigi uon lifs næringar. Ok at þui gafzst sem hon sagde at hon matte huorke eta ne drekka firir trega. spurde hon sidan Sigurd byskup huat manni være lofat firir gude at næyta minnzst til fædu til lifs næringar. ok sidan bergde hon eftir þui sem hann sagde henni at minnzst være lofat ok med þui hlydne marke andadizst þyry drottning eftir .ix. daga.

## Maarr sat fyrir Hallfredi.

388. Nu er þar til at taka er Hallfredr ua̧ndrædaskalld uar (a) Ottarstǫdum med Gallta brodur sinum um uetrinn en fadir hans uar adr andadr. Hallfredr orti þenna uetr visur vm Gris ok uar þat halfnid. Vm uorit ræid Hallfredr sunnan Arnnaruatz heide þa kom a uedr firir þeim ok quad Hallfredr þat gerninga uedr. ridu þeir þa ofan eftir Vatzdal þar til er gardr uar firir þeim ok sprǫttu þar upp .xx. menn. þar var Maarr hann hleypr at Hallfredi ok frænde hans med honum. Hallfredr hio þegar til hans en hann bra firir sig blodtrǫgle ok uard hann ekki sarr. Hallfredr stǫk þa af bake ok komzst j stakgardz hlidit. þa kallade Márr. sækium at honum. Hallfredr quad visu.

Mig tegar sætra siotla
snot uerd ek þegnns firir hoti
dęmilatrs at domi
drekkiannde mer sekkia.

helldr mun hęliballdri
blokæirs firir þui mæira
uon erumzst sliks en slæikia
sinn blodtrygil innan.

Ok skildu vid þat.

## Maalefni Hallfredar.

389. Hvnrǫdr Uefridarson bio þa at Mobergi j Langadal. med honum uar Griss j þinge. en þorkell krafla þorgrimsson bio þa at Hofui j Uatzdal. hann atti Uigdijse dottur Olafs fra Haukagile en Jngolfr þorstæinsson var frafallinn. þorkell uar þar mestr hofdinge um nalęgar suæitir. Nu er at segia fra Grise at hann ferr til motz vid Hunrǫd ok segir honum skipte þeirra Hallfredar ok spyrr hann rada. Hunrǫdr suarar. fysa uil ek at þu buir þetta mal til en Kolfinnu maal se kyrt þat er liotligra. en uigsmalit ok kuedskapinn bu þat huorttueggia til Hunauatz þings. Griss for suo med. ræid til Hreduuatz þar

attu þeir bu brædr. Gris stefnnde Hallfredi til Hunauatz þings vm uig Æinars. Gallti spurde Hallfred huernn ueg hann ætlade til um mal þetta. Hann suarar. ek mun sækia traust þorkels mags mins. Hallfredr ræid þa sunnan vm uorit ok þeir .xxx. ok gistu at Hofui ok sottu nu þorkel at trausti. þorkell kuetzst mundu uæita at malum ef bodin væri nokkur sæmd. Nu komu menn til þings ok a þinginu þa gengu þeir Hallfredr ok Gallti til budar þorkels at vita huar koma skyllde. ek mun biodazst til gerdar segir þorkell ef huorirtueggiu iatta þui ok mun ek leita um sættir. Nu gengu þeir vt ór budinne en Brandr Aualldason brodir Kolfinnu la a uegginum ok hio Gallta banahögg j þui er hann gek vt. Hallfredr hafde hialminn konungs naut a höfde ok sagde þorketle vigit. þorkell gengr med honum til budar Griss ok bad hann fram selia manninn edr þeir munu briota upp budina. þa hliop Hilldr j dyrnar modir Brannz ok spyrr huat þorkell uillde. en hann sagde henni vigit ok sagde eyrendit. Hilldr mællti. ekki munde þer þat j hug at drepa son minn þa er ek skaut yfir þig skikkiuskauti minu ok firda ek þig [260] bana eftir uig Glædis er þeir þorgils ok þorualldr uilldu hafa höfut þitt. þorkell mællti. lidit er nu þat. gangi konur vt ór budinne ok vilium ver sidan læita hans. Brandr uar falldinn ok komzst hann suo vt ok hittizst æigi. þorkell quad hann mundu farinn til budar Hunrödar. Hallfredr mællti þa. grunr er mer nu a liduæitzslunne ok skal ek nu bioda Grise holmgongu. Gris quad hann þat bodit hafa sem hann ætti at bæida. þa quad Hallfredr visu.

þa mun reyndr und rau(n)du
rogherdundum uerda
mannz at malma sennu
minn hugr vid Kolfinnu.

ef suo at orrostu eyre
uppsatrs boda at lata
uel hyggium þat uiggiar
visa mer at Grise.

Ok a þinginu serr Hallfredr at Gris hafde suerd þat er Myklagardz konungr hafde gefit honum. hann sa æinn dag huar Kolfinna gek. Hann kuat þa visu.

þikki mer er ek þekki
þunnisunga gunnar
sem fleybrautar fliote
fley ut medal skeria.

en þa er ek se sagu
saums j kuenna flaumi
sem skrautbuin skride
skeid med gylltum ræida.

## Fra Hallfredi.

390. Sua bar til um nottina adr þeir skylldu beriazst vm daginn eftir þa er Hallfredr suaf j bud sinne dreymde hann at hann þottizst

sea Olaf konung Trygguason. Hallfredr þottizst verda feginn ok þo hrǫddr. honum þotti konungr suo mæla til sin. sefr þu Hallfredr en þo mun þer uera sem þu uakir. þu ætlazst ogott rad firir at beriazst vid Gris at suo illum malaefnum sem þu hefir. en hann hefir þess gud bedit at sa ykkarr skule sigrazst a odrum er rettara hefir at mæla. nu haf þu mal mitt at þui at þu tak med þokkum at æigi verde holmgangan ok bǫt helldr fe þat er þu ert sakadr vid hann ok hird æigi þo at þer se hallmællt at þu hrædizst. en a morgin er þu uaknar gak þu vt a hollt þat er her er skamt fra þingstǫdunne þar sem gǫtur mætazst. mantu þa sia menn rida. haf þu tal vid þa ok kann vera ath þa þiki þer annat mæira vert en holmgangan vid Gris. Hallfredr vaknar ok hugsar huat firir hann hafde borit ok sagde drauminn æinum budarmanni sinum. Sa suarar. hrædizst þu nu grisinn ok væri þer betra at hafa sætzst vid hann fyrr þa er hann mællti uel til. en nu mun uirt af ouinum þinum sem þu þorir æigi at beriazst. Hallfredr mællti. virde þat huerr sem uill en hafua skal ek rad Olafs konungs þau munu mer bezst duga sem fyrr. kann ok vera at nu komi þat fram er hann mællti adr vit skildum at mer þiki brátt betra at hafa verit med honum en her a Jslande. Vm morguninn gek Hallfredr vt a holltgǫtu nokkura ok sa menn rida j litklǫdum. hann gek firir þessa menn ok spurde þa tijdenda en þeir sǫgdu fall Olafs konungs Trygguasonar. honum bra miog uit þessa tidenda sǫgnn sem hann væri steine lostinn ok gek heim til budar sinnar ok ádr aftr a þingit ok sagde tijdenden. lagdizst sidan nidr j rum sitt med myklum harmi hugar. þa mælltu menn Griss at Hallfredr yrde litill af þessu. Gris suarar. þat er ekki a. þa leid. minna soma hafda ek af Myklagardz konungi en hann af Olafi konungi ok þotti mer þau tidende mest er ek fretta frafall stolkonungsins ok uæith sa æinn er misser sins lanardrottins huersu heit at verda kann hofdingia astin. nu þiki mer gott at ek skal æigi beriazst vid konungs giftuna sem Hallfredi mun iafnan fylgia. Nu var þat talat j fyzstu at þorkell munde gera um mal okkur. Hallfredr jatte þui. þorkell mællti. þat er gerd min ath firir uig Gallta kome uig Æinars þorissonar ok þar med heimsoknn vit Kolfinnu firir manna mun. en firir oþokka visur er Hallfredr hefir ort vm Gris skal Hallfredr gefa honum æinnhuern godann grip. þa quad Hallfredr visu.

**Auds hof ek illrar tidar**
**alldreingiliga feingit**
**mik hefir giollnu gulle**
**gramr ok jall of framdan.**
**ef glapskulldir giallda**
**gialfr tæigs ok hefk æigi**
**mǫrk firir minnzstan uerka**
**matvisum skal ek Grise.**

þorkell bad hann þa hætta verkanum. ok legg nu fram grip nokkurnn uid Gris þo at æigi se af konungs nautum. Hallfredr let þa til hringinn Siguallda naut ok skildu þeir at þui. reid Hallfredr fyst af þinginu sudr vm heide ok dualdizst at bui sinu vm hrid vid litla glede.

### Fra hormungarordum konungs manna.

391. þa er Erlingr Skialgsson magr Olafs konungs ok adrir þeir menn er siglt hǫfdu fra konungi spurdu þesse stortidende er gerst hǫfdu uid Suðldr þa hrygduzst þeir ok hǫrmudu er þeir hofdu suo vuarliga skilit vid Olaf konung ok latit hann eftir j suo myklum haska. angrade þat Erling þui mest at missa sliks hofdingea at hann var meirr uandabundinn Olafi Trygguasyni en adrir. uar hann þa einn suo af ollum [261] lendum monnum j Noregi at æige læitade til sættar vid jarlla er þeir toku riki Æirekr ok Sueinn. Niu uetrum eftir Suðldrar orrostu do Suæinn Danakonungr en þremr uetrum eftir dauda hans andadizst Adalradr Æinglakonungr. toku þa konungdom j Æinglande synir hans Jatmundr, ok Jatgeirr.

### Draap Stefnis.

392. Stefnir þorgilsson hafde verit med Olafi konungi Trygguasyni sidan konungr hafde sent hann til Jslandz sem fyrr er ritat. uar Stefnir med þui lide Olafs konungs er siglt hafde fra honum a Uindlande. en er þau tidende komu nordr j Noreg at Olafr konungr var radinn fra riki þa fek Stefni þat mikils harms sem odrum astuinum konungs. angrade su saga mest alla þa er leingst hofdu verit med Olafi konungi ok j mestum kærleikum. Stefnir unde æigi j Noregi eftir Olaf konung. redzst hann þa til Romferdar ok gek sudr. En er hann kom sunnan j Danmǫrk kom hann einn dag þar sem firir uar Siguallde jall. ok er Stefnir sa jall þa quad hann þetta.

Eigi mun ek nefna
nærr mun ek stefnna
nidrbiugt er nef
a nidinge þeim
er Suein konung
suæik or lande
en Tryggua son
a talar dro.

þetta uar sagt Siguallda jalli ok þottizst hann kenna sitt mark a þessu ok let taka Stefne ok drepa hann ok uar þetta ein hans daudasok.

### Olafr konungr komz or bardaganum.

393. Nv skal uikea rędunne til þeirra frasagna er þat sanna er Olafr konungr hafi a brott komizst ór bardaganum a þeirre somu

snekkiu sem fyrr var getith. Olafr konungr hafde morg sár ok flest sma nema tuð uoru nokkui mest annat j enne af steins hðggi en annat a hende af ðr j brynstukuna ok hęfir þetta huortueggia uit þat sem fyrr er ritat at Kolbæinn stallari ok nokkurir adrir er a Orminum voru sa at blod rann fram undan brynstuku Olafs konungs. en Einarr þambaskelfir sa þat sidazst til konungs at bloddropar stukku nidr a kinn honum undan hialminum. Olafr konungr uar (med) Astride ok uar þa græddr. þar var hann kendr af mðrgum monnum ok budu rikismenn at efla hann aftr j land sitt en hann sagdizst æigi uilea beriazst vid gudsifia sina. þuiat ek ætla sagde hann at gud uile at þeir hafui nu rikit j Noregi. ma ek ok vm þat hręddr vera at gude hafui mislikat min rikisstiornn. þa baud Astridr at hann skyllde hafua æignir þær ok riki er hon atti j Vindlande ok Siguallde jall atti ekki ualld a. en hann næitte þui. þa mællti Astridr. uilltu at ek fylgi þer a fund Adalrads konungs hann er mikill vinr þinn ok hann mun væita þer slikan soma sem þu uill af honum þiggia. Olafr konungr næitte þui. Astridr mællti. huert lidsinne ma ek þer uæita þat er þu uiler at mer þiggia. Hann sagdizst uilldu fara til Roms. Astridr bio þa ferd hans sem bezst ok for sealf med honum sudr til Rinar vid hinn .xiii. mann ok at skilnade gaf hon honum klyfiadan hest af fe ok margar adrar godar giafir. huarf Astridr þa aftr vid fiorda mann en hon fek honum .viij. til fylgdar. for Olafr konungr þa sudr til Roms ok j þessi ferd dreif til hans mart manna þuiat hann gerdizst tulkr firir ollum pilagrimum þeim er til hans komu ok sagdizst hann vera norrænn kaupmadr. Olafr konungr fann pafann ok sagde honum sitt rad ok huerr hann var. Suo lykr Astridr sinne frasognn. Sidan for Olafr konungr vt vm haf til Jorsala ok fann þar patriarchann ok Jorsala konung ok toku þeir hann med hinne mestu sęmd. þotti þeim mikils uert vm uænleik hans þuiat þeir kendu hann af yfirbragde at hann munde uera tiginn madr ok agætrar natturu. hann sagde þeim at hann (hefdi) verit konungr kalladr j sinu lande. þa budu þeir honum at þiggia at ser mikit riki en hann uillde þat æigi. gafu þeir honum þa (.ii.) borger ok .iij. kastala ok þat þektizst hann ok tok þa munks klæde.

## Fra Olafi konungi ok sogum hans.

394. Ða er Olafr konungr Trygguason hafde brottu verit .v. uetr or Noregi þa foro enskir menn nokkurir til Jorsala. en er þeir kuomu aftr j Eingland færdu þeir Adalrade konungi bok þa er Olafr Tryggua-

son hafde feingit þeim j hendr ok sent Adalrade konungi med skyrum jartæignum. a þeirre bok uar saga Olafs konungs Trygguasonar ok .vij. adrar heilagra manna sǫgur. þar var skyrt sagt huersu Olafr konungr komzst a burt ór bardaganum ok sidan fra ferdum hans allt a somu leid ok Astridr hafde sagt ok þui framar at þar uar græiniliga sagt um Vindasnekkiu þa er Olaf konung flutti til landz at þar væri a Astridr systir Gæiru er att hafde Olafr konungr ok Dixin vinr Olafs konungs er verit hafde radgiafui Geiru [262] drottningar. (suo ok) at þetta hefde verit radagerd þeirra allra saman ok Olafs konungs þa er þau laugdu tysuar til tals uid hann vm daginn at þau skilldu liggia einskipa uit eyna þar til sem lyktade bardaganum. sagde þar ok suo at sidan er þau kuomu til Vindlandz at þau væri .ij. daga oll saman j Bustaborg. Suo er ok sagt at nærr þeim tima er þessi bok kom til Adalrads konungs a Æinglande þa kom æinn madr skynsamr ok skilgodr þott æigi se her nefnndr austr til Noregs er sendr sagdizst vera af Olafi Trygguasyni til Erlings mags hans ok Astridar systur hans. sa madr sagde at Olafr lifde ok væri firir utan haf j munklifue. þessi madr hafde at sanna sǫgu sina knif ok bellti at færa Astride er hann quad brodur hennar hafua sent henni. Astridr sagde suo at hon kende georla at Olafr konungr hafde att þessa gripe er þa uoru henni færder.

## Gautr kom i Sudrlond. capitulum.

395. Nu skal segia þa hlute er ek nam af frodum monnum segir sa er sǫguna hefer komponat. A þui sama are er þeir frændr redu badir landi Magnus hinn gode ok Haralldr Sigurdarson þa for ór lande ok ætlade til Romferdar æinn norrænn madr er Gautr het. en þessi atburdr uard a .vij. are hins .v. tigar eftir þat er Ormrinn langi uar unninn firir Suðldr. En er fyrrnefndr Gautr kom sudr j Saxland ok hafde farit til Kolni þa mætti hann þeim manni er Gauti het ok hafde verit felage Gautz. uar Gauti þa nykominn af Roma. þa spurde Gautr ef Gauti hefde nokkut fe at lana honum. þa suarar Gauti. ek mun æigi at æins lana þer slika peninga er ek hefue til helldr ok fylgea þer sealfr huert er þu uill fara. Foru þeir þa fyst til Roms ok sidan vt yfir haf til Jorsala. þui næst uilldu þeir fara firir foruitni sakir vt at[1] hafe hinu rauda ok huar Moyses hafde læitt Gydinga vtan af Egiptalande. ok suo sem þeir voru langt a ueg komner at fara til Egiftalandz þa uilltuzst þeir a eydemǫrkum en þa tok Gauti sott ok andad-

[1]) rauda *tilf. Cd.*

izst. eftir þat for Gautr æinn saman leinge uillr a skogum vti ok þolde bæde hungr ok erfuide. uillde hann þa aftr uenda sinum ueg en uisse æigi georla huert hann fór. þat uar æinn dag er hann kom fram ór mörkinne at aa æinne mikille en ödrum megin arinnar sa hann mikit munklifue. fystizst hann þa miog at komazst yfir ána til klausturs-ins þuiat hann uænti ser nokkurrar olmosu. hann fór bæde upp ok ofan med anne ok fann huorke bru ne skip. en suo uar hann þa modr af hungri ok þosta ok myklu erfuide at hann kemzst vid miog ok fellde tar er hann matti æigi komazst yfir ána. af þeim hryggleik ok harme slo hann ser nidr á árbakkanum gegnt klaustrinu ok sofnade. þat uar a þridiu stundu dags. En þegar hann uar sofnadr bar firir hann at madr kom at honum ok mællti vid hann. þu sefr vuarliga sagde hann. nu ef þu fysizst at fara yfir ana þa ris þu upp skiott ok muntu finna skip litit her fliotanda vid bakkann. Vid þetta uaknade Gautr ok þottizst sia suipinn mannzsins j þui er hann bra j sundr ögunum. spratt hann þa upp skiott ok gek fram a bakkann. þar fann hann fliota litit skip ok lagdar árar j hömlu. hann gek a skipit ok reri yfir ana. festi hann þa batinn vid bakkann ok ætlade hæim til klaustursins.

### Gautr fann Olaf konung ok talar med hann.

396. Ok er hann kom skamt upp fra anne uard firir honum æitt fagurt stæinhus adr hann kom til munklifissins. þar sa hann sitia j þui huse einn alldradan mann uænan ok uirduligann yfirlitz hugsade Gautr at þessi madr uar miog aþekkr þeim er honum syndizst j suefninum. en adr Gautr kæmi at steinhusenu fell þessi madr a kne til bænar. sidan ræis hann upp a mot Gauti er hann kom at dyrunum ok spurde a danska tungu huerr hann væri edr huert hann skyllde fara. Gautr segir honum græiniliga huerr hann uar ok allt huersu af stod um ferd hans. en sa er firir uar gek þa at honum ok fagnar honum blidliga ok minntizst vid hann ok læidde hann inn j husit ok mællti. huil þig her til aftans ok seg mer tidende ór Noregi en sidan mun ek fylgia þer til stadarins ok tulka firir þer. Sidan spurde hinn gamle madr at Æireke jalli ok Suæine brodur hans ok athofnn þeirra. Gautr sagde at þeir voru laungu daudir. þui næst spurde hann at Ærlinge Skialgssyne ok Astride konu hans. Gautr sagde honum fall Erlings ok greiniliga allt vm skifte þeirra Olafs konungs. þa spurde hann at Olafi konungi hinum helga. Gautr sagde honum fall Olafs konungs ok suo þat at Suæinn Alfifuson hafde tekit riki eftir hann j Noregi ok suo at Tryggui son Olafs konungs Trygguasonar uar kominn uestan vm haf ok [263] þeir

Sueinn borduzst ok fek Sueinn sigr en Tryggui fell. Vid þessa sogu vard hinn gamle madr miog hryg(g)r ok spurde þo huerr konungr væri yfir Noregi er hann for ór lande. Gautr segir at Magnus son Olafs hins helga hafde radit .xij. uetr Noregi ok þann hinn .xiij. en Haralldr konungr Sigurdarson uar kominn til rikis er ek for or lande segir hann. þa mællti hinn gamle madr. uel er mer hugþokkat til Magnus ens goda af margra manna frasognn þeirra er þadan koma. en Haralldr Sigurdarson uirdizst mer litlu sidr heruikingr en konungr ok heyrda ek mart fra honum sagt þa er ek var j Griklande. en huath segir þu mer vm þat hafua Nordmenn nokkura minning Olafs Trygguasonar. Gautr suarade. halæit er hans minning þuiat mikillar dyrdar aflar honum þat er hann kom kristni a Nordrlond. þa mællti hinn gamle madr. segþu mer ætlan manna um þat huat ordit hafue af Olafi Trygguasyne j bardaganum a Orminum. Gautr suarar. ymsar getr hafa menn þar a. sumir segia þat at hann hafui hlaupit a kaf miog sárr ok sokkit þar nidr med bryniu sinne ok ǫdrum herklædum ok haft suo bana. Hinn gamle madr suarar þa nokkuru styggra en þo suo sem med brosan suo segiande. hui ætla menn at hann munde vilia fara ser sialfr ok verda suo hræddr at hann munde fara a kaf uit þann kost ef hann visse sig suo saran ok mattfarinn at hann mætti æigi brott komazst ok ekki hefir hann þa verit slikr jþrottamadr sem hann uar kalladr ef brynia edr ǫnnur herklæde skyllde leinge þyngia hann j kafui sua at hann kæme æigi af ser. æigi skylldu menn sliku trua. ok seg mer enn fleire manna ætlan. Ætla þat ok sumir segir Gautr at guds kraftr hafui numit hann til sin edr sett hann j nokkurnn annan stad med þui mykla liose er margir menn sa koma yfir konunginn. Hinn gamle madr suarar. efanlig ok otrulig er su ætlan at hann munde uera suo hæilagr at hann væri makligr þeirrar dyrdar af gude at himneskr kraftr næme hann lifanda fra monnum þuiat þo at Olafr konungr gerde nokkur goduerk þa gerde.hann þo margar synder ok þui er sliku æigi truannda helldr matti hann odruuiss med litilæti ok guds fulltinge fordazst lifshaska. seg enn flæire manna ætlan. (Gautr mællti.) sumir menn segia at hann hafui verit tekinn af sunde ok fluttr til landz a þui skipe er þar la æige langt fra bardaganum vm daginn. Helldr ma þessu trua segir hann en þui at hann væri uppnuminn ok þat segia viser menn ok sannordir sudr hingat med oss at hann hafui lifat eftir orrostuna ok allt fram a þeirra konunga æfui sem nu eru at Noregi litit fatt j .l. uetra. en þu seg mer nu huort Æinarr þambarskelfir lifir. Hann lifir uist segir Gautr ok byr a Gimsum ok a Bergliotu dottur

Hakonar jalls Sigurdarsonar. hann er nu mestr ok gǒfgazstr lendra manna j þrǫndalogum ok allkærr Magnuse konungi. þa mællti hinn gamli madr. Æinar þambarskelfi sa ek bezst beriazst a Orminum iafnnungan þuiat hann uar iafnn vit' hinu sterkuzstu kappa konungsins. Gautr leit j andlit þeim manni er talade vid hann ok hugsade hui at hann munde suo kunnliga segia af bardaganum ok konungsmonnum. Gautr mællti þa. seg mer ef þu ert Olafr konungr. Æigi æigna ek mer ueg ne konungs nafnn. ok j þui quad vit klokkan ok hringde til aftansǒngs j borginne. spratt þessi madr upp þegar vid hinu fystu hringing ok gek til kirkiu ok Gautr med honum. en suo var þessi madr mikill at Gautr tok uarlla j ǒxl honum er þeir geingu badir samt. en alla læid medan þeir geingu til kirkiu spurde hinn gamle madr at Nordmonnum ok þeirra framferdum. þessi hinn mykli madr var suo buinn at hann hafde mǒttul yzstan klæda en undir hafde hann munkaklæde. En er þeir kuomu j kirkiu þa uar þar firir mart manna ok bidu munkar ok klerkar þessa mannz ok hofu þegar vpp aptansong er hann kom j kirkiu. þat sa Gautr at þessi madr var hofde ok halse hærre en huerr sa er þar uar ok var þui hofdingligri at sia firir allra hluta sakir sem hann var mæire en adrir ok stodu margir menn umhuerfis hann aller buner honum til þiǫnostu. En er aftansaung var lokit þa gek hinn mykli madr ór kirkiu ok kallade til sin vmbodsmann klaustrsins ok bad þann gera godan greida Gauti. þeir læiddu hann til herbergis ok uæittu honum hinn bezsta fagnat. en vm morgininn gerdu þeir honum bad ok færdu hann j hrein klæde. En annan dag eftir messu er hinn mykle madr gek ór kirkiu þa kallade hann Gaut til sin ok mællti til hans. ber þu Einari þambarskelfi quediu mina er þu kemr til Noregs ok þat med at ek ber honum þat vitni at æinge bardizst betr a Orminum en hann. ok til sannra jartæigna [264] at þu segir satt fær þu honum knif ok bellti er ek sende honum. Ok fek hann honum þa j hendr knif ok bellti goda gripe þess kyns. sidan gek hann til stæinhuss sins en umbodsmenn læiddu Gaut til herbergis. þat sa Gautr at menn uirdu suo mikils hinn gamla mann at eftir hans uilea uar ollum hlutum skipat j þeirre borg sem hann væri þar konungr yfir. A þeim sama degi for Gautr til stæinhus hins mykla mannz at leita eftir ef hann mætti enn framar uerda viss huerr hann væri. en þa var husit byrgt. huarf Gautr þa aftr til herbergis. Hinn þridea dag snemma for Gautr brott ok at bode hins mykla mannz uoru honum fæingnir læidtogar ok tulkar allt nordr yfir til Griklandz. letti Gautr sinne ferd æigi fyr en hann kom hæim j Noreg ok fann Æinar þambaskelfi ok færde honum knifinn ok

belltit ok sagde honum allt vm sinar ferder ok huat þeir hinn mykle madr hofdu vit talazst. En er Æinarr heyrde þessa sǫgu þa mællti hann med tarum. satt segi ek Gautr broder segir hann at þu hefir at visu fundit Olaf Trygguason ok hann hefir mer sent þessa gripe. þessa sogu heyrde segia Tæitr Asgæirsson merkan (mann) ok uitran þorarin þorualldzson en þorarni sagde sialfr Æinarr þambarskelfer.

Sogn Jatuardz konungs af Olafui konungi.

397. Adalradr konungr Jatuardzson hafde radit firir Æinglande þriu ar ok .xx. þa er Olafr konungr bardizst firir Suoldr. hann uar mikill uin Olafs konungs Trygguasonar sem fyrr er ritat. eftir hann rikti j Einglande Jatmundr son hans æitt ar adr en Knutr hinn riki kom til Æinglandz ok stridde uid sonu Adalrads .viij. ar. sidan [hann girnntizst[1] riki yfir Einglandi .xvj. ár. þa rikti Haralldr son Knutz ok Emmu drottningar er att hafde Adalradr konungr .iij. ár. eftir þat Hordaknutr .ij. ár. Sidan uar tekinn til konungs j Einglande Jatuardr hinn gode son Adalrads konungs. Jatuardr konungr uar minnigr vinattu þeirra Adalrads konungs fǫdur sins ok Olafs konungs Trygguasonar. Jatuardr konungr tok þat j uanda sinn at segia hofdingium sinum ok hirdmonnum sogu Olafs konungs Trygguasonar paschadag hinn fyrsta. en þui segir hann helldr sogu Olafs Trygguasonar a paskadaginn en einnhuernn annan dag at hann quad Olaf Trygguason hafa uerit at morgum hlutum umfram adra konunga sem paskadagr er ædri en adrir dagar a .xij. manudum.

Einarr hialpadi Halldori. capitulum.

398. Halldorr son Snorra goda af Jslande uar med Haralldi konungi Sigurdarsyne medan hann uar utanlandz ok leingi sidan er hann fek riki j Noregi ok uel uirdr af honum. þat bar at æitth sinn at islenzskr madr sa er Æilifr het uard firir ræide Haralldz konungs. en hann bat Halldor flytia mal sitt vid konung ok Halldorr gerde suo. Halldorr var stridmælltr ok hagordr[2] en miog fataladr. hann bad konung at Æilifr skyllde fa landzuist af honum. konungr næitte þui þuerliga. Halldorr var þykkiumikill sem adrir Jslendingar ok þotti illa er hann fek æigi þat er hann beidde. Hann for sidan burt fra Haralldi ok Æilifr med honum. þeir komu a Gimsar til Æinars þambarskelfis ok bæidde Halldorr at hann munde taka vid þeim ok uæita honum asia. Æinarr sagdizst mundu uid honum taka med þui mote at Halldorr uillde ok þar uera med honum. Halldorr mællti. huar uisar þu mer til

[1]) r. [gerdizst hans [2]) r. hardordr

sætis. Æinarr bad hann sitia j onduegi gegnt ser. Æinarr atti þa konu er Bergliot het. hon var dotter Hakonar jalls illa Sigurdarsonar Hladajalls. Halldorr gek jafnan til Bergliotar ok sagde henni morg æfintyr þau sem utanlandz hofdu georzst j ferdum þeirra Haralldz konungs. Madr het Kali hann uar ungr at alldri ok nokkut skylldr Einari. illgiarnn uar hann ok nokkut ofundsiukr hadsamr ok hauadamikill. hann uar þa skosuæinn Æinars ok hafde leinge þionat honum. Kali uar hagr uel a gull ok silfr þui uar hann kalladr gyllingar Kali. marga menn rægde hann vid Æinar ok uar sundrgerdamadr mikill j ordum bæde sundrlausum ok samfostum. hann hafde miog j hade vid Halldor ok bad adra menn yrkia nid um hann en æinge uard til þess. þui fekzst Kali ok j at flimta hann. Halldorr uard þess uarr. ok æinnhuernn dag gek hann til skemmu Bergliotar ok er hann kemr at dyrunum heyrir hann þar inn hamælgi mykla. uar þar inne Kali ok marger menn adrir. þeir bera þa fram firir husfreyiu hrop þat er Kali hafde kuedit um Halldor. Berglioth bad þa þegia ok sagde suo. þat er illa gert at fazst upp a vkunna menn med hropyrdum ok hadsemi ok munu ydr troll toga tungu ór hofde. hefir Halldorr mæirr uerit reyndr at fræklæik en flestir [265] menn adrir j Noregi. Kali mællti. ekki er ek hræddr uit hann morlanda þo at hann hafui mikit metord af þer þuiat uær hofum spurt at hann var settr j dyflitzsu vt a Griklande ok la þar a ormshala athafnarlaus ok ekki megande. Halldorr þolde æigi þessi atyrde. hliop hann inn j herbergit at Kala ok hio hann banahögg. ok er Bergliot sa þat bad hon geyma dyranna suo at æinge kæmizst fyrr vt en henni likade. Þa mællte Halldorr. bidea uil ek husfreyia at þu seair æitthuert gott rad firir mer þo at ek hafui nu æigi til þess vnnit. Hon suarar. ek a marga frændr þa mer naskyllda þa sem lendir menn eru ok uæit ek uisliga at til huers þeirra er ek sende þig at sa tekr vid þer firir minar saker. Halldorr mællti. hugsa þu suo firir at med öngum manni uil ek a laun uera halldinn sem illrædismadr. Bergliot segir. þeir munu þo fair menn j Noregi vtan sealfr Haralldr konungr at dugi at hallda þig firir Æinare ef hann uill eftir þer læita þuiat hann mun viss verda huar þu kemr nidr. er ok til rad annat segir hon ok er þat þo æigi hættulaust[1]. Halldorr mællti. huert er þat. Hon suarar. at þu gangir nu þegar inn j stofu sakir þess at nu eru .ij. uite a hende þer annat uigs vitit en annat borda vite þuiat þu komt æigi til borda med odrum monnum þuiat nu sitia menn yfir bordum. mattu nu ganga inn firir Einar ok segia honum tidendin. ok ef þu færir honum hofut þitt ok fridaz suo

[1]) hættalaust *Cd.*

uit hann. en ef hann uill þer æigi grid gefa med þui þa mun æigi hægt at forda þer firir honum. Sidan gek Halldorr inn firir Æinar ok mællti. æigi hefui ek oft verit uittr firir bordz tilgongu. hefir nu ok suo til borit at ek hefir æigi verit syslulaus. Æinarr suarar. segir þu uig Kala frænda mins. Halldorr suarar. þeirrar sakar er ek sannr ok þui uil ek nu færa þer hofut mitt ok ger þu af slikt er þer likar. (Æinarr suarar). uig þetta er þig hefir hent er hit uesta ok mer nær hoggit þuiat Endride son minn munde suo æinn annarr drepinn uera at mer munde mæira at þikia. Halldorr suarar. þat manntion væri olikt. Æinarr mællti. brædr Kala munu þar sea til sæmda er ek er vm eftirmal ok uigsbætr eftir hann. er þat ok litilmannligt at ek lati mer. suo þikia sem einn hundr hafui firir mer drepinn verit þar sem Kali var. mun þat þa enn helldr læidazst ǒdrum at uinna slik illuirke ef þessa er hefnnt eftir makliglæikum. en þo mun hæfa at hafa hæilræde Magnus konungs fostra mins Olafssonar at gefa upp ræidina fyrst j stad þuiat oft þikir þa annat sannara er hon lidr af en adr hefir framfarit. nu skalltu Halldorr fyrst fa mer suerd þitt þuiat ek uil þat hafa. Halldorr suarar. huat þarf ek at lata laus uopn min. þui uil ek hafua suerd þitt segir Æinarr at ek se ef nǒkkut er þreyngt þinum kosti at þu munt veria hendr þinar medan þu matt ef þu hefir uopnn at uega med ok er þa æigi oruænt at suo fari fleiri sem Kali hefir adr farit ok mun ek þa æigi betr vid vna. en þat mun þo saman (fara) ef þu ert sottr at þu munt hafa mann firir þig nema þu hafir fleiri. en þo mun ek yfir þig vinna at siduzstu. gak nu fyst til bordz med mer en ek man sidan upp segia vite þin en ǒngum fride hæit ek þer alæingdar. Halldorr gerde suo at hann át ok drak med Æinare sem hann ætti ekki vm at vera ok af hende fek hann suerdit. tok Æinarr vid þui. Vinir Halldors badu hann brott fara ef hann mætti. Halldorr suarar. ekki man ek leynazst fra Æinare þar sem ek hefir adr gengit a ualld hans Ok er Halldorr var mettr gek hann firir Æinar ok spurde huern hann villde þa gera hans hlut. Æinarr suarar. sidar muntu enn þat vita. Halldorr gek þa j brott ok segir Bergliotu huar komit uar. Hon suarar. æigi uænti ek at Æinarr lati drepa þig. en ef hann uill nidazst a þer þa hæit ek þer þui at þa skal enn meirum tidendum gegna. Ok þenna sama dag stefnir Æinarr fiolmennt þing. hann stod upp a þinginu ok talade suo. ek uil nu skemta ydr ok segia fra þui er firir lǒngu uar þa er ek uar a Orminum langa med Olafi konungi Trygguasyni.

Saga Einars.

399. þat bar suo til at þa er mer uar skipat med Kolbæini stallara ok Flesmubirnne a Orminum var ek þa .xviij. uetra gamall ok firir lög fram tekinn j kappatoluna. .ix. uoru þeir menn er brott kuomuzst af Orminum en fra oss kumpanum uil ek nokkut segia at uer hlupum firir bord af Orminum sidan konungr var horfinn med liose þui er yfir hann skæin. ok Danir menn Sueins konungs toku oss ok færdu konungi en hann flutti oss til Jotlandz ok voru ver þar upplæiddir ok settir a æina lag ok þar fiotradir. en sa er oss uarduæitte uillde [366] selia oss j þræeldom. hann het oss afarkostum ok lima lati ef ver uilldum æigi þiazst. ok j þeim skogi satum uær .iij. nætr. þessi madr er oss vardueitti let motz quedia ok þangat kom mikit fiolmenni. ok at þessu mote sat æinn madr mikill[1] suo buinn sem munkr j blam kufli ok hafde grimu firir andlite. þessi madr gek at oss kumpanum ok mællti til mæistara uors. uilltu selia mer þann hinn gamla þrælinn. Hann suarar. huat skal þer afgamall þræll ok nenningarlaus. Grimumadr suarar. hann mun þa odyrstr af þrælunum ollum. Ja segir mæistarinn uorr. hann skal vist vdyrstr. Met hann þa segir grimumadr. Mæistarinn mat hann firir .xij. aura silfrs. Grimumadr suarar. dyr þiki mer þa þrællinn med þui at ek se hann miog gamlann ok foruerks litinn. er ok æigi vlikt at hann lifue skamma stund. mun ek gefua þer firir hann mork silfrs ef þu uill þui kaupa. þa gek grimumadr at mer segir Æinarr ok spurde huerr mig hefde at geyma. ek hefir ekki enn selldan hann segir meistarinn en þo ma hann seliazst. Huersu dyr segir grimumadr skal hann vera. Meistari mællti. alluel mun hann þer dyr þikia. kaup hann firir .iij. merkr silfrs ef þer likar. alldyrr[2] mun hann þa vera segir grimumadr en sia þikiumzst ek at frændr hans (ok) vinir mundu giarnna kaupa hann þuiliku verde ef hann væri a sinu lande. Ek vissi þat segir mæistarinn at þer mundit æigi kaupa hann suo dyrt sem ek mat. Sidan for kuflmadr a brott ok for vijda um torgit ymissa gripe falande ok med þui at hann fek öngu keyft for hann aftr til vor suo segiande. nu uar ek a torge ok þui at mer uar ekki kaupligth kom ek enn hingat. uil ek fala þann þrælinn er ek hefui adr orde a komit þuiat ek se at suo mikill madr sem hann er ok sterkr at hann ma vinna ekki suo litit ef þessi vill duga. erv menn takmykler ef þeir vilia men(n)azst. synizst mer þui rad at kaupa þa alla. Mæistari uorr suarar. þu þarft þo mikils vid um mansmenn ef þu kaupir æinn .iij. þræla. þat skalt þu þo uita segir kuflmadr at ek hefir haft þo æigi

[1]) madr *tilf. Cd.* [2]) alldyrt *Cd.*

færri huskalla. Kolbiornn var metinn firir .ij. merkr. Dyrir eru þrælarnir segir kuflmadr ok væit ek æigi giorla huat fram ferr um peninga mina huort þeir munu vinnazst til uerdz þeirra. Hann steyper þa silfrinu j kyrtilblad hans ok mællti. haf þu nu þetta firir tolu þina ok uænti ek at æigi muni þetta minna. Ok sidan lætr kuflmadr leysa oss ok þotti oss þa betrazst uor kostr. Grimumadr gek þa burt j skoginn ok bad oss fylgia ser ok er uær komum fram j æitt riodr spurda ek hann at nafni. Hann suarar. ekki uardar þig at vita nafnn mitt en þat kann ek þer at segia at ek hefir seth þig æitt sinn fyr ok alla ydr. Ek villde þo vita huers þræll ek skyllde þo vera. en ef þu uill gefa oss frelse þa villdum ver ok vita huerium ver ættim þat at launa. Æigi muntu þess viss verda þenna dag huat ek hæiti. þa segir ek segir Æinarr. verith munde þat þo hafa at ek munde hafa radit vit einn mann ok adrir .ij. med mer þo at Danir ætli þat æigi. Kuflmadrinn suarar ok kifti upp littat hettinum. vera ma at ek þia ydr æigi enda mun ek j öngu vera yduarr naudungarmadr þoat þer set .iij. en ek æinn. nu liggr her uegr at ek mun visa ydr til skips þess er Nordmenn æiga ok munu þeir taka vid ydr ok flytia ydr til Noregs. en þu Biornn segir hann skift fiarhlut þinum ok gef hann suo sem þu hyggr salu þinne hialpuænligaz þuiat þu munt æigi lifa halfum manade læingr sidan þu kemr heim til bus þins en þu Kolbiorn munt koma heim a Upplond ok munt þikia merkiligr madr huar sem þu ert. en þu Æinarr segir hann munt verda yduarr mestr madr ok ellzstr ok vera umfram flesta menn j Noregi j morgu lagi. þu munt ok fa Bergliotar dottur Hakonar jalls ok muntu bua a Gimsum ok hallda virdingu þinne til daudadags en af þer æinum mun ek laun hafa firir lifgiofina ok frelsit þuiat þer æinum hygg ek at mest þiki vert ef þu ert æigi þræll. Ek suarade. at ohægra uæri at launa ef ek vissa (æigi) huerium at giallda var edr hueriu launa skyllde. Hann suarar. þui skalltu launa ef nokkurr madr gerir suo miog j moti þer at firir huetuetna uiler þu hafa hans lif ok hafir þuualld yfir honum þa skalltu æigi minna frelse gefa honum en ek gef nu þer. en þat mun þer inndællt þuiat faer munu gera j moti þer sakir rikdoms þins ok vinsælda. Ok at suo toludu lyfti kuflmadrinn grimu fra andliti ser ok mællti. huat hyggi þer huerir her rida vm skoginn ok munu ætla at gripa oss. en vær litum aller til ok uilldum sia mennina ok er uær litum aftr var grimumadr horfinn ok sidan sám [267] uer hann alldri. en þenna mann kendu ver aller fullgerlla at þetta var Olafr konungr Trygguason þuiat þegar fyrra sinn at hann lyfti kuflshettinum kenda ek hann firir vist en sidan hann lyfte upp grimunne

ok synde oss sina asionu. kendu uer hann aller ok toludum uor j mille at oss hefde miog ouitrlega til tekiz er ver hofdum æigi hendr a honum en þo tiade oss þa ekki at sakazst vm ordinn hlut. Sidan gengu ver þann stig til siofar sem hann visade oss ok fundum þar Nordmanna skip ok for allt eftir þui sem hann hafde oss firir sagt vm vora æfui. Nu er ek skylldr til segir Æinarr at gera þat er Olafr konungr bad mig. synizst mer nu æigi annat likara Halldorr en hann hafui firir þer bedit þuiat þu ert nu a minu uallde. Ok ádr Æinarr hafde lokit sögu sinne uar Bergliot komin aa þingit kona hans (med fiollda manna) ok ætlade hon at þeir menn skylldu beriazst vid hann ok sækia Halldor ef hann uillde honum æigi grid gefa. Sidan bætti Æinarr vig Kala frændum hans en hellt vinattu vid Halldor iafnan sidan. en Halldorr sende Eilif til Jslandz ok sætti hann adr uid Haralld konung ok suo kom hann ser j sætt vid hann ok uar Halldorr med konungi langa stund sidan. En (su) hafde verit sok Æilifs at hann hafde drepit hirdmann Haralldz konungs ok firir þat hafde hann ræide a honum.

### Her segir fra Sigurdi byskupi.

400. Sæmiligr kennimadr ok godrar minningar Gunnlaugr munkr at þingeyrum hefir marga hluti ok merkiliga med röksamligu latinudikte saman sett ok sagt af agætum herra Olafi konungi Trygguasyne. hefir hann frodliga fra þui sagt huersu konungrinn hefuer med lifue j brott komizst or þeim bardaga er hann framde sidazst vid Suolldr. segir brodir Gunnlaugr þat æina skrifat hafa sem hann hefir af sannordum monnum heyrt ok æinkannligazst hafa saman lesit þat er hann hefir fundit j bokum Ara prestz hins froda. en at vmlidnum bardaga firir Suoldr uikr nefnndr brodir Gunnlaugr munkr sinum ordum til hirdbyskups Olafs konungs er Jon Sigurdr het ok nu skal nokkut af segia med guds orlofui. Miogh uidrkæmiligt er segir brodir Gunnlaugr þessi sögu at samteingia af hæilogum lifnade ok roksamligu sidlæti postuligs herra fyrrnefndz byskups at ver uitum med huerre endalykt hans lifsstundir hafua lidit þuiat hann hefir herra konungsins fremzstr fulltingsmadr verit til uorrar saluhialpar huadan af oss synizst hann uordinn postuligr predikare allra Nordmanna. þuiat þesse agætr herra Olafr konungr hefir fystr alla rettkristna gert med byskuplig(u) fulltinge en styrkt sidan ok stiornat kristinndominn med konungligu uallde bæde med hæ(i)lagum ordum ok hialpsamligum ordum ok aeggianum. af uppruna ok ætt edr huerrar þiodar Sigurdr byskup hefir verit er oss æigi kunnikt edr j huerium skola hann hefir numit. suo ok huenær hann man

til konungsins komit hafa. en þat skilium uer uel af sannordra manna sögn at hann hafui verit bæde styrkr ok stiornnsamr j sinum byskupsdomi. Eftir skilnad þeirra Olafs konungs Trygguasonar uendi Sigurdr byskup til Suiþiodar at bæn Olafs konungs Æirikssonar er þar var þa med þeirre sætt ok samninge at herra byskup skyllde hafa frialsa yfirferd um allt Suiariki at predica guds eyrende til rettsnuningar þeirre aumu þiod er þar hafde langan tima skemdarfullum ok skynlausum skurgodum þionat. Sigurdr byskup uard þessum kostum miog feginn þuiat hann hrygde optliga sa ofrharmr er hann hafde fæingit af fraveru sins agæta herra Olafs konungs Trygguasonar. en af odrum hætti gerdizst hann hardla fws af ablæstri heilags anda at gera gude sem mestan hæidr j liknn ok læidretting hæidinna þioda ok hann hafde sem Gunnlaugr segir gefit hæilaga skirnn Olafi Suiakonungi ok fiolda annarra manna þeirra er stritt hofdu mote Olafi konungi Trygguasyni. Sidan predicade Sigurdr byskup Suium guds ord um .ij. ár hinu næstu. kristnade byskup allt landzfolk nidrbriotande boluadan blotskap en aukande kristinn dominn med hæilagri skirnn astundande med ollu kostgæfui konunginn at styrkia til guds þionostu.

Predican Sigurdar byskups vid Suia. capitulum.

401. A þridea áre sem þessi styrkr stolpe kristninnar Sigurdr byskup hafde snuit (Suium) til rettrar truar risu j mote honum margir ok mattugir menn med myklu ofbellde ok vdęmiligri illzsku sumir fottrodande vidtekna tru en adrir af þeim gerdu opinbert motikast j atför vid byskupinn. ok suo sem honum verdr þat kunnikt snyrr hann til þess stadar er Sigtun hæitir ok uar j þeim stad saman kominn mikill fiolde rikra manna er retta tru ok hæilaga skirnn hofnudu. en a æinne uirduligri guds hatit fremr fyrr sagdr herra byskup hælagt messu embætti j nokkurre roksamligre holl ok byriar hann þa kristiliga kenning med fagrligri predican at myklum mannfiolda [.ōõ] hea standanda. heyrit mig segir hann hæilagrar kristne motgangsmenn ok nidrbriotande sanna tru huerir at sannliga megit kallazst grimmir gudnidingar. vm næstu .iij. uetr hefir ek med allzskonar erfuide astundat ydra naudsyn at þer mættit makliga med minne kenning kom til rettrar truar ok kenna suo vaflatliga yduarn grædara Jesum Cristum en firirlata uondskap ok villu. þer vitut ok at fystan tima er ek var her skirda ek med guds lofui ok kristiligri tru konung yduarn huernn ek hyggr med guds miskunn godan mann vordinn. suo skirda ek ok mikinn fiolda annarra manna. en a næsta are eftir þat urdu margir af ydr tilgskingar-

synir æilifs lifs af langri ok fornnfaguligri flærd hæidingligrar hindruitne. firir skommu voru þer skynlauser ok hinir uestu uillumenn æigi þa endrgetnir firir uatnn ok helgan anda ne frealser fostrsynir hæilagrar kristnne. nu kann ek ydr at segia æinn undarligan hlut at minne uar su guds skipan er hann gerde alla hluti af ǫngum efnum· en at gera goda menn ok hæilaga af uondum uillumonnum. nu gerir uorr herra Jesus Cristr med sinne miskunn suo at hann kallar synduga menn til sannrar idranar ok liknar þeir er læidrettazst vilea. nu þo at (ek) teai ydr suo mykla hluti ok audrum þuilikum af godum vilea ok gnogu ualldc uors herra Jesu Cristi þa grunar ek at ydru hugskoti verde min kenning miog oauaxstasǫm þuiat mikill mannfiolde af ydr hefir illa ok vmannliga afnæittat tiltekinne tru ok vilea uors drottins þeim er ek grunduallada her vm næstu .iij. ár. nu skulu þer þat vita at firir ydra glæpi ok gudnidingsskap er ek oftliga mæddr af andligri hrygd. minnisamr verdr mer sa ofharmr er vm allan mig tok þa er ek sa minn sætazsta vin ok fregian herra Olaf konung Trygguason alla uega þreyngiazst af ydrum heruopnum ok brott dragazst fra allra ǫgum huernn þer hugdut nu saladan vera. en þuers j moti yduare hugsan segi ek hann sannlifa huern er ek jattar mig framazst elskat hafa j þessu lifue. en myklu framar angrar mik þat at þer afneitit yduarre healp en jatit nu sealfuiliande þeim godum ok gydium er ek snera ydr fra um stund med myklu starfui. ok eftir suo gert ætli þer at gera mer mot ok mig til draps at draga ef þer megit ok gera mer slikan kost sem þer hafit adr gert guds þionostumonnum æigi firir lǫngu er þer tokut af lifue j þeim stad er Uegsior hæitir. eru þeir nu til huilldar komnir ok nadaz andliga med Jesu Cristo firir sitt pislarvætti. nu þa æigi firir saker otta edr hæitan hryggiumzst ek helldr firir ydra naudsyn eina saman þuiat ek uggi at ek syngumzst af yduarri fadgmiligri folsku. en med sannyndum segi ek ǫruggliga at j ǫnguan stad er ek til strids buinn ok andligrar framgongu minnr en nokkur yduarr þo at ek bera æigi eftir mer verallig uopnn helldr hlifumzst ek med hæilǫgum ok healpsamligum folkuopnum. nu mun ek ydr audsyna huilikum herklædum ek er skryddr ok styrktr ok gudligum malum grundualladr. skryddr er ek mitru ok messuserk stolu ok dalmatiku hokli ok handlini med byskupligum bagle. þuilik ok þesshattar messuklæde merkia þa hinu styrku uon er mer hlifir bæde j farsæligum hlutum ok gagnnstadligum hlutum. skrydumzst ek ok dagliga hræinlæika andar ok likama medan ek lifui med monnum er firir messuserkinn greinizst. stolunnar asetning þydizst lett ok ok sætt þeim er gud elska. osigranlig trua styrkir mig ok stadfastliga su

er dalmatikan merkir. umfram þessar guds giafir sem hueriar er guds ast su er yfirgengr alla stundliga hluti er hôkullinn hefir at merkia. en byskupligr bagall merkir andligt sadkornn gudligra orda af hueriu uonder menn snuazst fra illzskuverkum til agætrar gudræzslu. uerda þeir sidan miukir ok margir litilatir samlagadir eilifum nadum. en grimmir gudnidingar ok slikir ofmetnadarmenn sem þer salugir sannit ydr uera skulu hrædiligu guds orde boluadir[1] uera ok vtkastadir j ytri myrkr þar sem firir er frost ok tannagnastran. nu skilizst vid slikar vdader ok snuizst huerr sem einn aftr hiartaliga til astar vid sinn skapara. leggit allar ydrar syndir undir guds dom þuiat med sinne margfalldri millde snyrr hann sinne blidu fullkominne aftr til yduar af illum hlutum leysta ok liduga sem þa er þer komut ór skirnnarbrunn-i(n)um. ok af þeim hlutum er ek hefui nu ydr [269] tiad synda ek sanna uon æilifra fagnada med þeim ollum hlutum sem nu hefig greint af vorum herra Jesu Cristo ok mattugum konungi allra verallda. Ok at suo toludu gengr sagdr herra Sigurdr byskup vt af hollunne a uidan uôll at loknu messu embætti ok adrir menn þeir sem þar voru hia standande. ok sem lydrinn uar brott genginn ok Sigurdr byskup uar genginn j sitt herbergi gek inn til hans æinn islenzskr madr er Hunrôdr het hann uar son Uefredar hins gamla. fyrnefndr Hunrôdr þakkade herra byskupi er hann hafde predicat þa firir lydnum um daginn. en er herra byskup fann fullkominn goduilia þessa mannz ok at hann munde j minne hafa fest ok hiartaliga halldit þat er hann hafde talat tok hann vid Hunrod hardla sæmiliga ok fretti hueriu hann ætlade fram at fara. Hunrodr suarade. sigla mun ek j Austrueg ef suo ferr sem ek ætlar. Bad hann þa byskupinn blidliga segia ser huort hann skyllde marka hagi sina a himintungla gang sua sem froder menn hofdu firir honum gert. Byskup suarar. son minn sæti far ekki med forneskiu ne hindruitne helldr fel þu gude a hende allar þinar vonir ok þo at þer aflizst frægd edr fiarhlutr þakka þat gude þuiat hann gaf þer ok þui skalltu honum ombuna at hallda yfir allt fram hæilaga tru þa sem ek hefui kent þer þuiat hon er agætari allzkonar audæfum. þa spurde (Hunrôdr) Sigurd byskup huersu mykla penninga hann ætti at hann mætti af honum taka nokkut lan ser til hæillar ok hamingiu. Herra byskup suarar. æigi uæit ek at ek æige nokkura peninga nema æinn gullhring er mer gaf Olafr konungr Trygguason minn sæti herra ok agætr elskugi ok uæit þat gud at sa gullhringr er mer suo skędr sem hinn huassazsti hôggormr ok giarna uillda ek afla gude hedan af nokkurra manna salir med

[1]) boluada *Cd.*

sogdom hring helldr en gera mer saluskada af hans uardueitzslu. Ok nokkuru sidarr en þeir herra byskup ok Hunrodr hofdu skilit þa fretti Hunrodr at fyrrnefndr gullhringr var skiftr j .iij. hlute ok gefinn til vtlausnar morgum herteknum kristnum monnum. Suo er sagt ok fyr skrifat (at) eftir Suoldrar orrostu for Sigurdr byskup j Suiariki ok dualdizst þar leinge ok medan hann var þar heyrde hann Suia tala oftliga at Olafr konungr Trygguason hefde stigit firir bord af Orminum ok sokkit nidr j sia med uopnum sinum ok hefde hann latit lif sitt. ok sem hann heyrde menn slika hlute tala spurde hann þa. segit mer ef Olafr konungr Trygguason er siadaudr uordinn sem þer ætlit. hui synizst þa su sama brynia er hann hafde j bardaganum upp vera fest ath Jorsolum j æinu myklu mustari suo sem þar er almenniliga kunnikt edr hui er þa spiot hans ok hialmr at sonnu synt j Antiokia edr huerr flutti þessa hlute j suo fiarlæg lǫnd ef þeir hefde þar nidr sokkit sem þer segit. þeir annsuara þa hans mali. ef þu ueitzst uisliga at Olafr konungr hafui brott komizst lifs or bardaganum sanna þu þat med skynsemi suo at uer megim þui trua. Ok þa er þeir hofdu þessa hluti sagt þagde byskup vm stund ok æigi af þui at æigi uæri med honum sonn skynsemi (at) suara til þeirra hluta er hann være spurdr helldr firir þa sok at hann uillde æigi þenna guds gimstæin oftnefndan Olaf konung leyndan j munksbunade æigi bera firir suin eftir ordum Jesu Cristi þeim er hann suo talade. hirdit æigi at bera gimstæin firir suin. ok þui sagde byskupinn suo. helldr uillde Olafr konungr eftir þui sem hann uel uisse þiona æinum ok sǫnnum gude uaflatliga en at stiorna leingr ranglatra manna falle þeirra er hann sa sig ekki stoda mega.

## Andlaat Sigurdar biskups.

402. Suo finnzst ok skrifat af Sigurdi byskupi at þa er hann gerdizst gamall for hann til stadar þess er Vernd hæitir ok þar þionade hann gude langa tima. suo er sagt at j þeim stad hofdu jardadir verit margir munkar. ok er byskupinn elldizst adaliga ok vstyrktizst at likama leitade hann at nærazst naduliga suo sem tilheyrde gǫmlum manni. ok a æinum fostudegi bar suo til at hann let ser bad gera ok sem hann badadizst kom rǫdd yfir hann suo mælande. hui dirfizst þu madr huilldar at læita herfuiligum likam þinum a þeim degi er drottinn þinn Jesus Cristus uar a kross negldr. þessi ord hugleidde herra byskup sannliga ser til saluhialpar sǫgd vera. mæddizst hann skiott ok gek burt af badinu gerande merkiliga idran ok skyran skriftargang firir sin afbrigde er nu uoru tiad ok oll ǫnnur er hann hafde gude j mote gert. ok

eftir fa daga fell Sigurdr byskup j saran siuknnat sæliga framlidande af þessu lifue stundligu almenniligan ueg til almattigs guds þeim se lof ok dyrd æinum gude j þrenningu um veralldir verallda. amen.

## [270] Fra Oddi ok Gunnlaugi.

403. A þeim sama stad sem Sigurdr byskup anndadizst uar hans sæmiligr likami æinkanliga iardadr af sinum klerkum ok kristnum leikmonnum med mikille uegsemd ok agætri vtlæitzslu suo sem somde sæmiligum byskupi. Suo segir brodir Oddr er flest hefir kompnat a latinu annarr madr en Gunnlaugr af Olafi konungi Trygguasyni at Grimkell byskup sa er uar med hinum heilaga Olafi Haralldzsyni ok efldi kristinndom j Noregi væri systurson Sigurdar byskups huers er fyrr uar getit. en Asgautr er var hinn þride byskup j þrandheimi uar systurson Grimkels byskups. en þeir uoru systursynir Asgautz byskups Jon hinn fiorde byskup j þrandheimi ok annarr Ketill kalfr er atti Gunnhillde dottur Sigurdar syrs ok Astu Gudbranzdottur. uoru þau sammædd syskin hinn hæilagi Olafr konungr ok Gunnhilldr.

## Saga Orms þorliotzsunar fra Olafi konungi.

404. Madr het Ormr ok uar þorliotzson uitr madr ok rettordr hann bio a Dyrnese j Orkneyium þa er Jatuardr hinn helgi var konungr at Æinglande. Ormr segir suo at hann heyrde Jatmund konung lesa sǫgu Olafs konungs Trygguasonar af þeirre somu bok sem Olafr konungr sealfr hafde sent Adalrade konungi fra Jorsolum. A einu are las Jathuardr konungr hinn helgi firir hofdingium sinum ok allri hird um bardagann a Orminum ok sagde þar allt a æinn ueg sem adr er ritat um brottkuomu Olafs konungs ok vm ferd hans vt yfir hafit til Jorsala ok hann hefde stadfest sig j klaustri nokkuru a Syrlande. ok þa segir Jatuardr sinum monnum andlat Olafs konungs Trygguasonar. en þeir menn hǫfdu sagt konungi er þa voru nykomnir af Syrlandi til Einglandz.

## Syn Brestiss.

405. Suo hefir brodir Gunnlaugr ok sagt j latinu. A þi are er þorlakr byskup Runolfsson for fram af þessi verǫlldu bar merkiliga syn firir þann mann er Brestir het a þann hátt at hann þottizst uera j kirkiu staddr a bęn sinne. þa fell a hann suefnn. þa syndizst honum sem tungl færi eftir himninum af austrætt ok þangat yfir sem hann uar. ok suo sem hann skyniar þessa syn syndizst skip j tunglinu ok a .ij. menn med biartre ok blidre asionu ok þessa þottizst hann spyria

suo segiande. huerir eru þit. Annar þeirra suarar. her er Olafr konungr Trygguason ok Sigurdr byskup. Brestir suarar. huert skulu þit fara. þeir suorudu. vit skulum fara j Skalahollt at finna þorlak byskup þess er nu er saladr ok hann skulu vit med okkr þadan brott flytia. ok eftir suo talat foru þeir fram sinn ueg. En suo sem Brestir uaknnade hugsade hann huat firir hann hafde borit ok þotti vera miog merkiligt. ok a sômu nott bar firir hann adra syn. hann þottizst vera vti staddr ok þottizst sea þat sama skip sem fyrr sa hann aftr a ueg faranda. honum syndizst þa .iij. menn j skipinu þeir sômu .ij. sem fyrr sa hann en medal þeirra þottizst hann kenna þorlak byskup upplidanda til himins. þa mællti Brestir. heyrþu fadir ertu þorlakr byskup. Hann suarar. ek er sa. Brestir mællti. ertu saladr. Byskup suarar. andadr er ek. Brestir mællti med mikille ahyggiu. huernn skulum ver nu hafa byskup eftir þig. Biskup suarar. Magnus Æinarsson skulu þer hafua byskup ok andaligan fôdur. Ok eftir þat huarf þessi syn fra Bresti ok uaknade hann. þessi Brestir er synina sa var afui Jons byskups ok bio sidan j þykkuabæ j Veri. Ok enn bar flæire merkiligar synir firir menn þa er menn frettu framfor þorlaks byskups af þessum heimi.

### Fra Gunnlaugi ok Oddi.

406. Sva segia þeir brædr Gunnlaugr ok Oddr at þessir menn hafui þeim flest frasagt huat er þeir hafua sidan samansett ok j frasagnir fært af Olafi konungi Trygguasyni. Geller þorgilsson Asgrimr Uestlidason Biarnne Bergþorsson Arnngunn Arnnorsdottir Herdijs Dadadottir ok þorgerdr þorsteinsdottir. ok sidan segizst Gunnlaugr synt hafa sôgu Olafs konungs Gizsôre Hallzsyni ok hafde sagdr Gizsor hia ser þa bok vm .ij. ár. en sidan sem hon kom aftr til brodur Gunnlaugs emenderade hann hana sealfr þar sem Gizsori þotti þess þurfa. Firirualld ok verdlæika þessa guds astuinar Olafs konungs Trygguasonar eru sælir Noregs menn ok æigi at æins þeir helldr iafnnuel þeir er her byggia Jsland ok oll þau lond er undir Noreg liggia. er almattigr gud gaf þessum londum suo uirduliga tignn ok huggan suo halæitan ok mattuligan styrk suo langlifa hialp ok æilifa dyrd ok uendiliga uirding suo somasamliga tignn at hann kaus æigi æinnhuernn oss til formælanda helldr þann sem hæstr var j Noregs riki. Hann grunduallade hæilaga kristni ok astundade med allri godfyse oss at kenna guds bodord ok lada oss suo til eilifrar fullsælu. hann uar konungr uorr j sinne stiornn ok stormenzsku en byskup uorr j sinne predikan. hann ma ok rettliga kallazst postuli vors kristins doms [271] yfir Noregi ok

hans undirlondum. truum ver þui ok stadfastliga at firir hans arnadarord hafi þessi partr Nordrhalfunnar fæingit blomberanligan gæisla ok stodugan stolpa ok styrktarmann upp at timbra þat smide sem Olafr konungr Trygguason hafdi adr fagrliga formerat ok giptuliga grunduallat sem var guds trua ok hans logmal ok rettynde. erum ver fullkomliga sęler þess fagnadar er hann gaf oss þęssa heims at kenna uornn skapara Jesum Cristum. þui skulu ver þakker gera vaflatliga allzualldanda gude er hann gaf uorum forelldrum ok ollum oss slikan nytsemdarmann sem var Olafr konungr Trygguason med kristni konungdomsins ok dyrd hæilagrar kirkiu med skipan hæilagra sida ok lǫgum landzsins med uallde ok virding konunganna med tignn byskupanna med sæmd kennimannanna ok aflan kaupmannanna. allir erv þessir under hlydne ok lǫgum hins blezada guds astuinar Olafs konungs Trygguasonar þuiat hinum rikuzstum gaf hann tignn en hinum fatækuzstum miskunn en ollum almenniliga væitti hann sina vernnd ok varduæizslu ok þui lifir hann nu ok at eilifu j hæstu himirikis sæmd med sialfum gude þeim er lifir ok rikir einn gud j þrenningu per omnia secula seculorum. AMEN.

---

HER ER ÞAATTR EIREKS HAKONAR SUNAR.

Þat segia frodir menn at Æirekr jall Hakonarson flyde fyst land j Noregi eftir fall Hakonar jalls fǫdur sins sem segir j Olafs sǫgu Trygguasonar. For Æirekr jall fyst austr til Suiþiodar a fund Olafs konungs sænska ok fek þar godar vidtokur. ueitti Olafr Suia konungr jalli þar fridland ok ueitzslur storar suo at hann matti þar uel hallda sig ok lid sitt. þess getr þordr Kolbæinsson j Belgskaga drapu.

Menræinir bra mana
margs fysa skǫp uarga
lioda litlu sidarr
lę Hakonar æfui.

enn til landz þess er lindar
ladstafr uegit hafde
braustr þa er herr for uestan
hygg ek kæmi son Tryggua.

Æirekr jall uar j Suiþiod um uetrinn. þann uetr sotti til hans af Noregi lid mikit þat er flyit hafde undan Olafi konungi Trygguasyni. tok Æirekr þa þat rad at hann fek ser skip ok for j hernat vm sumarit at afla ser fear ok lide sinu. hann hellt fyst til Gotlandz ok la þar læinge um sumarit ok mętti kaupmonnum er sigldu til landzsins ok

uikingum. stundum gek hann upp a land ok heriade þar uida med sionum. Su(a) segir j Bandadrapu.

Meirr uann myklu flæiri
malmhrid iðfurr sidann
adr fra ek um þat adra
Æirekr undir sig geira.

þa er garduala gerde
Gotland uala strandar
uiruils vitt um heriat
uedr milldr ok semr hillde.

Sidan siglde Æirekr jall sudr til Uindlandz. hann hitti firir Stauri vikinga skip nokkur ok lagde til orrostu vid þa. þar fek Æirekr jall sigr en drap lidit mikit. Suo segir j Bandadrapu.

Stærir let at Staure
stafnnuigs hofut liggia
gramr uællti suo gumna
gunnblidr ok red sidan.

slæit a suerda moti
suord uikinga iordu
unda marr a eyre
jall goduordu hialle.

A þui sumre for Æirekr jall til Danmerkr a fund Sueins tiuguskeggs Danakonungs ok bad til handa ser Gydu dottur hans ok uar þat at radum gert. fek Æirekr jall Gydu. uetri sidarr attu þau son er Hakon het þa er Æirekr jall hafde fæingit Gydu vm vorit. Æitt sumar hit næsta la hann j hernade. siglde hann vm haustit aftr til Suiþiodar ok uar þar vetr annan. En at uore bio hann her sinn ok siglde þadan j Austrueg. ok er hann kom j riki Ualldamars konungs tok hann at heria ok drap mannfolkit en brende bygdir þar sem hann for ok eydde landit. hann kom til Aldeigiuborgar ok settizst þar vm ok uann staðinn. drap þa mart folk en braut ok brende borgina alla. for hann sidan herskillde yfir Gardariki. Suo segir j Bandadrapu.

Oddhridar for eyda
óx hrid af þui sidan
lðgfagande lægis
land Ualldamarr brande.

Aldeigiu brautzstu ægir
oss numnazst skil gumna
su uar hilldr med haulldum
haurd komt austr j Garda.

Æirekr jall var fim sumur j þessum hernade en a uetrum uar hann med Sueini konungi magi sinum en stundum j Suiauellde. Sueinn Danakonungr hafde att Gunnhilldi dottur Burizlafs Uindakonungs en er hon uar daud þa fek (hann) Sigridar hinnar storradu modur Olafs Suiakonungs sem fyrr er ritat. tokzst þar þa med teingdum konunganna kærleikr ok Æireks jalls.

Fra Eireki jarli.

408. Svo er sagt at eftir Suoldrar orrostu eignadizst Æirekr jall [272] Orminn langa med sigrinum ok hlutskipti mikit. Suo segir Halldorr.

Hialmfalldinn bar hilmi
hrings af myklu þinge
skæidr glæstu þa þiodir
þangat Ormrinn langi.
en sneri at gny gunnar
gladr tok jall vid nadri
adr uard egg at rioda
otraudr Hemings brodir.

Skipade jall Orminn sem knaligazst ok styrde honum sealfr. þess getr Hallfredr.

Jtrfremdum red Ormi
ordsæll iðfurr nordan
snorp uard at þar suerda
snot Æireki a moti.
en hyiofnum hefnir
hyrs þeim gota styrir
adr vóx vm gram godan
gunnr Hakonar sunnan.

En med þui at Ormrinn lange var allramliga skipadr af hraustum dreingium þa komu þeir at kalla ok þo sem tregligazst austan j Vikina ok for jafnan hallr ok let ekki at stiornn. þui let Æirekr jall hðg(g)ua upp Orminn langa en sumir menn segia at hann leti brenna hann.

Hundr Olafs konungs Vigi maatti eigi lifua eftir hann.

409. Einarr þambaskelfir ok adrir þeir menn er Æirekr jall hafde grid gefit eftir bardagann for nordr til Noregs med jalli. Uige hundr Olafs konungs hafde legit j firirrume a Orminum firir lyptingunne vm daginn medan orrostan var ok suo alla stund sidan. en er jall kom austan j Uikina med Orminn langa þa gek Æinar þambaskelfir þar til sem hundrinn la adr hann gek a land ok mællti. drottinlauser eru vit nu Uige sagde hann. en vid þessi ord spratt hundrinn upp ok gnistande ok gnaullrande sem hann hefde hiartverk tekit. rann hann þa a land med Æinari ok gek upp a æinn haug. þar lagdizst hann nidr ok uillde at ðngum manni mat þiggia en þo uarde hann audrum hundum dyrum ok fuglum fætzslu sina. en tarin hrundu nidr um trynit ok gret hann suo sinn lanardrottin ok la þar til þess er hann var daudr. Nu tyndu Nordmenn suo hormuliga þessum fiorum hinum agætazstum hlutum ór þui lande sem firir hafde sagt bonde hinn blinde j Mostr sem segir j sðgu virdulegs herra Olafs konungs Trygguasonar.

## HER ER ÞAATTR ORMS STOROLFSSUNAR.

Hængr het madr son Ketils Naumdęla jalls en modir Ketils jalls het Hrafnhilldr dottir Ketils hængs ór Hrafnnistu. Hængr var gofugr madr. hann vard j missætte vid Haralld konung Dofrafostra af drape Hillderidar sona ok þui stôk hann ór lande. Hængr siglde uestr j haf at læita Jslandz. þeir urdu vid land uarir ok voru firir sunnan at komnir. sigldu upp j árós æinn mikinn ok lôgdu vid hit eystra land. su aa hæitir nu þiorsa. þeir kônnudu uida landit. Hęngr uar hinn fysta uetr firir vtan Rangá en vm uorit nam hann land mille þiorsár ok Markarfliotz allt j mille fiallz ok fioru ok bio at Hofui vid Rangá hina eystri. Jnngunn het kona hans hon fæddi son vm uorit er Hrafnn het. Hęngr gaf land skipuerium sinum en sellde sumum ok eru þeir landnamamenn kalladir. Heriulfr heth annar son Hęngs hans son uar Sumarlide. Helgi het hinn þride. Vestarr het hinn fiorde. Hrafnn Hængsson uar fystr lôgsogumadr a Jslande. hann bio at Hofui eftir fôdur sinn. Þorlaug var dottir hans er atti Jôrundr gode. hinn .v. son atti Hængr er Storolfr het hann er kalladr mestr sona hans en Hrafnn gôfgazstr. Storolfr atti Þororrnu systur Þorbiarnnar skolms þess er var fadir Þoralfs. Storolfr[1] bio at Huole er sidan var kalladr Storolfshuoll. Storulfr uar allra manna sterkazstr ok þat var allra manna mal at hann væri æigi æinhamr. hann uar frodr madr ok marguiss. uar hann af þui kalladr fiolkunnigr. hann atti son vid Þórôrnu konu sinne er Ormr er nefnndr. hann uar snemmendis bade mikill ok sterkr ok uel at jþrottum buinn þuiat þa er hann uar .vij. uetra samuægde hann hinum sterkôzstum monnum vm afl ok allar jþrottir. ekki hafde hann astriki mikit af fôdur sinum enda uar hann honum udęll ok uillde ekki vinna en modir hans vnne honum mikit. ekki lagdizst Ormr j elldaskala. óx hann nu upp þannueg er hann var .xij. uetra gamall. Storulfr uar idiumadr mikill ok uerks jgiarnn. þat var einn dag um sumarit at Storulfr let færa hey saman ok geingu fernner eyker. Storulfr hlod heyi en handfatt uard upp at bera en honum þotti helldr regnnlikt gerazst. kallade hann þa a Orm son sinn ok bad hann til healpa ok leggia upp heyit. Ormr gerde ok suo. en er j tok at draga skurirnar gerdizst Storulfr mikiluirkr a heyinu ok eggiade Orm fast at hann skyllde duga ok neyta aflsins ok sagde hann bæde slyttinn ok linafladan ok mæirr gefinn uoxstr en afl edr harka. Ormr reiddizst nu ok bar upp fulguna
[373] alla a litille stundu ok j þui kom at eykrinn. greip Ormr þa upp

[1]) Þorolfr *Cd.*

blassit ok hestinn med ollum akfærunum ok kastade upp a heyit ok suo snart at Storulfr karll fell vt af heyinu ok ofan j gæilina. uard þat suo þungt fall at brotnade j honum .iij. rifin. Storulfr mællti þa. illt er at eggia ofstopamennina ok er þat audseth at þu munt vfirirleitinn verda. Mykil aflraun þotti þetta ǫllum monnum af jafnnungum manni synd.

### Ormr Storulfsson for til slaattar.

411. Þat er enn sagt æinnhuern dag at Storulfr kom at male vid Orm son sinn ok bad hann fara a eingiar ok sla þuiat huskorllum gengr litt j sumar. Huar er liarr sa er ek skal sla med [sagde Ormr[1]. Storulfr fek honum þa orb ok nyian lia ok uar huartueggia miog storkostligt. Ormr uatt liainn j sundr mille handa ser en steig j sundr orbit ok quad ser huorke skylldu. snyrr Ormr þa j brottu ok færr ser .ij. fiordunga jarnns ok ferr til smidiu ok gerir ser lia. sidan tok hann ser æinn as ór uidar bulunge ok gerde ser matuliga hatt ok færde j .ij. hæla stora ok let þar j koma leainn þann nyia ok uafde sidan med jarne. gek sidan ofan a æingiar. þar var suo hattat landzlegi at þar uar þyft miog en bade lodit ok grasgott. Ormr tok til at sla ok slęrr þann dag allan til kuelldz. Storulfr sende gridkonur sinar at raka liana eftir Ormi. en er þær kuomu a æingiarnar sa þær at Ormr hafde haft mugaslátt. toku þær þa til ok ætludu at huirla heyit en þat gek þeim æigi suo greitt sem þær ætludu þuiat þær gatu ǫngan muga hrært huorke med hrifu ne hondum. foru heim sidan ok sogdu bonda. For hann þa ok reid a æingiar vm kuelldit. sa hann þa at Ormr hafde slegit af þufur allar ok ſært þær saman j muga. hann bad hann þa upp gefa ok onyta æigi mæira. Ormr gerde þa ok suo ok uar þa lear hans madr upp j smidreim. þa hafde Ormr slegit .viij. stakka uǫll ok þær æinar eingiar eru slettar af Storulfshuole ok er kalladr akuædis teigr mille huerra muga. ser þessa allz merki enn j dag.

### Ormr bar (h)eyith.

412. Dufþakr er madr nefnndr hann bio a þeim bę er heitir j Hollti ok er sidan kallat j Dufþakshollt(i). Dufþakr uar mikill ok miog trylldr suo at hann uar æigi æinhamr. þeir Storulfr elldu laungum gratt silfr en stundum uoru med þeim blidskapir en þo atti med þeim illan enda at sidazstu þuiat þat segia sumir menn at Dufþakr yrde Storulfe at bana. Nu lidr afram þar til at Ormr er .xviij. uetra gamall. þa kom uetr mikill suo at gerde iardbǫnn en Storulfr hafde fenadar mart ok

[1]) [er Ormr sagde *Cd*.

tok þa at draga fast at heyium hans er a leid suo at hann þottizst sea firir at hann munde fella fenat sinn ef ðngra bragda væri j l(e)itat þuiat hey kunne huergi at fa j bygdinne vtan Dufþakr hafde hey med afgaungum ok uillde vid ðngan af standa. þa var helldr fatt med þeim Storulfi. Storulfr sende þa Orm son sinn til motz vid Dufþak at fa af honum nokkut af heyi þuiat þa gerdizst timum miog framkomit en fenadr dreginn miog. Ormr fór þa til motz vid Dufþak ok falade af honum hey en hann quazst ekki til solu hafua. en er Ormr herti fast at þa sagde Dufþakr at hann skyllde hafua byrde sina ef hann uillde. ok ma ykkr þo at gagni koma ef suo mikit leggr huerr til j bygdinne. (Ormr suarar.) þetta er litit tillát en þo skal ek hafua edr huar skal ek aftaka. Vti j garde segir Dufþakr standa .ij. heykleggiar. annarr fiogurra fadma en annar .ij. ok uel tueggia fadma þykt ok þui nærre hátt ok þikir von at sigit mune. þar skalltu hafa af hinu minna. Ek mun fara heim fyst segir Ormr ok sækia mer bende. Ok suo gerde hann. sagde nu fodur sinum. þetta er gaungumannliga tillatit segir Storulfr enda skal hann her ekki verd firir hafua ok þiker mer þo rád at ek sæki helldr byrdina þuiat ek mun helldr borit fa en þu. Æigi skal þat uera sagde Ormr þuiat suo mikit var gefit sem ek bæra. Hertu þig þa mannskræfan segir Storulfr. Snyrr Ormr þa j brottu ok til geruiburs ok tekr ræip a .x. hesta ok leyser af hagldir. kastar þa saman bade at leingd ok digurd suo at hann gerir ór æitt. geingr sidan yfir j Hollt ok at heygardinum ok brytr a hlid. geingr inn j gardinn ok at hinum meira heykleggianum ok rydr af ofan torfui ok þui sem vest uar ordit. sidan stydr hann a hondum ok losar til heyit nidri vid jordina dregr sidan undir reipin ok bregdr j hagldirnar ok uendir vm heyinu [274] færizst hann þa undir j fatla ok uegr upp a herdar ser. en þat segia sumir menn at hann hafui haft hinn minna kleggia j firir. gek hann med þetta heim til Storulfshuols. uar bonde vti ok sa. fannzst honum mikit um ok let asannazst at hann munde æigi sealfr suo myklu orkat (hafa). uar þa inn borit (j) hlðdu ok uar hon þa full. dugdi þetta hey suo uel fenade Storulfs bonda at hann fellde ekki vm uorit. Uar sidan betr j frændseme þeirra fedga þadan af en adr þuiat Storulfr sa huert afbragd Ormr uar annarra manna. En er Dufþakr kall kom vt vm daginn ok sa uegs ummerki at j burtu voru hey hans będe en þat æina eftir er uettugi uar nytt ok þo æigi uel at vnnit. sa hann ok huar Ormr gek ór gardi ok bar heykleggiana bada. þotti honum mikil furda j huersu stora byrde Ormr gat borit. En vm uorit for Dufþakr til Huols ok heimti heyuerd at Storulfi ok fek ekki

þotti honum heyit æigi minna vert en .vj. kugillda. leiddi af þessu langan vþokka med þeim Storulfi ok mikinn fiandskap sem sidar mun sagt uerda.

## Ormr ok þoraalfr reyndu knaaleik sinn.

413. En er Ormr uar .xx. at alldri reid hann til alþingis sem oftar. þa var þingit fio̓lment. þoralfr Skolmsson uar kominn a þingit nordan fra Myrka or[1] Horgardal frænde Orms. med honum var sa madr er Mækolfr het hann hafde .vj. kalla afl. þeir voru aller j bud med Jorunde goda mage Orms. Jorunde goda voru gefnir aurskór æinir þeir voru suo storir ok iarnnmykler at þeir stodu halft pund saumlauser. þeir foru vm budina til synis. en er skornir komu til þoralfs tok hann skona .iiij. ok leth saman ok hellt a nokkura stund. retti sidan at Ormi ok uoru þa aller rettir sem kerti. Ormr tok vid ok beygde j einu alla skona .iiij. sem adr hǫfdu verit. ok þotti þetta mikil aflraun huortueggia. En vm daginn er þeir geingu vt stod hituketill hea heitu-husinu sa er tok .ij. tunnur. hann fylldu þeir upp af sande. eftir þat gek at Mækolfr ok fleytti honum med annarri hende. þoralfr gek þa at ok lyfti honum upp med .ij. fingrum. sidazst gek at Ormr ok krækti undir hǫdduna hinum minnzsta fingri ok fleytti honum iafnnhatt okla ok bra hendinne undir kapuna þoralfr mællti. syn mer nu fingrinn. Æigi uil ek þat segir Ormr. Kost atta ek at meida mik ef ek uillde segir þoralfr ok uillda ek æigi. Monnum þotti sem j sundr hefde gein-git holld ok sinar nidr at bæine. Sidan ridu menn heim af þinge ok sat Ormr vm kyrt. Mykils þotti monnum vert vm aflraunir Orms þær sem hann hafde gert ok gerde sidan þui meiri sem hann uar þa ellri. ok þui er þat allra manna mal vina hans ok vvina at hann hafui sterk-azstr madr verit a ollu Jslandi będe at fornnu ok nyiu sa er einhamr hefir verit.

## Af Aasbirni pruda.

414. Uiruill het madr hann atti at rada firir æinu þorpi j Dan-mork þar er a Vendilskaga hæitir. þeir voru brædr ok Veseti j Borg-undarholmi. Viruill ua(r) kuongadr madr ok atti einn son vid konu sinne er Asbiornn er nefnndr. hann uar snemma mikill ok uenn ok uel at jþrottum buinn. hann var huerium manni kurtæisare af þui uar hann kalladr Asbiorn prude. þat var þa tidzska j þær mundir at konur þær foru yfir land er uoluur voru kalladar ok sogdu monnum firir orlǫg sin

[1]) ok *Cd.*

arferd ok adra hluti þa er menn villdu viser verda. þessi sueit kom til Viruils bonda. var uðlunne þar vel fagnnat þuiat þar var uæitzsla hin bezsta. En er menn voru komnir j sæti vm kuelldit var uoluan frett at forspam sinum en hon sagde at Viruill munde þar til elle bua ok þikia nytr bonde. en þeim unga manni er þar sitr hea þer bonde er gott at heyra sin forlǫg þuiat hann man fara vijda ok þikia þar mestr madr sem þa er hann hellzst ok vinna mart til framaverka ok verda ellidaudr ef hann kemr æigi a Nordmęri j Noregi edr nordr þadan j þat land. þat ætla ek sagde Asbiornn at ek se æigi þar fæigari en her. Muntu æigi rada þui huat er þu ætlar segir voluan. Ok vard henni þa liod a munni.

þo at þu latir
yfir lǫgu breida
byrhest renna
ok berizst vijda.
nærr man þat leggia
at nordr firir Mæri
þu bana hliotir
bezst mun at þegia.

Sidan var uoluan þar suo leingi sem ætlat var ok leyst j burt med godum giofum. Asbiornn óx nu upp en þegar at alldr færdizst yfir hann þa hafde hann sig j forum til ymissa landa ok kynde ser suo sidu annara manna ok var mikils metinn af ollum hofdingium. Modir hans var ættut nordan ór Noregi af Hordalande ok Nordmæri komin af ætt Bifrukára. sat Asbiornn þar lǫngum hea modrfrændum sinum mikils metinn sakir jþrotta sinna ok atgerui.

## Ormr ok Asbiorn wnnu Gautland.

415. [:75] Nv er þar til at taka er fyrr var fra horfit at Ormr Storulfsson sat a Jslandi ok er hann var kominn a þritǫgs alldr tok hann ser fari med þeim manni er Ozsorr horzski het er skip atti uppistandanda j þiorsa ok for vtan med honum. Ozsorr atti gard a Hordalande ok sat Ormr hea honum vm vetr. þa uar Asbiornn prude a Hordalande ok bar oft saman funde þeirra Orms ok fell uel a med þeim ok gerdizst þar skiott vinatta. reyndu þeir margar jþrottir ok voru a allar iafnir þær sem æigi reynde afl med en myklu var Ormr sterkari. suo kom at þeir soruzst j fostbrædralag at fornnum sid at huorr skyllde annars hefna sa er leingr lifde ef hinn yrde uoppnndaudr. En um uorit talade Asbiorn vid Orm at hann uillde fara nordr a Mæri at hitta Eyuind snak ok Bergþor bestil frændr sina. er mer ok forvitne a segir hann at vita huort þegar dettr lif ór mer er ek kem þar sem sagde uoluan arma. Ormr letzst þeirrar farar buinn en æigi þiki

mer þu þar mega um keppa þuiat gnogu mart vita þesshattar menn sem hon er. Sidan foru þeir a .ij. skipum nord(r) a Męri ok tok Eyuindr ok Bergþorr allvel vid Asbirni frænda sinum þuiat þeir uoru syskina synir. þetta var (a) ofanverdum dogum Hakonar Hladajalls. þar spurde Asbiorn at eyiar .ij. lagu nordr firir lande ok het huortueggi Sandey ok rede firir inne ytri eyiunne jotunn sa er Bruse heti. hann veri mikit troll ok mannæta ok ætludu menn at hann munde alldri af menzskum monnum unninn verda huersu margr væri. en modir hans uar þo verri uidræignar en þat uar kolsuort ketta ok suo mikil sem þau blotnaut at stærst verda. æinge gæde hôfdu menn af landi ór huoregri eyiunne firir þessum meinuęttum. gerdizst Asbiornn fus at fara til eyianna en Ormr aflatti ok quad fatt verra en vid fiandr slika at æiga ok þui vard ekki af ferdinne. Helldu þeir vm sumarit sudr j Danmork ok satu hea Viruli[1] vm uetrinn. en at uetri lidnum ok uore komnu helldu þeir j hernath med .v. skip ok foru vida um eyiar ok utsker ok hofdu sigr ok gagnn huar er þeir kuomu. urdu þa æigi adrir menn frægri j uikingu helldr en þeir. en vm sumarit er a leid lôgdu þeir til Gautlandz ok heriudu þar. þa red þar firir sa jall er Herrôdr het. þar attu þeir marga bardaga ok fengu valld yfir landinu ok satu þar vetr hinn þridia. þar voru drykkiur storar vm vetrinn ok glede mikil. þat var æinn dag vm uetrinn er þeir Asbiorn ok Ormr satu ok drukku. þa quad Asbiorn visu þessa.

Sagde mer a sæide  
saung um þat laungum  
at ek a feigum fæti  
færig nordr a Mæri.  
uætki visse uolua  
vera mun ek enn med monnum  
gladr j Gautauellde  
gramer æigi spa hennar.

Vm uorit foru þeir Ormr ok Asbiorn ok undu þar æigi læingr ok foru vm sumarit nordr j Danmork ok suo til Noregs ok uoru þar uetr hinn .iiij. med Ozsôre horzska. en vm vorit tôluduzst þeir med fostbrædr. uillde Asbiorn j hernat en Ormr vt til Jslandz ok þui skildu þeir ok þo med kærleikum ok vinattu. for Ormr til Jslandz med Ozsôre hordzska. urdu uel reidfara. komu skipi sinu j Leiruuog firir nedan heide. þa fretti Ormr þau tidende at Storulfr kall fadir hans hafde dait j uitskiptum þeirra Dufþaks. var hann fam monnum harmdaude. for Ormr þa heim a Storulfshuol ok setti þar bu saman ok bio þar leingi eftir þat er hann hafde hefnnt Storulfs fodur sins eftir þui sem segir j Jslendinga skra.

[1]) Virlui *Cd.*

### Drap Aasbiarnar.

416. Litlu sidarr en þeir Ormr ok Asbiorn hofdu skilit fystizst Asbiorn nordr j Saudeyiar. for hann med .iiij. menn ok .xx. a skipi. helldr nordr firir Mæri ok leggr sæint dags at Saudey hinne ytri. ganga a land ok ræisa tialld eru þar vm nattina ok verda vid ekki varir. Vm morgininn arla ris Asbiorn upp klædir sig ok tekr uopnn sin ok gengr upp a land en bidr menn sina bida sin. en er nokkut suo var lidit fra þui er Asbiornn hafde j brott gengit verda þeir vid þat varer at ketta ogurlig var komin j tialldzdyrrnar. hon uar kolsuort at lit ok helldr grimlig þuiat elldar þottu brenna ór nǫsum hennar ok munne æigi uar hon ok uel eyg. þeim bra miog vid þessa syn ok urdu ottafuller. kettan hleypr þa innar at þeim ok gripr huernn at ǫdrum ok suo er sagt (at) suma gleyfti hon en suma rifue hon til dauds med klom ok tǫnnum .xx. menn drap hon þar aa litille stundu en .iij. kuomuzst vt ok undan ok a skip ok helldu þegar undan lande. en Asbiorn gengr þar til er hann kemr at hellinum Brusa ok snarar þegar inn j. honum var nokkut dimt firir ǫgum en skuggamikit [276] uar j hellinum. hann verdr æigi fyrr var vid en hann er þrifinn a loft ok færdr nidr suo hart at Asbirni þotti furda j. verdr hann þess þa varr at þar er kominn Bruse jotunn ok syndizst helldr mikiligr. Bruse mællti þa. þo lagdir þu mikit kapp a at sækia hingat skalltu nu ok eyrende hafua þuiat þu skallt her lifit lata med suo myklum harmkuolum at þat skal adra letia at sækia mig heim med ofride. Fletti hann þa Asbiornn klædum þuiath suo uar þeirra[1] mikill afla munr at jǫtuninn vard æinn at rada þeirra j mille. balk mikinn sa Asbiorn standa vm þuerann hellinn ok stort gat a midium balkinum. jarnnsula stór stod nokkut suo firir framan balkinn. Nu skal profa þat segir Bruse huort þu ert nokkut hardare en adrir menn. Litit mun þat at reyna segir Asbiorn en vgæfusamliga hefir mer tekizst at ek skyllde ǫngri uornn firir mig koma ok er þat likazst at fæigd kalle at mer ok quad visu þessa.

| | |
|---|---|
| Sinne ma æinge | suo bregzst huerium |
| jþrott treysta | a banadǫgri |
| alldri er hann suo sterkr | hiarta ok megin |
| ne storr j huga. | sem hæill bilar. |

Sidan opnade Brusi kuid a Asbirni ok nade þarma enda hans ok knytti vm jarnsuluna ok leiddi Asbiorn þar j hring um. en Asbiorn gek æinart ok roktuzst suo a enda aller hans þarmar. Asbiorn quad þa visur þessar jafnnframme.

[1]) afla *tilf. Cd.*

Segizst þat minne modur
mun hon æi syne kemba
suardarlad j sumre
suanhuit j Danmorku.
hafde ek henni heitit
at ek heim koma munda
nu mun segg a sidu
suerdz egg dregin uerda.

Annat uar þa ek inne
ölkatir ver satum
ok a fleyskipe forum
fiord af Hordalande.
drukkum miod ok mælltum
mart ord saman fordum
nu er ek æinn j aunguar
jottna þraunguar geinginn.

Annat var þa ek inne
allstorn saman foru
stód þar upp j stafnne
Storulfs burr enn fræknne
þa er langskipum lagde
lundr at Eyrasunde
nu mun ek tældr j trygdum
trolla bygdir kanna.

Annat var þa ek inne
Ormr at hilldar stormi
gek en gradgum blakki
gæitis sylg at uæita.
rekk at romu dokkri
raunmargan gaf uargi
seggr ok sart nam höggua
suinnr at Jfu minne.

Annat var þat ek inne
ek uæitta ferd suæittri
hogg med huassri tuggu
Herians sudr j skerium
elfar oft nam kolfui
Ormr hagliga at forma
mest þa er midiungs traustir
magar eftir lagu.

Annat var þa ek inne
aller saman vorum
Gautr ok Gæiri
Glumr ok Starre
Samr ok Semingr
synir Oddvarar
Haukr ok Hama
Hrokr ok Toke.

Annat var þa ek inne
oft a sæ forum
Hrani ok Hogni
Hialmr ok Stefnir
Grani ok Gunnarr
Grimr ok Sorkuer
Tumi ok Torfui
Tæitr ok Gæitir.

Annat var þa ek inne
allitt ver spördumz
at samtogi suerda
sialldan ek latta
at brunpalmar bryndir
biti huasliga seggi
þo uar Ormr at imon
æ odduite þeirra.

Munde Ormr
ofrynn vera
ef hann a kuol þessa
kynne at lita
ok grimliga
giallda þusse
uorar vidfarar
vist ef hann næde.

Sidan let Asbiorn lif sitt med mikille hreysti ok dreingskap.

## Ormr hittir Menglaudu j Saudey.

417. Þat er at segia at þeir .iij. menn (er) undan komuzst sottu knaliga rodr ok lettu æigi fyrr en þeir komu at lande. sogdu þau tijd–

ende er gerzst hǫfdu j þeirra forum kuoduzst ætla Asbiornn daudan en kunnu ekki fra at segia huersu at hafde borizst vm hans liflát. kuomu þeir ser j skip med kaupmonnum ok fluttuzst suo sudr til Danmerkr. spurduzst nu þesse tidende vida ok þottu mikil. þa var ordit hofdingia skifti j Noregi Hakon jall daudr en Olafr Trygguason j land kominn ok baud ǫllum retta tru. Ormr Storulfsson spurde vt til Jslandz um farar ok liflat Asbiarnar er monnum þotti sem vera munde. þotti honum þat allmikill skade ok unde æigi (a)leingdar a Jslande ok tok ser fari j Reydarfirde ok for þar vtan. þeir komu nordarliga vid Noreg ok sat hann vm vetrinn j þrandheimi. þa hafde Olafr radit .iij. vetr Noregi. Vm uorit biotzst Ormr at fara til Saudeyia. þeir voru þui nærr margir a skipi sem þeir Asbiorn hofdu uerit. þeir logdu at minne Saudey sid um kuelldit ok tiolldudu a landi ok lagu þar vm nattina. þat segia menn at Ormr væri primsignndr j Danmorku en hafui kristnnatzst a Jslande. En er Ormr var sofnadr sa hann at kona gek inn j tialldit mikil ok errilig uel buin ok uæn at yfirlitum. hon gek innar at þar er Ormr la ok nam þar stadar. Ormr þottizst hæilsa henni ok spyria hana at nafni en hon kuezst Menglod heita [277] dottir Ofotans nordan ór Ofotáns firde. en vit erum syskin ok Bruse at fǫdur en ek atti menzska modur en modir hans er su en kolsuarta ketta er þar er j hellinum hea honum en þo at vit sem skylld þa erum vit þo ekki lyndis lik. rædr hann firir eyiunne ytri ok er hon synu betri væitir hann mer þungar busifiar suo at ek hygg at ek muna j brottu stokkua. ueit ek ok huert eyrendi þitt er þu ætlar at hefna Asbiarnar fostbrodur þins ok er þat uorkunn þuiat þu att eftir hraustan mann at mæla. mun þer ok foruitne a at uita huersu honum var j hel komit en þar munu ekki margir kunna fra at segia utan Brusi ok ek. Hof hon þa upp alla sogu ok sagde fra liflati Asbiarnar ok suo quad hon allar þær visur er hann hafde kuedit. en æigi þikiumzst ek þar sia firir mun vm huort meira ma trollskapr Brusa ok modur hans edr hamingia þin en ǫnguan mann ottazst hann utan þig æinn ok vidrbunat hefir hann uæittan ef þu kynner at koma. hann hefir fært þat biarg j hellisdyrnar at ekki ma j hellinn komazst medan þat stendr þar. en þo at þu ser sterkr þa hefir þu huorki af(l) vid Brusa ne biarginu j brott at koma. nu eru her glofar at ek uil gefa þer ok fylgir su nattura at þeim uerdr alldri afla fátt sem þa hefir a hondum. yrde þat suo at þu ynner Brusa þa uilldа ek at þu gæfir Saudey j ualld mer en ek mun helldr vera þer j sinne þuiat mer er þu uel j þokka þoat vit megim æigi niotazst saker truar þinnar. Sidan huarf konan en Ormr uaknade ok uoru þar glof-

arnir en hann munde allar visurnar. stod Ormr þa upp ok uakti menn sina ok hellt vt til eyiarinnar. gek a land ok bad menn sina bida a skipe til annars dags j þær mundir. en hallda a burt ef hann kæmi þa æigi.

## Drap Brusa.

418. Nu gengr Ormr þar til er hann kemr at hellinum ser hann nu biargit þat stora, ok leizst vmatuligt nokkurum manni þat j brott at færa. þo dregr hann a sig glofana Mengladarnauta tekr sidan a biarginu ok færer þat burt ór dyrunum ok þikizst Ormr þa aflraun mesta synt hafa. hann gek þa inn j hellinn ok lagde malajarnn j dyrnar en er hann var inn kominn sa hann huar kettan hliop med gapanda ginit. Ormr hafde boga ok ðruameli. lagde hann þa ðr a streing ok skaut at kettunne þremr ðrum en hon hende allar med huoptunum ok beit j sundr. hefir hon sig þa at Ormi ok rekr klærnar framan j fangit sua at Ormr kiknar vit en klærnar geingu j gegnum klædin sua at j bæine stod. Hon ætlar þa at bita j andlit Ormi. finnr hann þa at honum mun æigi væita. heitr þa a sialfan gud ok hinn hæilaga Petrum postula at ganga til Roms ef hann ynne kettuna ok Brusa son hennar. sidan fann Ormr at minkadizst afl kettunnar. tekr hann þa annare hende um kuerkr henni en annarre vm hrygg ok geingr hana a bak ok brytr j sundr j henni hrygginn ok geingr sua af henni daudri. Ormr sa þa huar balkr storr uar vm þueran hellinn. hann geingr þa innar at en er hann kemr þar ser hann at fleinn mikill kemr vtar j gegnum balkinn hann var bade digr ok langr. Ormr gripr þa j mote fleininum ok leggr af vt. Bruse kippir þa at ser fleininum ok var hann fastr suo at huergi gek. þat undradizst Brusi ok gægdizst upp yfir balkinn. en er Ormr ser þat þrifr hann j skeggit a Brusa badum hondum en Brusi bregzst vid j odrum stad. suiptazst þeir þa fast vm balkinn. Ormr hafde uafit skegginu um hond ser ok rykkir til suo fast at hann rifr af Brusa allan skegg-stadinn hðkuna kiaftana bada vangafillurnar upp allt at eyrum. gek her med holldit nidr at bæine. Brusi let þa siga brynnar ok grettizst helldr grepplliga. Ormr stokkr þa innar yfir balkinn gripazst þeir þa til ok glima leinge. mædde Brusa þa fast blodras tekr hann þa helldr at ganga firir. gefr Ormr þa aa ok rekr Brusa at balkinum ok brytr hann þar vm a bak aftr. Snemma sagde mer þat hugr sagde Bruse at ek munda af þer nokkut erfuitt fa þegar ek heyrda þin getit enda er þat nu framkomit. muntu nu uinna skiott vm ok hðggua hofut af mer en þat uar satt at miog pinda ek Asbiorn pruda þa er ek rakta ór honum alla þarmana ok gaf hann sig ekki vid fyr en hann do. Jlla gerdir þu þat

segir Ormr at pina hann suo miog iafnnroskuann mann skalltu ok hafa þess nokkurar meniar. Hann bra þa saxi ok reist blodǫrnn a bake honum ok skar oll rifin fra hryggnum ok dro þar vt lungun [278] let Brusi suo lif sitt med litlum dreingskap. sidan bar Ormr elld at ok brende upp til osku bade Brusa ok kettuna. Ok er hann hafdi þetta starfuat for hann burt or hellinum med kistur .ij. fullar af gulle ok silfri en þat sem mæira var femætt gaf hann j ualld Mengladar ok suo eyna. skildu þau med mikille vinattu. kom Ormr til manna sinna j nefnndan tima helldu sidan til meginlandz. sat Ormr j Þrandheimi vetr annan.

## Fra Ormi ok Eireki.

419. At sumre biozst Ormr til Romferdar ok tokzst su ferd uel. kom sunnan til Danmerkr vm haustit eftir Suoldrar orrostu ok spurde þar þau tidende er þar hofdu uordit. for hann þa til Noregs a fund Æireks jalls ok hitti hann a Hlǫdum. gek firir jall ok kuaddi hann. jall tok honum vel ok spurde hann at nafnni. hann letzst Ormr heita. Jall mællti. ertu Ormr sterki. Kalla megi þer suo herra ef þer vilit en þat er eyrendi mitt at ek villde vera gestr yduarr j uetr. Jall quat honum þat til ræidu ok skipade honum a hinn ædra bek vtarliga. Ormr uar faskiptinn vm uetrinn ok ohlutdeilinn. Þat uar einn tima at talat var til Suoldrar orrostu ok huersu kappar Olafs konungs hofdu dræingiliga uornn synt ok huersu seint[1] at Ormrinn hafde unninn vordit edr huersu harda atsoknn Æirekr jall hafde væitt at hann fek unnit þat skip er æinge ætlade at a þidum sio munde unnit verda. Ormr suarar. sæinna munde Ormrinn lange unninn hafa vordit ef ek hefda þar verit med ǫdrum kǫppum konungs. Nu var sagt jalli at Ormr hefde mikit vm talat at Ormrinn lange munde æigi unninn ordit hafa ef hann hefde þar verit. Jall lætr þa kalla Orm firir sig ok spyrr huort hann hefde þat talat at Ormrinn munde æigi unninn hafa uordit ef hann hefde þar verit. Æigi er þat herra. hitt sagda ek at seinna munde unninn hafa vordit Ormrinn ef ek hefda þar verit. Jall suarar. litinn mun munde þat segia vm æinn mann suo morgum ok myklum kǫppum sem þar var saman skipat. en þo skal gera tilraun nokkura. þu skalt vera æinn a skipe ok skulu sækia at þer .xv. skæidr ok er þat þo litit af þeim skipafiolda er var vit Suǫldr. Þer munut rada herra sagde Ormr en ekki mun ek fyrr gefazst en ek er yfirkominn. Ormr gek þa vt ok tok æinn berlings as digran .xiij. alna langan. sidan for hann a skip ok let fra lande. sidan voru menn til fæingnir a .xv. skæidum ok sottu at Ormi. en suo er

[1]) synt *Cd.*

sagt at a litille stundu hafde Ormr slegit j kaf .vij. skæidr lamit ok brotit. þa kallade jall ok bad þa hætta þessum læik. uar ok suo gert. vard þa borgit flestum ollum monnum. sidan bad jall .lx. manna sækia at Ormi vti a vidum uelli ok suo var gert. Ormr hafde ekki uopna nema asinn ok ueifde honum vm sig sem hreytispelldi suo at æinge þorde nærre at koma þuiat þeir sa visann bana huerr sem firir yrde. bat jall þa hætta þessum læik ok suo var gert. Jall mællti. æigi ætla ek at þat væri oftalat Ormr þott sæinna ynnizst Ormrinn lange ef þu hefdir a uerit þuiat hann munde alldri unninn hafua ordit ef þu hefdir þar til varnnar verit. Sidan gerdizst Ormr hirdmadr Æireks jalls ok var med honum j myklum kęrlæikum sakir atgerui sinnar.

## Ormr kom til Einars aa Gimsar.

420. þat var æinn tima at Ormr for a kynne þar sem hann hafde fyrr verit j þrandheimi. hann kom vm læid a Gimsar ok var Æinarr heima. þat var j þann tima sem Æinarr var at kirkiu. bogi hans var vti firir kirkiudyrum. Ormr gek at ok tok upp ok lagde ǒr a streing ok dro firir odd ok let suo ǒrina standa j boganum ok lagde sidan nidr aftr ok gek j brǒttu. en er Æinarr kom vt sa hann huersu bogi hans var til hattadr ok undradizst miog ok spurde eftir huerr med boga hans munde farit hafa. en þess vard hann leinge ekki viss fyrr en Ormr sealfr sagde honum. Æinarr kuetzst þat ok vita at þat munde ekki skræfa verit hafa er boga hans hafde firir odd dregit. Eirekr jall for at væitzslum austr vm Uikina þa var Ormr med jalli. en er þeir kuomu þar sem Ormrinn lange hafde verit upp hogginn la þar siglutre. jall bad menn profa huersu margir þyrfti undir at ganga ádr en axlat yrde. skipade hann Ormi undir mitt tred .lx. manna toku tred. sidan bad jall sinn mann tinazst undan huorum enda ok suo var gert þar til at Ormr stod æinn undir trenu. þa gek hann med þat .iij. fet ok lagde nidr sidan. segia menn at Ormr mune ualla samr ordit hafa sidan ok adr. Uar hann med jalli nokkura uetr for sidan vt til Jslandz ok settizst j bu at Storulfshuole ok þotti æ hinn mesti madr ok uard ellidaudr ok hellt uel tru sina.

## [279] Fra Eireki jarli ok þeim brædrum.

421. Sveinn son Hakonar jalls hafde verit j Suiþiod sidan er hann flyde ór Noregi eftir fǒdur sinn. hafde hann þa fæingit Holmfridar dottur Olafs Suiakonungs. en er þeir skiftu Noregi med ser Sueinn

Danakonungr Olafr Suiakonungr ok Æirekr jall þa hafde Olafr Suiakonungr .iiij. fylke j þrandheimi ok Mæri huoratueggiu Raumsdal ok austr Ranriki fra Gautelfui til Suinasunnz. þetta riki fek Olafr konungr j hendr Sueini Hakonarsyne magi sinum med þuilikum formala sem fyrr hofdu haft skattkonungar edr jallar af yfirkonungum ok gaf hann þar med Sueini jallsnafn. Æirekr jall hafde .iiij. fylke j þrandheimi ok Naumudal Halogaland Fiordu Fialler Sognn Hordaland Rogaland ok Nordragdir allt til Lidandisnes. Suo segir þordr Kolbæinsson.

Væit ek firir Erling utan
ár at hersar uoru
lofa fasta(ty) flestir
farlanz vinir jarlla.
en eftir uig þat er uægi
uel ek ord at staf nordan
land edr leingra stundu
lagdiz sudr til Agda.

Ok enn quad hann.

Alluallz lutu alldir
una likar uel sliku
skylldr letzst hendi at hallda
hann ok Noregs manna.
en Sueinn konungr sunnann
sagdr er daudr hinn aude
fatt bilar flestra yta
fair hans bæir vǒru.

Sueinn Danakonungr hafde einn Uikina sem hann hafde fyrr haft en hann uæitti Æireki jalli Raumariki ok Hæidmork. Æirekr jall ok Sueinn jall letu badir skirazst ok toku tru retta. en medan þeir redu firir Noregi letu þeir gera huernn sem uillde vm kristnihalldit en fornn lǒg helldu þeir uel ok alla landzsidu. voru þeir menn uinsælir ok þo stiornnsamir. uar Æirekr jall miog firir þeim brædrum vm oll rad en Sueinn jall var allra manna fridazstr er menn hafa set.

---

## þaattr Hallfredar vandrædaskalldz.

422. Nv er þar til at taka at Hallfredr sitr at bui sinu vid litla glede sidan er hann spurde þau tidende sem urdu vid Suǒldr. unir hann nu æigi a Jslande ok fek buit j hendr Ualgerde systur sinne en hann ræid nordr til Skagafiardar ok bio skip sitt j Kolbæinsaar ose. for hann þat sama sumar vtan ok vard sidbuinn. kom hann vid Orkneyiar ok for þegar austr til Noregs. hann kom vtan at Sogni vm uernatta skæid. þa spurde hann af nyiu þau tidende er ádr hofdu gerst hit fyrra sumarit. orti hann þa þegar drapu vm Olaf konung ok er þetta stefit

Aud erv ǫll vm ordin
ęttlond um gram daudan
allr glepz fridr af falle
fiolstyggs sonar Tryggua.

Sua þotte Hallfrede mikill skade vm Olaf konung at hann unde ǫngu ok ætlade þa at hallda skipi sinu sudr til Danmerkr edr austr til Suiþiodar. þeir lagu j æinum leyniuoge ok gerdu litt vart vid sig en þo spurde Hallfredr at Æirekr jall Hakonarson væri þadan skamt a land upp. gerde hann ser þa þat j hug at hann munde drepa jall þo at hann væri þegar drepinn. ok næstu natt eftir þessa hugsan dreymde Hallfred at Olafr konungr kæmi ath honum ok mællti. þetta er onytt rad er þu ætlazst firir at drepa jall yrk þu helldr vm hann drapu. Eftir vm morguninn gek Hallfredr æinn fra skipi a land upp a þann bæ er Æirekr jall var firir. hann gek þegar at stofu þeirri er jall var inne ok drak. Hallfredr vard skiott kendr af monnum ok þegar handtekinn ok færdr jalli. Eirekr jall sagde at hann skyllde drepa firir meiding þorleifs spaka vinar sins ok bad fiotra Hallfred sem skiotazst ok leida vt. en er fioturinn var borinn at Hallfrede greip hann til ok kifti fiotrinum ór hondum þeim er a hann villdu leggia. Hallfredr hof upp fioturinn ok laust j hofut æinum þeirra suo at hann hafde þegar bana. jall bad þa drepa hann sem skiotazst suo at hann gerde æigi flæira illt. þa stod upp madr gamall er adr hafde setit a bekkinn. kende Hallfredr at þat var þorleifr hinn spaki. hann gek firir jall ok bad hann gefa Hallfrede grid. Æirekr jall suarar. þat er hoti (v)makligaz at þu bidir honum lifs edr grida edr mantu þat æigi er hann meidde þig suo at hann stak ór þer augat. þorleifr mællti. Hallfredr atti þa kost at drepa mig ef hann uillde en hann gaf mer lifit ok þar med annat ǫgat ok gerde þat j moti bodskap Olafs konungs ok lagde sig suo j hættu firir mig. nu uil ek herra at Hallfredr hafui lif firir min ord. Jall bad suo vera sem hann villde. þorleifr tok þa Hallfred a sitt ualld ok mællti. villtu nu Hallfredr at ek dęmi j mille ykkar jalls. þat vil ek giarnna segir Hallfredr. þa skaltu yrkia kuæde vm jall segir þorleifr ok haf buit a þriggia natta fresti. Hallfredr quad suo vera skylldu. ok er .iij. nætr voru lidnar færde Hallfredr jalli kuædit ok er þetta upphaf.

Ber ek hrodr at heyra
hialldrǫr vm þig geruan.

Jall launade honum vel kuædit. [280] en ekki vil ek þig med mer hafa segir jall firir sakir Olafs konungs. þorleifr baud honum þa til sin. þat

þa Hallfredr. var hann þann uetr med þorleifi vid litit ynde en þo væitti þorleifr honum vel ok reyndizst honum hinn bezste dreingr. en at sumri for Hallfredr vt til Jslandz ok kom skipe sinu j Læiruvog firir nedan heide.

## Andlat Hallfredar.

423 Avnundr bio þa at Mosfelle fader Skalldhrafnns. Hallfredr atti at giallda halfa mork silfrs huskalli Aunundar ok suarade helldr hædiliga. huskallinn kom heim vm kuelldit ok sagde Hrafnni. hann quad sliks uon at hann munde hinn lægra hlut bera j skiptum þeirra Hallfredar. ok vm morgininn biozst Hrafnn til skips ok ætlade at hǒggua stræingina ok stodua suo brottfǒr þeirra Hallfredar. sidan attu menn hlut at at sætta þa ok gallt Hallfredr þa mork huskalli ok skildu vid þat. sidan for Hallfredr vtan ok attu þeir þa skip saman ok Gunnlaugr ormstunga er þeir foru til Jslandz ok komu a Melrakkaslettu[1] þat sumar er Skalldhrafnn hafde fæingit Helgu vænu. þa sagde Hallfredr Gunnlaugi huersu honum hefde uegna(t) vit Hrafnn. Var Hallfredr þa j forum vm hrid ok uard alldri gladr. suo þotti honum mikit frafall Olafs konungs at huorke nam hann ynde a Jslande ne j Noregi. hann for austr j Suiþiod at uitea Audgisl sonar sins ok fear þess er hann atti þar at uarduæita þuiat þa uar anndadr þorarinn magr hans. þa var Hallfredr halfertǒgr at alldri er hann for at sækia fee sitt til Jslandz ok ætlade þa at stadfestazst j Suiauellde þa var (j) for med honum þorualldr brodir hans ok Hallfredr son hans þeir hǒfdu vtiuist harda firir storma saker ok afalla. Hallfredr ios at sinum hluta ok var þo siukr miog. ok æitt sinn er hann gek fra austri þa settizst hann a bæitiasinn ok j þui laust afall hann nidr j skipit ok bæiteasinn a hann ofan. þa mællti þorualldr. er þer brodir meint vid ordit. Hallfredr quad visu.

Hnaud vid hiarta sidu  
hregg blasit mer ase  
miog hefir ydr at ǒdru  
aflatzst baru skafli.

márr skotrar minum knerri  
miok er ek uotr af nokkui  
munat urþuegin æira  
alldan sinu skallde.

þorvalldr þottizst sea sottarfar hans mikit ok leidde hann aftr a skipit ok bio vm hann ok spurde huersu honum segde hugr vm sottarfar sitt. Hallfredr quad.

[1]) Melrakkasletta *Cd.*

Grund man huitri hende.
hðrduks um bra miuka
fliod gat fremdar æde
fiolerrit ser þerra.
ef daudan mig mæidar
mordheggs skulu leggia
adr var ek jungu fliode
vt vm bord at sutum.

þa mællti Hallfredr vid Hallfred son sinn. þer uil ek gefa frænde suerdit konungsnaut en adra gripe þa er Olafr konungr gaf mer skal leggia j kistu med mer ef ek ðndumzst her a skipinu. þa quad Hallfredr visu þessa.

Ek munde nu anndazst
ungr var ek hardr j tungu
senn ef salu minne
sorglaust vissag borgit.
uæit ek uætki um sytig
ualldi gud huort alldri
daudr verdr huerr j hordum
heluiti skal slita.

A þeim sama degi anndadizst Hallfredr ok var lagdr j kistu ok gripir hans med honum konungsnautar sem hann hafde firir mællt skikkia hringr ok hialmr. sidan uar kistunne skotit firir bord.

## Groftr Hallfredar.

424. Kista þessi kom a land j eyiunne helgu j Sudreyium ok fundu þionustusuæinar abota þess er þar red firir. þeir brutu kistuna ok stalu fenu en soktu liki Hallfredar j fen æitt. en abota dreymde a næstu natt at kæmi at honum Olafr konungr Trygguason ok væri ræiduligr miog ok mællti. þu att illa þionostusuæina þeir hafa brotit skip skalld(z) mins ok stolit fe hans en bundit stæin vid hals honum ok drekt j fen. nu hafit sannar sogur af þeim ella mun ydr henda huer undr. Sidan huarf konungr fra honum en aboti vaknnade. let hann taka suæinana en þeir geingu þegar vid þui er a þa var borit. var þeim þa su sok uppgefin. Lik Hallfredar fanzst ok var grafit virduliga þar at kirkiu. kalekr uar ger or hringinum en alltaris klęde af skikkiunne kertastikur ór hialminum. þeir þorualldr toku Jsland vm haustit ok uoru a Ottarstðdum um uetrinn. sidan for þorualldr vtan en Hallfredr setti bu saman a Ottarstodum ok bio þar. uar hann ok kalladr vandrædaskalld sem fadir hans. hann vard gðfugr madr ok mikilmenni ok eru margir menn fra honum komnir.

## Er Erlingr fretti Suðldrar orrosto.

425. þa er Erlingr Skialgsson magr Olafs konungs ok adrir þeir menn er siglt hofdu fra Olafi konungi spurdu þau stortidendi er gerz [231] hofdu vid Suoldr þa hrygduzst þeir ok hðrmudu er þeir hofdu suo ouarliga skilit vit Olaf konung ok latit hann eftir j suo myklum haska.

angrade þat Erling þui mest at missa sligs hofdingea at hann var mæirr vandabundinn Olafi konungi Tryggvasyni en adrir. uar hann þa æinn suo af ǫllum lendum monnum j Noregi at æigi leitade til sætta vid jalla er þeir toku riki Æirekr ok Suæinn Niu uetrum eftir Suoldrar orrostu do Sueinn Danakonungr en .iij. vetrum eftir dauda hans andadizst Adalradr Æinglakonungr. toku þa konungdom eftir hann synir hans .ij. Jatmundr ok Jatgeirr.

### Fra Erlinghi Skialgssyni. capitulum.

426. Erlingr hafde haft landzskylldir at helminge ok allar konungs tekiur mille Lidandisnes ok Sognns en æigi uillde hann jall vera en hafde þo meira riki en skattkonungar. nu uillde Æirekr jall æigi lata ser lika at Ærlingr Skialgsson hefde suo mikit riki ok tok hann undir sig allar konungs æignir þær sem Olafr konungr hafde uæitt Erlinge en Erlingr tok jafnan sem ádr landzskylldir vm Rogaland ok gulldu landbuar oft tuennar landskylldir en at ǫdrum kosti eyddi hann bygdina. litit fengu jarllar þar af sakeyre þuiat ekki hellduzst þar syslumenn ok þui at æins for jall þar at ueitzslum vtan[1] hefde fiolmenni. þess getr Siguatr.

Erlingr var suo at ialla
att er skiolldungr mattit
Olafs magr at ægde
aldygs sonar Tryggua.

næst gaf sina systur
snarr buþegnna harri
evlfs uardadar adra
alldrgifta Rognnuallde.

Eirekr jall orti þui ekki a at beriazst vid Ærling at hann var frændstorr ok frændmargr rikr ok vinsæll. sat hann iafnnan med fiolmenni sem konungar. hann var oft a sumrum j hernade ok fek ser fear þuiat hann hellt teknum hætti vm rausn ok stormenzsku þo at (hann) hefde minne uæitzslur ok vhallkuginre en vm daga Olafs konungs Tryggua-sonar. Erlingr var manna fridazstr ok mestr uigr huerium manni betr ok kapsamr vm alla hluti ok hinn mesti hermadr. þess getr Siguatr.

Erlinge uard æinge
annar lendra manna.

þat hefir verit jafnan mal manna at Erlingr hafi verit gofgazstr lendra manna j Noregi. þau voru bornn Erlings ok Astridar. Aslakr. Skialgr. Sigurdr. Lodinn ok þorir. Ragnhilldr er atti þorbergr Arnnason. Erlingr hafde iafnan med ser .ix. tigu frelsingia edr fleire ok var þat bæde uetr ok sumar at[2] þar uar maldrykkia at daguerdum en at natuerdum var omællt

[1]) *r.* at hann [2]) þat uar maldrykkia huort uetr ok sumar at *tilf. Cd.*

drukkit. en er jallar uðru nærr þa hafde hann .cc. manna. alldri for hann famennare en med .xx.sessu alskipada. Erlingr atti skæid mykla tuituga ok .ij. rum at rumatali ok þo mikil at þui hana hafde hann j uiking edr leidangursstefnnu ok var þar a .cc. manna edr mæirr. Erlingr hafde med ser .xxx. þræla ok vmfram annat man. hann ætlade þrælum sinum dagsuerk ok gaf þeim sidan stundir ok lof til at þeir ynne ser um rokkr edr um nætr. hann gaf þeim akrlond at sa ser kornni ok færa auoxstinn til fear ser. hann lagde a huernn þeirra verk ok lausnn. ok leystu margir sig til frelsis. med þui fe keyfti Erlingr ser annat man en leysingium sinum skipade hann. j sildfiski en sumum til annarra fefanga. sumir ruddu merkr ok gerdu ser bęi ok ollum kom hann til nokkurs þroska.

---

## HER HEFR GRÆNLĘNDINGHA ÞAATT.
### Capitulum.

Þat er nu þessu næst at Biarne Heriulfsson kom vtan af Grænlande a fund Æireks jalls ok tok jall vid honum vel. sagde Biarne fra ferdum sinum er hann hafde lond set ok þotti monnum hann verit hafa vforuitinn er hann hafde ekki at segia af þeim londum ok fek hann af þui nokkut amæli. Biarnne gerdizst hirdmadr jalls ok for vt til Grænlandz vm sumarit eftir. var nu mikil vmræda vm landalæitan. Leifr son Æireks rauda ór Brattahlijd for a fund Biarna Heriulfssonar ok keyfte skip at honum ok red til haseta sua at þeir voru halfr fiorde tǫgr manna saman. Leifr bad fodur sinn Æirek at hann munde enn firir vera fǫrinne. Æirekr taldizst helldr undan kuetzst þa vera hniginn j alldr ok kuetzst minna mega vid uosé aullu en var. Leifr quedr hann enn mundu mestri heill styra af þeim frændum. ok þetta let Æirekr eftir Leifi ok ridr heiman þa er þeir eru at þui bunir ok var þa skamt at fara til skipsins [282] drepr hestrinn fæti sa er Æirekr reid ok fell hann af bake ok lestist fotr hans. þa mællti Æirekr. ekki mun mer ætlat at finna lǫnd fleire en þetta er nu byggium ver. munum uær nu ekki leingr fara aller samt. For Æirekr heim j Brattahlid. en Leifr redzst til skips ok felagar hans med honum halfr fiorde tǫgr manna. þar uar sudrmadr æinn j ferd er Tyrker het. nu biuggu þeir skip sitt ok sigldu j haf þa er þeir voru bunir ok fundu þa þat land fyst er þeir Biarnne fundu sidazst. þar sigla þeir at lande ok kostudu akkerum ok

skutu bate ok foru a land ok sa þar æigi gras. ioklar mykler voru allt hit efra en sem æin hella væri allt til ioklanna fra sionum ok syndizst þeim þat land vera gædalaust. þa mællti Leifr. æigi er oss nu þat ordit um þetta land sem Biarna at uer hafim eigi komit a landit. nu mun ek gefa nafnn landinu ok kalla Helluland. Sidan foru þeir til skips. eftir þetta sigla þeir j haf ok fundu land annat sigla enn at lande ok kasta akkerum skiota sidan bate ok ganga a landit. þat land uar slett ok skogi uaxit ok sandar huitir vida þar sem þeir foru ok osæbratt. þa mællti Leifr. af kostum skal þessu lande nafnn gef(a) ok kalla Markland. foru sidan ofan aftr til skips sem fliotazst. Nu sigla þeir þadan j haf landnyrdings uedr ok uoru vti .ij. dęgr adr þeir sa land ok sigldu at lande ok komu at ey einne er la nordr af landinu ok geingu þar upp ok sazst vm j godu uedri ok fundu þat at dögg uar a grasinu ok uard þeim þat firir at þeir toku hondum sinum j döggina ok brugdu j munn ser ok þottuzst ekki iafnnsætt kent hafua sem þat var. sidan foru þeir til skips sins ok sigldu j sund þat er la mille eyiarinnar ok ness þess er nordr gek af landinu. stefndu j uestrætt firir nesit. þar uar grunnsæfui mikit at fioru siofar ok stod þa uppi skip þeirra ok uar þa langt til siofar at sia fra skipinu. en þeim uar suo mikil foruitnni a at fara til landzsins at þeir nentu æigi þess at bida at siorr felle undir skip þeirra ok runnu til landz þar er a æin fell ór uattne æinu. en þegar siorr fell undir skip þeirra þa toku þeir batinn ok reru til skipsins ok fluttu þat upp j ána sidan j uattnit ok kostudu þar akkerum ok baru af skipe hudföt sin ok gerdu þar budir. toku þat rad sidan at buazst þar vm þann uetr ok gerdu þar hus mikil. huorke skorti þar lax j anne ne j uattninu ok stærra lax en þeir hefde fyrr set. þar uar suo godr landzkostr at þui er þeim syndiz at þar munde æinge fenadr fodr þurfa a uetrum. þar kuomu æinge frost a uetrum ok litt renudu þar graus. Meira uar þar iafnndęgri en a Grænlande edr Jslande. sol hafde þar eyktarstad ok dagmalastad um skamdegi. En er þeir hofdu lokit husgerd sinne þa mællti Leifr vid foruneyti sitt. nu uil ek skifta lata lide voru j .ij. stade ok uil ek kanna lata landit ok skal helmingr lids vera vit skala heima en annarr helmingr skal kanna landit ok fara æigi leingra en þeir komi heim at kuellde ok skilizst æigi. Nu gerdu þeir suo vm stund. Leifr gerde ymizst at hann for med þeim edr uar heima at skala. Leifr uar mikill madr ok sterkr manna sköruligazstr at sia vitr madr ok godr hofsmadr um alla hluti.

### Leifr hinn hepne fann menn i skeri a hafi.

428. A æinhueriu kuellde bar þat til tidenda at mannz uar vant af lide þeirra ok var þat Tyrker sudrmadr. Leifr kunne þui storilla þuiat Tyrker hafde leinge verit med þeim fedgum ok elskat miog Leif j barnnæsku. talde Læifr nu miog a hendr forunautum sinum ok biozst til ferdar at læita hans ok .xij. menn med honum. en er þeir voru skamt komnir fra skala þa gek Tyrker j mot þeim ok uar honum vel fagnat. Leifr fann þat bratt at fostra hans var skapgott. hann var brattlæitr ok lauseygr smaskitligr j andliti litill uexsti ok uesaligr en jþrottamadr a allzskonar hagleik. þa mællti Leifr til hans. hui vartu suo sæinn fostri minn ok fraskile foruneytinu. Hann talade þa fyst leinge a þyrsku ok skaut marga uega augunum ok gretti sig. en þeir skildu æigi huat er hann sagde. hann mællti þa a norrænu er stund leid. ek uar gæinginn æigi myklu læingra en þit. kann ek nokkur nynæme at segia. ek fann vinvid ok vinber. Mun [283] þat satt fostri minn quad Leifr. At visu er þat satt quad hann þuiat ek var þar fæddr er huorke skorti uinvid ne vinber. Nu suofu þeir af þa nott. en vm morguninn mællti Leifr vid haseta sina. nu skal hafua tuennar syslur fram ok skal sinn dag huort lesa vinber edr hoggua vinvid ok fella mörkena suo at þat verde farmr til skips mins. Ok þetta var rads tekit. Suo er sagt at eftirbatr þeirra var fylldr af vinberium. nu var hogginn farmr a skipit. ok er uorar þa biugguzst þeir ok sigldu burt ok gaf Leifr nafnn landinu eftir landkostum ok kallade Vinland. sigla nu sidan j haf ok gaf þeim vel byri þar til er þeir sa Grænland ok fioll undir ioklum. þa tok æinn madr til mals ok mællti vid Læif. hui styrir þu suo miog undir uedr skipinu. Læifr suarar. ek hygg at stiorn minne en þo enn at fleira edr huat seai þer til tidenda. þeir kuoduzst ekki sea þat er tidendum sætti. Ek ueit æigi segir Leifr huort ek se skip edr sker. Nu sea þeir ok quodu sker vera. hann sa þui framar en þeir at hann sa menn j skerinu. nu uil ek at ver beitim undir uedrit segir Leifr suo at naim til þeirra ef menn eru þurftugir at na uorum funde ok er naudsyn a at duga þeim. en med þui at þeir se æigi fridmenn þa æigum ver allan kost vndir oss en þeir ekki undir ser. Nu sækia þeir undir skerit ok lægdu (segl) sitt. kostudu akkeri ok skutu litlum bati ödrum er þeir höfdu haft med ser. þa spurde Tyrkr huerr þar rede firir lide. sa kuetzst þorir heita ok vera norænn madr at kyne edr huert er þitt nafnn. Leifr segir til sin. Ertu son Æireks rauda ór Brattahlid segir hann. Leifr quad suo vera. nu uil ek segir Leifr bioda ydr ollum a mitt skip ok femunum þeim er skipit ma vid taka. þeir þagu þann kost ok

sigldu sidan til Æireksfiardar med þeim farmi þar til er þeir komu til Brattahlidar. baru farminn af skipe. sidan baud Leifr þori til vistar med ser ok Gudride konu hans ok .iij. monnum audrum en fek uistir audrum hasetum będe þoris ok sinum felögum. Leifr tok .xv. menn or skerinu. hann uar sidan kalladr Leifr hinn hepni. Leifi vard nu będe gott til fiar ok mannuirdingar. þann uetr kom sott mikil j lid þoriss ok andadizst hann þorir ok mikill hluti lids hans. þann uetr andadizst ok Æirekr raude. Nu uar umræda mikil vm Uinlandzför Leifs ok þotti þoruallde brodur hans of vvida kannat hafa verit landit. þa mællti Leifr uit þorualld. þu skalt fara med skip mitt brodir ef þu uill til Vinlandz ok uil ek þo at skipit fari adr eftir uide þeim er þorir atti j skerinu. Ok suo uar gert.

## þorualldr for til Vijnlandz.

429. Nv biozst þorualldr til þeirrar ferdar med .xxx. manna med umrade Leifs brodur sins. sidan biuggu þeir skip sitt ok helldu j haf ok er æinge frasögnn vm ferd þeirra fyrr en þeir koma til Vinlandz til Leifsbuda ok biuggu þar vm skip sitt ok satu um kyrt þann uetr ok ueiddu fiska til matar ser. en vm uorit mællti þorvalldr at þeir skylldu bua skip sitt ok skyllde eftirbatr skipsins ok nokkurir menn med fara firir uestan landit ok kauna þar vm sumarit. þeim syndizst landit fagurt ok skogólt ok skamt mille skogar ok siofar ok huitir sandar. þar var eyiott miog ok grunnsæfui mikit. þeir fundu huerge manna vistir ne dyra en j eyiu æinne uestarliga fundu þeir kornnhialm af tre. æigi fundu þeir flæire mannauerk ok foru aftr ok quomu til Leifsbuda at hausti. en at sumri ödru fór þorualldr firir austan med kaupskipit ok hit nyrdra firir landit. þa gerde at þeim uedr huast firir anndnese einu ok rak þa þar upp ok brutu kiolinn undan skipinu ok höfdu þar langa duol ok bættu skip sitt. þa mællti þorualldr vit forunauta sina. nu uil ek at uer ræisim her upp kiolinn a nesinu ok kallim Kialarnes[1]. Ok suo gerdu þeir. sidan sigla þeir þadan j braut ok austr firir landit ok inn j fiardarkiafta þa er þar uoru næstir ok at hofda þeim er þar gek fram hann var allr skoge uaxinn. þa leggia þeir fram skip sin j lægi ok skiota bryggium a land ok geingur þorualldr þar a land upp med alla forunauta sina. Hann mællti þa. her er fagurt ok her uillda ek bæ minn ræisa. Ganga sidan til skips ok sia a sandinum inn fra hofdanum .iij. hæder ok foru til þangat ok sea þar hudkeipa .iij. ok .iij. menn undir huerium. þa skiptu [284] þeir lide sinu ok höfdu

[1]) Kialnarnes *Cd.*

hendr a þeim ollum nema æinn komzst j burt med keip sinn. þeir drepa hina .viij. ok ganga sidan aftr a hôfdann ok siazst þar vm ok sia inn j fiordinn hæder nokkurar ok ætludu þeir þat vera bygdir. eftir þat slo a þa hofga suo miklum at þeir mattu æigi uoku hallda ok sofna þeir aller. þa kom kall yfir þa suo at þeir uoknudu aller. suo segir kallit. uaki þu þorualldr ok allt foruneyte þitt ef þu vill lif þitt hafa ok far þu a skip þitt ok aller menn þinir ok farit fra lande sem skiotazst. þa for innan eftir firdinum vtal hudkæipa ok lôgdu at þeim. þorvalldr mællti þa. ver skulum færa vt a bord vigflæka ok veriazst sem bezst en uega litt j mot. Suo gera þeir en skrælingar skutu a þa vm stund en flyia sidan j burt sem akafazst huerr sem matti. þa spurde þorvalldr menn sina ef þeir uære nokkut sarir. þeir kuoduzst æigi sarir vera. ek hefir fæingit sar undir hendi segir hann ok flo ôr mille skipbordzsins ok skialldarins under hond mer ok er her orin. enn mun mig þetta til bana leida. nu ræd ek at þer buit ferd ydra sem fliotazst aftr a læid en þer skulut færa mik a hofda þann er mer þotti byggiligazst vera. ma þat vera at mer hafui satt a munn komit at ek muni þar bua a vm stund. þar skulu þer mik grafa ok setia krossa at hofdum mer ok at fotum ok kallit þat Krossanes iafnan sidan. Grønland var þa kristnnat en þo andadizst Æirekr raude firir kristni. Nu andadizst þorualldr en þeir gerdu allt eftir þui sem hann hafde mælt ok foru sidan ok hittu þar forunauta sina ok sôgdu huorir ôdrum slik tidende sem vissu ok biuggu þar þann uetr ok fengu ser vinber ok vinvid til skipsins. nu buazst (þeir) þadan vm uorit eftir til Grenlandz ok kuomu skipe sinu j Æireksfiord ok kunnu Læifi at segia mikil tidende.

## þorsteinn Eireksson andadiz i vestri bygd.

430. þat hafde gerzst til tidenda medan a Grenlandi at þorsteinn j Æireksfirde hafde kuongazst ok fengit Gudridar þorbiarnardottur er att hafde þorir austmadr er fyrr uar fra sagt. nu fystizst þorsteinn Æireksson at fara til Vinlandz eftir like þorualldz brodur sins ok bio skip hit sama ok ualde hann lid at afli ok uexsti ok hafde met ser halfan þridea tôg manna ok Gudride konu sina ok sigla j haf þegar þau erv buin ok ór landsyn. þau uelkti vti allt sumarit ok vissu æigi huar þau foru. ok er uika uar af uetri þa toku þeir land j Lysufirde a Grænlande j hinne uestri bygd. þorsteinn læitade þeim vm vistir ok fek uister aullum hasetum sinum en hann var vistlaus ok kona hans. nu voru þau eftir at skipe tuau nokkurar nætr. þa uar enn ung kristne

a Grænlande. þat uar æinn dag at menn kuomu at tiallde þeirra snemma. sa spurde er firir þeim var huat manna veri j tialldinu. þorsteinn suarar. .ij. menn segir hann edr huerr spyrr at. þorsteinn hæiti ek ok er ek kalladr þorsteinn suartr en þat er eyrendi mitt hingat at ek uil bioda ykkr badum hionum til vistar til min. þorstæinn quezst uilia hafa vmræde konu sinnar en hon bad hann rada. ok nu iatar hann þessu. þa mun ek koma eftir ykkr aa morgin med eyke þuiat skortir ekki til at væita ykkr vist en fasinne er mikit med mer at vera þuiat .ij. erv vit þar hion þuiat ek er æinþykkr miog. annan sid hefir ek ok enn þer hafit ok ætla ek þann þo betra er þer hafit. Nu kom hann eftir þeim um morgininn med eyki ok foru þau med þorsteini suarta til uistar ok uæitti hann þeim uél. Gudridr uar skorulig kona at sia ok uitr kona ok kunne uel at vera med okunnum monnum. þat uar snemma uetrar (at) sott kom j lid þorsteins Æirekssonar ok andadizst þar margir forunautar (hans) þorsteinn. bat gera kistur at likum þeirra er onduduzst ok færa til skips ok bua þar vm. þuiat ek vil lata flytia til Æireksfiardar at sumri oll likin. Nu er þess skamt at bida at sott kemr j hybile þorsteins ok tok kona hans sott fyst er het Grimhilldr hon uar akafliga mikil ok sterk sem kallar en þo kom sottin henni undir. ok bratt eftir þat tok sottina þorstæinn Æireksson ok lagu þau bæde senn ok andadizst Grimhilldr kona þorsteins suarta. en er hon var daud þa gek þorsteinn fram ór stofunne eftir fiol at leggia a likit. Gudridr mællti þa. vertu litla hrid j brott þorsteinn minn segir hon. Hann quad suo vera skylldu. þa mællti þorsteinn Æireksson. med undarligum hætti er nu vm husfreyiu [385] uora[1] þuiat nu orglazst hon upp vid ǫlnboga ok þokar fotum sinum fra stokki ok þreifar til skua sinna. Ok j þui kom þorsteinn bonde inn ok lagdizst Grimhilldr nidr j þui ok brakade þa j hueriu tre j stofunne. Nu gerir þorsteinn kistu at like Grimhilldar ok færde j brott ok bio vm. hann uar będe mikill madr ok sterkr ok þurfti hann þess allz adr hann kom henni burt af bænum. Nu elnade sottin þorsteini Æirekssyni ok andadizst hann. Gudridr kona hans kunne þui litt. þa voru þau aull j stofunne. Gudridr hafde setit a stoli frammi firir beknum er hann hafde legit þorsteinn bonde hennar. þa tok þorsteinn bonde Gudride af stolinum j fang ser ok settizst j bekkinn annan med hana gegnt like þorsteins ok taldi um firir henni marga uega ok huggade hana ok het henni þui at hann munde fara med henni til Æireksfiardar med like þorsteins bonda hennar ok forunauta hans. ok suo skal ek taka hingat hion flæire segir hann þer til

[1]) uorrar *Cd.*

hugganar ok skemtanar. Hon þakkade honum. þorsteinn Æireksson settizst þa upp ok mællti. huar er Gudridr. .iij. tima mællti hann þetta en hon þagde. þa mællti hon vid þorstein bonda. huort skal ek suor uæita hans male edr æigi. hann bad hana æigi suara. þa gek þorsteinn bonde yfir golfit ok settizst a stolinn en Gudridr sat j kniam honum ok þa mællti þorsteinn bonde. huat uilltu nafnni segir hann. Hann suarar er stund læid. mer er ant til þess at segia Gudride forlaug sin til þess ath hon kunne þa betr andlate minu þuiat ek er kominn til godra huilldastada. en þat er þer at segja Gudridr at þu munt gift vera islenzskum manni ok munu langar vera samfarar ykkrar ok mart manna mun fra ykkr koma þroskasamt biart ok agætt sætt ok ilmat uel. munu þit fara af Grænlandi til Noregs ok þadan til Jslandz ok gera bu a Jslande. þar munu þit leinge bua ok muntu honum leingr lifa. þu munt vtan fara ok ganga sudr ok koma vt aftr til Jslandz til bus þins ok þa mun þar kirkia reist vera ok muntu þar vera ok taka nunnu vigslu ok þar muntu andazst. Ok þa hnigr þorsteinn aftr ok uar buit vm lik hans ok fært til skips. þorsteinn bonde efnndi uel uit Gudride allt þat er hann hafde hæitit. hann sellde vm uorit jord sina ok kuikfe ok for til skips med Gudride med allt sitt. bio skipit ok fek menn til ok for sidan til Æireksfiardar. voru nu likin iordut at kirkiu. Gudridr for til Læifs j Brattahlid en þorsteinn suarti gerde bu j Æireksfirde ok bio þar medan hann lifde ok þotti vera hinn uaskazsti madr.

### Fra Vinlandzferdum þorfinnz ok þeirra felogum.

431. þat sama sumar kom skip af Noregi til Grænlandz. sa madr het þorfinnr kallzefnni er þuj skipe styrde. hann var son þordar hesthofda Snorrasonar þordarsonar fra (Hôfda). þorfinnr kallzefni var storaudigr at fe ok var vm uetrinn j Brattahlid med Leifui Æirekssyne. bratt fellde hann hug til Gudridar ok bad hennar en hon ueik til Læifs suðrum firir sig. sidan var hon honum fostnut ok gert brudhlaup þeirra a þeim uetri. Hin sama var vmræda a Uinlandzfôr sem fyrr ok fystu menn Kallzefni miog þeirrar ferdar bæde Gudridr ok adrir menn. nu var radin ferd hans ok red hann ser skipveria .lx. kalla ok konur .v. þann maldaga gerdu þeir Kallzefni ok hasetar hans at iofnum hondum skylldi þeir hafa allt þat er þeir fengi til gæda. þeir hôfdu med ser allzkonar fenat þuiat þeir ætlodu at byggia landit ef þeir mętti þat. Kallzefni bat Leif husa a Uinlande en hann kuetzst lia mundu husin en gefa æigi. Sidan helldu þeir j haf skipinu ok komu til Leifsbuda med

heilu ok holldnu ok baru þar upp hudfôt sin. þeim bar brátt j hendr mikil fông ok god þuiat reydr uar þar upprekin będe mikil ok god. foru til sidan ok skaru hualinn. skorti þa æigi mat. fenadr gek þar a land upp. en þat uar bratt at gradfe vard urigt ok gerde mikit vm sig. þeir hofdu haft med ser gridung æinn. Kallzefni let fella vidu ok telgia til skips sins ok lagde vidinn a biarg eitt til þurkanar. þeir hofdu oll gæde af landkostum þeim er þar voru będe af vinberium ok allzskonar ueidum ok gędum. Eftir þann uetr hinn fysta kom sumar þa urdu þeir uarir vit Skrælingia ok for þar ór skógi fram mikill flokkr manna. þar uar nærr nautfe þeirra en gradungr tok at belia ok gialla akafliga hatt en þat hręddust Skrælingar ok lôgdu undan med byrdar sinar en þat uar grauara ok safuali ok allzskonar skinnauara ok snua til bæiar Kallzefnis ok uilldu þar inn j husin en Kallzefni let ueria dyrnnar. huorigir skildu annars [:66] mal. þa toku Skrælingiar ofan bagga sina ok leystu ok budu þeim ok uilldu uopn hellzst firir en Kallzefni bannade þeim at selia uopnin ok nu læitar hann rads med þeim hætti at hann bad konur bera vt bunyt at þeim ok þegar er þeir sa bunyt þa villdu þeir kaupa þat en ekki annat. nu uar su kaupfôr Skrælingia at þeir baru sinn varning j brott j môgum sinum en Kallzefni ok forunautar hans hôfdu eftir bagga þeirra ok skinnauôru. foru þeir vid suobuit j burt. Nu er fra þui at segia at Kallzefni lętr gera skidgard ramligann vm bę sinn ok biugguzst þar vm. J þann tima fædde Gudridr sueinbarnn kona Kallzefnis ok het sa sueinn Snorre. A aunduerdum odrum uetri þa kuomu Skrælingiar til motz vid þa ok voru myklu fleire en fyrr ok hofdu slikan varnnat sem fyrr. þa mællti Karlzefni vid konur. nu skulu þer bera vt slikan mat sem fyrr uar rifazstr en ekki annat. Ok er þeir sa þat þa kostudu þeir bogguunm sinum inn yfir skidgardinn en Gudridr sat j dyrum inne med uôggu Snorra sonar sins. þa bar skugga j dyrrin ok gek þar inn kona j suortum namkyrtli helldr lag ok hafde dregil um hofut ok liosiôrp a har fo(l)leit ok miog eygd suo at æigi hafde iafnnmikil augu set j einum mannzhause. hon gek þar at er Gudridr sat ok mællti. huat hæitir þu segir hon. Ek hæiti Gudridr edr huert er þitt hæiti. Ek hæiti Gudridr segir hon. þa retti Gudridr husfreyia hond sina til hennar at hon sæti hia henni en þat bar allt saman at þa heyrde Gudridr brest mikinn ok uar þa konan horfin ok j þui var ok ueginn æinn Skrælingi af æinum huskalle Kallzefnis þuiat hann hafde uiliat taka uopnn þeirra. ok foru nu j brott sem tidazst en klæde þeirra lagu þar eftir ok varningr. æinge madr hafde konu þessa set utan Gudridr æin. Nu

munum ver þurfa til rada at taka segir Kallzefni þuiat ek hygg at þeir mune vitia uor hit þridea sinne med vfride ok fiolmenni. nu skulum ver taka þat rad at .x. menn fari fram a nes þetta ok syne sig þar en annat lid uort skal fara j skog ok hoggua þar riodr firir nautfe voru þa er lidit kemr fram ór skoginum. uer skulum ok taka gridung uornn ok lata hann fara firir oss. En þar var suo hattat er fundr þeirra uar ætladr at uatn uar audru megin en skogr a annan ueg. Nu uoru þessi rad hofd er Kallzefni lagde til. Nu komu Skrælingiar j þann stad er Kallzefni hafde ætlad til bardaga. nu uar þar bardage ok fell fiolde af lide Skrælingia. einn madr uar mikill ok uænn j lide Skrælingia ok þotti Kallzefni sem hann munde vera höfdinge þeirra. nu hafde æina þeirra Skrælingia tekit upp ôxi eina ok leit a um stund ok reidde at felaga sinum ok hio til hans. sa fell þegar daudr. þa tok sa hinn mykle madr vit ôxinne ok leit a vm stund ok uarp henni sidan a sioinn sem leingst matti hann. en sidan flyia þeir a skoginn suo huerr sem fara matti ok lykr þar nu þeirra vidskiftum. Voru þeir Kallzefni þar þann uetr allan. en at vore þa lyser Kallzefni at hann uill eigi þar vera læingr ok vill fara til Grænlandz. nu bua þeir ferd sina ok hofdu þadan morg gæde j vinuide ok berium ok skinnavoru. nu sigla þeir j haf ok kuomu til Æireksfiardar skipe sinu heilu ok voru þar vm uetrinn.

## Freydis let drepa þa brædr.

432. Nv tekzt vmræda at nyiu vm Uinlandzferd þuiat su ferd þikir będe god til fiar ok virdingar. þat sama sumar kom skip af Noregi til Grænlandz er Kallzefni kom af Vinlande. þui skipe styrdu brędr .ij. Helgi ok Finnboge ok voru þann uetr a Grænlande. þeir brædr voru islenzskir at kyne ok ór Austfiordum. þar er nu til at taka at Freydis Æireksdottir gerde ferd sina heiman ór Gôrdum ok for til fundar vid þa brædr Helga ok Finnboga ok beidde þa at þeir færi til Vinlandz med farkost sinn ok hefe helming gæda allra vid hana þeirra er þar fengizst. nu jattu þeir þui. þadan for hon a fund Leifs brodur sins ok at hann gæfui henni hus þau er hann hafde gera latit a Uinlande. en hann suarar hinu sama. kuezst lia mundu hus en gefa æigi. sa var maldagi med þeim kallzefni ok Freydise at huorir skyldu hafa .xxx. uigra manna a skipe ok konur umfram en Freydis bra af þui þegar ok hafde .v. monnum fleira ok leyndi þeim ok urdu þeir brædr æigi fyrri vid þa varir en þeir komu til Vinlandz. Nu letu þau j haf ok hofdu til þess mællt adr at þau munde samflota hafa ef suo uillde verda ok þess var litill mun(r). en þo kuomu þeir brædr [..] nokkuru fyrre

ok hofdu upp borit faung sin til husa Leifs. en er Freydis kom at lande þa rydia þeir skip sitt ok bera upp til hus faung sin. þa mællti Freydis. hui baru þer inn her faung ydr. þuiat ver hugdum segia þeir at halldazst muni oll akuedin ord med oss. Mer lede Leifr husanna segir hon en æigi ydr. þa mællti Helgi. þriota mun okkr brædr illzsku uit þig. Baru nu vt faung ok gerdu ser skala ok settu þann skala firr sionum a uazstrondu ok biuggu uel vm. en Freydis let fella vidu til skips sins. Nu tok at uetra ok toludu þeir brædr at takazst mundu upp læikar ok væri hofd skemtan. suo var gert vm stund þar til er menn baruzst verra j mille ok þa gerdizst sundrþykke med þeim ok tokuzst af læikar ok ongar gerduzst kuomur mille skalanna ok for suo fram leinge uetrar. þat var æinn morgin snemma at Freydis stod upp ór rumi sinu ok klæddizst ok fór æigi j skoklęđin en uedri uar suo farit at dogg uar fallin mikil. hon tok kapu bonda sins ok for j en sidan gek hon til skala þeirra brædra ok til dyra. en madr einn hafde vt gengit litlu adr ok lokit hurd aftr a midian klofa. hon lauk upp hurdinne ok stod j gattum stund þa ok þagde. en Finnbogi la innzstr j skalanum ok uakti. Hann mællti. huat uilltu hingat Freydis. Hon suarar. ek uil at þu standir upp ok gangir vt med mer ok uil ek tala vit þig. Suo gerir hann. þau ganga at tre er la undir skalaueggįnum ok settizst þar nidr. Huersu likar þer segir hon. Hann suarar. godr þiki mer landzkostur en illr þiki mer þustr sa er uór j milli er þuiat ek kalla ekki hafa til ordit. þa segir þu sem er segir hon ok suo þiki mer en þat er eyrende mitt a þinn fund at ek villde kaupa skipum vit ykkr brædr þuiat þit hafit meira skip en ek ok villda ek j brott hedan. þat mun ek lata gangazst segir hann ef þer likar þa vel. Nu skilia þau vid þat. geingr hon heim en Finnboge til huilu sinnar. hon stigr upp j rumit kolldum fotum ok uaknuar hann þoruardr vid ok spyrr hui at hon væri suo kolld ok vóth. Hon suarar med myklum þiosti. ek uar gengin segir hon til þeirra brædra at fala skip at þeim ok uillda ek kaupa meira skip. en þeir urdu vid þat suo illa at þeir bordu mig ok leku sarliga en þu uesæll madr munt huarke vilea reka minnar skammar ne þinnar ok mun ek þat nu finna at ek er j brottu af Grænlande ok mun ek gera skilnat vid þig vtan þu hefnir þessa. Ok nu stodst hann æigi atolur hennar ok bad menn upp standa sem skiotazst ok taka uopn sin ok suo gera þeir ok fara þegar til skala þeirra brædra ok geingu inn at þeim sofandum ok toku þa ok færdu j bǫnd ok leiddu suo vt huernn sem bundinn uar en Freydis let drepa huernn sem vt kom. nu voru þar aller kallar drepnir en konur uoru

eftir ok villde eingi þær drepa. þa mællti Freydis. fai mer ðxi j hond. Suo uar gert. sidan uegr hon at konum þeim .v. er þar voru ok gek af þeim daudum. Nu foru þau til skala sins eftir þat id illa verk ok fanzst þat æitt a at Freydis þottizst alluel hafa vmradit ok mællti vid felaga sina. ef oss verdr audith at koma til Grænlandz segir hon þa skal ek þann mann rada af life er segir fra þessum atburdum nu skulu ver þat segia at þau bui her eftir þa er ver forum j brott. Nu biuggu þeir skipit snemma vm vorit þat er þeir brædr hofdu att med þeim ollum gædum er þau mattu til fa ok skipit bar. sigla sidan j haf ok vrdu vel rædfara ok kuomu j Æireksfiord skipe sinu snemma sumars. Nu var þar Kallzefni firir ok hafde albuit skip sitt til hafs ok bæid byriar ok er þat mal manna at æigi munde audgara skip gengit hafa af Grænlande en þat er hann styrde.

## Fra Freydisi.

433. Freydis for nu til bus sins þuiat þat hafde stadit medan vskatt. hon fek mikinn feing fiar ollu foruneyti sinu þuiat hon uillde leyna lata vdadum sinum. sitr hon nu j bui sinu. Eigi urdu aller suo halldinordir at þegde yfir vdadum þeirra edr illzsku at æigi kæme upp vm sider. Nu kom þetta upp vm sidir firir Leif brodur hennar ok þotti honum þessi saga allill. þa tok Leifr .iij. menn af lide þeirra Freydisar ok pinde þa til sagna[1] vm þenna atburd allan iafnnsaman ok var med æinu mote sognn þeirra. Æigi nenni ek segir Leifr at gera þat at vid Freidisi systur mina sem hon veri verd en spa mun ek þeim þess at þeirra afkuęmi mun litt at þrifum verda. Nu læid þat suo fram at aungum þotti vm þau [288] vert þadan jfra nema illz. Nu er at segia fra þui er Kallzefni byr skip sitt ok siglde j haf. honum forst uel ok kom til Noregs med heilu ok holldnu ok sat þar vm uetrinn ok sellde uarnning sinn ok hafde þar gott yfirlæti ok þau będe hion af hinum gofgauzstum monnum j Noregi en vm uorit eftir bio hann skip sitt til Jslandz. ok er hann var albuinn ok skip hans la til byriar firir bryggiunum þa kom þar ad honum sudrmadr einn ættadr af Brimum ór Saxlande hann falar at Kallzefni husasnotru hans. Ek uil æigi selia sagde hann. Ek mun gefa þer uit halfa mork gullz segir sudrmadr. Kallzefni þotti uel vid bodit ok keyftu sidan. for sudrmadr j burt med husasnotruna en Kallzefni visse æigi huat tre var. en þat var mausurr kominn af Vinlande. Nu sigler Kallzefni j haf ok kom skipe sinu firir nordan land j Skagafiord ok uar þar upp sett skip hans

[1]) sagnara *Cd.*

vm uetrinn en vm uorit keyfti hann Glaumbeiarland ok gerde bu a ok bio þar medan hann lifde ok uar hit mesta gofugmenni ok er mart manna fra honum komit ok Gudride konu hans ok godr ættbogi. Ok er Kallzefni uar andadr tok Gudridr uid bus uarduæitzslu ok Snorre son hennar er fęddr var a Uinlande. ok er Snorre uar kuongadr þa for Gudridr vtan ok gek sudr ok kom vt aptr til bus Snorra sonar sins ok hafde hann þa latit gera kirkiu j Glaumbę. sidan uard Gudridr nunna ok æinsetukona ok uar þar medan hon lifde. Snorre atti son þann er þorgæirr het hann var fadir Jnguelldar modur Branz byskups. Dottir Snorra Kallzefnissonar het Hallfridr hon var modir Runolfs fǫdur þorlaks byskups. Biornn het son Kallzefnis ok Gudridar hann var fadir þorunnar modur Biarnnar byskups. fiolde manna er fra Kallzefni kominn ok er hann kynsæll madr ordinn. ok hefir Kallzefni gerzst sagt allra manna atburde vm farar þessar allar er nu er nokkut orde a komit.

---

## Her segir af Einari þambarskelfi.

434. Eftir Suǫldrar orrostu gaf Æirekr jall grid Æinari þambarskelfi. Æinarr var þa .xviij. vetra gamall. suo er sagt at Æinarr hafui verit allra manna sterkazstr ok bezstr bogmadr er verit hafui j Noregi ok vmfram alla menn adra. hann var suo hardskeytr at hann skaut med bakkakolfui j gegnum uxahud hrablauta tuifallda er hek a æinum ase. skidfærr uar hann ok huerium manni betr. hinn mesti var hann jþrottamadr. hann var ættstorr ok audigr. Æirekr jall ok Sueinn giptu Æinare systur sina Bergliotu Hakonardottur. hon var hinn mesti skǫrungr. Endride het son þeirra. jallar gafu Æinare uæitzslur storar j Orkadal ok gerdizst hann rikazstr j þrandheimi ok var hann jorlum hinn mesti styrkr ok astuinr.

---

## þaattr af Sigmundi Brestissyni.

435. Sveinn ok Æirekr jarllar sendu ord vt til Færeyia Sigmunde Brestissyne at hann skyllde koma a þeirra fund. Sigmundr leggr þa ferd æigi undir hofut ok ferr til Noregs ok kemr a fund jalla nordr a Hladir j þrandheimi. þeir taka vid honum vel ok med mikille ǫlud. minnazst nu a fornna vinattu sina. gerdizst Sigmundr nu hirdmadr þeirra. skipa

þeir honum Færeyiar j len ok skilia þeir med hinne mestu blidu ok vinattu. ferr Sigmundr vt til Færeyia vm haustit.

### Fra Sigurdi þorlaakssyni.

436. Ðrir menn eru nefndir til sögunnar þeir uoxu upp med þrande j Gotu. het æinn Sigurdr ok var þorlaksson brodurson þrandar. hann var mikill madr ok sterkr sialigr madr bleikr a hár ok fell med lokkum. hann var hladinn jþrottum ok þat var sagt at hann hefde næst gengit vm allar jþrottir Sigmunde Brestissyni. þordr het brodir hans ok uar kalladr lagr. hann var manna þrekligazstr ok sterkr at atli. Gautr hinn raude het hinn þride hann var systurson þrandar. aller voru þeir mykler menn ok sterkir. Leifr var þar at fostri ok voru þeir jafnnalldra. þessi voru bornn þeirra Sigmundar ok þuridar. þora var ellzst dotter þeirra er fædd uar a fiallinu hon uar mikil kona ok skorulig ekki dauæn ok hafde snemmendis vitzsku bragd a ser. þoralfr het hinn ellzsti son þeirra annarr Steingrimr þride Brandr fiorde Heri. aller voru þeir efniliger menn. Nu for vm kristni j Færeyium sem uidara annarstadar j riki jalla at huerr lifde sem villde en þeir se(a)lfir helldu uel sina tru. Sigmundr hellt vel tru sina [ :] ok allt lid hans ok let kirkiu gera a bæ sinum. þat er sagt fra þrande at hann kastar raunar miog tru sinne ok aller hans kumpanar. Nu stefna þeir þing Færeyingar. kemr þar Sigmundr ok þrandr ór Gautu ok mikit fiolmenni. þrandr mællti til Sigmundar. suo er hattat Sigmundr frænde at ek vil bæida þig bota firir hond Leifs Özsurarsonar at þu bætir honum födur sinn. Sigmundr quaz þeim domi mundu þar um hlita er Hakon jall hafde dęmt mille þeirra vm oll malaferlli þeirra. þrandr kuat hitt mundu synaz at unna Leifui þeirra fodurbota at hinir bezstu menn geri med ykkr her j eyiunum. Sigmundr quad þrand þar ekki þurfa arar vm at draga quad þat ekki verda mundu. þrandr mællti at þat er sannazst at þu verdr hardr j hornn at taka. ma ok vera at þeir frændr minir er upp uaxa med (mer) þikir þu litill iafnnadarmadr er þu uill ekki midla riki vit þa þar er ver æigum meirr en helming vid þig ok er æigi radit at menn uni þessu leinge. þu hefir mer margar skammir gert sagde þrandr ok þa mesta er þu kugadir mig til sidaskiptis er ek vni uerst vid allar stunder er ek gek undir þat. mattu ok vid þui vmbuazst at menn munu eigi vna suo skordum hlut vid þig. Sigmundr quaz sofa mundu suefnn sinn firir hotum hans. skildu nu vid suo buit.

## Fra Sigmundi. capitulum.

437. Þat er sagt vm sumarit at æinnhuernn dag fór Sigmundr til eyiarinnar Dimon a skipe hinnar litlu ok þeir Þorir ok Æinar Sudreyingur med honum þuiat Sigmundr uillde taka ser slatrsaude er gengu j eyiunne. Sigmundr ok þeir uoru upp a eyiunne. sa þeir þa at menn gengu upp a eyna ok þar blikudu vid skillder fagrir. þeir hofdu tôl a ok voru .xij. menn komnir upp a eyna. Sigmundr spurde huat monnum þat munde vera. Þorir quezst kenna at þar voru Gôtuskeggiar Þrandr ok þeir frændr hans edr huat skal nu rads taka segir Þorir. Æigi mun uande a segir Sigmundr. uer skulum ganga j mot þeim segir hann aller med uopnum uorum ok ef þeir sækia at oss þa skulum ver undan hlaupa ser huerr vor ok koma þo aller j æinn stad nidr þar sem uppgangan er a eyna. Þeir Þrandr tala vm med ser at Læifr skuli ganga j mote Sigmundi ok Þorlakssynir med honum ok hinn fiorde madr med þeim. Þeir Sigmundr heyra þetta. gangast nu j mot ok rada þeir Þrandr þegar til þeirra en þeir Sigmundr hallda nu undan ser huerr þeirra en kuomu j æinn stad nidr ok hlaupa j uppgaunguna ok er þar æinn madr firir. Sigmundr kom at honum fystr ok gerde skiott vm vid hann. Þa varde Sigmundr uppgaunguna en þeir Þorir ok Einarr hlupu til skips þeirra Þrandar hellt þar annarr madr festi en annarr var vt a skipe. Þorir hliop at þeim er festinne hellt ok drap þann. Æinarr hliop til skips þeirra Sigmundar ok flotade þui. Sigmundr varde uppgonguna ok opade ofan j fioruna undan þeim þui at hann villde til skips þeirra ok vo þar æinn forunaut þeirra j fiorunne. Þa hliop hann vt a skipit ok þeir Þorir badir. Sigmundr færde þann skiott utbyrdis er a skipinu var. Nu reru þeir a burt badum skipunum en sa komzst til landz sem Sigmundr hafde vtbyrdis skotit. Þeir Þrandr brendu vita ok var roit til þeirra ok foru þeir heim j Gôtu. Sigmundr safnade monnum at ser ok ætlade at taka þa Þrand þar j eyiunne adr hann fretti at þeir voru j burtu. Ok nokkuru sidar vm sumarit for Sigmundr a skipe ok þeir .iij. saman at landzskylldum sinum. Þeir reru j æitt þraungt sund mille eyia nokkurra ok er þeir kuomu or sundinu þa siglde þar skip a moti þeim ok atti allskamt (til) þeirra. Þeir kendu menn þessa ok voru þar Gôtuskeggiar Þrandr ok þeir .xij. saman. Þorir mællti þa. hellzsti nærr oss eru þeir segir hann edr huat ér nu til rads Sigmundr frænde segir hann. Litils mun vid þurfa sagde Sigmundr. en þat skulum uer rads taka segir Sigmundr at roa a mote þeim en þeir munu uilea fella seglit ok er skip uort berr fram hea skipe þeirra þa skulu þit bregda suerdum ykkrum ok skera hofutbendr a þat bord er æigi ferr seglit ofan

en ek mun at hafazst slikt er mer likar. Nu roa þeir a moti þeim ok er skip þeirra Sigmundar berr fram hea þeim þa skera þeir Þorir ok Einarr allar hofutbendur a þat bord er æigi for seglit ofan. Sigmundr þrifur upp fork æinn er la j skipe hans ok rekr vt j hufinn a skipe þeirra suo hart at þui næst horfdi kiolrinn upp a skipenu. hann færde forkinn j þann huf skipsins er seglit hafde ofan farit ok þagat[1] halladizst adr. þui huelfdi skipinu skiott med þui at hann fylgde at med ollu afli. druknudu þar .v. menn af lide Þrandar. Þorir mællti at þeir skyllde drepa huernn þeirra sem þeir næde. Sigmundr quetzst þat æigi uilea sagdizst helldr uilldu hrekia þa sem mest. Nu skilur þar med þeim. Þa mællti Sigurdr Þorlaksson. id sama vill her vera um hrakfarir [20]] uorar firir Sigmundi. hann færr rett skipit ok barg mǫrgum monnum. Þa mællti Þrandr er hann kom upp j skipit. nu mun hafa vm skift hamingiu med oss Sigmundi segir hann þuiat nu hefir honum gefit missyne mikit er hann drap oss æigi er hann atti allz kosti vid oss. skulu vær nu ok skelegger a uera hedan jfra ok letta alldri fyr en ver hofum Sigmund j heliu. Þeir kuoduzst þat giarnna vilia. fara nu heim j Gotu vid suo buit. lidr nu a sumarit ok æigazst nu ekki fleira vid at sinne.

### Vidreign þeirra Sigmundar ok Þrandar.

438. Sva bar til einn dag þa er skamt var til uetrar at Þrandr safnar monnum at ser ok fara .lx. manna ok segir Þrandr at þa skulu þeir læita a fund Sigmundar. kuetzst suo dreymt hafa at þa mune honum nærr styrt verda. þeir hofdu .ij. skip ok lid ualit. þar var j fǫr med Þrande Leifr Ozsurarson Sigurdr Þorlaksson Þordr[2] lagi Gautr raude. Stæingrimr het bonde j Austrey. Elldiarnn kambhauttr hann hafde þa leinge verit med Þrande. Suineyiarbiarnne sat hea þessum malum sidan þeir Sigmundr sættuzst. þeir Þrandr foru nu til þess er þeir koma til Skufeyiar ok draga upp skip sin ok ganga upp aller til þess er þeir koma at uppgaungunum. Skufey er suo gott uige at þeir segia at eyin uerde æigi sott ef .x. menn eru til uarnar hea uppgaungunne en alldri kome suo margr at sott verde. Elldiarnn kambhǫttr gek upp synu fystr ok fann vardmann Sigmundar hea uppgongunne. þeir reduzst þegar til ok lykr suo þeirra skiftum at þeir hrutu badir firir hamar ofan ok fengu bana badir þeir. Þrandr gengr nu up(p) ok aller þeir til bæiar ok sla hring vmb bæinn ok koma suo miog a uvart at æinge niosn kom firir þeim. þeir brutu upp hurdir. þeir Sig-

[1]) þagagat *Cd.* [2]) ok *tilf. Cd.*

mundr hlaupa til uopnna skiott ok aller þeir er firir voru. þuridr husfreyia tekr ok uopnn ok dugir æigi uerr til en æinnhuerr kallmadr. þeir þrandr bera elld (at) husunum ok ætla at sækia bæinn med elldi ok vopnum. uæita nu harda atsoknn ok er þeir hafa atsott vm hrid þa gengr þuridr husfreyia vt j dyrnar ok mællti. huersu læinge ætlar þu þrandr segir hon at beriazst uid hofudlausa menn. þrandr suarar. þetta mun dagsanna segir hann ok mun Sigmundr vera j brottu. Nu gengr þrandr rangsælis vm bęinn ok blistrar. þrandr kemr nu at iardhusmunna einum er stund þa var brott fra bænum. hann ferr þa sua at hann hafde nidre adra hondina a iordu ok bregdr henni annat skæid at nosum ser ok mællti. her hafa þeir farit .iij. Sigmundr þorir ok Æinar. Nu ferr þrandr vm hrid ok þefade sem hann rekti spor sem hundar. hann bidr þa ekki vit sig koma. ferr hann til þess er hann kemr at gia æinne en su gia gengr um eyna þuera Skufey. þa mællti þrandr. her hafua þeir farit ok mun Sigmundr her hafa hlaupit yfir huat sem þeir hafa af ser gort. nu skulu uer skipta lide voru segir þrandr. skal Læifr Ozurarson ok Sigurdr þorl·ksson fara firir annan enda giarinnar ok sumt lid med þeim en ek firir annan enda ok finnumzst þa hinu megin giarinnar. Nu gera þeir suo. þrandr mællti þa. þat er nu til Sigmundr at gera vart vid sig ef þu ert hugar þins eigande ok þikizst uaskr madr vera sem þu hefir leingi kalladr verit. En nidmyrkr var a sem mest. ok litlu sidar hleypr madr yfir giana at þeim þrande ok hoggr med suerde til Steingrims nabua þrandar ok klyfr hann j herdar nidr ok var þar Sigmundr. hann hleypr þegar ofugr aftr yfir giana. þar for Sigmundr segir þrandr ok eftir þeim skulum ver hallda firir enda giarinnar. ok suo gera þeir ok finnazst þeir Leifr nu aller ok þrandr. Sigmundr ok hans felagar koma nu aller a einn hamar vidr sioinn ok heyra nu manna mal alla uega fra ser. þa mællti þorir. nu munu ver uæita her uornn sem audit ma verda. Ekki er ek til uarnar færr segir Sigmundr. þuiat suerd mitt vard mer laust adan er ek hliop ofugr aftr yfir giana ok munu ver her hlaupa ofan firir hamarinn ok leggiumzst til sundz. Gerum sem þer likar segir þorir. þetta taka þeir rads. hlaupa a sund þar af hamrinum fram. þa mællti þrandr er hann heyrde skellina. þar foru þeir nu segir hann. nu skulu ver taka þar skip er uer fam ok læita þeirra sumir a sia en sumir a lande. Ok suo gera þeir ok finna þa æigi.

## Drepinn ok myrdr Sigmundr Brestisson.

439. Nv er at segia fra þeim Sigmunde at þeir leggiazst vm hrid ok ætla til Sudreyiar þagat var skemzst ok var þat þo lỏng uika siofar. ok er þeir hofdu halfnat sundit mællti Æinar. her mun skilia oss. Sigmundr quat þat æigi skylldu ok far Æinarr medal herda mer. ok suo gerde hann. Sigmundr leggzst þa vm hrid. þa mællti þorir er hann lagdizst sidarr. huersu leinge skaltu Sigmundr [?] frænde flytia daudan mann eftir þer. Æigi ætla ek þess þur(f)a segir Sigmundr. Nu lỏgduzst þeir þar til er eftir var fiordungr sundzsins. þa mællti þorir. alla æfui okkra Sigmundr frændi hofum vid asamt verit ok mykla astud haft huorr okkar vid annan en nu er uænst at þrioti okkra samuistu. hefir ek nu fram lagit sligt er ek er til færr. vil ek at þu hialpir þer ok lifui þinu en gef æigi gaum at mer þuiat þar gefr þu þitt lif vit frænde ef þu falitrazst vid mig. þat skal alldri verda segir Sigmundr at vit skilim suo þorir frænde. skulu vit annathuort badir a land komazst edr huorgi. Sigmundr flytr nu þori medal herda ser. var þorir þa sua mattfarinn at hann matti ser nær ekki at væita ok legzst Sigmundr þar til er hann kemr at Sudrey. brim uar at eyiunne. var Sigmundr þa suo mattfarinn at hann dro stundum fra lande en annat skeid hof hann at. skolade þore þa af herdum honum ok druknade hann en Sigmundr gat skridit upp vm sidir ok var þa suo mattfarinn at hann matti æigi ganga ok skræid upp j fioruna ok lagdizst nidr j þarabrukit. þetta var j lysing. þar la hann til þess er lyst var. þar var bærr æinn litill skamt upp a eyna er het j Sanduik. þar bio sa madr er þorgrimr ille het mikill madr ok sterkr landzsete þrandar ór Gautu. hann atti .ij. syne het Ormsteinn ok þorsteinn. þeir uoru efniligir menn. Um morgininn gek þorgrimr ille til fioru ok hafde bolexi j hendi. hann kom þar er hann sa at rautt klæde tok ór brukinu. hann rotar af þaranum ok serr at þar liggr madr. hann spyrr huerr hann væri. Sigmundr segir til sin. Lagt ferr nu hofdinge vorr sagde hann edr huat berr til. Sigmundr sagde allt sem farit hafde. þa koma at synir hans. Sigmundr bidr þa at þeir mundu healpa ser. þorgrimr tok ekki fliott a þui ok talar nu hliott vid sonu sina. Sigmundr hefir suo mikit fe a ser at þui at mer litzst sagde hann at ver hafim alldri sligs æigande vordit ok er gullhringr hans hardla digr. litz mer þat rad at vær drepim hann ok myrdim hann sidan. mun þessa alldri vist verda. Synir hans mæla j moti um hrid en samþyktu honum vm sidir ok ganga nu þar til er Sigmundr la ok taka nu j hár honum en þorgrimr ille hỏggr hofud af Sigmunde med bolỏxi. ok lætr Sigmundr suo lif sitt hinn uaskazsti

madr firir flestra hluta sakir. Þeir fletta hann klædum ok gripum ok draga hann sidan upp undir æinn molldbakka ok kasa hann þar. Lik Þoris var upprekit ok kasa þeir hann hia Sigmunde ok myrda þa bada.

### Yfirgaangr Eyiarskeggia eftir Sigmund.

440. Þat er at segia af Þrande ok hans forunautum at hann ferr heim eftir þessi tidende en borgit var bænum j Skufey er menn komu til ok var litt brunninn. fatt hafde þar manna latizst. Þuridr husfreyia er sidan var kollut meginekkia hellt bui sinu j Skufey eftir Sigmund bonda sinn. þar óx upp bornn þeirra Sigmundar med henni ok voru oll mannuænlig. Þrandr ok Leifr Ozsurarson toku nu undir sig allar Færeyiar ok hofdu ualld yfir. Þrandr let bioda Þuride meginekkiu sættir ok sonum hennar en þau toku litt undir þat. uard ok ekki af þui at synir Sigmundar læitade traustz uid Noregs hǫfdingia er þeir voru ungir at alldri. Leid nu suo fram nokkura uetr at kyrt var j Færeyium. Þrandr kemr at male vid Leif Ozsurarson at hann villde læita honum at kuonfange nokkuru. huar skal at þui læita segir Leifr. þar sem Þora er Sigmundardottir segir Þrandr. æigi þiki mer likliga horfa segir Leifr. Æigi mun þer konan gift ef þu bidr æigi segir Þrandr. Þeir gera nu ferd sina til Skufeyiar med nokkura menn ok er þeim þar faliga fagnnat. Þrandr ok Leifr bioda þeim sættir Þuride ok sonum hennar at hinir bezstu menn dǫmde þeirra a mille þar j Eyium. þau toku ekki fliott undir þat. þa hof Þrandr bonord firir hond Leifs ok bad Þoru til handa honum dottur Sigmundar. þotti þat likligazst til hæilla satta. baud Þrandr at gæda hluta Leifs med myklu fe. þessu var sæinliga (tekit) af ollum þeim en Þora sialf suarar suo. manngiarnnliga mun ydr mer þikia fara. ek vil a þessu gera kost firir mina hond. ef Leifr er æidfærr at hann se æigi fǫdurbani minn ok æigi menn til fengit at drepa fǫdur minn þa geri ek þann kost a at hann skal viss verda huat er fǫdur minum hefir at bana ordit edr huerr ualldr er dauda hans ok at ollum þessum hlutum framkomnum þa megum ver gera sætt med oss med brædra minna rade ok modur ok annarra frænda uorra ok vina. þetta þotti ollum vel mællt ok vitrliga til fundit ok þetta semia [252] þau med ser at þeir Þrandr ok Leifr hæita þessu. ok skilia nu vid sua buit.

### Fra Þrandi.

441. Litlu eftir þetta byzst Þrandr hæiman ór Gotu ok Leifr med honum ok fara a æinu skipe ok erv .xij. saman. þeir fara til Sudreyiar ok

koma j Sanduik til þorgrims illa þetta var nokkurum uetrum eftir liflat þeirra Sigmundar. þeir koma sid vid eyna ganga vpp til bęiar. þorgrimr fagnar uel þeim þrande ok ganga þeir inn. þrandr gengr til stofu ok þorgrimr bonde en þeir Leifr sitea framme j husum vit ellda er upp voru kuæiktir firir þeim. þrande ok þorgrime vard mart talat. þrandr mællti. huat ætla menn at Sigmunde Brestissyni muni hafa at bana uordit sagde hann. Æigi þikiazst menn þat georla vita segir þorgrimr. ætla sumir at þer munit hafa fundit þa j fiorunne edr a sunde ok drepit þa. Sligt er illa ætlat ok vlikliga segir þrandr þuiat þat vissu aller at uær uilldum bana Sigmundar. en firir huat mundum uer uilia myrda þa. ok er sligt vvingiarnliga mællt. Mæla þat enn sumir menn segir þorgrimr at þeir mune hafa sprungit a sunde edr Sigmundr mune hafa komizst til landz nokkur er hann uar afreksmadr vm marga hluti ok mune þa hafa verit drepinn ef hann hefir megnnlitill til landz komit edr myrdr. Sligt er allarædiliga talat segir þrandr ok þat er min ætlan at suo hafui verit. edr huat er nu felagi er æigi suo sem mig grunar at þu ser ualldr dauda Sigmundar. þorgrimr syniar þess sem mest ma hann. Æigi mantu þessa þurfa at þræta segir þrandr þuiat ek þikiumzst vita at þu ert þessa uerks sannr. Hann syniar sem adr. þrandr lætr þa kalla a þa Læif ok Sigurd ok bidr at þorgrimr ok synir hans se fiotradir ok suo var gert at þeir erv fiot(r)adir ok rigt bundnir. þrandr hafde þa latit gera ellda mykla j elldaskala ok grindr fiorar lætr hann gera med fiorum hornnum ok .ix. ræita ristr þrandr alla uega vt fra grindunum. en hann setzst a stol mille elldz ok grindanna. hann bidr þa nu ekki vid sig tala ok þeir gera suo. þrandr sitr suo vm hrid ok er stund leid þa gengr madr inn j elldaskalann ok var allr aluotr. þeir kenna manninn at þar var Æinarr Sudreyingr. hann gengr at elldinum ok rettir at hendr sinar ok litla hrid ok snyrr vt eftir þat. ok er stund lidr gengr madr jnn j elldahusit. hann gengr at ellde ok rettir til hendr sinar ok gengr vt sidan. þeir kendu at þar var þorir. bratt eftir þetta gengr hinn þride madr j elldaskalann. þessi var mikill madr ok miog blodugr. hann hafde hofudit j hende ser. þenna kenna þeir aller at þar var Sigmundr Brestisson hann nemur stadar nokkura stund a golfinu ok gengr vt sidan ok eftir þetta riss þrandr af stolinum ok uarpar mædiliga ondunne ok mællti. nu megi þer sia huat þessum monnum hefir at bana ordit. Æinarr hefir latizst fyst ok kalit j hel edr druknat er hann var þeirra kraftaminnzstr. þa mun þorir hafa latizst þar næst ok mun Sigmundr hafa flutt hann ok dasazst mest a þui. en Sigmundr mun hafa komizst a land mattlitill ok

munu þessir menn hafa drepit hann er oss syndizst hann blodugr ok hofutlaus. Forunautar þrandar sonnudu þetta aller at suo muni farit hafa. Nu segir þrandr at þeir skuli þar rannsaka allt ok sua gera þeir ok finna þar ønguan auitøl. þeir þorgrimr ok synir hans þræta ok kuoduzst þessa uerks æigi ualldir. þrandr quad þa æigi þurfa at þræta. bad menn sina rannsaka gerla ok þeir gera enn suo. Ôrk æin mikil ok fornulig stod j elldahusinu. þrandr spyrr huort þeir hafa rannsakat orkina. þeir søgdu þat æigi vera ok brutu hana upp ok þotti þeim þar ekki j nema hrode æinn ok læitadu þar j vm hrid. þrandr mællti. huelfit ørkkinne. ok suo gerdu þeir. þar fundu þeir lautrabagga æinn er verit hafde j orkinne ok fengu þrande. hann leysti til ok voru þar margir lautrar saman uafdir ok vm sidir fann þrandr þar mikinn gullhring ok kende at þann hring hafde att Sigmundr Brestisson ok Hakon jall hafde gefit honum. ok er þorgrimr væit þetta þa gengr hann vid morde Sigmundar ok segir nu allt sem farit hafde. hann visar þeim til huar þeir Sigmundr ok þorir voru dysiadir ok flytia þeir lik þeirra a brott. þrandr lætr þa þorgrim ok sonu hans fara med ser. sidan eru þeir greftradir Sigmundr ok þorir at kirkiu j Skufey þeirri er Sigmundr hafdi gera latit.

## Leifr færr þoru Sigmundardottur.

442. Nu eftir þetta lætr þrandr stefna þing fiolmennt j Straumsey j þorshofnn. þar er þingstod þeirra Færeyinga. þar søgdu þeir þorgrimr ille ok syner hans suo at aller þingmenn heyra drap ok dauda Sigmundar at þeir kuoduzst hann drepit hafa ok myrdan sidan. Eftir þessa hluti sagda þa eru þeir uppfestir þar a þinginu ok lauk sua þeirra æfui. Nu hallda þeir Leifr ok fostri hans þrandr a bonorde vid þoru ok bioda þeim sættir þar med þær er þau mætti bezst vid una. ok þær verda þar malalyktir at Leifr færr þoru Sigmundardottur ok sættazst þau med hæilum sattum. setr Læifr bu saman a fødurlæifd [253] sinne j Sudrey at Hofui. ok er nu kyrt j Færeyium nokkura hrid þoralfr Sigmundarson kuongazst ok gerir bu j Dimon ok er godr bonde.

## Fra jorlum Eireki ok Sueini.

443. Nv rada jallar Noregi Æirekr ok Sueinn ok voru alluinsæler þuiat lydrinn var miog sealfradr. satu þeir læingstum a Hlodum j þrandheimi at fodurleifd sinne. var þar ok mestr styrkr þeirra j atthaga sinum. þo var Æirekr firir þeim brædrum vm alla hlute. Æirekr var frægr miog af orrostum þeim .ij. sem hann hafde j verit firir Suðldr

ok a Hiorungauoge sem æinhueriar hafa mestar verit ok hafde j badum sigr. Æirekr var allra manna vænstr ok radugazstr ok var at þui likr fődr sinum en olikr at skapsmunum ok sidferde suo at þat er allra manna mal at hann hafui verit æinnhuerr mestr betrfedrungr.

---

## Þaattr iarlanna Einars Þorfinnz Sumarlida.

444. Litlu sidarr en þeir Olafr konungr Trygguason sættuzst ok Sigurdr jall Hloduersson. gek jall at æiga dottur Melkolfs Skotakonungs ok uar þeirra son Þorfinnr jall. Sigurdr jall atte .iij. sonu adra. het æinn Bruse annarr Sumarlide þride Æinarr rangmunnr .v. uetrum eftir Suoldrar orrostu fór Sigurdr jall til Jrlandz til lids med Sigtrygge konungi silkiskegg en setti sonu sina hina ellri til landa en Þorfinn son sinn fek hann j hendr Skotakonungi til fostrs modurfődur sinum. En er Sigurdr jall kom til Jrlandz helldu þeir Sigtryggr konungr her þeim til motz vid Brian Jrakonung ok vard fundr þeirra fostudaginn langa. Þa vard æinge til at bera hrafnnsmerkit ok bar jall sealfr ok fell þar en Sigtryggr konungr flyde. Briann konungr fell med sigri ok gagnni.

### Fra þeim brædrum.

445. Eftir fall Sigurdar jalls toku synir hans riki ok skiptu j þridiunga Sumarlide Bruse ok Æinarr. Þorfinnr var med Skotakonunge .v. uetra gamall þa er Sigurdr fadir hans fell. Skotakonungr gaf þa Þorfinne dottursyne sinum Katanes ok Sudrland ok jalls nafnn ok setti menn til landrada med honum. Þorfinnr jall var bradgerr j uexsti manna mestr ok sterkazstr suartr a hár ok þegar er honum óx alldr uar þat audsætt at hann var agiarnn. Þeir brædr voru olikir j skaplynde Æinarr ok Bruse. Æinarr var madr stridr ok agiarnn oþydr ok hermadr mikill. Bruse var madr hoguærr stilltr vel litilatr ok malsniallr. Sumarlide var likare Brusa j skaplynde. hann var ellzstr þeirra brædra ok lifde skemzst ok vard sottdaud(r). Efter andlat hans talde Þorfinnr jall til rikis j Orkneyium. Æinarr sagde at Þorfinnr hefde Katanes ok Sudrland þat riki er att hafde fadir þeirra ok talde þat meira en þridiung eyia ok villde æigi unna Þorfinne skiftis. en Brusi villde unna ok let uppe skipte firir sina hond. vil ek æigi segir hann agirnnazst mæira af riki en þann þridiung sem ek á at rettu. Þa tok Æinarr undir sig .ij. hlute eyia gerdizst hann þa rikr ok fiolmennr. var oft a sumrum

j hernade ok hafde vtbod mikil j lande en allmisiafnnt vard til fæingiar. tok bœndum at læidazst þat starf en jall hellt med freku ǫllum alǫgum ok let ǫngum hlyda mot at mæla. Æinarr uar hinn meste ofstopamadr. gerde j hans riki hallære mikit af starfui ok fekostum þeim er bændr hǫfdu. en j þeim hluta landz er Brusi hafde uar ár mikit ok hoglife bondum. var hann þui vinsęll.

## Fra þorkeli fostra.

446. Madr het Amunde rikr ok audigr hann bio j Hrossey j Sanduik a Hlaupandanese. þorkell het son hans allra manna geruiligazstr þeirra er upp oxu j Orkneyium. Amunde var vitr madr ok æinna manna mest virdr j eyium. þat var æitt vór at jall hafde vtbod mikit sem hann var uanr en bændr kurrudu illa. baru þat firir Amunda ok badu hann mæla þeim nokkura forstodu vid jall. Amunde sagde jall oahlydinn ok mun litit at skapazst en mer þikir vid uoda buit ef veꝛ verdum rangsattir vid skaplynde huorratueggiu. mun ek mer segir hann ǫngu af skipta. þa ręddu þeir þetta mal uid þorkel. hann var traudr til ok het þo sinne vmsyslu vid aeggian manna. Amunda þotti hann ofskiott hæitit hafa. En er jall atte þing. þa mællti þorkell af hende bonda. sagde naudsyn manna ok bad jall vægia monnum. Æinarr suarar vel ok segir at hann skule virda ord hans. ek hafde nu ætlat at hafa .vj. skip ór lande en nu skulu æigi mæirr en .iij. en þu þorkell bid nu æigi þessa oftarr. Bændr þokkudu vel þorkatli liduęitzslu sina. fór jall j uiking ok kom aftr at hausti. En eftir vm uorit hafde jall enn vtbod ok atti þing vid bændr. þa talade þorkell enn ok bad jall ųggia bondum. Jall suarar ræiduliga ok sagde at hlutr bonda skyllde miog uestna vid hans rædu. hann gerde sig suo odan ok ræidan at hann sagde at [...] þeir skylldu annat uór æigi badir hæiler a þinginu. slæit vid suo buit þinginu. En er Amunde vard varr vid huat þeir þorkell hofdu vit atzst bad hann þorkel burt fara. for hann yfir a Katanes til þorfinnz jalls ok var þar leinge sidan ok fostrade hann er jall var ųngr ok var sidan kalladr þorkell fostri ok var hann agætr madr. Fleire voru þeir rikismenn er flydu ór Orknneyium firir ofriki Æinars jalls. flydu flester til þorfinnz jalls sumir til Noregs ok til ymisra landa.

## Fundr þeirra brædra.

447. þegar þorfinnr jall uar roskinn þa gerde hann bod til Æinars brodur sins ok bæiddizst af honum rikis þess er hann þottizst æiga j Orknneyium en þat var þridiungr. Æinarr tok þui obratt at minka sig

suo. en er þorfinnr jall spyrr þat þa bydr hann vt lide af Katanese. en er Æinarr jall vard varr vid þa safnar hann lide ok ferr j mote þorfinni ok ætlar at beriazst vid hann. Brusi jall safnar ok lide ferr til motz vid þa ok berr saltmal j mille þeirra. vard þat at sætt at þorfinnr jall skyllde hafua þridiung rikis j Orknneyium sem hann atti at rettu en Brusi jall ok Einarr jall logdu saman sinn hluta. skyllde Æinarr jall hafa forrad firir þeim ok landuðrnn. en ef misdaude þeirra yrde þa skyllde sa þeirra land taka eftir annan er læingr lifde. en sa maldagi þotti æigi iafnnligr þuiat Brusi atti son er Rognnualldr het en Æinarr var sonlaus. setr þorfinnr jall menn til at varduæita riki þat er hann atti j Orknneyium.

## Liflaat Eireks jarls Hakonar sunar.

448. Knutr son Sueins konungs tok riki j Danmork eftir fodur sinn. þa sendi (hann) ord Æireki jalli at hann kæme til motz vid konung þuiat jall var miog frægr af hernade sinum. hann bra vid skiott ok bio ferd sina kom hann til motz vid Knut konung var jalli þar vel fagnat. Æirekr jall var a Æinglande einn uetr ok atti nokkurar orrostur. sa var hinn .xiij. uetr hans rikis j Noregi. jall var miog frægr af sigri þeim er hann fek vid Suoldr ok a Herunga uoge. þess getr þordr Kolbæinsson j Æireksdrapu.

Ek hefui leyfs þar er lofda
lofkenda fra ek sendu
at hialmsomum hilme
hiallr drottna bod jalli.

ath skylldeliga skyllde
skil ek huat gramr letz uilea
enndr at asta funde
Æirekr koma þeirra.

Eirekr jall hafde þing sett j Noregi adr hann for j brottu ok skipade logum j lande. hann setti eftir j Noregi landz at gæta Hakon son sinn ok fek hann j hendr Æinari þambarskelfi magi sinum at hann skyllde hafa landrat firir honum. Hakon jall var þa .xviij. vetra en Sueinn jall hafde þa halft land til forrada. A þui þinge talade Æirekr jall suo. ek vil þess bidia Suein brodur minn ok alla rikismenn j lande at æigi ræne Hakon sinum hluta landz þo at nokkurr kalli til. en skom bid munu at þui at til mun uerda madrinn er ek er a brottu at kalla til landzsins ok þui radumzst ek a brott at ek uil æigi þat hafa saman at hafa radit þann mann ór lande er gôfgazstr uar en ætlazst nu til at veria þeim land er æinge mun ædri til koma ok fara þa naudigr ór lande. Lauk hann þa suo sinne rædu. for hann nu brott ór Noregi med her mikinn ok var med Knuti konungi sem fyrr segir ok suo þa er hann uann

Lundunaborg. Æirekr jall bardizst ok firir uestan Lundunaborg ok fellde Ulfkel snilling. þess getr þordr Kolbæinsson.

Gullkenner let gunne
grædis hest firir vestan
þundr vo leyfdr til landa
Lundun saman bundit.
fek regnþorins rekka
rònn af þingamonnum
vgglig hògg þar er eggiar
Vlfkels blar skulfuu.

En er hann hafde æinn uetr uerit med Knuti konungi þa biozst hann vm haustit eftir til Romferdar. en adr hann hof þa ferd upp fek hann til læknni at skera ser uf. en j þui er læknirinn midade til huar hann skyllde af skera gek at þeim madr. segia sumir at þat væri Knutr konungr en hitt segia flæire at þat væri æinn af þeim monnum er voru a Orminum med Olafi konungi Trygguasyni. Sa madr mællti til læknnissins. þar munda ek nu nokkuru meirr. Læknirinn spurde. huersu myklu mæirr. Suo sagde hann at æigi þyrfte oftar en um sinn at skera. Gek þessi madr þa j brott en læknirinn gerde eftir ordum hans ok skar mæira af uf jalls en hann hafde adr ætlat. blæddi þa akafliga suo at æigi vard stoduat. fek Æirekr jall af þui bana ok þotti verit hafa hinn meste hofdinge.

Aslakr feck Gunnhilldar.

449. þa er Sueinn jall Hakonarson ok Hakon Æireksson redu Noregi eftir þat er Æirekr jall uar ór lande farinn gerdu þeir sætt vid Ærling Skialgsson ok var bundin med þui (at) Aslakr son Erlings fek Gunnhilldar dottur Sueins jalls. tok Erlingr þa allar uæitzslur þær er Olafr konungr Trygguason hafde ueitt honum. gerd(izst hann) [295] hinn mesti aastuin jalla.

---

HER HEFR VPP ÞAATT HAALFDANAR SUARTA.

Halfdan suarti tok konungdom atian vetra eftir Gudrod hinn sterka ueidekonung fodur sinn a Upplondum. hann var snemmendis mikill ok sterkr. hann heriade a hinu næstu rike ok uann þau. hann heriade upp a Raumariki ok atti bardaga vid Sigtrygg konung hinn sterka ok laukzst med þui at Sigtryggr konungr fell en Halfdan æignnadizst Raumarike. sidan atti hann bardaga uit Æystein konung a Heidmork ok hafde sigr en Eysteinn konungr flyde a Hadaland a fund Gudbrandz hessis ok

efldizst þadan at lide foru ofan a Heidmork (um) vetrinn ok hittu Halfdan suarta j eyiunne storu ok atti þar mykla orrostu ok fell mikill fiolde af huorumtueggia. þar fell Guthormr son Gudbranz hersis er uenazstr þotti til hofdingia a Upplondum. þa flyde Eysteinn konungr. en um uorit sende Eysteinn konungr Halfdani skatt. sidan væitti Halfdan Eysteini halfa Heidmork sakir frændsemi. sidan lagde Halfdan undir sig þotnn ok Hadaland en hann gaf Uestfolld Olafui Geirstada alfui brodur sinum. Sidan kuentizst Halfdan suarti ok fek Ragnhilldar dottur Haralldz gullskeggs konungs ór Sognni ok atti vid henni son er Haralldr het. hann fæddizst upp j Sognni med Haralldi modurfodr sinum þar til er hann var .x. vetra þa gaf Haralldr gullskeggr honum rikit ok konungs nafnn. litlu sidar andazst Haralldr gullskeggr. þann sama uetr for at deyia Ragnhilldr drottning. um uorit eftir vard sottdaudr Haralldr konungr j Sognni. en þegar at þat spurde Halfdan suarti byrr hann ferd sina med myklu lide nordr j Sognn var þar uel uit honum tekit. hann kall(a)dizst eiga at taka riki eftir son sinn ok uard þar einge vidstada j mote honum ok lagde Halfdan undir sig þat riki. þa kom til hans Atli af Gaulum hann var mikill vinr Halfdanar. þa setti Halfdan konungr Atla jall yfir Sygnafylki at dęma þar lǫg ok hæimta skatta af hende konungs. for þa Halfdan konungr a Upplond j rike sitt.

## Halfdan konungr vann Vingulmork.

451. Vm haustit eftir var Halfdan konungr staddr a Uingulmǫrk at buum sinum. ok a einne nott vm midnætti kom til hans sa madr er halldit hafde hestuǫrd ok segir honum at herr uar kominn nærr honum ok stod hann þegar upp ok bad hirdina uopnna sig ok gengu vt j gardinn þegar. þui næst koma þar Hysingr (ok Helsingr) ok Hake ok hofdu lid mikit. uar þar mikil orrosta en firir þui at Halfdan konungr var ofrlide borinn þa flyde hann til skogar ok let marga menn. þat spurde Ǫluerr hinn spake fostrfadir hans ok safnnade lide myklu ok for til motz vid Halfdan konung. for hann þa þegar til motz vid Gandalfs sonu ok hitti þa a Æide vid eyna ok beriazst þar. fell þar Hysingr ok Helsingr en Haki komzst undan a flotta. en eftir þat lagde Halfdan undir sig alla Uingulmork ok tok skatta af. æinum uetri sidar for hann upp a Heidmork ok þann sama uetr fek Halfdan Ragnhilldar dottur Sigurdar hiartar ok þa eignadizst hann Raumariki ok Hadaland. þegar Halfdan suarti var brott farinn af Vingulmork fara þeir Gandalfr ok Haki son hans a Uingulmork ok leggia undir sig mart folk ok heriade

vida. Eftir þat stod mikil deila mille Halfdanar konungs ok Gandalfs konungs langa hrid. Halfdan konungr ok Ragnnhilldr attu son er Haralldr het. Med Halfdani er kynligr hlutr æinn. hann dreymde alldregi en þann hlut bar hann firir þann mann er þorleifr spaki het ok leitade rada huat at þui matti gera. ok hann sagde huat hann gerde at þa er hann uillde foruitnazst nokkura hluti at hann for j suinabæli at sofa ok brazst honum alldri draumr.

## Draumr Hǫlfdanar konungs.

452. Halfdan konungr gerde nu suo fór j suinabæle ok sofnnade bratt birtizst honum draumr æinn merkiligr. honum syndizst at hann væri manna bezst hærdr ok væri har hans j lokkum ok suo sider at sumir tæki til jardar en a lokkum hans uar huerskyns litr[1] en einn lokkr sigrade alla med fegurd ok lioslæik. lokkar hans synduzst missidir miog. sumir voru sidir til iardar. sumir j midian legg edr a kne edr a midea sidu. sumir æigi leingri en a hals en sumir æigi meirr en sprottnir ór hause sem [296] knyflar. en þorleifui spaka sagde hann þann draum en þorleifr þydde suo at mikill afspringr munde koma af honum ok munde hans afspringr londum rada med myklum ueg ok þo æigi aller med iofnum ueg en æinn munde sa af hans ætt koma er ollum munde vera mæire mætri ok agætare ok hafa menn þat firir satt at sa lokkr merkte Olaf Haralldzson er ǫllum Noregs konungum er meire med helgi sinne ok biartari a himne ok a iordu suo at aller uite. Halfdan uar uitzskumadr mikill ok iafnnadarmadr ok setti lǫg ok gætti uel sealfr ok þrysti odrum til at hallda. ok at æigi mætti ofsi lǫgum steypa þa gerde hann sealfr sǫktal ok skip(ade) hattum huerium eftir sinum haufutburd ok metorde.

## Fra Halfdani konungi. capitulum.

453. Suo bar til einn iolaaftan þa er Halfdan konungr var under bord kominn ok oll hird hans þar sem honum uar jolaueitzsla buin. huarf oll uist af bordunum matr ok mungat ok oll þau faung sem til uæitzslunnar hofdu ætlut verit. sat Halfdan konungr þa hryggr eptir en huerr annarra sotti sitt hæimile. ok at hann mætti uis uerda huat þessum atburdum olli leitade hann eftir marga uega. Finnr uar æinn fiolkunnigr med Halfdani konungi. hann let hann taka ok pina til sagnna ok fek þo æigi uis ordit. Finnrinn sotti þangat til healpar mest er uar Haralldr sonr Halfdanar konungs. Haralldr gek firir fǫdr sinn ok bad

[1]) lutr *Cd.*

honum fridar en þat fekzst æigi. kom Haralldr honum þa j brott ok fluttizst sealfr med honum j brott. ok æinnhuernn tima komu þeir þar farande er hofdinge nokkurr hellt uæitzslu. uar þeim þar badum uel fagnnat. ok þa er þeir hǫfdu þar verit um hrid þa mællti hofdingi vit Harالld. mykla meingerd lætr fadir þinn ser j þui gerua hafa verit er ek tok fra honum þau faung er hann ætlade ser til jolaueitzslunnar en ek skal þer þat launa ef þu villt mig at radum sækia. skaltu nu hæim sækia fyst at sinne þui at sa mun j naudum staddr uera er þer æinum mun ætlat at biarga ok þu munt mesta hæill af fa þuiat þer mun lagit verda at vera æinualldzkonungr yfir ollum Noregi. Biozst Haralldr sidan til heimferdar. Nu skal segia af huerium rǫkum heidnir helldu iol sin þuiat þat er miog sundrleitt ok kristnir menn gera. þui at þeir hallda sin iol af hingatburd uars herra Jesu Cristi en heidnir menn gerdu ser samkundu j hæidr ok tignn vit hinn illa Odin. en Odinn heitir morgum nǫfnnum. hann heitir Uidrir ok Hárr ok þride ok Jolnir. þui er hann kalladr Uidrir at þeir sogdu hann uedrum rada. Harr af þui at þeir sogdu at huerr yrde hárr af honum. Jolnir af þui at þeir drogu þat af iolunum. þride af þui at þeir hofdu auita ordit at sa er einn ok þrir er bazstr er ok hǫfdu þa spurnn af þrenningunne ok sneru þui j uillu.

## Haralldr leysti Dofra.

454. Nu er at segia fra Halfdani konungi er hann sat um kyrt heima a Upplondum. þat bar til nylundu at fee mikit ok gripir godir hurfu ór gullhuse konungs ok vissu þeir æigi huerr uallda munde. fek konungi þat mikillar ahyggiu þui at hann þottizst uita at sea munde uitea oftar. lętr hann nu umbud uæita med klokligum brǫgdum ok sterkum atkuædum suo at huerr sa madr er j husit færi ok fet uillde taka uard þar at vera ok þess at bida at menn kæmi. þat þottizst konungr vita at sa munde bade mikill ok sterkr er a þessum oknyttum la þui let hann smida ser fiotur fragerda mikinn af hinu sterkazsta stale ok snua hinu ramligazstu blybond. Sidan er þat at segia æinn morgin snemma er menn koma til gullhussins sa þeir þar allmykinn jǫtun. þessi dolgr uar bade digr ok hárr. þeir hloduzst a hann margir ok baru at honum fioturinn ok uard hann þeim helldr handstyrkr .lx. manna foru til adr hann uard j fioturinn færdr. bundu þeir nu hendr hans ramliga a bak aptr med blybǫndunum. barzt hann þa raunlitt af. Halfdan konungr spurde hann at nafnni en hann letzst Dofri hæita ok æiga hæima j fialle þui er uit hann er kent. konungr spurde huort

hann hefde stolit gulle hans. hann quad þat satt vera ok beiddizst þa grida ok baud at þrigillda honum aftr gullit. en konungr sagde at hann skyllde alldri gridum na ok þar bundinn bida þess er þing væri kuatt ok honum skyllde dęma þar hinn haduligazsta dauda. sagde hann ok at honum skyllde æinge biargir ueita [297] ne mat gefa nema huerr at gerde skyllde lifit lata ok ongu odru firirkoma. for konungr þa heim en Dofri sat þar bundinn eftir. Litlu sidar kom Haralldr heim. hann frettir þessi tidende ok suo vmmæli fǫdur sins. þottizst hann þa uita at honum munde ekki gera at bidia firir honum. Haralldr uar þa .v. ara gamall. honum verdr þangat gengit er Dofri sat. hann gerdizst þa helldr hardlæitr ok miog harmþrunginn. Haralldr mællti þa. litt ertu staddr edr uilltu þiggia lif ath mer. Ek uæit þat æigi suo uist segir Dofri sakir ummæla fǫdur þins huort ek uil koma þer j suo mykla hættu. Huat muntu þurfa at sia firir þui segir Haralldr. Hann bra þa saxi þui er hann hafde vid sig ok Finnrinn hafde gefit honum þat uar afburdar jarnn kosti. hann snidr fioturinn ok blybondin af Dofra. en er hann uar laus uordinn þakkade hann Haralldi lifgiofina ok hafde sig sidan af stad. batt hann ekki læinge sko sina ok lagde halann a bak ser ok setti j burtu suo at huorke sa af honum uedr ne reyk.

### Dofri sotti Haralld ok hafdi med ser.

455. Eigi myklu sidarr soknudu menn Dofra. spurde konungr huerr þessa uerks munde sannr en Haralldr sagdizst Dofra leyst hafa. konungr vard uit þetta akafa ræidr suo at hann rak Haralld son sinn j burtu en kuezst eigi nenna at lata drepa hann. lagde hann þar suo rigt vid at honum skyllde einge biorg uæita bad hann þar nu hialp taka sem Dofri troll væri. Gek Haralldr nu j brott a merkr ok skoga la hann þa vti suo at nattum skifti. en er lidnar voru .v. nætr þa uar Haralldr staddr j einu riodri gerdizst hann þa þrekadr miog bade af hungri ok þosta. ser hann þa huar gengr greppur mikill þikizst hann þa kenna Dofra troll. hann mællti þa. æigi ertu nu ok vel staddr konungsson at suo er. ma þat kalla at þu hliotir þetta mest af mer edr uilltu nu fara med mer til heimkynna minna. Haralldr iattade þui. tok hann Haralld þa upp j fang ser ok gek med hann helldr snudigt allt þar til er hann kom at helli æinum storum hann bar þa pilltinn a handlegg ser. en er hann gengr inn j hellinn lytr hann minnr en hann ætlade ok keyrir upp sueininn undir hellisbergit ok suo hart at hann uar þegar j ouite. Dofra þotti þa mikit ordit slys sitt ef hann hefde drepit pilltinn. fek honum þa suo mikit at hann gret þa uppi yfir

honum. en er hann gerir skelpurnar ok skerr[1] hȏfudit þa raknar Haralldr vid ok litr þa upp j mote Dofra karlle ok syndizst hann þa helldr storskorinn er hann beygde skaflinn ok belgde huoptana ok vtbitade þannueg augunum. þa mællti Haralldr. þat er þo satt at segia fostri minn at fárr er fagr ef grætr þuiat mer synizst þu nu helldr bragdillr ok yfirlita mikill ok vertu katr þuiat mig sakar ekki. Gladdizst Dofri þa ok let Haralld nidr j helli sinum. þar var Haralldr .v. uetr ok skorti ekki þat er hafa þurfti. Dofri unni honum suo mikit at hann matti ekki j mot honum lata. mart kende Dofri honum j frędum. suo uande Dofri hann uit jþrottir. mikit gekzst Haralldr vid bæde vm uoxst ok afl. þat er sagt at æinn dag kom Dofri at male vid Haralld ok talade suo. nu þikiumzst ek hafa launat þer lifgiofina þuiat nu hefui ek komit þer til konungdomsins þuiat fadir þinn er daudr ok var ek þar ekki fiarre. nu skaltu fara heim ok taka vid riki þinu. legg ek þat til med þer at þu latir huorke skera hár þitt ne negl fyrr en þu verdr æinualldzkonungr yfir ollum Noregi. skal ek ok þer j lidsinne vera ok j bardogum med þer. mun þer þat at gagnni verda þuiat ek mun skęinuhættr uera saker þess at ek mun ekki audsærr vera. far þu nu heill ok uel ok gangi þer allt til tirs ok tima heidrs ok hamingiu æigi at sidr þott þu hafir hea mer verit. Fann þa miog a Dofra er þeir skildu. En er Haralldr kom heim var hann til konungs tekinn yfir oll þau fylke er fadir hans hafde firir radit. sagde hann monnum sinum huar er hann hafde uerit þessa .v. uetr. uar hann þa kalladr Haralldr Dofrafostri.

## Daudi Halfdanar.

456. Halfdan konungr fek bana med þeim hætti at honum uar ekit fra ueitzslu af Hadalande um uatnn þat er Rond hæitir ok þa er hann kom a Rinkkilsuik brast nidr issinn ok tyndizst hann þar (ok) mikill hlute lids hans þui nærr sem verit hofdu nautabrunnar. þa var Halfdan konungr fertȏgr at alldri. hann hafde verit konungr tuo [293] vetr ok .xx. Halfdan uar allra konunga ársælzstr ok suo mikit gerdu menn ser vm þat at þa er þat spurdizst at hann uar daudr ok lik hans var flutt af Hringariki ok ætlat til graftrar þa foru rikismenn af Uestfolld ok Vingulmork (ok) Raumariki upp þangat ok bæidduzst aller at hafa likit med ser ok heygia j sinu fylke ok þotti sem þat munde þeim til árs verda. en þeir sættuzst med þui at likamanum var skift j sundr j fiora stade. uar hofudit lagt j haug at Steine a Hringariki. en huerr hofdinge hafde sinn hluta heim med ser ok letu uerpa haug j hueriu

[1]) r. skekr

þui fylke ok eru þeir kalladir Halfdanarhaugar. ok hellt vid blot ok atrunat af morgum monnum adr en þat var bannat af frændum hans.

Upphaf rikis Harallz haarfagra. capitulum.

457. At lidnum tiu uetrum alldrs Haralldz Halfdanarsonar er kalladr uar Dofrafostri tok hann konungdom yfir Hringariki Uestfolld Uingulmork ok Raumarike. þa uar Guthormr modurbrodir hans .xvj. uetra gamall hann var allra manna uænstr ok sterkazstr fridr synum uitr madr ok skorungr mikill. hann gerdizst forstiore firer hirdinne ok firir ollum landradum. Haralldr konungr setti Guthorm frænda sinn hertǫga yfir ollu lide sinu. Haralldr var þa æskumadr at uetratale en fullgerr at þroska afls ok mikilæiks ok þroadizst langa hrid her eftir sem edli ok alldr uisar til. hans haruoxstr ma iafnnazst vid silke at fegurd en þar vid matti ekki iafnnazst at hæd ne þyklæik nokkurs mannz hár kallmannz ne konu suo at kunnikt væri j þann tima a Nordrlondum. her eftir uar fegurd likamans uoxstr ok afl hugr ok hreysti orleikr ok arȩde. uar þetta allt med honum fullgert. þralyndr ok otalhlydinn. her med var hann suo styrkr at hamingiunne at honum var ætlat at verda yfirmadr Nordmanna rikis er af hans ætt hefir tignnazst allt her til ok suo mun vera hedan af. Huorgi þeirra Halfdanar fedganna hafde iolagæfu. þor[1] tok um sinn alla iolaueitzslu fra Haralldi er hann hafde ser buna ok sinum vinum en Odinn tok fra Halfdani. Jolaaftan annan kom Suasi ok suæik Haralld at æiga Snæfride finzsku. uid henni atti hann Sigurd hrisa Halfdan halegg Gudrǫd stiru Raugnualld rettilbæina. Haralldr uar vinsæll af sinum monnum. honum þydduzst gamler menn med spekiradum ok asia firirætlunar. margir dreingir ok hreystimenn girnntuzst til hans sakir uelsetnningar fegiafa ok hirdpryde sua sem segir þiodulfr hinn huinuerske gamall vinr konunganna.

Margir geordu
millding snaran
hraustir menn
heim at sækia.
æigi sidr
ǫdling fylgdu
gamler menn
ok gerduzst kærir.

Nam minnigr
marga speki
af gomlnm monnum
sa er gull midlade.
uar astudigr
ollu folki
Upplanda gramr
af ǫrleik sinum.

Gaf gǫrpum sinum
gull hit rauda
hilmir hrodigr
ok hringa marga.

[1]) .þ'. *Cd.*

bryniur biartar
ok brannda huassa
skiolldu skygda
ok skrautbuna.

þeir launudu konungi giafir med lofsordum þeim er alldri mun nidr leggiazst medan dönsk tunga gengr. er hans uegr sagdr med þuilikum sannyndum. þessi uottr er hans millde j uorre frasognn. hann tignnadu j sinne fylgd ok framgongu kappar þeir er suo voru agiarnnir ok ohręddir at þeir uordu önduerda fylking konungs. þeir hofdu uargstakka firir bryniur sem segir Audun illskellda.

Vlfhednar hæita
þeir er j orrostu
blodgar randir bera
vigr at rioda
er til vigs koma
þeim er þar syst saman.
Arædismonnum einum
hygg ek þar hæfa at standa
þa er skatnar skiluisir
j skiolld höggua.

Af þessu ollu saman verdr Haralldr Dofrafostri agætr ok halldsamr a sinne födurleifd en eykr mikit rikit suo sem morg dęmi finnazst til. sumt med orrostum sumt med fagrmæle vid þa er adr stiornnudu sumt heimtizst til hans med hamingiuhlutum sumt med diupsettum radum ok langri firirætlan edr nokkurskonar atburdum.

## Fall Gandalfs ok brædra.

458. Eftir andlat Halfdanar suarta hofuzst þegar margir hofdingiar at ganga a rike Haralldz Dofrafostra þeir er Halfdan hafde riki af tekit. var þar firirmadr Gandalfr ok þeir brædr Högni ok Frode synir Eysteins konungs af Heidmork. Haugni Karason gek uida yfir Hringariki. þa byriar ferd sina Hake Gandalfsson vt a Uestfolld med .ccc. manna ok foru hit efra vm Dale ok ætludo at koma a uuart Haralldi konungi Dofrafostra. en Gandalfr konungr sat a Upplondum med sinn her ok ætlade þar at flytiazst yfir [299] fiordinn a Uestfolld. en (er) þat spyr Guthormr hertögi safnar hann her ok ferr med konunginum. Haralldr uender fyst j mote Haka[1] upp a landit ok finnazst j dal nokkurum ok uar þar orrosta ok fek Haralldr konungr sigr. þar fell Haki ok mikill hluti lids hans. þar heitir sidan Hakadalr. Eftir þetta uenda þeir aftr Haralldr konungr ok Guthormr hertögi. þa uar Gandalfr konungr kominn a Uestfolld. fara nu huorir j mot ödrum ok er þeir finnazst var þar orrosta. þa flyde Gandalfr konungr ok let mestan hlut lids sins ok

[1]) Kara *Cd.*

komzst vid suo buit j riki sitt. Eftir þetta spyria þessi tidende synir Æystæins konungs a Heidmork uæntu þeir ser skiott herhlaups ok gera ord Hǫgnna Karasyne ok Gudbrande hersse ok leggia stefnu sina a Hæidmork. [þeir Haralldr[1] uenda til Upplanda ok fa miog mart lid þeir spyria huar Upplendinga konungar hafa lagt stefnu sina ok koma þar um midea natt ok verda uardmenn æigi fyrre uarir uit en lid uar komit firir þa stofu er inne uar Hogni konungr ok suo þa er Gudbrandr suaf j. lǫgdu þeir Haralldr konungr þa elld j huoratueggiu en Eysteins synir kuomuzst vt med sina menn ok borduz vid Haralld konung ok fellu þar badir Hognni ok Frode. Eftir fall þessarra fiogurra hofdingea æignadizst Haralldr konungr Dofrafostri med krafti ok framkuęmd Guthorms frænda sins Hringariki Heidmork Gudbrandzdali Hadaland þotnn Raumariki Uingulmork hinn nyrdra hlut. Eftir þetta attu þeir Haralldr konungr ok Guthormr hertogi ofrid ok orrostur vid Gandalf konung ok lauk med þui at Gandalfr miste bade lif ok riki ok æignnadizst Haralldr konungr þa riki allt sudr til Gautelfar.

### Haralldr konungr feck Gydu Eireksdottur.

459. Ða fek Haralldr konungr Gydu dottur Æireks konungs af Hordalande. en hon mællti þat til vid konung at hann skyllde vinna allan Noreg undir sig eptir þui sem segir j odrum kapitula j Olafs sogu Trygguasonar ok þa streingde Haralldr konungr þess hæith at lata huorke kemba hár sitt ne skera fyrr en hann yrde einualldzkonungr yfir Noregi. þui uar hann þa kalladr Haralldr lufa. hann atti vid Gydu þessa sonu Guthorm[2] Harek Gudrǫd.

### Orrostur Haralldz konungs er hann vann Noregh.

460. Haralldr konungr lufa ok Guthormr hertogi foru af Upplondum nordr vm Dale ok þadan nordr vm Dofrafiall. ok þa er hann kemr ofan j bygdina þa let hann drepa menn en brenna bæi. en er folkit vard þessa vart þa flyde allt undan sumt ofan til Orkadals sumt til Gaulardals sumt a merkr sumt læitade grida ok þat fengu aller þeir er a konungs fund kuomuzst ok hans menn gerduzst. þeir fengu ǫnga motstodu fyrr en þeir koma til Orkadals þar var mannsofnudr firir ok attu þeir þar hina fystu orrostu vid konunga þa er þar helldu riki. þar fek Haralldr konungr lufa sigr en þeir fellu. Eftir þat lagde hann undir sig Orknndęla fylki sua at landzfolk gek undir hann ok gerduzst hans menn. Haralldr konungr lufa setti þann rett allzstadar þar er hann

[1]) [ok *Cd.* [2]) Guthormr *Cd.*

uann riki under sig at hann æignadizst oll odul ok let alla bændr giallda ser landskylldir bæde rika ok orika. hann setti jall yfir hueriu fylki at dęma monnum lög ok hæimta sakeyre ok landskylldir. jall skyllde hafa þridiung skatta ok skylldna til bordz ser ok kostnadar. jall huerr skyllde (hafa) .vj. tige manna a sinum kostnade en herssir huerr .xx. menn. jall huerr skyllde hafa undir sig .iiij. hessa edr fleire ok skyllde huerr þeirra hafa .xx. marka len. en suo mikit hafde Haralldr konungr lufa aukit alaug ok landskylldir at jallar hans voru ekki orikare en fylkiskonungar. En er þessi tidendi spurduzst vm þrandheim þa sofnuduzst margir rikir menn til hans ok gerduzst honum handgengnir. þa kom til Haralldz konungs Hakon jall Griotgardzson ofan af Yrium til fulltings vid hann ok hafde mikit lid. Eftir þat for Haralldr konungr lufa inn j Gaulardal ok atti þar orrostu ok fellde þar .ij. konunga ok æignadizst sidan þessi riki Gauldęlafylke ok Strindafylki. þa gaf hann Hakoni jalli land a Strind ok setr hann jall yfir Strindafylki. Eftir þat for Haralldr konungr lufa inn j Stiordælafylki ok atti þar hina þrideu orrostu ok hafde sigr ok æignadizst þat fylke. þa safnazst saman Jnnþrændir ok uoru komnir saman .iiij. konungar med her sinn. sa einn er red firir Ueradal annar firir Skaun þride firir Sparbyggia[1] fylke fiorde uar ór eyiunne idri[2] sa red firir Eynafylke. þessir .iiij. konungar foru med her sinn mot Haralldi konungi en Haralldr konungr hellt vid þa orrostu ok hafde sigr. þessir (konungar) fellu sumir en sumir flydu. Haralldr konungr lufa atti allz j þrandheimi .iiij. orrostur edr .v. ok at felldum .viij. konungum æignnadizst hann allan þrandheim.

## Bardagi Haralldz konungs ok Atla.

461. þat fylg(de) rett jalla at þeir skylldu gera Haralldi konungi veitzslu árliga ok allri hird hans. [300] En firir sakir ahyggiu naudsynligra hluta matti Haralldr æigi koma eftir ætladre stundu at taka uæitzslor af Athla jalli sinum j Sognne ok þui sende hann menn sina at neyta skyllde ueitzslunnar. ok a þessa lund for þriu sumur. Konungsmenn budu med ser sinum frændum ok vinum toku ueitzsluna med aukit hundrat manna þagu illa gerdu vid drykkiu marga ospekt. hit fiorda sumar er konungsmenn skylldu koma til ueitzslu rak hann þa j brott med vsęmd ok uillde æigi hafa þeirra ofsa. bat konung taka sealfan ueitzslu sina edr ueitzslu giolld. þessir menn fundu Haralld konung a uæitzslu nordr j þrandheimi a Hlödum ok sogdu honum illar sinar vidfarir. konungi likade

[1]) Suarfbyggia *Cd.* [2]) idiu *Cd.*

æigi vel. Hakon jall beiddizst lens af konungi at hann fai honum Sygnafylke med þeima hætti sem adr hafde Atli jall ok þat uæitir konungr honum. þat sama aar ferr Hakon gamle med her þrǫnda ok Haleyia sudr med lande. moti honum for Atli Sygna jall ok hittazst a Fiolum j Stafangri[1] leggia til orrostu ok beriazst. þar fell Hakon jall ok fátt manna. Atli jall vard sárr ok andadizst sidan þar sem hæitir Atlaey. Eftir þat attu missætti synir jalla ok flydu synir Atla jalls. en Sigurdr Hakonarson vingadizst vid Haralld konung ok gaf konungr honum jalls nafnn. Sidan æignnadizst Haralldr konungr lufa allan þrandheim ok allt megin landzsins sumt med villd þeirra er att hofdu sumt med vingiofum sumt med radum sumt med otta sumt med bardǫgum. ok fellu honum þeir aller lett sakir hraustleika sins ok kappa sinna ok þess hins þridea er monnum þotti sem Dofri yrde honum driugr j radum ok suo skæinuhættr j bardǫgum vvinum hans ok kiore miog menn or flokki ok var honum þat hægt þuiat hann sa ǫngir menn j bardaga vtan þeir er ofresker voru. dro hann ok hans riki sligt fram ok annat þuilikt ok þat umfram er mest var er var sa heidr ok hamingia er hann studdi suo at ongum gerde uit hann at keppa. sem raun bar aa at hann skyllde verda æinualldzkonungr yfir ollum Noregi sem æinge fyr ok yfir odrum þeim londum sem þagat luta til ok alldri ór hans ætt sidan gengit hafa. ok sa heidr er þo er yfirberiligr ollum ǫdrum at (af) hans ætt skulu komnir vera suo agætir menn ok nytsamligir Nordrlondum sem var Olafr konungr Trygguason sem fystr hellt retta tru allra Noregs konunga ok hinn hæilagi Olafr Haralldzson sem ollum er ædre ok agætare j sinum hæilagleik þeim er Noregi hafa styrt ok mest hǫfutgæfa hefir j vordit ollum almenninge a Nordrlǫndum at hann skyllde konungr vera sagdra landa.

## Bardagar Haralldz konungs.

462. Her eftir streingde Haralldr heit af nyiu at æigi skal hann lata skera har sitt fyr en hann fær toll af huerium uppdal sem vtnese ok allt þar j mille suo vida sem Noregr heitir austr til marka ok nordr til hafs. her af gerazst orrostur langa æfui. Nordr j Naumudal voru .ij. brædr konungar Herlaugr ok Hrollaugr. þeir hǫfdu verit at þriu sumur at gera æinn haug ok sa haugr var hladinn lime ok griote ok af vidum gerr. en er haugrinn uar algerr þa spurdu þeir brædr at Haralldr konungr ætlade a hendr þeim med her. þa (let) Hrollaugr konungr aka til haugsins vist mykla ok dryk. eftir þat gek Herllaugr

[1]) r. Stafanesvagi

konungr med .xij. mann j hauginn. sidan let hann uerpa aftr hauginn. Hrollaugr konungr gek upp a haug þann er konungar voru uanir at sitia aa ok let þar gera konungs hasæti ok settizst þar j. þa let hann leggia dynur a fotpallinn sem jallar voru uanir at sitia. þa uelltizst hann ór konungs sætinu ok j jarlls sętit ok gaf ser jalls nafnn. Eftir þat for hann j moth Haralldi konungi ok gaf honum allt riki sitt ok baud at georazst hans madr. segir konungi alla sina medferd. þa tok Haralldr konungr suerd ok festi a linda honum. þa festi hann skiolld a hals honum ok gerde hann jall sinn ok læidde hann j hasæti. þa gaf hann honum Naumdęla fylke at yfirsoknn ok settizst hann þar yfir. Eftir þat for Haralldr konungr aftr j þrandheim ok biozst at fara a Mære ok aflade ser þa langskipa. en Mærir ok Raumdęler hofdu safnnat firir ok foru j mote honum med morgum herskipum ok atti Haralldr konungr þa hina fystu orrostu a herskipum. þar fek Haralldr konungr sigr en Mærakonungr fell. Suo segir Hornnklofui.

Hriodr let hæstrar tidar
hardradr skipa bordum
baru flaks ens bleika
barnnúngr a lòg þrungit.
þar suo at bardz at borde
bord hrockuir rak nordan
hlifar ualldr firir hilldar
hregg dògglinga tueggia.

Ok enn quad þorbiornn hornnklofui.

Kemrat ydr ne ædri
annar konung(mann)a
giofle remdr und gamlan
gnapstol Haralldr sola(r).
hafde gramr þa er gnude
gæirs hregg uidar seggi
raud fystu ben blode
bengògl ara skoglar.

Ok enn quad hann.

þa er a rausnn firir ræse
red egghròdr leggia
æfr gall hiorr vid hlifar
hnigu fioruanir sigri.
ok ofnæfrir jofrar
ordalaust at morde
endizst raudra randa
rodd dynskottum kuodduzst.

Haralldr konungr æignadizst eftir þessa orrostu Nordmære ok Raumsdale. þa kom til hans Rognualldr jall son Eysteins glumro ok gerdizst hans madr ok var leinge sidan mikill vinr Haralldz konungs. Solui konungr Hundolfsson hafde komizst or þeirri orrostu ok þat lid er honum fylgde er hann atti vid Haralld konung[1]. kom a fund Arnnvidar konungs a Sunnmære ok efldnzst þeir þadan at lide ok kom til lids

[1]) konungs *Cd.*

vid þa Audbiornn konungr ór Fiordum ok foru þessir þrir konungar mote Haralldi konungi ok hittuzst þeir firir innan Solskel ok attu þar orrostu mykla. þar fell mart manna af lide Haralldz konungs. erv þessir nefnndir Asgautr ok Asbrandr jallar hans. Griotgardr ok Herlaugr synir Hakonar jalls. þar fell Arnnuidr konungr ok Audbiornn konungr en Solui klofui komzst undan a flotta ok var vikingr mikill ok gerde oftliga mikinn skada a riki Haralldz konungs. eftir þat lagde Haralldr konungr under sig Sunnmære. en Vemundr konungr kamban hellt Firdafylke ok gerdizst þar konungr yfir. þetta var sid um haustit ok gerdu menn þat rad med Haralldi konungi at hann skyllde æigi fara sudr vm Stad a haustdegi. þa setti Haralldr konungr Rognualld jall yfir Mære huoratueggiu ok Raumsdal ok hafde hann vm sig fiolmenni mikit. Haralldr konungr sneri þa nordr aftr til þrandheims. þann sama uetr for Rognualldr jall id efra vm Eid ok suo sudr j Fiordu ok hafde niosn af Uemunde konungi ok kuomu vm nott þar sem heit(i)r Naustdalr[1] ok var þar Vemundr konungr a ueitzslu. tok Rognualldr jall þar hus a þeim ok brende konunginn inne med .ix. tige manna. Eftir þat kom Berdlukare til Rognualldz jalls med langskip alskipat ok foru badir nordr a Mære. tok Rognualldr skip þau er att hafde Uemundr konungr ok allt þat lausafe er hann fek. Berdlukare for nordr j þrandheim a fund Haralldz konungs hann var besserkr mikill ok gerdizst hans madr. Um uorit eftir for Haralldr konungr sudr med lande med skipaher ok lagde undir sig Fiordu ok Fialer ok þa for hann inn j Sognn ok skipade allt rikit. for vm haustit aftr til þrandheims ok hafde oftazst sigr huar sem hann atti orrostur.

## Enn bardagi Haralldz konungs vid Eirek.

463. Hina efzstu ok hina mestu orrostu atti Haralldr konungr vid þa konunga Eirek Horda[2] konung ok Slokkua jall af Rogalande ok Sota brodur hans. en j þa kuomu austan af Ogdum Kiotui konungr hinn audge ok þorir haklangr ok mart stormenni austan ór londum kom her til þessar orrosto. Hordar ok Rygir komu her til þessarar orrostu. sottu þeir sudr mot Egdum. en Haralldr konungr for eftir þeim ok la þar sem hæitir Hafrsfiordr firir nordan Jadar. þar lagu konungar þesser .iij. ok margir jarllar ok adrir rikismenn. Mikill skipaherr uar þar kominn ok logdu konungar til orrostu vid Haralld konung. Suo segir þiodulfr.

[1]) Raumsdalr *Cd.* [2]) Hofda *Cd.*

Heyrde j Hafrsfirde
hue hraustliga bardizst
konungr hinn kynstore
vid Kiotua hinn audlagda.
knerrir kuomu austan
kaps vm lystir
med ginandum hofdum
ok grofnnum tinglum.

Ok enn quad hann.

Hladnir voru þeir holda
huitum skiolldum
vigr uestrænne
ok uolskum suerdum.
greniudu besserkir
gudr er þeim hlifde
eniudu ulfhednar
isarnn bitu.

Ok enn quad hann.

Freistudu hins framrada
er þeim flyia kende
alualldz Austmanna
er byrr at Vtsteini.
stodu nokkuar steindir
er stiller atti enn styriar nenni
hlommun uar a hlifum
adr Haklangr felle.

Ok enn quad hann.

Leiddizst þa firir Lufu
lande at hallda
hilmi hinum halsdigra
holm letu ser at skillde.
sloguzst sess vm þiliur
er sarir voru
letu upp stiolu standa
stungu j kiol hôfdum.

Ok enn quad hann.

A bake letu blika
bardir voru griote
suafnis salnæfrar
segger hyggiande.
æstuzst austr
um Jadar bygder
hlupu heim ór Hafrsfirde
ok hugdu a mioddrykkiu.

Eftir þat flyde Kiotui konungr ok allr herr hans ok komzst konungr inn j holm nokkurnn þann er æigi matte na[1] honum en lid hans flyde sumt a herskipum en sumt a land upp. Suo segir þorbiornn hornnklofui.

Leiddizst þa firir Lufu
leingr at halldazst
hessa drott
ok hofdingium.
flyde huerr
sem fara matte
hraustra uikinga
ór Hafrsfirde.

þa uirde Haralldr konungr [302] suo mikils vid þa menn huort þeir hôfdu verit med honum edr æigi at hann gęddi þa fe ok virdingu er

[1]) gna *Cd.*

med honum hofdu verit ok launade huerium efter sinum burd sem vert uar er (hann) fek Noregs konungs riki enn drap þa er j mote honum voru edr rak ór lande edr lægde þa annan ueg. Eftir þessa orrostu lagde Haralldr konungr undir sig Hordaland ok Rogaland ok Egdafylke. ok þa uar hann æinualldzkonungr yfir Noregs uellde ǫllu. hereftir ruddiz landit ok sidadizst. Haralldr konungr skattade landit hit efra sem hit ytra. Nu er Haralldr konungr uordinn frageorda madr vm afl ok uoxst. hans har var nu sitt ok flokit firir þa sok uar hann kalladr lufa. þa skar Rǫgnualldr jall af Mære hár hans ok gaf honum nafnn ok kallade hann Haralld hinn hárfagra. þa uar hann mæirr en .xx. Af hans ætt eru komnir aller Noregs konungar. hann red ok riki j Noregi allt til daudadags suo at vm hans daga bar æinge konungs nafnn j Noregi utan hann æinn. J Hafrsfirde fell Juarr son Rognualldz jalls af Mære. en j bætr þess gaf Haralldr konungr Rognualldi jalli eyiar þær er liggia firir uestan haf ok Orkneyiar heita ok Hiatland. en hann gaf bæde londin Sigurde brodur sinum.

## Fra Haralldi konungi.

464. Haralldr konungr hinn harfagri atti Asu dottur Hakonar Hladajalls Griotgardzsonar. þeirra synir voru Halfdan suarti (ok) Halfdan huiti ok voru tuiburar. hinn þride het Sigurdr. Adra konu atti Haralldr er het Suanhilldr dottir jalls af Heidmork Eysteins sæfara. þeirra synir voru þeir Olafr Gæirstada alfr Beornn kaupmadr Tryggue Frode ok þorgils. þat segia menn at Haralldr konungr ætti .x. konur j senn ok .xx. frillur. þa spurde hann til einnar meyiar sudr a Jotlande er het Ragnhilldr rika dottir Eireks konungs. hon var allra kuenna uenst ok vitrozst. þangat sende Haralldr konungr sina menn at bidea hennar ser til handa. en er sendemenn baru upp sin eyrende let konungr kalla dottur sina ok bar firir hana þetta mal en hon suarar suo. at æinge konungr væri suo rikr j veraulldu at hon uillde þui kaupa at æignazst hinn þritǫganda hlut astar hans moti meydomi sinum ok segir at hon mun eigi giptazst at sinne. En er konungsdottir hafde suo storliga mællt toku będe konur ok kallar at spotta sendimenn ok suo konung þeirra ok sogdu at konungr af Jotlande munde allitt hrædazst her Noregs konungs ok segia at hann hafui staddr verit litt j mannraunum þo at hann hefde farit nokkur jnnanlandz at heria a kotkalla ok sogdu at hinir dǫnsku hrafnar ok ernir mundu enn suangir ok solltnir ef þess skyllde bida at Haralldr Noregs konungr berdizst. þess getr þiodulfr hinn huinuerski.

Annat skuln þær eiga
ambattir Ragnhilldar
diser dramblatar
at drykkiumalum.

en þer set hergopur
er Haralldr hafi suelltar
ualdreyrar
en uerar þeirra brǫde.

Æirekr konungr med rade dottur sinnar sende honum ord at hann munde gifta honum meyna ef hann leti af æiginkonum sinum ok fridlum. fara sendemenn aftr vid suo bvit. þa sendir konungr heim allar konur sinar til frænda þeirra. en eftir þat sende Haralldr konungr sudr til Danmerkr eftir Ragnhilldi ok var hon þa send honum. gerde hann sidan brudhlaup til hennar ok var hon hinn meste skorungr. Suo sagde þiodulfr.

Hafnnade hann Holmrygium
ok Horda meyium
huerre hinni Huinuersku
ok holda ættar
konungr hinn kynstore
er tok konuna dǫnsku.

Hennar son var Æirekr blodex. Ragnhilldr lifde .iij. vetr j Noregi adr en hon vard sottdaud. Eftir þetta atti hann Ashillde dottur Hrings Dagssonar ofan af Hringariki. þeirra synir voru þeir Hringr Dagr Ragnnarr rykkell ok .ij. dǫtr þorgerdr ok Olof arbot. J elli sinne gat hann son vid ambatt einne er het þora mostrstaung. sa sueinn het Hakon. þa er synir Haralldz konungs heimtuz fram at alldri þa beiddu þeir af fodur sinum at hann gæfui þeim riki nokkut. Hann gaf Gudrǫde[1] yfirsoknn þar sem kallat er Raumariki at ueria land firir uikingum Donum ok Gautum. hann drap Solui klofui austr j Brenneyium med skipshofnn sina. Halfdan suarta[2] ok Halfdan huita gaf hann .ij. langskip alskiput ok foru þeir at heria. Halfdan huite fell a Eislande. Gudrǫdr uar at fostri med þiodulfui hinum huinuerska. Hrærekr var jafnan (innan) hirdar. Olafr Geirstada alfr hafde yfirsokn a Uestfolld ok voru iafnan badir samt ok Biornn. hann red firir Grenlande. þorgilse ok Froda gaf Haralldr konungr herskip [303] ok foru þeir j uestruiking ok heriudu vida. En sa er hann girnnizst at vita huiligt riki Haralldr konungr harfagri gaf sonum sinum ok skipte þeirra Adalsteins Eingla konungs ok Haralldz konungs ok enn nokkura sǫgu af Æireki blodex ok hans kuǫningu hernade ok framauerkum ok sǫgu af Hakoni Adalstæins fostra ok enn af fleirum sonum Haralldz konungs leiti hann j ǫnduerdre sǫgu Olafs konungs Trygguasonar.

[1]) *r.* Guthormi [2]) suarte *Cd.*

---

## ÞAATTR HAUKS HABROKAR.

Beornn at Hauge var (konungr) j Suiþiod þa er Haralldr tok konungdom at Noregi. Eptir þat var konungr j Suiþiod .xl. vetra edr læingr Aunundr. þa Æirekr son hans. hann atti Jngigerde dottur Haralldz harfagra. henni blotudu Suiar ok fluttu hana j ey nokkura en Halfdan suarti broder hennar flutti hana brott med ser. Efter þat uar læinge vsætt mille Haralldz konungs ok Æireks Suiakonungs. Eitt sumar uar þat er Haralldr konungr kallar til sin hinn kærazsta mann sinn Hauk habrok ok segir. nu er ek frelstr af ollum herskap ok ofride her innanlandz munu ver nu sitea j hoglifui ok skemtan. uilium ver nu senda ydr j Austrriki a þessu sumre at kaupa mer nokkura agæta gripe ok fasena j uorum londum. Haukr bidr konung rada þessu sem odru. ok þa leyfde konungr monnum brottferdir fra ser til ymisra landa ok hann hafde adr med ser haft. Haukr ferr nu med einu skipe ok godre fylgd ok kemr austr j Holmgard um haustit ok hafde þar vetrsetu ok kemr hann þar er markadr er settr. þar var komit mikit folk ór morgum londum. þar voru komnir kappar Æireks konungs af Uppsolum Beornn blasida ok Salgardr serkr. þeir voru oiafnnadarmenn ok gengu þar yfir alla menn. þat var æinn dag at Haukr gek um bæinn vid suæit sina ok uillde kaupa nokkura dyra gripe sinum herra Haralldi konungi. þa kom hann at þar sem firir sath æinn girzskr madr. Haukr ser þar æina dyrliga skikkiu su var oll vid gull buin. þessa skikkiu kaupir Haukr ok reidir þa firir festarpening ok gengr j brott ok eftir fenu. ok adr um daginn hafde Beornn falat þessa skikkiu til handa Suiakonungi ok var af metin. ok er Haukr var vt genginn þa kemr sueinn Bearnar ok segir kaupmanninum at æigi mun hlyda ef Beorn skal æigi hafa skikkiuna. en kaupmadrinn quad suo buit standa mundu. Nu gengr sueinninn j brott ok segir Birni. ok j þat mund kemr Haukr med skikkiu verdit ok gelldr upp en tekr vid skickiunne ok gengr vt. ok þa kemr Beorn j mote ok Salgardr ok spyria hui hann hafui skikkiu þa er þeir hafua keyft. en Haukr sagde at hann hefir keyft ok hann mun hafua. Beorn sagde at Æirekr konungr ætti fyst at hafa gessimar er yfirkonungr er j Nordrlondum ok honum somir. Haukr suarar. ouanr var Haralldr konungr at lata sitt firir Suiakonungi. Hann sende suein æinn heim med skickiuna. en þar slær j afbod med þeim ok segir Salgardr at hann vill at þeir berizst vm huor hafa skal skickiuna ok suo um þat huors þeirra konungr fremre skal heita. Haukr segir at vel megi þeir beriazst um skickiu kaupit. en ekki uil

ek segir hann leggia virding konungs mins undir uopnn min. þa gek æinn madr at Hauki þykkr ok lagr. hann spurde hann at nafni en hann kuetzst Bui heita. ok er her æitt suerd at ek vil gefa þer ef þu ætlar at beriazst vid þa Beorn ok Salgard ok er æigi ðrugnt at bite. Haukr tok vid ok læit a ok mællti. haf þu þðk firir en eigi uil ek þiggia þuiat ek hefir nóg uopnn þau er þa munu bita ef hugr ok hreysti dugir en ek mun kalla þig Bua bitrligt suerd. Bui suarar. æigi munde Haralldr konungr næita ef ek byda honum ok dregr til þess er vera vill ok munu þer finnazst verda oftar. snyrr j brottu sidan. Nu slærr j bardaga med þeim ok uard Haukr uinsælle ok fek mæira lid. fellu þar nokkurir menn en margir sarir. Haukr hafde sigr en landzlydrinn gek j mille ok skilde þa. Nu likar þeim Suium illa ok fara heim vid suo buit. Spurdizst þetta til Noregs ok suo huersu Salgardr hafde firir skilit ok vard Haralldr konungr miog reidr. Haukr kemr nu heim ok hittir konung ok var Haralldr helldr vfrynn ok spurde. er þat satt Haukr at þu hafir lagit virding mina undir uopnn þin. Æigi er þat herra. segir Haukr þa alla sðgu sem farit hafde. Likar Haralldi konungi þa uel ok mællti. miog mundir þu habrokazst þa Haukr er þu sigradir kappa Eireks konungs. Satt uar þat quad Haukr. en aungu minnr a Æinglande þa er ek knesetta Adalstæini Æinglakonungi Hakon son þinn. þa brosti konungr. Sidan var Haukr habrok kalladr. Suo segia menn at æigi hafui komit meire gessimi j skickiu til Noregs. þeir Beorn ok Salgardr koma a fund Æireks konungs ok segia honum [334] huersu mikla vuirding Haukr hafde honum gert ok suo at Haralldr konungr þottizst j onguann stad minne konungr. Æireki konungi hugnar illa ok gerdizst af þessu missætti þeirra Haralldz konungs.

Vighardr kom til Haralldz konungs ok Hauks habrokar.

466. Sva bar at æinn uetr at Æirekr konungr hafde bua latit iolaúæitzslu ok hann var kominn j hasæti ok skipat var hirdinne. en menn stodu vti a uerde ok sa at madr uar a skidum. hann bar at fliotliga ok stæig af skidunum. sia var mikill madr j vargskinnz ulpu. honum var vel fagnnat. ferr hann af olpunne ok var j skallatz kyrtli raudum ok hafde healm a hðfde ok uar gyrdr suerde ok allra manna vænstr. hann hafde hár mikit ok fagurt ok allra manna var hann mestr ok sterkligazstr. hann gengr firir konung ok kuadde hann. hann fagnnade honum ok leitzst tiguligr madrinn. hann spyrr hann at nafnni ætt ok kynferde. hann nefnndizst Vighardr ok sagdizst ættadr af Halogalande. en mitt eyrende er þat ef þer uilit vid mer taka med þeim hætti

sem adr eru þeir Biornn ok Salgardr. Konungr suarar. uist ertu fridr madr en ualla ma ek þig meta suo mikils ureyndan sem þa er j marga hættu hafa sig lagda firir mig ok hinir agætazstu kappar eru. þa mællti Vigardr. sitit heiler herra. gengr vt sidan ok tekr bunat sinn stigr a skid sin. þa uæitte Haralldr konungr jolauæitzslu nordr j Gudbranzdǿlum ok annan dag uar þat at konungs menn voru vti staddir ok hofdu læik en konungr sat hia leiknum en bærrinn stod nær fealli. þa mællti konungr. huat er nu at sia j fiallit sem huirfiluindr se edr mun madr renna a skidum. En miollin uar laus ok rauk hon[1] en huorke uex uindrinn ne þuerr. ok þui saa þeir at madr munde uera ok þo uar fárra manna þar ofan at renna. þenna bar bratt at ok kemr hann at leiknum ok gengr firir Haralld konung ok kuadde hann. Konungr tok uel kuediu hans ok sa at hann munde vera storra manna. hann segir sitt eyrendi at bioda honum þionustu sina ef hann tæki hann til lags vid kappa sina. Konungr suarar. fylgia jþrottir þinar yfirlitum þa væri mikil sæmd at þer. Konungr kallar Hauk til sin ok spyrr ef hann uill þenna mann taka til lags vid sig ok felagsskapar. hann iatar konungs vilia. þeir voru iafnnmykler menn. Nu er hann tekinn til lags vid kappa konungs.

## Haralldr sendi Hauk ok Vighard.

467. Eitt sumar segir Haralldr konungr at hann uill senda Hauk nordr til Biarmalandz at heimta harvoru. ok er Uigardr ueit þat segir hann at hann uill fara. konungr suarar at ei uill hann firir muna honum þeirrar sæmdar. lętr nu bua sitt skip huorum þeirra ok er þeir eru bunir gerir konungr þeim snæding ok segir at hann sender nu þa menn fra ser at honum þikir mæira at missa en margra annarra. en likligt þiki mer at Eirekr konungr fretti vm ferd ykkra ok mun nu uilea minnazst uid ykkr er þu tokt Haukr skikkiuna vt j Holmgarde. væit ek bloth Æireks konungs at hann mun frammi hafa þeim til lidsinnis. en ek sende ykkr til fostru minnar er Hæidr hæitir ok byrr nordr vid Ganduik. hafit rad hennar. ek sendir henni gullhring er uegr .xij. aura ok .ij. uillegalltar flikke gǿmul ok .ij. tunnur smiǿr. Nu fara þeir brott med godu lide ok uopnum. Æirekr konungr serr fǿr þeirra ok segir Birni ok Salgarde at hann uill at þeir fari nordr til Surtzdala ok Biarmalandz. ok at sumre lætr Æirekr konungr uæitzslu bua at Uppsolum. sidan lętr hann aka .ij. uognum til stadarins þar sem hann blotade þat god er Lytir het. var sa sidr at uagnninn skyllde standa

[1]) honum *Cd.*

um nott ok kom hann til vm morgininn. en nu kom Lytir æigi at uanda sinum ok er þetta sagt konungi at Lytir er nu ofus at fara. stod uagnn suo .ij. nætr at hann kom æigi. þa tok konungr at fremia myklu meire blot en fyrr ok hinn þridea morgininn uerda þeir uarir vid at Lytir er kominn. er þa suo hofugr uagninn at eykirnir springa adr þeir koma med hann til hallarinnar. var sidan uagnninn settr a mitt hallargolf ok gek konungr þa at med horni ok fagnnade Lyti ok segir at hann uill drekka full til hans ok þikir nu myklu male skifta at hann radizst j ferdina ok kuetzst honum sem fyrr uæita mundu myklar giafir. Lytir suarar. kuetzst ofus gerazst þeirrar ferdar. segir at hann kom eitt sinn nordr þangat. ok hitta ek þar firir suo mikit troll at sliku hefir ek æigi fyrr mætt en gamallt uar þa. ok æigi munda ek þar koma ef ek uissa at þat lifde [305] ok uæntir mik at nu mune dautt vera. Konungr segir at suo mun vera. Lytir quad konung gods verdan fra ser ok kuetzst fara mundu. Eru þeim nu buin tuð skip Birni ok Salgardi. ok er þeir lata ór Leginum ferr þar firir dreke ok suort tiolld yfir. ðngan mann sea þeir a ræipum hallda. hann sigler huadan sem a er. sidan sigla þeir nordr firir landit.

### Bardagi þeirra Hauks vid Biorn ok Salgard.

468. Nu er at segia fra Hauke ok Vigharde at þeir koma nordr til Ganduikr ok ganga til bæiar Heidar fostru Haralldz konungs .vj. menn af huoru skipe. hon sat uit elld ok geispade miog. hon uar j skinnkyrtli ok toku ermar at olboga. Haukr bar henni kuediu Haralldz konungs. Hon segir. god þiki mer kuedia Haralldz konungs ok segir at hon (uill) fara til skips med þeim. hon bidr þa aftr huerfa ok segir illa munu verda ferdina. Haukr tok æigi meirr en undir hond henni ok uar hann manna mestr. hann sellde henni fyst hringinn. þa mællti hon. gefi heill Haralldr konungr. ok dro a hond ser. Ok her eru enn flikki .ij. er hann sendi þer. þetta er alluel sent segir hon. þa færr hann henni smiortunnurnar. þa mællti hon. vlikr er Haralldr konungr odrum monnum. þetta eru godar gessimar ok æigi hefui ek slikar þegit. ok ef þetta verdr honum æigi launat þa mun ekki uerda launat honum. Hon tok undir sina hond huora tunnu en kastade flikiunum a bak ser ok segir at henni þikir mæira verd þessi giof en hinar badar. ok uisse fostri minn huat mer þotti bezst. hafit nu rad min ok farit med mer. Ok suo gera þeir. hon gerir nu elld ok setzst odrum megin. þeim synndizst hon helldr munnliot þuiat onnur uðrrin tok nidr a bringuna en onnur breiddizst upp a nefit. hon ferde Hauk or klædunum ok

þreifade um hann ok mællti. þu ert þrekligr ok hamingiusamligr. hon bad hann kyssa sig ok suo gerde hann. þa bidr hon Uighard fara af klædum. hann uar leinge firir. Haukr bidr hann til ok þat verdr. Hon mællti. mikill madr ok lidligr ok furdu sterkr. hon bidr hann kyssa sig. hann bidr oll troll kyssa hana. Hon suarar. meirr mun þer gefit uęnlæikr. ok segir honum munu mæira mein at uerda en ser. Hon selr Hauke myla tuo. ok ef þeir Beorn ok Salgardr leggia at skipum ykkrum þa fleyg firir bord a skipe þinu. þeir sigla nu nordr til Biarmalandz ok æitt kuelld sia þeir renna skip undan eyiu fram ok ætla nu mennina at hitta ok spyria tidenda huorir adra. kenner Haukr nu at þetta erv þeir Biorn ok Salgardr. verdr faatt vm kuediur þeirra vtan þeir leggia skip saman ok beriazst. nu sia þeir at dreki liggr undir eyiunne ok fliuga ǒruar af ok uard madr firir huerre. ekki komu Hauki j hug mylarner kellingar. Nu falla menn allt med bordunum a huorumtueggium skipunum. þeir ganga nu a annat skip sitt badir Haukr ok Uighardr þuiat hrodit var Uighards skip. hann geingr þa j framstafnn ok hleypr a skip þeirra Bearnar ok Salgardz ok þeir Haukr bader ok komazst framan at siglu. koma þeir Beorn þar j mote ok Salgardr ok slær þar med þeim j bardaga. lettir æigi fyrr en aller eru sarir þeir er upp standa. gengr Beorn ór lyptingunne at Hauki. nu beriazst þeir fiorir. lykr suo at Beorn fellr. Uighardr sæker þa at Salgarde ok er minzst var uon kemr ǒr af drekanum ok j briost a Uigharde ok fellr hann daudr nidr. Hauki koma þa j hug mylarnir ok kastar þeim firir bord med reide. ok kemr nidr hea drekanum ok lystr þar upp loga stafnna a millum. Haukr drepr þa Salgard en hann miste auga sitt. ekki uar þa ok fært til lids hans manna. berr hann þa uopnn sin a bát æinn ok klęde sin ok lettir æigi fyrr en hann kemr aftr til Hæidar kellingar ok segir henni tidenden. hon lætr uel yfir at hann er aftr kominn. grædir hon hann ok fara þau ok fylgir hon honum þar til er kaupmenn eru. kemr honum þar j skip med þeim monnum er fara ætludu sudr med lande. huerfr hon þar aftr. en hann lettir æigi sinne ferd fyr en hann finnr Haralld konung ok segir honum alla sǒgu. konungr let uel yfir at hann uar aftr kominn. En fra Lyti er þat at segia at hann kom aftr ok fann Æirek konung ok sagdizst honum alldri mega at lide verda þadan af saker orkumbla þeirra er hann kuetzst feingit hafa af hinu mykla trolli j Noregi.

### Fra yfirlitum Haralldz konungs ok vexti.

469. Eirekr uar konungr yfir Suiþiod .xl. ok .vij. uetr. Haralldr konungr var allra manna fridazstr synum ok tiguligazstr. hann hafde hár suo fagurt sem silke edr barit gull ok lidadizst j storum lokkum ok uar suo sitt at hann matte drepa under bellti sitt. hann var ok allra manna sterkazstr [306] ok mestr suo sem enn ma sia będ hans j Haugasunde[1]. þar liggr hella su firir uestan kirkiuna er uar yfir legi hans ok er hon halfs fiortanda fotar lǫng. standa þar ok (j) kirkiugardinum .ij. stæinar er annarr stod at hofdum en annarr at fotum. þar la hellan j mille steinanna yfir legi konungs er haugrinn uar brotinn ok mun steinninn uera suo þykkr er inn hefuir uitat j legit at taka mun manni j mitt lær. Ok þa er þessi myklu tidende uoru ordin er Haralldr konungr bæid bana þa hafde hann attatige uetra ok .iij. uetr. hann uard sottdaudr a Rogalande ok er heygdr a Haugum uit Karmssund. uar Haralldr konungr af huerium manni miog harmadr ok tǫludu aller æitt um at hans like munde æigi verit hafua at uitzsku ok allri atgerui ǫrleik ok yfirlæti er hann uæitte sinum monnum. gat hann ok uarazst alla fiolkynge ok fornneskiu sidan hann gat skilit blecking Suasa duergs þess er til hans kom æinn iola aftan ok snere hug hans til æinnar finzskrar konu er Sniofridr het med suo hæitri ast at hann gek at æiga hana ok unne henni yfir allt fram þuiat honum syndizst hon huerri konu uænni saker atkuæda Suasa. atte hann sonu vid henni sem fyrr segir. ok at endǫdum þeirra ǫrlǫgum andadizst Sniofridr ok uar breidd yfir hana bleian Suasanautr er suo mikill galldr uar j folginn at[2] Haralldi konungi læitzst hennar likame suo biartr ok inniligr at hann uillde hana æigi iarda lata ok sat sealfr yfir henni .iij. uetr ok gade æinkis sins geds firir ofrast uid hana andada. kuat Haralldr konungr þa um hana drapu er sidan er kollut Sniofridar drapa ok er þetta upphaf at.

Hneggi ber ek æ ugg
otta hlyde mer drott
dana uek ek dular mey
drauga a kerlaug.

drapu let ek ór dualins græip
dynia medan fram hrynr
rekkum byd ek regins dryk
rettan a bragar stett.

Sidan lagde til æinn uitr madr er var med Haralldi konungi ok Egill ullserkr het at af skyllde taka bleiuna likinu. ok suo var giort. uar þa likaminn rotinn eftir likendum ok illa þefadr ok sidan greftradr at fornnum sid. Eftir þetta vard Haralldr konungr suo ræidur golldrum

[1]) H'ngasunde *Cd.* [2]) hann *tilf. Cd.*

ok gerningum ok allre forneskiu at hann let onguann mann þann þrifazst j sinu riki suo at æigi veri annathuart drepinn edr landflotta. Sidan var þetta kuedit.

Ekki var þat fordum faralld
Finnan gat þa ærdan Haralld
honum syndizst solbiort su
sligs dǫmi verdr morgu(m) nu.

**Lykr sua her fra Haralldi konungi.**

## Konungatal j Noregi.

470. Halfdan suarti uar konungr yfir nokkurum fylkium j Noregi tuo uetr ok .xx. Eftir hann tok konungdom Haralldr hinn harfagri son hans ok var konungr þria uetr hins atta tigar. Eftir hann uar Eirekr blodex konungr æinn uetr yfir ollum Noregi. hann drap Biornn konung kaupmann brodur sinn. Eftir hann tok konungdom Hakon Adalstæinsfostri hann uar konungr .vi. uetr ok .xx. hann var kristinn. þa var god olld er hans riki stod yfir sakir árs ok margra hluta annarra. hann var mikill konungr ok merkiligr sakir allrar atgerui er hann bar yfir huernn mann ser samtida. Eftir hann tok riki Haralldr grafelldr med brædrum sinum ok ried lande .xij. uetr. vm hans daga var hallære mikit bede a sio ok lande. þa var sulltr mikill ok suæla vm allt land. hann drap Gudrǫd konung Bearnnarson kaupmannz. þa tok riki nęstr eftir hann Hakon jall Sigurdarson ok red lande .xx. uetr sidan Haralldr grafelldr fell. en adr hafde hann verit .xiij. uetr jall j þrandheimi. Eftir hann tok konungdom ok riki yfir ollum Noregi hinn hæidarligsti hofdinge Olafr konungr Trygguason ok rikti .v. uetr. uar þa god olld sem uon uar. hann bodade fystr retta tru allra Noregs konunga. Eftir hann tok riki Æirekr jall Hakonarson ok Sueinn brodir hans. red Æirekr jall .xij. uetr lande. en Sueinn brodir hans .iij. uetrum læingr. red þa Hakon jall Æireksson halfum Noreg iafnnframmi Sueini þessa .iij. uetr. Eftir Suein ok Hakon tok riki hinn hæilage Olafr Haralldzson sem sidarr mun sagt verda.

---

## RETTELSER.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Side | 9 a | Linie 13 | Grams | læs | Gramr |
| - | 11 b | - 9 | gæddiz | - | fæddiz |
| - | 25 | - 36 | faudnr | - | faudur |
| | - | - 39 | Aaslaugur | - | Aaslaugar |
| - | 26 | - 17 | Aslaugur | - | Aslaugar |
| - | 45 | Note 2) | endimenn | - | sendimenn |
| - | 67 | Linie 18 | firir sunnan | - | firir utan |
| - | 89 | - 37 | stille. gat | - | stille gat |
| - | 96 | - 34 | Gorms | - | Gormr |
| - | 161 | - 25 | komasst | - | komazst |
| - | 182 | - 26 | mun fa þar | - | mun fa þer |
| - | - | - 28 | þar er þu | - | þa er þu |
| - | 210 | - 22 | orlof of ydr | - | orlof af ydr |
| - | 361 | - 22 | dugir þeim vel | - | dugir þat vel |
| - | 387 | - 20 | huersdagsliga | - | huersdagliga |
| - | 388 | - 14 | suiuirdu | - | uerr uirdu |
| - | 479 | Note 1) | [siga seglit | - | [latit siga seglit |
| - | 496 | Linie 37 | falli þyngzsl | - | falli þyngzst |

